# SAFN

TIL

## SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENNTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT
AF
**HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFÉLAGI**

SJÖTTA BINDI

REYKJAVÍK
PRENTSMIÐJAN GUTENBERG
1929—1939



# Yfirlit efnisins.

# VÍNLANDSFERÐIRNAR

NOKKRAR ATHUGASEMDIR OG SKÝRINGAR

EPTIR.

MATTHÍAS ÞÓRÐARSON

MEÐ FIMM UPPDRÁTTUM

(SAFN TIL SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA VI. NR. 1)



REYKJAVÍK
PRENTSMIÐJAN GUTENBERG
1929



## Efnisyfirlit.

## Uppdrættir.

# Vínlandsferðirnar.

Eptir *Matthías Þórðarson.*

---

Sumarið 1000 gerðust svo markverðir atburðir með norrænum þjóðum, að það var sem forsjónin vildi gera þeim þau tímamót eptirminnileg um ókomnar aldir.

Það var snemma sumars, að þeir kvöddust hinzta sinni í Niðarósi, Ólafur konungur Tryggvason og gestir hans þrír: íslenzku höfðingjarnir, Gissur hinn hvíti Teitsson og Hjalti Skeggjason, og Leifur Eiríksson frá Grænlandi, sonur þjóðhöfðingjans þar, Eiríks hins rauða, Þorvaldssonar; var Leifur og Íslendingur, en hafði dvalið síðari hluta ævi sinnar með föður sínum á Grænlandi. Þeir Gissur og Hjalti höfðu bundizt fyrir, að kristin trú gengist við á Íslandi og Leifi fal konungur að boða trú á Grænlandi.

Gestirnir ljetu í haf út, en Ólafur konungur hjelt nokkru síðar suður til Vindlands og sá ekki Noreg framar. Einn hinn eptirminnilegasti atburður í sögu hinna þriggja meiri norrænu þjóðanna átti sjer stað, er þeir börðust við Svoldur, konungar þeirra allir, og Ólafur Tryggvason ljet líf sitt. — Og sögulegir urðu þeir atburðir einnig, er komu fyrir hina íslenzku vini hans og hinn unga höfðingja frá Grænlandi: Þeir Gissur og Hjalti höfðu eptir fáar vikur komið þeim lögum á með þjóð vorri, sem merkust hafa verið sett hjer og hún hefur búið við alt til þessa dags; en Leifur Eiríksson hafði áður en sumarið var á enda fundið nýja heimsálfu, þar sem líkneski hans gnæfir nú við himin.

Hjer skal nú gerð nokkur grein fyrir frásögnunum um þennan síðasta atburð og um þá aðra, er af honum leiddu. Þær voru skráðar fyrir rjettum 6 öldum af Hauki lögmanni Erlendssyni eða fyrir hann í ritsafn hans, sem er til enn og kallast Hauksbók. Eitt af ritunum í henni er Eiríks saga rauða, föður Leifs, og í þeirri sögu eru þessar frásagnir greinilegastar og sannast sagðar. Sagan er í þeim hluta Hauksbókar, sem er handritið nr. 544 í 4 bl. br. í handritasafni Árna prófessors Magnússonar í Kaupmannahöfn. En hún finnst einnig í öðru skinnhandriti í sama safni, nr. 557 í 4 bl. br. Er það handrit að minnsta kosti heilli öld yngra og óvíst hver gert hefur. Árni fjekk það frá meistara Jóni byskupi Vídalín og mun það lengi hafa verið eign Skálholtskirkju. Ekki er sagan alveg eins í báðum handritunum. Af hinu síðar-nefnda má sjá, að Haukur lögmaður hefur aukið við smáköflum í uppskript sína, en af henni má aptur sjá, að orðalagi sögunnar, svo sem það er í Skálholts-bók, hefur verið vikið við svo mjög, að fæstar setningar eru eins í báðum handritunum. Verður það ljóst við samanburð, að sagan er frumlegri og betur sögð svo sem hún er í bók Hauks, og svo hefur dr. Finnur prófessor Jónsson litið á.[1])

Sagan hefur sennilega verið samin all-löngu áður en Haukur lögmaður gerði bók sína. Af því að Brandur byskup Sæmundarson á Hólum er í lok sögunnar nefndur hinn fyrri, er svo að sjá, að sagan sje rituð eptir að Brandur byskup hinn síðari, Jónsson, hafði setið að stóli, 1263—64. En hjer kann að vera um síðari viðauka að ræða, eins og Finnur Jónsson hefur bent á. Hann álítur, að sagan hafi verið skráð í fyrstu um 1200 eða á fyrsta fjórðungi 13. aldar, en aukin og breytt nokkru síðar, á síðasta fjórðungi aldarinnar.[2]) Dr. Gustav prófessor Storm, sem gert hefur beztu út-

---

1) Sjá inng. að útg. hans að Hauksbók, bls. LXXXIII—IV, og Litt. hist. II., 646—47.

2) Litt. hist. II., 647—48.

gáfu sögunnar[1]) og ritað hafði skömmu áður ágæta ritgjörð um alt þetta mál,[2]) álítur að sagan sje samin á Snæfellsnesi. Víst hefir höfundurinn verið kunnugur þar og ekki þætti mjer ólíklega til getið, að sagan muni að sumu leyti runnin undan rifjum þeirra Staðarmanna, í fyrstu Ara prests hins fróða Þorgilssonar og síðar að nokkru leyti Sturlu lögmanns Þórðarsonar. En í klaustrinu að Helgafelli voru einnig þeir menn, sem vel er trúandi til að hafa ritað sögur á 1. fjórðungi 13. aldar, svo sem þeir ábótarnir þar, t. d. Ketill Hermundarson og Hallur Gissurarson. — Af sögunni sjálfri má sjá eða ætla, að flest í henni sje eptir sögusögn þeirra Guðríðar og Þorfinns sjálfra; mun það rjett, sem stendur í niðurlagi Grænlendingaþáttar: »Hefir Karlsefni gerst sagt allra manna atburði um farar þessar allar«. — Þó munu frásagnir Þorfinns Karlsefnis ekki rjettast hermdar í því riti, og skal nú vikið nokkuð að því.

Þess verður þá að geta, að miklar frásagnir, líks efnis og í Eiríks sögu rauða, eru ofnar inn í Ólafs sögu Tryggvasonar, einkum þá sem rituð hefur verið af Jóni presti Þórðarsyni um 1387 í hina alkunnu Flateyjarbók.[3]) Þessi innskot í söguna, sem mynda heild fyrir sig, eru á tveim stöðum og nefnast þar Þáttur Eiríks rauða og Grænlendingaþáttur.[4]) Svo virðist sem þeir stafi að mörgu leyti frá hinni upprunalegu Eiríks-sögu, skráðri eða öllu heldur óskráðri; en berlegt er, að sagnirnar hafa færst mjög úr lagi, orðið auknar og ýktar, og það á harla ósennilegan hátt. Er helzt ekki einu orði trúandi í þáttunum, komi það í mótsögn við söguna, en vert er þó, að hafa nokkra hliðsjón af þeim.

---

1) Eiríks saga rauða og Flatøbogens Grænlendingaþáttr m. m., Kh. 1891; útg. af Samf. til Udgiv. af gl. nord. Litteratur.

2) Í Aarb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1887, 293—372.

3) Sbr. útgáfuna, Christiania 1860, I, 429—32 og 539—49.

4) Sennilega hafa þeir áður myndað eina heild, eins og Gustav Storm o. fl. álita; hann og aðrir kalla þá einu nafni Grænlendingaþátt. Stundum hafa þeir verið nefndir Eiríks saga rauða.

Gustav Storm hefur gefið þá út með Eiríks-sögu (bls. 51—74) og hafa þeir báðir, hann og Finnur Jónsson, dæmt rjettilega um þá og fordæmt þá með fullum rökum.[1])

---

Frásögnin um heimför Leifs og landafundi er í Hauksbók á þessa leið: »Lætr Leifr í haf ok er lengi úti ok hitti á lönd þau, er hann vissi áðr enga von til. Voru þar hveitiakrar sjálfsánir ok vínviðr vaxinn. Þar voru þau tré, er mösurr heita, og höfðu þeir af þessu öllu nokkur merki, sum trje svo mikil, at í hús voru lögð. Leifr fann menn á skipsflaki ok flutti heim með sér. Sýndi hann með því hina mestu stórmennsku ok drengskap sem mörgu öðru, er hann kom kristni á landit, ok var jafnan síðan kallaðr Leifr hinn heppni. Leifr tók land í Eiríksfirði og fór heim síðan í Brattahlíð. Tóku þar allir menn vel við honum«.

Það er svo að sjá af sögunni, að Leifur hafi ætlað að fara skemmstu og beinustu leið milli Noregs og Grænlands (Eystribygðar), bæði austur, sumarið áður, og austan. Gustav Storm áleit,[2]) að Leifur hafi verið hinn fyrsti, er ætlaði að fara þessa beinu leið, og af því hafi svo farið fyrir honum, sem segir áður í sögunni um ferð hans austur, að hann varð sæhafa til Suðureyja. Þær eru nokkuð suður-úr beinni leið, ef haldið er frá suðurodda Grænlands til Niðaróss. Síðar var jafnan siglt á milli Hjaltlands og Færeyja,[3]) og þá leið mun Leifur hafa ætlað að fara, en veður hrakið hann af þeirri stefnu.

Síðan frásagnirnar í Eiríks-sögu um þennan landafund Leifs urðu mönnum heyrinkunnar á síðari öldum, af ritum þeirra Arngríms prests lærða, Jónssonar,[4]) og

---

1) Aarb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1887, 305—13, og 1915, 205—221.

2) Aarb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1887, 313.

3) Sbr. Landnámabók, 2. kap.

4) Gronlandia edur Grænlands saga o. s. frv., Skálh. 1688.




Leið Leifs heppna.

Þormóðs sagnaritara Torfasonar,[1]) hafa menn ritað og rætt mikið um það, hvar Leif hafi raunar borið að landi, þar er hann fann þær jurtategundir, sem skýrt er frá. Hefur mönnum komið saman um, að það hljóti að hafa verið á austurströnd Norður-Ameríku, ekki norðar en vínviður hefur fundizt vaxa þar óræktaður, það er sunnan-við Nýju-Brúnsvík, og varla hafi Leifur komið sunnar að landi, álita menn, en til Maríulands. Mestar virðast líkurnar til, að hann hafi hitt fyrir sjer Nýja-England, sem nú heitir svo; er það norðausturhornið á Bandaríkjunum og eru nú á því 6 smáríki með hjer um bil 6½ milljón íbúa. Langstærsta borgin er Boston, með 750 þúsundum íbúa. Þar var Leifi reist minnismerki árið 1887.

Það segir beinlínis í sögunni, að Leifur hitti á fleiri lönd en eitt. Má gera ráð fyrir, að hann hafi sjeð Nýja-Skotland og jafnvel Nýfundna-land, er hann hjelt undan veðrinu. Það hefur að líkindum verið norðan- og síðan austan-stormur, og hefur skipið komizt úr stórsjó þá fyrst er það var komið suðvestur-fyrir Nýja-Skotland í hlje. Úr því hafa þeir Leifur farið að sjá til Nýja-Englands framundan á stjórn og leitað þar að landi. Ekki segir af landslagi og verður því ekki unnt að ákveða staðinn, þar sem þeir gengu á land, af öðru en sjálfsánu hveitiökrunum, vínviðnum og mösurtrjánum, er uxu þar. Allar þessar vaxtartegundir hafa verið algengar í Nýja-Englandi.

— Er Leifur hjelt áfram ferð sinni og fór heim til Eystribygðar, hefur hann sennilega farið svo nærri fram með Nýja-Skotlandi, að hann hefur jafnan haft landsýn. Síðan hefur Nýfundna-land orðið fyrir og ætla jeg að hann hafi fremur siglt hafsmegin við það, þar sem hann vissi að leiðin lá opin, heldur en farið inn um Cabot-sund, siglt þeim megin og norður um Fagureyjarsund.

---

1) Historia Vinlandiæ antiqvæ etc., Havniæ 1705, og Groenlandia antiqva etc., Havniæ 1706.

Eins og nærri má geta, hefur þessi landafundur Leifs vakið hina mestu athygli, fyrst og fremst á Grænlandi; enda brugðu þeir feðgar í Brattahlíð við, þegar næsta sumar, árið 1001, Þorsteinn, bróðir Leifs, og Eiríkur, faðir þeirra, og vildu leita hins nýfundna lands. Segir svo frá för þeirra í Eiríks-sögu í Hauksbók: »Síðan sigldu þeir út úr Eiríksfirði með gleði mikilli; þótti þeim allvænt sitt efni. Þá velkti úti lengi í hafi ok komu þeir ekki á þær slóðir, sem þeir vildu. Þeir komu í sýn við Ísland ok svo höfðu þeir fugl af Írlandi. Rak þá skip þeirra um haf innan. Fóru þeir aptr um haustit ok váru allmjök væstir ok þrekaðir. Koma við vetr sjálfan á Eiríksfjörð. Þá mælti Eiríkr: »Kátari sigldu vér í sumar út úr firðinum en nú eru vér ok eru þó enn mörg góð at«. — Eiríkur hafði lengi verið tregur til ferðarinnar.

Svo segir í sögunni, að þeir Eiríkur hafi farið í þessa för á skipi, sem Þorbjörn Vífilsson frá Laugarbrekku á Snæfellsnesi hafði keypt í Hraunhafnarósi (Búðaósi) sumarið áður og flutt sig þá á búferlum til Grænlands. Hafa þeir því ekki haft skip Leifs, og ekki er þess getið, að hann ætti neinn þátt í þessari ferð. Bendir það helzt til þess, að hann hafi verið farinn áður á skipi sínu til Noregs. Eru líkur til að hann hafi ekki verið heima næstu sumur. Hann kemur ekki framar við Eiríks-sögu. Hann lifði þó um 20 ár enn, dó um 1020 og mun þá hafa verið um fimtugt. — En það mun verða að telja líklegast, að meðal þeirra tuttugu manna, sem ráðnir voru til ferðarinnar með þeim feðgum, hafi verið til leiðsagnar einhverir af skipverjum Leifs frá ferð hans sumarið áður, þótt ekki tækist betur til en raun varð á. Helzt mun mega gera ráð fyrir, að þeir Eiríkur og Þorsteinn hafi tekið of austlæga stefnu þegar. Vafalaust hefur það þó verið einna helzt að kenna óhagstæðum vindum, að þeir bárust svo langt norðaustur á bóginn, að þeir komu í sýn við Ísland, og síðan svo langt til suðausturs, að þeir höfðu »fugl af Írlandi«.

Þegar Þorsteinn kom heim aptur, kvæntist hann Guðríði, einkadóttur Þorbjarnar frá Laugarbrekku. — Fóru þau um haustið norður til bús, sem Þorsteinn átti í Lýsufirði í Vestribygð og settust þar að. En er lítið var af vetri, kom sótt upp á bæ þeirra og dó Þorsteinn úr sóttinni. Fór Guðríður þá aptur í Brattahlíð og litlu síðar andaðist einnig Þorbjörn, faðir hennar.

Næsta sumar, 1002, varð ekkert úr landaleit frá Grænlandi. En um haustið komu þangað tvö skip frá Íslandi. Annað átti Þorfinnur karlsefni Þórðarson, norðlenzkur farmaður, af ágætri ætt í Skagafirði, og með honum var Snorri Þorbrandsson úr Álptafirði, sem kunnur er af Eyrbyggja-sögu; en hitt áttu þeir Bjarni Grímúlfsson, breiðfirzkur að ætt, og Þórhallur Gamlason, austfirzkur maður. Eiríkur bauð báðum þessum skipshöfnum veturvist hjá sjer í Brattahlíð og gekk Þorfinnur að eiga Guðríði, tengdadóttur hans, skömmu eptir jólin. Víkur nú sögunni algerlega að þeim Þorfinni (7.—14. kap.) og af því hefur hún öll stundum verið kennd við hann á síðari öldum, enda er hún öllu fremur um hann og konu hans en Eirík og þá feðga; 1., 3., 4. og 6. kap. eru saga Guðríðar, 7.—14. kap. eru saga Þorfinns, og 1. kap. kemur einnig sögu hans mest við, því að hann er um forfeður hans, tekinn úr Landnámabók; en höfundinum hefur láðst að skeyta efnið í 1. og 7. kap. saman. — Þeir Þorfinnur og Snorri, Bjarni og Þórhallur fóru allir um vorið 1003 á skipum sínum að leita hins nýja lands, og með þeim fór á skipi Þorbjarnar margt fólk frá Grænlandi. Í upphafi frásagnarinnar um þessa landaleit þeirra Þorfinns er landið nýja nefnt Vínland (et góða) og ferðin Vínlandsferð. Hvorki í frásögninni um landafund Leifs nje hinni, um landaleit þeirra Þorsteins og Eiríks, er viðhaft neitt nafn á landinu. Er svo að sjá af sögunni, að Leifur hafi ekki gefið því nafn er hann fann það, heldur hafi landið hlotið þetta nafn, Vínland, heima á Grænlandi síðar, er mönnum varð tíðrætt um það. — Hvort það

hafi þá þegar eða ekki fyr en síðar verið nefnt af sumum Vínland hið góða, það er öldungis óvíst.

Til þess að einskis verulegs missi í, verður bezt að taka hjer upp orðrjett kafla úr frásögninni um þessa Vínlands-ferð, svo sem hún er í Hauksbók, og gera athugasemdir við hvern þeirra fyrir sig.

»Í Brattahlíð hófust miklar umræður, at menn skyldu leita Vínlands ens góða, ok var sagt, at þangat mundi vera at vitja góðra landskosta; ok þar kom, at Karlsefni ok Snorri bjoggu skip sitt, at leita landsins um várit. Með þeim fór ok sá maðr, er Bjarni hét, ok annarr Þórhallr, er fyrr eru nefndir, með sínu skipi. Maðr hét Þorvarðr; hann átti Freydísi, dóttur Eiríks, laungetna. Hann fór ok með þeim, ok Þórhallr, er kallaðr var veiðimaðr. Hann hafði lengi verit með Eiríki, veiðimaðr hans um sumrum, en bryti um vetrum. Hann var mikill maðr ok sterkr, ok svartr ok þursligr, hljóðlyndr ok illorðr, þat er hann mælti, ok eggjaði jafnan Eirík ens verra. Hann var illa kristinn. Hánum var víða kunnigt í úbygðum. Hann var á skipi með Þorvarði ok Þorvaldi. Þeir höfðu þat skip, er Þorbjörn hafði út haft. Þeir höfðu alls .xl. manna ok .c. er þeir sigldu til Vestri-bygðar ok þaðan til Bjarneyjar. Þaðan sigldu þeir .ij. dægr í suðr. Þá sá þeir land ok skutu báti ok könnuðu landit ok fundu þar hellur stórar ok margar .xij. álna viðar. Fjöldi var þar melrakka. Þeir gáfu þar nafn ok kölluðu Helluland. Þaðan sigldu þeir .ij. dægr, ok brá til landsuðrs úr suðri, ok fundu land skógvaxit ok mörg dýr á. Ey lá þar undan í landsuðr. Þar drápu þeir einn björn og kölluðu þar síðan Bjarney, en landit Markland. Þaðan sigldu þeir suðr með landinu langa stund ok komu at nesi einu. Lá landit á stjórn. Váru þar strandir langar og sandar. Þeir reru til lands ok fundu þar á nesinu kjöl af skipi ok kölluðu Kjalarnes. Þeir kölluðu ok strandirnar Furðustrandir, því at langt var með at sigla. Þá gerðist landit

vágskorit. — — —[1]) Þeir sigldu inn á fjörð einn. Þar lá ein ey fyri utan. Þar um váru straumar miklir; því kölluðu þeir hana Straumey. Svá var mörg æðr í eynni, at varla mátti ganga fyri eggjum. Þeir kölluðu þar Straumfjörð. Þeir báru þar farm af skipum sínum ok bjoggust þar um. Þeir höfðu með sér alls konar fénað. Þar var fagrt landsleg. Þeir gáðu einkis, utan at kanna landit. Þeir váru þar um vetrinn ok var ekki fyri unnit um sumarit; tókust af veiðarnar ok gerðist ilt til matar. — — —[2]) (Þeir) skutu sínu máli til guðs. Batnaði þá veðrátta ok gaf þeim útróðra ok skorti þá síðan eigi föng, því at þá var dýraveiðr á landinu, en eggver í eynni, en fiski úr sjónum«.

Það er svo að sjá af þessari frásögn, að ferðin hafi verið farin beinlínis sem landnámsferð til hins nýja lands. Því fara menn svo margir saman, konur og karlar, eitt hundrað, þ. e. stórt eða tólfrætt hundrað, og fjórir tigir, alls 160,[3]) og hafa búfje með sjer.

Þess er ekki getið, hvers vegna þeir Þorfinnur hafi farið fyrst norður til Vestri-bygðar, en þeir, sem um þetta hafa ritað, hafa talið það standa í sambandi við búseign Þorsteins Eiríkssonar og Guðríðar norður þar. Hitt hefur einnig verið bent á, að þeir Þorfinnur hafi fremur viljað leggja þaðan út, til þess að geta stefnt öllu vestar í norðanvindi en með því að leggja á haf út frá Eystri-bygð.[4]) Óvíst er talið af sumum, hvar Bjarney sú er, sem þeir Þorfinnur sigldu til frá Vestri-bygð. Að vísu segir í gamalli landlýsingu af Grænlandi, að Bjarney sje níu daga róður (norður) frá Lýsufirði

---

1) Hjer er slept úr smákafla (um Haka og Hekju), sem varla er upprunalegur í þessu sambandi; verður vikið að honum síðar.

2) Hjer er slept frásögn um Þórhall veiðimann og hval ókendan, sem rak að landi.

3) Sbr. »fjórir tigir manna annars hundraðs í AM. 557, 4to. Talan 140 stendur í flestum ritgerðum um þetta, nema ritgerð Finns Jónssonar í Aarb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1915, bls. 209.

4) Sbr. H. P. Steensby, Norsemen's route from Greenland to Wineland í Meddelelser om Grönland, LVI, 162—63.

og að umhverfis hana sje 12 daga róður. Hafa menn þózt sjá af þessu, að sú Bjarney hljóti að vera eyjan Disco, er nú nefnist svo, en þykir ólíklegt, að þeir Þorfinnur hafi farið þangað. Raunar er það nokkuð ólíklegt, en þó virðist mjer varla geta verið átt við aðra ey en þá, er alkunn er með þessu nafni. Annað mál er það, að hjer kynni að vera um ranghermi að ræða í sögunni. Það sýnist þó ekki líklegt heldur, enda kunna að hafa legið einhverjar þær ástæður til ferðar leiðangursmanna til Bjarneyjar, sem sögumanni og nútímamönnum eru ókunnar.[1])

Þar sem segir, að þeir Þorfinnur hafi hitt fyrir sjer Helluland, er þeir nefndu svo, eptir tveggja daga sigling suður frá Bjarney, þá er það sýnilega rangt. Jafnvel þótt Bjarney hafi verið úti fyrir Lýsufirði, eins og Gustav Storm áleit,[2]) og þeir Þorfinnur hafi ekki siglt »í suður«, heldur í útsuður, skemmstu leið til næsta lands, er þá hlaut að verða fyrir þeim, er sú vegarlengd meiri en svo, að þeir hafi getað siglt hana á »2 dægrum«, og jafnvel þótt ».ij. dægr« merki hjer tvo heila sólarhringa, svo sem það mun raunar gera.[3]) Finnur Jónsson álitur,[4]) að hjer sje um ritvillu að ræða, skrifarinn hafi ef til vill lesið og skrifað .ii. í st. f. .u. (þ. e. .v., 5) og er það sennilegra, því að hjer er að minnsta kosti um álíka vegarlengd að ræða og er skemmsta leið á milli Íslands og Noregs. En mjer þykir eins líklegt, að hjer kunni að vera um annars konar ritvillu að ræða, sprottna af því, að skrifarinn hafi hjer farið setningavilt, litið á samhljóða setninguna, sem kemur rjett á eptir, og skrifað hana í stað hinnar fyrri, eða tekið töluna úr henni.

Allir munu nú vera á einu máli um það, að land það, er þeir Þorfinnur fundu fyrst og nefndu Hellu-

1) Gizka mætti á, að þeir hafi vitað gnægtir matfanga í Bjarney og farið þangað til að birgja sig að vistum.

2) Eir. s. rauða 31, nm.

3) Grönlands hist. Mindesmærker, I., 162—63.

4) (Norsk) Hist. Tidsskr., V., 1, 133.

land, hljóti að vera norðausturströndin á Labrador, eða rjettara sagt einhvers staðar á henni. Enginn hefur, svo mjer sje kunnugt, hent á staðinn eptir sögunni, auðkendan af hinum mörgu og stóru hellum. En alkunnugt er, að mikið er um melrakka þar um slóðir enn í dag.[1])

Frásögnina um ferð Þorfinns til Marklands hafa ekki allir skilið á einn veg. Gustav Storm leit svo á,[2]) að orðin »ok hrá til landsuðrs úr suðri« hentu ótvírætt til þess, að þeir Þorfinnur hefðu haldið yfir til Nýfundna-lands, því að það sje einmitt í landsuður frá austurhluta Labradors. En hjer er aðgætandi, að átt er við, að þeir Þorfinnur hafi siglt þaðan, sem þeir komu fyrst að Labrador og nefndu Helluland, nokkru meira til austuráttar en áður. Það hljóta þeir sýnilega að hafa gert, því að svo er stefnan á norðausturströnd Labradors. Storm áleit, að Nýfundna-land sje Markland og það er í sjálfu sjer ekki ólíklegt, en lýsingin á framhaldi ferðarinnar bendir þó fremur á, að Markland sje austasti hlutinn á Labrador, svo sem H. P. Steensby prófessor hjelt fram í ritgerð, er hann skrifaði 1917 um ferð þeirra Þorfinns.[3]) Lýsingin á Marklandi er heldur fáorð í sögunni, en það sem hún nær, getur hún vel átt við austasta hlutann á Labrador, því að þar kvað vera skógar miklir, einkum er nokkuð dregur frá sjó. Í Grænlendingaþætti er nokkru fyllri lýsing á Marklandi: »Þat land var skógi vaxit ok sandar hvítir víða þar sem þeir fóru ok ósæbratt«. Þessi lýsing kvað ekki eiga síður við suðausturhlutann á Labrador. Innanvið Fagreyjarsund (Strait of Belle Isle) er nefndur

---

1) Sjá Aarb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1887, bls. 335.

2) Aarb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1887, bls. 332.

3) Meddelelser om Grönland, LVI., getið hjer áður um á bls. 9. — Hjer hefur slæðst inn undarleg villa hjá Steensby (south-west á bls. 164 og 165, fyrir south-east), en hún raskar þó ekki verulega rjettri rökfærslu.

Hvíti-sandur (Blanc Sablon), því að strandlengjan er þar hvít að sjá í sólskini.[1])

Steensby áleit að sú Bjarney, er lá í landsuður undan Marklandi, sé táin á Norðurskaga á Nýfundnalandi. Tel jeg það ekki sjálfsagt, því að hjer getur sennilega verið um Fagurey (Belle Isle) að ræða; hún liggur þar um 15 km. norður-undan landi. Við hana er kent sundið milli Nýfundna-lands og meginlandsins. Áleit Steensby að þeir Þorfinnur hafi farið meðfram landi og þannig inn í sundið. Venjulega kvað þar vera þokusamt og þykir mjer óvíst, að þeir hafi orðið Nýfundna-lands varir, en hins vegar ósennilegt, að þeir hafi álitið það ey, hafi þeir gengið þar á land og unnið bjarndýrið. Frásögnin um það bendir fremur á Fagurey.

Þá kemur frásögnin um ferðina frá Marklandi. Hún er dálítið óljóst orðuð, sjerstaklega með tilliti til Kjalarness, hvar það sje, en það er þó bert, að þeir sigldu langa stund með landi, sem lá á stjórn, og að þar voru strandir langar og sandar.

Ætla mætti að þessar Furðustrandir væru endurfundnar fyrir löngu, svo einkennilegar sem þær hljóta að vera eptir lýsingunni. Gustav Storm o. fl. hafa þá einnig þózt geta bent á þær. En hjer þykir mjer Steensby hafa tekið af skarið svo, að fullu ljósi er varpað yfir Furðustrandir. Hann sýndi fram á með skýrum rökum, að Furðustrandir eru suðurströndin á Labrador, einkum strandlengja sú, sem er nokkurn veginn bein frá austri til vesturs, milli Whittle-ness og Eyjanna sjö. Eptir þeim uppdrætti, sem jeg hef fyrir mjer, eru

---

1) Hefur Halldór Hermannsson prófessor bent á þetta nýlega í smágrein um Vínlandsferðirnar (The Wineland voyages) í The Geographical review, Vol. XVII, No. 1, bls. 107—14. — Áður hafði Halldór ritað allmikla grein um Vínlandsferðirnar í Tímarit Þjóðræknisfjelags Íslendinga, I. ár, bls. 25—52. Gerir hann þar fyrst grein fyrir hinum fornu frásögnum um ferðirnar og síðan frá ritgerðum og skýringum ýmsra manna, sem skrifað hafa um þetta efni. — Í Íslendinga-sögu Boga Th. Melsteðs, II., 274—290, er kafli um Vínlandsferðirnar.

þessar strandir um 440 km. að lengd, eða álíka vegur og austan-frá Horni að Reykjanesi. Þarna, á þessum sann-nefndu furðuströndum á Labrador, er landið alt svo lágt, að örðugt er að greina af sjó, jafnvel úr fárra km. fjarlægð, nokkurn einn stað frá öðrum á landi, eptir því sem segir í leiðarvísinum um þessar slóðir. Þarna eru öræfi ein, eins og komist er að orði í sögunni í handr. AM. 557, 4to, hafnleysur einar. Þarna eru »strandir langar ok sandar«, strandlengjan skiptist af smávikum og smánesjum. Falla þarna margar ár til sjávar og hafa borið fram sand, svo að þar verða við strendurnar miklir og margir sandar. Er í mörgum þeirra töluvert af seguljárni og aðallega þess vegna eru nokkrar mannavistir hjer og þar á þessum eyðiströndum. Það kemur að sönnu illa heim við frásögnina um ferðina frá Marklandi, að þessar furðustrandir eru aðallega í beinni stefnu frá austri til vesturs. En þótt sagt sje, að þeir hafi siglt suður með landinu langa stund, þá er það samt ekki svo mjög fjarri lagi. Alt norðan-frá Fagurey (Bjarney?) og suður-að Whittle-nesi hafa þeir hlotið að sigla í útsuður og er sú leið upp undir 330 km. En þess má sjá mörg dæmi, að fornmenn tilgreindu ekki nje miðuðu áttir svo nákvæmlega sem menn gera nú, einkum á sjóferðum.

Halldór Hermannsson álítur,[1]) að Leifur Eiríksson hafi farið norður um Lárentíusar-flóann er hann fór heim til Grænlands frá Vínlandi, og að hann hafi þá siglt út um sundið hjá Fagurey; einhverir af skipverjum Leifs hafi verið með þeim Þorfinni og því hafi þeir farið þar um. — Mjer þykir líklegt, að Leifur hefði jafnan orðið var við að hann hafði Nýfundna-land á stjórn, hefði hann farið þar norður-um, og að þá hefðu þeir menn hans, sem með Þorfinni kunna að hafa verið, — og sennilega hafa þeir verið einhverir —, leitað þar suður fram með Nýfundna-landi aptur, haft það á bakborða. — Jeg ætla, eins og jeg tók fram áður, að

---

1) Í grein sinni »The Wineland voyages«, bls. 108—109.

Leifur hafi haft Nýja-Skotland og Nýfundna-land á bakborða, er hann fór heim frá Vínlandi; í því kann að hafa legið nokkur ástæða til, að þeir Þorfinnur fara suðvestur og vestur fram með Labrador (Marklandi og Furðuströndum), með landi á stjórn. Heimleið Leifs kann á þann hátt að hafa haft áhrif á suðurleið þeirra Þorfinns, eins og Halldór Hermannsson ætlar. Stefnurnar voru líka dálítið svipaðar; þeir Þorfinnur hafa ef til vill haldið að þeir væru nokkurn veginn á sömu leið og Leifur hafði farið heim, — unz þeir komast inn í Lárentíusarfjörðinn, þá sjá þeir, að þeir hafa ekki opið haf á bakborða þar inneptir.

En hvar er Kjalarnes? Eins og frásögnin er orðuð hjer í sögunni, verður það ekki ljóslega sjeð. Helzt virðist eiga að skilja hana svo sem þeir Þorfinnur hafi verið komnir framhjá eða sigldir út frá Furðuströndum, er þeir reru til lands á Kjalarnesi, og að landið hafi þá verið farið að gerast vogskorið. Kemur meining málsins betur í ljós, ef setningunum í frásögninni er skipað svo niður: »Þaðan sigldu þeir suður með landinu langa stund. Lá landit á stjórn. Váru þar strandir langar ok sandar. Þeir kölluðu strandirnar Furðustrandir, því at langt var með at sigla. (Þeir) komu at nesi einu. Þeir reru til lands ok fundu þar á nesinu kjöl af skipi ok kölluðu þar Kjalarnes«. — Steensby þótti líklegast að Kjalarnes væri Kúanes (Point vaches), nes það er verður norðaustan-við mynni árinnar Saguenay, fremur en Montsnes (Point de Monts), sem er yzti oddinn á breiðu nesi, er skagar út í Lárentíusarfjörðinn 220 km. norðaustar,[1]) við vesturendann á Furðuströndum. Í rauninni er Kúanes ekkert verulegt nes, skagar ekkert fram, og það er svo innarlega í Lárentíusarfirðinum, að jeg tel þegar þess vegna næsta ólíklegt, að það sje Kjalarnes. Líklegra miklu teldi jeg, af þessari frásögn einni, að það sje Montsnes, enda þykir mjer næsta ósennilegt, að þeir Þorfinnur hafi

1) Mælt eptir sama landsuppdrætti og Furðustrandir.

leitað lengra vestur á bóginn eða lengra inn í Lárentíusarfjörðinn. Hann er hjer ekki breiðari en svo, að landið sunnan-við hann, sem er allhátt, blasir við, og fjörðurinn, sem jeg kalla svo, er af flestum talinn vera mynni Lárentíusarár. En það segir ekki berum orðum í þessari frásögn, að þeir Þorfinnur hafi verið komnir vestur fyrir allar Furðustrandir, er þeir reru til lands á Kjalarnesi. Og af frásögninni um ferð Þórhalls veiðimanns, er hann hjelt heimleiðis, virðist jafnvel mega ráða það, að Kjalarnes hafi ekki verið beinlínis vestan-við Furðustrandir. Þar segir nefnilega svo:[1]) »Síðan sigldu þeir norður fyrir Furðustrandir ok Kjalarnes ok vildu beita vestr fyri«. Af þessari frásögn einni útaf fyrir sig þætti mjer jafnvel líklegra, að Kjalarnes sje annaðhvort Natashkwan-nes eða Whittle-nes. En hjer kemur til greina þriðja frásögnin, sem bendir til hvar Kjalarnes sje. Hún er litlu aptar í sögunni[2]) og er þannig: »Karlsefni fór þá einu skipi at leita Þórhalls veiðimanns, en annat liðit var eptir ok fóru þeir norðr fyri Kjalarnes ok berr þá fyri vestan fram ok var landit á bakborða þeim. Þar váru þá eyðimerkr einar allt at sjá fyri þeim ok nær hvergi rjóðr í ok er þeir höfðu lengi farit, fellur á af landi úr austri ok í vestr. Þeir lögðu inn í árósinn ok lágu við hinn syðra bakkann«. — Síðan segir frá því er Þorvaldr Eiríksson var skotinn þarna til bana. Því næst segir svo: »Þeir fóru þá í brott ok norðr aptr ok þóttust sjá Einfætingaland. Vildu þeir þá eigi hætta liði sínu lengra. Þeir ætluðu öll ein fjöll, þau er í Hópi váru ok þessi, er nú fundu þeir, ok þat stæðist mjök svá á, ok væri jafnlangt úr Straumfirði beggja vegna«. — Í bæði skiptin, þegar þeir fóru til þess staðar, er þeir kölluðu í Hópi, og þegar þeir fóru að leita Þórhalls veiðimanns, lögðu þeir út frá Straumfirði. Frásögnin um fyrri ferðina er þannig:[3])

1) Hauksbók, bls. 439.
2) Efst á bls. 442 í Hauksbók.
3) Hauksbók, bls. 439.

»Nú er at segja af Karlsefni, at hann fór suðr fyri landit ok Snorri ok Bjarni með sínu folki. Þeir fóru lengi ok allt þar til er þeir komu at á einni, er fell af landi ofan ok í vatn eitt til sjóvar. Eyrar váru þar miklar ok mátti eigi komast í ána utan at háflæðum. Þeir Karlsefni sigldu í ósinn ok kölluðu í Hópi«.

Menn þurfa nú ekki annað en að líta snöggvast á landabrjefið til þess að ganga úr skugga um, að ekki er unnt að koma þessum frásögnum og staðgreiningum um Straumfjörð, Hóp, Kjalarnes, ána, sem fjell af landi ofan úr austri, o. s. frv., heim við þá kenning Steensbys, að Kúanes sje Kjalarnes, — og Hóp hafi verið inni hjá Montmagny, sem er innst inni í Lárentíusarfirði, hins vegar við hann, svo sem hann áleit og vikið skal að síðar.

Frásagnirnar um þessar ferðir benda til þess, svo sem Halldór prófessor Hermannsson hefur sýnt fram á,[1]) að Straumfjörður hafi gengið inn að austanverðu í Nýju-Brúnsvík og að Kjalarnes sje Gaspé-nes, yzt á Gaspé-skaga. Þegar svo er litið á, verður skiljanlegt, hvernig Þorfinnur hefur fyrst siglt suður fyrir land og í Hóp, sem hefur hlotið að vera fyrir suðvestan Nýju-Brúnsvík, og hvernig hann síðar fer norður fyrir Kjalarnes og hann ber vestan fram, með land á bakborða, og hversu það má að nokkru leyti kalla svo, að hann fari í bæði skiptin í norður, er hann fer um fyrir norðan nesið og skagann, heiman úr Straumfirði og heim þangað aptur. — Að öðru leyti verður þetta athugað síðar.

Er þeir Þorfinnur höfðu loks komizt fyrir allar Furðustrandir, »þá gerðist landit vágskorit«. Innan-við Eyjarnar sjö er vogur, en lítið virðist landið hjer á stjórn vogskorið, alt inn að Montsnesi. En þegar þangað er komið, og raunar fyr í björtu veðri, blasir við landið sunnan-við Lárentíusarfjörð, Gaspé-skagi, sem er allhár. Þykir mjer sennilegt, svo sem jeg vjek að áður, að þeir

1) Í grein sinni um Vínlandsferðirnar (The Wineland voyages), þeirri er getið er áður.




Leið Þorfinns Karlsefnis.

Þorfinnur hafi ekki viljað halda lengra vestur, inn með hinum eyðilegu Furðuströndum, heldur beygt suður-á-við fyrir Gaspé-skaga. Á honum austanverðum eru Gaspé-vogur og Illa-vík (Mal baie).

Nú segir í sögunni, að þeir Þorfinnur »heldu skipunum í einn vág«, og síðan kemur sagan um Haka og Hekju. Eins og Finnur Jónsson hefur sýnt fram á,[1]) virðist sú saga eiga hjer illa heima, enda líklegra, að hún sje tekin í fyrstu úr frásögninni um ferð Leifs og skotið hjer inn í. Sagan er líkleg til að vera bygð á raunverulegum atburði, einkennileg og er gott verkefni fyrir málara. Engar misfellur sjást á frásögninni um ferð Þorfinns og þeirra, þótt þessu innskoti sje slept; eptir orðin »þá gerðist landit vágskorit« kemur þá frásögnin um Straumfjörð.

Eins og nærri má geta, hafa komið fram ýmsar kenningar um það, hvar Straumfjörður sje. Þareð mjer þykir Steensby hafa sýnt fram á það, að Furðustrandir sjeu suðurströndin á Labrador, skal jeg ekki fara út í kenningar annara, sem álíta að þeir Þorfinnur hafi ekki siglt þar inn með landi, heldur farið suður og vestur um Nýfundna-land. Steensby ljet í ljósi,[2]) að Lárentíusarfjörður væri Straumfjörður og Hjeraey væri Straumey. Enn fremur áleit hann, svo sem hjer var sagt að framan, að staður sá, er þeir Þorfinnur fundu síðar og nefndu í Hópi, sje innar í firðinum, þar sem nú er bærinn Montmagny (St. Thomas) við Suðurá (Rivière du Sud); er það nærri því inni í fjarðarbotni, að suðaustanverðu, ekki langt fyrir norðaustan borgina Kvíbekk, og veit ármynnið (og hópið þar) á móti norðri.

Í bók, sem G. M. Gathorne-Hardy bókavörður[3]) hefur ritað um Eiríkssögu, Grænlendingaþátt og Vínlandsferðirnar, mótmælir hann nokkuð kenningum

---

1) (Norsk) Hist. Tidsskr., V. R. I. 128; sbr. Aarb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1915, bls. 210.

2) Meddelelser om Grönland, LVI., 173—76.

3) The Norse Discoverers of America. Oxford, 1921.

Steensbys í þessu efni, en Gustav Holm hefur sýnt fram á,[1]) að mótmæli Gathorne-Hardys sjeu ekki á góðum rökum bygð, og álítur, að kenningar Steensbys megi að mestu leyti til sanns vegar færa fyrir þeim mótmælum.

Orðin »þá gerðist landit vágskorit« benda til, að þeir Þorfinnur hafi tekið eptir fleiri vogum en einum eða þeim firði einum, er þeir sigldu inn á. En hefðu þeir siglt áfram með landi því er lá á stjórn, er þeir voru komnir vestur-fyrir Furðustrandir, og haldið inn-fyrir Hjeraey, hefðu þeir ekki orðið svo margra voga varir á þeirri leið, að þeir hefðu getað talið landið vogskorið.

Um Straumey er það sagt, að hún lægi »þar fyrir utan« er þeir sigldu inn á fjörðinn. Kemur þetta illa heim við legu Hjeraeyjar í Lárentíusarfirði, því að hún er langt inni í firðinum, varla skemra en 235 km. fyrir innan Montsnes, og ekki er hún ein, því að Grænaey er litlu utar og Pílagrímseyjar litlu innar, og síðan eru margar eyjar enn innar.

Orðin »þeir sigldu inn á fjörð einn« virðast mjer jafnvel benda á, að fjörður sá hafi verið tiltölulega breiðari, miðað við lengd hans, en Lárentíusarfjörður er. Um hann myndu hafa verið höfð orðin *inn í*, sjerstaklega um svo langa sigling inn eptir honum, svo mjóum og löngum sem hann er.

Enn er það, svo sem bent var á áður, að það er ósamrímanlegt við frásagnir þær er á eptir koma, um ferðir Þorfinns suður fyrir land og norður fyrir, að Lárentíusarfjörður sje Straumfjörður. Að sönnu kemur það ekki alls kostar illa heim við frásögnina um ferð Þorfinns suður fyrir land, eina út af fyrir sig, nje frásögnina um ferð Þórhalls veiðimanns, er hann ætlaði heim, en það verður engan veginn fyllilega samrímt við frásögnina um eptirför Þorfinns eptir Þórhalli. Verður vikið að henni enn.

---

1) Ritgerð hans er í Meddelelser om Grönland, LIX; sjá um þetta atriði á bls. 31—34.

Halldór Hermannsson heldur því fram,[1]) að Straumfjörður sje Hitafjörður (Baie de chaleurs, Chaleur bay), sem er sunnan-við Gaspé-skaga og gengur þar inn í Nýju-Brúnsvík úr austri. Þar liggur »ein ey fyrir utan«, Miscou-ey, eða raunar tvær, hin heitir Shippigan-ey, en sú ástæða kynni að hafa verið til þess að hennar hefði ekki verið getið, að hún er nærri áföst við hina fyrnefndu. Ef til vill gátu þeir álitið hana nes, því að sundið, er slítur hana frá skaganum sunnan-við fjörðinn, er örmjótt. — Tvær eyjar minni (Pokesudi-ey og Caraquet-ey) eru innar og þó norðan-við skagann. — Um Miscou-ey eru vafalaust straumar miklir, er sjór fellur inn og út, því að tíu feta mismunur kvað vera á yfirborði sjávar inni í firðinum innst um flóð og fjöru. Fuglalíf er sagt mjög mikið í eynni enn í dag, en enginn þarf að gera ráð fyrir því, að nú sje á þessum slóðum nokkur sú ey, sem svo mörg æður sje í, að varla megi þar ganga fyrir eggjum. — Í Straumfirði »var fagrt landsleg«, segir í sögunni. Halldór Hermannsson vitnar í lýsing Jacques Cartiers af Hitafirði, en Cartier mun hafa komið þangað fyrstur allra Norðurálfu-búa á síðari öldum og var það í septembermánuði 1534. Lýsing hans er á þessa leið: »Hjeraðið að sunnanverðu við þennan fjörð er ekki síður gott land en fagurt á að horfa, ræktanlegt alt og alþakið engu ófegurri ekrum og engjum en getur að líta annars staðar, og sljettar eru þær sem stöðupollur; en að norðanverðu er hálent; þar eru fjöll og vaxin hávöxnum viði, margs konar, þar á meðal sedrusviði og fallegustu furutrjám, svo miklum, að smíða mætti af þeim siglutrje, nægilega stór í hafskip, er væru 300 smálesta eða stærri. Sáum vjer þar hvergi opið rjóður í skógunum, nema á tveim stöðum, þar sem lægra var landið, og voru þar yndisleg engi og vötn«. Síðan hrósar hann mjög loptslagi á þessum slóðum, og jarðargróða, er þarna vaxi, villikorni og ýmsum berjategundum; segir hann

---

1) Í greininni »The Wineland voyages«, bls. 110—112.

landið vafið í rauðum rósum og öðrum ilmandi blómum, en vötn öll full af laxi. Í sambandi við þessa lýsing Cartiers skal jeg geta þess, að fjörðurinn er á 48. stigi norðurbreiddar, þ. e. hjer um bil 1 stigi sunnar en Parísarborg. — En vetur kemur í Hitafirði ekki síður en segir í sögunni, að komið hafi yfir þá Þorfinn í Straumfirði. Og fiskisælt mun vera í Hitafirði enn í dag. — Þegar þeir Jacques Cartier komu þangað rúmum 5 öldum síðar, stunduðu Indíánar mjög fiskveiðar þar. — En vínviður vex ekki óræktaður í grend við Hitafjörð nje annars staðar í Nýju-Brúnsvík, og kemur það einnig vel heim við söguna, frásagnirnar um frekari landaleit Þorfinns og burtför Þórhalls veiðimanns, sem brátt skulu athugaðar.

Skoðun Halldórs Hermannssonar, að Hitafjörður sje Straumfjörður, er þannig að ýmsu leyti sennileg. Af frásögninni um Straumfjörð í 8. kap. í sögunni og af frásögninni í 9. kap. um brottbúnað Þórhalls veiðimanns þykir mjer þó líklegra, að Straumfjörður hafi ekki verið svo stór sem Hitafjörður er. Aðal-fjörðurinn er 136 km. að lengd inn frá Miscou-ey og um 25 km. að br., og inn úr honum gengur annar minni, Escuminac-fjörður, sem er um 35 km. langur. — Þar er einnig ey, Heron-ey, fyrir utan, innarlega í Hitafirði. — Suður- og norður-úr Hitafirði ganga enn fremur 2 stórir firðir, og enn er hinn fjórði ótalinn, hann er utar að sunnanverðu, heitir Caraquet-fjörður og er þar eyin samnefnda fyrir utan. Að Hitafjörður sje Straumfjörður verður ekki heldur samrímt við það hvort tveggja, þá skoðun, að Gaspé-nes sje Kjalarnes, og frásögnina í 12. kap. sögunnar um eptirför Þorfinns eptir Þórhalli veiðimanni. Verður vikið að þessu síðar. — Skiptir mestu, að ekkert í frásögnunum mælir á móti því, að Straumfjörður hafi gengið inn að austanverðu í Nýju-Brúnsvík.

Þeir Þorfinnur hafa orðið þess fullvísir, að þeir voru ekki komnir þangað sem Leifur Eiríksson hafði farið, þeir höfðu ekki fundið vínvið vaxinn, sönnun

fyrir, að þeir væru komnir til Vínlands. Er þeir könnuðu landið um sumarið (1003), hafa þeir sjeð Lárentiusarfjörðinn ofan-af Gaspé-skaganum, einkum hafi Straumfjörður verið Hitafjörður, en ekki hafa þeir sjeð fyrir botninn á Lárentiusarfirði. Enn fremur mun mega gera ráð fyrir, að þeir hafi komizt að raun um, að Straumfjörður gekk ekki inn frá úthafinu sjálfu, heldur sjerstökum flóa (Lárentiusarflóanum), og að eyjar eða skagi var á milli. Ekki er ólíklegt, að þeir hafi orðið varir við Kumbarafjörð (Cumberland basin), suðvestanvið Grænafjörð (Baie verte), því að milli þeirra er tiltölulega mjótt eiði, 25 km. að breidd.

Um vorið 1004 lögðu þeir Þorfinnur upp og í annan stað Þórhallur veiðimaður, að leita Vínlands. Hefst frásagan þannig: »Svá er sagt, at Þórhallr vill fara norðr fyrir Furðustrandir, at leita Vínlands, en Karlsefni vill fara suðr fyri landit«.

Það er nú harla ólíklegt, að hjer sje alls kostar rjett að orði komist um fyrirætlan Þórhalls; en þetta á ef til vill að skilja svo, að Þórhallur hafi í rauninni ætlast annað fyrir, þótt hann ljetist vilja fara norður fyrir Furðustrandir til þess að reyna að komast alla leið til Vínlands. Þórhalli hefur sjálfsagt aldrei komið til hugar, að »fara norðr fyri Furðustrandir, at leita Vínlands«, og af frásögninni um ferð hans og vísum þeim, sem eptir honum hafa verið hafðar, má sjá, að honum hefur raunar verið hitt í hug, þá er hann orti hina síðari vísuna, að fara aptur heim til Grænlands. En ferðasaga Þórhalls er svo: »Býst Þórhallr út undir eynni ok verða þeir eigi fleiri saman en .IX. menn, en allt annat lið fór með Karlsefni. En er Þórhallr bar vatn á skip sitt ok drakk, þá kvað hann vísu:

Hafa kváðu mik meiðar
malmþings, es komk hingat,
(mér samir land fyr lýðum
lasta) drykk enn bazta;
Bilds hattar verðr byttu
beiði-Týr at stýra;

heldr's svát krýpk at keldu;
komat vín á grön mína.

Ok er þeir váru búnir undu þeir segl. Þá kvað Þórhallr.

Förum aptr, þar es órir
eru, sandhimins, landar,
látum kenni-val kanna
knarrar skeið en breiðu,
meðan bilstyggvir byggva
bellendr ok hval vella
Laufa veðrs, þeirs leyfa
lönd, á Furðuströndum.

Síðan sigldu þeir norðr fyrir Furðustrandir ok Kjalarnes ok vildu beita vestr fyri. Þá kom móti þeim vestanveðr ok rak þá upp á Írlandi ok váru þeir þar barðir ok þjáðir, ok lét Þórhallr þar líf sitt, eptir því sem kaupmenn hafa sagt«.[1])

Vísur Þórhalls veiðimanns eru afar-merkar og hin allra-elztu frumgögn í öllu þessu máli. Er eptirtektarvert, að í fyrri vísunni segir Þórhallr, að ekki hafi komið þarna vín á varir sjer, en í síðari vísunni kveður hann menn sína til heimferðar aptur. Þá vísu er sagt að hann hafi kveðið er hann var ferðbúinn og vatt upp segl við Straumey, og er það einnig eptirtektarvert. Þá kastar hann grímunni. Hann hefur haft það að eins að yfirvarpi, að hann vildi gera tilraun til að leita að Vínlandi með því að sigla suðvestur-með Gaspéskaganum, og af eptirför Þorfinns er svo að sjá, að honum hafi verið að eins sú fyrirætlun Þórhalls kunn, þegar hann fór að leita hans þar; — því að jeg fellst á þá skýring Halldórs Hermannssonar, að Þorfinnur hafi farið þangað þá. — Þórhallur og aðrir kunna einnig að hafa haldið því fram, að Lárentíusarfjörðurinn myndi, ef til vildi, vera sund, sem komast mætti

1) Hauksbók, bls. 438—39. — »Út undir eynni«, þ. e. Straumey. — »Á skip sitt«, þ. e. skipið, sem hann hafði komið á og Þorbjörn, faðir Guðríðar, hafði átt og hún eða þau Þorfinnur hafa sennilega átt nú og leyft Þórhalli að nota til ferðarinnar.

um suður til Vínlands. — Hann hefði nú einnig fundið vínvið vaxinn inni fyrir botninum á Lárentíusarfirðinum; Steensby áleit að Vínland það, er Leifur heppni fann, hafi einmitt verið þar, og eins og áður er sagt, áleit hann að Hóp, þar sem þeir Þorfinnur fundu vínviðinn, hafi verið þarna inni. Hann bendir á að Cartier fann þar vínvið svo mikinn á Orleans-ey, sem nú heitir svo, að hann kendi hana við vínguðinn og kallaði hana Isle de Bacchus.[1]) — Þá fyrst er Þórhallur kveður síðari vísuna, kemur hinn sanni vilji hans í ljós: »Förum aptr, þar es órir eru *landar*«. — Það er sem kenna megi kuldann til þeirra Þorfinns, íslendinganna, í þessu orði, og háðnepju leggur af síðari vísuhelmingnum. Orðin »á Furðuströndum« á auðvitað ekki að taka bókstaflega svo, að þeir Þorfinnur hafi sezt að á Furðuströndum og hafi þar hvalkjöt eitt til matar sjer. Um orðin »síðan sigldu þeir norður fyri Furðustrandir ok Kjalarnes« hef jeg að öðru leyti talað áður; tel eðlilegra og samrímanlegra við frásögnina um ferðina til Straumfjarðar sumarið áður, að staðið hefði »Kjalarnes ok Furðustrandir«. — Orðin »vildu beita vestr fyri« koma alveg heim við frásögnina um ferðina að heiman; »þeir vildu beita vestr fyri« er þeir komu út um sundið við Fagurey (Bjarney?) og halda norðvestur-með Labrador (Hellulandi); »en þá kom móti þeim vestanveðr ok rak þá upp á Írlandi«. Þetta stendur öldungis heima, Írland er í háaustur frá þessum slóðum. — Niðurlag frásagnarinnar um þá Þórhall, um þrældóm þeirra og illa meðferð á Írlandi og að norrænir kaupmenn hafi orðið þess vísari, það er í rauninni ekkert ósennilegt.

Þá er að athuga frásögnina um ferð þeirra Þorfinns karlsefnis. Af því að jeg tel rjettast, að athuga fyrst, hvaða leið hann hafi farið og hvert, vil jeg taka það fyrst fyrir af frásögninni, sem kemur því beinlínis við, og er það aðallega upphaf hennar og endir.[2])

---

1) Meddelelser om Grönland, LVI., 183—84.

2) Hauksbók, bls. 439—42.

»Nú er at segja af Karlsefni, at hann fór suðr fyri landit, ok Snorri ok Bjarni, með sínu folki. Þeir fóru lengi ok allt þar til er þeir komu at á einni, er fell af landi ofan ok í vatn eitt til sjóvar. Eyrar váru þar miklar ok mátti eigi komast í ána utan at háflæðum. Þeir Karlsefni sigldu í ósinn ok kölluðu í Hópi. Þeir fundu þar á landi sjálfsána hveitiakra, þar sem lægðir váru, en vínvið allt þar sem holta vissi. Hverr lækr var þar fullr af fiskum. Þeir gerðu grafir þar sem mættist landit ok flóðit gekk ofast, ok þá er út fell sjórinn váru helgir fiskar í gröfunum. Þar var mikill fjöldi dýra á skóginum, meðr öllu móti. Þeir váru þar hálfan mánuð ok skemtaðu sér ok urðu við ekki varir. Fé sitt höfðu þeir með sér. Ok einn morgin snemma, er þeir lituðust um, sá þeir mikinn fjölda húðkeipa«. — Síðan segir af viðskiptum þeirra Þorfinns og þessara skrælingja, er þeir urðu varir. Af þeirri frásögn má sjá, að skrælingjar þessir koma ekki af landi ofan, heldur af sjó og róa jafnan. Er þeir fóru burt aptur í þetta fyrsta skipti, »reru« þeir »suðr fyri nesit«, og því næst segir svo: »Þeir Karlsefni höfðu gört búðir sínar upp frá vatninu og váru sumir skálarnir nær vatninu, en sumir firr. Nú váru þeir þar þann vetr. Þar kom enginn snjór ok allt gekk fé þeirra sjálfala fram. En er vára tók sá þeir einn morgin snemma, at fjöldi húðkeipa reri sunnan fyri nesit, svá mart sem kolum væri sát fyri hópit«. Tókst nú kaupstefna og gekk svo um hríð, en þá bar svo til, að griðungur, sem þeir Karlsefni áttu, hljóp úr skógi »ok gellr hátt. Þat fælast skrælingar ok hlaupa út á keipana ok reru síðan suðr fyri landit. Verðr þá ekki vart við þá þrjár vikur í samt. En er sjá stund var liðin sjá þeir fara sunnan mikinn fjölda skrælingaskipa, svá sem straumr stæði«. Sló nú í bardaga. Urðu þeir Karlsefni að »flýja ok hallda upp með ánni, því at þeim þótti lið skrælinga drífa at sér öllum megin, ok létta eigi fyrr en þeir koma til hamra nokkurra ok veittu þar viðrtöku harða«. — Síðan segir frá Freydísi og flótta skrælinga, og því

næst lýkur frásögninni þannig: »Þeir Karlsefni þóttust nú sjá, þótt þar væri landskostir góðir, at þar myndi jafnan ótti ok úfriðr á liggja af þeim er fyri bjuggu. Síðan bjuggust þeir á brottu ok ætluðu til síns lands ok sigldu norðr fyri landit. — — — Síðan fundu þeir Karlsefni nes eitt ok á fjölda dýra. Var nesit at sjá sem mykiskán væri, af því at dýrin lágu þar um nætrnar. Nú koma þeir Karlsefni aptr í Straumfjörð ok váru þar fyri alls gnóttir, þess er þeir þurftu at hafa«.

Á eptir þessari frásögn setur höfundurinn þessa athugasemd við hana: »Þat er sumra manna sögn, at þau Bjarni ok Guðríðr hafi þar eptir verit ok .X. tigir manna með þeim ok hafi eigi farit lengra. En þeir Karlsefni ok Snorri hafi suðr farit ok .XL. manna með þeim, ok hafi eigi lengr verit í Hópi en vart tvá mánuði ok hafi sama sumar aptr komit«. Þar næst hefst frásögnin um för Karlsefnis til að leita Þórhalls veiðimanns. Hefur hún verið athuguð í öðru sambandi hjer að framan. En í þessu sambandi verður að geta þess sjerstaklega, að hún bendir til þess, eins og Gustav Holm hefur tekið fram,[1]) að þeir Karlsefni hafi ekki verið heilan vetur og lengur í Hópi, heldur komið aptur, eins og sumir hafi sagt, eptir tæpra tveggja mánaða dvöl þar. Þar fyrir hefur alt, sem segir frá í sögunni um ferð þeirra þangað, getað átt sjer stað, nema að eins það er snertir vetrarvist þeirra þar.

Er jeg ræddi um Kjalarnes og Straumfjörð hjer að framan, ljet jeg í ljós, að Kjalarnes væri Gaspé-nes og að margt gæti bent til þess, að Straumfjörður væri Hitafjörður, eins og Halldór Hermannsson hefur haldið fram. Samkvæmt því verður að líta svo á frásögnina um för þeirra Karlsefnis úr Straumfirði »suðr fyri landit« og í Hóp, að þeir hafi farið suður fyrir Nýja-Skotland. Nú segir í frásögninni um ferð þeirra síðar, er þeir fóru að leita Þórhalls veiðimanns »norðr fyri Kjalarnes« og þá bar þar »fyri vestan fram«, að »þeir ætluðu

1) Meddelelser om Grönland, LIX., 33—34.

öll ein fjöll, þau er í Hópi váru ok þessi, er nú funnu þeir, ok þat stæðist mjök svá á, ok væri jafnlangt úr Straumfirði beggja vegna«.

Þetta síðasta virðist ekki geta komið vel heim við það, að Hitafjörður sje Straumfjörður. Allir geta sjeð það nú á landabrjefi af þessum slóðum, að miklu (ca. 300 km.) lengra er austur-, suður- og síðan vestur-fyrir Nýja-Skotland úr Hitafirði, heldur en austur-, norður- og síðan vestur-fyrir Gaspé-skaga, jafnvel þótt farið sje allan Lárentíusarfjörð á enda, en hins vegar stytt sjer leið austur-fyrir Nýja-Skotland sem mest má verða, með því að fara fyrir norðan Játvarðar-ey (Prince Edward island) og þræða gegnum Canso-sund, á milli meginlandsins og Bretonshöfðalands, en það munu þeir Karlsefni hafa kunnað að gera. — Er ekki að marka, þótt sjómenn, sem sóttu langt að á fiskimið við Nýfundna-land á síðari öldum, vissu lengi vel ekkert um þetta sund.[1]) — Hins vegar er svo að sjá af landabrjefum, að ekki sje lengra á milli Lárentíusarfjarðar og víkanna, sem skerast inn í Nýja-England, en röskir 300 km. Mun víða mega sjá sömu fjöllin, sína hlið þeirra úr hvorri áttinni, frá tveim stöðum með þeirri fjarlægð á milli, og þótt meiri sje, ef ekkert skyggir á. Virðist mjer enn fremur af landabrjefum sem þau fjöll kunni að vera í Norður-Maine, er sjá megi af nokkrum hæðum og í góðu skygni beggja vegna frá, einkum ef haldið er langt inn í landið.

Sje Hitafjörður Straumfjörður og þeir Karlsefni hafi farið þaðan fyrst suður-fyrir land til Nýja-Englands og síðan norður-fyrir land langt inn í Lárentíusarfjörð og ætlað svo, eins og segir í sögunni, að það stæðist mjög svo á, þá kemur það allvel heim og hefur sú ætlan þeirra verið rjett; en hin, að jafnlangt væri úr Straumfirði beggja vegna, hún hefur þá alls ekki getað komið heim. Bendir þetta til, að Straumfjörður hafi verið sunnar í austurströnd Nýju-Brúnsvíkur. Helztu firðirnir

1) Aarb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1887, bls. 333.

þar eru Miramichi-fjörður og Græni-fjörður, sem áður var nefndur. Miramichi-fjörður er nokkru sunnar en Hitafjörður; hann er minni og er breiður skagi í milli. Úr þessum firði virðist vera heldur styttra suður-fyrir og heldur lengra norður-fyrir en úr Hitafirði, en munurinn er vissulega svo lítill, að því fer mjög fjarri, að jafnlangt sje úr Miramichi-firði suður-fyrir og norðurfyrir. Annað er það sem gerir það ólíklegra, að Mira-




michi-fjörður sje Straumfjörður, og eru það eyjar þær fjórar, er liggja í boga fyrir fjarðarmynninu. — Grænifjörður er enn sunnar og nokkru austar. Hann getur ekki verið Straumfjörður, því að þar er um enga ey að ræða. — En milli Miramichi-fjarðar og Græna-fjarðar er vogskorið; ganga þar inn smáfirðir 2; er Cocagne-ey í minni hins nyrðra og er hann kendur við hana, en hinn heitir Shediac-fjörður og er Shediac-ey inni á honum. Vegalengdirnar úr þessum fjörðum suður-fyrir og norður-fyrir verða nokkru jafnari en úr Hitafirði, en að vísu ekki jafnlangar. Mun þó varla vera meiri

munur á en 80 km., sje Canso-sund farið og ekki langt suður-með Nýja-Englandi. — Shediac-fjörður gengur inn frá norðaustri og beygist til suðurs. Hann er um 11 km. langur. Hinn er minni, um 6 km. Er líklegt að allmiklir straumar sjeu um eyjarnar og landslag við þessa firði er sennilega fagurt, en að svo búnu skal því ekki haldið fast fram, að þessi fjörður annar hvor sje Straumfjörður, heldur að eins bent á, að þeir koma að sumu leyti vel heim við þessar ferðalýsingar og lýsing Straumfjarðar. — Að sönnu hefði mátt vænta þess, að Játvarðar-eyjar hefði verið getið; hún liggur hjer fyrir öllu landi; en landalýsingar eru ekki margar í sögunni, og að eins af því helzta og allra-næsta, sem fyrir augun bar.

Þá er að athuga, hvar sá staður muni vera, er þeir Karlsefni komu til og nefndu í Hópi. Þeir, sem um það mál hafa ritað, hafa flestir komist að þeirri niðurstöðu, að hann hafi verið einhvers staðar á Nýja-Englandi, við einhvern árósinn þar. Gustav Storm hjelt því fram í ritgerð sinni 1887, að Nýja-Skotland sje Vínland og Hóp sunnarlega á suðausturströnd þess.[1]) Áleit hann að hann hefði fengið sannanir fyrir því, að óræktaður vínviður og villihveiti hafi vaxið sunnan-til á Nýja-Skotlandi á 17. öld, er Norðurálfubúar settust þar að.[2]) Fjellust menn lengi á kenningar Storms um þetta atriði sem önnur í þessu máli. En árið 1910 ritaði grasafræðingurinn M. L. Fernald prófessor um þessar jurtategundir, sem fundist höfðu á Vínlandi og í Hópi, og kvað þessar jurtir, vínvið og villihveiti, ekki vera heimajurtir á Nýja-Skotlandi, að því er grasafræðingar vestra vissu bezt.[3]) Síðan munu menn hafa hallast að hinni eldri skoðuninni, að Vínland og Hóp sje sunnar, yfir-á Nýja-Englandi, nema Steensby, sem hjelt því fram, eins

1) Aarb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1887, bls. 334.

2) Aarb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1887, bls. 340—42.

3) M. L. Fernald, Notes on the Plants of Wineland the Good. »Rhodora«, Vol. 12. Boston 1910. — Tilvitnunin eftir Steensby, Meddel. om Grönland, LVI., bls. 159.

og áður er sagt, að Vínland Leifs og Hóp hafi verið lengst inni í Lárentíusarfirði. Gustav Holm fjellst á, að Hóp muni hafa verið þar, en Vínland Leifs áleit hann þar fyrir, að hafi verið á suðausturströnd Nýja-Englands. Hefur hann rjett að mæla í því efni, að það segir hvergi í frásögninni í Eiríks-sögu rauða um ferð þeirra Karlsefnis, að þeir hafi fundið þann sama stað, sem Leifur hafði fundið og síðan var nefnt Vínland (hið góða).[1]) Annað mál er það, að menn hafa eðlilega litið svo á, og sennilega þeir Karlsefni sjálfir, að þeir hafi komið til hins sama *lands* og Leifur, komizt til *Vínlands,* því að þeir fundu þau hjeruð eins og hann, þar sem voru hveitiakrar sjálfsánir og vínviður vaxinn.

Gathorne-Hardy bókavörður komst að þeirri niðurstöðu, að Straumfjörður hafi verið austurendinn á Langeyjarsundi og Hóp mynnið á Hudsons-fljóti eða í rauninni Efri-vík (Upper bay eða New York bay), þar sem nú er stórborgin Nýja-Jórvík.[2])

Halldór Hermannsson leitast ekki við í ritgerð sinni að benda á, hvar Hóp hafi verið, en lætur í ljósi, að það og Vínland hafi að sjálfsögðu verið sunnan norðurtakmarka þess svæðis, er vínviður hefur vaxið á óræktaður, en þau takmörk sjeu nú álitin vera um Passamaquoddy-fjörð;[3]) hann er á landamærum Nýju-Brúnsvíkur og Maine. Halldór setur nafnið Vínland (með ?) syðst á Nýja-Englandi á uppdrætti, sem fylgir ritgerð hans.

Eins og Gathorne-Hardy bendir á, er sumt í elztu lýsingunum af Efri-vík og mynni Hudsons-fljóts, sem kemur nokkurn veginn heim við lýsinguna af Hópi og landshögum þar. Það álít jeg helztu ólíkindin til þess að átt sje við Hudsons-fljót og Efri-vík í Eiríks-sögu,

---

1) Meddelelser om Grönland, LIX., bls. 32—37.

2) The Norse Discoverers of America, Oxford, 1921, bls. 276 o. s. frv.

3) The Geogr. Rev., vol. XVII., bls. 112.

að þau eru svo sunnarlega og jafnframt vestarlega, svo geysilangt út og suður frá suðvesturenda Nýja-Skotlands. Ekki gat á nokkurn hátt komið til mála, að jafna saman vegalengdinni frá nokkrum firði á austurströndum Nýju-Brúnsvíkur inn í Lárentíusarfjörð og vegalengdinni alla leið suður-fyrir Löngu-ey. Og því síður eru hjer nokkur þau fjöll milli Lárentíusarfjarðar og Löngu-eyjar, sem sjást frá þeim hvorum tveggja. Enn fremur þykir mjer innsiglingin í Efri-vík ekki verulega lík þeirri, sem sögð er hafa verið í Hópi: »eyrar váru þar miklar ok mátti eigi komast í ána utan at háflæðum«. Að sönnu telja þeir, sem lýsa innsiglingunni hjer á 16. og 17. öld, Efri-vík vera vatn, en fremur mun það óeðlilegt. En það út af fyrir sig kemur raunar ekki illa heim við það í lýsingunni í sögunni, að áin er sögð falla »í vatn eitt til sjóvar«, og að þeir Karlsefni kölluðu staðinn í Hópi; því að þeir virðast hafa átt við þetta sama vatn, sem áin fjell í til sjóvar, með þessu nafni, og Efri-vík virðist engu síður geta kallast hóp en vatn. En þótt menn skilji orð sögunnar: »Þeir Karlsefni sigldu í ósinn og kölluðu í Hópi«, þannig, að þeir hafi ekki nefnt vatnið Hóp, heldur ósinn fyrir innan eyrarnar, þá kemur það ekki heldur illa heim við landslagið hjá mynni Hudsons-fljóts; Neðri-vík (Lower bay) er að nokkru leyti innilukt af tanganum Sandakrók (Sandy hook) að sunnan, en að austanverðu af grynningum fram-af honum; eru nú 4 djúpir skipaskurðir gegnum þær. Þareð grynningar þessar koma ekki upp-úr sjó um fjöru, geta þær að sönnu ekki kallast eyrar, en þær kunna að hafa lækkað síðan árið 1004 og verið upp-úr um fjöru þá. Síðustu öldina hefur borið á því, að landið lækkar í Nýju Jórvík, og hinu sama hefur verið veitt eptirtekt víðar á austurströnd Norður-Ameríku.[1])

Áður en Gathorne-Hardy kom fram með þessa kenning um að Hóp hafi verið í Nýju-Jórvík, höfðu

1) Babcock, Early Norse visits to North America, bls. 137.

margir lærðir menn tilnefnt aðra staði. Skal jeg að eins geta þess, að E. N. Horsford prófessor og síðan Cornelia dóttir hans hjeldu því fram, að Hóp hafi verið Back-bay hjá Boston, við Karlsá (Charles river). Þóttust þau finna þar, við Cambridge, rústir o. fl., og fjekk Cornelia Horsford þá dr. Valtý Guðmundsson og Þorstein Erlingsson til að rannsaka þetta sumarið 1896. Töldu þeir rúst þá, er þeir rannsökuðu, vera mjög líka íslenzkum rústum, en fundu í henni leirkerabrot frá síðari öldum. Skutu þeir því þá undir álit fræðimanna vestra, hvort rúst þessi myndi ekki vera eptir landnema frá síðari tímum.«[1])

William H. Babcock lögfræðingur hefur ritað merka bók um Vínlandsferðirnar.[2]) Hann bendir á það, að síðan á dögum Þorfinns karlsefnis hafi landið lækkað mikið á þessum slóðum, og að víkin, þar sem þau Horsford-feðgin álitu verið hafa Hóp, hafi þá ekki verið til.[3]) Sjálfur hallast hann helzt að því, að Hóp hafi verið þar sem nú heitir Mount Hope bay, innan-við Rhode-ey, í fylkinu, sem við hana er kent. Er vík þessi nokkurs konar hóp; fellur Taunton-á í hana af landi ofan, en ósar 2 eru til sjávar; kallast annar Sakonnet-á; er hann austan-við eyna og ætlar Babcock að sá ós hafi jafnvel myndast á umliðnum öldum við landsigið. Hinn ósinn er dýpri og nefnist Bristol-þrengslin (Bristol Narrows). Þau eru norðvestan-við eyna, út í Eystra-sund (Eastern Channel) og Narragansett-fjörð. Eyrar höfðu verið hjer í boga um þvert aðal-sundið, þar sem nú eru grynningar. Babcock bendir einnig á, að aðrir staðhættir hjer komi heim við söguna, hamrar og nes. C. C. Rafn hjelt fram sömu skoðun löngu áður í hinu mikla riti sínu, Antiquitates Americanæ, Höfn, 1837. — Það er skrýtið, að nafnið á þessum stað er eins,

1) Cornelia Horsford, Vinland and its ruins. Appleton's Popular Science Monthly (for Dec.), 1899.

2) Early Norse visits to North America. By William H. Babcock. Washington, 1913.

3) Early Norse visits to North America, bls. 136.

Hope (frb. Hóp). Mount Hope heitir hæðin, sem þessi vík eða hóp er kent við, en hvað er þetta nafn, Hope, sem hæðin hefur verið kend við? — W. H. Munro kom fram með þá skýring (í History of Bristol), að nokkrir af förunautum Þorfinns hafi orðið eptir þarna er hann fór og kent skrælingjunum (indíánum) nafnið; síðan hafi það haldist við. Það myndi nú örðugt að sanna, en hins vegar mun nafnið ekki hafa verið skýrt til fullnustu enn.

Ekki var Babcock fullviss um að Hóp hafi verið (í) Hope-hæðar-vík, þótti alt að því eins sennilegt, að það hafi verið norðan-við skagann, sem hún gengur inn í að sunnan; þó áleit hann það hafa verið sunnar en í Maine. Skaginn endar á Þorskanesi (Cape Cod); krókbeygist í norður. Norðan við hann er Boston. Mjer þykir fremur ólíklegt, að þeir Þorfinnur hafi farið suðurfyrir þennan skaga og sje ekkert, sem mælir á móti því, að Hóp hafi verið annars staðar við ströndina á Maine. Ætla jeg að það kunni að vera ófundið enn.

Steensby mun hafa haft rjett fyrir sjer í því, að þeir Karlsefni hafi jafnan siglt með ströndum fram eptir að þeir höfðu fundið Helluland. Þegar þeir hafa komið suður-fyrir land úr Straumfirði til að leita Vínlands, hafa þeir einnig farið meðfram landi. Þegar þeir hafa verið komnir fyrir suðvesturendann á Nýja-Skotlandi, hafa þeir ekki sjeð neitt land framundan í þá átt og hafa ekki getað vitað, að það var þar fyrir stafni langt undan. Þeir hafa því sennilega leitað vestur- og norður-með Nýja-Skotlandi, unz þeir sáu Stóru-Mananey eða landið að norðanverðu við Fundy-fjörð (Bay of Fundy). Nokkuð kunna þeir að hafa haldið suðvesturmeð því landi, þ. e. Maine, en líklega ekki langt, áður en þeir gengu á land í Hópi. Þar fundu þeir þegar það sem þeir leituðu að: *Vínland.* Sannanirnar fyrir því voru fundnar, sjálfsánir hveitiakrar og vínviður.

Nú hef jeg rætt nokkuð um, hvaða leið þeir Karlsefni hafi farið og hvert. Vil jeg nú athuga það sem sagt er um dvölina í Hópi, hvað þeir fundu þar og

hvað fyrir bar. Um alt það hefur verið ritað mjög mikið, bæði sjerstakar greinir um sum atriði og svo allgreini-




Leið þeirra Þorfinns Karlsefnis.

lega um þau öll eða flest í bókum og ritgerðum um Vínlandsferðirnar. Skal fátt eitt til tínt af því hjer.

Hjer að framan gat jeg lýsingar Jacques Cartiers af Hitafirði. Hann skýrir frá því, að þar vaxi í hverju rjóðri í skógunum villikorn; segir hann axið á stöngunum líkjast rúgaxi, en kjarnana kveður hann líka höfrum. Á hann eflaust við sömu korntegund og þeir Leifur og Karlsefni fundu og nefndu hveiti. Hún er alþekt í Norður-Ameríku og nefnist þar villirís (wild rice; einnig Canadian rice og Tuscarora rice); sumir nefna hana vatnshafra (water-oats) og latneska grasafræðisnafnið á henni er *zizania aquatica.*[1]) Indíánar nota þessa korntegund mjög mikið til matar.[2]) Hún vex, eins og segir í sögunni, þar sem lægðir eru og mjög blautlent, jafnvel í tjörnum, og eru víða miklar breiður af henni, svo sem akrar á að líta.

Ýmsir þeirra Norðurálfumanna, er könnuðu Norður-Ameríku fyrstir, gátu um vínviðinn, sem þeir fundu þar. Eru í Ameríku ýmsar tegundir vínviðar, sem vaxa þar óræktaðar og hafa á síðari öldum margar verið teknar til ræktunar. Grasafræðingar telja fjórar óræktaðar aðaltegundir: vitis labrusca, v. æstivalis, v. cordifolia og v. vulpina. Vínberin af fyrst-nefndu og síðastnefndu tegundinni nefna menn vestra fox grapes (refavínber) og munu þeir Leifur og Þorfinnur hafa fundið þær aðallega. Nú er búið að uppræta villi-vínvið að miklu leyti, en þó finnst hann mjög víða enn.[3]) Babcock tekur það fram, að villi-vínber finnist nú venjulega á hæðum og holtum, og að fyrir fám árum hafi verið tínt mikið af þeim til notkunar í heimahúsum.

---

1) Sjá um hana grein eptir dr. F. C. Schübeler prófessor í Forhandlinger i Vidensk.-selsk. i Christiania 1858, bls. 21—30.

2) Dr. Albert Ernest Jenks hefur ritað um hana stóra og merkilega ritgerð í 19th Annual Report of the Bureau of American Ethnology, bls. 1013—1137, The wild rice gatherers of the upper lakes.

3) Um þetta mál alt hefur Babcock ritað ágætlega í bók sína, Early Norse visits, bls. 90—94. Sjá enn fremur s. v. *grape* í The Americ. Cyclopædia, Vol. VIII., N. Y., 1881.

Svo segir, ag »hverr lækr var þar fullr af fiskum«, í Hópi. Hefur þetta varla þótt gegna neinni furðu, en víst var þess getandi meðal annara gæða þessa góða lands. — Hitt sýnist furðulegra, hversu þeir öfluðu heilagfiskis: »Þeir gerðu grafir þar sem mættist landit (og sjórinn) ok flóðit gekk ofast, ok þá er út fell sjórinn váru helgir fiskar í gröfunum«. En svo undarleg sem þessi lúðuveiði kann að virðast, þá mun sagan þó sönn. W. H. Munro segir í sögu horgarinnar Bristol,[1]) að sams konar veiðiaðferð sje höfð þar enn. — Í Hópi »var mikill fjöldi dýra á skóginum meðr öllu móti«. Dýr er hjer sömu merkingar og *dyr* á dönsku og *deer* á ensku; táknar orðið ýmsar tegundir dýra af hjartakyni. Er það alkunnugt, að hvarvetna á þessum slóðum, sem hjer getur verið um að ræða, var fyrrum mjög mikið af dýrum, og er töluvert sums staðar enn. Á Nýfundna-landi kvað vera mikið um hinn svo-kallaða »rauða hjört«; her Storm[2]) annan höfund fyrir því, að nokkrum árum áður hafi enskur veiðimannahópur lagt 2000 dýr að velli á einu einasta sumri.

Í sögunni er sagt allgreinilega frá viðskiptum þeirra Karlefnis við Skræling(j)a og árás þeirra. Er sú frásögn svo löng, að ekki verður tekin hjer öll, en vísað á söguna (Hauksbók, hls. 439—41). En jeg vil geta nokkurra atriða hjer sjerstaklega.

Menn þeir, er fundu þá Karlsefni í Hópi, eru nefndir í sögunni skrælingar. — Nýrri mynd af sama orði, sem heiti á Eskimóum, er skrælingjar, en orðið skrælingur er þó til í málinu, shr. enn fremur orðin skræla, skrælna og skræl-þur. Ari fróði hefur eflaust ritað Íslendingahók áður en Eiríks saga rauða var samin. Hann segir að Grænlendingar kalli »þá þjóð, er Vínland hefir bygt«, Skrælinga, og að það megi skilja af þeim keiplahrotum og steinsmiði, sem landnámsmenn á Grænlandi fundu þar, »at þar hafði þess konar þjóð farit«. Þegar þeir

---

1) History of Bristol, bls. 22; — eptir Babcock.
2) Aarb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1887, bls. 337.

Þorfinnur voru á Grænlandi, höfðu menn enn ekki sjeð þessa eða aðra þess konar þjóð þar og ekki enn er Ari ritaði þetta, enda segir hann ekki beinlínis, að Grænlendingar kalli Eskimóa Skrælinga, heldur þá menn, sem þeir Þorfinnur höfðu fundið á Vínlandi. Annað mál er það, að þegar Grænlendingar síðar sáu Eskimóa og urðu fyrir ofsóknum þeirra, þá kölluðu þeir þá enn þessu gamla heiti, sem þeir höfðu gefið þeim fyrirfram, og sem Eskimóar hafa hjer á landi enn í dag.

En var þetta rjett ályktað, að sams konar þjóð hefði farið um í Grænlandi og sú, »er Vínland hefir bygt«, og Grænlendingar kölluðu á 12. öld Skrælinga? Um það hafa menn deilt og munu nú flestir á þeirri skoðun, að þjóðfræðilega talað sje þetta ekki alls kostar rjett. Sú þjóð, er farið hafði í Grænlandi áður en Eiríkur rauði nam þar land, hefur eflaust verið Eskimóar, sem síðan voru einir um að bera þjóðarheitið Skrælingar. En sú þjóð, er þeim Þorfinni lenti saman við í Hópi, hefur eflaust verið eins konar Indíánar. Þeir, sem um þetta hafa ritað einna greinilegast í þessu sambandi, eru Gustav Storm, í fyr-nefndri ritgerð,[1]) og W. H. Babcock í bók sinni (bls. 139—58), og eru þeir báðir á þessari skoðun.

En var það rangt, að nefna þessar þjóðir sama nafni eða líta svo á, að þær væru sams konar?

Mag. K. Birket-Smith byrjar þannig grein sína um Indíána í Salmonsens Konversationleksikon: »*Indianere*, det almindelig brugte Navn for de oprindelige Beboere af Amerika, ofte med Udelukkelse af Eskimoerne. En skarp Sondring mellem Indianere og Eskimoer er dog kunstig«.[2]) Þegar vísindamenn nú á dögum líta þannig á, virðist það ekki hafa verið alveg fjarri lagi, að kalla sama nafni þann þjóðflokk, sem var á Vínlandi, og þann sem verið hafði á Grænlandi. Enda voru þeir tveir þjóðflokkar vissulega ekki frábrugðnari hvor öðr-

1) Aarb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1887, bls. 346—55.

2) Sjá Salmonsens Konv.-leks., 2. Udg., XII. Bind, bls. 276.

um en ýmsir þeir þjóðflokkar aðrir eru, sem teljast til Indíána. Grænlenzka og íslenzka heitið Skræling(j)ar á þessum þjóðflokkum er miklu eldra meðal siðaðra þjóða og engu órjettara en nafnið Indíánar, sem er sprottið af þeim misskilningi, að Ameríka væri Indland (India).

Þeir Þorfinnur urðu fleiri villimanna varir í ferð sinni en þessara manna í Hópi. Er ekki víst að Hópmenn hafi fyrstir hlotið heitið Skræling(j)ar. Skal vikið að því síðar.

Á dögum Þorfinns Karlsefnis hafa að sjálfsögðu verið margir Skrælingja- eða Indíána-þjóðflokkar, ekki síður en nú. Þeir eru nefndir hver sínu nafni og er óvíst, hvað sá þjóðflokkur heitir nú, sem var í Hópi sumarið 1004. Storm áleit það hafa verið Micmac-indíána. Þeim er lýst á Nýja-Skotlandi sex öldum síðar og að sumu leyti á líkan hátt. Babcock álítur að um árið 1000 hafi verið Alconquiánar á Nýja-Englandi.

Hóp-skrælingjar eru sagðir hafa komið af sjó, róandi á húðkeipum. Þeir fara margir saman. »Þeir váru svartir[1]) menn ok illi(li)gir og höfðu illt hár á höfði. Þeir váru mjök eygðir[2]) ok breiðir í kinnum«. Þessi

---

1) »Smáir« í handr. 557 4to mun afbökun.

2) Í Grænlendingaþætti er sagt nokkuð á annan veg frá þessum mönnum, eins og mörgu öðru. Þar er sagt að kona ein, sem virðist eptir sögunni eiga að vera eins konar hamingja eins af skrælingjunum, hafi verið »mjök eygð«. Eru þetta leifar af endurminningunum um hinar upprunalegu, sönnu sagnir, sem eru í sögunni. Kona þessi birtist mjög skamma stund Guðríði Þorbjarnardóttur, rjett áður en skrælinginn var veginn. »Hon gekk þar at er Guðríðr sat ok mælti: »Hvat heitir þú?«, segir hon. »Ek heiti Guðríðr; eðr hvert er þitt heiti?« »Ek heiti Guðríðr«, segir hon. — Af þessu hafa sumir litið svo á, að hjer sje að ræða um nokkurs konar tvífarasögu. Einn höfundur hefir tekið þetta svo, að hjer hafi verið eða átt að hafa verið innlend kona norræn, nafna Guðríðar. Sögumaður hefur sýnilega litið á þetta sem dularfullan fyrirburð og svo sem hann lýsir búningi þessarar dularfullu konu og hefur eptir henni al-norræn orð, hefur hann gefið til kynna að hún hafi verið norræn, og er það í frekara lagi klaufalegt eins og fleira í þættinum. En

lýsing hefur ekki þótt koma alveg heim við Indíána, einkum hefur það verið vefengt, að þeir Hóp-menn hafi róið á húðkeipum og verið mjög eygðir. Babcock hefur bent á það í bók sinni (bls. 153—54), að Indíánar hafi stundum notað húðkeipa, eða sumir flokkar þeirra; ber hann ýmsa rithöfunda frá fyrri og síðari tímum fyrir því. Auðvitað er ekki um »kajaka« (eins-manns-húðkeipa) að ræða í sögunni, heldur opin margra-manna-för.

Einn af fyrstu landkönnuðum, sem fundu Norður-Ameríku, var Giovanni da Verrazzano. Honum hefur verið eignað brjef, dags. 8. júlí 1524, með skýrslu um ferð meðfram austurströndinni. Hann lýsir einum þjóðflokknum, er hann sá á þessum slóðum, þannig, að þeir menn hafi haft svart hár og þykt, ekki mjög langt, bundið saman á hnakkanum; honum þykir það helzt að útliti þeirra, hversu breiðleitir þeir hafi verið, þó ekki allir, sumir voru skarpleitari og með stór, dökk augu. Þykir mjer þessi lýsing koma allvel heim við lýsinguna í sögunni. Fleiri rithöfundar geta hins sama, að þjóðflokkar, sem þarna hafi búið, sje svartleitir, breiðleitir og stóreygðir.

Þá þykir það koma vel heim við það, sem alkunnugt er um Indíána, að sagan segir að þeir hafi komið að verzla við þá Þorfinn um vorið (eða snemma sumars), hafi haft grávöru og verið glysgjarnir, og lítt hagsýnir í viðskiptum: »Vildi þat folk helzt hafa rautt skrúð. Þeir höfðu móti gefa skinnavöru ok algrá skinn. Þeir vildu ok kaupa sverð ok spjót, en þat bönnuðu þeir Karlsefni ok Snorri. Þeir Skrælingar tóku spannarlangt, rautt skrúð fyri úfölvan belg ok bundu um höfuð

---

þar sem stendur í handritinu, að hún hafi sagst heita Guðríður, þá álít jeg að þar sje að eins um ritvillu að ræða, endurtekning af ógáti á svari Guðríðar sjálfrar. Slíkar villur, sprottnar af vangá lesara og afritara (nú einkum setjara) eru mjög algengar. Nafn hinnar dularfullu veru hefur sennilega átt að vera annað, en þar sem öll þessi kynjasaga mun tilbúningur einn, þá skiptir litlu, þótt nú verði ekki vitað hið upprunalega nafn.

sér. Gekk svá kaupstefna þeirra um hríð. Þá tók at fættast skrúðit með þeim Karlsefni ok skáru þeir þá svá smátt í sundr, at eigi var breiðara en þvers fingrar ok gáfu Skrælingar þó jafnmikit fyri sem áðr eða meira«.

Það horfðist ekki illa á, að stofna til nýlendu í Hópi, þar sem alt fór svo friðsamlega fram og landið var svo dásamlegt. — En öll þessi dýrð tók brátt enda og það með skelfingu: »Þat bar til, at griðungr hljóp úr skógi, er þeir Karlsefni áttu, ok gellr hátt. Þat fælast Skrælingar ok hlaupa út á keipana ok reru síðan suðr fyri landit«.

Þetta ógæfusamlega atvik, þetta ófriðlega nauts-öskur, varð til að rjúfa friðinn í Hópi — og seinka landnámi Norðurálfu-manna í Ameríku um 5 aldir.

Að villimennirnir í Hópi fældust svo ákaflega við að sjá og heyra til griðungsins, sýnir að þeir hafa ekki þekt nautgripi. Þetta hefur nú sumum þótt koma illa heim við það, að vísundar voru fyrrum í stórhópum um Norður-Ameríku og hefur orðið vart alt fram á síðustu aldir nærri austurströndinni. En ekki munu þó fara sögur af því, að þeir hafi sjezt á Nýja-Englandi nokkru sinni og mun Babcock hafa rjett fyrir sjer í því, að þeir hafi að líkindum aldrei farið norður fyrir Hudsons-fljót.

Sagan um griðunginn er mjög sennileg. Mörg dæmi eru til þess, að huglitlum mönnum hefur staðið mikill ótti af griðungum, ekki sízt, ef þeir ljetu ófriðlega. Þeir Þorfinnur hafa að líkindum ekki gert neitt til að draga úr ótta Skrælingja, heldur sýnt þeim jafnvel háð og fyrirlitning vegna hræðslu þeirra. Í annan stað hafði ekki framkoma þeirra við Skrælingja verið á neinn veg svo, að Skrælingjar ættu þeim nokkuð gott upp að unna.

Eptir 3 vikur komu Skrælingjar aptur og rjeðust á þá Karlsefni með ógrynni liðs. »Varð þar skothríð hörð, því at skrælingar höfðu valslöngur. Þat sá þeir Karlsefni, at skrælingar færðu upp á stöng knött stundarmikinn, því nær til at jafna sem sauðarvömb, ok helzt

blán at lit, ok fleygðu af stönginni upp á landit yfir lið þeirra Karlsefnis, ok ljet illiliga viðr þar sem niðr kom«.

Engin líkindi eru til, að þessir Skrælingjar hafi þekt járn nje haft nokkur vopn úr málmi, og er það ekkert einkennilegt, jafnvel þótt menningarþjóðir þær er bjuggu miklu sunnar í vesturálfunni þektu málma þá, gull og eir. Skrælingjar hafa slöngur[1]) að vopni; hafa slöngvað með þeim steinum. Þeir felldu 2 af mönnum Karlsefnis og Snorra, Þorbrand, son Snorra,[2]) og annan mann, ónafngreindan. Margir hafa álitið, að Indíánar í Ameríku hafi ekki haft slöngur. En Babcock sýnir fram á, að Indíánar á Nýfundna-landi hafi haft slöngur 1494, og hann telur ekki ólíklegt, að þeir hafi verið aðkomnir Micmac-Indíánar. Hafði og annar höfundur[3]) fullyrt það áður, að Micmac-Indíánar hafi notað slöngur. Án efa voru þær mjög útbreiddar fyr á öldum meðal Indíána víðs vegar um álfuna.[4])

En hvað var þessi stundarmikli knöttur, sem Skrælingjar fleygðu af stöng »yfir lið þeirra Karlsefnis ok lét illilega viðr þar sem niðr kom«? — H. R. Schoolcraft, sem ritað hefur afar-stórt verk um Indíána, hefur

1) Hjer er vafalaust um handslöngur að ræða, en ekki valslöngur með þeirri gerð, er tíðkaðist á 13. öld á Norðurlöndum. Um þær sjá Hj. Falk, Altnordische Waffenkunde, Christiania, 1914, bls. 193—94.

2) Í Eyrbyggja-sögu hefir snemma slæðst inn sú villa í sum handritin, að Snorri hafi fallið sjálfur. Af frásögninni þar má þó sjá, að upprunalega hafi þar verið farið rjett með: »Þá fell þar Snorri Þorbrandsson, enn röskvasti maðr«. Svo hefur höfundur sögunnar ekki ritað hjer eptir að vera búinn að segja svo frá Snorra sem hann hefur áður gert í sögunni. En að hann hafi komizt svo að orði um son Snorra, þegar hann getur hans í fyrsta og síðasta sinn, það er alls kostar eðlilegt. — Tvær af skriptir af bezta skinnhandritinu, Vatnshyrnu, sem brann í Höfn 1728, hafa hjer rjettilega »Þorbrandr son Snorra«; tel jeg ósannað mál, að svo hafi ekki staðið í Vatnshyrnu.

3) John Fiske, í bók sinni The discovery of America, Boston & New York, 1893.

4) Sbr. rit Babcocks, bls. 154—57.

gefið nokkra skýring á því. Hann segir, að það sje enn í minnum haft og fornum frásögnum meðal Indiána, að Ojibwa-Indiánar, sem voru bæði grimmir og herskáir, hafi notað í bardögum slíka risakylfu, eins og hann nefnir þetta. Var hún þannig útbúin, að dýrshúð var vafið um stóran og þungan stein og fest síðan við stangarendann. Var þessu sveiflað af nokkrum mönnum og má geta nærri, að ógott hefur verið að verða fyrir því. — Í sögunni er knettinum fleygt af stönginni. Sennilega hefur verið steinn eða steinar í honum og skorpin dýrshúð um. Að hann ljet svo illilega við er hann kom niður, bendir á að hann hafi verið þaninn, blásinn upp sem blaðra. Virðist hjer fremur að ræða um risaslöngu en risakylfu, og knötturinn, sem slöngvað var, þannig útbúinn, að hann skyldi fremur hræða en meiða óvinina. Hvorugt »vopnið« mun hafa náð mikilli útbreiðslu og þessi vígahnöttur hefur líklega horfið bráðlega af himni hernaðarlistar Skrælingja.

Síðan segir frá ótta og flótta þeirra Þorfinns, eggjan Freydísar, dauða Þorbrands Snorrasonar og hversu Freydís sneri Skrælingjum á flótta. Er sú frásögn undarleg og ótrúleg: »Freydís vildi fylgja þeim (Karlsefni) ok varð seinni, því at hún var eigi heil. Gekk hún þó eptir þeim í skóginn. En skrælingar sækja at henni. Hún fann fyri sér mann dauðan. Þar var Þorbrandr Snorrason ok stóð hellusteinn í höfði honum. Sverðit lá bert í hjá honum. Tók hún þat upp ok býst at verja sik. Þá komu skrælingar at henni. Hún dró þá út brjóstit undan klæðunum ok slettir á beru sverðinu. Við þetta óttast skrælingar og hljópu undan á skip sín ok reru í brott. Þeir Karlsefni finna hana ok lofa happ hennar«. — Höfundurinn lætur þannig í ljós, að þeir Karlsefni hafi skoðað þetta happ og ekki afreksverk. Hugdirfð og hreysti Freydísar þarf enga skýring, og ægileg hefur hún eflaust verið, þrungin af reiði og ofsa, með nakið sverð í sinni hraustu hendi. Með því að draga út brjóstið og sletta á það sverðinu, hefur hún óefað viljað gefa til kynna það tvent, að hún væri kona,

en ekki karl, og að hún myndi óhrædd verjast með hinu bitra vopni, ef ráðist yrði á hana. En þetta alt nægir ekki til að skýra ótta og flótta Skrælingja; það nægir að eins til að skýra, hvers vegna þeir unnu Freydísi ekki mein.

Hjer kann að vera um misskilning að ræða á ástæðunni til burtferðar Skrælingja. Ef til vill hefur þeim fundizt, að nú hefðu þeir nóg að gert, hefnt rækilega þeirrar illu meðferðar, er þeim fannst þeir hafa orðið fyrir áður. Jafnframt höfðu þeir sjeð, að þessir nýju gestir í landinu gátu orðið þeim skeinuhættir: »Tveir menn fellu af Karlsefni, en fjöldi af skrælingum«. »Flótti« þeirra til skipa var ef til vill enginn verulegur flótti, heldur skjótleg brottferð.

En því má ekki gleyma, að hjer er um Skrælingja, Indíána, að ræða. Þeir kvað vera ótrauðari til aðsóknar en til að neyta unnins sigurs. Þeir hafa sennilega verið fullir hjátrúar og hræddir við alt, sem þeir skildu ekki og könnuðust ekki við. Þeir kunna að hafa skilið Freydísi og það, að hún sletti sverðinu á bert brjóst sjer, á annan hátt en hún eða þeir Karlsefni höfðu hugmynd um, og það virðist jafnvel eiga að skilja frásögnina þannig, að þeir Karlsefni hafi litið svo á; því lofa þeir »happ« hennar. En það er erfitt að gera sjer í hugarlund hina sönnu ástæðu til ótta Skrælingja og flótta þeirra; því að það, að Freydís hefur haft sterk áhrif á þá með ofsa sínum og merki því, sem hún gaf með sverðinu og sem þeim ef til vill hefur verið óskiljanlegt, það hvort tveggja virðist tæplega nóg ástæða.

»Þeir Karlsefni þóttust nú sjá, þótt þar væri landskostir góðir, at þar myndi jafnan ótti ok úfriðr á liggja af þeim er fyri bjuggu«. Þetta var ástæðan til þess, að ekkert varð af nýlendustofnun í þessu góða landi í þetta sinn.

Landshagir voru að öllu leyti betri á Grænlandi þá en nú, og landrými mikið. Sama máli var að gegna á Íslandi, þótt þar hefði þá bygð verið miklu lengur. Frá móðurlandinu, Noregi, höfðu orðið miklir mann-

flutningar á síðustu öldum, svo að nú mun þar hafa verið nóg landrými einnig. Sama máli hefur verið að gegna í Svíaríki, en í Danmörku og sunnar í löndum voru landsgæði svo mikil, að skiljanlegt er, að ekki yrðu þá landaleitir og nýlendustofnanir þaðan, jafnvel þótt tíðindin um fund hins nýja, góða lands spyrðust brátt þangað, svo sem sjá má af Lýsing Norðurlanda eptir mag. Adam frá Brimum. Hann var við hirð Sveins konungs Úlfssonar um 1070; sagði konungur honum frá Vínlandi og kvað þar vínvið vaxinn og sjálfsána hveitiakra. Sönnuðu Danir þetta með konungi sínum, en þó verður þess ekki vart, að þessu hafi verið trúað eða tekið mark á því úti í löndum. Konungur og menn hans hafa eflaust haft fyrir sjer sagnir íslenzkra manna, sannorðra og áreiðanlegra, sem þeir hafa trúað fyllilega, ef til vill gamla menn, sem sjálfir höfðu farið með Þorfinni til Vínlands á unga-aldri, eða aðra þeim nákomna eða nákunnuga.[1]) En þó að Norðmenn og Danir

1) Í grein um Vínlandsferðirnar í Tímariti Þjóðræknisfél. Íslend., I. 25—65, eptir Halldór Hermannsson prófessor, bendir höf. á, að heimildarmaðurinn að þessari frásögn konungs kunni að hafa verið Gellir Þorkelsson (og Guðrúnar Ósvífrsdóttur). Segir í Laxdæla-sögu, að hann hafi tekið sótt í Danmörku, er hann var kominn þangað á heimleið frá Róm, hafi legið mjög lengi og síðan andazt þar, líklega í Hróarskeldu, því að þar er hann sagður hvíla. Segir í mörgum annálum, að hann hafi dáið 1073, og í Konungs-annál segir, að hann hafi orðið 65 ára og þá fæddur 1008; er það sennilegast; en eptir sögunni var hann fæddur 1012; hún segir að hann hafi verið 12 vetra er hann fór fyrst utan með föður sínum; en tæpum 2 árum síðar druknaði Þorkell, og segir í annálum að það hafi orðið 1026. En sagan er óáreiðanleg um þetta og kemur ekki heim við önnur betri heimildarrit. Gellir var faðir þeirra Þorgils, föður Ara fróða, og Þorkels, sem Ari segir hafi sagt sjer af byggingu Grænlands eptir öðrum manni, er sjálfur hafði fylgt Eiríki rauða þangað. Sá hinn sami hefur eflaust sagt Þorkeli af Vínlandsferðunum, og Gelli, föður hans, því verið vel kunnugt um þær af sögusögn þessa manns. En Adam frá Brimum virðist hafa ritað frásagnir sínar eptir Sveini konungi um 1070, að minnsta kosti fyrir 1072, og er ólíklegt, eptir Laxdæla-sögu, að Gellir hafi þá verið kominn

hafi vitað um Vínlandsferð þeirra Þorfinns, hafa þeir enga tilraun gert, svo kunnugt sje, til að fara þangað og setjast þar að. Er stundir liðu, munu þeir einnig hafa gleymt Vínlandi eða hætt að trúa á tilveru þess, enda höfðu þeir löngum um annað að hugsa heima fyrir. Íslendingar kunnu og skrásettu frásagnirnar um fund Leifs og ferð Þorfinns, en þær gerðu ekki öðrum mönnum hjer fýsilegra að fara til Vínlands en þeim Leifi og Þorfinni hafði verið að setjast þar að. Grænlendingar mundu einnig lengi, og ef til vill ætíð, þessar frægðarfarir og þeir gerðu, tvisvar að minnsta kosti, tilraunir til að finna þau lönd aptur, er þeir Þorfinnur höfðu komið til. Er svo sagt í mörgum fornum, íslenzkum annálum, að Eiríkur upsi Gnúpsson, Grænlendingabyskup, hafi farið að leita Vínlands árið 1121. Segir ekki meira af þeirri ferð og hefur Eiríkur víst

---

frá Róm til Danmerkur. Hann hefur að líkindum ekki komið sunnan fyr en eptir dvöl Adams með Sveini konungi, enda mun það hvergi sagt, að Gellir hafi gengið fyrir Svein konung. — Annar maður er miklu líklegri til að hafa frætt Svein konung og hirðmenn hans um Vínland, nefnilega Auðunn vestfirzki, sem þátturinn góði er af (í Morkinskinnu og Flateyjarbók). Auðunn fór af Vestfjörðum til Noregs og þaðan næsta sumar til Grænlands; þar var hann einn vetur, en fór aptur næsta sumar til Noregs og þaðan til Danmerkur. Þar var hann þá með Sveini konungi nokkra stund og gekk síðan suður. Að páskum næsta vor kom hann sunnan aptur og var um hríð með hirðinni. »Auðunn kunni vel at hafa sik í fjölmenni; var hann maðr ótyrrinn, orðgætinn ok ekki margtalaðr; líkaði öllum mönnum vel við hann. Sveinn konungr var ok hinn blíðasti við hann«. Er á leið vorið, fór hann til Noregs, gekk þar fyrir Harald konung harðráða, og um sumarið fór hann aptur heim til Íslands. För hans verður ef til vill árfærð með nokkurri nákvæmni; hún hefur eptir orðum Haralds konungs í þættinum orðið fyrir 1064, er friður komst á með þeim Haraldi og Sveini, þ. e. nokkrum árum áður en Adam var með Sveini konungi í Danmörku. Er óefandi að Sveinn konungur hefur spurt Auðun margs af Grænlandi, og það því fremur, þar sem hann hefur mátt treysta sannsögli hans. En hjá því hefur varla farið, að Auðunn hefur kunnað að segja frá Vínlandsferðunum, jafnvel eptir þeim sumum, sem sjálfir höfðu farið til Vínlands með Leifi og Þorfinni.

aldrei komið aptur. Þrem árum síðar var vígður annar byskup til Grænlands. — Löngu síðar, árið 1347, varð hafreka til Íslands lítið, grænlenzkt skip, með 17 eða 18 mönnum á, sem farið hafði til Marklands. Segir frá því í nokkrum íslenzkum annálum, og að það hafi farið hjeðan til Noregs næsta sumar. Að líkindum hefur það átt að sækja húsavið. Er óvíst hvar það hafi komið að landi, þar er þeir nefndu Markland.

Skal nú vikið að Eiríkssögu aptur, frásögninni um leit þeirra Þorfinns að Þórhalli veiðimanni. Hefur hún áður verið rakin nokkuð hjer að framan, í sambandi við Kjalarnes, og talið líklegt, að þeir Þorfinnur hafi farið norður um Gaspé-nes og vesturmeð Gaspé-skaga að norðanverðu; í annan stað hefur það verið tekið fram, í sambandi við Straumfjörð, að frásögnin um þessa eptirför Þorfinns bendi til, að Lárentíusarfjörðurinn sje ekki Straumfjörður. Einnig var frásögnin sett meströll hjer að framan (sbr. bls. 15—16 og 18).

Það er allsendis óvíst, við hvaða á muni átt í frásögninni. Sennilega eina þeirra er falla í Lárentíusarfjörð innarlega; eptir orðunum »er þeir höfðu lengi farit, fellr á af landi ofan, úr austri ok í vestr«, má ef til vill helzt ætla, að átt sje við ána Ouelle, sem fellur í fjörðinn syðst í Kamouraska-hjeraði, — vestan-við norðurhornið á Maine. Í Grænlendingaþætti er sagt, að Þorvaldur hafi mælt svo fyrir, að hann skyldi heygður á höfða eða nesi, sem hafi verið skamt þaðan, er hann særðist og andaðist, og skyldi þar heita Krossanes. Mun lítið mark takandi á því, en að sönnu er nes, samnefnt ánni, norðanvið ármynnið. — Landinu er lýst svo í sögunni, að þar hafi verið »eyðimerkr einar alt at sjá fyri þeim ok nær hvergi rjóðr í«; er hjer átt við samfelda eyðiskóga og mun þetta hafa getað komið heim. Einkennilegri er frásögnin um »einfætinginn«, sem skaut Þorvald Eiríksson, kviðlinginn um þann atburð og nafnið Einfætingaland. Kviðlingurinn er líklegur til að vera upphaflegur, gerður í ferð Karlsefnis, og sje svo, getur verið, að nafnið Einfætingaland sje

þá orðið til einnig. En hversu á þessari hugmynd um einfætinga (hjer og annars staðar) kann að standa, það er torvelt að skýra. — Hitt er alt auðveldara, að fullyrða að öll þessi frásögn sje tilbúningur einn og jafnvel skotið síðar inn í söguna. — Halldór Hermannsson benti á það í grein sinni,[1]) sem er mjög eptirtektarvert í þessu sambandi, að Cartier segir, að Donnacona hafi sagt sjer í Stadacona, sem er vestur-í Kvíbekk, að hann




hafi komið til lands nokkurs, þar sem íbúarnir hafi verið einfættir![2]) — Orðalagið í sögunni bendir helzt til þess, að Einfætingaland hafi verið norðvestan Lárentíusarfjarðar. — Um annað í frásögninni af þessari för þeirra Þorfinns, heimförina til Straumfjarðar aptur o. fl., hefur verið rætt hjer að framan.

Þá segir svo í sögunni:[3]) »Hinn þriðja vetr váru

1) The Wineland voyages, The Geogr. rev., vol. XVII, bls. 14.

2) Orðin »ok norðr aptr« í frásögninni um flótta einfætingsins eru sýnilega aflöguð; ef til vill skrifaravilla, sbr. sömu orð rjett á eptir, í frásögninni um burtför þeirra Þorfinns. — Einfætingurinn skauzt ofan á suðurbakka árinnar; hann hefur komið sunnan-að og því hlaupið *suður* aptur.

3) Hauksbók, bls. 442—43.

þeir í Straumfirði. Gengu menn þá mjök í sveitir og varð þeim til um konur, ok vildu þeir er úkvæntir váru, sækja til í hendr þeim, er kvæntir váru, ok stóð af því hin mesta úró. — Þar kom til hit fyrsta haust Snorri, son Karlsefnis, ok var hann þá þrévetr, er þeir fóru brott«.

Hjer að framan var talið líklegra það sem sagan segir vera »sumra manna sögn«, að þeir Þorfinnur hafi komið sama sumar aptur, sem þeir fóru í Hóp. — Söguritarinn fylgir þó ekki þeirri sögu hjer. — En Snorri Þorfinnsson kann að hafa verið þrevetur þegar þeir fóru aptur til Grænlands, þótt þeir væru engan vetur í Hópi, því að þeir kunna að hafa verið tvo vetur í Straumfirði eptir förina í Hóp. Verður nú ekki vitað með vissu, hvort þeir hafi farið til Grænlands aptur eptir tvo vetur, eins og segir í Grænlendingaþætti, sumarið 1005, eða þrjá, sumarið 1006, eins og sagan segir, enda skiptir það ekki miklu.

En af ferðinni til Grænlands segir þetta:[1]) »Þá er þeir sigldu af Vínlandi, tóku þeir suðræn veðr ok hittu þá Markland ok fundu þar skrælinga .V., ok var einn skeggjaðr; konur váru .ij. ok börn tvö. Tóku þeir Karlsefni sveinana, en hinir komust undan ok sukku þeir skrælingar í jörð niðr. Sveina þessa .ij. höfðu þeir með sér ok kendu þeim mál ok váru skírðir. Þeir nefndu móður sína Vethilldi ok föður Úvege. Þeir sögðu at konungar stjórnuðu Skrælingum ok hét annarr þeirra Avalldamon, en annarr Avalldidida. Þeir kváðu þar engin hús; lágu menn þar í hellum eða holum«.[2])

Svo er að sjá af þessari frásögn, að þeir Þorfinnur hafi jafnvel ekki farið sömu leið aptur til Marklands, sem þeir höfðu komið þaðan, enda er líklegt, að þeim

1) Hauksbók bls. 443.

2) Það annað, sem haft er enn fremur eftir þessum sveinum í sögunni, skal ekki tekið hjer til athugunar, en bent á það sem Gustav Storm ritaði um það mál í Ordb. f. nord. Oldkh. og Hist. 1887, bls. 355 o. s. frv. — Frásagnarinnar um afdrif Bjarna Grímúlfssonar verður getið síðar.

hafi verið orðið það ljóst, að þeir gátu siglt beinni stefnu þangað í suðræningi frá Straumfirði, ekki sízt, ef hann hefur verið Cocagne-fjörður eða Shediac-fjörður. Þeir hafa að líkindum farið sunnan-við eyna Anticosti.

Um ferð þeirra Þorfinns (og Snorra Þorbrandssonar) frá Marklandi til Grænlands segir ekkert í sögunni, en frásögnin um ferð þeirra Bjarna Grímúlfssonar (og Þórhalls Gamlasonar), að þá hafi borið í Írlandshaf, bendir til, að ekki hafi átt að halda sömu leið aptur og farin var suður, heldur taka beinni stefnu til Eystribygðar. Á leiðinni yfir hafið hafa þeir fengið vestanveður; Þorfinnur þó komizt til Grænlands, en skip hinna orðið ófært af leka og sokkið, sennilega með miklum hluta þeirra er á því voru, því að tiltölulega fáir hafa getað komizt í skipsbátinn. Þórhallur Gamlason hefur verið meðal þeirra, er komust af, og var hann eptir þetta nefndur vínlendingur. Hann bjó síðar á Melum í Hrútafirði, og koma synir hans allmikið við Grettissögu.

Ýmsir hafa ritað um það, hverrar þjóðar þessi litla fjölskylda hafi verið, sem varð á vegi þeirra Þorfinns á Marklandi. Hefur William Thalbitzer, prófessor við Hafnar-háskóla, ritað um þetta einna merkast mál.[1]) Hann álítur að marklenzku mannanöfnin í sögunni sjeu í rauninni ekki mannanöfn, heldur hafi sveinarnir átt við annað með þessum eða líkum orðum; 1. orðið merkir: »bíddu nú dálítið við«; 2. orðið: »bíddu svo lítið við«; 3.: »út að því yzta (af landinu)«, og 4.: »hinir yztu, áttu við?« Það er nú harla líklegt, að hvorugir hafi skilið vel aðra, Íslendingar og þessir sveinar frá Marklandi, og hitt ekki að reiða sig á heldur, að orðin sem sveinarnir sögðu, hafi orðið endurtekin nákvæmlega rjett og síðan varðveitt óbreytt.

Thalbitzer leiðir einnig miklar líkur að því, að þjóðarheitið »Skræling(j)ar« sje upphaflega komið frá þeim sjálfum, eins og ýmsir höfðu haldið fram áður.

---

1) Í Oversigt over Det kgl. d. Vidensk. Selsk. Forh. 1905. No. 2.

Eskimóaflokkur á Hellulandi (Labrador) kallaði um 1760 annan þjóðflokk, sem hafðist við norðar, Karāleq, og sama nafn gáfu þá þeir Skrælingjar sjer, sem höfðust við í hinum fornu bygðum á Grænlandi. — Hafa verður hugfast, að Íslendingar hafa ekki borið þetta orð, Karāleq, fram eins og Eskimóar,[1]) og að það verður naumast stafað á íslenzku eða fyrir íslenzkan framburð fyllilega rjett. Enn fremur má gera ráð fyrir, að nafnið Skrælingar hafi dregið nokkurn dám af öðrum svipuðum orðum, sem voru til áður í íslenzku, sbr. hjer að framan (bls. 35).

Frásögnin af Vínlandsferð þeirra Þorfinns er nú á enda, svo sem hún er í sögunni. Í upphafi næsta kapítula, hinum síðasta, segir: »Annat sumar eptir fór Karlsefni til Íslands ok Guðríðr með honum«. Í Grænlendingaþætti segir að þau hafi farið til Noregs næsta sumar eptir að þau komu úr Vínlandsferðinni, setið þar næsta vetur og selt varning sinn, en farið síðan sumarið þar á eptir til Íslands. Þykir mjer ósannað mál, að það geti ekki staðizt, en miklar líkur til, að Þorfinnur hafi aflað mikils varnings í ferð sinni til Grænlands og Vínlands, varnings, sem hann átti marga vísa kaupendur að í Noregi, en líklega fáa heima á Íslandi.

Saga Þorfinns hefst á því, einkum í Hauksbók, að skýrt er frá forfeðrum hans, og henni lýkur með afkomandatali hans. Er sú ættartala öll stórmannleg, enda Þorfinnur sjálfur mikilmenni. Þórður hesthöfði, faðir hans, var sonarsonur Höfða-Þórðar landnámsmanns, sem var 4. eða 5. maður í beinan karllegg frá Ragnari loðbrók og kvæntur dótturdóttur Kjarvals Írakonungs. En föðurmóðir Þorfinns var dóttir Þórðar gellis, sem átti konunga að forfeðrum, hvern fram af öðrum, eins alkunnugt er. En meðal afkomanda Þor-

---

1) Nafnið *Eskimóar* er komið (fyrst inn í frakknesku) frá Indíánum, sem höfðust við fyrir norðan Lárentíusarflóann (á Furðuströndum); þeir kölluðu svo Skrælingjana, sem voru fyrir norðan þá; það merkir »hráætur« eða raunar »hrákjötsætur«.

finns eru þeir byskuparnir Þorlákur Runólfsson og Björn Gíslason í 3. lið og Brandur byskup Sæmundarson í 4.

Það varð Þorfinni að vísu ofurefli, að stofna nýlendu í hinni nýfundnu heimsálfu. Hann var enginn víkingur nje herkonungur sjálfur og átti ekki neina þá stórhöfðingja að, jarla nje konunga, er hann gæti sótt ærinn liðsafla til. Færeyjar, Ísland og Grænland voru auð lönd og óvarin, er þeir Grímur Kamban, Ingólfur Arnarson og Eiríkur rauði stofnuðu þar nýlendur. En í Vínlandi voru fyrir vopnum búnir þjóðflokkar, sem að líkindum hafa verið vanir ófriði innbyrðis. Þær þjóðir, sem stóðu að baki Þorfinni, voru fámennar og fátækar, en bjuggu við landrými mikið og áttu nóg með sig. Yfir úthaf var að sækja hvaðanæva að til hins nýfundna lands, langa leið, torsótta og hættulega. Norðmenn, Danir og Svíar höfðu stofnað merkar nýlendur á síðustu tímum, og þar sem erfiðara var fyrir í löndum, en þar sem svo var ástatt, voru engin úthöf í milli, enda mikinn auð og hvers konar föng að fá. Á Vínlandi þurfti alls að afla úr skauti náttúrunnar. Þeir þjóðflokkar, sem þar höfðust við, voru menningarsnauðir flökkulýðir, sem lifðu við veiðiskap. — Menningarþjóðir álfunnar bjuggu miklu sunnar. Þaðan, og þá fyrst er Norðurálfumenn höfðu rutt sjer þar til rúms með báli og brandi, og svo frá heimalöndum þeirra beinlínis, varð komið á nýlendustofnun á Vínlandi, er liðið höfðu langir tímar. Í skauti þeirrar menningar, sem reis þar upp, settust að, þar og í nálægum löndum, loks á næstliðinni öld, afkomendur Þorfinns og fjelaga hans, og mynduðu íslenzkar nýlendur, sem eru nú stærri og fjölmennari en að líkindum hefði mátt verða um hans tíð. Og endurminningin um frægðarför Þorfinns karlsefnis hefur ekki fallið í gleymsku meðal allra þeirra, er nú byggja Vínland hið góða. Á síðari tímum hafa vínlenzkir menn og konur lagt mikla alúð við að rannsaka og rita um hinar fornu, íslenzku frásagnir um hann. Og haustið 1920 reisti göfugur og góður maður, J. Bunford

Samuel, samkvæmt arfleiðsluskrá konu sinnar, Þorfinni minnismerki í borginni Philadelphíu á Vínlandi, smíðað af íslenzkum myndasmið, Einari Jónssyni frá Galtafelli. Stendur líkneski Þorfinns, steypt úr bronzi, á minnisvarðanum, en framan á hann er sett nafn Þorfinns og ártölin 1003—1006, er hann dvaldi á Vínlandi. Enginn mun þó hafa haldið þeirri skoðun fram, að Þorfinnur hafi komið þangað, sem Philadelphia er, eða að Hóp hafi verið einmitt þar. Hóp er ekki fundið enn, svo víst sje og viðurkent, ekki Straumfjörður heldur, nje aðrir þeir staðir, sem nefndir eru í ferðasögu Þorfinns. Rannsóknunum verður að halda áfram, og jeg vil taka undir með þeim Finni Jónssyni og Halldóri Hermannssyni: Rannsóknirnar þurfa hjer eptir, meira en átt hefur sjer stað hingað til, að fara fram á þeim slóðum, þar sem ferðin virðist hafa verið farin, og á þeim stöðum, þar sem ætlað verður, að þeir Þorfinnur hafi dvalið.

---

# Mannanöfn.

## Staðanöfn.

## Rithöfundar og rit,
### sem getið er í þessari ritgerð.

---


*Adam frá Brimum* (lýsing Norðurlanda) 43.
*Arngrímur Jónsson* lærði, Gronlandia edur Grænlands saga, Skálholti 1688. 4.
*Babcock, William H.*, Early Norse visits to North America, Washington 1913. 30. 31. 34. 36. 37. 38. 39. 40.
*Birket-Smith, K.*, Indianere, í Salmonsens Konversationsleksikon, 2. útg., XII. 36.
*Cartier, Jacques*, landkönnuður 19. 20. 23. 34. 46.
*Eiríks saga rauða* (sbr. Storm) 2. 3. 4. 6. 17. 45.
*Eyrbyggja-saga* 7. 40.
*Falk, Hj.*, Altnord. Waffenkunde, Christiania 1914. 40.
*Fernald, M. L.*, Notes on the Plants of Wineland the Good, »Rhodora«, Vol. 12. Boston 1910. 28.
*Finnur Jónsson*, Den oldn. og oldisl. litteraturs historie, I.—III., Kbh. 1894—1902. 2. 17.
— Erik den rødes saga og Vinland, í Hist. Tidsskr. (norska) V. R. 1. B. Kristiania 1912. 10. 17.
— Hauksbók, Kbh. 1892—96. 2.
— Opdagelsen af og Rejserne til Vinland, í Aarbøger for nord. Oldkh. og Hist. 1915. 4. 9. 17.
*Fiske, John*, The Discovery of America, Boston & New York, 1893. 40.
*Flateyjarbók*, I.—III., Christiania, 1860. 3.
*Gathorne-Hardy, G. M.*, The Norse Discoverers of America, Oxf., 1921. 17. 18. 29.
*Grænlendingaþáttur* (í Flateyjarbók; sbr. Eiríks saga rauða etc.) 3. 17. 37. 45.
*Grönlands historiske Mindesmærker* I.—III. 10.
*Halldór Hermannsson*, The Wineland voyages, í The Geographical review, Vol. XVII, Nr. 1. 12. 13. 14. 16. 19. 29. 46.
— Vínlandsferðirnar, Tímar. Þjóðræknisfjel. Íslendinga, I. 12.
*Hauksbók* (handr. AM. 544 4to), Kh. 1892—96. 2. 4. 6. 8. 15. 22. 23. 46. 47. 49.

# UM ÍSLENDINGA SÖGU STURLU ÞÓRÐARSONAR

EFTIR

PÉTUR SIGURÐSSON

[SAFN TIL SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENNTA VI. NR. 2]



REYKJAVÍK
RÍKISPRENTSMIÐJAN GUTENBERG
1933—35

## Efnisyfirlit.

## Um Íslendinga sögu Sturlu Þórðarsonar.

Eftir *Pétur Sigurðsson.*

---

I.

Sturlunga saga er, við hlið Landnámu og Íslendingabókar, merkasta heimildarrit að fornu og nýju um sögu landsins. Þó atvikaðist það svo, að sagan féll nálega í gleymsku og var fám kunnug um margar aldir. Í upphafi 17. aldar fóru fræðimenn að gefa sögunni gaum, og komu þá í leitirnar tvær skinnbækur, sem sagan var á og höfðu varðveitzt í afskekktum sveitum í Barðastrandarsýslu. Handrit þessi komust þá í hendur fræðimanna, sem skrifuðu þau upp og hafa varðveitt oss texta þeirra, en sjálfar skinnbækurnar komust í slæmar hendur síðar á 17. öld, og glataðist mikið úr þeim, og þó miklu meira úr annari þeirra, svo að af því handriti er nú tæplega eftir fjórði hlutur. Bæði þessi handrit eru nú í safni Árna Magnússonar og eru þar merkt 122 a og 122 b í arkarbroti. Nákvæm lýsing á þeim og sögu þeirra er í handritaskrá Árnasafns, eftir dr. Kristian Kålund, í ritgerð í Aarbøger for nordisk Oldkyndighed og Historie 1901, bls. 259—300, eftir sama höfund og loks í formála dr. Kålunds fyrir útgáfu hans af Sturlungu, sem prentuð var í 2 bindum í Kaupmannahöfn 1906—1911. Kallar dr. Kålund AM 122 a *Króksfjarðarbók,* en 122 b *Reykjarfjarðarbók,* eftir sveitum þeim, sem handritin virðast hafa verðveitzt í gegnum miðaldir, en í athugasemdum sínum nefnir hann 122 a I, og pappírsuppskriftirnar af þeirri bók Ip, en 122 b kallar hann II, og IIp pappírshandritin,

sem þaðan eru runnin, og verður svo gert í þessari ritgerð.

Þegar Sturlunga saga var þekkt orðin, og menn tóku að nota hana sem heimildarrit um sögu landsins, var það í fyrstu, og lengi fram eftir, skoðun vísindamanna, að Sturla lögmaður Þórðarson hefði samið söguna, annaðhvort alla, eða þá að minnsta kosti þann hluta hennar, sem gerist eftir lát Brands biskups Sæmundarsonar (1201), en Brandur biskup væri höfundur fyrra hlutans. Mönnum fer þó smám saman að skiljast, að Sturlunga er ekki samfelld heild, heldur muni ýmsum sögum síðar aukið inn í rit Sturlu (P. E. Müller, Finnur Magnússon, Sveinn Skúlason). Fyrir skoðunum þessara manna er gerð fyllri grein í ritgerð dr. Bjarnar M. Ólsens í Safni til sögu Íslands III, bls. 198—201.

Þá er að geta skoðana dr. Guðbrands Vigfússonar. Í formála fyrir Biskupa sögum (bls. lxxi—lxxii) drepur hann á samsetning Sturlungu og telur þessar sögur vera eftir aðra höfunda en Sturlu: Prestssögu Guðmundar Arasonar, Hrafns sögu Sveinbjarnarsonar, Guðmundar sögu dýra, Þorgils sögu skarða, Svínfellinga sögu og upphaf og niðurlag Sturlungu. Ætlar hann, að Sturla hafi sjálfur tekið síðara helming Hrafns sögu upp í rit sitt (fyrri helmingur sögunnar hefur aldrei staðið í Sturlungu), en Guðmundarsögunum sé aukið inn í það að honum látnum. Á þetta fellst dr. Konrad Maurer (Ueber die Ausdrücke: altnordische, altnorwegische und altisländische Sprache, bls. 207—209), og gengur hann þó feti lengra, því að hann ætlar, að Sturla hafi hvorki samið Þorgils sögu og Hafliða né Sturlu sögu.

Enn ritaði G.V. um samsetning Sturlungu í formála fyrir útgáfu sinni af Sturlungu (Oxford 1878, bls. xcix—cx). Þar heldur hann því fram, að Sturla sé höfundur Þorgils sögu skarða, og sé hún elzt rita hans.

Nú tók dr. Björn M. Ólsen Sturlungu til rannsóknar og birti ágæta ritgerð um þær rannsóknir í Safni til sögu Íslands, 3. bindi, bls. 193—510 („Um Sturlungu"). Sýnir hann þar fram á, að Sturlunga sé saman sett af

sjálfstæðum sögum, sem sé samdar af mörgum höfundum og á ýmsum tímum. Greinir hann þannig á milli þeirra:

1. Geirmundar þáttur.
2. Þorgils saga og Hafliða.
3. Ættartölur.
4. Sturlu saga.
5. Prestssaga Guðmundar Arasonar.
6. Guðmundar saga dýra.
7. Hrafns saga Sveinbjarnarsonar.
8. Íslendinga saga.
9. Haukdælaþáttur og Gizurar saga og Skagfirðinga.
10. Þórðar saga kakala.
11. Svínfellinga saga.
(12. Þorgils saga skarða, og aftan við hana þáttur um Sturlu Þórðarson, að líkindum eftir sama höfund.)[1])

Ætlar BMÓ, að Sturla eigi Íslendinga sögu eina, og nái hún einungis fram til ársins 1242, en þó telur hann ekki ósennilegt, að Sturla hafi einnig samið Þorgils sögu og Hafliða. En Íslendinga saga sé að efni til beinlínis framhald Sturlu sögu, og muni Sturla því hafa ritað upp sögu afa síns, skeytt ættartölunum framan við hana og samið Íslendinga sögu aftan við, eins og nokkurs konar framhald af henni.[2]) En þar sem Sturla hætti að segja frá, þegar Þórður kakali kemur út og saga hans hefst, verði það tæplega skýrt á annan hátt en þann, að Sturlu hafi ekki enzt aldur til þess að ljúka við sögu sína, og hafi hann ekki verið kominn lengra, þegar hann féll frá. Þaðan í frá sé farið eingöngu eftir 2 öðrum sögum, Þórðar sögu kakala og Gizurar sögu og Skagfirðinga, auk Svínfellinga sögu.

Skoðun BMÓ á Íslendinga sögu og síðara hluta Sturlungu stingur mjög í stúf við það, sem menn höfðu

1) Þorgils saga skarða og Sturlu þáttur standa einungis í II (122 B) og hafa ekki átt heima í Sturlungu frá upphafi. — 2) Safn III, 383—385, 391—393, sbr. B. M. Ólsen: Om den saakaldte Sturlunga-prolog, bls. 15—17.

áður haldið fram um þátt Sturlu í safninu. Hefur dr. Kålund fallizt á, að rekja megi sögu um Gizur og Skagfirðinga, er safnandi hafi fylgt öðrum þræði frá 12. kap. í Íslendinga sögu og til loka Sturlungu.[1]) Á sama máli er E. Mogk[2]) og Benedikt Sveinsson, er gefið hefur út síðara helming Sturlungu og ritað formála fyrir.[3])

Aftur á móti er dr. Finnur Jónsson algerlega ósamdóma BMÓ um Íslendinga sögu. Telur hann fráleitt, að rekja megi leifar af sögu um Gizur í Sturlungu. Hann ætlar, að Íslendinga saga taki til aftur, þegar Þórðar sögu er lokið, en það sé um 1250, og fylgi safnandi Íslendinga sögu þaðan frá, auk Svínfellinga sögu.[4]) Hann er og á því, eins og BMÓ, að Sturla hafi ekki látið við það sitja, að rita Íslendinga sögu, heldur hafi hann ritað upp og aukið á ýmsan hátt eldri sögur og skeytt þeim framan við sögu sína. Þessar sögur sé: Landnáma, Kristni saga, Þorgils saga og Hafliða og fleiri sögur, þ. e. þær sögur í Sturlungu, sem safnandi hefur ekki aukið inn í safnið.[5]) Þar á hann við Sturlu sögu,[6]) en ekki ættartölurnar, Prestssögu Guðmundar Arasonar, Guðmundar sögu dýra og Hrafns sögu,[7]) og því síður við Þórðar sögu kakala og Svínfellinga sögu.

Þó að rannsókn B. M. Ólsens hafi brugðið ljósi yfir fjölmörg viðfangsefni í Sturlungu, svo að miklu fremur má heimfæra til hans þann vitnisburð, sem hann gefur Guðbrandi Vigfússyni, „að hann einn hefur gert meira en allir fyrirrennarar hans til að sýna, hvernig Sturlunga er samsett og til orðin,“[8]) þá eru allmörg vafaatriði, sem ekki hafa verið skýrð til fulls. Að líkindum verður aldrei leyst úr þeim öllum á þann hátt, að ekki verði um deilt, til þess eru heimildirnar of fáar og ófullnægjandi. Þó er ekki vonlaust um, að ný rannsókn geti greitt betur úr heimildum Sturlungu heldur en

1) Aarböger 1901, bls. 290, og víða í útgáfu hans af Sturlungu. — 2) Í Paul: Grundriss der germ. Philologie, 2. útg. II. 1, bls. 786. — 3) Sturlunga saga IV, Rvk 1915, bls. xx. — 4) Den oldnorske og oldislandske Litteraturs Historie, 2. útg. II, 730—733. — 5) s. st. bls. 548—549, 571—572, 718—719. — 6) s. st. bls. 551. — 7) s. st. bls. 723—724. — 8) Safn III, 205.

gert hefur verið. Því veldur, að nú hafa menn hina ágætu útgáfu dr. Kålunds, sem gerð er eftir báðum skinnbókunum, það sem þær ná, en elztu og beztu pappírsuppskriftum, þegar þær þrýtur. En fyrri rannsóknir hafa því nær allar verið gerðar eftir hinum eldri útgáfum (Kaupmannahöfn 1817—1820 og Oxford 1878), er mjög standa að baki útgáfu dr. Kålunds og telja má ónothæfan grundvöll vísindalegra rannsókna í samanburði við hana. Hlutverk þessarar ritgerðar verður aðallega að ræða um Íslendinga sögu og í sambandi við hana þær frásagnir í síðara hluta Sturlungu, sem af öðrum toga eru spunnar.

## II.

Allir vísindamenn, sem ritað hafa um Sturlungu á síðari tímum (Guðbrandur Vigfússon[1]), Björn M. Ólsen[2]), Finnur Jónsson[3]), Kr. Kålund[4]), Benedikt Sveinsson[5])) hafa verið á það sáttir, að einhver afkomandi Snorra prests Narfasonar á Skarði á Skarðsströnd (Skarðs-Snorra, d. 1260) muni hafa safnað, eða látið safna sögunum í Sturlungu saman í eina heild og lagt síðustu hönd á ritið, að mestu leyti eins og það er til vor komið í afritum[6]). Berast böndin einkum að sonum Narfa Snorrasonar, og ætla menn (GV, BMÓ) Þórð lögmann Narfason (d. 1308) einna líklegastan þeirra bræðra til þess, að hafa sett Sturlungu saman. Þó að hæpið sé að benda á nokkurn sérstakan mann, sem unnið hafi þetta verk, hefur skoðun þessi mikið til síns máls. Mun að minnsta kosti mega telja það afarsennilegt, að Sturlunga sé samsett af völdum einhvers þeirra bræðra, Þorláks, Þórðar eða Snorra, um aldamótin 1300, og nægir að vísa til ritgerðar BMÓ og þeirra raka, sem þar eru greind.

---

1) Bisk. I, lxxi—lxxii, Sturl.[2] (þ. e. Oxfordútgáfan), cviii—cv. — 2) Safn III, 503—508. — 3) Litt. hist. 2. útg. II, 733—734. — 4) Aarb. 1901, 298. — 5) Sturl.[4] (þ. e. Reykjavíkurútgáfan) IV, xvi—xvii. — 6) Þ. e. I (122 A).

Fyrir rannsókn þá, sem nú skal hafin, er ekki einskisvert að athuga vinnubrögð þess manns, sem steypt hefur sögurnar saman. Má glögglega marka þau af þeim sögum, sem öllum vísindamönnum kemur nú saman um, að hann hafi fengið í hendur annaðhvort sérstakar, eða þá ritnar nokkurar i sömu bók, hver á eftir annari (FJ, BMÓ). Þessar sögur eru Þorgils saga og Hafliða, Sturlu saga, Prestssaga Guðmundar góða, Guðmundar saga dýra, Íslendinga saga, Hrafns saga, Þórðar saga kakala og Svínfellinga saga.

„Safnandi Sturlungu hlýtur að hafa verið mjög fróður í sögu landsins. Einkum og sér í lagi er það ljóst, að hann hefur gert sér mikið far um að skilja tímatal þeirra sagna, sem hann tekur upp í safnið, því að tímatalið er sá leiðarsteinn, sem hann áttar sig á i niðurskipun sagnanna,“ segir dr. B. M. Ólsen.[1]) Þetta er hverju orði sannara. Safnandi Sturlungu hefur sett sér þá meginreglu, að gæta þess vel, að ekki raskist tímatal. Hann lætur sér annara um að skrá viðburðina í réttri tímaröð heldur en að setja þá fram í orsakasamhengi og leiða hvern af öðrum. Að nokkuru leyti er honum þetta ekki sjálfrátt. Fyrir honum liggja margar sjálfstæðar sögur. Hver þeirra um sig er samfelld heild frá upphafi til enda, segja að miklu leyti frá ólíkum viðburðum og mönnum og gerast á ýmsum stöðum. Það hefði að líkindum verið óvinnandi verk, að gera úr þeim samfellda Íslandssögu á 12. og 13. öld, svipað því sem Heimskringla er óslitin saga Noregs og Noregskonunga, án þess að endurrita heimildirnar, semja úr þeim nýja sögu, er væri algerlega sjálfstætt rit. Safnandinn hefur ekki reynt til þessa. Hann er sýnilega uppi á þeim tíma, þegar sjálfstæðar sögurannsóknir og sagnaritun eru að líða undir lok og menn taka upp annálaritun. Hann tekur það ráð, þegar tvær eða fleiri sögur verða samtíða, að grípa til þeirra til skiptis, þannig að ein sagan komist aldrei langt fram úr ann-

1) Safn III, 508.

ari í tímaröðinni. Þegar tvær sögur segja frá sama viðburði, tekur hann venjulega þá frásögn, sem er nákvæmari, en sleppir hinni. En af því að athygli hans beinist að öðru, tímatalinu, hefur hann ekki alls staðar forðazt endurtekningar og gefur þá ekki gaum að því, þó að öðruvísi sé sagt frá einhverju atviki en áður vart gert.

Fyrst í stað er starf safnanda auðvelt. Geirmundar þáttur, Þorgils saga og Hafliða og Sturlu saga taka við hver af annari. Prestssaga Guðmundar góða hefst áður en Sturlu sögu er lokið, en safnandi geymir sér hana þó, þangað til hann hefur gengið frá Sturlu sögu. En Guðmundar saga dýra hefst skömmu eftir að Sturlu sögu lýkur, og verður hún samferða Prestssögunni um langt skeið. Við niðurlag Sturlu sögu staldrar safnandi því við og skýrir stuttlega frá viðfangsefni sínu. Hefur þessi greinargerð hans verið nefnd „Sturlungu-formálinn", og hefst hún svo: „Margar sögur verða hér samtíða, ok má þó eigi allar senn rita."[1])

Þar sem safnandi kveðst ekki geta ritað margar sögur í senn, tekur hann þann kost, að rita þær til skiptis, eins og áður var getið. Fyrst ritar hann um æfi Guðmundar Arasonar eftir Prestssögunni (1.—14. kap.). Þegar sagan er komin fram um 1190, tekur hann Guðmundar sögu dýra og fylgir henni um langt skeið, allt fram að aldamótum (1.—24. kap.). Þá koma 15.—16.

1) Sturl.[3] (þ. e. útgáfa dr. Kålunds) I, 119—120, Sturl.[4] I, 157. B. M. Ólsen heldur því fram, að þessi greinargerð sé samin upp úr formála, er Sturla hafi ritað fyrir Íslendinga sögu sinni. Hvort sem það er rétt eða rangt, sýna orðin „ok má þó eigi allar senn rita," að safnandi er hér að gera grein fyrir sagnaskipun sinni. Hann vill með næstu setningum, um það, hve langt sögurnar nái, skýra fyrir lesandanum tímatalið í þeim sögum, sem hann ætlar að fara að rita upp, svo að hann þurfi ekki framar á það að minnast. En jafnframt vill hann með orðum þeim, sem tilgreind voru, afsaka það, að hann hefur haldið Sturlu sögu áfram, þangað til henni var lokið, í stað þess að skjóta inn fyrra hluta Prestssögunnar í réttri tímaröð. Að þessu sé þannig varið, sýna orð hans í 9. kap. Prestssögunnar (Sturl.[3] I. 143): „Nú er þar komit þessi sögu, sem frá var horfit Heiðarvígs sögu, ok hafa þær lengi jafnfram gengit." Hér vill hann glöggva lesandann enn betur á tímatalinu.

kap. úr Prestssögunni (um 1190—1197), og á eftir þeim niðurlag Guðmundar sögu dýra (25.—26. kap., viðburðir um 1200 og andlát Guðmundar 1212). En að henni lokinni rekur hann Prestssöguna til 1201 (17.—19. kap.) og tekur síðan til Íslendinga sögu.

Guðmundar saga dýra og Prestssagan eru mjög ólíkar að efni, og er því vandalaust að greina þær í sundur. En þar sem þær gerast um sömu slóðir, hefur ekki hjá því farið, að drepið væri á einhverja atburði í báðum sögunum. Má vera, að safnandi hafi einhvers staðar fellt úr annari sögunni, þar sem hin hafði sagt frá sama atburði, en þó hefur hann ekki með öllu varazt að skrá sama atburðinn tvisvar, og á ólíkan hátt. Í 15. kap. Prestssögunnar[1]) er svo sagt, að Sumarliði Ásmundarson[2]) hafi verið veginn að tjöldum, en völd þess vígs hafi verið kennd Snorra Grímssyni, bræðrungi Guðmundar Arasonar. Veitti Brandur biskup þeim lið, er mæltu eftir Sumarliða, og vildi láta bera kviðu á Snorra um fjörráð og vettvangsbjargir við vegandann, en hann er nefndur Brandur. En af orðum Guðmundar Arasonar og margra annara merkra manna, er Snorra veittu lið, lét Þorlákur biskup bera kviðu af Snorra um fjörráð. Í Guðmundar sögu dýra, 7.—8. kap.,[3]) er greinilega sagt frá viðskiptum þeirra Snorra og Sumarliða. Eitt sinn, er Sumarliði var að Gásum og stóð þar undir klyfjum, vék Brandur sér að honum og særði hann banasári, en Sumarliði hafði áður hrakið Brand og leikið hann grátt. Þorsteinn Urða-Steinn var þar hjá og vildi taka Brand, en var haldið af Snorra, sem hafði viljað mægjast við Sumarliða, en var synjað konunnar. Guðmundur dýri tók við eftirmálinu og sótti Snorra um vettvangsbjargir og fjörráð. Var sæzt á málin á þingi, og galt Snorri 12 hundruð og varð héraðssekur. Hér er sagt tvisvar frá sama atburðinum og með allmiklum atvikamun, og var þó auðvelt að komast hjá því. Enn er í 15. kap. Prestssögunnar get-

1) Sturl.[3] I, 220. — 2) Svo í Resensbók og Guðm. s. dýra. Safnandi hefur mislesið eða misritað Önundarson. — 3) Sturl.[3] I, 171—173.

ið Arnþrúðar Fornadóttur og sona hennar svo sem þau hefði aldrei verið nefnd áður, og koma þau þó allmjög við sögu Guðmundar dýra, einnig þann hluta hennar, sem áður var skráður.

Eftir 19. kap. Prestssögunnar tekur safnandi að rita Íslendinga sögu og fylgir henni, þangað til Brandur biskup deyr og Guðmundur Arason er kjörinn til biskups (2.—17. kap. — Um Haukdæla þátt mun síðar rætt). Þá byrjar Prestssagan aftur á athöfnum Guðmundar um sumarið, skýrir frá láti Brands biskups, biskupskosningu, bréfagerðum biskupsefnis, utanför hans og vígslu (20.—34. kap.), og er þetta niðurlag Prestssögunnar. Í Sturlungu er því tvisvar sagt frá láti Brands biskups og kosningu Guðmundar, og að vísu í miklu skemmra máli í Íslendinga sögu heldur en í Prestssögunni. En safnandi hefur ekki áttað sig, fyr en hann hafði ritað 17. kap. í Ísl. s., og sleppir hann þá henni og tekur Prs. Hefur Prs. bolað í burtu úr Sturlungu því, sem í Ísl. s. hefur verið sagt um bréfaskriftir biskupsefnis, utanför og vígslu, svo að vér höfum nú ekki texta Sturlu um þá atburði. Þó hefir safnandi tekið upp úr Ísl. s. kafla um orðsendingar biskupsefnis og Kolbeins til Sigurðar Ormssonar (18. kap.), þegar Prestssöguna þraut, en um þetta hefir áður verið getið í henni miklu nákvæmar (28. kap.). Hér er því enn sagt tvisvar frá hinu sama, og í seinna skiptið eftir að greint hefur verið frá atburðum, er gerðust síðar (utanför biskupsefnis og vígslu). En úr þeim kafla Ísl.s., sem Prs. hefur bolað í burtu úr Sturlungu, hefur Resensbók varðveitt litla grein.[1])

1) Bisk. I., 476. „Guðmundr biskupsefni rézk til Hóla um haustit, [sem áðr var sagt,] ok var hann þar fyrir kennimönnum um vetrinn ok skipaði öllum málum fyrir norðan land þau misseri. Váru þá sendir menn til Páls biskups, ok var hann beiddr samþykkis um biskups kjör ok bréfasendingar til erkibiskups [,sem enn mun gerr sagt verða síðar]. Tók Páll biskup því vel, sem hann efndi síðan." Því sem er innan sviga mun bætt við af afritara. Á eftir þessari grein er í Res. (AM 399, 4to) tekinn upp 18. kap. í Ísl.s.: „Þenna vetr sendi Kolbeinn menn sína austr til Svínafells ...." Hér er allt í réttri röð: í 17. kap. var sagan komin fram á sumar 1201, í greininni í

Þegar sagt hefur verið frá vígi Halls Kleppjárnssonar (1212) og utanför Guðmundar biskups (1214), er síðara helmingi Hrafns sögu skotið inn á eftir 35. kap. Ísl.s. Hefur þar að segja frá útkomu Hrafns og biskups 1203, og er sagan rakin til enda (1214, gerð Þórðar Sturlusonar um víg Hrafns, eða 1217, útkoma Þorvalds). En í þess stað sleppir safnandi kafla þeim í Ísl.s., þar sem sagt er frá vígi Hrafns, en sú grein hefur verið tekin upp í Resensbók, sem hefur varðveitt texta Sturlu á þessum stað.[1])

Í 163. kap. Ísl.s. segir stuttlega frá útkomu Þórðar kakala í Eyjafirði, ferð hans suður á land og vestur um í Dali. Þá leggur safnandi frá sér Íslendinga sögu og tekur til Þórðar sögu kakala. Hefst hún á yfirliti um þá viðburði, er gerzt höfðu hér skömmu áður en Þórður kom út, og segir síðan frá ferðum Þórðar, líkt og gert er í 163. kap. Ísl.s., en að vísu miklu nákvæmar og með ekki alllitlum atvikamun.[2]) Var þó auðvelt að komast hjá missögnum, með því að láta aðra frásögnina nægja, en fella niður tilsvarandi kafla úr hinni. En safnandi hefur ekki hirt um þetta. Víðar ber og Íslendinga sögu og Þórðar sögu á milli, þar sem minnzt er á sömu atburði í báðum sögunum.[3])

Res. er getið um haustið og í 18. kap. „þenna vetr". En í Sturlungu er upphafi 18. kap. vikið við: „þann vetr, er Guðmundr var fyrir kennimönnum at Hólum ...." Áður hefur þess ekki verið getið beinlínis í Sturl., að Guðmundur hafi verið fyrir kennimönnum, og vísar safnandi því til greinar, sem hann hafði fellt niður. Að þessi grein sé úr Ísl.s., en ekki Prs., er vafalaust. Að vísu vantar hana í AM 657 c, 4to, en þar er 18. kap. Ísl.s. líka sleppt. BMÓ hefur sýnt fram á, að þeir kaflar, sem Res. hefur fram yfir AM 657 c, muni hafa staðið í frumriti þeirra (Safn III, 286—288). Auk þess ber greinin það með sér. Í henni er sagt frá atvikum, sem Prs. greinir síðar (bréfaskriftirnar, Sturl.[3] I, 264—267, Bisk. I. 478—481). Hér er og mótsögn við Prs., þar sem sagt er, að biskupsefni hafi skipað öllum málum fyrir norðan land þau misseri, en í Prs. segir, að „biskupsefni var svá ráðum borinn, at hann skyldi eigi ná, at þar væri bróðursynir hans" (Sturl.[3] I, 261, Bisk. I, 477), ásamt fleiri ummælum um ofriki Kolbeins við biskupsefni. — 1) Bisk. I, 506, sbr. BMÓ: Safn III, 250—251. — 2) Sjá BMÓ: Safn III, 437—441. — 3) S. st. bls. 444—446.

Þegar lokið er að segja frá síðustu dvöl Þórðar kakala hér á landi, er Svínfellinga sögu skotið inn, og sjást heimildamótin þar einnig glögglega. En inn í miðja Svínfellinga sögu er aftur skotið nokkurum köflum, sem sýnilega eiga ekki heima þar; þeir kaflar standa einungis í Reykjarfjarðarbók, en munu þó flestir hafa staðið í Sturlungu í upphafi.[1])

Af þessu stutta yfirliti er það ljóst, að safnanda er um það hugað, að taka sem mest frásagnarefni upp í rit sitt, og skeytir þá ekki, þó að ýmsar missagnir verði og ljóslega megi greina heimildamótin, eða þótt frásögnin verði misjafnlega nákvæm, eftir því hvaða heimild er fylgt. Fyrir því er það venjulega augljóst, hvenær hann leggur frá sér sögu þá, sem hann er að rita, og grípur til annarar. En því er hér gerð nokkur grein fyrir vinnubrögðum safnandans, að ætla má, að þau hafi jafnan verið lík, og sé honum því tæplega trúandi til þess, að fella saman í eina heild tvær eða fleiri sögur, án þess að veruleg missmíði og glögg merki starfsemi hans sjáist allvíða. Verður því að hafa vinnubrögð hans í huga, þegar dæma þarf um, hvort einni heimild eða fleirum sé fylgt í einhverri frásögn.

## III.

Þess var áður getið, að sú hefur jafnan verið skoðun manna, að Sturla Þórðarson ætti allverulegan þátt í Sturlungu. Er það byggt á vitnisburði sögunnar sjálfrar og annara fornra rita, er það votta, að Sturla hefur ritað um atburði á 13. öld.[2])

Í Miðsögu Guðmundar biskups, sem svo hefur nefnd verið (AM 657 c, 4to) eru tvær tilvitnanir í Íslendinga sögu: „Þessi jartegn varð í útanferð Guðmundar biskups, þeirri er fyrr var frá sagt, þá er þeir

1) Smbr. síðar. — 2) Sbr. BMÓ: Safn III, 386—393.

feðgar tóku hann nauðgan, Sighvatr ok Sturla, ok létu útan fara nauðgan eptir Grímseyjar för, svá sem Sturla Þórðarson segir í Íslendinga sögu."[1]) Hér er vísað til 50. kap. Ísl.s.: „Þetta sumar it sama létu þeir Sighvatr Guðmund biskup fara útan, ok harðliga leikinn af óvinum sínum. Var hann þá nökkura vetr í Nóregi, ok gerðusk þar margir merkiligir hlutir þá um háttu hans ok spásagnir."[2]) Enn segir í Miðsögunni: „Fór hann þá víða um sýslu sína, ok enn víða annars staðar um landit, svá sem Sturla sagði í Íslendinga sögu."[3]) Telur B. M. Ólsen hér ekki vísað til ákveðins kafla í Íslendinga sögu, heldur í alla frásögnina um ferðir biskups, frá því er hann kom út á Borðeyri, þangað til hann hætti ferðum. Er víða sagt frá ferðum biskups, í 67., 81., 86., 87. og 103. kap., og er Sturlu þá eignaður kaflinn milli 63. og 103. kap. í Íslendinga sögu, að báðum meðtöldum, því að sagt var frá útkomu biskups í 63. kap. Tekur BMÓ það fram, að hér sé ekki vitnað í sérstaka sögu um biskup, er Sturla hafi samið, heldur hljóti að vera átt við þann hluta Sturlungu, sem vér köllum Íslendinga sögu.

Tvívegis er vitnað til Sturlu í Guðmundar sögu Arngríms ábóta, en þær tilvísanir sanna ekkert um Íslendinga sögu. Arngrímur hefur ætlað, að Sturla hafi samið sérstaka sögu um biskup, þar sem jartegnirnar hafi verið skráðar, eins og B. M. Ólsen hefur sýnt fram á.

Loks er í „formála" Sturlungu tvívegis getið um Íslendinga sögur eftir Sturlu Þórðarson og tekið fram, að hann hafi ritað um atburði, er gerðust eftir lát Brands biskups Sæmundarsonar (1201). Verður síðar minnzt á þetta nánar.

Þessir vitnisburðir sanna, að Sturla hefur ritað um atburði á 13. öld. Getur ekki verið átt við neina sögu aðra en þá, sem nú er í Sturlungu og hefst á að segja frá andláti Hvamms-Sturlu 1183. Hefur B. M. Ólsen

1) Bisk. I, 589. — 2) Sturl.[3] I. 359. — 3) Bisk. I, 591.

sýnt fram á, að sú saga sver sig alstaðar í ættina til Sturlu, þar sem ræðir um atburði, sem hann var sjálfur viðstaddur,[1]) og má telja það alveg vafalaust, að þessi saga sé réttilega eignuð Sturlu.

Nú eru allir á einu máli um það, að Íslendinga saga hefjist 1183, á frásögninni um lát Hvamms-Sturlu. En hitt deila menn um, hve langt sagan nái, hve mikið megi eigna Sturlu af síðasta hluta Sturlungu. Með rannsóknum sínum hefur B. M. Ólsen sannað, að Sturla hefur ekki ritað Þórðar sögu kakala, Svínfellinga sögu eða Þorgils sögu skarða, og eru þessar sögur algerlega óviðkomandi Íslendinga sögu. En hann telur söguna ná einungis fram á árið 1242, eða yfir 2.—163. kap. eftir kapítulatali Guðbrands Vigfússonar. Frásögnin eftir 1242 sé tekin eftir 3 sögum: Þórðar sögu kakala, Svínfellinga sögu og Gizurar sögu og Skagfirðinga.[2]) Fyrstu 8 árin sé Þórðar saga aðalheimildin, en fátt eitt tekið úr Gizurar sögu, en á eftir Svínfellinga sögu sé þessum sögum fylgt jöfnum höndum, og Gizurar sögu þó meir. En Finnur Jónsson heldur því fram, sem fyr segir, að Íslendinga saga taki til, þegar Þórðar sögu þrýtur, og sé hvergi vott að finna um sérstaka sögu um Gizur og Skagfirðinga, er skotið sé inn í þessar sögur.

Hér skal reynt að greiða nokkuð úr þessu vandamáli. Hygg eg, að skoðun Finns Jónssonar sé rétt í aðalatriðum, og má benda á frásagnir í síðasta hluta Sturlungu, sem virðast beinlínis sverja sig í ættina til Sturlu. Hinsvegar virðist ástæðulaust að gera ráð fyrir sérstakri sögu um Gizur og Skagfirðinga sem heimild í Sturlungu. Verður því ekki hjá því komizt, að allmjög verði deilt á B. M. Ólsen og rök hans fyrir máli sínu.

Aðalrök hans eru þessi: *að* allvíða sé ritað um Gizur af svo hlýjum hug og mikilli hluttekningu, að óhugsandi sé, að það geti verið stílað af Sturlu, fornum andstæðingi hans, einkum þar sem frásögn Sturlu beri allvíða vitni um kala til Gizurar og halli jafnvel á hann;

1) Safn III, 394—415. — 2) Hér er átt við textann í I. Þorgils saga skarða er einungis í II, og er auðvelt að greina hana úr.

*að* frásögnin um Gizur og skagfirzka viðburði sé oft svo nákvæm, að ekki sé sennilegt, að Sturla hafi vitað svo glögglega um það, og sé það þá að jafnaði augljóst, að heimildarmenn sögunnar sé úr Skagafirði; *að* Haukdæla þáttur sé ekki eftir Sturlu og geti vart verið annað en upphaf eða inngangur sérstakrar sögu um Gizur og *að* upphaf Þórðar sögu kakala sýni, að Íslendinga saga hafi ekki náð lengra en að útkomu Þórðar, og sé Þórðar saga samin sem áframhald af henni. Verður fyrst rætt stuttlega um þessi rök, en síðan athugaðir þeir kaflar, sem B. M. Ólsen skipar til sætis í Gizurar sögu.

## IV.

Það mun hverju orði sannara, að Sturlungar hafi borið þungan hug til Gizurar eftir Örlygsstaðafund og víg Snorra Sturlusonar. Kemur það fram í orðum Ólafs hvítaskálds, er Hrafn og Sturla fóru að Þorgilsi skarða í Stafholti, viðtali Þórðar kakala og Hákonar konungs og enn víðar, enda segir Hákonar saga, að þá er þeir Gizur og Þórður kakali hittust 1254, hafi lítill orðið vinafundur. Má að sjálfsögðu gera ráð fyrir því, að Sturlu Þórðarsyni hafi oft verið sama í hug gagnvart Gizuri, enda lýsir vísa sú, sem hann kvað til hans 1261, vel því þeli, er hann bar þá til Gizurar. Þó voru þeir um tíma allvel sáttir (1253—1261), og er svo að sjá, sem þá hafi þvínær gróið um heilt, þó að forn kali ýfðist upp aftur 1261 við brigðmælgi Gizurar gagnvart Sturlu.[1])

En hefur Sturla þá látið persónulega óvild eða kala ráða nokkuru um það, hvernig hann ritaði um Gizur og þá atburði, sem hann var við riðinn? Eg ætla, að það verði naumast talið. Að vísu er framkomu Gizurar oft lýst á þann veg, að hann minnkar í augum lesandans.

1) Sbr. BMÓ: Safn III, 311—314.

En þá er það jafnan honum sjálfum að kenna. Frásögnin er svo eðlileg og blátt áfram, að það eru viðburðirnir sjálfir, sem tala sínu máli og áfellast Gizur.[1]) Þetta hefur B. M. Ólsen einnig viðurkennt. En þó bendir hann á nokkura staði, þar sem hann kveður Gizuri beinlínis gert rangt til.[2])

Í 80. kap. er sagt frá deilum Snorra Sturlusonar og Sturlu Sighvatssonar á þingi 1229. Var þá svo mikil heift og fjandskapur milli þeirra, að hélt við bardaga. „Var þar fyrir Gizurr Þorvaldsson með mikit fjölmenni, ok vissi engi, hvárum hann ætlaði at veita. Þorvaldr faðir hans var á þingi, ok var beggja vin.“[3]) „Það er auðsætt, að hið fyrra á að vera last, en hið síðara lof, og er þó í rauninni hvorttveggja hið sama,“ segir BMÓ. Þetta er þó engan veginn augljóst. Þar sem sagt er, að Þorvaldur væri beggja vinur, mun átt við, að hann hafi borið sættarorð og reynt að afstýra vandræðum, sem var venja hans. En Gizur hefur ekkert lagt til málanna, og munu hvorirtveggju hafa óttazt, að hann snerist á sveif með hinum. Það mun því ofmælt, að þetta sé sagt Gizuri til lasts.

Þegar Kolbeinn ungi og Snorri deildu um arf Hallberu Snorradóttur á þingi 1232, voru þeir enn á þingi með flokka, Þorvaldur og Gizur. „Þorvaldr Gizurarson gekk mest í milli ok leitaði um sættir ... Gizurr Þorvaldsson hafði ok mikit fjölmenni, ok vissu menn óvíst, hvárum hann mundi veita, því at hann lét vel til hvárratveggja“ (91. kap.)[4]). Á líkan hátt er sagt í 104. kap., er þeir deildu enn, Kolbeinn og Snorri: „Gizurr Þorvaldsson hafði tvö hundruð manna ok lét til allra skipuliga. ... Þorvaldr Gizurarson gekk til Gizurar, sonar síns, ok bað hann hvárigum veita, kvað þat vænst til friðar, ef hann misjafnaði eigi með þeim.“[5])

Á báðum þessum stöðum er líkt að orði kveðið, og mætti telja gefið í skyn, að framkoma Gizurar hafi ekki verið einlæg. Þó er það ekki víst, og er engin ástæða til

1) Sbr. FJ: Litt. hist.[2] II, 726. — 2) Safn III, 314—318. — 3) Sturl.[3] I, 411. — 4) Sturl.[3] I, 444. — 5) Sturl.[3] I, 460, 462.

þess að ætla, að hér sé ekki rétt sagt frá, eftir því sem atvik lágu til. Um langt skeið hafði verið róstusamt í landi, flokkadrættir og stórdeildir á þingum og í sveitum. Alloftast var einhver Sturlunga annars vegar, og oft hélt við voða milli þeirra frænda. Gizur hefur ef til vill órað fyrir, að til stærri tíðinda hlyti að draga, eftir þekkingu hans á skaplyndi þeirra manna, sem þá voru hér ríkastir. Hann hefur talið sér vænst að ganga ekki í flokk með neinum, meðan hann gæti setið hjá, enda var hann náfrændi eða venzlamaður allra þeirra manna, sem hér eiga hlut að máli. Honum tókst einnig að sitja hjá deilum manna, meðan sætt var, eða þangað til Sturla Sighvatsson sveik hann á sitt vald, og Gizur varð að vinna það sér til lífs, að sverja Sturlu trúnaðareið og heita utanför sinni. Að hann snerist eftir það á móti Sturlu með öllum sínum afla og kappi, ætti ekki að vera oss undrunarefni. Það er því hvorttveggja, að hér mun rétt frá skýrt og vafasamt, hvort skoða eigi þessi ummæli sem last. Oss brestur því öll rök til þess að segja, að hér sé „Gizuri beinlínis gert rangt til“ og að þetta sé „bersýnilega sagt til þess að niðra Gizuri og sýna fals hans, fláræði og tvíveðrung.“ Hinsvegar er því ekki að neita, að í 121. kap. er það beinlínis gefið í skyn, að Gizur hafi borið kápuna á báðum öxlum. Þá var sem mestur fjandskapur með þeim frændum, Snorra og Sturlu, og fór Snorri suður til Reykja og var með Gizuri um föstuna. „Var þá allvel með þeim mágum. Góð orð fóru þá í millum þeira Gizurar ok Sturlu.“[1]) Þetta er, eins og BMÓ tekur fram, „sett svona hvað hjá öðru af ásettu ráði til að sýna tvöfeldni Gizurar“, en þó gerir hann ráð fyrir, „að þetta sé eða kunni að vera satt og rétt í alla staði“, og ætti framsetning sögunnar þá að vera réttlætt.

Hafi Sturla Þórðarson látið þá tilhneiging, sem honum er gerð hér upp, að halla á Gizur, leiða sig nokkurn tíma í freistni, var aldrei betra tækifæri til þess heldur

1) Sturl.[3] I, 487.

en þar, sem segir frá vígi Jóns murts Snorrasonar. Í 84. kap. er sagt frá þeim atburðum á þá leið, að engin sök fellur á Gizur og það verður óviljaverk, er hann heldur Jóni undir högg það, er honum varð að bana.[1]) Af 87. kap. má sjá, að Valgarður Guðmundarson, sem var þjónustumaður Gizurar og sjónarvottur að þessum atburði, hefur sagt Snorra frá víginu á annan veg og brugðið Gizuri um að hafa unnið níðingsverk á Jóni, „ok þótti Gizuri hann ekki bera sér mjök söguna“. Var lagður fundur með Gizuri og Snorra, vegna þessa söguburðar Valgarðs, og „sór Gizurr fimmtardóms eið, at hann hefði í engum ráðum verit með Ólafi um víg Jóns, ok vildi þá réttum skilnaði skilja í alla staði. Lét Snorri sér þat allt vel skiljask, er Gizurr sagði.“[2]) Vafalaust hefur Sturla vitað, á hverja leið sögusögn Valgarðs var. En hann gengur alveg fram hjá henni, þar sem hann segir frá víginu, drepur einungis á hana síðar, til þess að gera grein fyrir fundi Gizurar og Snorra og eið Gizurar, einmitt til þess að firra Gizur ámæli. Frásögnin er öll frá sjónarmiði Gizurar, og hefur Sturla algerlega farið eftir hans sögusögn: „En er hann (þ. e. Gizur) vissi, at Jón var sárr.“ Sturla hefur sýnilega trúað sakleysi Gizurar og segir frá á þann hátt, að oss er ljóst, að Snorri hefur líka talið þetta slys af Gizurar hendi. En hversu auðvelt hefði ekki verið að geta um frásögn Valgarðs um það, sem gerzt hafði, á þann hátt, að lesandinn væri í vafa um, hverju trúa skyldi? Það mátti gera alveg á ábyrgð Valgarðs og án þess, að vér, eða samtíðarmenn Sturlu, þegar hann reit söguna, hefðum getað brugðið honum um hlutdrægni. En þetta er fjarri Sturlu. Þetta óhapp hefur vitanlega legið sem skuggi á Gizuri, og orðrómur sá, sem Valgarður er borinn fyrir, hefur ef til vill magnazt eftir þá atburði, sem síðar urðu, víg Snorra og annara Sturlunga. Hér kemur það berlega fram, að sannleikurinn er Sturlu fyrir öllu, jafnt þar sem sagt er frá Gizuri sem annars stað-

1) Sturl.[3] I, 422—423. — 2) Sturl.[3] I, 426.

ar. Hafi eimt eftir af kala til Gizurar á efstu árum Sturlu, en þá mun sagan rituð, hefur hann vandlega gætt þess, að sú óvild kæmi ekki fram í henni eða hefði áhrif á framsetninguna.

Í þessari sömu frásögn er getið um hina erfiðu sambúð Gizurar og Ingibjargar, „ok segja þat flestir, at hon ylli því meirr en hann; en þó unni hon honum mikit.“[1])

Í öllu þessu er Gizuri borin svo vel sagan sem hann gat frekast á kosið. Eftir rökum B. M. Ólsens væri í raun réttri sjálfsagt að telja þessa frásögn til Gizurar sögu, en það hefur hann þó ekki gert, og ekki auðið að gera það. 87. kap. stendur í Resensbók[2]), en 84. og 87. kap. eru svo samtvinnaðir, að þeir verða ekki sundur skildir, og eru því báðir tvímælalaust úr Íslendinga sögu, eins og vikið mun að síðar.

„Einna berast kemur þó hatur Sturlu til Gizurar fram í frásögninni um Örlygsstaðabardaga, þar sem sagt er frá vígi Sturlu Sighvatssonar,“ segir B. M. Ólsen. En hér er sökin Gizurar, að honum er illa lýst, eins og Finnur Jónsson hefur tekið fram. Er engin ástæða til þess að efast um, að lýsingin sé rétt, eða að á þennan veg hafi verið frásögn Vestanmanna, sem voru sjónarvottar að víginu, en svo virðist sem Sturla Þórðarson hafi ekki séð það sjálfur. Frá því er sagt, þegar Kolbeinn Sighvatsson frétti víg þeirra feðga, Sighvats og Sturlu, og hljóp Kolbeinn þá til kirkju á Miklabæ „ok allr flokkrinn, sumir í kirkju en sumir í húsin.“ En skömmu síðar kemur í ljós, að Sturla Þórðarson er í þeim flokki, sem í kirkjuna komst.[3]) Er því sennilegast, að þessi lýsing sé eftir sögusögn annara manna.

Í frásögninni um Flugumýrarbrennu er hlýlega ritað í garð Gizurar; „... hversu ólíkur er ekki sá andi, sem hefur stjórnað pennanum á báðum stöðum,“ spyr B. M. Ólsen. Þetta er alveg rétt. En hversu ólíkt stendur ekki á? Fyrir Örlygsstaðafund hefur Gizur rof-

1) Sturl.³ I, 427. — 2) Bisk. I, 553. — 3) Sturl.³ I, 530—531.

ið eið þann, sem hann vann Sturlu. Það afsakar hann ekki til fulls í augum sagnaritarans, að það var nauðungareiður. Sturla Þórðarson taldi sér skylt að halda nauðungareið þann, er hann vann Kolbeini unga, þangað til Kolbeinn gekk á sættir við hann og gerði sig beran að fjörráðum.[1]) Þegar Gizur átti vald á lífi Sturlu, var ekki griða að spyrja, heldur veitti hann honum sjálfur banahögg. Fórst honum þar ver en Sturlu Sighvatssyni mundi farizt hafa, að eigin sögn, er nafni hans virðist hafa trúað: „— — — mikinn mun ætla ek þess vera með oss frændum, hvern veg þat er gefit; ef þeir hafa vald yfir mér, frændr mínir, þá hygg ek, at mér sé dauðinn einn ætlaðr, en þat veit guð með mér, þó at ek eiga vald á þeim, at engis þeira blóði skal ek út hella" (139. kap.).[2])

En í Flugumýrarbrennu er níðingsverk unnið á Gizuri, konu hans og sonum þeirra saklausum. Sturla hafði gert samband við Gizur með mægðum. Þar sem Hrafn Oddsson var einnig í þeirri sætt, mátti vænta þess, að samband þeirra þriggja yrði svo öflugt, að enginn megnaði að rísa í gegn, og var þá vænlegt til friðar á Íslandi, meðan svo stóð. Hefur Sturla gert sér miklar vonir af þessu sambandi og tengdum, um mikil völd og bjarta framtíð. En brennan batt enda á alla þessa fögru drauma. Og þegar brennumenn koma um miðja nótt, eftir hina dýrlegu veizlu, er haldin var til heiðurs dóttur hans, brenna inni konu Gizurar og sonu þeirra alla, en hann rekur sjálfan undan, ástvinalausan og fallinn sem fura að kvistum, þá er engin furða, þó að frásögnin verði hlýleg í garð Gizurar og þar kenni samúðar sagnaritarans. Var og í brennunni nær höggvið Sturlu sjálfum; var hann síðan fjandsamlegur brennumönnum og átti mikinn þátt í að fella Eyjólf Þorsteinsson.

Aftur er það skiljanlegt, að gremja og vonbrigði yfir því, að Borgarfjörður var af honum tekinn, hafi

1) Sturl.[3] II, 10, 15, 31—32, 40. — 2) Sturl.[3] I, 515.

getað lagt honum á tungu ósanngjörn orð í garð Gizurar. En eg hygg, að engin ályktun um sagnaritun Sturlu verði dregin af vísu, er hann orkti í sárri gremju og stundar reiði. Er mikill munur á frásögn Sturlu um gerð Kolbeins unga og vísu þeirri, sem hann kvað um hana (162. kap.),[1]) og hefði þó ekki verið rétt að liggja honum á hálsi, þó að gremja hans af þeim „skökku sáttum" hefði komið í ljós í sjálfri frásögninni. En einmitt þetta sýnir ljóslega, hve hlutlaus og hófsamur Sturla er jafnan í frásögn sinni.

Eg ætla Sturlu gert mjög rangt til, ef menn telja, að hann halli viljandi á Gizur, eða geti ekki ritað hlýlega um hann, þegar atburðirnir gefa fullt tilefni til þess. Hvergi mun ástæða að ætla, að Sturla láti Gizur ekki njóta sannmælis, en á hinn bóginn verður hann og að þola sannmæli jafnt sem allir aðrir, hversu vandabundnir sem þeir eru Sturlu.

## V.

Í mörgum frásögnum er það sýnilegt, að höfundurinn hefur haft sagnir og tíðindi af mönnum í Skagafirði. Einkum ber mikið á þessu, þar sem Páll Kolbeinsson, sonur Staðar-Kolbeins, og þeir bróðursynir hans, Kálfur og Þorgeir Brandssynir, eru á einhvern hátt riðnir við atburðina. Einnig virðist stundum farið eftir sögusögn Gizurar sjálfs eða einhvers, sem honum var nákominn.

Þegar Sturla tók að rita sögu sína, hefur honum verið það ljóst, hvílíkum erfiðleikum það verk væri bundið. Hann hefur auðvitað ekki treyst minni sínu að öllu leyti um þá atburði, sem gerðust eftir að hann komst til vits og ára, heldur aflað sér frekari vitneskju um atburðina hjá þeim, sem bezt máttu vita. Einkum verður að gera ráð fyrir, að hann hafi haldið spurnum

1) Sturl.[3] I, 573—574.

fyrir um merka atburði, sem gerðust í fjarlægum héruðum og hann hafði ekki verið við staddur. Frásögnin ber sjálf ljóst vitni um þetta, eins og vænta mátti.

Um heimildir Sturlu segir svo í formálanum: „... ok hafði hann þar til vísendi af fróðum mönnum, þeim er váru á öndverðum dögum hans, en sumt eptir bréfum þeim, er þeir rituðu, er þeim váru samtíða, er sögurnar eru frá. Marga hluti mátti hann sjálfr sjá, þá er á hans dögum gerðusk til stórtíðenda."[1]) Hér er beinlínis tekið fram, að Sturla hafi snemma byrjað á því, að safna til sögu sinnar, og haft tíðindi af fróðum mönnum. Sagan ber það með sér, að Þórður, faðir hans, er heimildarmaður um marga atburði, sennilega flesta, sem gerðust fyrir minni Sturlu. Sturla var 23 ára, þegar faðir hans dó. Má vera, að hann hafi þá þegar haft í huga að rita einhvern tíma síðar um þessa atburði, og er sennilegt, að sagnaritun Snorra hafi snemma vakið í honum áhuga á þeim efnum. Sturla hefur því íhugað vandlega þá atburði, sem voru að gerast, spurzt nákvæmlega fyrir um þá, en ekki látið sér nægja skotspónafréttir.

Íslendinga saga segir mest frá atburðum á Vesturlandi og vesturhluta Norðurlands. Um það, sem gerðist á Vesturlandi, hefur Sturla verið fróðastur. Þar átti hann heima alla sína æfi, en frændur og vinir í hverju húsi. Honum hefur því ekki orðið skotaskuld úr því, að fá glögga vitneskju um þá atburði, sem þar gerðust, enda ber sagan vitni um, að hann hefur haft tíðindi af allmörgum mönnum úr þeim héruðum, eins og B. M. Ólsen hefur sýnt fram á.

Annað söguríkasta héraðið er Skagafjörður. Þar gerast allflestir mestu og markverðustu atburðirnir á 13. öld: deilur Guðmundar biskups við leikmenn, með Víðinessbardaga, vígi Tuma Sighvatssonar og öðrum tíðindum, sem af þeim spruttu, Flatatungufundur, Örlygsstaðabardagi, Haugsnessfundur, Flugumýrarbrenna,

1) Sturl.[3] I, 120.

Fagranessför, Geldingaholtsvíg, en mörg stórtíðindi í næstu héruðum. Það var ógerningur, að rita sögu 13. aldar, án þes að segja nákvæmlega frá þessum atburðum. Sturlu hefur að vísu verið vel kunnugt um allt þetta. En hvað var eðlilegra heldur en að hann leitaði sér nánari vitneskju hjá þeim mönnum, sem höfðu aðstöðu til þess að vita betur en Sturla sjálfur um ýmsa af þessum stórviðburðum? Miklu fremur hefði verið undrunarefni, ef sagan bæri það með sér, að alstaðar væri litið á málin frá sjónarmiði Vestanmanna, en frásögnin jafnan ónákvæm um þá atburði, sem þeir komu ekki nálægt, eða gerðust annars staðar.

Nú hefur B. M. Ólsen sýnt fram á, að oft má rekja söguna til Páls Kolbeinssonar og Brandssona, þar sem segir frá skagfirzkum atburðum. En þeir eru einmitt allra manna líklegastir til þess að hafa verið sögumenn Sturlu. Í fyrsta lagi hafa þeir verið nákunnugir öllum þessum atburðum. Þeir bræður Páll og Brandur voru náskyldir Kolbeini unga og mjög handgengnir honum; var Brandur oft í ferðum með honum og erfði ríki og mannaforráð í Skagafirði að honum látnum. Í annan stað voru þeir komnir í mægðir við Sturlu alllöngu áður en ætla má, að Íslendinga saga sé rituð, því að Kálfur Brandsson gekk að eiga Guðnýju Sturludóttur veturinn 1259—1260 (324. kap.).[1]) Bæði Páll og Brandssynir virðast hafa verið friðsamir menn[2]) og skaplíkir Sturlu, mági sínum. Að einmitt þessir menn hafa sagt fyrir um marga atburði, virðist benda sterklega til þess, að öll frásögnin sé eftir Sturlu, einkum þar sem þeir verða ekki beinlínis kallaðir heimildarmenn að neinni frásögn í þeim köflum, sem B. M. Ólsen telur skotið inn í Þórðar sögu kakala. Vér þekkjum enga Skagfirðinga, sem voru jafnnákomnir Sturlu sem þessir frændur.[3])

1) Sturl.[3] II, 310. — 2) Sturl.[3] II, 309. — 3) BMÓ leggur ekkert upp úr þessum mægðum; virðist jafnvel ekki hafa tekið eftir þeim. Um 324. kap. segir hann svo (Safn III, 494): „En hér er hleypt inn 2 litlum athugasemdum, sem gera það grunsamt, hvort þetta muni vera tekið úr Gizurar sögu. Er það fyrst athugasemdin um gifting Guðnýjar,

Þá virðist svo sem Gizur sé stundum heimildarmaður frásagnarinnar. Ber einkum á því í kaflanum um Flugumýrarbrennu, en þó kemur það víðar í ljós, svo sem B. M. Ólsen hefur bent á. En það sannar ekkert um, að annar en Sturla hafi ritað frásögnina. BMÓ ætlar, að Páll eða Brandssynir hafi sagt eða ritað þessi tíðindi eftir Gizuri. En hví skyldu þeir ekki hafa getað sagt Sturlu frá sögn Gizurar, ef þeir eru annars tíðindamenn hans? Auk þess væri fjarstæða að halda því fram, að Sturla hafi ekki *getað* haft sagnir af Gizuri sjálfum. Um langt skeið voru þeir allvel sáttir (1253—1261). Þó að mágsemdir milli þeirra yrði skammvinnar, virðist hafa verið vel með þeim, þar sem Gizur hefur árið 1259 inni brúðkaup Ingibjargar Sturludóttur, sem áður var tengdadóttir hans, og um sama leyti gengur Sturla honum á hönd. Það mætti þykja ósennilegt, að Sturla hefði ekki spurt hann tíðinda, þegar svo bar undir, og má benda á dæmi þess. Sturla kunni t. d. kvæði Gizurar um Hákon gamla og vitnar í það um för konungs til Kaupmannahafnar árið 1257.[1]) Í 84. kap. er fylgt sögusögn Gizurar um víg Jóns murts, eins og getið er um hér að framan: „En er hann (þ. e. Gizur) vissi, at Jón var sárr."

Um þá aðra, er B. M. Ólsen telur heimildarmenn Gizurar sögu, er það að segja, að vel gat Sturla haft þau tíðindi eftir Páli Kolbeinssyni eða Brandssonum, eða þá beint eftir mönnunum sjálfum, þó að nú verði ekki sýnt fram á samband milli hans og þeirra. Hefur Sturla átt auðvelt að leita fregna hjá mönnum víðsvegar um land, eftir að hann var orðinn lögmaður.

Hér hefur verið sýnt fram á, að þeir menn, sem B. M. Ólsen telur aðalheimildarmenn Gizurar sögu, sé manna líklegastir til þess að hafa verið heimildar-

---

dóttur Sturlu, sem ekkert kemur Gizuri við." Að vísu kemur þessi gifting ekki jarli við, en því meir þeim mönnum, sem BMÓ telur höfunda eða aðalheimildarmenn sögunnar. Sé skoðun hans um Gizurar sögu rétt, ætti hiklaust að telja greinina til þeirrar sögu. — 1) Icel. Sagas II, 297; Flat. III, 200.

menn Sturlu. Af þeirri ástæðu rekur því engin nauðsyn til þess, að gera ráð fyrir sérstakri sögu um skagfirzka viðburði og Gizur. Ekki bendir neitt í þá átt, að Sturla hafi haft ritaða frásögn frá þessum mönnum, og er það ósennilegt, þó að ekki verði fyrir það synjað.

En þó að sennilegt sé, að Sturla hafi haft sagnir af Páli Kolbeinssyni, Brandssonum, Gizuri og öðrum, sem B. M. Ólsen telur aðalheimildarmenn Gizurar sögu, er það engin sönnun fyrir því, að sú saga hafi ekki verið til, ef sýna mætti fram á það með öðrum rökum. Fyrir því verður að rannsaka þá kafla lið fyrir lið, sem taldir hafa verið til Gizurar sögu og Skagfirðinga, og meta rök þau, er að því hafa verið leidd.

## VI.

Þegar lokið hefur verið að segja frá deilum Sigurðar Ormssonar við Sæmund í Odda og sætt þeirra í 11. kap. Íslendinga sögu, hefst í 12. kap. frásögn, sem að efni til stingur mjög í stúf við það, sem áður var frá sagt. Í 12. kap. segir frá landnámi Ketilbjarnar gamla, og er síðan óslitin frásögn um afkomendur hans, Mosfellinga og Haukdæli, þangað til sagt hefur verið frá seinna kvonfangi Þorvalds Gizurarsonar í niðurlagi 16. kap.[1]) Þenna þátt hefur B. M. Ólsen kallað *Haukdæla þátt*, og hefur hann sýnt fram á, að þátturinn hefur ekki átt heima í Íslendinga sögu, heldur er honum skotið síðar inn í söguna.[2]) Hyggur BMÓ, að þátturinn sé upphaf „Gizurar sögu og Skagfirðinga," og þá auðvitað saminn í Skagafirði, en styður það ekki með neinum rökum, er dregin sé af þættinum sjálfum, heldur eru rök hans um skagfirzkan uppruna dregin af öðrum frásögnum, sem hann telur til Gizurar sögu. Þó virðist réttara að rannsaka þáttinn sjálfan og vita, hvort ekki megi af honum ráða eitthvað um höfund hans og hvar hann sé saminn og hvenær. Hef eg skrifað um þetta ritgerð,

1) Sturl.[3] I, 243—251. — 2) Safn III, 304—307.

sem prentuð er í Festskrift til Finnur Jónsson, Kh. 1928, bls. 84—94, og get eg vísað til hennar. En þar sem sú bók mun vera í frekar fárra manna höndum hér á landi, verður tæplega hjá því komizt, að skýra hér í stuttu máli frá niðurstöðu þeirrar rannsóknar.

Heimildir þáttarins eru þessar[1]): 12. kap., um landnám Ketilbjarnar, er að langmestu leyti tekinn úr Landnámu, en textinn sver sig beinlínis í ættina til Ara fróða („Svá segir Teitr"), og er frumlegri en þeir Landnámutextar, sem nú eru til.[2]) Til niðurlags kap. svarar ekkert beinlínis í Landnámu eða Íslendingabók, og mun orðað upp af höfundi þáttarins, en hið forna þágufall „—dali" vísar til fornrar skrifaðrar heimildar og bendir til Ara.[3]) Næstu kap. (13. og 14.) eru teknir upp úr Íslendingabók, þó þannig, að röðinni er nokkuð vikið við og ýmsu sleppt, sem var óviðkomandi Mosfellingum og Haukdælum. Þó hefur brot úr lögsögumannstalinu slæðzt inn í 14. kap., en annars er því sleppt.

Síðari hluti þáttarins, frá orðunum: „Eptir Hall bjó í Haukadal Teitr ...", í niðurlagi 14. kap., er óháður Íslendingabók og Landnámu og mun ritaður eftir munnlegum heimildum, nema síðari hluti 15. kap., er rætt verður um síðar. Í 15. kap. er ekki annað sagt frá Halli biskupsefni og Gizuri lögsögumanni en hver sögufróður maður hefur vitað. Í 16. kap. er sagt frá kvonfangi Þorvalds Gizurarsonar, og er það hin ágæta og alkunna saga um dætur Guðmundar gríss á Þingvelli. Frásögnin er þess eðlis, að þetta mun ekki hafa verið á margra vitorði, enda gat enginn sagt frá viðræðum þeirra systra, nema þær sjálfar. Hér er því að ræða um munnmæli, er gengið hafa í ættinni.

Heimildir þáttarins eru því þessar:

1. Landnámabók Ara fróða.[4])

1) Sbr. Safn III, 307—310 og ritgerðir þær, sem þar er vísað til: Tímarit Hins ísl. bmf. X og Aarböger for nordisk Oldkyndighed 1893. — 2) Landn. V, 12. — 3) Sbr. Sturl.[2] I, 204, nmgr. 2 (aths. G. Vigf.). — 4) Eftir skoðun BMÓ hefur Ari samið sérstaka Landnámabók, og hefur hann fært sterk rök fyrir máli sínu, sbr. Tímarit bmf. X og Aarböger 1893.

2. Íslendingabók Ara.
3. Munnmæli, er gengið hafa í Haukdælaætt og sum munu hafa verið á fárra vitorði.

Því fer fjarri, að þessar heimildir vísi til Skagafjarðar. Miklu fremur gæti þær bent á, að þátturinn væri ritaður í grennd við Haukadal. En langflestar líkur benda til Breiðafjarðar, að þátturinn sé þar færður í letur, og af engum öðrum en þeim hinum sama, er setti saman Sturlungu, einhverjum Narfasona.[1])

Tvennt bendir til þess, að þátturinn sé saminn á Vesturlandi, og þá helzt við Breiðafjörð: Þar hefur Ari fróði ritað bækur sínar og þær verið kunnastar og mest notaðar, sbr. Landnámu Sturlu og Styrmis, og þar hefur Sturlunga orðið til.

Nú mætti segja, að rit Ara hafi verið víða kunn á 13. og 14. öld. Má gera ráð fyrir, að þau hafi verið til í klaustrum, í Odda, Haukadal og víðar. Í annan stað hefur höfundur Sturlungu átt sögur úr fjarlægum héruðum, Guðmundar sögu dýra og Svínfellinga sögu, þó að allar hinar sögurnar sé að vísu upp runnar í héraði hans sjálfs eða á næstu grösum. Þó gefur þetta nokkura vísbending, þegar hvorttveggja styrkir hið sama sem önnur rök liggja til, að safnandi Sturlungu muni hafa samið þáttinn.

Narfasynir hafa vafalaust átt kost á að nota rit Ara fróða, ekki sízt ef sú ættfærsla er rétt, sem allsennileg virðist, að Ari hafi verið bróðir Húnboga Þorgilssonar í Skarði, en Húnbogi var langalangalangafi Narfasona í beinan karllegg.[2]) Það þykir ef til vill kynlegt, að höfundur þáttarins skyldi ekki hafa tekið upp greinina um landnám Ketilbjarnar úr Landnámu Sturlu, er gera má ráð fyrir, að hann hafi átt kost á að nota eins og önnur rit Sturlu. En það hefur hann ekki gert. Það er og eðlilegt, að hann leitaði til Ara, er hann átti völ á frumheimildinni, sem hér er öllu nákvæmari en Sturlubók,

1) Sbr. FJ: Litt. hist.[2] II, 728—729. — 2) Jósafat Jónsson í Sýslumannaæfir II, 407—412.

og einkum af því að hann notar einnig annað rit Ara, Íslendingabók.

Narfasynir voru af Haukdælaætt. Móðir þeirra var Valgerður Ketilsdóttir prests og lögsögumanns og Halldóru Þorvaldsdóttur, en móðir Halldóru var Þóra yngri frá Þingvelli. Mun þeim ekki hafa þótt hvað minnst um það vert, að halda á lofti skyldleikanum við Haukdæli og Gizur jarl, sem var ömmubróðir þeirra.

Safnandi Sturlungu hafði viðað að sér allmörgum sögum um atburði víðsvegar um landið, er flestar voru upp runnar á Vesturlandi. Merkust þeirra var Íslendinga saga. Í henni er sagt frá flestu stórmenni landsins, og koma Haukdælir mjög við söguna, Þorvaldur Gizurarson og synir hans. Auk Íslendinga sögu átti safnandinn sérstakar sögur um forfeður margra helztu ættanna á Sturlungaöld, en enga um hina eldri Mosfellinga og Haukdæli. Má þó telja þá ætt merkustu ætt landsins á þjóðveldistímanum, og víst er um það, að engin ætt hefur haft meiri áhrif á landssöguna og í engri verið fleiri stórmenni, allt frá Ketilbirni landnámsmanni þangað til Gizur Þorvaldsson leið. Hefur safnandi Sturlungu skiljanlega viljað gera Haukdælum, forfeðrum sínum, jafnhátt undir höfði sem Reyknesingum, Saurbæingum, Húnröðlingum, Sturlungum, Eyrarmönnum og fleiri ættum. En þá hefur hann ekki átt annars kost en að setja saman sérstaka sögu um Haukdæli.

Samsetning þáttarins styður þetta. Rit Ara eru einu heimildirnar að sögu Mosfellinga, forfeðra Haukdæla. Höfundur þáttarins hefur engu við að bæta, og var þó margt frásagnarvert um þá, svo sem Gizur hvíta og Ísleif og Gizur biskupa. En sé þátturinn saminn í Haukadal, mætti undarlegt þykja, að engu skyldi vera bætt við frásögn Ara. Að svo er ekki, bendir ótvírætt til þess, að þátturinn sé ekki saminn í nánd við höfuðból ættarinnar, þar sem munnmælin um forfeður hennar hafa verið fjölskrúðugust. Nú mætti segja, að þetta vísaði til Skagafjarðar. En svo er þó ekki. Sagnaritari sem hefði tekizt á hendur að setja saman héraðssögu Skag-

firðinga og sögu Gizurar jarls, er segði frá öllum stórtiðindum hér á landi frá því í upphafi 13. aldar og nokkuð fram yfir miðja öldina, hefði auðvitað ekki gengið að því verki án rækilegs undirbúnings. Hann hefði varið löngum tíma í að viða að sér efni til sögunnar. Mætti þá fastlega gera ráð fyrir, að hann hefði haft eitthvað meira til brunns að bera um þessa merku menn heldur en hina örstuttu frásögn Ara, hafi hann ætlað að byrja sögu sína á þeim. En að hér er engu við aukið frásögn Landnámu og Íslendingabókar, bendir til þess, að höfundinum muni hafa verið tamara að rita upp sögur heldur en frumsemja.

Í 15. kap. er höfundurinn mjög stuttorður, en orðalagið virðist benda til þess, að þetta sé fært í letur af manni af Haukdælaætt. Í síðara hluta kapítulans eru taldir niðjar Gizurar Hallssonar, og er það með svipuðu sniði sem ættartölurnar framan við Sturlu sögu. B. M. Ólsen hefur haldið því fram, að þær ættartölur væri samdar af Sturlu og ætti að gera grein fyrir merkustu mönnunum í Íslendinga sögu, og er það allsennilegt.[1]) Nú er það eftirtektarvert, að þar sem raktar eru helztu ættirnar, Oddaverja, Sturlunga, Ásbirninga, Svínfellinga, Seldæla, Vatnsfirðinga og ætt frá Þorsteini ranglát, er ekki minnzt á Haukdæli, þá ættina, sem er einna kyngöfgust og ber mest á í sögu 13. aldar. Þess hefði mátt vænta, að Haukdælum væri gerð sömu skil sem hinum ættunum, enda er sýnilegt, að svo hefur verið. Safnandi Sturlungu hefur hlaupið yfir Haukdæli, þegar að þeim kom í frumriti hans, vegna þess að hann ætlaði sér að skjóta inn sérstökum þætti um þá. En ættartöluna hefur hann fært sér í nyt að nokkuru leyti. Niðjatal Gizurar Hallssonar er alveg hliðstætt niðjatali Sæmundar fróða, Þórðar Gilssonar, Ásbjarnar Arnórssonar, Sigmundar Þorgilssonar, Bárðar svarta, Þórðar í Vatnsfirði og Þorsteins rangláts og hefur vafalaust staðið meðal ættartalnanna, en er flutt hingað af höf-

1) Safn III, 383—385.

undi þáttarins. Þetta sannar tvennt: að ættartölurnar hafa legið ritaðar fyrir safnanda Sturlungu og eru ekki samdar af honum, og í annan stað, að sá sem ritaði upp ættartölurnar og felldi niður ættartölu Haukdæla, er hinn sami sem höfundur þessa kafla i Haukdælaþætti. Þetta er hin sterkasta sönnun þess, að safnandi Sturlungu hafi frumritað þáttinn, því að alveg er ástæðulaust að telja þetta seinni viðbót við hann.

Þá kemur að síðasta kaflanum í þættinum, frásögninni um Guðmundardætur frá Þingvelli. Hún er með öðrum blæ, mjög nákvæm og sýnilega frumsamin af höfundi þáttarins eftir munnlegum heimildum eingöngu. Frá samræðu þeirra systra hefur enginn getað sagt, nema þær sjálfar, og er ekki ósennilegt, að frásögnin sé að mestu leyti sönn. Má ef til vill helzt gera ráð fyrir, að önnurhvor þeirra systra hafi á gamals aldri sagt börnum eða öllu heldur barnabörnum sínum frá þessu. En Þóra eldri dó 1203 (Konungsannáll), og er því að rekja frásögnina til Þóru yngri. Hennar er síðast getið í Sturlungu árið 1243, og hefur hún þá verið hér um bil hálfsjötug, þar sem hún virðist gjafvaxta áður en Jóra biskupsdóttir dó. En allt tal þeirra systra er þess eðlis, að varla mun Þóra hafa sagt það vandalausum mönnum; mætti ætla, að Valgerður, móðir Narfasona, hafi heyrt þetta í bernsku af ömmu sinni. Er allra hluta vegna langsennilegast, að þessi frásögn sé í letur færð af beinum afkomanda Þóru heldur en fjarskyldum manni.

Í niðurlagi þáttarins er skotið inn grein úr 22. kap. Íslendinga sögu, eins og B. M. Ólsen hefur sýnt,[1]) en aftan við hana hnýtt setningu, sem vantar í Resensbók: „Halldóru Þorvaldsdóttur átti Ketill prestr lögsögumaðr.“ Ætlar BMÓ þetta viðbót frá safnanda Sturlungu, því að greinin bendir til Narfasona, dóttursona Ketils prests. En þetta styrkir það, sem áður var sýnt fram á, að þátturinn sé allur frá einhverjum þeirra kominn.

---

1) Safn III, 276, 310.

Í 16. kap. er ranghermt, að Guttormur erkibiskup hafi leyft sambúð þeirra Þorvalds og Jóru biskupsdóttur. Þetta hefur verið um 1186. Þá var Eysteinn erkibiskup í Niðarósi (1161—1188), en Guttormur ekki fyr en löngu síðar (1216—1224). Vart er ætlandi, að sagnaritari á 13. öld hefði gert sig sekan í þvílíkri skekkju. Verður því að gera ráð fyrir, að þátturinn sé sem yngstur, eða ekki eldri en Sturlunga, og saminn af manni, sem lítt hafði fengizt við sjálfstæðar sögurannsóknir. Vera má þó, að þetta sé ritvilla.

Enn er ótalið eitt atriði, sem styður það, að þátturinn sé saminn við Breiðafjörð. Lát Teits Ísleifssonar er miðað við fæðing Hvamms-Sturlu, og er eðlilegt, að safnandi Sturlungu gerði slíkt, þar sem á undan var komin löng saga um hann. En aftur er lítt skiljanlegt, hvað öðrum hefði gengið til, einkum ef höfundurinn væri skagfirzkur eða sunnlenzkur. Það kemur heim við tal Króksfjarðarbókar, að Teitur hafi dáið 5 vetrum fyr en Sturla væri fæddur, því að í henni stendur, að Sturla væri 67 ára, þegar hann lézt.1) Það er því ekki rétt, sem B. M. Ólsen segir, að hér sé ósamræmi milli Íslendinga sögu og þáttarins,2) en sú fullyrðing hans stafar af því, að í báðum elztu útgáfum Sturlungu stendur ranglega, að Hvamms-Sturla yrði 68 ára.

Sé þessi niðurstaða um höfund þáttarins rétt, skiptir það litlu, hvort safnandi Sturlungu hefur samið þáttinn sérstakan, áður en hann ritaði Sturlungu, eða um leið og hann var kominn hingað í frásögninni. Á hið fyrra gæti það bent, að í 3. kap. Ísl.s. er skotið inn grein, sem virðist vera úr Haukdælaþætti, um meinbugina á hjónabandi Þorvalds Gizurarsonar og Jóru biskupsdóttur.3) En þó að svo hafi verið, verður að

1) Sturl.3 I. 231. — 2) Safn III, 305—306. — 3) Ekki er ljóst, hvers kyns þessir meinbugir voru, en varla getur verið um of náinn skyldleika að ræða. Ef til vill er hér að ræða um misskilning, að höfundur þáttarins hafi ruglazt á þeim feðgum, Þorvaldi og Gizuri, því að meinbugir voru milli Gizurar og Gró Álfsdóttur, og leyfðu kennimenn ekki hjónaband þeirra fyr en árið 1252; þá var yngsti sonur þeirra 14 vetra (218. kap., Sturl.3 II, 133).

gera ráð fyrir því, að þátturinn sé beinlínis saminn í þeim tilgangi, að vera því til uppfyllingar, sem segir frá Haukdælum í Íslendinga sögu.

Nú kynni því að vera haldið fram, að þátturinn stæði á undarlegum stað, ef hann ætti ekki að vera annað en viðauki við Íslendinga sögu. Hann ætti þá að standa fremst, við hliðina á Geirmundar þætti, þar sem hann hefst á frásögninni um landnám ættföðurins. Aftur stæði hann á eðlilegum stað, ef hann væri inngangur eða upphaf sögu Gizurar Þorvaldssonar; hafi safnandi Sturlungu tekið mjög jafnsnemma til beggja aðalheimilda sinna, Íslendinga sögu og Gizurar sögu. En því er til að svara, að þátturinn nær fram undir 1200, og er honum því valinn staður á sama hátt sem öðrum sögum, sem safnandi Sturlungu tekur upp í rit sitt. Safnandi hefur haft það fyrir meginreglu, að láta enga sögu komast langt fram úr annari, ef um tvær eða fleiri sögur var að ræða, er sögðu frá samtíma viðburðum, sbr. hér að framan í II. kafla.

Af öllu þessu er það ljóst, að þátturinn getur ekki verið inngangur sérstakrar sögu um Gizur eftir skagfirzkan höfund. Um leið fellur ein öflugasta stoðin undan skoðun B. M. Ólsens, að safnandi Sturlungu hafi fært sér í nyt alllanga sögu um Gizur og Skagfirðinga. Ætlun BMÓ, að þátturinn sé skagfirzkur, byggist eingöngu á því, eins og að framan greinir, að þessi saga hafi verið til og þátturinn sé upphaf hennar. En í raun réttri gæti sú skoðun á þættinum, sem hér er haldið fram, vel verið rétt, þó að sýna mætti fram á, að til sé í Sturlungu leifar sérstakrar sögu um Gizur og Skagfirðinga, því að milli þáttarins og þeirra kafla, sem taldir hafa verið til sögu Gizurar, er ekkert beint samband. Verði hinsvegar ekki taldar nægar líkur til þess, að gera ráð fyrir slíkri sögu, má telja fullsannað, að þátturinn sé svo til kominn, sem hér hafa verið leidd rök að.

## VII.

Næsta frásögn, sem B. M. Ólsen telur úr Gizurar sögu, er 27. kap., um fæðing Gizurar Þorvaldssonar.[1]) Hann byrjar svo í I: „Um vetrinn eptir jól fæddi Þóra Guðmundardóttir, kona Þorvalds í Hruna, sveinbarn ...“ Í II stendur: „Um vetrinn eptir Víðinessbardaga ...“ Telur BMÓ þessa setningu vera beinlínis áframhald af því efni, sem Haukdæla þáttur endaði á, því að greinin um börn þeirra Þorvalds sé innskot í þáttinn úr Ísl.s. og um gifting Halldóru innskot frá safnanda, og sé texti I „eptir jól“ hinn upphaflegi texti. Hafi verið sögð æfisaga Þorvalds fram á veturinn 1208—1209, og vísi orðin til þeirrar frásagnar, sem nú er glötuð. Kveður hann hér „lof um Gizur, sem varla er líklegt, að Sturla hafi samsett, því að hann er því ekki vanur annars í Íslendinga sögu, að lýsa Gizuri sem neinum hreystimanni eða hetju.“ Auk þess sé frásögnin óþörf, þar sem áður hafi verið getið um Gizur í Ísl.s., í grein þeirri, sem standa átti í 22. kap., eins og Resensbók sannar, en hefur verið flutt til og sett í niðurlag Haukdælaþáttar.

Þessi rök virðast allsterk, og hafa ýmsir fallizt á, að þessi frásögn væri úr Gizurar sögu. En það er alveg fullvíst, að svo er ekki. Þessi frásögn stendur sem sé einnig í Resensbók,[2]) en B. M. Ólsen hefur fullsannað, að höfundur Resensbókartextans hefur ekki notað Sturlungu, heldur haft fyrir sér Íslendinga sögu sérstaka. Lýkur hann röksemdafærslu sinni á þessa leið: „Af öllu því, sem nú hefur verið sagt, leiðir með knýjandi nauðsyn, að höfundur Resensbókartextans hefur í biskupssögunni ekki haft fyrir sér Sturlungusafnið, heldur hefur hann *ausið af sjálfri Íslendinga sögu Sturlu ómengaðri, áður en henni var steypt saman við aðrar sögur.* Þessvegna hefur Resensbók mikla þýðingu fyrir spurninguna um, hvernig Sturlunga sé samsett og til orðin.“[3]) Þessi orð eru ótvíræð. Kapítulinn hefur verið

1) Sturl.[3] I, 284, sbr., Safn III, 320—322. — 2)Bisk. I, 496—497. — 3) Safn III, 275—285. Leturbreyting hér.

ritaður upp úr Íslendinga sögu, áður en Sturlunga varð til og öðrum sögum skotið inn í texta Sturlu.[1]) Hér er því beinlínis sannað, að Sturla gat farið loflegum orðum um Gizur, eins og vænta mátti, því að sízt mun hann hafa getað neitað því, að Gizur var stórmenni um marga hluti og enginn aukvisi ættar sinnar. Er því ljóst, að varlega má fullyrða um það, að Sturla hafi ekki getað ritað hitt eða þetta, eða draga í efa sanngirni hans í garð andstæðinga sinna.

Greinin í Resensbók byrjar svo: „Nú er þar til máls at taka, at um vetrinn eptir Víðinessbardaga ...“ Hún sannar því einnig, að texti II er réttari, og hefur því verið miðað við frásögnina í næsta kap. á undan. „Eptir jól“ mun breyting ritara I, til þess að sýna, að Gizur væri fæddur eftir nýár, eða árið 1209, en ekki 1208. Svipuð frásögn er um fæðing Sturlu Sighvatssonar í 9. kap., og dylst ekki, að báðar frásagnirnar um fæðing aðalmanna sögunnar eru úr einni og sömu heimild.

Í 40. kap. er sagt frá vígi Orms Jónssonar á Breiðabólstað, og er í miðri frásögninni þessi grein: „Magnús biskup kom út tveim vetrum áðr.“[2]) BMÓ telur þessa setningu líklega úr Gizurar sögu.[3]) Af því að greinin stendur á skökkum stað, hefði átt að koma í réttri tímaröð, er sennilegt að hún sé innskotsgrein, líklega úr annálum. Ísl. s. getur hvorki um kosningu Magnúss, utanför né vígslu, og er því líklegt, að Sturla hafi ekki minnzt á útkomu hans. Alla heimild brestur til þess að telja hana til Gizurar sögu. Þá hefði frekar mátt bú-

1) Að vísu vantar þenna kap. í Miðsögu Guðmundar biskups, sem svo er nefnd (AM 567 c, 4to), en það sannar ekkert. Það handrit sleppir flestum þeim köflum, sem teknir eru upp í Res. úr Ísl. s., en eru biskupi óviðkomandi. BMÓ hefur sýnt fram á, að allir þeir kaflar hafa staðið í hinni upphaflegu biskupssögu, Resensbókartextanum, sem hann kallar (Safn III, 273 nmgr.) og Res. og Miðsagan eru runnar frá, en AM 567 c er ritað eftir Miðsögunni (Safn III, 286—288). Í því sambandi telur hann beinlínis þessa frásögn (59. kap. í Res.) til þeirra kafla, „úr Íslendingasögu, er Resensbók hefur og eru Guðmundar sögu óviðkomandi“, en sleppt er í Miðsögunni. — 2) Sturl.[3] I, 330. „Tveim nóttum“ í I er „leiðrétting“ afritara, því að greinin stendur á skökkum stað. — 3) Safn III, 322.

ast við, að hún stæði á réttum stað og að getið hefði verið um biskupskosning, utanför og vígslu biskups. Svo mikið er víst, að þótt greinin yrði talin úr sögu um Gizur, skýrir það ekki á neinn hátt, hversvegna hún stendur hér á röngum stað. Tilraun BMÓ til þess að gera grein fyrir því, hefur ekkert sönnunargildi fyrir tilgátu hans.

Vorið 1223 reið Sturla Sighvatsson með foreldrum sínum suður í Hruna til Þorvalds Gizurarsonar og hóf bónorð sitt til Sólveigar Sæmundardóttur frá Odda, er dvaldi með móður sinni hjá Þorvaldi. Tókust þessi ráð, og hafði Þorvaldur þegar inni brúðkaup þeirra. Þess er getið, þegar setið var að veizlunni, „at Þorvaldr kallaði fram fyrir þá Sighvat börn sín, fyrst börn þeira Jóru biskupsdóttur, ok sagði, at honum þótti miklu máli skipta, að Sighvati litisk vel á börnin.“ Síðan voru börn þeirra Þóru leidd fram, og er sagt frá ummælum Sighvats um Gizur.[1]) Öll þessi frásögn hlýtur að vera röng. Börn Þorvalds og Jóru voru 5 synir. Tveir þeira voru dánir, Björn, er féll á Breiðabólstað 1221, og Klængur, er lézt 1210 og var þá djákn að vígslu (annálar); tveir voru á lífi og á fertugsaldri, Einar og Teitur, en óvíst um Guðmund, hvort hann var lifandi. Börn þeirra Þóru voru Halldóra, er gift var Katli Þorlákssyni í Hítardal að minnsta kosti 2 árum áður (41. kap.),[2]) Gizur 14 ára og Kolfinna yngst. En af frásögninni hér er að ráða, sem þau hafi öll verið í æsku.[3])

Það virðist óhugsandi, að Sturla gerði sig sekan í þessari villu; honum hefur verið fullkunnugt um aldur þeirra systkina, og ber Íslendinga saga vitni um það, eins og BMÓ tekur fram. Samkvæmt skoðunum sínum á Gizurar sögu telur hann þessa frásögn úr henni tekna. Það mun rétt á litið, að þessi frásögn sé eftir sama höfund sem ritað hefur Haukdæla þátt; virðist sami svipur vera á henni sem á sögunni um Þórurnar frá Þing-

1) 55. kap., Sturl.[3] I, 367—368. — 2) Sturl.[3] I, 346. — 3) Sbr. Jón Þorkelsson: Æfisaga Gizurar Þorvaldssonar, bls. 11—13; Safn III, 322—324.

velli. Á móti skoðun BMÓ mælir það, sem áður var sýnt fram á um Haukdæla þátt, að hann muni frumsaminn af safnanda Sturlungu. Í annan stað mætti ætla, að maður, sem ritaði um merkustu atburði 13. aldar og sérstaklega um Gizur og ætt hans, eftir skoðun BMÓ, hefði verið fróðari í öllu tímatali, og þá einkum því, er kom við Gizuri og systkinum hans. Má ekki ætla neinum sagnaritara, er segir frá nýliðnum atburðum, að hann vissi ekki annað eins um systkini söguhetju sinnar, og jafnvel um Gizur sjálfan, því að ljóst er, að þessi frásögn telur hann yngri en 14 ára. Það er og ljóst af þeim frásögnum öðrum, sem BMÓ telur til Gizurar sögu og því eftir sama mann, að sá höfundur hefur ekki verið tiltakanlega ófróður um menn og málefni á fyrra hluta 13. aldar. Frekar er skiljanlegt, að slíkt gæti hent þann, sem ætlaði einungis að skjóta ættarmunnmælum inn í rit annars manns. Honum gat frekar orðið á að gleypa við slíkum sögnum að órannsökuðu máli heldur en manni, er safnað hefði efni í heila sögu, að nokkuru eftir vitnisburði samtíðarmanna og sjónarvotta.

Vegna þess, hve hér skakkar miklu, verður að telja þessa frásögn eins unga og auðið er, þ. e. ekki eldri en Sturlungu. Mætti þó furða sig á því, að afkomanda Þorvalds Gizurarsonar í 3. lið skyldi geta skjátlazt svona hraparlega um börn hans. Það er og ljóst, eins og síðar verður sýnt fram á (sbr. 126. kap.), að safnanda Sturlungu var vel kunnugt um aldur Gizurar. En Sturlunga ber því vitni, að safnandi hefur þó að minnsta kosti, ef ekki frumsamið þessa sögu, þá tekið hana trúanlega og ritað hana upp, án þess að sjá ástæðu til leiðréttingar. En þar sem hann hefur ekkert haft að athuga við þessa frásögn, verður því ekki haldið fram, að hann hafi hlotið að hafa hana úr skrifaðri heimild, þegar allar aðrar líkur benda til þess, að heimild hans hafi verið munnleg og að hann hafi frumritað þetta.

Eins og Jón Þorkelsson tekur fram, er þetta ritað til þess að sýna einurð Gizurar. Minnir þetta nokkuð á frásögnina um Ólaf helga og Harald bróður hans, þótt

nokkuð sé á annan veg.[1]) Vel gæti sannur kjarni verið í þessari frásögn, það, sem sagt er um Gizur, en það er aðalatriðið, en síðar hafi hinum „börnunum“ verið bætt við í söguna.

Næsti kafli, sem BMÓ telur til Gizurar sögu, er 100.—101. kap.[2]) Í 100. kap. er sagt frá vináttu helztu bænda í Skagafirði við Sighvat og grun Kolbeins unga á þeim. Í 101. kap. segir frá því, að Kolbeinn gerði Órækju orð að koma til móts við sig, og brá Órækja skjótt við. Ætluðu þeir að Sighvati, en hættu við, þegar þeir vissu, að honum var komin njósn. Sneru þeir á Miklabæ og tóku af lífi Kálf Guttormsson, er Kolbeinn hafði grun á og þótti of mjög hallur undir Sighvat. Er allnákvæmlega sagt frá þeim atburði, og taldir upp þeir, sem í atförinni voru. Eftir þetta riðu þeir Kolbeinn suður til Snorra og leituðu eftir liðveizlu hjá honum, en hann hét að veita þeim á alþingi; sneru þeir þá norður aftur og höfðu þrennar setur í Skagafirði. Ætlar BMÓ, að Sturla hafi einungis haft hér „stutta athugasemd um ósamþykki Kolbeins við bændur og fylgi þeirra við Sighvat, og síðan sagt frá norðurferð Órækju og atför þeirra að Kálfi og drápi þeirra feðga í fám orðum.“ Sé ólíklegt, „að Sturla hafi haft svo nákvæmar sögur af innanhéraðsdeilum Skagfirðinga.“ Auk þess sé Kálfur, sem sagt er svo greinilega frá og lýst af hlýjum hug, móðurfaðir Brandssona, og bendi því allt til Gizurar sögu. Frá þessu er sagt í 101. kap., en svo náið samband sé við 100. kap., að ekki verði slitið í sundur.

Það er sennilegt, að Brandssynir, dóttursynir Kálfs, sé hér tíðindamenn, en svo sem áður var sýnt fram á, munu þeir aðalheimildarmenn Sturlu í Skagafirði. Er því ekki furða, þó að frásögnin sé hlýleg í garð Kálfs, enda var níðingsverk unnið á honum saklausum.

BMÓ styður mál sitt með því, að þeir, sem í atförinni voru, eru taldir upp með nöfnum, en það sé gert allvíða í Gizurar sögu. Vegna þess, að hann telur víða

1) Heimskr., Ól. s. helga, 76. kap. — 2) Sturl.[3] I, 453—456, sbr. Safn III, 372—373.

nafnaþulur óríekt vitni þess, að frásögnin sé úr þeirri sögu, er rétt að minna á, að slíkt kemur alloft fyrir í þeim frásögnum, sem ekki hefur verið vefengt, að sé úr Íslendinga sögu. Í 26. kap. eru þeir nafngreindir, sem féllu í Víðinesi, 12 alls.[1]) Í 29. kap. eru taldir með nöfnum 13 menn, sem féllu að Hólum, auk þriggja, er vegnir voru síðar.[2]) Í frásögninni um Grímseyjarför eru nafngreindir 7, sem féllu með Eyjólfi Kárssyni (49. kap.)[3]). Í atför Jónssona að Þorvaldi í Vatnsfirði voru 13 menn og allir nefndir með nöfnum (51. kap.)[4]). Í 65. kap. er sagt frá jólaboði Snorra og 11 boðsgestir taldir upp.[5]) Í Hvammsreið voru menn Sturlu á fjórða tigi, og eru 12 nafngreindir (66. kap.)[6]). Þar sem sagt er frá brennu Þorvalds Vatnsfirðings (71.—72. kap.), eru allir brennumenn nefndir og allir menn Þorvalds.[7]) Í 110. kap. er sagt frá sveitardrætti með mönnum Órækju í Vatnsfirði, og er þar hver nafnaþulan á fætur annari.[8]) Í 119. kap. eru nefndir 7 af 15 mönnum Sturlu[9]) og í næsta kap. eru þeir Órækja 12 taldir með nöfnum.[10]) Í 129. kap. eru nafngreindir yfir 30 menn, sem féllu í Bæjarbardaga[11]) og loks eru þeir, sem féllu á Örlygsstöðum, yfir 50 að tölu, allir nefndir í 143. kap.[12]). Þetta sýnir glögglega, að ekki hefir Sturla forðazt að nafngreina menn í flokkum, þegar hann hafði tök á því.

Engan veginn er ósennilegt, að Sturla hafi haft svo nákvæmar sögur af innanhéraðsdeilum Skagfirðinga. Þessa frásögn má bera saman við 33.—34. kap., um deilur Halls Kleppjárnssonar og Kálfs Guttormssonar í Eyjafirði og víg Halls, og er ekki ólíklegra, að Sturla hafi á þetta minnzt heldur en hinar fyrri deilur Kálfs. Nákvæmnin og kunnugleikinn er svipaður í báðum frásögnunum, og þar sem Sturla hefur vitað alla atburði um víg Halls, er gerðist áður en hann fæddist, getur ekki verið ósennilegt, að hann hafi vitað um samskonar

1) Sturl.[3] I, 282—283. — 2) Sturl.[3] I, 288. — 3) Sturl.[3] I, 358. — 4) Sturl.[3] I, 360—361. — 5) Sturl.[3] I, 386—387. — 6) Sturl.[3]) 387. — 7) Sturl.[3] I, 395—396. — 8) Sturl.[3] 468—471. — 9) Sturl.[3] 483. — 10) Sturl.[3] I, 484. — 11) Sturl.[3] 497. — 12) Sturl.[3] 532—533.

atburð 22 árum síðar, þegar hann var orðinn tvítugur. Hvorugt er óviðkomandi Sighvati Sturlusyni, því að hann komst að Grundarlandi, þegar Kálfur hafði verið gerður héraðssekur úr Eyjafirði fyrir víg Halls, en Kálfur var tekinn af lífi vegna vináttu við Sighvat, meðan fjandskapur var með þeim Kolbeini unga, auk þess sem nákvæm frásögn er hér um atför þeirra Kolbeins að Sighvati. Aðfarir Órækju í Vestfjörðum eru að mestu eða öllu leyti „innanhéraðsdeilur", og er þó frásögnin um þær ennþá smásmugulegri. Þessi rök hafa því ekkert sönunnargildi, er heimili að strika frásögnina út úr Íslendinga sögu.

Aftur kemur Resensbók oss til hjálpar. Þar standa 102. og 103. kap. Ísl. s., er koma við sögu biskups að því leyti, að báðir aðiljar gerðu biskupi orð, og hann gekk í lið með þeim Órækju.[1]) 102. kap. er beint áframhald af því, sem segir í 101. kap. um atför þeirra Kolbeins að Sighvati, er þeir hættu við, þegar Sighvati barst njósn, og verður sú frásögn ekki slitin í sundur.[2]) Er ekki nægilegt að ætla, að á undan 102. kap. hafi í Ísl. s. komið önnur frásögn styttri um sama efni, því að orðalagið tengir kaflana saman. 102. kap. (í Res. 103. kap.) byrjar svo í báðum heimildunum, Sturlungu og Resensbók: „Nú er at segja frá Sighvati, at Eiríkr greifi, njósnarmaðr Styrmis, kom á Grund ..." Þessi orð vísa beinlínis til 101. kap.: „Þeir Kolbeinn riðu norðr til Þverbrekku; þá spurðu þeir, at njósn var komin Sighvati, sú er gert hafði Styrmir, mágr hans, ór Bjarnastaðahlíð, ok hét sá maðr Eiríkr greifi." Þetta má telja fulla sönnun þess, að 101. og 102. kap. hafi frá upphafi staðið í sömu heimild, þeirri sem höfundur biskupssögunnar hafði fyrir sér, Íslendinga sögu. Fleira bindur kaflana saman. Í 102. kap. er sagt frá því, þegar Sighvatur spurði, að þeir hefði aftur snúið, og enn að þeir hefði setur í Skagafirði, og vísar hvorttveggja til þess, sem sagt var í 101. kap.

1) Bisk. I, 555—558; Sturl.[3] I, 456—460. — 2) Þetta hefir G. Vigf. séð, því að hann segir, að svo líti út sem felldir hafi verið í burt úr Res. 2 næstu kap. á undan þessum. Bisk. I, 555 nmgr.3.

Í 122. kap. er frá því sagt, að Guðmundur Ásbjarnarson, fylgdarmaður Kolbeins unga, var veginn á Flugumýri, að ráðum Helgu húsfreyju og Þórálfs Bjarnasonar, að því er virðist.[1]) En í 146. kap. er sagt frá vígi Þórálfs.[2]) Báðir höfðu þeir, Guðmundur og Þórálfur, verið í atförinni að Kálfi Guttormssyni, enda gekkst Brandur Kolbeinsson, tengdasonur Kálfs, fyrir vígi Þórálfs, ásamt Brodda Þorleifssyni og Álfi Guðmundarsyni. En í 145. kap. er sagt frá vígi Vermundar Tumasonar á Ökrum, frænda Kolbeins unga.[3]) Alla þessa kafla telur B. M. Ólsen úr Gizurar sögu.[4]) Þeir segi einungis frá ómerkilegum deilum innan héraðs í Skagafirði. Í 122. kap. sé frásögnin miðuð við víg Kálfs Guttormssonar, en sú frásögn sé úr Gizurar sögu. Brandur og Jórunn, kona hans, sé mjög riðin við atburðina í 146. kap. Auk þess standi 145. og 146. kap. í rangri tímaröð.

Um tímaröðina er það að segja, að í 144. kap. er frásögnin komin fram á vor 1239, en í 147. kap. er sagt frá dvöl þeirra Snorra í Noregi veturinn 1238—1239 og útkomu þeirra þá um sumarið. Aftur er sagt í 145. kap., að þetta hafi gerzt „nökkurum vetrum eptir Örlygsstaðafund", og væri þá sú frásögn ekki í réttri röð. En rétt á eftir stendur: „... atfangadag jóla, ok var þat á föstudag". En þetta getur einungs átt við jólin 1238,[5]) og hlýtur því „nökkurum vetrum eptir" að vera ritvilla, í staðinn fyrir „um vetrinn eptir". Er þessi frásögn því samtíða frásögninni í 147. kap., en gerist misseri fyr en það, sem segir frá í niðurlagi næsta kap. á undan. En víg Þórálfs (146. kap.) varð „um vetrinn tveim vetrum eptir Örlygsstaðafund",[6]) eða veturinn 1239—1240, og er það einungis ári síðar en þeir atburðir, sem 147. kap. byrjar að segja frá, og misseri eftir aðalefni þess kapítula. Hér skakkar því litlu, og mætti frekar segja, að

1) Sturl.[3] I, 487—488. — 2) Sturl.[3] I, 538—540. — 3) Sturl.[3] I, 535—537. — 4) Safn III, 373—375. — 5) Sbr. aths. G. Vigf., Sturl[2] I, 382, nmgr. a. og Kålunds, Sturl.[3] I, 536, nmgr. 1. — 6) B. M. Ó. segir, að ekki sé getið um, hvenær Þórálfur hafi verið veginn, en það er ekki rétt; þetta stendur í báðum skinnbókunum og öllum útgáfum.

þessum frásögnum yrði ekki valinn betri staður. Samskonar ónákvæmni er víðar, t. d. í 37. og 38. kap. Af þessum ástæðum verður ekki ráðið, að 145. og 146. kap. sé ekki úr Íslendinga sögu.

Um 122. kap. er það að segja, að ekki virðist ósennilegt, að Sturla hafi sagt frá þessum eftirköstum eftir víg Kálfs Guttormssonar. Benda má á atburð, sem líkt stendur á um. Í 48. kap. er sagt frá vígi Hafurs ráðamanns, og er það beinlínis sett í samband við frásögnina um víg Halls Kleppjárnssonar, en í 81. kap. segir frá vígi Jóns Birnusonar í hefnd fyrir Hafur. Allt eru þetta jafnómerkilegir innanhéraðsatburðir.

Aftur er annað grunsamlegt um þessar frásagnir, að 122. og 145. kap. standa einungis í I, en hafa ekki staðið í II. Nú fellir II örsjaldan niður söguefni, en í I er frásögnin oft stytt, þó að heilir kaflar sé sjaldan felldir niður. Þetta gæti þótt benda á, að þessir kaflar hefði ekki staðið frá upphafi í Sturlungu, og þá sennilega ekki teknir úr Íslendinga sögu. En sé svo, sanna þeir ekkert um það, að *safnandi Sturlungu* hafi notað sérstaka sögu um Gizur og Skagfirðinga, þar sem þeir hafa þá ekki staðið í bók hans.

Hin nákvæma frásögn sannar ekki, að Sturla hafi ekki getað vitað þetta eða ritað eftir skagfirzkum heimildarmönnum sínum. Víg Guðmundar og víg Þórálfs er hvorttveggja sett í samband við víg Kálfs, og því eðlilegast að telja allt til sömu heimildar, en frásögnin um víg Þórálfs er í báðum skinnbókunum og því upphafleg í Sturlungu. Þar sem áður var sýnt fram á, að frásögnin um víg Kálfs sé tekin úr Íslendinga sögu og hafi legið fyrir höfundi biskupssögu Resensbókar, er sennilegt, að allt þetta sé úr Ísl. s. Að vísu virðist upphaf 146. kap. benda á, að hann sé úr annari heimild en 101. og 122. kap., því að þar er gerð grein fyrir Þórálfi, eins og hans hefði ekki verið getið áður, en það gefur enga skýringu á þessu, þó að allir þessir kap. verði taldir til Gizurar sögu.

Vafasamastur er 145. kap., um víg Vermundar. Sé hann ekki úr Íslendinga sögu (og þá sennilega ekki upphaflegur í Sturlungu), heldur úr sérstakri heimild skagfirzkri, má telja fullvíst, að hann sé fyrsti votturinn um slíka sögu, sem auðið er að finna í Sturlungu.

Þegar lokið er að segja frá láti þeirra Guðmundar og Magnúss biskupa og Þórðar Sturlusonar, er í 126. kap. allnákvæm lýsing á Gizuri.[1]) Telur BMÓ kaflann tekinn úr Gizurar sögu, en þó sé einni smágrein skotið inn af safnanda Sturlungu.[2]) En ekki einungis þessi litla grein, heldur og öll lýsing Gizurar er vafalaust frumsamin af honum, og er það augljóst, þegar vel er að gætt.

Þessi kafli byrjar svo: „Gizurr Þorvaldsson bjó at Reykjum í Ölfusi þau misseri, er þeir önduðusk Magnús biskup ok Guðmundr biskup. Hann gerðisk höfðingi mikill, vitr maðr ok vinsæll; þá hafði hann átta vetr ok tuttugu; þá var liðit frá hingatburð várs herra Jesu Christi 1237 ár. Hafði Gizurr gerzt skutilsveinn Hákonar konungs, frænda síns, þá er hann skorti vetr á tvítugan.“ Hér er miðað við lát biskupanna, er frá var sagt rétt áður, og er ártalið miklu fremur sett til þess að ákveða þá atburði nánar. Saga um Gizur hefði sagt öðruvísi frá. Hún hefði ekki farið að greina frá því, hve mörg ár voru liðin frá Krists burð, þegar Gizur var 28 ára. Hún mundi hafa sagt frá því í réttri tímaröð, þegar Gizur gerðist skultilsveinn 9 árum áður. Sennilega hefði hún sagt eitthvað frá fyrstu búskaparárum hans. Árið 1237 var ekkert merkisár í æfi Gizurar, svo að ástæða væri til þess, að nema staðar við það, líta yfir liðinn tíma, greina aldur hans, ártalið, hvenær hann hafi gerzt skutilsveinn eða hvar hann bjó það ár. Réttara hefði verið að staldra við 2 árum áður, þegar faðir hans dó; þó mun lát hans ekki hafa markað nein tímamót í æfi Gizurar, því að ljóst er, að hann hefur tekið

1) Sturl.[3] I, 493. — 2) Safn III, 324—326.

við ríki og mannaforræði föður síns nokkuru fyr. En það er ekki fyr en næsta ár, að þeim Gizuri og Sturlu Sighvatssyni lendir saman og Gizur kemur í fyrsta sinni við deilur höfðingja.

Aftur á móti er árið 1237 merkisár í Íslendinga sögu. Í henni hefur borið mikið á Þórði Sturlusyni, en þetta ár andast hann og báðir biskupar landsins, en útlenzkir menn setjast á biskupsstólana. En tveim árum áður önduðust Þorvaldur Gizurarson, Sigurður Ormsson og fleiri merkismenn. Gamla kynslóðin er að ganga til moldar, ný kynslóð að vaxa upp, nýir menn að taka forustuna. Fremstur þeirra er Gizur. Hann hefur lítt komið við sögu áður, en eftir þetta snýst sagan langmest um hann, þau árin, sem hann er hér á landi. Von bráðar hefst ófriður þeirra Sturlu, þegar barizt var um yfirráðin hér á landi. Það er því ekki að ástæðulausu, að *safnandi Sturlungu* staldrar hér við, getur um ártalið, lýsir hinum upprennandi höfðingja, sem þegar á næsta ári bar ægishjálm yfir alla aðra, og drepur um leið á mótstöðumann hans.

Safnandi Sturlungu víkur sér því næst að keppinaut Gizurar: „Í þenna tíma var svá mikill ofsi Sturlu Sighvatssonar, at nær öngvir menn hér á landi heldu sér réttum fyrir honum, ok svá hafa sumir menn hermt orð hans síðan, at hann þóttisk allt land hafa undir lagt, ef hann gæti Gizur yfir komit.“ Þetta er beinlínis tekið upp eftir 134. kap.: „Sturla bað hann ekki efask í því, at hann æltaði sér meira hlut en öðrum mönnum á Íslandi, „en mér þykkir, sem þá sé allir yfir komnir, er þú ert, því at ek uggi þik einn manna á Íslandi, ef eigi ferr vel með okkr“.“[1]) Hér er ljóslega beinn skyldleiki milli þessara staða, og er hönd safnanda sýnileg. Að Gizur hefur ekki hermt þeim, sem þetta ritaði, orð Sturlu, er ljóst af orðalaginu: „svá hafa *sumir menn* hermt orð hans,“ og er þar átt við höfund frásagnarinnar í 134. kap. Þetta orðalag sýnir einnig, að Sturla

1) Sturl.³ I, 505.

hefur ekki fært þetta í letur; hann var viðstaddur, þegar Sturla Sighvatsson mælti þetta.

Þá kemur lýsing Gizurar, og er lögð áherzla á fríðleik hans, mælsku og viturleik. Sú lýsing er vitanlega rétt, því að Narfasynir hafa vel munað Gizur; voru forfeður hans einnig hin mestu glæsimenni, Gizur Hallsson, föðurfaðir hans, annálaður mælskumaður.

Næst er sú greinin, sem BMÓ telur skotið inn af safnanda „... en þó bar svá opt til, þá er hann var við deilur höfðingja eða venzlamanna sinna, at hann var afskiptalítill, ok þótti þá eigi víst, hverjum hann vildi veita." Þetta er rétt, því að greinin er samin upp úr frásögnum Íslendinga sögu, alveg eins og lýsingin á ofsa og yfirgangi Sturlu Sighvatssonar rétt á undan, sbr. 81. kap.: „vissi engi, hvárum hann ætlaði at veita," „vissu menn óvíst hvárum hann mundi veita, því at hann lét vel til hvárratveggju" (91. kap.), og í 104. kap.: „lét til allra skipuliga."[1])

Loks er getið um frændríki hans og vináttu við bændur: „þá var ok vel með þeim Snorra Sturlusyni." Þetta er tekið eftir niðurlagi 121. kap.: „Snorri fór af nesjum suðr til Reykja ok var með Gizuri um föstuna; var þá allvel með þeim mágum."[2])

Af þessu er ljóst, að þessi kafli hefur ekki staðið frá upphafi í sjálfstæðri sögu. Honum er skotið hér inn, til þess að glöggva lesandann á mikilvægum tímamótum. Efnið er tínt saman víðsvegar úr Íslendinga sögu: um bústað Gizurar, að hann gerðist skutilsveinn konungs (84. kap.)[3]), um ofsa Sturlu, óhreinlyndi Gizurar og vináttu þeirra Snorra, en sumu bætir safnandi við frá eigin brjósti: ártalinu, lýsing Gizurar og almennum ummælum um vinsældir hans.

Í frásögninni um Apavatnsför (134. kap.) kveður B. M. Ólsen dálítinn kafla úr Gizurar sögu. Færir hann þrennt til: að Gizur sé hér heimildarmaður, að tvisvar sé sagt frá hinu sama og að umrædd grein standi á

1) Sturl.[3] I, 411, 444, 460. — 2) Sturl.[3] I, 487. — 3) Sturl.[3] I, 422.

skökkum stað.[1]) Greinin er þannig: „Þat er sögn Gizurar sjálfs, at þá er þeir námu stað í hrauninu fyrir ofan Álptavatn ok sátu á baki, ok þagði Sturla svá um hríð. Ok er svá hafði verit um stund, mælti hann: „ríðum enn." Hefir Gizur þá helzt grunat, hvárt Sturla efaðisk þá eigi, hvern veg hann skyldi af gera við hann ok enn fleiri menn aðra."[2]) Þessi grein kemur þá fyrst, þegar lokið hefur verið að segja frá dagleiðinni og samningunum að Reykjum um kvöldið. En það er ekki rétt, að hér séu tvær frásagnir um sama atburðinn, sagðar frá ólíku sjónarmiði. Hér er átt við, að fyr í frásögninni segir svo: „... um daginn eptir sneri Sturla flokkinum út í Grímsnes ok svá til Ölfuss. Reið Gizurr fyrir allan dag. Þeir riðu út um Álptavatn ok höfðu heldr djúpt. Var Sturla heldr ófrýnn, en Gizurr var inn kátasti ok reið um kveldit út til Reykja." Hér er einungis sagt, að Gizur hafi riðið á undan og verið kátur, en Sturla ófrýnn, og á það auðvitað við ferð þeirra allan daginn, en ekki við einstakt atvik, eins og síðar greinir frá. Að þeir riðu út um Álptavatn og höfðu djúpt, er tekið fram til þess að sýna, hvar þeir fóru, en ekki sagt, að *þar* hafi Gizur verið kátur en Sturla ófrýnn, enda er sagt í sömu andránni, að þeir hafi riðið til Reykja. En á síðari staðnum er greint frá einstöku atviki, er varð áður en þeir riðu út í vatnið.

Að Gizur er hér borinn fyrir sögunni, sannar ekki, að þetta sé ekki eftir Sturlu, því að vel gat hann haft fregnir af Gizuri, meðan sættir og vinfengi var með þeim, eins og bent var á. En þó mun ekki nauðsynlegt að gera ráð fyrir því hér. Sturla Þórðarson var sjálfur í þessari ferð, og var í sveit með Böðvari, bróður sínum: „... ok hétu þeir Sturla bræðr (þ. e. Böðvar og Sturla) honum báðir at fara með honum ... kom þá Böðvarr til móts við hann með mikla sveit manna" (133. kap.).[3]) Böðvar er talinn fyrirmaður flokksins, því að hann var eldri og átti goðorð föður þeirra. En þegar

1) Safn III, 326. — 2) Sturl.[3] I, 506. — 3) Sturl.[3] I, 503.

samningum var lokið að Reykjum, fór Gizur í sveit með þeim Böðvari, og voru þeir í Villingaholti nokkurar nætur, en fóru síðan á Breiðabólstað, en Sturla Sighvatsson reið í Odda. Gizur og Sturla Þórðarson voru því saman í flokki næstu daga á eftir þessum atburðum, og hefur þeim eflaust orðið tíðrætt um þá, hvern veg ljúkast mundi. Má beinlínis gera ráð fyrir, að Gizur hafi þá sagt þeim bræðrum frá þessu atviki, sem um er að ræða.

Þá er það eitt eftir, að greinin ætti að standa fyr í frásögninni. Annað eins hendir Sturlu víðar, bæði í Íslendinga sögu og Hákonar sögu, eins og skiljanlegt er, og fyrir þá sök eina er ógerlegt að strika greinina út úr Íslendinga sögu. Þá má benda á, að í flokki Gizurar voru engir Skagfirðingar eða þeir aðrir, sem BMÓ telur aðalheimildarmenn Gizurar sögu; hefði þeir því orðið að fara eftir sögusögn Gizurar sjálfs um þessa atburði. En væri þessi grein hluti úr frásögn, sem væri komin frá Gizuri að mestu eða öllu leyti, er það kynlegt, að um þessa einu grein væri tekið fram, að hún væri eftir sögn hans sjálfs.

Í frásögninni um aðdraganda Örlygsstaðafundar og um bardagann sjálfan er margt, sem BMÓ telur úr Gizurar sögu.[1]) Fyrsta greinin er síðari hluti 137. kap., um för Svarthöfða í Geirshólm.[2]) Færir hann til þau rök, að í 140. kap., er sé allur úr Gizurar sögu, sé vísað til niðurlags 137. kap., um upptöku búsins fyrir Dufgusi, föður Svarthöfða: „Sat hann (Gizur) í Hróarsholti um sumarit ok hafði látit þangat fara bú þat, er hann hafði upp tekit fyrir Dufgusi."[3]) Þetta bendir ótvírætt á, að báðir kapítularnir sé úr sömu heimild. En í upphafi 138. kap., er BMÓ telur til Ísl. s., er vísað í þessa sömu frásögn í 137. kap.: „Þá er Sturla hafði senda þá Svarthöfða til Geirshólms . . ." og síðar: „þá kómu þeir Svarthöfði sunnan,"[4]) og vottar þetta, að Íslendinga saga hefur getið um för þeirra Svarthöfða. Sambandið milli 137.

1) Safn III, 327—331. — 2) Sturl.[3] I, 511. — 3) Sturl.[3] 516. — 4) Sturl.[3] I, 512—513.

og 140. kap. er því sönnun þess, að 140. kap. sé úr Íslendinga sögu, eins og fleira bendir ótvírætt til, sem síðar mun getið.

Í 138. kap. er sagt frá liðsdrætti Sturlu og vitneskju Kolbeins unga um hann, för Kolbeins af héraði og reið Sturlu norður í Bólstaðarhlíð, og loks frá því, er Skagfirðingar tóku nokkura af mönnum Sturlu í Valadal og færðu Kolbeini í Vinverjadal, en hann gaf þeim grið. Í 139. kap. er sagt frá reið Sturlu í Skagafjörð og komu Sighvats þangað og athöfnum þeirra til föstudagskvölds 20. ágúst. Þá er og sagt frá draumum tveim, manns í Skagafirði og Steinvarar Sighvatsdóttur. „Margir váru aðrir draumar sagðir í þenna tíma, þó at hér sé eigi ritaðir, þeir er tíðindavænir þóttu vera, svá ok aðrir fyrirburðir.“ Þá er og sagt frá draumi Sturlu Þórðarsonar, er hann sagði nafna sínum.[1])

Þá hefur að segja frá athöfnum Kolbeins í 140 kap., liðsafnaði þeirra Gizurar og norðurreið, að Brandur Kolbeinsson reið frá þeim í liðsafnað og kom til þeirra með hundrað manna.[2]) Þenna kafla telur BMÓ úr Gizurar sögu, eins og fyr getur. Áður en rök hans fyrir því eru athuguð, skal bent á nokkur atriði, er sýna ljóslega, að þessi kapítuli hlýtur að vera úr sömu heimild sem næstu kapítular á undan, eða úr Íslendinga sögu.

Frásögnin byrjar svo: „Kolbeinn ungi reið af heraði, sem fyrr var ritat, ok hafði hálft annat hundrað manna. Hann reið suðr af Kili, þá er hann hafði lausa látit menn Sturlu, þá er teknir váru í Valadal.“ Fyrri hluti setningarinnar vísar til 138. kap.: „... var þat ráð tekit, at Kolbeinn valði með sér it röskvasta fólk ok lýsti því, at hann mundi ríða af heraði fyrst at sinni, nærr sem honum yrði auðit aptr at koma.“[3]) Þetta er í beinu áframhaldi af frásögninni um liðsdrátt Sturlu og njósn þá, sem Kolbeini kom um hann, og er allt tvímælalaust úr Ísl. s., enda hefur það ekki verið vefengt. Síðari hluti greinarinnar vísar til niðurlags 138. kap., um

1) Sturl.[3] I, 513—516. — 2) Sturl.[3] I, 516—517. — 3) Sturl.[3] I, 512.

það, er menn Sturlu voru teknir og flettir í Valadal, en látnir lausir af Kolbeini.[1]) Þar sem í 140. kap. er vísað til tveggja staða í 138. kap. og enn til niðurlags 137. kap., en í 138. kap. á 2 stöðum vísað til 137. kap., eins og bent var á, er það alveg ljóst, að öll þessi frásögn stendur í órjúfandi samhengi og er úr einni og sömu heimild.

Enn gefur það nokkura vísbending, hvernig sagt er frá njósnum hvorratveggju. Í 139. kap. segir svo um njósnir þeirra Sturlu: „Engar njósnir fengu þeir um kveldit af sínum mönnum, en þó fór pati af því, at menn hefði grun á, at flokkarnir mundu í nánd vera.“[2]) En í 140. kap. er sagt frá njósnum þeirra Kolbeins á þessa leið: „en Kolbeinn reið fyrstr ok sætti njósnarmönnum sínum. Gengu ok svá njósnirnar, at þá kómu aðrar jafnan til Kolbeins, er aðrir váru hjá Gizuri, þeir er fyrr kómu.“[3]) Mun það ekki vera af ráðnum hug, að svo er getið um njósnir beggja aðilja? Þetta er einn þátturinn í tilraun sagnaritarans til þess að sýna, hve mikill var fyrirhyggjumunur og viðbúnaðar þeirra Kolbeins og Sturlu, og gefur hann með því vísbending um úrslitin. Má víðar finna það í þessari frásögn, sem enn mun síðar getið.

Niðurlag 140. kap. er á þessa leið: „Þeir höfðu níu hundruð sunnan, en þá er þeir váru við Reykjalaug, váru nær þrettán hundruð. *Þeir kómu þar frjádagskveldit, ok var Brandr þá til kominn laugarmorguninn snemma* með hundrað manna.“ Þá er í 141. kap. sagt frá allmörgum draumum og fyrirburðum er urðu fyrir orustuna.[4]) Í upphafi 142. kap. er sagt frá athöfnum Sturlu föstudagskvöldið og að þeir gengu til svefns. Þá víkur sögunni til Gizurar: „Þessa nótt váru þeir Gizurr við Reykjalaug, ok stóðu þeir Kolbeinn snemma upp um morguninn ok vökðu lið sitt. Gizurr sagði þeim Kolbeini *ok Brandi draum sinn, því at Brandr kom, áðr þeir væri klæddir.*“[5]) Síðan er greint frá draumnum og ræðu þeirri, er Gizur hélt fyrir liðinu. Ætlar BMÓ alla

1) Studl.³ I, 513. — 2) Sturl.³ I, 515. — 3) Sturl.³ I, 517. — 4) Sturl.³ I, 517—521. — 5) Sturl.³ I 522.

þessa frásögn (140.—142. kap.) vera úr Gizurar sögu, að því frá teknu, er segir um Sturlu í upphafi 142. kap.

Áður hefur verið getið um 140. kap., að hann verður ekki slitinn frá því, sem á undan var komið. Aðalrök BMÓ eru og byggð á 142. kap. Draumurinn og ræðan bendi ótvírætt í þá átt. Ræðan sé lík þeirri, sem Gizur hélt í brúðkaupinu á Flugumýri, en sú frásögn sé úr Gizurar sögu, en Sturla hafi annars aldrei slíkar tölur í Íslendinga sögu, þó að hann hafi þær stundum í Hákonar sögu, er öðru máli gegni um. En ræðan sé hér sett Gizuri til hróss.

Ræðu þessa heyrði fjöldi manns, og gat Sturla því haft næga heimildarmenn fyrir henni, ef hún er ekki komin frá Páli Kolbeinssyni. Gizur var mikill mælskumaður, svo sem tekið er fram í 126. kap., og mun ekki ástæða til þess að rengja, að hann hafi flutt þessa ræðu. En hví skyldi Sturla ekki hafa getað tekið ræður upp í sögu sína, þegar svo bar undir? Vér sjáum, að hann tekur fjöldamargar ræður upp í Hákonar sögu, ekki stundum, heldur mjög oft. Sama gerir höfundur Sturlu sögu, er Sturla hefur þekkt og sennilega ritað upp, framan við sögu sína. Sjálfur Snorri Sturluson gengur jafnvel svo langt, að hann semur ræður og leggur í munn löngu liðnum mönnum, Ari fróði gaf fordæmið og Karl ábóti. Þeir sem síðar rituðu, höfðu sama sið, svo sem höfundar Þórðar sögu kakala, Þorgils sögu skarða og Árna sögu biskups. Að ekki eru ræður í þeim hluta Sturlungu, sem enginn ber brigður á, að sé tekinn úr Íslendinga sögu, þarf ekki að sanna neitt í þessu efni. Það er ekki víst, að tækifæri hafi verið til þess, eða að aðrir aðalmenn sögunnar hafi verið mælskumenn, enda gerist sá hluti sögunnar að miklu leyti fyrir minni Sturlu. Og þar sem ræður eru teknar upp í textann, er það talið sönnun þess, að sú frásögn geti ekki verið eftir Sturlu. Það er því óleyfilegt að álykta, að Sturla hafi forðazt að taka ræður upp í Íslendinga sögu, þar sem það brýtur alveg í bág við frásagnaraðferð hans sjálfs í Hákonar sögu og fordæmi þeirra sagnaritara, sem hann og samtíðar-

menn hans hafa hlotið að taka sér til fyrirmyndar. Má og benda á, að fjarri fer því, að þessi ræða sé hól um Skagfirðinga, þar sem þeim er brugðið um, að þeir hafi haft Kolbein Tumason á spjótsoddum fyrir sér í Víðinesi, „en runnuð sjálfir þegar í fyrstu svá hræddir, at þeir vissu eigi, er þeir runnu yfir Jökulsá, ok þar er þeir þóttusk skjöldu bera á baki sér, þar báru þeir söðla sína.“

Um drauminn er það að segja, að hann mun, eins og margt annað, ritaður eftir sögn Páls Kolbeinssonar, eða Brandssona. BMÓ bendir á, að í 139. kap. sé sagðir tveir draumar, en margir aðrir hafi dreymdir verið, „þó at eigi sé hér ritaðir,“ og hafi Sturla ekki ætlað að geta um fleiri drauma. En draumur Sturlu Þórðarsonar standi síðar í réttri tímaröð, og taki þetta því ekki til hans. Sama máli gegnir um draum Gizurar, hann stendur í réttri tímaröð og brýtur því ekki þá reglu, sem BMÓ telur fylgt hér, fremur en draumur Sturlu sjálfs.

Draumurinn á að sýna, hvernig lagðist í Gizur fyrir orustuna: „Betra þykkir mér dreymt en ódreymt.“ Ræðan sýnir undirbúning hans og fyrirhyggju. Draumafar Sturlu Sighvatssonar, sem getið er um á eftir, var erfitt; hann vaknar kófsveittur, strýkur hendi um kinn og segir: „ekki er mark at draumum“. Í stað þess að búast undir bardagann og telja kjark í liðið, leggst hann út af aftur, þangað til þeir Gizur ríða að. Sighvatur hafði einnig haft erfiða drauma áður og lagzt illa í hann (137. kap.);[1]) hann kemur og í síðasta lagi til fundarins. Allt þetta bendir á hið sama sem frásögnin um njósnirnar, á muninn á viðbúnaði og fyrirhyggju, er hlaut að ráða sigri. Einmitt þessi aðdragandi sýnir, að allt er eftir einn höfund, og er öll frásögnin ger af mikilli list.

Þessar röksemdir fyrir því, að hér sé kaflar úr sögu Gizurar, eru því ónógar og að sumu leyti beinlínis rangar. En þá er ein eftir, sem BMÓ telur sterka

1) Sturl.[3] I, 510—511.

sönnun fyrir sínu máli og felst í orðum þeim í niðurlagi 140. kap., sem auðkennd voru hér að framan. Í báðum greinunum er getið um komu Brands Kolbeinssonar. Í fyrri greininni finnur BMÓ mótsögn „... þeir kómu þar frjádagskveldit, ok var Brandr þá til kominn laugarmorguninn snemma með hundrað manna.“ Ætlar hann, að í Gizurar sögu hafi staðið á þessa leið: „En þá er þeir váru við Reykjalaug, var nær þrettán hundruð. Þeir kómu þar frjákveldit ok váru þar um nóttina, ok stóðu þeir Kolbeinn snemma upp laugarmorguninn ok vökðu liðit. Var Brandr þá kominn, áðr þeir væri klæddir, með hundrað manna. Gizurr segir þeim Kolbeini ok Brandi draum sinn.“ Nú hafi safnandi viljað geyma drauminn þangað til síðar, svo að hann stæði við hliðina á frásögninni um draumafar Sturlu þessa nótt, og hafi því skotið frásögninni um athafnir Sturlu um kvöldið hér inn. En þó hafi hann viljað taka hér fram allt, sem snerti liðsfjöldann, og slitið orðin „var Brandr þá kominn“ út úr því sambandi, sem þau stóðu í, og ritað þau í hugsunarleysi orðrétt á eftir orðunum, „þeir kómu þar frjádagskveldit,“ en hafi síðan rankað við sér og séð, að það var ekki rétt, að Brandur væri kominn föstudagskvöldið og bætt við „laugarmorguninn snemma“ til þess að taka af allan vafa.

Þessi skýring er óeðlileg og óþörf. Það er í raun og veru engin mótsögn í þeirri setningu, sem tilgreind var. Að vísu er orðalagið ekki heppilegt, og má vera, að það sé eitthvað brjálað, en má þó til sanns vegar færa. Það er í alla staði eðlilegt, að sagt sé í einu frá öllum liðsfjölda þeirra, og varð þá ekki hjá því komizt, að geta um komu Brands. Það er og tæplega rétt, að tvisvar sé sagt frá komu Brands. Á síðara staðnum segir, að Gizur hafi sagt Kolbeini og Brandi draum sinn *„því at* Brandr kom áðr þeir væri klæddir.“ Þetta er einungis tekið fram til þess að sýna, að Brandur hafi komið *nógu snemma* til þess að heyra draum Gizurar, en ekki í því skyni að endurtaka, hvaða morgun hann kom. Í þessu er ekkert óeðli-

legt. Þá er það ófullnægjandi skýring, að safnandi hafi geymt sér draum Gizurar, til þess að draumarnir stæði saman, Gizurar og Sturlu. Draumarnir standa ekki saman, því að ræða Gizurar er á milli. Þó standa þeir nálægt hvor öðrum, enda mun Sturla hafa raðað efninu niður af sömu ástæðum sem safnanda voru hér gerðar.

Þá er það ætlun BMÓ, að draumarnir í 141. kap. sé úr Gizurar sögu, en sá kapítuli stendur á milli þeirra greina, sem hér hafa verið gerðar að umtalsefni. Hafi draumakaflinn staðið á þessum sama stað í Gizurar sögu, þá hafa þessar tvær greinar verið slitnar í sundur frá upphafi, og fellur þá þessi röksemdaleiðsla alveg. Nú mætti segja, að draumarnir hafi staðið á öðrum stað í sögu Gizurar. En hvar þá? Hafi safnandi lagt frá sér í bili heimild sína fyrir 140. kap., Gizurar sögu, til þess að skjóta inn lítilli grein úr Íslendinga sögu, svo að draumur Gizurar og Sturlu stæðu nær hvor öðrum, var ástæðulaust og óeðlilegt að hlaupa fyrst í annan stað í sömu heimild og taka þaðan langan kafla um annað efni. En hafi draumakaflinn staðið þar í frásögninni, sem lokið var að segja frá þeim Gizuri um kvöldið, getur textinn ekki hafa verið sá, sem BMÓ heldur fram: „. . . Þeir kómu þar frjádagskveldit ok váru þar um náttina, ok stóðu þeir Kolbeinn snemma upp . . .“, því að þá ætti kaflinn að hafa staðið í miðri þessari málsgrein. Það rekst því hvað á annað, að draumarnir sé úr Gizurar sögu og að textinn hafi annars verið sá, sem BMÓ heldur fram.

Þessi frásögn um aðdraganda Örlygsstaðabardaga er vafalaust öll úr Íslendinga sögu, nema 141. kap., sem frumritaðar mun af safnanda Sturlungu. Því verður ekki barið við, að frásögnin um undirbúning Kolbeins og Gizurar hafi í Íslendinga sögu verið „mjög stutt, því að Sturla hefur varla vitað neitt glöggt um það.“ Um ferðir þeirra og liðsafnað hefur orðið alkunnugt þegar eftir bardagann. Hefur Sturla auðvitað haldið spurnum fyrir um þetta og átt auðvelt með að afla sér glöggrar

vitneskju úr flokki andstæðinga sinna; má t. d. benda á, að mágar Sturlu, Sigmundur og Bárður, synir Skarðs-Snorra, lágu allan veturinn í sárum norður í Skagafirði, og margir aðrir lágu þar í sárum eftir fundinn (144. kap.).[1]).

Frásögn Sturlu er á þessa leið: Fyrst segir frá liðsdrætti Sturlu og ferð norður í Bólstaðarhlíð og flótta Kolbeins suður um Kjöl (138. kap.). Þá er ferð Sturlu í Skagafjörð og koma Sighvats til móts við hann, og er sagt frá fram á föstudagskvöld (139. kap.). Þá segir frá Kolbeini, sem fyr var frá horfið, og fylgir sagan þeim Kolbeini og Gizuri til föstudagskvölds, og þó getið um komu Brands Kolbeinssonar morguninn eftir (140. kap.). Síðan víkur sögunni til Sturlu, og er sagt frá athöfnum hans um föstudagskvöldið og hvernig mönnum var skipað til svefns. Þá er sagt frá því, er þeir Gizur vöknuðu og bjuggust til bardaga (142. kap.), og loks frá því, er Sturla vaknaði og lið hans (upphaf 143. kap.), og er þá komið að orustunni sjálfri.

Niðurskipun efnisins er mjög skýr og greinileg. Lesandinn veit jafnan, hvað báðum flokkum líður. Ekki hefur þó verið vandalaust að rekja báða þræðina jafnframt, en Sturlu hefur tekizt það ágætlega. Og þó að ef til vill megi að því finna, hvernig sagt er frá komu Brands Kolbeinssonar, verður að gæta þess, að viðfangsefnið var erfitt, en Sturla auðvitað ekki óskeikull. Mætti benda á stærri missmíði hjá honum en þetta er.

Aftur á móti mun 141. kap. vera innskot í söguna. BMÓ hefur bent á, að Sturla muni ekki hafa ætlað sér að rita fleiri fyrirburði en þá, sem greindir eru í 139. kap., er hann getur þess, að fleiri hafi orðið, þó að ekki sé ritnir hér. Að vísu segir hann síðar frá draum sínum og Gizurar, en um þá gegnir öðru máli; þeir standa í réttri tímaröð, eru liðir í samanhangandi frásögn og engan veginn marklausir fyrir hana. En 141. kap. slítur í sundur frásögnina á mjög óheppilegum stað, auk þess

1) Sturl.[3] I, 533. Synir Skarðs-Snorra og Helga, kona Sturlu Þórðarsonar, voru bræðrabörn.

sem þar er greint vísuupphaf, sem tekið er úr 137. kap., en þar stendur vísan öll. Þó gæti það virzt benda á, að kapítulinn sé úr Íslendinga sögu, að greindir eru fyrirburðir, er bar fyrir Sturlu Sighvatsson og Sturlu Þórðarson. En þó bendir það frekar í hina áttina, hversu óákveðið og óljóst orðalagið er: „Þetta var kveðit fyrir Sturlu Sighvatssyni heima at Sauðafelli um sumarit, áðr hann fór til Örlygsstaðafundar ... Staka þessi var kveðin fyrir Sturlu Þórðarsyni enn fyrir fundinn.“[1])

B. M. Ólsen telur þenna kap. til Gizurar sögu og færir þau rök til þess, að tveir fyrirburðir gerist í Skagafirði, tveir í Húnaþingi, einn fyrir norðan Skagafjörð og einn á Kjalarnesi, er Gizur virðist þá hafa haft umráð yfir. Um einn fyrirburðinn er sagt: „Þessi vísa var kveðin *vestr* í Svartárdal, og telur BMÓ átt við Svartárdal í Húnaþingi, og sé ljóst, að þetta sé ritað fyrir norðan Húnaflóa. Gegn þessu má taka það fram, að þrír fyrirburðir gerast í Dölum, og það bendir ótvírætt á Vestanmann, að getið er þeirra Sturlu nafna. Enn er getið um fyrirburð á Skógarströnd, er Kålund leiðréttir í Skagafjörð, og er þó vafasamt.[2]) Kjalarnes er nær Dölum en Skagafirði, en Húnaþing jafnnáið báðum sveitum. Gegn þessu er lítið á því byggjandi, að sagt er „vestr í Svartárdal“, því að það þarf ekki að merkja annað en að átt sé við vestri dalinn með því nafni. Á það má og benda, vegna þess að oft er lagt mikið upp úr slíkum orðatiltækjum, að Sturla segir sjálfur í 38. kap.: „Þessu næst, eða litlu fyrr, váru skærur þeira *vestr* í sveitum, Miðfirðinga og Víðdæla.“[3]) Hefur Sturla þó aldrei átt heima fyrir norðan þessar sveitir og sennilega enginn þeirra manna, er um sögu hans fjölluðu síðar.

Í þessum kafla er ekkert, sem bendir til þess, að hann sé úr Gizurar sögu, eða engin sönnun þess, að sú saga hafi verið til. Miklu líklegra er, að safnandi hafi fært þetta í letur, einkum þar sem flestir fyrirburðirnir

1) Sturl.³ I, 520. — 2) Sturl.³ I, 521, nmgr. 5. — 3) Sturl.³ I, 319.

gerast í grennd við hann, þeir sem staðsettir eru. En þó hafa slíkir fyrirburðir flogið víða um land. Sturla tilgreinir fjóra fyrir þessum atburðum, einn úr Eyjafirði (135. kap.), annan úr Borgarfirði (136. kap.), þriðja úr Skagafirði og þann fjórða af Rangárvöllum (139. kap.). Að Sturla Þórðarson er sjálfur borinn fyrir einum fyrirburðinum, virðist benda ótvírætt til safnanda. Það er athugavert, að í II hefur ekki staðið nema upphaf 141. kap., en þó mun kap. allur hafa staðið í Sturlungu frá upphafi.

Í 143. kap. er sagt frá orustunni sjálfri. Virðist BMÓ telja sumt í þeirri frásögn úr Gizurar sögu, þar sem sagan hvarflar til þeirra Gizurar, en ákveður það ekki nánar.[1]) En af því að haldið hefur verið fram um aðrar frásagnir, sem líku máli gegnir um (Haugsnessfundur, Flóabardagi, Flugumýrarbrenna), að tveim heimildum sé blandað saman, er hvor segi frá sínu sjónarmiði, er rétt að athuga þessa frásögn nánar. Í þessari frásögn hvarflar sagan einnig úr öðrum flokknum í hinn, og mætti því með sömu rökum gera ráð fyrir tveim heimildum. Einnig væri það sennilegt, að saga um Gizur, er rituð væri þar í héraðinu, segði eitthvað framar en Íslendinga saga um þá Gizur, og mætti þá ætla, að safnandi hefði eitthvað úr henni tekið og á þann hátt, að hendur mætti á festa. En þess sjást engin merki. Víðast þar sem vikið er í flokk Gizurar, er frásögnin í órjúfandi samhengi við það, sem stendur í kring, og vottar hvergi fyrir annari heimild. Þetta er einmitt bezta sönnun þess, að frásögnin um aðdraganda bardagans sé einnig tekin eftir einni heimild. Í orustulýsingunni fylgir Sturla alveg sömu reglu sem fyr, að segja frá öllum flokkum jafnframt, eftir því sem við varð komið. En hann gerir það á þann veg, að sýnilega er allt ein heimild. Sýnir það og, að Sturla hefur, eins og vænta mátti, fengið síðar nákvæmari fregnir af til-

1) Safn III, 327.

högun þeirra Gizurar en hann sjálfur gat séð í bardaganum. Nægir að nefna eitt dæmi um þetta.

Í upphafi 143. kap. segir frá því, er þeir Sturla klæddust og gripu til vopna og horfðu á atreið Sunnlendinga. Þá víkur sögunni í flokk Gizurar: „Þá er Sunnlendingar riðu at Jökulsá, féll maðr þeira af baki, er Þorleifr spaði hét, hann bjó suðr á Hrútsstöðum, ok æptu menn at. Gizurr bað þat óp eigi leggja, ok *varð þat at herópi. Þeir Sturla þögðu,* þar til er Kolbeinn kom í mót þeim með sína sveit; *þá æptu þeir allir* ok sneru upp í gerði þat, er heitir á Örlygsstöðum.“[1]) Það er greinilegt, að mótsetningunum er af ásettu ráði raðað saman. Sunnlendingar ríða að í vígamóði og góðum hugum, lítilsháttar óhapp í liði þeirra veldur herópi, Sturlu menn daufir í dálkinn og bíða átekta. Áframhald þessarar geinar er allt um Sturlu, eins og það, sem næst var frá sagt á undan, og er því allt vafalaust úr Íslendinga sögu. Þetta sýnir, að Sturla hefur frétt hið lítilfjörlega atvik, er olli herópinu í liði Sunnlendinga; hann veit jafnvel nafn mannsins, sem af baki datt, og bústað hans. Það er því ljóst, að hæpið er að fullyrða nokkuð um, hvað Sturla hafi vitað eða getað vitað.

Eftir víg Snorra Sturlusonar riðu þeir Órækja og Sturla Þórðarson suður í Reykholt og drápu Klæng Bjarnarson, bróðurson Gizurar; héldu síðan áfram suður á land og ætluðu að fá færi á Gizuri. Riðu þeir á Þingvöll sjöunda dag jóla eða gamlársdag og skipuðu liðinu á bæi. „Þeir höfðu engar fréttir sannligar sunnan frá Gizuri“ (158. kap.).[2]) Í næsta kap. víkur sögunni til Gizurar. Hann sat í Tungu um veturinn og hafði vörðu mikla. Hann bauð vinum sínum til boðs átta dag jóla, en „átta aptan jóla“, gamlárskvöld, var alþýðudrykkja.[3]) Þá um nóttina kom Gizuri njósn um ferðir

1) Sturl.[3] I, 524. — 2) Sturl.[3] I, 557. — 3) „átti aptan“ er gamlárskvöld, kvöldið fyrir „átta dag“, sbr. Safn III, 332, nmgr. 1., en ekki nýársdagskvöld, eins og Jón Þorkelsson hefur skilið þetta (Æfisaga

þeirra Órækju. Reið hann þegar um nóttina í Skálholt, en um morguninn var safnað liði og njósnarmaður, Auðun kollur, sendur vestur til móts við þá Órækju. Þá segir frá því, að þeim Órækju barst ófriðarkvittur á gamlárskvöld og að menn hans vöktu um nóttina.[1]) 160. kap. hefst á því, að Órækja reið nýársmorgun af Þingvelli og mætti Auðuni koll. Var Auðun tekinn, og grunuðu þeir hann um að vera njósnarmann, en létu hann þó lausan. Sneri hann þá aftur og sagði Gizuri, hvað títt var, og er síðan sagt frá viðbúnaði þeirra Gizurar.[2]) Í 161. kap. er sagt frá sáttaumleitunum, bardaganum í Skálholti 2. janúar og loks frá sættinni.[3])

Í þessari frásögn telur BMÓ margt úr Gizurar sögu: 159. kap., um athafnir Gizurar, þangað til sögunni víkur til Órækju í niðurlagi kap., síðara hluta 160. kap., frá því að Auðun kollur var laus látinn og loks í 161. kap. viðtal Gizurar og Gísla af Rauðasandi.[4])

Eins og skýrt var frá, greinir sagan frá athöfnum beggja flokkanna, þangað til þeir mættust í Skálholti. Er það mjög greinilega gert, og verður hvergi að fundið, nema ef vera skyldi, að of snemma er horfið frá þeim Órækju í lok 158. kap., þegar þeir voru komnir á Þingvöll á gamlárskvöld. En stórvægilegt er þetta ekki, og jafnvel eðlilegt, að vikið sé til Gizurar, þegar dagleið þeirra Órækju er á enda og þeir komnir í hérað. En frásögninni um Gizur verður ekki slitið fyr en gert er.

Rök BMÓ fyrir því, að þessir kaflar sé úr Gizurar sögu, eru þau, að frásögnin sé svo greinileg, að tíðindamaður hafi hlotið að vera í flokki Gizurar; sumt sé beinlínis komið frá honum sjálfum, og enn sé stutt ræða í 160. kap.

Tvær síðari ástæðurnar hafa verið athugaðar hér að framan, og sýnt fram á, að ekki er mark á þeim takandi í þessu efni; má og benda á, að tæplega er rétt að kalla orð Gizurar ræðu, þó að það skipti ekki máli. En

Gizurar Þorvaldssonar, bls. 46, nmgr.). Hér er því ekki mótsögn í textanum, eins og hann segir. — 1) Sturl.[3] I, 557—559. — 2) Sturl.[3] I, 559—562. — 3) Sturl.[3] I, 562—566. — 4) Safn III, 331—333.

þitt er mála sannast, að frásögnin virðist rituð eftir sögu sjónarvotts. Nú virðast engir Skagfirðingar hafa verið þarna staddir, eða þeir menn, sem eru annars taldir heimildarmenn Gizurar sögu. Hinsvegar voru þeir Guttormur Þórðarson, bróðir Sturlu, og Þorgils skarði, bróðursonur þeirra, í flokki Gizurar. Þeir höfðu verið í gísling hjá honum um veturinn, þeir voru í Tungu, þegar Gizur fékk njósnina, og þeir riðu með honum í Skálholt. Það er því ekki einungis líklegt, að þeir hafi verið heimildarmenn Sturlu um það, sem segir frá flokki Gizurar, heldur beinlínis ósennilegt, að hann hafi ekki haft fregnir af þeim. Smágrein í niðurlagi 160. kap., er BMÓ telur vera úr Gizurar sögu, sannar beinlínis, að frásögnin sé frá þeim komin: „Þeir Guttormr ok Þorgils skarði bíðja Gizur orlofs at vera eigi í bardaga í móti frændum sínum; þat lofaði hann þeim, en fekk vápn þeira sínum mönnum, en þeir ganga í kirkju.“[1]) Frá þessu hefði vafalaust ekki verið sagt í skagfirzkri sögu um Gizur, en eðlilegt í sögu eftir Sturlu Þórðarson.

Það eru því engin rök eða heimild til þess, að slíta þessar frásagnir úr samhengi eða vísa þeim til sætis í sérstakri sögu. En auk þess má færa á það sönnur, að öll frásögnin er órjúfandi heild.

Um fyrri greinina (í 159. kap.) er það að segja, að hana má ekki með nokkuru móti vanta í Íslendinga sögu. Væri henni kippt í burtu, yrði ekki skilið, hvers vegna Gizur var í Skálholti og Órækja þurfti að sækja þar að honum. Sama máli gegnir um síðari greinina, njósn Auðunar kolls og viðbúnað þeirra Gizurar. Til þess að fallizt verði á skoðun BMÓ, verður að leiða að því fullkomin rök, að frásögn Íslendinga sögu hafi verið önnur en þessi. En það verður ekki gert, heldur má sanna, að það er einmitt *þessi frásögn*, sem hefir staðið þar í upphafi.

1) Sturl.[3] I, 561—562. Þorgils saga skarða segir, að hann væri í kirkju, því að Gizur vildi ekki, að hann væri í bardaga, Sturl. II, 138 (221. kap.).

Í upphafi 159. kap. segir svo: „Honum (Gizuri) þótti undarligt, er njósnarmenn hans kómu eigi aptr, þeir er hann hafði sent til Borgarfjarðar.“ Þetta vísar til 158. kap.: „Órækja lét fara um allt herað (þ. e. Borgarfjörð) at samna liði; þeir fengu ok tekit tvennar njósnir Gizurar.“1) Þetta tvennt er því bersýnilega úr einni heimild. En þar sem BMÓ telur frásögn Gizurar sögu enda í 159. kap. segir svo: „... sá maðr hafði *vaxit upp í Skálaholti*, er Auðun kollr hét ... Þat er nú ráðs tekit, at hann er sendr *vestr á heiðar* á móti Órækju.“ Þá segir frá Órækju, að þeir mættu Auðuni á *Lyngdalsheiði*. Þeir hyggja hann njósnarmann „ok færa hann Órækju; en hann kenndi hann þegar, því at *hann hafði opt sét hann í Skálaholti*.“2) Hin auðkenndu orð sýna, að samhengið er óslítandi; það verður ekki skilið, hvers vegna Órækja hafði oft séð hann í Skálholti, ef þeim orðum er kippt í burtu, að hann hafði vaxið upp á staðnum. Enn ljósara verður þetta af svörum Auðunar: hann verst allra frétta, en svarar þó svo, að þeir verða ánægðir; hann mælir í svo tvíræðum orðum, að þeir hyggja Gizur heima, en lýgur þó engu. Einni spurningunni beindi Sturla Þórðarson að honum. En svör hans verða út í hött og óskiljanleg, nema menn hafi lesið þann kafla, er BMÓ kveður úr Gizurar sögu, og væri of langt að tilgreina það allt hér. En engum, sem les, ætti að geta blandazt hugur um, að hér sé um eina og sömu frásögn að ræða.

Þá er síðari greinin, sem talin var úr Gizurar sögu. Þar segir svo: „Margir menn þutu upp ok sögðu hann njósnarmann ok báðu hann fara með þeim. Rézk þó þat af, at hann var lauss látinn. Ferr hann nú leið sína, þar til er leiti bar á milli þeira. Snýr þá þegar aptr leiðinni, þann veg sem heiðrin liggr lægra, ferr aldri meira en áðr, þar til er hann kom jafnfram þeim, er síðast riðu. Og er þeir kómu gegnt Reyðarmúla, tekr at rökkva; snúa þeir Órækja leið sinni til Laugardals.

1) Sturl.[3] I, 557 og 556. — 2) Sturl.[3] I, 559.

Auðun tekr nú at auka sína ferð ...". Einhvers staðar í miðri þessari grein ætlar BMÓ, að vikið sé úr Íslendinga sögu yfir í Gizurar sögu. En þó virðist liggja í augum uppi, að þetta verður ekki í sundur slitið. Að þeir Órækja hitta Auðun verður óskiljanlegt, ef þeim kafla er kippt í burtu, er segir frá sendiför hans, einnig svör hans, ef ekkert hefði verið sagt frá Gizuri, og loks verður ekki séð, að ástæða hafi verið til þess, að greina frá viðræðu Órækju og Auðunar, ef ekki átti að segja frekar frá ferð Auðunar og árangri hennar. Öll frásögnin er svo samtvinnuð, að engu má kippa í burtu, og orðalagið tekur af allan vafa, að allt sé ein frásögn.

Þá er komið að frásögninni um viðbúnað Gizurar, og er hún alveg á sama hátt tengd við það, sem á eftir kemur, þar sem sagt er frá atsókn þeirra Órækju. Gizur skipar svo til varnar í kirkjugarðinum: „Skal *Ketill Þorvaldsson ok Óláfr tottr* ok Skeiðamenn ok Biskupstungnamenn verja fyrir austan kirkjugarðinn ok allt til gestahúsa. Óláfr Svartsson ok *Grímsnesingar vestr þaðan* til Líkahliðs; þá Gizurr glaði ok Hreppamenn til þess hliðs, er til kirkju er gengit neðan frá húsum. *Gizurr Þorvaldsson* ok fylgðarmannasveit hans skyldu verja *forskálann ok húsin,* stóð þar fremstr ... *Önundr biskupsfrændi* ..."[1]) Þessi frásögn ætti að vera úr Gizurar sögu. En í næsta kap. segir svo frá skipun Órækju til atsóknar: „Skal hann (Órækja) þar at ganga með sína sveit, *sem Gizurr Þorvaldsson* var fyrir; Sturla með sína sveit skyldi þar at ganga, sem þeir *Ketill Þorvaldsson ok Óláfr tottr váru fyrir;* Svarthöfði ok bræðr hans gengu at söðlabúri, þar er *Grímsnesingar* váru fyrir ... *Órækja gekk sunnan á húsin* með meginliðit; sóttu svá norðr eptir *forskálanum,* þeim sem til kirkju er. *Þeir Gizurr* höfðu borit vatn á forskálann ... Þeir gengu *vestan eptir forskálanum.* Gísli af Sandi gekk *austan at forskálanum* ... *Önundr biskupsfrændi* lagði til hans með spjóti; varð Gísla hált, ok fell hann á þekjunni."[2])

1) Sturl.[3] I, 561. — 2) Sturl.[3] I, 563—564.

Þau orð, sem hér eru auðkennd, sýna, að þar sem segir frá skipun Órækju til sóknar og frá atlögunni, er gert ráð fyrir, að lesandanum sé kunnugt um skipan þeirra Gizurar til varnar, annars er ekki auðið að skilja frásögnina. 160. kap. og 161. kap. hljóta því að vera úr sömu heimild.

Að öllu þessu athuguðu ætti enginn vafi að geta á því leikið, að hér er ein saga en ekki tvær. Eru þá engin rök til þess, að viðræða Gísla af Sandi og Gizurar sé ekki úr Íslendinga sögu,[1]) enda rökstyður BMÓ ekki álit sitt um þá grein og heldur því ekki beinlínis fram. En einmitt þessi samræða virðist sverja sig mjög í ættina til Sturlu.

Nú er komið að Þórðar sögu kakala, og telur B. M. Ólsen Íslendinga sögu enda hér, á 163. kap. Þær frásagnir, sem BMÓ telur skotið inn í texta Íslendinga sögu úr Gizurar sögu, hafa allar verið athugaðar hér að framan, og er niðurstaðan þessi:

Haukdæla þáttur er saminn við Breiðafjörð, af þeim, er setti saman Sturlungu. Hann er því ekki inngangur sérstakrar sögu um Gizur. Miðkafli 55. kap., fyrri hluti 126. kap. og 141. kap. eru einnig frumsamdir af sama manni. 122., 145. og 146. kap. eru vafasamir. Þeir gæti allir verið úr Íslendinga sögu. Einnig gæti verið vafi á því, hvort 122. og 145. kap. hafi frá upphafi staðið í Sturlungu. En af þessum þrem kapítulum, einum í báðum skinnbókunum og tveim í aðeins annari þeirra, verður ekki ráðið, að til hafi verið sérstök Gizurar saga og Skagfirðinga, er safnandi hafi notað.

Allar aðrar frásagnir, sem hér hefir verið rættt um, er óheimilt að taka út úr Íslendinga sögu og vísa til sætis í annari sögu. Til þess skortir öll rök. Um allflestar þeirra er það svo, að þær verða ekki slitnar úr því samhengi, sem þær standa í, en um suma kaflana er Resensbók því til sönnunar, að þeir sé upphaflegir í Íslendinga sögu.

1) Sturl.[3] I, 566.

VIII.

Í 163. kap. Íslendinga sögu segir frá útkomu Þórðar Sighvatssonar kakala, ferð hans suður á land og vestur í Dali. Í 164. kap. hefur að segja aftur frá hinu sama, og er það upphaf sérstakrar sögu um Þórð kakala, sem safnandi fylgir um alllangt skeið, en leggur Íslendinga sögu alveg frá sér. Hefur B. M. Ólsen sýnt fram á, að Sturla Þórðarson hefur ekki samið og ekki þekkt Þórðar sögu, og höfundur Þórðar sögu hinsvegar ekki haft Íslendinga sögu til hliðsjónar.[1])

Til þess að geta gert sér ljóst, hvaða frásagnir í Sturlungu beri að telja til Íslendinga sögu, þarf að rannsaka, hvar Þórðar saga endar. Ennfremur hefur því verið haldið fram af B. M. Ólsen, að inn í Þórðar sögu hafi verið skotið köflum úr sögu Gizurar og Skagfirðinga. Verður fyrst um það rætt, hvort finna megi í Þórðar sögu sannanir fyrir því, að sú saga hafi verið til.

Fyrsta greinin, sem BMÓ telur úr Gizurar sögu, er í 171. kap., um norðurreið Hjalta biskupssonar.[2]) Færir hann það til, að ekki sé sagt frá norðurför Hjalta á hnífréttum stað í frásögninni, og hefði átt að geta hennar þar sem sagt er frá því, er Þórður kom fyrst í hérað. Þó virðist hann telja þetta vafasamt. Frásögnin er á þessa leið: Þórður kemur suður um heiði og staldrar við í Bræðratungu hjá Þóru, móður Gizurar. Fær hann þá njósn af því, að Hjalti hafi flokka saman dregið í Flóa. Þeir Þórður ríða austur á Rangárvöllu, fyrst til Keldna og þá á Breiðabólstað og setjast í bú Orms Bjarnarsonar. Þá er þess getið, að sömu nótt sem Þórður var kominn í hérað og Hjalti spurði til ferða hans, reið hann norður í land til Kolbeins unga, en bað bændur að hafa setur í Skálholti, en biskup beiddi hann að fara með sáttarboðum á fund Þórðar og tefja fyrir honum, svo að Kolbeinn mætti komast norðan, og gerði biskup sem hann beiddi. Hér er ekkert óeðlilegt í efn-

1) Safn III, 437—447. — 2) Sturl.[3] II, 17.; Safn III, 376.

isröðinni. Frásögninni um ferðir Þórðar varð ekki slitið, fyr en Þórður var seztur um kyrrt á Breiðabólstað. Niðurskipan sú, sem BMÓ telur réttari, er í raun og veru flóknari. Þá hefði fyrst átt að greina frá ferð Þórðar suður á land, þá frá ferð Hjalta á fund biskups og reið hans norður í land, síðan frá ferð Þórðar á Rangárvöllu og loks frá því, er biskup fór til Breiðabólstaðar á fund Þórðar. Með þessu móti væri frásögnin um ferðalag Þórðar slitin í sundur, og það sem sagt er frá Hjalta og biskupi einnig í tvennu lagi. Frásögnina um norðurreið Hjalta má ekki vanta í Þórðar sögu, því að hún gerir annars vegar grein fyrir sáttaumleitun biskups og hins vegar skýrir hún tilefnið til liðsafnaðar Kolbeins og ferðar hans suður Tvídægru. Upphaf 172. kap. vísar og til þessarar frásagnar og sannar, að hún er úr Þórðar sögu.

Í 185. kap.[1]) segir frá fundi, sem Kolbeinn hélt með bændum í Geldingaholti. Hélt hann þar ræðu um viðskipti þeirra Þórðar; bauðst hann til að gefa upp allan Norðlendingafjórðung við Þórð og fara sjálfur utan, en bændur settu þvert nei fyrir og vildu ekki þjóna Þórði. Var Þorsteinn Hjálmsson sendur, ásamt Eyvindi bratt, með sættarboð til Þórðar. Kolbeinn reið á leið með þeim, og mælti einslega við Þorstein, að hann skyldi í síðustu lög bjóða Þórði þá kosti, sem hann hafði orðað á fundinum. Nú er sagt frá ferð Þorsteins; innir hann upp boð Kolbeins, og gengur Þórður að þeim kostum. En er Þorsteinn kom norður, tók Kolbeinn því fjarri, að hafa gefið honum nokkuð umboð til þess að bjóða slíkt. BMÓ telur meiri líkur til þess, að upphaf kap., um mein Kolbeins, fundinn og ræðuna, sé úr Gizurar sögu. En frásögnin um sendiferð Þorsteins og viðtal hans við Þórð sé úr Þórðar sögu.[2]) En frásögnin verður ekki þannig slitin sundur. Frásögnin um viðtal Kolbeins og Þorsteins er alveg vafalaust úr sömu sögu sem upphafið, ræða Kolbeins og svör bænda: „Kolbeinn kvað Þor-

1) Sturl.[3] II, 46—49. — 2) Safn III, 376.

stein heyrt hafa tala þeira bónda á fundinum ok sitt, „en hversu sem með oss fór, þá vil ek á þat hætta, at gefa Þórði, frænda mínum, upp allan Norðlendingafjórðung ok ráðask frá með öllu; vil ek at allir menn hafi þá frið, lífs grið ok lima."" Hér er beinlínis vísað til þess, sem áður var sagt, og verður ekki skilið, án þess að það hafi í öndverðu átt saman. Og að þessi saga er ekki sögð frá sjónarmiði Skagfirðinga, er ljóst af því, að hér er sagt hispurslaust, að Kolbeinn hafi falið Þorsteini að fara með þau boð, sem hann synjaði fyrir á eftir, svo sem enginn vafi væri á því, að hann hafi gengið á bak orða sinna. Sagan er alveg á bandi Þorsteins, trúir honum afdráttarlaust, tilfærir jafnvel fyrirslátt Kolbeins, er hann vildi ekki segja þetta undir votta, og gefur með því í skyn, að Kolbeinn hafi þá þegar ætlað sér að svíkja þetta. Það er og tekið fram, að Þorsteinn hafi boðið eið sinn á. En þó að höfundurinn trúi Þorsteini, má sjá, að margir hafa rengt hann: „En er þetta fréttisk, mæltu menn allmisjafnt til Þorsteins."

Þar sem söguhöfundurinn tekur sögu Þorsteins fram yfir synjun Kolbeins, er ekkert líklegra en að Þorsteinn hafi verið tíðindamaður hans um fundinn í Geldingaholti. Þorsteinn bjó á Breiðabólstað í Vesturhópi, á næstu grösum við Dalamenn, en í Dölum er Þórðar saga vafalaust upp runnin. Hann mun hafa verið beggja vinur, er hann var valinn til þessarar ferðar, þó að hann væri annars í ferðum með Kolbeini; hann fer og síðar í milli, þegar þeir sættust, Gizur, Hrafn og Sturla.[1]) Vinur Dufgussona, aðalheimildarmanna sögunnar, var hann, því að þess er getið í 164. kap., að hann reið með Birni drumb Dufgussyni norður til Kolbeins, til þess að friða fyrir bræðrum Bjarnar.[2])

Í upphafi 186. kap. er sagt frá liðsafnaði Kolbeins og för hans vestur að Tuma Sighvatssyni, og ætlar BMÓ þá frásögn úr Gizurar sögu.[3]) Engin rök greinir hann, enda gefur frásögnin enga vísbending í þá átt. Er

1) Sturl.[3] II, 186, (252. kap.) — 2) Sturl.[3] II, 4. — 3) Sturl.[3] II, 49—50; Safn III, 376—377.

því alveg óleyfilegt að kippa þessum kafla út úr samhenginu. Við því mátti og búast, að Þórðar saga segði eitthvað frá liðsafnaði Kolbeins, áður en hann lagði af stað í förina.

Þegar kemur fram í kapítulann, fer að bera á missögnum í handritunum, og má heita, að vér höfum tvær hliðstæðar frásagnir um aðfarir Kolbeins og manna hans á Reykjanesi og í Dölum, fram í miðjan 188. kap. Texti sá, er Kålund prentar ofanmáls, er eftir I. Hinn textinn er miklu styttri; sá texti er tekinn eftir Stockh. pap. 8, 4to (H), sem er runnið frá II. Önnur handrit, sem runnin eru frá þeirri skinnbók, hafa blandað textunum saman; þó er Br (Brit. Mus. addit. 11127, fol.) samhljóða H, nema í upphafi þessarar frásagnar, þar sem Br hefur á kafla fylgt texta I, og ennfremur síðar í frásögninni, þar sem H hefur stytt sameiginlegan texta þeirra.[1]) Í II hefur þessi frásögn staðið á 15. blaði, 2. og 3. dálki, en þeir dálkar hafa verið rifnir eða skornir af blaðinu og hinir auk þess skertir að ofan og neðan. Missagnirnar hafa staðið á þessum dálkum, sem skornir eru af, en bæði á undan og eftir eru textarnir samhljóða. Það er því ekki rétt, sem B. M. Ólsen ætlar, að skinnbókin (II) sé hér til samanburðar, svo sem ljóslega má sjá af útgáfu Kålunds, en það stafar af því, að Guðbrandur Vigfússon segir ekki rétt til um handritin í útgáfu sinni, eða svo ónákvæmlega, að það hlaut að verða misskilið.[2])

Missagnirnar byrja þar sem sagt er frá ferð Kolbeins úr Garpsdal. Í H segir ekkert af ferð þeirra að Tindum, nema að þeir börðu hvern karlmann og særðu, en rændu öllu fé. Er allt sagt frá sjónarmiði njósnarmanna Tuma: „Þenna dag var þoka svá mikil, at engir menn sá flokkinn, fyrr en þeir kómu í tún“ (þ. e. á Tindum). En frásögnin um vígin er aftur nákvæmari

1) H styttir oft textann, sbr. formála Kålunds, Sturl.[3] I, bls. lix. — 2) Sturl.[2] II, 45, nmgr. 2 og 47, nmgr. 1. „The vellum leaf, so far as it goes“ virðist vera bláendarnir af línunum, eftir lýsingu Kålunds, Sturl.[3] I, bls. xxxii; hann tilfærir engan orðamun úr þessum 2 dálkum.

í H og Br; er þar sagt, að Björn kægill dæi hlæjandi. Næst kemur frásögn um áverka við þá feðga, Stein og Ara, í Bæ í Króksfirði; hér er nákvæmar sagt frá í I; í H er dálítill atvikamunur og ekki sagt frá drápi Halldórs á Gillastöðum. Ætlar BMÓ þenna texta úr Gizurar sögu, en texta I úr Þórðar sögu.

Í 187. kap. er sagt frá vígunum á Reykhólum. Í I er byrjað á því að rifja upp það, sem áður var sagt. Þorgeir (misritað Þorgils) kemur með njósnina, og lætur Tumi þá flota skipi miklu. Þá segir, að þeir Böðvar Oddason og Þórálfur Kolbeinsson voru þangað komnir og farnir aftur út á Miðjanes, en Tumi sendi eftir þeim.[1]) Þá segir, að menn Tuma sáu mannaferð og deildu um, hverjir þar færu. Í stað þessa segir í H og Br frá því, að þeir Hólamenn sáu för þeirra Kolbeins og vissu ekki, hvort vera mundi fénaður eða mannareið. Um vígin eru tvær sjálfstæðar frásagnir; er víðast styttra sagt frá í H og Br, en þó er þar grein um Bárð Snorrason, sár hans á Örlygsstöðum og spádóm Guðmundar biskups um hann, sem stendur ekki í I.

Í 188. kap. segir frá herferð Brands Kolbeinssonar og Brodda Þorleifssonar í Dali; er frásögnin allnákvæm í I, en í H og Br einungis stutt ágrip, og þó enn styttra í H. Í miðjum kapítulanum er II aftur til samanburðar, og verða handritin þá aftur samhljóða.

1) Kålund telur í registrinu Böðvar frá Hvoli vera sama manninn sem Böðvar Oddason, en þá hlýtur textinn að vera eitthvað aflagaður. Áður var sagt, að Böðvar frá Hvoli hafi komið með njósn með Þorgeiri stafsendi (186. kap Sturl.[3] II, 50), en hér segir, að Böðvar Oddason og Þórálfur hafi verið komnir og farnir aftur, þegar Þorgeir kom, og hafi Tumi þá sent eftir þeim. Orðalagið bendir á, að hér sé um tvo menn að ræða: „en Böðvarr frá Hváli ok Þorgeirr stafsendir ok Hallr ór Tjaldanesi fóru yfir á Hóla ok sögðu Tuma, at ófriðar var ván,“ sbr. „þá er er *þeir Þorgeirr* kómu með njósnina ... þar *var þá kominn Böðvarr Oddason ok Þórálfr Kolbeinsson með honum, ok váru þeir þá farnir* út á Miðjanes. Sendi Tumi *þá* eptir þeim, ok fóru þeir aptr á Hóla.“ Hér verður mótsögn, ef þetta er sami maðurinn. En ekki er Böðvars Oddasonar síðar getið; aftur er sagt frá vígi Böðvars frá Hvoli og Þórálfs. Texti H og Br getur ekki hér um Böðvar Oddason og Þórálf og segir ekki frá vígi Þórálfs; aftur er þar sagt frá vígi Böðvars frá Hvoli.

Hér virðast vera tvær sjálfstæðar sagnir. Ætlar BMÓ texta I vera úr Þórðar sögu, en texta H og Br úr Gizurar sögu; þó megi í I finna grein úr Gizurar sögu, en aftur grein úr Þórðar sögu í texta H og Br.[1]) Það skal þó strax tekið fram, að þar sem BMÓ ætlar, að tvær sögur, Þórðar saga og Gizurar saga, liggi til grundvallar fyrir frásögn „122 B og Br" um vígin á Hólum, stafar það af misskilningi. Guðbrandur Vigfússon kveðst taka textann, sem hann prentar neðanmáls á bls. 45—46, úr Br og skinnbókinni, það sem hún nái. En hér er II ekki til samanburðar og texti Br á allt annan veg, eins og útgáfa Kålunds sýnir.[2]) Texti sá, sem GV kveðst taka úr Br og H, er í raun og veru texti Vallabókar (V, Advocates Library 21—3—17), þar sem báðum textunum er grautað saman.[3]) Það er einungis texti V, er segir tvisvar frá griðagjöfum við Þorkel dráttarhamar. Í I og H er aðeins einu sinni sagt frá þessu atviki, en í Br er snúið við um griðagjöfina, sagt, að Þorkell væri veginn, en Þorgeir stafsendir fengi grið, og stafar það sýnilega af mislestri. Þar sem BMÓ því ætlar Þórðar sögu og Gizurar sögu blandað saman, er í raun og veru soðið upp úr textum skinnbókanna, og verður að leiðrétta skoðun hans samkvæmt því.

Þá er næst fyrir að athuga texta þann, sem BMÓ telur úr Gizurar sögu, en það er, eins og áður segir, texti H í allri frásögninni, frá því er missagnirnar byrja, og texti Br, sem er að mestu samhljóða og víða réttari, að því fráskildu, að í upphafi hefur verið skotið inn grein, sem tekin er úr texta I.

Þar sem segir frá vígi njósnarmannanna á Tindum, fylgir H ekki Kolbeini, heldur er frásögnin miðuð við þá, sem voru á Tindum. Öll þessi frásögn sver sig í ætt við Vestanmenn, svo sem þegar sagt er frá Kægil-Birni, hvernig hann varð við dauða sínum. Í næstu grein, um áverkana í Bæ, gefur hvorugur textinn nokkura vísbending.

1) Safn III, 376—380. — 2) Sturl.[3] II, 56 neðanmáls. — 3) Sturl.[3] II, 54, nmgr. 5.

Í 187. kap, segir I frá viðbúnaði þeirra Tuma, og er allt sagt frá sjónarmiði Hólamanna, eins og BMÓ tekur fram. En hann telur frásögn Br (og H — ekki 122 B) vera frá þeirra sjónarmiði, sem að komu. Það virðist þó ekki vera rétt á litið: „Ok er þeir riðu *innan* frá Miðhúsum, þá váru menn úti á Hólum ok ræddu um ...“ Hér er stefnan miðuð við heimamenn. „Urðu þeir Tumi eigi fyrr búnir brott af bænum en hinir kómu it neðra gegnt Hólum, en sumir *innan at garði*, en þeir stefndu til skipsins; hljóp þá sér hverr.“ Einnig þetta er sagt frá sjónarmiði þeirra Tuma, og *skipsins* vísar til þess, sem áður er sagt.[1]) Hér er því ekkert, sem bendir til sögu Gizurar.

Sagan um víg Bárðar Snorrasonar, sár hans og spásögn Guðmundar biskups, sem er einungis í H og Br, er sögð á svipaðan hátt í „Miðsögu“ Guðmundar biskups, og þar höfð eftir Þorláki Narfasyni.[2]) Má vera, að þessi saga sé ekki úr frumtextanum, heldur síðar inn komin, ef til vill ekki fyr en í II, þar sem hana vantar í I.

Frásögnin um víg þeirra Tuma gefur enga vísbending. Þar sem BMÓ fann endurtekningu í Br, er hann ætlaði stafa frá tveim heimildum, byggist þetta á því, eins og áður var sagt, að ritari V hefur hlaupið úr einu handriti í annað.

Í 188. kap. er frásögn H og Br miklu ónákvæmari, og segir þó sumt á annan veg og sumt fyllra en I. BMÓ telur hana bera vitni um minni kunnugleika í Dölum, og sé hún því úr Gizurar sögu. Sé svo fljótt farið yfir sögu vegna þess, að ferðin hafi verið Brandi til lítils sóma, er þeir „ræntu hvern mann ok börðu“ og drápu saklausa menn; sé því ekki getið um aðfarir þeirra Brands í Tungu og níðvísu kerlingarinnar um þá. Það

---

1) BMÓ telur hér vera ágrip af texta I, af því að hér standi *skipsins*, en skipið hafi ekki verið áður nefnt í 122 B og Br. En það er ekki rétt, því að sagt er frá skipinu í 186. kap. (bls. 50), og eru báðar skinnbækurnar þar sambljóða; II er þar til samanburðar. — 2) Bisk I, 596—597.

er þó ekki rétt, að fjöður sé dregin yfir athæfi þeirra í þessum texta: „Loðinn hét maðr, er bjó at Fjarðarhorni; hann *ginntu þeir ór bænhúsi* ok fóthjoggu", þegar þeir Kolbeinn hittust allir aftur, en um þetta er ekki getið í I. Miklu fremur mætti segja, að hallað væri á Brand í H og Br.: „Nú er þat frá *þeim Brandi* at segja, at þeir riðu ofan Laxárdal ok ræntu hvern mann ok börðu."[1]) Er sagt frá hermdarverkum þeirra í Gröf, Hjarðarholti, Leiðólfsstöðum og Hvammi. Aftur segir svo í I, að þeir Brandur og Broddi skiptu liði í Laxárdal; reið Brandur fyrir norðan ána, en Broddi og Hafur að sunnanverðu. Þar sem Brandur fór „váru menn hvergi heima, því at njósn hafði komit, sú er Þórðr viti hafði gert". Á meðan unnu Hafur og Broddi þau illvirki, sem hinn textinn kennir Brandi með þeim. „Ok er þeir kómu í Hjarðarholt, váru þeir Brandr þar fyrir ok váru í svefni, ok höfðu þeir á engum mönnum þá unnit." Eftir það voru þeir allir samt og fóru í Tungu. Frásögn H og Br ber ekki vitni um minni kunnugleika í Dölum, heldur um minni kunnugleika á liðsskipun Skagfirðinga og athöfnum þeirra. Mætti þá snúa þessari röksemdafærslu við og segja, að frásögn I hlyti að vera úr Gizurar sögu, þar sem nákvæmar er sagt frá flokkum þeirra Skagfirðinga og Brandur firrtur ámæli af hryðjuverkunum; sést af þessu, hversu hæpin slík röksemdaleiðsla er.

En nú telur BMÓ þessa grein, sem áður var tilfærð, að Brandur hafi á engum mönnum unnið, eftir að hann skildi við þá Brodda og þangað til þeir hittust í Hjarðarholti, vera úr Gizurar sögu.[2]) Þetta verður ekki slitið úr frásögninni á undan, þar sem sagt er frá skilnaði þeirra og að engir menn hafi verið heima, þar sem þeir Brandur komu. Og þetta er alveg í mótsögn við texta H og Br, er BMÓ telur úr sömu sögu, þar sem beinlínis er sagt, að *þeir Brandur* hefðist þetta að, og

1) Sturl.[3] II, 58 neðanmáls. — 2) Safn III, 380.

hafa þeir þá allir verið samt og ekki skipt liði. Annaðhvort hlýtur að vera rangt. Og þó að mótsögnin tæki ekki af allan vafa um þetta, er það þegar af þeirri ástæðu lítt hugsandi, að ritari I hefði þá einmitt átt að hitta á grein í sögunni, sem ritari II hefði sleppt.

BMÓ virðist ætla, að texti I, úr Þórðar sögu, sé hinn rétti texti Sturlungu, en ritari II hafi haft fyrir sér Gizurar sögu og tekið hana fram yfir víðast hvar í þessari frásögn.[1]) En hann gerir enga grein fyrir því, hvers vegna ritari II víkur frá frumriti sínu og tekur upp frásögn, sem er miklu styttri og ónákvæmari. Það handrit hefur þó víðast hvar fyllri texta en I. Þetta verður ekki skiljanlegra, þó að gert sé ráð fyrir, að annar textinn sé úr Gizurar sögu. Ennfremur ætlar hann, að frásögnin um Bárð Snorrason í H og Br sé frá safnanda Sturlungu. En það mætti þykja undarlegt, að ritari II, sem hér hefði átt að fara eftir Gizurar sögu, skyldi einmitt hitta á grein, sem ritari I, er annars fylgir texta Sturlungu, hefði sleppt, í nálega eina skiptið í þessari frásögn, sem ritari II hefði átt að taka texta Sturlungu fram yfir.

Um þessa frásögn er annars það að segja, að hún sannar ekkert um það, að texti II sé hér hinn rétti texti Sturlungu. Ýmsar frásagnir, sem talið hefur verið, að safnandi, einhver Narfasona, hafi skotið inn í Sturlungu, munu ekki hafa staðið þar frá upphafi, svo sem 321. kap., um bréfin[2]) og 332. kap., um síðustu ár Sturlu Þórðarsonar.[3]) Þær frásagnir hafa aldrei staðið í I og munu ekki heldur hafa staðið í frumritinu, Sturlungu, eins og Kålund hefur bent á,[4]) og verður síðar vikið að þessu. En þetta sýnir, að einhver mjög nákominn Narfasonum hefur fjallað um II, eða auðvitað frumrit þess handrits; hafa menn og áður þótzt geta

1) Þetta er ekki sagt beinlínis, en má ráða af því, að hann hyggur texta II (þ. e. H og Br) ágrip af texta I á einum stað; hann telur því ritara II hafa þekkt textann í I. Safn III, 378. — 2) Sturl.[3] II, 305. — 3) Sturl.[3] II, 328. — 4) Sturl.[3] I, lxxi.

ráðið af öðrum ástæðum, að það muni ritað af Þorsteini ábóta Snorrasyni, systrungi þeirra bræðra. Gæti þessari frásögn um Bárð, sem höfð er eftir Þorláki Narfasyni í „Miðsögunni", verið skotið hér inn af honum.

Það er eftirtektarverð tilviljun, að allur kaflinn, þar sem missagnirnar eru, hefur staðið á þeim 2 dálkum, sem skornir eru af 15. blaði í II. Mætti ef til vill ætla, að þetta hafi vantað, þegar Björn á Skarðsá ritaði eftir skinnbókinni, og hafi hann þetta eftir annari heimild, er vér þekkjum nú ekki. En það getur þó ekki verið. Texti H og Br hlýtur að hafa staðið í II. Í fyrsta lagi er það ekki alveg nákvæmt, að missagnirnar og eyðan standist á, þó að mjög litlu muni, og í annan stað hefur texti I ekki getað komizt fyrir á þessum 2 dálkum, sem glataðir eru; hann er helmingi lengri en svo, tekur yfir 4 dálka í I.

Það er bersýnilegt, að textarnir eru ekki með öllu hvor öðrum óháðir. Víða er orðalagið mjög líkt og sumar greinar jafnvel orðréttar í báðum textum: „Þá riðu þeir til Kambs, ok þá Magnús grið af orðum Halls af Möðruvöllum. Ríða þeir þá [fram í Króksfjörð, vantar í I] til Bæjar."[1]) „Þaðan riðu þeir til Reykjaness."[2]) „Grímr, son Guðmundar Solomonssonar, var særðr skammt frá biskupsbrunni." „Tumi ... bað sér griða ... en Kolbeinn þagði ... Kolbeinn ... kvaddi til Þórarin grautnef at vega at honum."[3])

Ekki væri óhugsandi, að annarhvor textinn væri tekinn úr Íslendinga sögu. Mætti þá ætla, að styttri textinn væri texti Sturlungu, en ritari I hefði tekið hina nákvæmari frásögn fram yfir. Texti Sturlungu væri þá úr Þórðar sögu, eins og öll frásögnin um þessi ár, sbr. hvernig sagt er frá vígi Kægil-Bjarnar, er virðist sverja sig í ætt við bræður hans, aðalheimildarmenn Þórðar sögu. En í texta I er sagt nákvæmlega frá öllum aðförum í Laxárdal, einkum *heima hjá Sturlu*, í Tungu, og greind níðvísa kerlingarinnar í Tungu; minnir hún á

1) Sturl.[3] II, 52—53. — 2) Sturl.[3] II, 53. — 3) Sturl.[3] II, 55, sbr. 56, nm. Hér er dálítill orðamunur.

vísur þær, sem kveðnar voru eftir Sauðafellsreið, bardagann á Breiðabólstað og oftar, er Sturla virðist hafa haft sérstakt gaman af að segja frá, og bendir þetta því til hans. Að vísu er þessi frásögn í allgóðu samhengi við það, sem á undan er komið, og virðist beint áframhald af því, en sama máli gegnir um hinn textann; ef annarhvor textanna væri einn til frásagnar, mundi enginn sjá veruleg missmíði á. Á þetta gæti bent „njósn ... sú er Þórðr viti hafði gert",[1]) sem ekki hefur verið getið um áður, en þó má vera, að textinn hafi verið styttur. Hér að framan var gizkað á, að Böðvar frá Hvoli og Böðvar Oddason væri ekki sami maðurinn, til þess að forðast missagnir í textanum. En sé hér um sama manninn að ræða, er sennilegt, að tvær heimildir sé fyrir texta I, önnur í 186. kap., en hin í 187. kap., enda er hér endurtekning. Á móti þessu mælir, eins og tekið var fram, að samhengið virðist að öðru leyti órjúfandi í I og enn, að ekki munu sjást þess merki annars staðar, að ritari I hafi notað Íslendinga sögu sérstaklega. Þá mætti geta þess til, að texti I væri úr Þórðar sögu, en hinn úr Íslendinga sögu. En þar má berja hinu sama við, að hvergi mun verða sýnt fram á, að önnur hvor sagan hafi legið sérstök fyrir þeim, er rituðu skinnbækurnar.[2]) Eðlilegast er og að gera ráð fyrir, að safnandi Sturlungu hefði fylgt nákvæmari textanum, þar sem hann hafði báðar sögurnar, en þá verður ekki séð, hvað ritara II hafi gengið til að víkja frá frumritinu, til þess að taka upp styttri texta.

Mönnum flýgur ósjálfrátt í hug, að ritari II hafi verið neyddur til þess, að víkja frá frumtextanum. Nú er það eftirtektarvert, að öll frásögnin, þar sem handritunum ber ekki saman, stendur á 86. blaði í I og nær yfir allt það blað, munar um 3 prentuðum línum í útgáfu

1) Sturl.[3] II, 56. — 2) Þar sem sagt er frá herferðinni norður í Hrútafjörð (184. kap.) virðist tvöfaldur texti. En þó má telja víst, að frumtexti beggja handritaflokkanna hafi verið hinn sami (sbr. aths. Kålunds, II. 42, nmgr. 3). Hér er hvorug skinnbókin til samanburðar, og má ætla, að skrifurum pappírshandritanna sé mest að kenna um ruglinginn. Sturl.[3] II, 42—46.

Kålunds, sem þessi kafli nær yfir á 87. blað, þangað til handritin verða aftur samferða. Er ekki fjarri lagi að gizka á, að handrit það, sem II er ritað eftir, hafi verið í svipuðu broti sem I og álíka mikið á hverju blaði. Mætti þá ætla, að blað hafi vantað í frumrit II, þegar það handrit var skrifað.[1]) Hafi sá, er ritaði handritið, því orðið að fara eftir sögusögnum og minni sínu, því að það er ljóst, eins og áður segir, að eitthvað samband er milli textanna. Verður þá að gera ráð fyrir, að hann hafi lesið það, sem á blaðinu stóð, áður en það glataðist, eða haft sagnir af einhverjum, sem frásögnina hafði lesið. Um 1400 hafa munnmælin verið orðin fáskrúðug, og hefur hann því haft lítið sjálfstætt til brunns að bera, en þó ef til vill nokkuð. En vegna þess, að hér varð hann að fara eftir minni sínu (eða annars manns), komst það fyrir á 2 dálkum, sem staðið hafði á 4 dálkum í frumritinu.

Á móti þessari skýringu mætti hafa það, að ekki sé sennilegt, að týnzt hafi blað úr handritinu miðju, um hálfrar aldar gömlu, en skrifari II hefði þó lesið blaðið áður, eða náð til manns, er hafði lesið það. En þessi skýringartilraun gerir grein fyrir því, hvers vegna ritari II, sem annars styttir lítið textann, hefur tekið styttri frásögn fram yfir lengri og hvers vegna orðalagið er svipað sumstaðar, á stöku stað eins orði til orðs, en þó ekki meir en svo, að vel gæti verið ritað eftir minni, í þriðja lagi hvers vegna sumt er sagt fyllra, í fjórða lagi skýrist það, hvers vegna upphaf og niðurlag þessarar frásagnar er í Br og enn meir í H eins og ágrip af lengri frásögn og loks verður það ljóst, hvers vegna þessi stytti texti svarar til eins blaðs í I, sem ekki er fjarri að ætla, að sé í svipuðu broti sem frumrit II var. Þessi skýringar-

1) Svo er talið, að Þorsteinn ábóti Snorrason muni hafa skrifað handrit það, sem II er ritað eftir. Hann dó 1353. Nú ætlar Kålund, að I sé ritað um miðja 14. öld, og er það handrit þá skrifað um líkt leyti sem handrit Þorsteins. Það er því ósennilegt, að blað hafi vantað í frumritið, þegar Þorsteinn reit, en ekki þegar I var ritað. Ef þessi tilgáta er rétt, hlýtur það að hafa verið handrit Þorsteins, sem vantaði í, þegar II var ritað.

tilraun gerir, þótt kalla megi hana lítt sennilega að sumu leyti, grein fyrir fleiri spurningum, sem menn hljóta að setja fram í þessu sambandi, en aðrar skýringar, sem fram hafa komið. En afareinkennileg er sú tilviljun, að þessir 2 dálkar, sem ritari II hafði skráð ą frásögn, er tekur yfir 4 dálka í I, skyldi vera skornar af blaðinu á 17. öld, eftir að Björn á Skarðsá hafði ritað upp söguna eftir skinnbókinni.

Hin skýringin, sem minnzt var á hér að framan, að ritari I hafi hér gripið til Íslendinga sögu, gerir ekki grein fyrir þeirri tilviljun, að sú frásögn nær yfir eitt blað í handriti hans, og ekki heldur fyrir því, hve víða orðalagið er líkt. Til þess að skýra það, þyrfti að gera ráð fyrir, að Björn á Skarðsá hefði á stöku stað gripið til I, sem hann hefur með vissu haft undir höndum. En það verður ósennilegt af þeirri ástæðu, að þessar orðalíkingar eru víða um ómerkilega hluti, og mætti vænta, að auðið væri að sjá gleggri merki þess, að hann hefði haft báða textana fyrir framan sig í þessari frásögn. Hins vegar er, eins og áður er sagt, ýmislegt í textanum, sem bent gæti til þess, að Sturla sé höfundur frásagnarinnar.

Næstu frásagnir úr Gizurar sögu eru að ætlun BMÓ í 191. kap., þar sem sagt er frá liðsdrætti Kolbeins unga og búningi í sjóferðina vestur, um ferð Brands Kolbeinssonar vestur í Miðfjörð og síðasta málsgreinin um för Brands norður aftur.[1]) Þetta er alveg ástæðulaust. Að sjálfsögðu hefur höfundur Þórðar sögu sagt frá liðsdrætti Kolbeins, áður en hann sigldi út á Húnaflóa; hjá því varð ekki komizt. Einnig hlaut hann að segja frá ferð Brands vestur í Miðfjörð, til þess að gera grein fyrir liðsafnaði Sturlu, er annars væri óskiljanlegur. Frásögnin um Brand er ekki heldur svo nákvæm, að þess vegna sé líkur til þess, að hún sé eftir skagfirzkan höfund. Eina smáatvikið, sem greint er, gerðist í Hrísey, þegar Eyfirðingar bjuggu skip sín, en í Eyja-

1) Sturl.[3] II, 63—64; Safn III, 380—381.

firði voru menn Þórðar langvistum skömmu eftir þetta, bæði Dufgussynir og aðrir, og gátu þar auðveldlega fengið allar fregnir, er þeir óskuðu. Einnig voru margir í liði Kolbeins, er síðar urðu fylgismenn Þórðar, svo sem Hrani Koðránsson.

Í upphafi 192. kap. segir frá sigling Kolbeins vestur á Húnaflóa, allmargir skipstjórnarmenn taldir upp og búnaði skipanna lýst. Þetta telur BMÓ úr Gizurar sögu, og ennfremur það, sem síðar segir um viðbúnað Kolbeins, áður en fundum bar saman.[1]) Sé frásögnin allnákvæm, og auk þess getið um Hrana Koðránsson, en hans sé getið í 213. kap. á þann hátt, að ljóst sé, að sagan hafi ekki nefnt hann áður, en sá kapítuli sé úr Þórðar sögu. Um það atriði verður síðar rætt og reynt að sýna fram á, að 213. kap. er ekki úr þeirri sögu, og fellur þessi ástæða þá niður.

Upptalning skipanna virðist og vera úr Þórðar sögu. Í 190. kap. eru nefndir allir skipstjórnarmenn Þórðar og greint nákvæmlega frá öllum skipunum, nöfn þeirra, hvaðan hvert skip var og svo skipshafnirnar.[2]) Hér er samskonar skrá yfir skipstjórnarmenn og skip: „Kolbeinn sjálfr stýrði því skipi, er nær var haffæranda ok var þrennum bitum útbitat. Þar var ok kastali á við siglu. *Öðru skipi stýrði* Ásbjörn Illugason. Sökku-Guðmundr stýrði *mikilli ferju.* Ketill Gnúpsson ok þeir Grímseyingar höfðu enn *mikit skip.* Hjalti Helgason ór Leirhöfn stýrði *mikilli ferju.* Hrani Koðránsson *var enn skipstjórnarmaðr.* Einar dragi stýrði *enn einu skipi.* Óttarr biskupsfrændi *hafði ferju.* Víga-Bútr stýrði *mikilli ferju. En þótt vér telim eigi alla skipstjórnarmenn norðan,* þá hafði Kolbeinn marga ina röskustu menn setta á hvert skip.“[3]) Þessar tvær upptalningar eru alveg hliðstæðar. En þar sem allt er sagt mjög nákvæmlega um

1) Sturl.³ II, 65—66, sbr. Safn III, 381. — 2) Sturl.³ II, 61—62. Tólf skip eru talin upp, og segir síðan í I: „en er *þessi* xii skip váru búin“, en Kålund tekur leshátt Br fram yfir: „xv skip“. Líklega er þó 12 rétta talan, og er þá greint nákvæmlega frá öllum skipunum. — 3) Sturl.³ II, 65.

Vestfirðinga og skip þeirra, sýna orð þau, sem auðkennd voru, hve þessi skrá er miklu ónákvæmari, ekki getið um nærri því alla skipstjórnarmenn, ekki sagt frá nafni neins skips, né hvaðan þau voru. Mismunurinn á kunnugleika á skipakosti beggja flokka bendir alveg ótvírætt til Vestanmanna. Til þeirra vísar og: „skipstjórnarmenn norðan". Mjög mikið er gert úr viðbúnaði þeirra Kolbeins og fjölmenni. Sögumaður vill leggja áherzlu á, að Kolbeinn hafi haft óflýjanda her, til þess að frækleikur Vestanmanna komi enn betur í ljós: „Mátti svá at kveða, at öll skip Kolbeins væri alskjölduð framan til siglu. *Höfðu engir menn sét á váru landi þvílíkan herbúnað á skipum.*" En þó að höfundurinn kveði svo ríkt að orði, þá er lýsingin í svo almennum orðum, að það er ljóst, að hann brestur kunnugleika til að lýsa þessu eins nákvæmlega og viðbúnaði Vestanmanna. Þetta er því alveg ótvírætt úr Þórðar sögu.

Síðari greinin, um tilhögun Kolbeins fyrir orustuna, er svo nátengd efninu í kring, að hún verður ekki frá því slitin: „Kolbeinn lagði skip sitt mjök í miðjan flotann. *Skip Sökku-Guðmundar lá næst Skaga, en skip Ásbjarnar Illugasonar lá í annan arminn næst Horni.* Sneru þeir Kolbeinn framstöfnum á land inn. En er Þórðr kom í skotmál við skip Kolbeins, bað hann þá leggja skip sín í tengsl ok greiða atróðr. Var svá skipat, at Ógnarbrandrinn, er Nikulás Oddsson stýrði, var *næstr Horni í móti skipi Ásbjarnar Illugasonar,* en þar næst lagði Þórðr sínu skipi; en þá var skip Helga Halldórssonar, þá var skip Teits Styrmissonar. En *í annan arminn móts við skip Sökku-Guðmundar* var skip Sanda-Bárðar. En þar í milli lögðu menn fram skipum sínum sem drengskap höfðu til."[1]) Það er ljóst, að þessi frásögn verður ekki slitin í sundur og talin úr tveim heimildum, eins og BMÓ vill. Seinni upptalningin gerir ráð fyrir hinni fyrri, eins og hin auðkenndu orð sýna, en eins og fyr er frásögnin um Vestanmenn nákvæmari,

1) Sturl.[3] II, 66.

því að höfundurinn var kunnugri þeirra skipan. Enn vísar smágrein hér til frásagnarinnar á eftir: „En þat var í þann tíma dægra, er sól var skammt farin um morguninn," sbr. „Kom þat ásamt með þeim, at þá mundi sól vera nær miðju landsuðri, en þá var lágr veggr undir sólinni, er þeir fundusk."[1])

Þá telur BMÓ sennilegt, að fyrirsögn Kolbeins um orustuna og eggjunarræða hans sé úr Gizurar sögu.[2]) Þetta bendir til Vestanmanna: „... ok hallaðisk í þessari svipan bardaginn í lið Kolbeins ... „er þat ok eigi meðalskömm", segir hann, „ef þeir skulu vinna yðr með þeim *inum smám ok inum fám skipum,* er þeir hafa, við þann *mikla skipa-afla,* er vér höfum at dregit"." Rétt á eftir segir svo: „... áðr en it snarpasta mannvalit Kolbeins kom þeim Þórði í *opna skjöldu,* en þeir Þórðr höfðu *eydd aptan* skip sín mjök, ok var allr þorri mannanna kominn fram um siglu. Ok þá er kall kom á skip Þórðar, at tveggja vegna væri at þeim sótt, urðu þeir þá við hvárutveggja at sjá. Gekk þá Þórðr *aptr á skip sitt.* ... Bað Þórðr þá þegar, at þeir gengi upp á skip Hjalta." Þessi frásögn er vafalaust frá sjónarmiði Þórðar, og telur BMÓ hana vera úr sögu hans. En ef kafli sá, sem BMÓ telur vera úr Gizurar sögu, er felldur burtu, verður þessi frásögn óskiljanleg. Áður var sagt, að þeir hafi barizt um stafna.[3]) En hér er Hjalti og fjöldi liðs kominn á bak Þórði. Í greininni, sem talin var til Gizurar sögu, kemur skýringin, sem er alveg nauðsynleg og ómissandi: „... *en Hjalta Helgason ór Leirhöfn bað hann leggja sitt skip á skut skipi Þórðar;* ok enn hét hann á fleiri skipstjórnarmenn, at *leggja skyldi á skut Vestanmönnum ok gera hring at þeim.*" Benda má á, að Hjalti er einn nafngreindur á báðum stöðum.

195. kap., um athafnir þeirra Kolbeins strax eftir Flóabardaga, telur BMÓ að mestu eftir Gizurar sögu.[4])

---

1) Sturl.[3] II, 74. — 2) Sturl.[3] II, 68—69. — 3) Sturl.[3] II, 67. — 4) Sturl.[3] II, 77—78; Safn III, 381.

Þessi frásögn er þó sýnilega komin frá Snorra Loptssyni, sem lá eftir særður á skipi Þórðar og fékk grið. Að Vestanmaður hefur um þetta fjallað, er þegar ljóst af því, hve nákvæmlega er sagt frá afdrifum þeirra fjögurra, sem lágu eftir á skipi Þórðar kakala, en Snorri lifði einn þeirra að geta sagt þá sögu. Til hans vísar beinlínis: „Ok er Snorri kemr upp á skip Einars, þá tekr hann til orða, er hann kennir Án Áskelsson, ok mælti: „Guð sé lofaðr, Án félagi, er ek sé þik heilan.“ En er Einarr Jónsson heyrði þetta, „er svá“, sagði hann, „at Án fjandinn er hér, er flest illt hefir oss gert?“ Lét hann þegar taka Án ok höggva fyrir borð. Snorra þótti þetta verk svá illt, at hann vildi nú gjarna heldr þagat hafa, ok heldr hafa látit allt þat, er hann átti, ok þótti of mjök af sér hlotizk hafa, en þó fekk hann nú ekki at gert.“ Þetta verður ekki slitið frá því, er fyr var sagt í kap., að þeir gáfu Áni grið, af því að hann nefndist nafni Þórðar, bróður síns.

Ræða Kolbeins sannar ekkert í þessu efni. Höfundur Þórðar sögu greinir oft ræður, til dæmis tvær ræður í 194. kap.; er því að leita langt yfir skammt að benda á ræðu Gizurar fyrir Örlygsstaðafund. Snorri Loptsson heyrði ræðuna og fjöldi Eyfirðinga, er síðan gengu á hönd Þórði og voru í flokki með Vestanmönnum, svo að nógir voru sögumenn. Orðalagið bendir og til Þórðar sögu — sagnaritarar hafa auðvitað ekki fengið ræður orðréttar, heldur endursagt þær að meira eða minna leyti. Ummæli Kolbeins um hamingjuskipti með þeim Þórði benda ekki til skagfirzks höfundar, og hótanir hans um að „herja, brenna bæi, en drepa menn ok eyða svá byggðina“ eru honum til lítils sóma og illa fallin til þess, að vera haldið á lofti af frændum hans. En auðvitað hefur þetta verið fengur fyrir Vestanmenn, og ekki ósennilegt, að dýpra sé tekið í árinni en orðin féllu.

Það má samkvæmt framansögðu telja fullvíst, að frásögnin um Flóabardaga og aðdraganda hans sé öll úr Þórðar sögu og algerlega óheimilt að telja, að tvær

heimildir sé fyrir henni eða hér sé nokkurt vitni um Gizurar sögu.

Skömmu eftir þessa atburði tók mein Kolbeins unga að vaxa og gerðist banvænt. Er í 199. kap. sagt frá síðustu skipan hans um ríki sitt, andláti og greftrun. Telur BMÓ þessa frásögn vera úr Gizurar sögu.[1])

Það er ljóst, að þessi atburður, andlát Kolbeins og skipan hans um ríki sitt, er mjög mikilsvert atriði í sögu Þórðar kakala. Ráðstafanir Kolbeins binda enda á þriggja ára þrotlausa baráttu Þórðar við Skagfirðinga. Nú nær hann því takmarki, er hann hafði sett sér, að komast að Eyjafirði og ná föðurleifð sinni. Það er sennilegt, að heimildarmenn Þórðar sögu hafi haft spurnir af því, er gerðist við banabeð Kolbeins; hefur um það verið fullkunnugt ýmsum Eyfirðingum, er þá voru menn Kolbeins, en síðar gengu á hönd Þórði. Það er eftirtektarvert, að hér segir, að Þórði hafi verið gefin upp „öll hans föðurleifð". Auðvitað töldu menn Þórðar Eyjafjörð föðurleifð hans. En það viðurkenndu þeir Kolbeinn ekki, að vitni Íslendinga sögu: „Var þat þá kallat ójafnaðr ok rangendi, er Sighvatr hafði haft ríki ok goðorð af mönnum norðr þar" (145. kap.).[2]) 201. kap. sýnir og, að um þessa skipun Kolbeins hefur áður verið getið í Þórðar sögu. Í niðurlagi 199. kap. segir, að allir þeir frændur, Kolbeinn og Arnór Tumasynir og Kolbeinn ungi hafi orðið hálffertugir, og virðist þetta styðja mál BMÓ. En svo er þó ekki, bendir miklu fremur til ókunnugleika höfundarins, því að þetta er ekki rétt. Kolbeinn ungi dó á 37. ári, Arnór faðir hans varð 39 ára, en um aldur Kolbeins Tumasonar eru ekki aðrar heimildir.[3]) Brandur Kolbeinsson varð hálffertugur. Þeir frændur fjórir náðu því allir líkum aldri, og er sennilegt, að ekki hafi þótt einleikið og valdið umræðu, og því er þessa getið hér.

Í 200. kap. er ekkert, sem bendir á, að hann sé úr

1) Sturl.[3] II, 83—85; Safn III, 361. — 2) Sturl.[3] I, 535. — 3) Sbr. Eggert Ó. Brim í Arkiv för nord. fil. VIII, 358.

annari sögu.[1]) Hér segir frá fylgdarmönnum þeim, er komu til Brands um haustið, og er eðlilegt, að greint sé frá því í sambandi við frásögnina um, að Brandur hafi verið kosinn yfir allar sveitir. Er því ekki hneyxlanlegt og bendir ekki á tvær heimildir, þó að sagt sé frá því í næsta kapítula, að þeir hafi verið á Flugumýri um sumarið, og kemur það heim við það, sem hér segir, að þeir hafi ekki komið að Stað fyr en um haustið.

202. kap. hefst svo: „Brandr hafði bú á Stað í Skagafirði. Hann var vinsæll maðr; hann hafði mannmargt með sér ok helt sér vel upp ok hafði risnu mikla í búi.“ BMÓ telur fyrri málsgreinina úr Þórðar sögu, en hina næstu úr Gizurar sögu. Telur hann benda á tvær heimildir, að hér er í annað skipti getið um bústað Brands og að síðar í kap. er getið ráðunauta Brands, þar á meðal tveggja, sem nefndir eru í 200. kap.[2]) Við þetta er það að athuga, að smáendurtekningar, eins og í upphafi kapítulans, eru enganveginn óeðlilegar eða ótíðar, og oft settar til þess að glöggva lesandann. Kemur þetta víða fyrir í Íslendinga sögu, og benda má á, að strax hér á eftir, í 204. og 205. kap., er tvisvar sagt frá liðsfjölda á Haugsnessfundi, og telur BMÓ þó allt úr Þórðar sögu.[3]) En það mun rétt, að „Stað í Skagafirði“ bendir á, að Skagfirðingur hafi ekki ritað þetta. Og endurtekningin bendir fram fyrir sig til 200. kap.: „sem fyrr var ritat“.

Það sem segir um þá Brodda síðar í 202. kap. er í raun og veru engin endurtekning. Í 200. kap. voru taldir fylgdarmenn Brands, en sagt jafnframt, að Broddi og Ásbjörn Illugason hafi verið hjá honum löngum um veturinn, en ekki heimamenn hans. En hér eru taldir þeir bændur í héraðinu, er mest voru til umráða með Brandi, og Broddi og Ásbjörn nefndir fyrstir. Hér eru þeir nefndir í nokkuð öðru sambandi, og er

1) Sturl.[3] II, 85, sbr. Safn III, 361. — 2) Sturl.[3] II, 86—88; Safn III, 362. — 3) Sturl.[3] II, 92, sbr. 90. og 91.

fremur að ræða um nánari skýring á orðunum í 200. kap. heldur en um endurtekning. Þetta er því engin sönnun fyrir tveim heimildum. En orðin „Fylgðarmenn þeir, er verit höfðu með Kolbeini unga, en þá váru með Brandi“ vísa til 200. kap., og sýnir þetta, að þessir kaflar eru úr sömu heimild, en BMÓ telur þessa síðari grein úr Þórðar sögu. En að BMÓ telur það vera úr Þórðar sögu, sem hér segir um ráðunauta Brands, sýnir, að höfundur hennar hefur, að hans ætlun, verið allkunnugur högum Brands, eins og vafalaust hefur verið. En annarstaðar vill BMÓ ekki viðurkenna kunnugleik hans.

Þá er að geta þess, sem BMÓ telur hér vera úr Gizurar sögu. Það er alveg ljóst, að engin rök eru til þess, að slita fyrstu málsgrein 202. kap. frá þeirri næstu. Þá koma vísur Ingjalds Geirmundarsonar. Ingjaldur var jafnan í flokki Sturlunga, og er hans víða getið; hann var í liði Þórðar í Flóabardaga og orkti „Atlögu-flokk“ um þá orustu; hefur höfundur Þórðar sögu tekið 6 vísur úr flokknum upp í söguna. En í 204. kap. er lausavísa eftir hann, og telur BMÓ hana úr Þórðar sögu; var Ingjaldur þá enn í flokki Þórðar. Það er langsennilegast, að allar vísur Ingjalds sé úr sömu heimildinni. Lýsingin á rausn Brands er ef til vill að nokkuru leyti eftir vísunni. En að Ingjaldur gerðist til að yrkja flokk um Brand látinn, staðfestir það, sem Þórðar saga sýnir víða, að Vestanmönnum hefur fundizt til um Brand.

Bréf Brands til Gizurar í 203. kap. telur BMÓ úr Gizurar sögu.[1]) Væri það sennilegt, ef sýnt yrði á annan hátt, að saga um Gizur sé notuð. Erfitt er að sýna fram á, hvernig sagnaritarar hafa komizt yfir sum bréf, eins og t. d. bréfin í Prestssögunni, einkum bréf þeirra bræðra, Sæmundar í Odda og Páls biskups. Mætti geta þess til, að safnandi, sem var nákominn Gizuri, hafi náð í bréfið og skotið því inn í textann. Fyrir það

1) Sturl.[3] II, 88—89, Safn III, 334, 362—363.

verður ekki heldur synjað, að bréfið geti verið úr Þórðar sögu; það er allmerkilegt og kemur mjög við efni hennar. BMÓ hefur sýnt fram á, að allmikið í Þórðar sögu megi rekja til Dufgussona, einkum Svarthöfða, og muni hann aðalheimildarmaður og jafnvel höfundur sögunnar. Þó að þeir Gizur væri fjandmenn um þetta leyti og lengi síðan, virðist svo sem Björn Svarthöfðason hafi á einhvern hátt verið í tengdum við Gizur, því að hann lætur son sinn heita eftir honum. Í Flateyjarannál segir svo við árið 1269: „Fæddr Gizurr galli ok hafði nafn Gizurar jarls Þorvaldssonar.“ Ekki mun kunnugt um móður Gizurar galla, en þetta bendir á einhverjar nátengdir, að öðrum kosti hefði sonur Svarthöfða tæplega látið son sinn heita eftir jarli. Þetta getur ef til vill gefið bendingu um það, hvernig höfundur Þórðar sögu hefur komizt yfir bréfið.

Í 204. kap. segir frá liðsafnaði Þórðar fyrir Haugsnessfund og reið hans vestur í Skagafjörð. Þá er sagt frá liðsdrætti Brands og tilfærð vísa úr Brandsdrápu Skáld-Halls. Þetta eru hliðstæðar frásagnir og ljóslega úr einni sögu báðar; frá liðsdrætti Brands var jafnsjálfsagt að segja sem um Þórð. En frá Brandi er ekki sagt jafnnákvæmlega sem Þórði, sem ekki er að vænta, og virðist frásögnin beinlínis gerð eftir vísunni, í báðum er sagt hið sama með líkum orðum: „dró hann þá lið saman um *allt herað ok svá vestan um heiði ok ór Fljótum,*“ sbr.: *heraðsdrótt, Vatnsskarð vestan* og *lið Fljóta.* Um fyrirburðinn og sóttina í liði Brands er það að segja, að engin rök eru til þess, að vísa þeirri frásögn úr Þórðar sögu; hún er hliðstæð því, sem áður segir frá þeim Þórði, að þaut í spjótum þeirra og menn vöknuðu með andfælum og börðust hverir við aðra.[1])

Í frásögninni um Haugsnessfund (205. kap.) telur BMÓ allmikið úr Gizurar sögu, miðkaflann, frá fyrstu vísu Skáld-Halls aftur að frásögninni um víg Brands,

1) Sturl.[3] II, 89—92; sbr. Safn III, 363.

en þó sé þar innskot úr Þórðar sögu.[1]) En hér er ekkert, sem bendir á, að tvær heimildir sé samtvinnaðar, heldur er öll frásögnin órjúfandi heild. En sýnilega hefur höfundurinn, eða heimildarmenn hans, haft sagnir af Skagfirðingum.

Höfundur Þórðar sögu notar mjög vísur til þess að styðja mál sitt, og með nokkuð öðru móti en Sturla gerir í Íslendinga sögu. Í þessari frásögn fer hann eftir vitnisburði sjónarvotta. Þó vísar hann í kvæði til stuðnings máli sínu. „Þess getr Hallr ok, at Brandr var framarliga í fylkingu“ og „Svá segir Ingjaldr í flokki þeim, er hann orti um Brand, ok kvað á, hversu margt látizk hefir.“ Á sama hátt eru áður notaðar vísur úr Atlöguflokki Ingjalds: „ok gekk engi jafndjarfliga fram af Þórðar mönnum sem hann sjálfr, svá sem segir Ingjaldr,“ „hér segir Ingjaldr ok þat, hversu mörg skip hruðusk,“ „ok enn segir Ingjaldr frá liðsmun.“[2]) Bendir þetta á sömu frásagnaraðferð, og er eftirtektarvert, að á báðum stöðum ræðir um framgöngu foringjans og mann- (eða skipa-) tjón í orustunni. Það verður og að öðru leyti að telja sennilegt, að allar vísur Ingjalds sé úr sömu sögunni.

Í frásögn Þórðar sögu um víg Brands kveður BMÓ smágrein úr Gizurar sögu: „Þar sem *nú* stendr krossinn.“ Þennan kross hafa ættmenn Brands vafalaust látið reisa, þar sem hann féll,[3]) og hefur það auðvitað orðið víða kunnugt.

206. kap. er vafalaust úr Þórðar sögu, og styður vísa Ingjalds það mjög.[4]) BMÓ telur þenna kap. og upphaf þess næsta úr Gizurar sögu, nema næstu málsgrein á eftir vísunni: „tíðendi þessi flugu skjótt um land allt ok þóttu mikil, sem var.“[5]) Þessi setning ber á sér einkenni stílsins í Þórðar sögu, eins og BMÓ tekur

1) Sturl.[3] II, 92—98; Safn III, 363—364. — 2) Sturl.[3] II, 67 og 73. — 3) Þetta er sagt berum orðum í Br og V, og hefur Björn á Skarðsá það eftir „annari Íslendinga sögu“, hver sem sú saga hefur verið sbr. Kålund, Aarböger 1901, 273. — 4) Sturl.[3] II, 98—99. — 5) Safn III, 364—365, 468.

fram. En upphaf 207. kap. er beint áframhald af henni: „En þegar Gizurr spurði þessi tíðendi.“ Ekki er heldur auðið að slíta frásögnina um norðurferð Gizurar frá því, sem á eftir kemur. Liðsafnaður Þórðar og sáttaumleitanir verður hvorttveggja óskiljanlegt, ef frásögnin um ferðir Gizurar fellur burt. „Njósnir gengu þá til Þórðar“ bendir til frásagnarinnar á undan. Í 208. kap. er upptalningin á förunautum þeirra beggja, Gizurar og Þórðar, sýnilega úr sömu sögunni.[1]) En síðari hluti þessa kap., um málaflutning þeirra fyrir konungi, sýnir ljóslega, að vel er höfundi Þórðar sögu trúandi til að segja hlutdrægnislaust frá andstæðingum Þórðar.

Í allri þessari frásögn, frá andláti Kolbeins unga til utanfarar Þórðar, virðist hvergi verða með rökum bent á innskotsgrein úr annari heimild. Helzt kynni þó að þykja vafasamt um bréfið í 203. kap.

Í 209. kap. er sagt frá andláti Staðar-Kolbeins, og telur BMÓ þá frásögn til Gizurar sögu, en Finnur Jónsson úr Íslendinga sögu.[2]) Um þessa frásögn gæti verið vafasamt, hvort hún sé úr Þórðar sögu eða Íslendinga sögu. Hér er sagt, að Kolbeinn ungi hafi andazt 36 ára, en í 199. kap. að hann dæi hálffertugur, og gæti þetta bent á 2 heimildir, en BMÓ telur hvorttveggja til Gizurar sögu. Vera má, að í 199. kap. sé einungis um ónákvæmt orðalag að ræða. Niðurlag kap. er mjög ólíkt frásagnaraðferð Þórðar sögu og Íslendinga sögu, og er víst lítill vafi á því, að hér hefur safnandi Sturlungu aukið við frá sjálfum sér. Hann staldrar hér við, líkt og í 126. kap., eftir lát biskupanna. Nú var Haugsnessfundur nýliðinn og friður á Íslandi um nokkurra ára bil. Hann setur því til glöggvunar skrá um ríkjandi þjóðhöfðingja og greinir frá því, hve langt var frá falli Ólafs konungs Haraldssonar og brennunni í Hítardal, „er mest tíðendi höfðu þá önnur orðit hér á landi.“ Var Haugsnessfundur mannskæðastur; þar féllu um 100

1) Sturl.[3] II, 99—100; Safn III, 365. — 2) Sturl.[3] II, 101—102; Safn III, 365; FJ: Litt. hist., 2. útg. II, 730—732.

manns, en í brennunni fórust 72. Þetta innskot safnanda gæti hafa byrjað á orðunum: „Kolbeinn var þá nær sjötugum manni ...,“ og verður þá skiljanlegt ósamræmið við 199. kap., sem getið var um, en þó virðist eðlilegra að ætla, að það hefjist á orðunum: „Jafnlengð Brands ...“. Fráleitt virðist, að niðurlag kap. sé eftir Sturlu Þórðarson og að það beri á sér einkenni sagnaritunar hans, eins og FJ heldur fram. Þetta er einmitt fjarri frásagnaraðferð hans í Íslendinga sögu, og við hana verður að miða hér, en ekki við Hákonar sögu.

Þeir feðgar, Kolbeinn og Brandur, hafa verið mjög vinsælir menn. Ingjaldur Geirmundarson, er jafnan fyllti flokk Sturlunga og var í förum með Þórði kakala á þessum árum, orti flokk um Brand, þar sem hann rómar örlæti hans og karlmennsku, minnist hans hlýlega og lýsir harmi sona hans með innilegri samúð. Í þessari frásögn er alveg samskonar lýsing á harmi föður hans og í líkum anda gerð; gæti hún því jafnt sem flokkur Ingjalds verið eftir fylgismann Sturlunga. Sturlu Þórðarsyni væri vel trúandi til að hafa ritað þetta, því að mægðir urðu síðar með honum og Staðarmönnum.

Í 210. og 211. kap. er skýrt frá því, er Þórður kakali var sendur út til Íslands árið 1247, að ráði Vilhjálms kardinála, og fengið allt land til forráða. Segir síðan frá athöfnum hans fram á sumar 1249, sundurþykki hans við Heinrek biskup, og utanför biskups þetta sama sumar og dvöl hans í Noregi veturinn eftir.[1]) Báða þessa kap. telur BMÓ til Þórðar sögu,[2]) en FJ ætlar þá vera úr Íslendinga sögu.[3]) Færir hann þau rök til þess, að í 213. kap., sem sé úr Þórðar sögu, sé mótsögn við 210. kap., og að í 210. og 211. kap. sé líkt orðalag og í Hákonar sögu („verbale overeensstemmelser“).

Fyrri ástæða FJ er röng. 213. kap. er ekki úr Þórðar sögu, eins og síðar mun sýnt, og auk þess er

---

1) Sturl.[3] II, 102—106. — 2) Safn III, 334, 365. — 3) Litt. hist., 2. útg. II, 730—732.

ekkert ósamræmi milli 210. og 213. kap. Hinsvegar er því ekki að neita, að sumstaðar er líkt að orði kveðið í Hákonar sögu. Í 210. kap.: „Hann vígði ok Postulakirkju í konungsgarði á Sviþunsmessudag um sumarit,“ sbr. „Hann vígði Postulakirkju í konungsgarði“,[1]) „þá var ok vígðr Heinrekr biskup til Íslands til Hólastaðar,“ sbr. „... var vígðr Heinrekr Kársson til biskups til Hólastaðar á Íslandi.“[2]) Í 211. kap.: „Ok er hann kom í Borgarfjörð, tók hann undir sik sveitir allar ok allt fé Snorra Sturlusonar ok svá heraðit í Borgarfirði,“ sbr. „fór Þórðr til Borgarfjarðar. Tók Þórðr undir sik ríki þat, er átt hafði Sturla Sighvatsson ok Snorri Sturluson, föðurbróðir hans ok it sama féit;[3]) „svá at nálægt engi hlutr bar þeim saman,“ sbr. „þar til er þeir urðu á engan hlut sáttir.“[4])

Aftur á móti ber hér nokkuð á milli 210.—211. kap. og Hákonar sögu. Hákonar saga segir, að Þórður og biskup skyldu „flytja þat örendi við landsfólkit, at allir játtaðisk undir ríki Hákonar konungs ok slíkar skattgjafir sem þeim semðisk“, þótti kardínála „ósannligt, at land þat þjónaði eigi undir einhvern konung, sem öll önnur í veröldinni“.[5]) En í 210. kap. er ástæðan sú, að kardínáli „kvað þat ok ráð, at einn maðr væri skipaðr yfir landit, ef friðr skyldi vera“; þó sést af niðurlagi 211. kap., að þau voru undirmál, sem Hákonar saga greinir. Enn segir í Hákonar sögu: „Hann tók undir sik af konungsvaldi ríki Þorleifs í Görðum, fyrir þat hann hafði farit út í banni konungs.“[6]) En í 211. kap.: „Hann fór í Garða til Þorleifs ok tók af honum trúnaðareiða ok skipaði hann mest yfir heraðit.“ Þetta hvorttveggja má þó til sanns vegar færa, þegar þess er gætt, að Hákonar saga og Íslendinga saga eru samdar hvor frá sínu sjónarmiði, og gæti þessi frásögn því verið úr Íslendinga sögu. En þá er að geta þess, að á sama stað segir í Hákonar sögu, að veturinn 1247—1248, þeg-

1) Icel. Sagas II, 244; Flat. III, 168. — 2) Icel. Sagas II, 252; Flat. III, 172. — 3) S. st. — 4) Icel. Sagas II, 252; Flat. III, 173. — 5) Icel. Sagas II, 252; Flat. III, 172. — 6) S. st.

ar Þórður kom norður, hafi óvinir hans spillt fyrir honum við Heinrek biskup, og hafi þá orðið fullur fjandskapur með þeim Þórði. Sumarið 1249 hafi biskup farið utan og vingazt við Gizur, og hafi þeir báðir afflutt Þórð við konung. Síðar er aftur sagt frá komu biskups til Noregs og rógi hans um Þórð; segir sagan, að þá hafi konungur stefnt Þórði utan, *eftir* að biskup kom til Noregs.[1]) Í 211. kap. er ekki getið um missætti Þórðar og biskups árið 1248. En 1249 kom út bréf konungs, áður en biskup fór utan, og var á utanstefna og sakargiftir um það, að Þórður legði meiri stund á að koma landinu undir sig en konung, svo sem einkamál þeirra stóðu til. Biskup fylgdi þessu máli, að Þórður héldi ekki loforð sín. Varð þá svo mikili fjandskapur þeirra, að biskup fór utan og afflutti Þórð mjög, en enginn dró taum hans, nema nokkurir lögunautar hans.

Hér ber sögunum illa saman um sundurþykki biskups og Þórðar, utanför biskups og utanstefnu Þórðar. Virðist þetta frekar benda til þess, að 210. og 211. kap. sé ekki úr Íslendinga sögu, þó að vera megi, að þetta hafi ruglazt í minni Sturlu, frá því að hann setti saman Hákonar sögu. Í þessari frásögn er hans getið tvívegis. Fyrst að Þórður kom til hans um jólin 1247; hafi þeir þá farið suður í Reykholt og setið þar fram til föstu, en á þeim tíma hafi Hrafn og Einar Þorvaldsson komið vestan. Seinna segir, að Þórður hafi veturinn 1248—49 farið vestur í Dali og skipt ríkjum með Sturlu og Jóni Sturlusyni. „Þat gerði hann á Þorbergsstöðum.“ Ekki er sagt nánar frá þessari skiptingu, og bendir það ekki til Sturlu. Og loks má vísa til frásagnarinnar um athafnir Þórðar á Rangárvöllum árið 1249,[2]) sem er úr Íslendinga sögu, eins og síðar verður sýnt. Væri 211. kap. úr þeirri sögu, ætti sú frásögn að standa aftarlega í honum. En að víða er líkt orðalag í þessari frásögn og í Hákonar sögu, mætti skýra á þann veg, að

1) Flat. III, 180. Eftir textanum í Icel. Sagas II, 264, hafði konungur stefnt Þórði utan, *áður en* biskup kom til Noregs. — 2) Sturl.[3] II, 117 (212. kap.).

höfundur Þórðar sögu eða safnandi hafi haft hliðsjón af Hákonar sögu.

Aftur á móti bendir upphaf 211. kap. ótvírætt til þess, að kap. sé úr Þórðar sögu. Þar segir frá því, að Svarthöfði Dufgusson færi utan með vöru þá, er Kolbeinn ungi lagði til utanfarar Þórði, sama sumarið sem Kolbeinn andaðist (1245). Var Svarthöfði í Noregi sama veturinn sem Þórður var á Grund (1245—46), en sumarið eftir fór Þórður utan, en Svarthöfði kom út í Vestmannaeyjum (1246). En sumarið sem Hákon konungur var vígður, kom Þórður út og tók í Vestmannaeyjum vín það, er Svarthöfði hafði skilið þar eftir sumarið áður (1247). Hér eru endurtekningar á því, sem áður hafði verið sagt frá, til þess að greina ljóslegar frá ferðum Svarthöfða. Þessi frásögn vísar fram fyrir sig, því að í 201. kap. er sagt frá utanför Svarthöfða með vöruna, en í niðurlagi 198. kap. var gerð grein fyrir því, hvers vegna Kolbeinn ungi lagði þessa vöru fram.[1]) Rétt á eftir er í 211. kap. sagt frá því, að Þórður reið til Keldna og fann þar Hálfdan, mág sinn. Voru þau hjón þá komin norðan úr Eyjafirði, og hafði þeim líkað lítt til fylgdarmanna Þórðar. Þessi frásögn gerir ráð fyrir, að lesandanum sé kunnugt, að þau Hálfdan skyldu vera á Grund og gæta bús Þórðar, meðan hann væri utan, en frá því var sagt í 208. kap.[2]) Hér er því beinlínis gert ráð fyrir, að menn þekki frásögn 198., 201. og 208. kap. um þetta efni, og virðist af því mega ráða fyrir víst, að upphaf 211. kap. sé úr Þórðar sögu. En því hefir ekki verið haldið fram, að framhald frásagnarinnar væri úr annari heimild en upphaf kap., og mun ástæðulaust að gera ráð fyrir því. En þetta bendir til þess, að 210. og 209. kap. sé einnig úr Þórðar sögu, og hefir þá safnandi Sturlungu hvergi gripið til Íslendinga sögu í frásögninni frá fyrstu útkomu Þórðar til síðustu brottfarar hans af Íslandi.

Þess má geta, að eitt orðatiltæki í 211. kap. virðist benda til Þórðar sögu: „Því at þeir váru einfaldir í

1) Sturl.³ II, 83 og 85. — 2) Sturl.³ II, 99.

sinni þjónustu við Gizur," sbr. í 166. kap. „hafði ok engi maðr verit einfaldari í öllum málaferlum við Sturlunga en hann."[1])

Í lok 211. kap. er sagt frá dvöl Heinreks biskups í Noregi veturinn 1249—50. Þá tekur við Svínfellinga saga, er segir frá deilum Sæmundar Ormssonar við Ögmund Helgason, en inn í þá sögu miðja er skotið 5 köflum úr öðrum heimildum, en þó aðeins í öðrum handritaflokknum (IIp). Þegar Svínfellinga sögu lýkur, tekur við frásögn um Gizur, Þorgils skarða og þá menn, sem Þórður kakali setti til þess að gæta ríkis síns. B. M. Ólsen heldur því fram, að sú frásögn sé samtvinnuð úr Þórðar sögu kakala og Gizurar sögu, en Finnur Jónsson ætlar, að Íslendinga saga sé hér heimild Sturlungu, en Þórðar sögu sé lokið, þegar sagt hefir verið frá síðustu utanför hans.[2])

Þessi skoðun, að Þórðar saga nái ekki fram yfir 1250, virðist mjög sennileg. Í fyrsta lagi af því, að til þess má leiða sterkar líkur, að sumt í frásögn þeirri, sem hér fer á eftir, sé úr Íslendinga sögu, og í annan stað virðist það ljóst, þegar sagan sjálf er íhuguð og af henni ráðið, hvernig höfundur hennar hefur hagað starfi sínu og hvaða takmark hann hefur sett sér.

Sagan hefst á útkomu Þórðar árið 1242 og stuttu yfirliti um, hvernig hér var ástatt um þessar mundir. Er miðað við víg Snorra Sturlusonar haustið áður, rifjað upp um utanferðir Gizurar og Órækju, veldi Kolbeins og bandalag við Sunnlendinga, yfirgang hans við Vestfirðinga og Dalamenn og trúnaðareiða þá, er hann lét taka af þeim, flestum nauðugum. Þá er greint frá því, hvernig Kolbeinn braut undir sig Eyfirðinga og tryggði sig gegn frændum Þórðar og venzlamönnum. Aftur á móti greinir sagan ekkert frá uppvexti Þórðar og fyrstu utanför hans, nefnir ekki foreldra hans né bræður, og engan atburð, er þeir feðgar væri við riðnir. Höfundur sögunnar lætur sig engu skipta, hvað drifið hefir á daga söguhetjunnar áður. Hann tekur á móti

1) Sturl.[3] II, 11. — 2) Litt. hist., 2. útg. II, 730—733.

Þórði, þegar hann stígur af skipsfjöl, og getur um þá eina atburði, sem óhjákvæmilegt var að minnast á, svo að frásögnin yrði skilin.

Þetta upphaf er alleinkennilegt og ólíkt því, sem sögur byrja annars, er gera venjulega glögga grein fyrir aðalmönnum sögunnar. Menn hafa því leitazt við að gera sér ljóst, hvað þessu valdi. Kålund[1]) og FJ[2]) hallast að því, að safnandi hafi sleppt upphafinu, og muni sagan hafa byrjað á svipaðan hátt sem aðrar sögur og gert grein fyrir Þórði og ætt hans. En BMÓ hefur leitt að því rök, að svo muni ekki vera,[3]) og verða þau að nokkuru leyti endurtekin hér.

Hafi safnandi Sturlungu sleppt upphafi sögunnar, til þess að skeyta betur saman við frásögn Íslendinga sögu, hefði hann átt að fella niður 163. kap., sem segir frá hinu sama í miklu styttra máli. Þó mætti segja, að þetta væri í samræmi við venjuleg vinnubrögð safnanda, sem virðist lítið hirða um að skeyta saman heimildirnar, svo að vel fari á. En búast hefði mátt við því, að hann hefði ekki gengið algerlega fram hjá frásögn sögunnar um uppvöxt Þórðar, því að hans er nálega ekki getið í Íslendinga sögu fyrir þenna tíma. En ekki verða fundin nein slík innskot í Íslendinga sögu, hversu vandlega sem leitað er. Þá yrði og að gera ráð fyrir því, að sagnaritarinn hefði sagt í réttri tímaröð frá því, sem hér er greint um yfirgang Kolbeins og ofríki við Eyfirðinga og Vestanmenn. En hér er geymt að geta um þetta, þangað til sagt hefur verið frá utanför Gizurar og Órækju og útkomu Þórðar 1242, þegar sumir þessir viðburðir voru orðnir nokkurra ára gamlir. Það er og algerlega gagnstætt reglu safnanda, að fella nokkuð framan af sögum sínum. Hann tekur þær allar frá upphafi, nema Hrafns sögu eina, en þar er ekki einungis sleppt upphafinu, heldur einnig öllum fyrra helmingi sögunnar, er stafar af því, að safnandi hefur ritað síðara helm-

1) Aarbøger 1901, 296—297. — 2) Litt. hist., 2. útg. II, 730. — 3) Safn III, 467.

ing sögunnar sem framhald Prestssögu Guðmundar góða.[1]) Alveg á sama hátt er Þorgils saga skarða tekin frá upphafi inn í II.

Tilgáta BMÓ er á annan veg. Hann heldur því fram, að Sturla Þórðarson hafi andazt frá Íslendinga sögu ó-lokinni, þegar hann var byrjaður að segja frá útkomu Þórðar og ferðum hans (163. kap.). Hafi höfundur Þórðar sögu haft fregnir af sögu Sturlu og vitað, hve langt hún náði, og tekið sér það hlutverk, að halda henni áfram. En hann hafi ekki haft Íslendinga sögu við höndina, þegar hann hóf frásögn sína, og verði þá skiljanlegt, að sagan komi ekki að öllu leyti heim við Íslendinga sögu.

Þessi röksemdaleiðsla hvílir öll á einni staðhæfingu, að Sturlu hafi ekki enzt aldur til þess, að ljúka við sögu sína, og að hann hafi einmitt verið kominn hingað í sögunni, þegar hann lézt. Verði sýnt fram á það, að Sturla hafi ritað um atburði milli 1250 og 1260, er þessi skýring um leið fallin um koll.

Þegar frásögn Þórðar sögu er borin saman við frásögn Íslendinga sögu, taka menn strax eftir því, að höfundurinn hefur sett sér annað markmið en Sturla. Þórðar saga er ekki framhald Íslendinga sögu, því að hún er saga Þórðar eins, en ekki saga Íslendinga. Öll sagan snýst um Þórð. Hún segir frá athöfnum hans og manna hans, en bregður sér auðvitað öðru hvoru norður í Skagafjörð, til þess að greina frá andstæðingum Þórðar, Kolbeini unga og síðar Brandi Kolbeinssyni, en getur þó um þær einar athafnir þeirra, er skipta Þórð eða sögu hans. Allt annað telur höfundurinn sér óviðkomandi. Hann minnist ekki á Bótólf biskup og andlát hans, getur ekki um merka atburði, er annálar greina, svo sem farbann úr Noregi 1243 eða stórmæli erkibiskups við Norðlendinga 1245, sem vitanlega hefur þótt tíðindum sæta. Að vísu munu ekki hafa orðið mörg stórtíðindi hér á landi á þessum árum, önnur en viðureign Þórðar

1) Safn III, 252.

og Kolbeins, en þó má telja undarlegt, að engra viðburða annara skuli getið.

Sagan virðist bera það með sér, að hún sé yngri en Íslendinga saga og rituð sem nokkurs konar viðbót við hana, af því að höfundinum hefur ekki þótt Sturla segja nógu nákvæmlega frá Þórði og athöfnum hans. Hann hefur því þekkt Íslendinga sögu, en ekki haft hana fyrir sér, þegar hann reit söguna. Höfundurinn hefur sett sér það viðfangsefni, að rita *sögu ríkis Þórðar kakala á Íslandi* og ekki annað. Með því að líta á söguna frá þessu sjónarmiði, verður mönnum fullskiljanlegt upphaf sögunnar. Æfi Þórðar kemur ekki við verkefninu, fyr en hann stígur á land. Það sem áður gerðist, var þegar skráð af Sturlu. Þeir einir atburðir eru greindir, sem óhjákvæmilegt var að geta um, til þess að öll aðstaða Þórðar yrði ljós og frásögnin, sem á eftir kemur, ekki misskilin. Nú verður það ljóst, hvers vegna sagt er frá þeim atburðum, er fyr gerðust, eftir að greint hefur verið frá útkomu Þórðar. Ástandinu er lýst, eins og það blasti við honum, þegar hann kom heim úr fjarlægu landi eftir margra ára útivist. Höfundurinn setur sig í hans stað, þegar hann stígur á land og fréttir atburði þá, er gerzt höfðu síðastliðið ár, eftir að skip gengu af Íslandi. Þá verður og skiljanlegt, hvers vegna sagan eltir Þórð á röndum, en segir það eitt af Skagfirðingum, er varðar beinlínis skipti þeirra. Loks leiðir af þessu, að sagan endar á því, að segja frá síðustu utanför Þórðar árið 1250. Þá er ríki hans á enda og verkefni höfundarins lokið. Síðustu æfiár Þórðar liggja fyrir utan viðfangsefnið, eins og æskuár hans og fyrstu fullorðinsár. Þó er sennilegt, að frásögnin um andlát Þórðar sé niðurlag sögunnar; fór vel á því, að ljúka henni á þann hátt, og raskar það ekki því, sem hér hefir verið sagt um aðalefni hennar.

Eftir þessu hefði átt að segja frá utanför Þórðar í 211. kap., en það er ekki gert. Aftur á móti er um hana getið í 212. og 213. kap. Þar sem BMÓ og FJ telja 213.

kap. til Þórðar sögu,[1]) skal farið um hann nokkurum orðum. Kapítulann vantar í I.[2])

„Maðr hét Hrani ok var Koðránsson; hann var mikill ok skrámleitr, langnefjaðr og hafit framanvert nefit.“ Hrana er áður getið í frásögninni um Flóabardaga, og hafa rök verið leidd að því hér að framan, að sá kafli hljóti að vera úr Þórðar sögu. Þetta upphaf bendir til þess, að kap. sé úr annari heimild. Á hið sama bendir, að nefnd er kona Nikuláss Oddssonar, en í 211. kap. var sagt frá kvonfangi hans, en kona hans ekki nafngreind, og virðist höfundurinn því ekki hafa ætlað að geta hennar. Að vísu má gera ráð fyrir, að sagnariturum verði á að endurtaka ýmsa hluti, eins og dæmin sanna, og er þetta því ekki alveg óyggjandi. En sterkar líkur má það kalla, þegar sýna má fram á annað, er bendir í sömu átt.

Það virðist vafalítið, að þessi kapítuli sé frumsaminn af þeim, sem ritaði frumrit II, og er margt sem á það bendir. Hér er rakin ætt frá Nikulási Oddssyni til herra Ketils Þorlákssonar. Orðalagið bendir frekar til þess, að þetta sé ritað eftir dauða hans („þeira son var Ketill“), en hann lézt 1342. Að minnsta kosti er engin von til þess, að þetta sé úr Þórðar sögu, sem er ef til vill rituð áður en Ketill fæddist, en að vísu ekki eftir að hann varð fullorðinn og alkunnur maður. Það er og ætlun BMÓ, að þessi orð hafi ekki staðið upphaflega í Sturlungu.[3]) Ennfremur hefur BMÓ bent á grein í þessum kap., sem skotið er inn í hann úr Svínfellinga sögu: „ok þótti mönnum hann hafa lítt skilizk við málin þeira Ormssona ok Ögmundar,“ en í Svínfellinga sögu stendur síðar: „ok er þat mál manna, at hann skilði harðliga við þetta mál.“[4]) Nú stendur þessi grein í Svínfellinga sögu einungis í I, en ekki í IIp, og er það ljóst, að sá, er ritaði frumrit II, hefir flutt greinina hingað. Bendir það til þess, að hann hafi frumsamið kap. og víða dregið efni til hans úr öðrum sögum, en aukið sumu frá eigin

1) Safn III, 366—367; Litt. hist., 2. útg., II, 730. — 2) Sturl.[3] II, 117—118. — 3) Safn III, 502. — 4) Sturl.[3] II, 120.

brjósti. Eftir munnlegum heimildum segir hann frá vinaboði Þórðar, en ríkisskipanin er tekin úr Þorgils sögu: „Þar kom Hrani, Eyjólfr Þorsteinsson, Hrafn Oddsson, Sæmundr Ormsson, Sturla af Staðarhóli, Þorleifr ór Görðum. Á þeim fundi skipti Þórðr ríki með þeim. Skyldi Eyjólfr hafa ríki í Skagafirði ok búa í Geldingaholti, Hrani skyldi taka við búi á Grund ok vera fyrir heraði í Eyjafirði, Þorleifr skyldi vera fyrir Borgarfirði, en Sæmundr fara austr til ríkja sinna. Hverr þeira skyldi veita öðrum, ef nökkurs þyrfti við. Þeir skyldi fyrir engum laus láta ríki þessi, nema bréf Þórðar kæmi til eða hann sjálfr." En í Þorgils sögu segir svo (230. kap.): „Þórðr ... hafði áðr skipat eignir Snorra Sturlusonar vinum sínum, Eyjólfi Þorsteinssyni Skagafjörð ok búnað í Geldingaholti, Hrana Koðránssyni Eyjafjörð ok búnað á Grund, Þorleifi Þórðarsyni Borgarfjörð. Hrafn Oddsson, Sæmundr Ormsson, Sturla Þórðarson ok Nikulás Oddsson váru bundnir í trúnaði ok tengðum við Þórð ok í vináttu."1) Hér er augljóst samband milli textanna. En síðari hluti þess, er tilfært var úr 213. kap., er tekinn úr 217. kap., en hann er úr Þorgils sögu, eins og síðar mun sýnt: „Gerðu þeir þat ráð, at þeir mundu bíða þess, er skip gengi af Nóregi ok Þórðr kæmi út, eða hins ella, at hans væri eigi vánir. Þar var þat talat, ef Gizurr kæmi til, at þeir skyldi halda ríkjum fyrir honum ok hverjum manni öðrum, þeim er til kallaði."2)

Þegar þetta kemur allt saman, endurtekningar á því, sem áður var sagt, grein flutt til úr Svínfellinga sögu, efni dregið úr tveim kap. í Þorgils sögu og ættartalan, sem virðist rituð um miðja 14. öld, má telja það fullvíst, að þessi kap. geti ekki verið úr Þórðar sögu, heldur sé hann frumsaminn af þeim, er ritaði upp Sturlungu um þetta leyti (um 1340—1350). Ástæðan er auðsæ. Safnandi hefur vikið of snemma frá Þórðar sögu, þegar hann greip til Svínfellinga sögu; hefur

1) Sturl.3 II, 149. — 2) Sturl.3 II, 131—132.

honum þótt nægja, sem þar er sagt um utanför Þórðar, er Þórðar saga mun hafa greint nokkuð nánar frá. En sá, er nú ritaði upp söguna, hefur saknað hér yfirlits um ríkisskipan Þórðar og hefur bætt úr því, með því að draga saman, það sem um þetta var sagt í Þorgils sögu, tekið eina grein úr Svínfellinga sögu, en ritað sumt eftir því, sem hann vissi um þessa atburði.

Eins og textinn er nú í I, er Svínfellinga saga ein til frásagnar um atburði hér á landi frá því um haustið 1249 fram á sumar 1252. En í IIp er 5 köflum skotið inn í texta Svínfellinga sögu; er þar sagt frá atburðum, er gerðust 1249—1251. Miðkaflinn af þessum 5 er 213. kap., sem nú var sýnt, að er frumritaður af þeim, sem ritað hefur handrit það, sem Reykjarfjarðarbók (II) er skrifuð eftir. Hinir 4 kaflarnir eru og vafalaust ekki úr Svínfellinga sögu, og hefur BMÓ greint rök fyrir því.[1])

Fyrsti kaflinn (merktur *a* í útg. Kålunds) greinir frá deilum þeirra frænda, Ormssona og Þórarinssona, gerð Þórðar kakala á alþingi 1250 og atför Odds að Sæmundi síðar sama sumar. Næsti kafli *(b)* segir frá því, er Þórður fór að Sæmundarsonum og rak þá utan. Þá kemur 213. kap. *(c)*. Á eftir honum er framhald af *b*, um Sæmundarsonu, útferð þeirra og drukknun 1251 *(d)*. Loks er síðasti kaflinn *(e)* um sættir Þórarinssona og Ormssona 1251, og er hann beint áframhald af *a*.

Þar sem *a* og *e* greina frá Ormssonum, mætti ætla, að þessir kaflar ætti heima í Svínfellinga sögu, og er það ætlun Guðbrands Vigfússonar. En röðin í handritunum mælir á móti því. Efnið í köflunum bendir og til þess, því að Svínfellinga saga greinir annars einungis frá viðskiptum Ögmundar Helgasonar og Ormssona, þangað til yfir lauk með þeim, og er sýnilegt, að þessar deilur eru efni sögunnar og annað ekki. Annars taka rök BMÓ af skarið í þessu.

Úr Þórðar sögu virðast þessir kaflar ekki geta verið, þar sem *d* og *e* koma ekki við efni hennar og gerast auk

1) Safn III, 365—369.

þess eftir þann tíma, er sagan segir frá. En *b* hefði átt að standa í miðjum 211. kap., ef hann væri úr sömu sögunni. BMÓ telur þessa 4 kafla *(a, b, d, e)* til Gizurar sögu.[1]) Færir hann þó engin rök til þess, nema skyldleika og tengdir Páls Kolbeinssonar við Ormssonu og Þórarinssonu, að orðatiltæki bendi til þess, að þessi frásögn sé ekki rituð á Austurlandi, og loks að ekki sé annari sögu til að dreifa, úr því Svínfellinga saga og Þórðar saga gangi frá.

Síðasta ástæðan er alröng, því að sýna má fram á, að Íslendinga saga nær fram yfir þenna tíma. Ókunnugleiki á skaftfellskri málvenju sannar ekki, að þetta sé fremur ritað í Skagafirði en við Breiðafjörð. Og loks er þetta algerlega óskylt því, sem BMÓ telur annars efni Gizurar sögu, og skyldleiki þessara manna og tengdir við mann, sem talinn er heimildarmaður sögunnar, hefur ekkert sönnunargildi. Enda er sumt í þessari frásögn lítt til þess fallið, að vera haldið á lofti af þeim, sem var annt um minning Odds Þórarinssonar, svo sem för hans að Sæmundi, frænda sínum, er varð honum til hinnar mestu háðungar *(a)*, og dráp Þorsteins Tjörfasonar, mágs hans, „ok var illa látit yfir því verki".

Vilji menn ekki telja þessar frásagnir til heimildar, sem er annars óþekkt, verður að heimfæra þær til Íslendinga sögu,[2]) og má finna ýmislegt til stuðnings því. Svo segir í *b:* „Ok er Árón (Hjörleifsson) finnr Harald (Sæmundarson), segir hann, at þeir skuli flytja hans mál ... Nú með því at Haraldi þótti eigi örvænt, at Árón fengi þat flutt, at hann færi eigi útan, en trúði honum vel, þá fór hann til móts við Þórð. Var þá engi annarr kostr af Þórði en Haraldr festi útanferð sína, ok þat fór fram, ok varð Árón honum at engu liði. Var þat mál manna, at hann gerði þat *eigi at makligleikum*."[3]) Hér virðist gert ráð fyrir, að lesandanum sé kunnugt um ástæðuna til þess, að Áróni var skylt að veita Haraldi það fulltingi, er hann mátti; á það benda

1) Safn III, 370—371. — 2) Sbr. FJ. Litt. hist. 2. útg., II, 731. — 3) Sturl.[3] II, 117.

hin auðkenndu orð. En það var einmitt Haraldur, sem bjargaði Aróni og kom honum utan, þegar hann var sekur skógarmaður Sturlu Sighvatssonar og átti hvergi friðland. Frá þessu er sagt í 60. kap. Ísl.s.[1]) og mæla allar líkur með því, að hér sé beinlínis vísað til þeirrar frásagnar. Og enn er þess getið í 134. kap., að Haraldur varð að gjalda Sturlu fyrir bjargir við Árón.[2]) En engar líkur eru til þess, að getið hefði verið um hrakninga Áróns og undankomu í sögu um Gizur og Skagfirðinga.

Um *d* er það að segja, að Sturla skýrir frá hinu sama í Hákonar sögu, að vísu ónákvæmar en þó ber ekkert á milli.[3]) Hér er eitt orðatiltæki, sem Sturlu er mjög tamt að nota: „... ok váru þeir mjök þrekaðir, *sem ván var.*"

Efni þessara 4 greina bendir ótvírætt til þess, að þær sé úr Íslendinga sögu, en ekkert mælir í móti því, enda öðrum sögum tæplega til að dreifa. Eg tel fullvíst, að þær sé úr henni teknar.

Þá kemur til álita, hvort þessir 4 kaflar hafi frá upphafi staðið í Sturlungu og ritari I hlaupið yfir þá, eða hvort þeir sé fyrst komnir inn í II eða frumrit þess. Í sambandi við þetta er sú spurning, hvernig standi á röðinni í handritinu.

Eg tel vafalítið, að þessir 4 kaflar hafi staðið í Sturlungu frá upphafi, enda er ósennilegt, að ritari II hafi notað Íslendinga sögu eða aðrar sögur sjálfstætt, auðvitað að Þorgils sögu skarða undanskilinni. 216. kap. ber því ljóslega vitni, að bæði safnandi og ritari I hafa þekkt að minnsta kosti *b* og *d*. Þar segir frá því, að Oddur Þórarinssson gerði Hrana Konráðsson sekan á þingi 1252, fyrir það er hann laust Filippus Sæmundarson, þegar Þórður kakali sótti hann heim til Hvols. Hér er engin skýring á því, að Oddur gat verið aðili þessa máls, en hana má finna í *b*, þar sem sagt er, að hann hafi fengið Randalínar Filippusdóttur. Þessa skýringu hefur ritari I gleymt að gefa. Annað þarf og skýr-

1) Sturl.[3] I, 379. — 2) Sturl.[3] I, 506. — 3) Icel. Sagas II, 267; Flat. III, 182.

ingar við: hvers vegna Filippus sótti ekki málið sjálfur. Í II verður það ljóst af frásögninni í *d* um drukknun þeirra Sæmundarsona. En í I er gerð grein fyrir því á þenna veg: „En þá höfðu þeir bræðr Filippus ok Haraldr Sæmundarsynir drukknat annat sumarit áðr suðr fyrir Minþakseyri. Var þá eigi við Filippus at meta málaferlin við Hrana.“[1]) Þessi grein stendur ekki í IIp, heldur *einungis í I*. Þar er hún nauðsynleg, til þess að frásögnin verði skiljanleg, þar sem *d* er sleppt. Það er og ljóst, að greinin er tekin upp úr *d*, og er þetta full sönnun þess, að sá er ritaði I hefur haft hana fyrir sér: hún hefur staðið í frumriti hans. En engin ástæða er til að efast um, að sama máli gegni um hinar greinarnar. II hefur á báðum stöðunum varðveitt hinn upphaflega texta Sturlungu, sem hefur haft þessar 4 greinar, en að sjálfsögðu ekki getið um drukknun Sæmundarsona í 216. kap.

Þessir kaflar standa allir í miðri Svínfellinga sögu. Á undan þeim er sagt frá ferðum Ögmundar Helgasonar 1250. Þá kemur *a*, er segir frá alþingi sama ár og nær fram á sumar. Á eftir þeirri frásögn er í IIp grein úr Svínfellinga sögu um þetta sama alþingi og sekt Ögmundar.[2]) Næsti kafli *b* segir frá haustinu áður, 1249; *c* gerist 1250, en *d* og *e* 1251, og byrjar þá Svínfellinga saga aftur á frásögn um atburði eftir þing 1250. Hér er því allt á ruglingi. Er skiljanlegt, að ritara I hafi þótt þetta slíta söguþráðinn og því fellt þessa kafla niður, en einungis tekið úr *d* upp í 216. kap., það sem nauðsynlegt var til þess, að sú frásögn yrði skilin. Ef til vill hefur hann haft Svínfellinga sögu sérstaka til hliðsjónar,[3]) en ekki virðist nauðsynlegt að gera ráð fyrir því.

En hvernig stendur þá á efnisskipaninni í IIp? Vafalaust er hún tekin upp úr frumritinu, frumgerð Sturlungu. Ef gera ætti tilraun til þess að skýra hana, yrði það helzt á þessa leið: Safnandi fylgir Þórðar sögu því nær til enda, en hverfur frá henni, áður en sagt er

1) Sturl.[3] II, 131. — 2) Sturl.[3] II, 120, sbr. 117, nmgr. 1. — 3) Sbr. Safn III, 501—502.

frá utanför Þórðar; hefur ætlað að geta um hana síðar í Svínfellinga sögu. Í stað þess að taka aftur til við Íslendinga sögu, grípur hann fyrst til Svínfellinga sögu og fylgir henni fram að þingi 1250. Þá minnist hann þess, að Íslendinga saga segir frá deilum milli Ormssona og Þórarinssona, er hófust sama vor, og vill skýra frá þeim jafnframt; ritar því þessa frásögn *(a)* eftir Ísl.s. og víkur orðalaginu lítið eitt við í upphafi kaflans, til þess að tengja við það, sem áður var ritað. Að þessu loknu segir hann frá sekt Ögmundar á þinginu eftir Svínfellinga sögu. En nú tekur hann eftir því, að enn er ósagt frá för Þórðar að Hvoli sumarið áður, er annars vegar leiddi til sektar Hrana og vígs hans síðar, en hins vegar til utanferðar Sæmundarsona og drukknunar þeirra. Hann tekur því *b* og *d* upp úr Ísl.s. og loks *e*, sem greinir frá lyktum mála þeirra, er hófust í *a*. Að því loknu hverfur hann aftur að Svínfellinga sögu og ritar hana til enda. En ritari II saknaði gleggri frásagnar um utanför Þórðar og skipan hans um ríki sitt og sauð því saman 213. kap. *(c)* eftir því sem hann vissi, tók grein úr Svínfellinga sögu upp í hann og frásögn Þorgils sögu skarða um umboðsmenn Þórðar. Að Þorgils saga er notuð, sýnir ljóslega, að kapítulinn hefur ekki staðið í Sturlungu frá upphafi — og með engu móti í Þórðar sögu kakala. — Þessum kafla er skotið inn í réttri tímaröð milli *b* og *d*, sem annars eiga saman.

Þetta er einungis tilraun til skýringar, og má vera, að hún sé ekki rétt. En víst er um það, að skoðun BMÓ, er telur 4 kaflana til Gizurar sögu, en miðkaflann úr Þórðar sögu, gerir ekki á neinn hátt grein fyrir þessari undarlegu röð.

En hvernig sem á röðinni stendur, gefur hún dágóða hugmynd um, hve heppilega safnandanum hefur tekizt, þegar hann ætlaði að hlaupa á víxl í 2 sögur, er sögðu frá samtímaatburðum og að nokkuru leyti frá sömu mönnum. Eru vinnubrögð hans hér í fullu samræmi við það, sem áður var um þau sagt, eftir því sem honum hefur tekizt við aðrar sögur í Sturlungu. Þetta

er því sterk sönnun þess, að engri sérstakri sögu um Gizur og Skagfirðinga sé skotið inn í texta Íslendinga sögu og Þórðar sögu kakala, þar sem hvergi sjást þau missmíði, er sýni það og sanni. En undarlegt mætti virðast, ef safnanda hefði tekizt að skjóta frásögn þeirrar sögu einnar svo ágætlega inn í aðrar sögur, en verið mjög mislagðar hendur alls staðar ella.

Í öllum þessum kafla, frá upphafi Þórðar sögu kakala til loka Svínfellinga sögu, get eg ekki fundið neina frásögn, er sannanlega sé tekin úr sögu um Gizur og Skagfirðinga eða neyði menn til þess að gera ráð fyrir, að slík saga hafi verið til. En hafi sagan verið til og legið fyrir safnanda Sturlungu, gæti sumar frásagnir verið úr henni, bæði 203. og 209 kap. Frásögn II um Reykhólaför er ekki á neinn hátt sögð frá sjónarmiði Skagfirðinga; hún sannar því ekkert í þessu efni, hvernig sem á henni stendur.

Safnandi mun hafa fylgt Þórðar sögu einni í allri þessari frásögn; að minnsta kosti verður ekki sýnt fram á neinar greinir úr Íslendinga sögu. Þó má vera, að 209. kap. sé úr þeirri sögu og að hún hafi verið höfð til hliðsjónar, þegar 210. og 211. kap. voru ritaðir. Þórðar sögu er fylgt því nær til enda; niðurlaginu einu er sleppt. En í miðri Svínfellinga sögu víkur safnandi aftur til Íslendinga sögu og ritar upp úr henni 4 kafla. Eru þetta einu frásagnirnar, sem fullyrt verður um, að sé úr Íslendinga sögu, frá því er safnandi lagði hana frá sér og tók að rita eftir Þórðar sögu.

Á þessu 10 ára bili, 1242—1252, hefur frásögn Íslendinga sögu vafalaust verið styttri en Þórðar saga og Svínfellinga saga, og hafa þær sögur því verið teknar fram yfir. Þó virðist sennilegt, að Sturla hafi sagt nákvæmar frá utanför Þórðar kakala og viðskilnaði hans en gert er í 212. kap. *(b)*, en safnandi mun þar hafa stytt textann.

IX.

Með 216. kap. hefst sá þáttur, er safnandi tekur að fylgja Íslendinga sögu aftur óslitið, samkvæmt skoðun minni á sögunni. En þar sem BMÓ telur alla frásögnina í I hér á eftir vera samsuðu af Þórðar sögu kakala og Gizurar sögu, verður að íhuga, hvort til þess liggi óyggjandi rök eða meiri líkur en að flest allt sé úr Ísl.s. Verður þá einkum að hafa auga á þeim frásögnum, sem BMÓ telur til Gizurar sögu, því að hitt, sem hann kveður tekið úr Þórðar sögu, getur eins verið úr Ísl.s.; verður þar ekki í milli greint, þar sem þær tvær sögur segja frá atburðunum frá sama sjónarmiði. Í því efni verður að skera úr sá skilningur, sem menn hafa á þeim sögum og þessum hluta Sturlungu, og hefur hér að framan verið leitazt við að sýna fram á, að frásögn Þórðar sögu sé lokið, þegar hér er komið.

216. kap.[1]) telur BMÓ allan úr Gizurar sögu, nema upphafið.[2]) Ekki verða það rök kölluð í þessu efni, að sagan getur um milligöngu Brodda Þorleifssonar og Páls Kolbeinssonar. Sennilega hefur Sturla sjálfur verið á þessu þingi, sem hér er sagt frá, og vitað gerla, hverjir stilltu til friðar; hann var um þessar mundir í sambandi við Eyjólf Þorsteinsson. Ekki verður upphafið, um þingreið Eyjólfs, slitið frá því, er síðar segir frá þinginu, og virðist það liggja í augum uppi. En frásögnin um sekt Hrana Koðránssonar er sýnilega úr sömu heimild sem 212. og 214. kap. *(b* og *d)*, eins og rökstutt var hér að framan.[3]) Ber því að telja allan þenna kap. til Ísl.s.

Næsti kap. (217. kap.) segir frá þeim mönnum, sem Þórður hafði skipað ríki sitt,[4]) og telur BMÓ hann til Þórðar sögu. Svo mun þó ekki vera, og er þetta ljóslega úr Þorgils sögu skarða. Þessi kap. stendur ekki í I, og er það eitt mikil sönnun. En önnur rök liggja og til þess. Í 230. kap. segir Þorgils saga frá því, hvernig

1) Sturl.[3] II, 131. — 2) Safn III, 371—372. — 3) Bls. 94—97. — 4) Sturl.[3] II, 131—132.

Þórður skipaði ríki sitt og hverjum hann fól héraðsstjórn: Eyjólfi, Hrana, Þorleifi í Görðum. Hrafn Oddsson, Sæmundur Ormsson, Sturla og Nikulás Oddsson voru bundnir í trúnaði og tengdum við Þórð og í vináttu. Þá er getið um víg Ormssona um vorið; „þótti þeim Eyjólfi ok Hrafni þat skaði mikill.“ Næsti kap. — 231. — hefst svo: „Um sumarit at Laurentius messu var veizla mikil í Geldingaholti; kom þar til Hrafn Oddsson, Sturla Þórðarson, Þórðr Hítnesingr, Nikulás Oddsson. Þorleifr í Görðum hafði sent Eyjólfi bréf; var þat lesit at veizlunni; segir hann svá, at Ögmundr Helgason bjó svá nær kirkju, at eigi mundi svá at honum komit, þótt hann vildi á hefnileið róa, at eigi mundi hann skjótt ná kirkju. Þorleifr segir sik traustan ok öruggan til slíks, sem þeir vildu upp taka.“[1]) Á milli þessara kafla, 230. og 231. kap., mun 217. kap. hafa staðið í upphafi. Hann segir frá fundi Eyjólfs, Hrafns, Sturlu og Þorleifs í Vatnsdal þá um sumarið, „ok angraði þá mjök dráp Sæmundar fyrir sakir mægða ok sambands þess, er Þórðr hafði þá saman bundit, áðr hann fór frá.“ Þessi orð munu upphafleg í Þorgils sögu, en niðurlagsorð 230. kap. „þótti þeim Eyjólfi ok Hrafni þat skaði mikill“, eru frá ritara II, er hafði flutt 217. kap. fram fyrir. En allt upphaf 217. kap. bendir til þess, að hann sé beint áframhald af 230. kap. — Þá er getið um ráðagerðir þeirra, ef Gizur komi til — í Þorgils sögu er ekki sagt frá heimkomu hans fyrr en síðar, í 232. kap. „Þorleifr fór í því öllu seigligar; þótti þeim hann vera í öllu slær, ok skilðusk at því.“ Þessi orð standa beinlínis í sambandi við upphaf 231. kap., er áður var tekið upp: Þorleifur kemur ekki til veizlunnar, en ritar bréf og telur úr þeim að leita á Ögmund; segir sig þó traustan til hvers sem þeir vildu. Þessi frásögn sannar það, sem um getur í 217. kap., að Þorleifur var deigur í þessum málum. — Loks er niðurlag 217. kap.: „En Eyjólfr bauð þeim heim öllum í Geldinga-

1) Sturl.³ II, 149—150.

holt at Laurentiusmessu,“ og vísa þau beint til upphafsorða 231. kap., þó að þeim hafi að vísu verið vikið við, þegar kaflarnir voru slitnir í sundur.

Þegar frásögnin um trúnaðarmenn Þórðar er lesin í þessari röð: 230., 217., 231. kap., liggur sambandið milli þeirra og samhengið í frásögninni í augum uppi. Þetta hafa menn og séð áður. Þegar sá, sem skrifaði handritið Br, kom að 217. kap., sá hann sambandið við 231. kap., að hann er áframhald af 217. kap., og ritaði hann því upp strax á eftir (sama röð er í Vallabók).[1]) En í skinnbókinni (II) er röðin eins og í útgáfunni; vér höfum einmitt 230. og 231. kap. á 16. blaði handritsins. Það mun hafa vakað fyrir ritara II, að taka upp frásögn Þorgils sögu í réttri tímaröð, þar sem við átti. En hann hefur þegar hætt við það og tekið þann kost að rita söguna upp í heilu lagi frá byrjun, á svipaðan hátt sem farið var með sögurnar í frumriti hans, Sturlungu. Hann tók því aðeins stutta frásögn um dvöl Gizurar í Noregi og suðurgöngu þeirra eftir Sturlungu, en veik síðan strax aftur að Þorgils sögu og byrjaði þá á upphafi hennar. Frásögn Sturlungu um útkomu þeirra Þorgils, Stafholtsreið og þingið 1253 sleppti hann aftur (mestur hluti 218. kap., 219. og 220. kap.); þeir kap. eru aðeins varðveittir í I.

Í 218. kap. víkur sögunni til Gizurar, veru hans í Noregi, suðurgöngu og útkomu hans 1252, með þeim Þorgilsi skarða og Finnbirni Helgasyni.[2]) Þessa frásögn telur BMÓ úr Gizurar sögu.[3]) — Það virðist ljóst, að Sturla gat ekki hjá því komizt, að segja eitthvað frá Gizuri, og er ekki sagt nákvæmar frá suðurgöngu hans og dvöl í Noregi en við mátti búast. Þorgils skarði var í Noregi allan þenna tíma, en samskipa Gizuri heim; hefur honum því verið fullkunnugt um þetta ferðalag, en Sturla átti síðar auðvelt að hafa sagnir af honum. Benda má á, að frásögnin um suðurgöngu

1) Sbr. og Benedikt Sveinsson, Sturl.[4] III, 175. — 2) Sturl.[3] II, 132—134. — 3) Safn III, 334—336.

Sturlu Sighvatssonar í 97. kap., er mjög áþekk þessari, sagt álíka nákvæmlega frá, báðir fengu lausn allra mála sinna, og Danakonungs getið í báðum frásögnunum.[1]) En væri þessi frásögn úr sögu um Gizur, hefði mátt búast við, að nákvæmar væri greint frá utanför hans, sbr. hvernig sagt er frá Þorgilsi skarða í hans sögu. Aftur er nákvæmnin álíka og í öðrum frásögnum Sturlu um utanfarir höfðingja, Snorra, Þorleifs og fleiri.

Hið eina, sem kynni að benda á aðra heimild, er frásögnin um brúðkaup Gró og Gizurar: „þat var *þá* samþykki kennimanna." Þó er ekki nauðsynlegt að gera ráð fyrir því. Oft gleymir Sturla t. d. að geta um kvonföng manna, en segir síðar frá konum þeirra, mágum o. s. frv., eins og áður hefði verið gerð full grein fyrir. „Allir voru þeir sköruligir menn at sjá," er sagt um sonu Gizurar. Líkt kemst Sturla að orði um Ingibjörgu, dóttur sína, í 258. kap.: „bæði mikil vexti ok sköruligi at sjá,"[2]) og bendir þetta til þess, að hann sé höfundur frásagnarinnar.

Í Hákonar sögu er einnig sagt frá útkomu þeirra Gizurar. Segir þar, að þeir hafi lagt af stað út til Íslands 1251, um leið og Sæmundarsynir, en orðið afturreka og brotið skip sitt það sumar.[3]) Hér er þessa ekki getið, og er vel skiljanlegt, að Sturla sleppi að geta um jafn smávægilegt atriði. Þorgils saga, er tínir til smátt og stórt um söghetju sína, getur ekki heldur um þetta skipbrot þeirra Gizurar, en Þorgils var þá einnig samskipa Gizuri.

Í niðurlagi 218. kap. er þess getið, að Þorgils hafi setið í Stafholti um veturinn (1252—1253). Í 219. kap. er skýrt frá atför Hrafns Oddssonar og Sturlu að honum: „þeir kómu á óvart í Stafaholt til Þorgils." Enn segir í 220. kap., að Þorgils hafi farið norðan úr Skagafirði fyrir föstu „ok sat í Stafaholti ok hafði vörðu sterka."[4]) Það er sýnilegt, að söguritarinn ætlar,

---

1) Sturl.³ I, 450—451. — 2) Sturl.³ II, 200. — 3) Icel. Sagas II, 267; Flat. III, 182. — 4) Sturl.³ II, 134—135.

að Þorgils hafi setið í Stafholti þenna vetur (1252—53). En það er ekki rétt. Í Þorgils sögu segir, að Þorgils sæti í Reykholti framan af vetri, en Ólafur hvítaskáld bjó þá í Stafholti. En Þorgils var í kynnisför í Stafholti, þegar þeir Hrafn tóku þar hús á honum. Þorgils saga segir ennfremur, að hann hafi farið úr Skagafirði suður til Skálholts með Brandi ábóta síðar um veturinn, en ábóti hafði þá staðarforráð í fjarveru Sigvarðar biskups. Í Þorgils sögu er sagt frá þessu öllu svo nákvæmlega, að óhikað verður að taka hana fram yfir.

Þessa villu skýrir BMÓ á þann veg, að höfundur hafi verið ókunnugur högum Þorgils, og muni hann hafa verið Skagfirðingur. En í einu atriði sé þó hér nákvæmari frásögn um vist Þorgils í Skagafirði heldur en í Þorgils sögu, og bendi sú grein beinlínis til Páls Kolbeinssonar.[1])

Eg hygg, að hin ranga frásögn verði ekki skýrð til fullnustu á þenna hátt. Páll Kolbeinsson hefur auðvitað haft glöggar sagnir af þessum atburðum, þar sem 2 af mönnum Þorgils voru hjá honum um veturinn eftir Stafholtsreið. Ennfremur hefði Páli átt að vera fullkunnugt um, að Þorgils var í Skálholti með Brandi ábóta, frænda þeirra, um vorið. Eg hygg, að þessi ranga frásögn verði með engu móti rakin til manns, sem mundi þessa atburði glögglega og tók að nokkuru leyti þátt í þeim, eins og Páll, er hann hýsti menn Þorgils um veturinn. Aftur á móti minnir þetta mjög á aðra villu í 162. kap., þar sem sagt er frá sættarfundinum við Hvítárbrú. Þar gengu á milli og leituðu um sættir Sigvarður biskup og Brandur Jónsson, en Bótólfur Hólabiskup var þar hvergi nærstaddur. Í þessari frásögn (1242) er Brandur oftlega nefndur ábóti, en það varð hann ekki fyr en 1247. Þá er tvívegis tekið svo til orða: Biskupar (biskupar báðir, biskuparnir) og Brandur ábóti, og enn oftar talað um biskupana í fleirtölu. Kålund skýrir þetta svo, að með „biskuparnir“ og „biskupar báðir“ sé

1) Safn III, 336—338.

átt við Sigvarð biskup og Brand, en orðunum „ok Brandr ábóti“ sé bætt við síðar til skýringar.[1]) Nú efast víst enginn um, að Sturlu hefði aldrei komið til hugar að kalla Brand biskup í sambandi við atburði á árinu 1242, og að líkindum ekki heldur ábóta. Honum verður því ekki um kennt. Því hefur ekki heldur verið haldið fram, að frásögnin um fundinn við Hvítárbrú sé eftir annan mann en Sturlu. Menn hafa orðið ásáttir að telja textann afbakaðan á þessum stað, kenna safnandanum um þessa villu. En að þetta er ekki gert af vangá, heldur af ráðnum hug, er bert af því, hve oft þetta er endurtekið. Safnandi hefur „leiðrétt“ textann. Hér virðist standa líkt á. Safnandi (eða ritari I) hefur ekki skilið, hvers vegna Þorgils var tekinn í Stafholti, hafi hann setið um þær mundir í Reykholti. Hann þekkti ekki Þorgils sögu og vissi því ekki, hvaða orsakir lágu til þess. Hann ályktar því, að Þorgils hafi setið í Stafholti og „leiðréttir“ samkvæmt því. Og að þetta er „leiðrétting“ er ljósast af því, að hann hleypur til að „leiðrétta“ Skálholt í Stafholt síðar í þessum kap.

Rökin fyrir því, að Sturla hafi ekki getað samið þessa frásögn, heldur sé höfundarins að leita í Skagafirði og í námunda við Pál Kolbeinsson, standast því ekki, þegar betur er að gætt. Hins vegar er margt í frásögninni, sem virðist beinlínis benda á það, að Sturla sé höfundurinn. Vér getum verið þess fullvísir, að Sturla hefur fyrirorðið sig fyrir Stafholtsreið og iðrazt hennar jafnan síðan. Höfundur þessarar frásagnar vill sýnilega gera lítið úr henni og sem allra minnst um hana tala, og þó er ljóst, að hann hefur verið málinu kunnugur. Og einkum vill hann gera sem minnst úr hlutdeild Sturlu sjálfs. Hér segir, að Kolbeinn grön og Ari Ingimundarson hafi verið sendir af Þórði út til Íslands til vina hans. Þegar er þeir komu vestur var ráðin atför að Gizuri; voru þeir fyrir ferðinni *„með áeggjan Kolbeins* Hrafn ok Sturla.“ Nú segir Þorgils saga að vísu,

---

1) Sturl.[3] I, 568—570 og neðanmálsgr.

að Kolbeinn og Ari hafi borið það, að Þorgils hafi lofað konungi að drepa Sturlu,[1]) en þess er ekki getið þar, að hann hafi verið hvatamaður þessarar ferðar, þó að svo muni að vísu hafa verið. Sagan tekur það meira að segja fram, að Kolbeinn hafi beitt sér fyrir því, að draga saman sætt með þeim frændum: „Þess vil ek beiða, at þeir menn allir, er hér vilja illt til leggja, at geri annathvárt, at gangi á brott eða þegi, því at ek ætla, at hér þurfi öll in góðu tillögin, ef vel skal verða.“[2]) Aftur segir svo í Hákonar sögu: „Þórðr kakali sendi til Íslands Kolbein grön, frænda sinn, *ok þótti hann ekki mikill manna sættir,* er hann kom til Íslands.“[3]) Þessari frásögn Sturlungu ber því saman við Hák. s. að því leyti, að skuldinni er að miklu leyti skellt á Kolbein, í samanburði við frásögn Þorgils sögu. Er og ekki ósennilegt, að hér sé rétt frá sagt, en það sýnir, að höfundurinn hefur verið kunnugri upptökum þessarar ferðar en höfundur Þorgils sögu. Þá er þess getið, að „Hrafn vildi láta drepa Þorgils, en Sturla vildi þat eigi.“ Þetta kemur ekki alveg heim við Þorgils sögu: „Hrafn segir: „Sturla bóndi, þetta mun eigi svá fara sem í nótt hefir farit, at ek muna hér vera bæði fyrir svörum ok atgerðum; skaltu nú ganga jafnframt mér at hvárutveggju, ok kalla þá ekki útan þitt samþykki sé gert, hvárt sem gert er vel eða illa.“ Sturla mælti: „Óláfr hefir sagt hvárstveggja samþykki“.“ En það var, að Þorgils skyldi vinna sér það til lífs, að fara að Gizuri. Litlu síðar segir Sturla: „nú er þannig, Þorgils frændi, at nú er sætt ráðin af várri hendi, sú er vér munum framast at ganga.“[4]) Hér gengur Sturla jafnframt Hrafni, en þó sést, að hann dansar nauðugur, samanber ummæli þeirra Hrafns, þegar þeir frétta, að Þorgils hefur brugðizt þeim.[5]) En höfundur 219. kap. gerir sem minnst úr öllu, kveður Sturlu hafa komið í veg fyrir, að Þorgils væri veginn, segir, að Þorgils hafi

1) Sturl.³ II, 161, k. 236. — 2) Sturl.³ II, 163, k. 237. — 3) Icel. Sagas II, 272; Flat. III, 185. — 4) Sturl.³ II, 163—164; k. 237. — 5) Sturl.³ II, 168; k. 239.

einungis verið látinn sverja, að hann skyldi ekki vera á móti þeim og ekki veita Gizuri, og verður Þorgils því ekki eiðrofi við þá. Það liggur í augum uppi, að Sturlu hefur verið um það hugað, að halda þessari för sem minnst á lofti, en engin leið var til þess að ganga alveg fram hjá henni. Loks má benda á það, að samkvæmt skoðunum BMÓ hefur Þórðar saga kakala hlotið að segja frá þessari för, og hér voru viðstaddir Dufgussynir, sem annars eru taldir aðalheimildarmenn þeirrar sögu, einkum Svarthöfði. En þá hlýtur sú spurning að vakna, hvað safnanda hafi gengið til að taka skagfirzka frásögn um Stafholtsreið fram yfir Þórðar sögu, sem væntanlega hefði verið sannfróðari um þetta, þar sem frásögn hennar hefði verið byggð á sögn sjónarvotta.

Þó að frásögn Þorgils sögu sé hér öll miklu nákvæmari, er þó eitt atriði, sem hér er framar sagt frá um ferð þeirra Sturlu: „Þeir riðu þar til, er þeir kómu at Ölfusá, *ok var þat um nótt*", og bendir þetta til sögumanns úr flokki þeirra Sturlu. Aftur á móti segir hér ekkert frá Gizuri og viðbúnaði hans, sem menn hljóta að gera ráð fyrir, að saga um hann hefði ekki með öllu gengið fram hjá. En Þorgils saga segir, að Gizur hafi sent þau orð til Skagafjarðar, að honum hafi verið komin njósn um atförina, „svá at þeir mundu eigi þá ná honum, þótt áin hefði eigi ofan hlaupit."[1])

Í lok 219. kap. er sagt, að þeir Hrafn og Sturla höfðu setu á Staðarhóli: „var þá víða föngum til sópat, *váru þat eigi berliga rán kölluð*." Benda má á, að sagt er með svipuðum orðum frá aðförum Órækju í Vestfjörðum fyr í sögunni: *„ok engi váru þá rán berlig,* en þó var kveðit á fé bónda um alla fjörðu."[2]) En að Sturla hefur getað nefnt aðdrættina til búsins réttu nafni, sýnir orðalagið í 107. kap., þar sem sagt er frá ránsferð þeirra Ólafs hvítaskálds: „Fór Óláfr út til Bjarnarhafnar *með allt ránféit*."[3])

1) Sturl.[3] II, 169, k. 240. — 2) Sturl.[3] I, 479. — 3) Sturl. I, 464.

Í niðurlagi 220. kap. er þess getið, að Sturla hafi haft lögsögu 1253, en eigi riðið til þings fyrir ófriði og hvorugur þeirra Hrafns, en Teitur Einarsson hafi tekið lögsögu að ráði Gizurar. Hafi Gizur látið lýsa fjörráðasökum á hendur þeim Hrafni að lögbergi. Eftir annálum og Þorgils sögu[1]) var Ólafur hvítaskáld þá lögsögumaður, en lét af lögsögu vegna vanheilsu, en við tók Teitur Einarsson. Þorgils saga segir og, að Sturla hafi verið á þingi um sumarið og sætzt þá við Gizur, og þá hafi verið ráðið gjaforð Ingibjargar, dóttur hans. En í 252. kap., sem kemur næst á eftir 220. kap. í I, segir, að sættir hafi ekki orðið fyr en um haustið. Frásögn Þorgils sögu er vafalaust röng, enda segir miklu nákvæmar frá öllu í 252. kap., og lýsir sú frásögn kunnugleik höfundarins á öllum málavöxtum. En hitt er vafalaust ritvilla, að Sturla hafi haft lögsögu þetta ár, eða þá „leiðrétting“ safnanda.

Frásögninni í 220. kap. er haldið áfram í 252. kap.[2]); það sem er hér á milli í útgáfunum er allt úr Þorgils sögu skarða. Upphaf kap., um flutning Eyjólfs Þorsteinssonar á Möðruvöllu í Hörgárdal, telur BMÓ úr Þórðar sögu.[3]) En þessi frásögn er beinlínis áframhald af 220. kap., er BMÓ heimfærði til Gizurar sögu, og er þar greind ástæðan til flutnings Eyjólfs: „Þat segir hann (þ. e. Gizur) ok Eyjólfi, at hann vildi hann eigi í Skagafirði.“ Þetta var milli jóla og föstu, en Eyjólfur flutti um vorið. Þessir tveir kaflar geta bersýnilega ekki verið teknir úr tveim ólíkum sögum. Það styður og þetta, að í 252. kap. er sagt á sama hátt um Ófeig Eiríksson og Vigdísi Gilsdóttur, tengdamóður Eyjólfs, að „Gizurr vildi eigi byggð þeira í Skagafirði.“

BMÓ telur frásögnina um sættir þeirra Gizurar, Hrafns og Sturlu til Gizurar sögu.[4]) Ekkert bendir þó á, að kapítulinn sé settur saman úr tveim sögum. Eftir sáttafundinn reið Hallur Gizurarson vestur með þeim Hrafni og Sturlu. Komu þeir í Sælingsdalstungu, og

1) Sturl.[3] II, 176, k. 244. — 2) Sturl.[3] II, 185—187. — 3) Safn. III, 457. — 4) Safn III, 338.

var þar Ingibjörg Sturludóttur með Jóreiði Hallsdóttur, móðurmóður sinni; er getið heimanfylgju þeirrar, sem hún fékk af ömmu sinni og föður sínum. Þá er þess getið, að þau Hallur riðu vestur á Staðarhól og að Hallur hafi verið þar nær viku. Þessi nákvæma frásögn bendir ótvírætt til Sturlu, einkum hversu nákvæmlega er sagt frá heimanmundi Ingibjargar.

Í 253. kap.[1]) er fyrst sagt frá veizlu þeirri, er Eyjólfur gerði á móti Heinreki biskupi, „ok var með þeim allkært, ok skilðu með blíðu. Með biskupi ok Gizuri var þá eigi jafnblítt sem verit hafði.“ Í Hákonar sögu segir svo: „Höfðu þeir ok eigi lengi verit á Íslandi, Heinrekr biskup ok Gizurr, áðr biskupi þótti hann eigi enda þat, sem hann hafði konungi heitit. Kom þá svá brátt, at biskup vendi sinni vináttu til þeira manna, er mestir váru óvinir Gizurar.“[2]) Hér er sýnilega átt við hið sama sem 253. kap. segir frá, og styrkir það, að upphaf 253. kap. sé eftir Sturlu, en ekki úr Þórðar sögu.[3]) Á hið sama bendir, að sagt er frá kvonfangi Eyjólfs ofsa, sem áður hefur verið greint frá í Þórðar sögu, 208. kap.[4])

Þá eru greind eggjunarorð Þuríðar Sturludóttur við Eyjólf, bónda sinn, og þess getið, að Kolbeinn grön og Ari Ingimundarson hafi verið þar viðstaddir. Telur BMÓ líkindi til, að Kolbeinn sé sögumaður, og bendi það til Þórðar sögu. Þetta er þó ósennilegt, því að Kolbeinn var veginn nokkurum mánuðum eftir þetta og kom aldrei aftur vestur til frænda sinna, er standa að Þórðar sögu. Sennilegra er, að Ari hafi frá þessu sagt, sbr. hve nákvæmlega er sagt strax á eftir frá skipbroti hans. En mjög vel er skiljanlegt, að frýjuorð Þuríðar húsfreyju hafi flogið víða eftir Flugumýrarbrennu.

Brúðkaupinu á Flugumýri er lýst í 255. kap.[5]) Frásögnin ber það með sér, að hún er rituð af sjónarvotti eða eftir fyrirsögn sjónarvottar. Hrafn Oddsson mun tiðindamaður að ýmsu, svo sem um samtal þeirra Ásgríms Þorsteinssonar á Víðimýri, viðræðu þeirra Ara

1) Sturl.³ II, 187—188. — 2) Icel. Sag. II, 272; Flat. III, 185. — 3) Safn III, 457. — 4) Sturl. II, 100. — 5) Sturl.³ II, 188—192.

Ingimundarsonar á Flugumýri, aðvörun hans við Gizur og ummæli hans á Hólum við Sám. Frá viðtali Ara og Gizurar hefur hann einnig getað sagt, en þó má og vera, að Ari sé hér tíðindamaður. Ekkert bendir á, að frásögnin sé skráð af öðrum en Sturlu, ræða Gizurar og og ummælin um veizluna hafa ekkert sönnunargildi í því efni.[1]) Aftur bendir það til Sturlu, að getið er þeirra manna, sem hann skildi eftir hjá Ingibjörgu; mun og frásögnin um Flugumýrarbrennu að nokkuru leyti eftir sögn annars þeirra, Þorbjarnar nefs Þórðarsonar, mágs Sturlu.

Í 256. kap. segir frá ferð þeirra Eyjólfs Þorsteinssonar að Gizuri og sókn þeirra að húsunum.[2]) Í upphafi kap. eru flestir brennumenn taldir með nöfnum. Ætlar BMÓ þá upptalning úr Gizurar sögu, en næstu grein úr Þórðar sögu, þar sem sagt er, að flokkurinn mætti Þorvarði úr Saurbæ, Drumb-Birni, Þorleifi fagurdæl og fleirum. Rökstyður hann þetta með því, að Þorleifur er áður talinn með brennumönnum, en hér segir, að hann mætti þeim Eyjólfi á leiðinni og sneri við með þeim, og sé hér mótsögn, er sýni, að tvær heimildir hafi verið notaðar.[3]) Þetta mun þó ekki rétt á litið. Brennumannatalið er auðvitað miðað við þá, sem voru að brennunni, því að það er aðalatriðið, en er ekki til þess að sýna, hverjir hafi lagt af stað í förina, þó að það standi að sjálfsögðu í upphafi frásagnarinnar. Þetta er ljóst af því, að síðar segir, að þeir settu Þorbjörn arnarunga eftir á Haukstöðum, og hefur hann því verið í flokknum frá upphafi, en ekki er hann nefndur í brennumannatalinu.[4]) En sé því haldið fram, að upptalningin eigi við þá menn eina, er tóku sig upp í Eyjafirði, verður mótsögn í 2 köflum, sem BMÓ telur báða til Gizurar sögu: Í 255. kap. segir, að Þorleifur fagurdæll var í brúðkaupinu, og gat hann því tæplega verið kominn norður að Möðruvöllum, áður en Eyjólfur lagði af stað, enda er frásögnin á eftir á móti því.

1) Safn III, 318. — 2) Sturl.³ II, 192—195. — 3) Safn III, 457—458. — 4) Sbr. og E. Ó. Brim í Arkiv VIII, 363 og Safn III, 522.

Alla frásögnina um ferðir þeirra Eyjólfs Þorsteinssonar og brennuna sjálfa (256.—259. kap.)[1]) heimfærir BMÓ til Gizurar sögu, þó með fáum innskotum úr Þórðar sögu. Áður en vikið er að röksemdum hans, skal bent á nokkura staði í frásögninni, sem vísa ótvírætt til Sturlu.

Um Gró, konu Gizurar, og Ingibjörgu Sturludóttur segir svo: „Þá kom þar til Gró í anddyrit Ingibjörg Sturludóttir, ok var í náttserk einum ok berfætt; hon var þá þrettán vetra gömul ok var bæði mikil vexti ok skörulig at sjá. Silfrbelti hafði vafizk um fætr henni, er hon komsk ór hvílunni fram; var þar á pungr ok þar í gull hennar mörg; hafði hon þat þar með sér. Gró varð henni fegin mjök ok segir, at eitt skyldi yfir þær ganga báðar.“ Og enn síðar: „Þar brunnu margir gripir, er átti Ingibjörg Sturludóttir. Ingibjörgu bauð til sín eftir brennuna Halldóra dóttir Snorra Bárðarsonar, frændkona hennar, er þá bjó í Odda. Fór hon þangat, ok förunautar hennar með henni; var hon mjök þrekuð, barn at aldri.“[2]) Er það ekki hverjum manni ljóst, að það er föðurástin, sem stjórnar pennanum? Á fyrra staðnum er hún „mikil vexti ok skörulig at sjá.“ Þrátt fyrir æsku hennar er hún hin glæsilega brúður, sem faðir hennar þykist af sökum vænleiks og þroska. En þegar að því kemur, að segja frá hrakningum hennar, viknar föðurhjartað. Nú er það ekki brúðurin á Flugumýri, heldur barnið hans, sem hann er að lýsa.[3])

Það er og ljóst, að Ingibjörg hefur sjálf sagt frá viðtali þeirra Gró. Og hverjum öðrum en föður hennar gat komið til hugar að minnast á punginn með gullum hennar, silfurbeltið og hvar það vafðist um fætur henni?

Viðtal Kolbeins granar og Ingibjargar og frásögnin um það, er hann sótti hana inn í eldinn, mun og ritað eftir hennar sögusögn. Kolbeinn getur tæplega hafa sagt tíðindamönnum Þórðar sögu frá þessu.[4]) Hann var veginn 3 mánuðum eftir brennuna og dvaldist

1) Sturl.[3] II. 192—205. — 2) Sturl.[3] II, 200. 205. — 3) Sbr. FJ, Litt. hist. II, 2. útg., 732. — 4) Safn III, 458—459.

þann tíma í Eyjafirði og Austfjörðum. Ekki er þess getið, að þeir Björn bræður hittist eftir þetta, þó að svo kunni að hafa verið. En að telja þetta til Þórðar sögu og byggja á því einu, að Björn var staddur norðanlands, þegar brennan varð, er meira en hæpið, þegar allar líkur benda í aðra átt. „En er Kolbeinn grön *heyrði þetta*" er ekki næg sönnun þess, að Kolbeinn hafi frá þessu sagt. Svo kveður Sturla oftar að orði, t. d. í frásögninni um Örlygsstaðafund: „Þá hljóp at Einarr dragi ok hjó í höfuð Sighvati, ok var þat ærit banasár, en þó unnu þá fleiri menn á honum. En er Sighvatr djákni *sá þetta,* þá lagðisk hann ofan á nafna sinn *ok var þar veginn.*"[1]) Ekki hefur Sighvatur djákni verið til frásagnar um þetta. Úr Hákonar sögu má benda á: „Þóri *þótt þat líkt,* at ekki myndi þurfa griða at biðja."[2]) Þórir var drepinn þarna. „Sigurðr erkibiskup ... spurði engi tíðendi af þinginu fyrr en hann kom í Leirangra, *ok þótti honum* í verra efni komit en hann hugði."[3]) Sigurður erkibiskup dó 1250 og gat því ekki sagt Sturlu frá hugsunum sínum. Sturla setur sig oft í spor þeirra, sem hann er að segja frá.

Annar maður mjög nákominn Sturlu hefur verið tíðindamaður hans um þessa aturði; það er Þorbjörn nef, mágur hans og móðurbróðir Ingibjargar, sem Sturla skildi eftir hjá henni: „Þorbjörn nef lá þar hjá þeim, ok horfðusk þeir Gizur at höfðunum. Þorbjörn *heyrði,* at Gizurr bað fyrir sér á marga vegu háleitliga til guðs, svá at *eigi kvazk hann slíkan formála heyrt hafa, en hann þóttisk eigi sinn munn mega í sundr hefja fyrir reyk.*"[4])

Þá má benda á þessa málsgrein: „gengu þá í einum duni heldr hljóðliga heim at húsunum", en mjög líkt er að orði kveðið áður, í 161. kap.: „ganga nú heim með garðinum allir í einum dun snúðigt ok þó hljóðliga."[5])

Það má því telja öldungis vafalaust, að nokkur hluti þessarar frásagnar sé úr Íslendinga sögu. En ber

1) Sturl.[3] I, 527. — 2) Icel. Sag. III, 183; Flat. III, 127. — 3) S.st. — 4) Sturl.[3] II, 199. — 5) Sturl. II, 194; I, 562.

þá nokkur nauðsyn til þess að ætla, að hér sé fleiri sjálfstæðum sögum skeytt saman? Er hægt að finna nokkuð vitni um sögu af Gizuri?

Margt er hér sagt frá sjónarmiði brennumanna, og hefur höfundurinn haft sagnir af mönnum úr þeim flokki, enda var Sturlu það auðvelt. Aftur er sumu lýst frá sjónarmiði þeirra, sem sóttir voru. Helztu tíðindamenn úr þeim flokki virðast vera: Ingibjörg, Þorbjörn nef, Gizur Þorvaldsson, Gizur glaði, Páll Kolbeinsson. Ef hér væri um tvær sögur að ræða, aðra eftir vestanmann, en hina eftir Skagfirðing, mætti þá ekki búast við, að einhvers staðar sæist móta fyrir, þar sem sögurnar koma saman? En því fer fjarri, að nokkur samskeyti sjáist. Frásögnin er ljós og greinileg, og hvergi mótsagnir né endurtekningar. BMÓ segir, að tvær sagnir sé um dauða Gró.[1]) En svo er þó ekki. Gró vildi ekki ganga út með Ingibjörgu, af því að hún vildi leita systursonar síns. En hvergi er sagt, að hún hafi farið að leita hans, og því síður, að hún hafi misst lífið í þeirri leit. Eina sögnin um dauða hennar er þessi: „Þat er sumra manna sögn, at Þorsteinn genja hryndi Gró inn í eldinn, ok þar fannsk hon í anddyrinu."[2]) En auðvitað hefur Þorsteinn dulið þess.

Aftur á móti víkur frásögnin úr öðrum flokkum í hinn á þann hátt, að ljóslega er allt sama sagan: „... ok var Eyjólfr framarlega. *Þat sá Gizurr* ... ok ætlaði at höggva tveim höndum á handlegg Eyjólfi. ... *Aldrei sá þeir Eyjólfr Gizur* um nóttina, ok eggjuðu, að hann skyldi láta sjá sik."[3]) Ennfremur um það, er Eyjólfi þótti húsin sækjast seint, en óttaðist héraðsmenn og lét því eld að bera, um það, er reykur kom í húsin og Gizur lagðist á gólfið og tók að biðjast fyrir, svo Þorbjörn nef heyrði, stóð upp og gekk út í anddyrið með Gró og stóð að baki Gizuri glaða, er þeir Kolbeinn grön töluðust við. Eða þegar brennumenn riðu úr garði og Fótar-Örn þóttist kenna Gizur, en þeir Eyjólfur vildu

1) Safn III, 458. — 2) Sturl.[3] II, 201. — 3) Sturl.[3] II, 198.

8

ekki snúa við. „Gizurr hafði þá gengit til kirkju, *sem Örn ætlaði.*“[1]) Í allri þessari frásögn er greint á víxl frá sjónarmiði beggja, og samhengið þó ljóst og óslítandi. En þar sem margir atburðir urðu samtímis, en ekki mátti frá öllu senn segja, hefur sögumaðurinn skipt frásögninni í kafla: „Nú urðu margir atburðir í senn, ok má þó frá einum senn segja.“ „Nú verðr þar frá at hverfa.“ „Nú er at segja frá Gizuri.“[2])

Það er um þenna atburð að segja, sem marga fleiri, að Sturla hefur haft tíðindi frá báðum hliðum. Hér stóð hann óvenjulega vel að vígi, þar sem í báðum flokkum voru vinir hans, frændur og vandamenn, og það mjög nákomnir honum. En um svo merkan atburð og minnisstæðan er hér að ræða, að full ástæða var fyrir Sturlu að spyrjast nákvæmlega fyrir um hann, enda auðvelt að afla sér vitneskju. Frásögnin ber það víða beinlínis með sér, að hún er eftir Sturlu. En öll rök skortir til þess að ætla, að hér sé farið eftir Þórðar sögu kakala. Aðalrök BMÓ fyrir því, að mikill hluti frásagnarinnar sé úr Gizurar sögu, eru þau, að hér sé svo hlýlega ritað í garð Gizurar og að Gizur og Páll Kolbeinsson koma fram sem heimildarmenn. Eg hef hér að framan sýnt fram á, að vel er skiljanlegt, að Sturla hafi samúð með Gizuri í þessum raunum hans, er um leið voru sviplegur missir og harmur kveðinn að dóttur hans. Ennfremur hef eg sýnt fram á, að vel gat Gizur verið tíðindamaður Sturlu, en Páll öllum öðrum Skagfirðingum fremur, þegar bróðursynir hans ganga frá. Þegar nú sýna má fram á, að sumt í frásögninni sé eftir Sturlu, en hún aftur er órjúfandi heild, þá virðist leyfilegt að fullyrða, að öll frásögnin um Flugumýrarbrennu og aðdraganda hennar sé úr Íslendinga sögu.

Í þessari frásögn (259. kap.) er smágrein, sem ljóslega er skotið inn af safnanda: „Þá er brenna var á Flugumýri, var liðit frá Önundarbrennu fjórum vetrum fátt í sex tigi vetra. En frá Þorvaldsbrennu halfr

1) Sturl.³ II, 204. — 2) Sturl.³ II, 195, 200, 202.

þriði tögr vetra. Þessi tíðendi spurðusk brátt, ok þótti öllum vitrum mönnum þessi tíðendi einhver mest hafa orðit hér á Íslandi, sem guð fyrirgefi þeim, er gerðu, með sinni mikilli miskunn ok mildi."[1])

Næstu kapítula, 260. og 262., telur BMÓ úr Gizurar sögu, — 261. kap. er úr Þorgils sögu.[2]) Í upphafi 260. kap. virðist frásögnin vera frá sjónarmiði brennumanna. Ekkert bendir hér á 2 heimildir. Vísur Gizurar gat Sturla vel hafa tekið upp í Íslendinga sögu, eins og hann vitnar til kvæðis hans um Hákon konung í Hákonar sögu, sbr. bls. 23 hér að framan. Frásögnin um líflát Kolbeins granar, er BMÓ telur úr Þórðar sögu,[3]) ber á sér sama blæ sem frásögnin um víg annara brennumanna. Af því að Sturla sat heima um þessar mundir, er þess engin von, að frásögnin bendi sérstaklega til hans. En þó koma hér fyrir nokkur orðatiltæki, sem Sturla notar alloft: „ætlaði, sem hann gerði", „sem ván var at",[4]) og er þetta víða að finna í Íslendinga sögu. Eða þetta: „Ljótr fannsk eigi, son hans. Gaf honum þat líf",[5]) sbr. „gengu ekki spjótalög á hana; þat gaf honum líf, en Kolbeinn, þá er hann kom til"[6]) „ok gaf honum þat líf, er hann fór í kirkjuna",[7]) „gaf þeim þat líf, at þeir höfðu farit út í Skrofar þann dag."[8]) — Hákonar saga getur þess, að Gizur hafi drepið þá Kolbein sjö og verið í stórmælum af Heinreki biskupi.[9])

263. kap. segir frá dvöl Hrafns í Skarði, ránsferð brennumanna í Skagafjörð og fund Hrafns og Gizurar í Laugardal.[10]) Ætlar BMÓ þenna kap. vera úr Gizurar sögu, eða að minnsta kosti seinna hlutann.[11]) Hrafn mun vera hér tíðindamaður, t. d. um eintal þeirra Teits Álasonar. Hér segir berum orðum, að Gizur kom með fleiri menn til fundarins en til var skilið og að hann hafi ætlað að svíkja Hrafn í griðum, og er hann borinn

1) Sturl.³ II, 204; sbr. að miðað er við fall Ólafs helga og Hítardalsbrennu í 209. kap. — 2) Safn III, 340. — 3) Safn III, 459. — 4) Sturl.³ II, 209, 212. — 5) Sturl.³ II, 210. — 6) Sturl.³ I, 528. — 7) Icel. Sagas II, 151; Flat. III, 105. — 8) Icel. Sagas II, 184; Flat. III, 128. — 9) Icel. Sagas II, 278; Flat. III, 189. — 10) Sturl.³ II, 215—217. — 11) Safn III, 340.

fyrir því sjálfur. Heldur mun þetta benda í þá átt, að hér hafi vestanmaður haldið á pennanum.

265.—267. kap. greina frá athöfnum Odds Þórarinssonar í Skagafirði, og telur BMÓ það allt til Gizurar sögu.[1]) Frásögnin gefur enga vísbendingu í þá átt. Aftur á móti bendir það til Íslendinga sögu, að getið er um lát Jóns Sturlusonar og Sólveigar, móður hans, í miðri frásögn um atburði norðanlands, og er tilgreindur dánardagur þeirra beggja. Aftur á móti kynni annað að mæla í gegn því. Í 266. kap segir frá atför að Hrana í Grímsey; er þar getið vígs þriggja manna — auk Hrana — „ok enn inn fjórði maðr lézk þar." En í annálum og Hákonar sögu segir, að Hrani hafi fallið við fjórða mann.[2]) Textinn getur verið afbakaður, sbr. að nafns fjórða mannsins er ekki getið.

Í Hákonar sögu segir svo, að þá er Sigvarður biskup kom út 1254, hafi hann fundið Gizur fyrir sunnan land; hafi Gizur þá verið í stórmælum af Heinreki biskupi, og hafi Heinrekur riðið suður og báðir biskuparnir hert svo að Gizuri, að hann réð þegar til utanferðar, skipaði Oddi Þórarinssyni Skagafjörð, en Þóri tott föðurleifð sína.[3]) En þó er frá því sagt rétt á undan í Hákonar sögu, að Oddur drap þá Hrana um vorið; er Sturlu því kunnugt um, að Oddur hafði þá þegar mannaforráð í Skagafirði, áður en Sigvarður biskup kom út. Í 265. kap. segir, að Gizur hafi ráðið utanferð sína um vorið og skipað Oddi Skagafjörð, „kvazk illt þykkja at hafa forboð biskupa á sér." Í upphafi 268. kap. er þess enn getið, að Gizur ætlaði utan, en síðan er sagt frá útkomu Sigvarðar biskups „ok þeir Gizurr váru sáttir ok Gizurr ætlaði útan", en Heinreks biskups er ekki við getið. Hér virðist sögunum bera illa saman, en þegar að er gætt, þá má telja, að einungis sé að ræða um ónákvæmni á báðum stöðum. Það er ónákvæmt í Hákonar sögu, að Gizur hafi ekki skipað ríki sitt né ráðið utanför sína fyr en biskup kom út, þar sem sagan segir þó

1) Sturl.³ II, 217—222; sbr. Safn III, 340. — 2) Icel. Sagas II, 278; Flat. III, 189. — 3) S. st.

áður frá athöfnum Odds Þórarinssonar í Skagafirði; hefur Gizur ekki fengið honum í hendur héraðið fyr en hann hafði ráðið utanför sína. Hér er texti Sturlungu nákvæmari, sem vonlegt er, því að þetta er aukaatriði í Hákonar sögu. Það má og sjá, að Þórir tottur hefur verið orðinn húsbóndi í Haukadal, áður en biskup kom út, þar sem hann hélt þar brúðkaup sitt á Jónsmessu, en Gizur var þar ekki staddur. En það kemur undarlega fyrir í Sturlungu, að svo er kveðið að orði, að þeir Gizur og Sigvarður biskup voru sáttir, þ. e. höfðu þá sæzt, því að biskup stígur þá á land eftir 4 ára útivist. Bendir þetta til þess, sem Hákonar saga getur um, að Sigvarður hafi gengið í málið með Heinreki biskupi. Hér er ónákvæmni í Sturlungu, en gefið í skyn hið sama sem í Hákonar sögu. Mótsagnir geta þetta tæplega kallazt, en óljóst og óheppilegt orðalag í báðum sögunum. Hákonar saga getur þess ennfremur, að konungur hafi stefnt Gizuri utan, en þess er ekki getið hér, enda sýnilegt, eins og tekið var fram, að Gizur hefur ráðið utanför sína um vorið, áður en skip gengu af Noregi. Hér virðist því ekki bera það á milli, að sennilegt sé, að Sturla hafi ekki ritað báðar frásagnirnar.[1])

268. kap. telur BMÓ úr Þórðar sögu, en smágrein, um dvöl Gizurar í Langholti, úr Gizurar sögu.[2]) Ástæðulaust og enda óleyfilegt er að gera ráð fyrir tveim sögum. Draumur Svarthöfða sannar ekki, að Þórðar saga nái fram yfir 1250. Sturla getur um fjölmarga drauma alveg óskyldra manna og oft ónafngreindra víðs vegar um landið. Er því ekki furða, þó að hann geti hér um draum Svarthöfða, og það því fremur sem Svarthöfði kemur greinilega fram sem tíðindamaður áður en Þórðar saga hefst.

270.—271. kap. greina frá Oddi Þórarinssyni og Fagranessför, og telur BMÓ þá til Gizurar sögu.[3]) Þar

1) „Biskupa" í I í upphafi 265. kap. hlýtur að vera ritvilla, því að síðar segir frá útkomu Sigvarðar biskups. — 2) Safn III, 341, 459. — 3) Safn III, 341—342, 356.

sem sagt er, að Páll Kolbeinsson hafi riðið suður á land og verið um veturinn á Velli á Rangárvöllum, dregur BMÓ þá ályktun, að hann muni hafa verið í Fagranessför. En þar sem hann sé ekki talinn með öðrum mönnum Odds, stafi það af hlífð við hann; höfundur Gizurar sögu muni hafa viljað draga fjöður yfir þátttöku hans. En varla hafi hann flúið hérað af öðrum ástæðum. Þessi ályktun, að Páll hafi verið í atför við Heinrek biskup, er að minni hyggju alveg óleyfileg. Frásögnin gefur enga átyllu til að ætla það, og auk þess virðist það ólíkt Páli, eftir því sem vér þekkjum hann af sögunni, að taka þátt í slíkri fólskuferð og ódæði, sem handtaka biskups hefur þá verið í augum allra trúaðra manna. Það má telja eðlilega orsök til suðurreiðar Páls, að hann hefur ekki talið sig óhultan í Skagafirði fyrir þeim Eyjólfi. Lítið mark virðist á því takandi, þó að nákvæmlega sé sagt frá athöfnum Odds í Skagafirði, en einungis drepið á dvöl hans á Valþjófsstað. Athafnir hans í Skagafirði sættu stórum tíðindum og drógu á eftir sér þungan slóða, en fyrir austan mun lítið hafa gerzt sögulegt. Liðstalningin er ekkert sönnunargagn, sbr. bls. 36—37 hér að framan.

Í 272. kap. er sagt frá því, er þeir Hrafn, Eyjólfur, Sturla og Þorgils skarði komu vestan til þess að liðsinna Heinreki biskupi.[1]) Í II er Þorgils sögu blandað við textann. BMÓ kveður það benda til Gizurar sögu, að ekki segir frá ferðum flokkanna, fyr en þeir koma norður,[2]) en þá verði sagan strax fjölorðari. En þess ber að gæta, að ferðinni var heitið til Skagafjarðar, þangað áttu þeir erindi, og þar var flokkunum slitið; söguefnið gerðist þar, en ekki á leiðinni. Sagan fylgir og þeim Sturlu: „Þá er þeir spurðu vestr í sveitir ... Ok þá er þessir flokkar kómu allir saman í Bólstaðarhlíð, þá fréttu þeir ... Gekk svá sögn ...“

273. og 274. kap.[3]) gefa enga vísbending, en víst er um það, að ástæðulaust er að telja 273. kap. blending úr

1) Sturl.³ II, 226—230. — 2) Safn III, 342. — 3) Sturl.³ 230—231.

2 sögum.[1]) 275. kap.[2]) telur BMÓ úr Þórðar sögu.[3]) Er þar sagt frá ferð Eyjólfs og Hrafns að Oddi Þórarinssyni. Frásögnin ber því vitni, að höfundurinn hefur haft tíðindi af einhverjum í ferðinni. Einu má gilda, hvor þeirra Hrafns eða Guttorms hefur sagt frá draumi Hrafns og ráðningu Guttorms. Sturla hefur getað haft sagnir af þeim báðum, og því ástæðulaust að eigna frásögnina Svarthöfða, þó að vel megi vera, að Sturla hafi haft þessi tíðindi af honum.[4]) Enn er það ljóst, að þessi kap. er úr sömu heimild sem 270. og 271. kap., því að hér er vísað til þeirrar frásagnar, þar sem getið er um rán Odds í Hvammi, er Fagranessför og mál þessi spruttu af. En BMÓ telur þessa 3 kap. úr tveim sögum.

Næsti kafli, um bardagann í Geldingaholti, virðist beint áframhald af þessari frásögn og úr sömu sögunni.[5]) En BMÓ ætlar hann vera úr Gizurar sögu, að undanteknum 2 smágreinum, þar sem Svarthöfði hafi sagt frá tíðindum.[6]) Fleira virðist þó sagt frá sjónarmiði komumanna, t. d. um víg þess manns, er fyrstur varð fyrir flokknum, hvernig skipað var til aðsóknar, frá því er þeir Hrafn gengu í eldhúsið og Þorbjörn af Ríp varð fyrir þeim og var veginn, sbr. og ummælin um það, hvernig Þórir tottur komst undan: „Eigi þykkjask menn þat sét hafa, hverju faraldi hann komsk í kirkju.“

Að Sturla hefur haft sögur af Svarthöfða, frænda sínum, er víðar ljóst. Ekki er það þó víst, að Sturla þurfi að hafa haft það eftir honum sjálfum, að hann heyrði Odd beiðast prestsfundar. Í Árna sögu biskups er skýrt frá þeirri rekistefnu, er síðar varð, þá er ættmenn

1) Safn III, 342—343. — 2) Sturl.[3] II, 232—234. — 3) Safn III, 459. — 4) BMÓ segir hér, að „Guthormr körtr, bróðir Sturlu Þórðarsonar“ hafi ekki getað sagt frá þessu, því að hann hafi dáið sama ár. Þetta er ekki rétt. Guttormur Þórðarson dó 17. okt. 1255, en Guttormur körtur er annar maður, sonur Helga Sveinssonar, en mágur Árna biskups Þorlákssonar, eins og ljóslega sést af ættartölunum aftan við Hrafns sögu og upphafi Árna sögu biskups; Bisk. I, 676, 680. Þetta er og rétt greint í registrum Kålunds og Benedikts Sveinssonar. — 5) Sturl.[3] II, 234—240. — 6) Safn III, 343, 459—460.

Odds reyndu að fá hann leystan úr banni. Byggðu þeir kröfu sína á því meðal annars, sem hér er sagt, að Oddur hafi beiðzt prestsfundar við dauða sinn. „Þat hafði ok Óláfr Oddsson svarit ok Svarthöfði Dufgusson fyrir biskupi, at Oddr beiddisk prestsfundar við dauða sinn ok náði eigi.“[1]) Þessi framburður Svarthöfða hefur verið alkunnur, og hefur hann auðvitað sagt biskupi nákvæmlega frá atburðum og hvernig á því stóð, að hann gat orðið þessa áheyrsla; hefur þá fylgt sögunni, hvar hann var staddur, er þetta gerðist. — Ummæli Þorbjarnar Sælendings geta verið frá honum komin, en þau voru einnig til þess fallin, að spyrjast víða. Hér er getið um, að Þorbjörn hafi vegið Þórarin Seldæl á Haugsnessfundi, á þann hátt, að þess virðist ekki hafa verið getið í sögunni, og gæti það komið heim, ef þetta er úr Íslendinga sögu.[2]) Til Þorvarðs Þórarinssonar er vísað hér sem heimildarmanns, og Kálfur Brandsson getur hafa sagt frá nautinu, sem Oddi var sent; af báðum gat Sturla haft fréttir. Að Oddi er lýst svo glæsilega og vottað, að hann beiddist prestsfundar, gæti staðið í sambandi við það, að Sturla gerðist síðar til þess að hefna hans.

Í lok þessarar frásagnar er eyða í I — vantar 2 ytri dálkana af 108. blaði skinnbókarinnar. Hér, og raunar í öllum síðasta hluta Sturlungu, fylgja pappírshandritin öll texta Reykjarfjarðarbókar (II), svo að ekki er hægt að fylla þessa eyðu eftir Ip. Efst á 4. dálki 108. blaðs er frásögnin komin aftur í Þverárfund, sem varð síðar sama sumarið sem víg Odds Þórarinssonar. Þar börðust þeir Þorgils skarði og Sturla við hlið Þorvarðs Þórarinssonar gegn Hrafni og Eyjólfi ofsa og felldu Eyjólf. Í pappírshandritunum er frásögnin, sem samsvarar þeim 2 dálkum, sem rifnir eru af skinnbókinni (I) — frásögnin um aðdraganda Þverárfundar — miklu lengri; hefur ekki komizt fyrir á færri en 7 blöðum í

1) Bisk. I, 708. — 2) Þorbjörn sælendingur var í tengdum við Þórð, son Lauga-Snorra (k. 188, Sturl.[3] II, 57), annars er hann ókunnur.

skinnbókinni (II). Þetta kemur til af því, að hér hefur II fylgt Þorgils sögu í mestum hlut þessarar frásagnar, en þegar kemur að Þverárfundi, er texti II sambland af texta I, þ. e. upphaflega Sturlungutextanum, og Þorgils sögu. Þessi texti II er 277.—289. kap. eftir kapitulatali Guðbrands Vigfússonar.[1])

Allur aðdragandi Þverárfundar í IIp er úr Þorgils sögu, allt fram í 290. kap. Í upphafi 289. kap. greinir frá fylkingu þeirra Þorgils og viðbúnaði. Þá hefst 290. kap. á því, að þeir Hrafn ríða að og fylkingar síga saman. Upphaf kap. er sýnilega úr sömu heimild sem 289. kap. „Hljópu þeir Hrafn þar at ofan, er þeir Einarr ok Þórðr stóðu fyrir með sveit Þorgils" vísar til 289. kap.: „Váru menn Þorgils í enn vestra fylkingararm; skipaði hann þar fyrir Einari Halldórssyni ok Þórði, mági sínum." En litlu síðar segir: „En Þorgils var fyrir miðri fylkingu hjá Sturlu, því at þar var mest þörf." Þetta bendir til þessara orða í 289. kap.: „Þorgils kaus af liðinu níu menn, en hann var inn tíundi; ætlaði hann, at þeir skyldi þar fram koma, sem mest þótti manna við þurfa. Sturla var fyrir miðri fylkingu, ok með honum Ögmundr Helgason." Þá segir svo í IIp: „Þorgils hafði mikit lið haft af Snæfellsnesi vestan með sér, sem fyrr segir, ok veitti hann Þorvarði mikit lið með sjálfs síns framkvæmð ok röskligri framgöngu. Þess getr Sturla í drápu þeiri, er hann orti um Þorgils." Síðan er vísan skrifuð, og á eftir henni: „Sturla gekk í fyrstunni [fram frá öðrum mönnum ..." En við [hefst frásögnin í I á þessum sömu orðum, og getur þetta því ekki verið úr Þorgils sögu. Þegar farið er að svipast eftir því, hvar ritari II hafi lagt frá sér Þorgils sögu og tekið aftur að rita upp úr Sturlungu, virðist ljóst, að samskeytin eru þar sem segir frá því, að „Þorgils hafði mikit lið haft" o. s. frv. Frá liðssafnaði hans hefur áður verið sagt í Þorgils sögu, 279. kap.,[2]) en hér er þetta endurtekið á óheppilegum stað, þegar byrjað er að segja frá bardag-

1) Sturl.$^3$ II, 245—267. — 2) Sturl.$^3$ II, 247.

anum.[1]) Hér er og sagt lauslega frá framgöngu Þorgils, er áður var nánar greint frá. Á þessum orðum hefst því frásögn Sturlungutextans.[2])

Eftir þetta er I til samanburðar, en dálkurinn er þó mjög skaddaður og lítt læsilegur. Frá orðunum: „Þorgils hafði" o. s. frv. fylgir IIp Sturlungutextanum, eins og áður segir, en sleppir þó málsgrein, sem ekki verður nú lesin í I nema að litlu leyti og er því óskiljanleg. Á eftir seinni vísunni úr Þorgilsdrápu er í IIp aftur vikið að Þorgils sögu, um það er þeim Hrafni sveif frá Einari og Þórði, en þeir sóttu eftir, svo að Hrafn hrökk þangað sem Þorvarður var fyrir og Austfirðingar. Þessi grein er beint áframhald af því, er síðast var tekið úr Þorgils sögu. Þá segir frá framgöngu Eyjólfs Eyjólfssonar og Auðunar Seldæls með Hrafni og að þeir Hrafn og Þorvarður mættust; lagði hvor í munn öðrum og særðust báðir, en Þorvarður þó meir. Frá þessu atviki greinir einnig í I, en þó verður það ekki allt lesið nú; er sagt, að tvær tennur hafi gengið úr öðrum, og hefur þar líklega staðið nafn Þorvarðs. Af því að frá þessu er sagt í IIp inni í miðri frásögn úr Þorgils sögu, má ætla, að textarnir sé hér óháðir hvor öðrum og að báðar sögurnar hafi sagt frá þessu einkennilega atviki, þegar fyrirmennirnir mættust. Orðalagið er og ekki hið sama. Þá greinir í IIp nánar frá framgöngu Þorvarðs, Þorgils og Hrafns, og er það úr Þorgils sögu. En þá kemur grein um fall Ögmundar prjóns, er var í liði Þorvarðs, og er hún tekin upp úr texta Sturlungu; í I er frá þessu sagt fyr, á undan viðureign Þorvarðs og Hrafns, og virðist sú röð eðlilegri. Aftur er í IIp vikið í Þorgils sögu, þar sem segir frá falli Ólafs frá Bustarfelli, en síðan tekið upp úr Sturlungutextanum, hvernig Þorvarði varð við, þegar hann fékk áverkann af Hrafni. Þetta er slitið úr réttu samhengi, því að í IIp hefur áður verið sagt frá framgöngu Þorvarðs eftir áverkann, og kemur þessi

1) Safn III, 344. — 2) Þ. e. texti sá, sem staðið hefur í I og í frumriti beggja skinnbókanna — texti Íslendinga sögu.

grein því of seint, en stendur á eðlilegum stað í I. Enn tekur IIp úr Sturlungutextanum grein um flótta Hrafns og Ásgríms Þorsteinssonar, en úr Þorgils sögu er það, að Hrafn hafi ekki komizt á bak hjálparlaust. En í allri þessari frásögn eru nokkrar greinar í I, sem ekki hafa verið teknar upp í texta IIp.

Eftir þetta tekur II ekkert upp úr texta Sturlungu, nema ef vera skyldi grein í lok 292. kap. um sár Finnbjarnar Helgasonar og andlát, en um það er aftur getið í Þorgils sögu í 296. kap. í réttri tímaröð. Þó er sennilegt, að ritari II hafi haft texta Sturlungu til hliðsjónar, þar sem hann lýsir áverkum við Eyjólf Þorsteinsson og lífláti hans, en áverkarnir eru taldir í öfugri röð í II og tekið fram, að menn greini á, hvor fyrri varð. En nokkurar missagnir eru á milli I og II í lok frásagnarinnar.

BMÓ telur frásögn I úr Þórðar sögu, en greinina um Ögmund prjón úr Gizurar sögu.[1]) Eg tel vafalaust, að öll frásögnin sé úr Íslendinga sögu. Um það ber viðræða Þorgils og Sturlu í 290. kap. ljósast vitni, enda virðist frásögnin um framgöngu Sturlu, Þorgils og Þorvarðs vera sögð frá sjónarmiði þess flokksins, en ekki úr liði þeirra Hrafns.

Af því, sem hér hefur sagt verið, er það ljóst, að ritari II hefur sameinað tvær frásagnir um Þverárfund. Honum hefur furðuvel tekizt að gera eina frásögn úr tveim sögum. Þó sjást greinilega samskeytin, þar sem hann hverfur fyrst frá Þorgils sögu, og ennfremur þar sem sagt er á röngum stað og of seint frá því, hvernig Þorvarði varð við áverkann. Af þessu verður ekki ályktað, að safnanda hafi getað tekizt vel að skeyta Gizurar sögu inn í aðrar frásagnir. Í fyrsta lagi sér hvergi jafngreinilega fyrir sögumótum í þeim frásögnum, sem BMÓ telur safnanda hafa tvinnað saman úr tveim sögum, og mætti það furðulegt heita, þar sem hann gerir alloft ráð fyrir slíku, í síðasta hluta sögunnar því nær í hverj-

1) Safn III, 344—346.

um kapítula. Þess ber og að gæta, að frásagnir þær, sem sameinaðar eru í II, eru báðar eftir sjónarvott úr sama liði — höfundur Þorgils sögu hefur að minnsta kosti ritað eftir sögn sjónarvottar — og segja því söguna frá sama sjónarmiði; hefur því verið stórum auðveldara að bræða þær saman heldur en tvær frásagnir eftir menn úr andstæðum flokkum, sem hvor er sögð frá sínu sjónarmiði.

Á eftir frásögninni um Þverárfund kemur í I kafli um fyrirburði, er gerðust það sumar suður í Miðdal, skammt frá Laugarvatni.[1]) Þetta stendur að vísu einnig í Br og H, en er komið inn í þau handrit úr I, eins og athugasemd á spáziu H sýnir.[2]) Þessi frásögn hefur því ekki staðið í II. Þenna fyrirburðakafla telur BMÓ til Gizurar sögu, þar sem þetta gerist í sveit Gizurar og lýsi hlýjum hug til hans og Þorvarðs, en kala til Hrafns, Eyjólfs og Þorgils.[3]) Eg ætla öllu fremur, að þessu sé aukið inn af safnanda, líkt og fyrirburðirnir fyrir Örlygsstaðafund, en í II hefur Þorgils saga bolað þessum kafla burtu. Þá er skiljanlegt, að hlýlega sé mælt í garð Gizurar, ef dóttursonur Halldóru, systur hans, hefur ritað þetta eða sagt fyrir, og þungan hug hafa Narfasynir vafalaust borið til brennumanna. Þetta virðist og ekki geta verið frumritað af þeim hinum sama, sem skráði frásögnina um Flugumýrarbrennu, þó að BMÓ ætli hvorttveggja vera úr Gizurar sögu. Hér er önnur sögn en þar um dauða Halls Gizurarsonar: „Draumkonan kvað þar vera Eyjólf Þorsteinsson (þ. e. sem hún hafði bundið aftan í tagl hesti sínum); „skal ek nú launa honum“, sagði hon, „er hann dró Hall Gizurarson um klakann á Flugumýri“.“ En í 258. kap. er Eyjólfs ekki getið við áverka við Hall, en þar segir, að Þórólfur munkur hafi dregið hann, særðan til ólífis, í gæru til kirkju, í því skyni, að bjarga lífi hans, ef auðið væri. Hér er því alveg önnur sögn, þjóðsagnakennd, er ber það með sér, að hún hefur gengið lengi í munnmælum. Það er og

1) Sturl.[3] II, 243—245. — 2) Sturl. II, 269, nmgr. 1, „viðurauki sögunnar“. — 3) Safn III, 346—348.

ljóst, að draumvísurnar eru ekki kveðnar í sama mund sem atburðirnir gerðust; síðasta vísan: „En nú er fyrir löndum — ok lengi man — Hákon konungr ok hans synir“ er að vísu ekki kveðin fyr en eftir að Íslendingar gengu á hönd Noregskonungi. Er ekkert athugavert, þó að svo sé til orða tekið, að Hákon konungur og hans synir ráði löndum, þó að þetta sé kveðið eftir dauða Hákonar konungs, meðan sonur hans sat að völdum eða sonarsynir. En fyrri vísuhelmingurinn sýnir, að með „löndum“ er átt við Ísland. Það má vel vera rétt, sem BMÓ segir, að draumar þessir sé „trúr spegill þess, sem bjó í brjóstum manna í sveit Gizurar um þetta leyti“, en sagnir um þessa drauma, og með vissu síðasta vísan, hafa komið upp löngu síðar, og mun sönnu nær, að þessi vísa lýsi því, sem bjó í brjóstum flestra Íslendinga í lok 13. aldar.

Hér á eftir fylgir II Þorgils sögu, þar til lýkur að segja frá vígi Þorgils í 315. kap. En í I er öllu þessu sleppt. Næst á eftir draumvísunni, sem getið var um, stendur í því handriti þessi setning, í upphafi 316. kap.[1]: „Þann vetr inn næsta áðr Gizuri var gefit jarls nafn, tók Þorvarðr Þórarinsson af lífi Þorgils skarða, fyrir þær sakir er Hákon konungr hafði skipat Þorgilsi Eyjafjörð ok allar sveitir fyrir norðan Öxnadalsheiði, þær sem konungr kallaði sína eign, en Þorvarðr þóttisk heimildir til hafa af Steinvöru Sighvatsdóttur, mágkonu sinni.“ Þessi grein er tekin orðrétt úr Hákonar sögu[2]) og stendur þar í réttu samhengi, en er hér á óheppilegum stað, þar sem vígið er miðað við jarlstign Gizurar, er varð síðar, enda sagt frá henni síðar í þessu handriti. Þverárfundur varð árið 1255, en í 316. kap. segir frá árinu 1258. Sé nú þessari innskotsgrein úr Hákonar sögu kippt í burtu, er þriggja ára eyða í frásögnina, eins og hún er í I, án þess að nokkuð vanti hér í skinnbókina, því að þetta er á sama blaðinu sem frásögnin um draumana, sem áður var getið um.

1) Sturl.³ II, 298—299. — 2) Icel. Sag. II, 306; Flat. III, 205.

Annars má segja um 316. kap., að hann ber að vísu vitni um kunnugleika höfundarins á skipagöngum frá Norðurlandi[1]), en engu síður bendir frásögnin þó vestur: drukknun Ara Ingimundarsonar og Gíslasona af Rauðasandi og ekki sízt rán Vigfúss Gunnsteinssonar suður að Ánabrekku, ómerkilegur atburður, sem vafalaust hefði ekki verið getið um í skagfirzkri sögu um Gizur jarl.

Fyrri hluti 317. kap.[2]), um komu Gizurar til Noregs og síðustu æfiár Þórðar kakala, er mjög styttur í I, en þó má sjá, að í frumritinu hefur verið fyllri frásögn[3]), að öllum líkindum að mestu samhljóða texta IIp. BMÓ telur upphaf kap., eins og hann er í IIp., og niðurlagið vera úr Gizurar sögu, en miðkaflinn sé niðurlag Þórðar sögu.[4]) Það virðist þó ljóst, að upphafið verður ekki slitið frá kaflanum um Þórð, því að hvað rekur annað: Gizur fer úr skipi við Hörðaland og skundar á konungsfund, skipið kemur til Björgynjar, þar sem Þórður kakali var fyrir, Þórður fréttir tíðindi af Íslandi, líflát Kolbeins granar og fleiri brennumanna, fer til Túnsbergs á konungsfund og hittir Gizur þar fyrir, „ok tók konungr honum eigi margliga". Ekkert af þessu má vanta í frásögnina.

Þessi fyrri helmingur 317. kap. gæti efnisins vegna verið bæði úr Íslendinga sögu og Þórðar sögu. Frásögnin kemur ekki alveg heim við Hákonar sögu, því að þar segir, að Gizur hafi farið til Björgynjar og hitt Þórð þar, en síðan austur til Víkur á konungsfund. En Þórður hafi verið með konungi þar um veturinn[5]). Hér ber það á milli, hve langt Gizur hafi farið með skipinu. Þetta atriði er svo lítilfjörlegt, að hvortveggja frásögnin gæti vel verið eftir sama höfund. Þó virðist öllu sennilegra að þessi frásögn sé niðurlag Þórðar sögu kakala. Þó að hún greini einungis frá ríki hans hér á landi, eins og sýnt var fram á hér að framan (bls. 91), átti vel við

1) Safn III, 348. — 2) Sturl.[3] II, 300—302. — 3) Sbr. Sturl.[3] II, 300, nmgr. 1. — 4) Safn III, 348—349, 461. — 5) Icel. Sagas II, 279; Flat. III, 189.

að láta hana enda á því, að segja frá æfilokum Þórðar. En til þess að gera grein fyrir því, hvernig hann tók fregninni um líflát Kolbeins granar og viðræðu hans við konung, varð að geta um utanför Gizurar,en safnandi hefur sennilega vikið við upphafi frásagnarinnar. Athugaverð eru orðin „Er frá honum mikil saga“. Með þessum orðum mundi enginn sagnaritari skiljast við söguhetju sína. En þetta er að líkindum síðari viðbót og aðeins endurtekning á því, sem segir rétt áður: „Er *þar* mikil saga frá Þórði“, þ. e. mikið frásagnarefni um athafnir Þórðar í sýslu sinni og í förum með konungi, sem sagnritarinn leiðir hjá sér að segja frá.

Síðari hluti 317. kap. er vafasamur. Niðurlagið, frá orðunum „Í Björgvin“ er ljóslega eftir safnanda. Er hér endurtekning á því, sem áður var sagt og upptalning svipuð esm í 126. kap. En frásögnin um jarlstign Gizurar er svipuð því, sem segir í Hákonar sögu[1]).

Um þetta bil, eða í 319. kap., þrýtur Króksfjarðarbók (I). Pappírshandritin, sem rituð voru eftir henni, meðan hún var heil (Ip), fylgja hinni skinnbókinni (II) hér um bil óslitið frá upphafi Svínfellinga sögu. Eftir þeim handritum verður því ekki séð, hvernig I hefur endað. En svo vel vill til, að Björn á Skarðsá hefur haft báðar skinnbækurnar. Þegar hann hafði lokið að rita upp Reykjarfjarðarbók, skeytti hann aftan við niðurlaginu á Króksfjarðarbók og hafði þenna formála fyrir: „Nú eftirfylgir hér að segja aftur af Gizuri jarli, hvað hið sama margt er þó hér áður skrifað, og hefur þetta annar sögumeistari saman snarað, því eigi segir eins frá öllum atvikum“[2]). Þessi viðauki hefst á 317. kap., eins og hann byrjar í I, og má telja óyggjandi, að það sé einmitt þetta handrit, en ekki annað, sem Björn hefur ritað viðaukann eftir, því að á þeim tæpum dálki, sem handritið verður borið saman við viðaukann, ber ekkert á milli, nema hvað viðaukinn hefur umfram

1) Icel. Sagas II, 305; Flat. III. 205. — 2) Eftir Br, Sturl.[3] I, lxxi, nmgr. 1, sbr. K.Kålund í Aarböger 1901, 279—282, Sturl.[3] I, lxx—lxxii.

smágrein í 319. kap., sem síðar verður rætt um. Í elztu útgáfu Sturlungu eru báðir textarnir prentaðir á sama hátt sem þeir standa í afritum af handriti Björns á Skarðsá, og má þar glögglega sjá, hvað Björn hefur tekið eftir hvoru handritinu fyrir sig. Texti II er þar niðurlag 54. kap. í 9. þætti og 1.—19. kap. í 10. þætti — hér auðkenndur II*, en viðaukinn eftir I er 20.—27. kap. í sama þætti — hér auðkendur I*. En af Oxford- og Reykjavíkur-útgáfunum verður ekki séð, hvernig þessu víkur við.

Þegar þessir tveir textar eru bornir saman, kemur það í ljós, að allmargir kaflar eru eins í báðum og úr sömu frumheimild, en auk þess hefur hvor textinn um sig nokkura kafla, sem ekki eru í hinum. Kålund mun vafalaust hafa á réttu að standa, er hann ætlar, að kaflar þeir, sem einungis standa í öðrum hvorum textanum, séu ekki upphaflegir í Sturlungu, heldur hafi í frumritinu staðið þeir einir kaflar, sem eru í báðum textunum. En þeir, er rituðu skinnbækurnar, hafi svo aukið aftan við, hvor með sínu móti.[1])

Niðurlag Sturlungu verður því samkvæmt þessu 9. þáttur kap. 54, niðurlag og 10. þáttur kap. 1—2, 7—11 = kap. 20—21 í elztu útgáfu Sturlungu, eða eftir kapítulaskiptingu Guðbrands Vigfússonar kap. 317 (niðurlag), 319—320 og 324—327. Snýst sú frásögn mest um Gizur, frá því er hann fékk jarlstign, þangað til konungi var svarinn skattur á alþingi 1262. Við þetta bætir ritari I frásögninni um atför Andréssona að jarli og aftöku Þórðar Andréssonar og loks frásögn Hákonar sögu um skattjátunina 1262 og 2 öðrum köflum úr þeirri sögu. Ekki mun hafa vantað í eða aftan af Króksfjarðarbók, þegar Björn á Skarðsá ritaði upp niðurlag hennar, eins og Kålund hefur sýnt fram á (l. c.). — Aftur hefur ritari II (sá er ritaði frumrit Reykjarfjarðarbókar) skotið inn í sinn texta frásögn um eftirmál eftir Þorgils skarða, utanför Sighvats Böðvarssonar og andlát hans og Guðmundar, bróður hans, er mun vera

1) Sturl.[3] I, lxxi—lxxii; Aarböger 1901, 279—282.

niðurlag Þorgils sögu, og loks, er frumrit hans þraut, aukið við þætti um Sturlu Þórðarson.

Nú er rétt að athuga fyrst þær frásagnir, sem standa í báðum textunum og má því með vissu telja, að verið hafi í Sturlungu frá upphafi. Í þeim getur ekki verið að ræða um innskot úr Þorgils sögu, er hvorki safnandi né ritari I hafa þekkt, né úr Sturlu þætti, sem stendur einungis í II* og hefur því ekki verið frá upphafi í Sturlungu. Heimildin fyrir þessum lokaþætti er vafasöm. BMÓ telur hann vera úr Gizurar sögu. En í honum eru greinar, sem geta með engu móti verið eftir skagfirzkan höfund að sögu um Gizur, eins og BMÓ hefur líka tekið eftir. Þar sem hann viðurkennir ekki, að Íslendinga saga nái lengra en til 1242, en telur Þórðar sögu lokið við lát hans, kveður hann þessar frásagnir vera teknar úr Þorgils sögu og þætti um Sturlu, er sé framhald hennar.[1]) En þessar greinar standa í báðum textunum og geta því á engan hátt verið úr þessum sögum, sem hafa ekki legið fyrir safnanda Sturlungu. Skýring BMÓ er því ekki fullnægjandi og röng að þessu leyti. Hann hefur ekki séð ástæðuna til endurtekninganna í pappírshandritunum, að hér var um sameiginlegan frumtexta að ræða, en ætlar, að þeir, sem rituðu pappírshandritin hafi hlaupið í báðar skinnbækurnar á víxl,[2]) í stað þess, að textar þeirra eru ritaðir í samhengi, hvor á eftir öðrum. Hefur hann þar látið útgáfu Guðbrands Vigfússonar villa sig. Þar sem þessar greinar geta hvorki verið úr Þorgils sögu, þætti um Sturlu né sögu um Gizur, verður að finna aðrar heimildir, annaðhvort Íslendinga sögu eða gera ráð fyrir, að þær séu frá safnanda.

Þar sem Sturlunga hefur endað á frásögn um alþingi 1262, en þá gerðist sá atburður, sem örlagaríkastur hafði orðið hér á landi frá upphafi Íslands byggðar, annar en kristnitakan, er langeðlilegast að ætla, að Sturla hafi lagt hér niður pennann og að safnandi hafi einnig látið stað-

1) Safn III, 349—352, 494—495. — 2) Safn III, 492—493.

ar numið, er heimild hans þraut. Er því rétt að líta fyrst á niðurlag sögunnar.[1])

Það vill svo vel til, að vér höfum nákvæma frásögn um það, sem gerðist á alþingi 1262, í Hákonar sögu.[2]) Við samanburð á þessum tveim frásögnum verður sú óvænta niðurstaða, að þeim ber í milli í allverulegum atriðum. Í Sturlungu segir svo, að Gizur og Ásgrímur Þorsteinsson riðu til þings norðan með fjölmenni. Hrafn Oddsson, Einar Vatnsfirðingur og Vigfús Gunnsteinsson riðu vestan, og var Hallvarður gullskór í þeirra för. Þeir höfðu sex hundruð manna. Á því þingi var svarinn skattur Hákoni konungi um allan Norðlendingafjórðung, Sunnlendingafjórðung fyrir vestan Þjórsá og allan Vestfirðingafjórðung. Tólf menn sóru skatt úr Norðlendingafjórðungi, og eru þeir taldir með nöfnum, og aðrir tólf úr Vestfirðingafjórðungi; ekki eru þeir nafngreindir. Á því þingi sættust þeir Gizur og Hrafn, og voru tryggðir veittar. [„Gizurr jarl gekk þar til, Hrafn ok Sturla son hans, tókusk þeir í hendr fyrir kirkjudurum á alþingi; var þar við Sigvarðr biskup ok Brandr ábóti Jónsson ok Sighvatr Böðvarsson ok Sturla Þórðarson. Þann vetr sat Hákon konungr í Niðarósi.“][3])

Hákonar saga segir, að Hallvarður gullskór fór á fund jarls 1261 um sumarið og herti að honum að reka erindi konungs. Hallvarður fór til vistar í Reykholt, og fundust þeir aftur um haustið. Sóru þá nokkurir bændur konungi trúnaðareiða. Þegar jarl kom norður, átti hann tal við bændur; vildu þeir leysa heit hans við konung með sórfé. En er Hallvarður spurði það, kvað hann konung ekki vilja pína fé af bændum, heldur hafa hlýðni þeirra og hollustu. Vestfirðingar hétu Hallvarði að koma um vorið til Þórsnessþings og sverja konungi land og þegna. Var þetta ritað jarli, og neitað þeim gjöldum, er Norðlendingar höfðu fyrir hugað að greiða. Stefndi jarl

1) 11. og 21. kap. 10. þáttar í elztu útgáfunni, Sturl.[1] III, 298—299, 312—313; Sturl.[2] II, 260, k. 327; Sturl.[3] II, 312—313; Sturl.[4] IV, 121—122. — 2) Icel. Sagas II, 321—323; Flat. III, 214—215. — 3) frá [vantar í II*, en er vafalaust upphaflegt. Í þessum frásögnum styttir II* sumstaðar textann.

þá bændum til Hegranessþings og lét þar nokkura menn sverja konungi land og þegna. Ekki varð úr því, að Vestfirðingar kæmi til Þórsnessþings. Höfðingjar vestanlands drógu saman flokka og sendu Rangæingum orð að fjölmenna til þings. Þorvarður Þórarinsson hafði heitið að koma með Austfirðinga. Gizur kom og til þings með miklu liði. Þá kom Hallvarður vestan og sagði, að flokkar væri dregnir saman fyrir vestan heiðar og ætluðu að ríða til þings og styðja konungs erindi, ef við þyrfti. Flutti jarl þá mál konungs við Sunnlendinga og Norðlendinga; var skipuð lögrétta og konungi svarið land og þegnar af bændum úr Norðlendingafjórðungi og Sunnlendingafjórðungi fyrir utan Þjórsá, „sem bréf þat váttar, er þar var eptir gert.“ Jarl reið þaðan í Laugardal, en Sigvarður biskup og Hallvarður til Borgarfjarðar, og fundu Vestfirðinga á Þverárþingi. Sóru þar formenn skatt: Hrafn, Sighvatur Böðvarsson, Sturla, Einar Þorvaldsson og Vigfús Gunnsteinsson og 3 bændur með hverjum þeirra. Þrír bændur sóru og fyrir Borgfirðinga.

Frásögnin er miklu ónákvæmari í Sturlungu, og hana greinir einnig á við Hákonar sögu í þessum atriðum:

*að* höfðingjar vestan hafi riðið á þing með miklu liði,

*að* Vestfirðingar hafi svarið skatt á alþingi,

*að* 12 menn hafi svarið fyrir Vestfirðingafjórðung.

Nú verður að gera ráð fyrir því, að Sturla fari rétt með í Hákonar sögu, þar sem hann ritar þetta þrem árum eftir að atburðirnir urðu og vísar í bréf það, er um þetta var gert; hefur það bréf þá verið í skjalasafni konungs, og hefur Sturla vafalaust notað bréfið við samningu sögunnar og ef til vill haft það fyrir framan sig, þegar hann ritaði þessi orð. Hins vegar er frásögn Sturlungu um sættir Gizurar og Hrafns svo nákvæm, að jafnvel er tekið fram, hvar þeir tókust í hendur og nefndir vottar að. Virðist þetta standa lifandi fyrir hugskotssjónum höfundarins, hvort sem hann hefur sjálfur verið þar viðstaddur eða haft þessi tíðindi af sjónarvotti. Að ekki er farið þingavillt er auðsætt af því, að þrír af þeim, sem við þetta eru nefndir, fóru utan samsumars,

þeir Brandur ábóti, Sighvatur Böðvarsson og Sturla Hrafnsson, og getur þetta því ekki hafa orðið á þingi 1263. Varla getur þetta hafa gerzt á þingi 1261, því að sú misklíð milli Hrafns og Gizurar, er hér var sett niður, mun hafa sprottið af því, að konungur skipaði Hrafni Borgarfjörð og tók af Gizuri, en það mun að líkindum ekki hafa spurzt út fyr en eftir þing það sumar. Verður að gera ráð fyrir því, að Hallvarður hefði þá flutt konungserindi á þingi, og þess verið getið, ef hann hefði komið út fyrir þing.

Þar sem hér er svo ríkt kveðið að orði, verður að ætla, að Sturlunga hafi rétt fyrir sér í þessu, og hafi fyrirmenn að vestan riðið á þing með Hallvarði, en skilið eftir flokka sína í Borgarfirði. Þetta þarf ekki að vera mótsögn við Hákonar sögu. Þar sem Vestfirðingar sóru ekki skatt á alþingi, er skiljanlegt, að ekki sé getið þingreiðar fyrirmanna, en að vísu liggur beint við að skilja svo orð Hákonar sögu, að þeir hafi einnig biðið Hallvarðar í Borgarfirði. Þó er það hvergi sagt berum orðum, og verður að telja það sennilegt, að þeir Hrafn hafi ekki látið Hallvarð ríða einan til þings.

Nú gæti vaknað grunur um, að texti Hákonar sögu væri afbakaður, þó að öll handrit hennar sé nokkurn veginn samhljóða um þetta. Í I* er hér síðar frásögn um sama atburð, sýnilega eftir Hákonar sögu, en segir þó fyllra en nokkurt handrit sögunnar. Er því rétt að athuga þann kafla, áður en lengra er farið.[1]

„Nú er at segja frá Hallvarði gullskó.“ Eftir þessi upphafsorð er I* lengi samhljóða Hákonar sögu (Stokkhólmsbók), því nær orði til orðs. Þá er grein um þingreið Gizurar og Ásgríms og þingreið Vestanmanna með Hallvarði,[2]) sem vantar í Hákonar sögu, en er nær orðrétt eftir 327. kap.; þó ber í milli, að lið Gizurar er hér talið tólf hundruð, en átta hundruð í 327. kap., og gæti verið ritvilla. Enn er Sturla Þórðarson talinn einn af þeim, sem riðu til þings með þeim Hrafni, en þess var ekki getið sérstaklega í 327. kap.; þó sést af niðurlagi þess kap., eins og hann er í I*,

1) Sturl.³ II, 317—320. — 2) Sturl.³ II, 319⁴⁻¹⁰.

að Sturla var á því þingi. Þá er textinn aftur samhljóða Hákonar sögu að svardögunum, en því næst taldir þeir bændur, er sóru fyrir Norðlendinga, eins og í 327. kap. Á eftir þessu er Hákonar sögu aftur fylgt um eiða Sunnlendinga, þá sagt frá sættum Gizurar og Hrafns eftir 327. kap. með sömu orðum, nema hér eru nefndir vottar „Sigvarðr biskup ok Brandr ábóti ok nær allr þingheimr.“ Eftir það fylgir textinn aftur Hákonar sögu, en segir þó fyllra en þar, að Hrafn hafi riðið af þingi með biskupi og Hallvarði.

Texti I* er því sambland af báðum textunum, Sturlungu og Hákonar sögu, og er allur 327. kap. tekinn hér upp, nema að svarið hafi verið á alþingi fyrir Vestfirðingafjórðung og að 12 menn hafi unnið eið. Verður hér því sú mótsögn, að fyrirmenn Vestfirðinga hafi riðið á þing með sex hundruð manna, og að þeir Hallvarður hafi fundið Vestfirðinga á Þverárþingi þegar eftir alþingi. Texti þessi gerir því ekki annað en að staðfesta það, að Hákonar saga er hér ekki afbökuð í handritunum.[1]

Það er varla ætlandi, að Sturlu hafi misminnt svo mjög, þegar hann reit Íslendinga sögu, að 327. kap. geti úr henni verið. En frásögnin gæti verið úr sögu um Gizur. Þó bendir það ekki á skagfirzkan uppruna, að við sætt þeirra Gizurar er einungis getið Sturlu og Sighvats Böðvarssonar af leikmönnum, og fór hún þó fram í viðurvist alls þingheims. Einnig er greint nákvæmlega frá þingreið Vestfirðinga, og mun rétt sagt frá að því leyti, að flokkar þessir hafi riðið vestan, en það rangt, að þeir hafi farið alla leið á alþing. Upptalning eiðmanna bendir aftur á norðlenzkan uppruna, að því er virðist. Þó er önnur skýring fullt eins sennileg. Sá, sem þetta ritaði, mun hafa haft fyrir sér eftirrit af hyllingarbréfinu, og hefir hann hætt við að skrifa upp öll nöfnin, sem undir því voru, þegar hann hafði ritað nöfn Norðlendinga, eða

1) Kålund gizkar á (Aarb. 1901, 280, nmgr.), að þessi frásögn muni tekin eftir sérstakri útgáfu af Hákonar sögu, er sagt hafi fyllra frá íslenzkum viðburðum („en anden, islandske forhold behandlende tekst“). Mótsagnirnar sýna, að þetta getur ekki verið rétt; frásögnin er soðin saman úr Hákonar sögu og 327. kap.

þó öllu fremur, að eiðmenn úr hvorum fjórðungi, Norðlendinga og Sunnlendinga hafi gert sérstakt bréf. Fyrir því þarf ekki að álykta, að hér sé um norðlenzka sögu að ræða. Það verður að telja sennilegt, að safnandi Sturlungu hafi samið þenna kapítula, eins og suma aðra. Narfasynir munu hafa verið ungir, þegar þetta gerðist, og verið þessir atburðir í barnsminni, en sennilega ekki verið sjálfir á þingi, og stafa missagnirnar af því. Allir Narfasynir urðu lögmenn og hafa því verið manna líklegastir til þess að afla sér eftirrits af þeim bréfum, sem um þetta voru gerð.

En sé þessi frásögn ekki úr Íslendinga sögu, er á það að líta, hvenær sagan endi eða hvort það verði séð með nokkurri vissu.

Í 319. kap. segir frá útkomu Gizurar.[1]) Segir svo í I, að Gizur kom út „annat sumar en honum var jarls nafn gefit.“ Aftur segir í IIp, að hann hafi komið út samsumars, 1258, og hlýtur það að vera rétt samkvæmt tímatali sögunnar og Hákonar sögu. Það er og ljóst, að frumtexti Sturlungu hefur talið eins, því að í báðum handritaflokkum stendur, að Gizur hafi fjóra vetur utan verið. Viðaukinn (I*) bætir því við í upphafi kapítulans, að Gizur hafi komið skipinu við Suðureyjar og verið þar um veturinn; hafi hann fengið þar sverðið Eyfara(r)naut. Ekki stendur þessi grein í I á sama stað sem í viðaukanum (þetta er neðst á aftasta blaði í skinnbókinni), en getur þó tæplega verið komin úr öðru handriti, enda kemur hún heim við „annat sumar“ í I. Hefur Kålund getið þess til, að þetta hafi staðið á næsta blaði í I, sem nú er glatað, þar sem segir, að skip Gizurar kom síð af hafi, en Björn á Skarðsá hafi flutt hana þangað, sem hún er nú í I*, og á hún að vísu betur við þar.[2]) En greinin hefur sýnilega ekki staðið í Sturlungu frá upphafi. Hér er engin sérstök vísbending um uppruna frásagnarinnar.

320. kap. segir mest frá Gizuri, en í upphafi hans er grein um Vigfús Gunnsteinsson, er BMÓ telur „án efa úr Þorgils sögu.“[3]) En það getur ekki verið; greinin er í

1) Sturl.³ II, 303—304. — 2) Sturl.³ II, 304, nmgr. 1. — 3) Safn III, 349.

báðum textunum og því upphafleg í Sturlungu. Hins vegar eru engar líkur til þess, að hún sé úr sögu um Gizur og Skagfirðinga, og verður því að álíta hana annaðhvort úr Íslendinga sögu eða frá safnanda. Í niðurlagi kapítulans ber textunum ekki saman; segir í I*, að Hrafn og Sturla hafi hvorugur riðið til þings, en II* skýrir svo frá, að Sturla og Sighvatur Böðvarsson hafi báðir riðið á þing og gerzt menn jarls, og Sighvatur sótt Þorvarð Þórarinsson til sektar. Þessi frásögn mun vera eftir Þorgils sögu, en I* aftur á móti fara eftir texta Sturlungu. Bendir þetta ekki til sögu um Gizur, en Páll Kolbeinsson kemur hér við sögu, og hefur verið sýnt fram á, að hann hafi verið meðal heimildarmanna Sturlu.

Í 324. kap. er frásögn um það, að Þórður Andrésson vildi fá þá bræður Brandssonu í lið með sér gegn Gizuri og að jarl komst að þessu ráðabruggi, fór að Þórði, en sættist við hann.[1]) Frásögnin um sendimann Þórðar er miklu nákvæmari í II*, en virðist ekki eins frumleg. Þess er getið, að Sturla fór til liðs við Gizur, og skildu þeir með kærleikum. Um haustið 1259 hélt jarl brúðkaup Ingibjargar Sturludóttur, tengdadóttur sinnar, er hún giftist Þórði Þorvarðssyni úr Saurbæ. En Kálfur Brandsson fékk Guðnýjar Sturludóttur um veturinn. Sturla gerðist þá lendur maður Gizurar. Hét jarl Sturlu Borgarfirði, en Sighvatur Böðvarsson fékk engar sæmdir, og þóttist hann hafa verið ginntur til að gerast handgenginn jarli. BMÓ telur þessa frásögn úr Gizurar sögu, en þó muni eitthvað vera úr „Sturlu sögu".[2]) Hér er hinu sama til að svara sem áður, að ritari I hefur ekki þekkt þáttinn um Sturlu, sem mun framhald Þorgils sögu, og getur þetta því ekki úr honum verið. Vel gæti þessi kapítuli verið úr Íslendinga sögu. Í niðurlagi kapítulans styttir II* nokkuð textann.

325. kap. er aðallega um Gizur.[3]) Ekki er hér getið útkomu Ívars Arnljótarsonar og Páls, er Hákonar saga segir frá; kveður Sturla erindi þeirra hafa strandað á

1) Sturl. II, 308—311. — 2) Safn III, 350—352, 494—495. — 3) Sturl.[3] II, 311. — 4) Icel. Sagas II, 308—309; Flat. III, 206—207.

vinum jarls og Rangæingum.[4]) Þó er þess getið hér, að jarl lét Rangæinga sverja konungi trúnaðareiða, og má í því vafalaust sjá árangur af för þeirra Ívars; hefur jarl gert þetta til þess að leiða sendimenn konungs af.

326. kap. skiptir BMÓ í þrennt.[1]) Telur hann til Gizurar sögu upphafið, um útkomu Hallvarðs gullskós og um það, er Hrafni var skipaður Borgarfjörður og ennfremur seinna hluta kapítulans, um Ásgrím Þorsteinsson. En miðhlutinn, um vonbrigði Sturlu Þórðarsonar, og vísa hans, sé úr Sturlu þætti.[2])

Það mun þó vafalaust, að allur kaflinn sé úr einni og sömu heimild. Frásögnin um gremju Sturlu verður óskiljanleg, ef upphafinu er kippt burtu. Úr Sturlu þætti getur þetta ekki verið af tveim ástæðum. Í fyrsta lagi stendur frásögnin í báðum textunum, og er því upphafleg í Sturlungu, og í annan stað er seinni helmingur vísu Sturlu tekinn upp síðar í Sturlu þætti, og þá í öðru samhengi; segir þar, að Sturla kvæði þetta tveim árum síðar.[3]) Skýring BMÓ fær því ekki staðizt, en hins vegar er ósennilegt, að þessi hluti kapítulans sé tekinn úr sögu um Gizur, eins og BMÓ bendir líka á. En vel gæti allur kapítulinn verið úr Íslendinga sögu.

Í niðurlagi 326. kap. er sagt frá komu Ingilborgar drottningar í Noreg; hafi Magnús konungur verið vígður undir kórónu „Óláfsmessudag enn fyrra [ok svá Ingilborg drottning krossmessu um haustit." Þetta er sýnilega rangt, að þau hafi ekki verið krýnd saman, enda er svo sagt í Hákonar sögu, að þau væri bæði vígð undir kórónu krossmessudag.[4]) Ritari II hefur og séð, að þetta gat ekki staðizt, og fellir því niður greinina um krýningu drottningar frá [. Öll þessi grein um konung og drottningu er vafalaust frá safnanda; hefur hann ruglað saman krýningardögum þeirra feðga, því að Hákon konungur var einmitt vígður undir kórónu á Ólafsmessu. En drottning kom í Noreg „Óláfsvökuaptan síðla."[5])

Þessar frásagnir, sem nú hefur verið rætt um, virð-

1) Sturl.[3] II, 311—312. — 2) Safn III, 352. — 3) Sturl.[3] II, 324. — 4) Icel. Sagas II, 318; Flat. III, 212. — 5) Icel. Sagas II, 314; Flat. III, 210.

ast hafa verið niðurlag Sturlungu. Báðum þeim mönnum, sem rituðu upp söguna, hefur þótt eitthvað vanta á og reynt að bæta úr því, hvor á sinn hátt. Einmitt þetta, að hvorugt handritið hefur látið hér staðar numið, heldur bæta bæði við frásögn, sem er ekki i beinu áframhaldi af því, er áður var sagt, bendir sterklega til þess, að frumritið hafi verið ritað til enda, án þess að nokkuð hafi verið niður fellt. Tilgáta BMÓ, að vantað hafi í báðar skinnbækurnar, þegar pappírshandritin voru rituð,[1]) er næsta ósennileg. Þá hlyti þessi eyða að hafa byrjað nákvæmlega á sama stað í báðum bókunum, eftir þing 1262 — að vísu vantar síðustu málsgreinina i II*, tæpar 4 línur í útgáfu Kålunds, en sá texti styttir víðar frásögnina — og væri það einkennileg tilviljun, svo að alls ekki er gerandi ráð fyrir því. Ennfremur er ástæðulaust að ætla, að Björn á Skarðsá hafi fellt aftan af öðru hvoru handritinu, þar sem hann ritar i viðaukanum (I*) margar frásagnir samhljóða því, er hann hafði ritað rétt áður; verður því að gera ráð fyrir, að hann hafi hvorugan textann stytt.[2])

Ritari II hefur nú bætt við frumtextann þætti um Sturlu Þórðarson, deilur hans við Hrafn, utanför hans og kærleika við Magnús konung, útkomu hans með lögbókina og loks um andlát hans.[3]) BMÓ hefur leitt rök að því, að þessi þáttur sé að nokkuru leyti áframhald Þorgils sögu skarða, eða viðauki við hana, og að líkindum eftir sama höfund. Þetta er allsennilegt, og nægir að vísa til röksemda BMÓ um þetta efni.[4]) Í síðasta kaflanum er frásögn, sem sennilegt er, að sé höfð eftir Þórði Narfasyni; ætlar BMÓ, að hann hafi skotið henni inn um leið og hann setti saman Sturlungu. Þetta getur þó ekki verið, þar sem þessi frásögn hefur ekki staðið í I, og því ekki i frumritinu fremur en Þorgils saga og Sturlu þáttur. Ætla má, að höfundur Þorgils sögu hafi vel getað haft sagnir af Þórði Narfasyni, og sé allt eftir einn höfund. Og þó að þessi röksemd gangi frá, er jafnsennilegt, að einhver

1) Safn III, 353—354, 495. — 2) Sbr. Kålund i Aaböger 1901, 281—282. — 3) Sturl.[3] II, 320—328. — 4) Safn III, 495—498.

Narfasona hafi fjallað um Sturlungu; undir það renna nægilega margar og styrkar stoðir. Auk þess mætti vel hugsa sér, að handrit það af Sturlungu, sem Þorgils sögu og Sturlu þætti var fyrst skeytt inn í, hafi verið ritað undir handarjaðri Þórðar Narfasonar, nokkurs konar aukin útgáfa af fyrstu Sturlungu Skarðverja, þegar þeim hafði borizt Þorgils saga skarða. Mætti þá hugsa sér, að Þórður Narfason hefði bætt umræddri grein inn í textann.

Sá sem ritaði I klykkir út á annan veg. Þegar frumrit hans þraut, tók hann upp frásögn um viðureign Andréssona og Gizurar og dráp Þórðar Andréssonar.[1]) Þegar henni var lokið, greip hann til Hákonar sögu og ritaði aftur upp eftir henni frásögnina um skattjátun Íslendinga 1262, svo sem bent var á hér að framan.[2]) Loks tekur hann upp úr Hákonar sögu 2 aðra kafla, aðallega um Brand biskup.[3]) Hér er fyllri texti en í handritum Hákonarsögu, og sumt af því hlýtur að vera viðauki ritara I: „Þá var með honum Árni Þorláksson, er síðan var biskup í Skálaholti, ok var hann þá djákn at vígslu." En Hákonar saga er samin áður en Árni Þorláksson yrði biskup.

Það er mjög eftirtektarvert, að handritið skuli hafa endað á frásögnum, sem teknar eru upp úr Hákonar sögu. Menn hafa ætlað, að ritarar pappírshandritanna hafi tekið þessar frásagnir upp úr Hákonar sögu, og hafi þær ekki staðið í I. En Kålund hefur sýnt fram á, að þetta er ekki rétt. Björn á Skarðsá hefur ekki gert neina sérstaka athugasemd um þessa kafla, og auk þess má sjá það af handriti Jóns Gizurarsonar, að þeir hafa staðið í I. Hann ritar allan síðasta þáttinn eftir II, en hefur þó tekið tvo síðustu kapítulana upp í handrit sitt, og þá auðvitað úr I, sem er venjulega frumrit hans.[4])

Þessir tveir kapítular eru ljóslega niðurlag I, og hefur ekkert vantað aftan af handritinu, þegar ritað var eftir því. Kålund hefur talizt til, eftir handriti Björns á Skarðsá, að frásögn sú, sem vantar aftan af I, hafi staðið

1) Sturl.[3], 313—317. — 2) bls. 132—133. — 3) Icel. Sagas II, 326, 327; Flat. III, 216, 217. — 4) Sturl.[3] lxxii; sbr. Aarböger 1901, 280—281.

á 5⅔ blaðsíðum; hefir þá aftasta blaðsíðan ekki verið fullrituð, heldur þriðjungur aftara dálksins verið auður.

Þar sem ritari I hefur tekið upp úr Hákonar sögu frásögn, sem hann hafði áður ritað að nokkuru leyti,[1]) og stendur hér í rangri tímaröð, er það bersýnilegt, að hann hefur verið í vandræðum með heppilegt niðurlag og því gripið til þessa, til þess að láta öftustu blaðsíðuna ekki auða og óskrifaða. Þetta sýnir aftur, að heimild sú, sem hann ritaði eftir frásögnina um Andréssonu, hefur þrotið, annars hefði hann auðvitað haldið henni áfram heldur en að endurtaka frásögn, sem hann hafði áður ritað.

Upphaf frásagnarinnar um Andréssonu er og einkennilegt: „Þat er nú þessu næst, at Þórðr Andrésson reið austr um ár af þingi." Þingið, sem sagt var frá í næsta kapítula á undan, er alþingi 1262, en þessir atburðir gerast 1264. Hér er því 2 ára gloppa. Nú er þess áður getið, að ekkert muni hafa vantað í I í upphafi 17. aldar, og hefur þetta því staðið þar með sama hætti sem í pappírshandritunum. Ennfremur var sýnt fram á, að þessi frásögn hefur ekki náð lengra í frumriti því, sem ritari I fór eftir. Hér virðist því að ræða um sjálfstæðan þátt um tilraun Oddaverja til uppreisnar gegn jarli, en ekki brot úr lengri frásögn. En upphafinu hefur þá verið vikið við af þeim, sem tengdi þættinum við frásögn Sturlungu.

BMÓ vill telja þetta síðasta kafla Gizurar sögu, sem endi hér í miðju kafi.[2]) Á því eru þó mörg vandkvæði. Þá verður að gera ráð fyrir, að ritari I hafi haft þá sögu sérstaka. En ekki verður séð með neinni vissu eða jafnvel líkindum, að hann hafi þekkt nokkura aðra sögu í Sturlungu í sjálfstæðri mynd.[3]) Þó væri það ekki óhugsandi. En af hverju fyllir hann þá ekki eyðuna milli þinganna 1262 og 1264? Og hver er ástæðan til þess, að hann fylgir ekki sögunni lengra? Það hefði þó legið beint við, að enda á láti Gizurar. Í stað þess ritar hann upp eftir Hákonar sögu frásögn um sama atburðinn, sem áður var skýrt frá

1) bls. 132—133. — 2) Safn III, 352—353. — 3) Ef til vill Svinfellinga sögu, sbr. Safn III, 501—502.

og þá í réttu samhengi. Það tekur af tvímæli um, að hin heimildin var þrotin. Með sömu rökum mætti spyrja, hvers vegna safnandi Sturlungu hafi hætt við heimild sína í miðju kafi, hafi þessi merkilega frásögn staðið í henni, og annað fleira um síðustu æfiár jarls. Þessi ætlun, að frásögnin um Andréssonu sé hluti af lengri sögu, sem safnandi Sturlungu hafi ritað eftir og ritari I svo aftur notað sérstaklega, gerir málið enn flóknara. Þetta hefur Kålund einnig séð. Hann fellst annars á skoðun BMÓ um Gizurar sögu, en þennan kafla telur hann þó ekki til hennar, er í vandræðum með hann, en slær því þó fram, hvort hugsanlegt sé, að þessi frásögn, ásamt þeim köflum, sem ritari I hefur tekið upp eftir Hákonar sögu hér næst á eftir, sé ekki úr sérstakri útgáfu af þeirri sögu, sem hafi sagt nánar frá íslenzkum efnum en þau handrit, sem nú eru til.[1]) Þetta getur þó ekki staðizt þegar af þeirri ástæðu, að þær viðbætur, sem frásögnin hér á eftir um skattjátunina 1262 hefur fram yfir handrit Hákonar sögu, eru allar teknar úr 327. kap. hér að framan, eins og áður hefur verið rakið.[2]) Auk þess er frásögnin um Andréssonu gerólík Hákonar sögu.

Það er ljóst, að frásögnin er að mestu höfð eftir mönnum úr flokki Gizurar, og má beinlínis rekja sumt til Árna Bjarnasonar af Auðkúlustöðum og Hjálms Þorbjarnarsonar. En það gefur enga sérstaka vísbendingu. Heimild brestur til þess að telja Hjálm Þorbjarnarson sama manninn sem Hjálm af Víðivöllum;[3]) má vel vera, að svo sé, en það verður hvorki sannað né ósannað. Þá er og sýnilegt, að Vestfirðingur einn er hér tíðindamaður, Ólafur Oddsson: „Ok er Óláfr hafði þetta flutt jarli, þá *þótti honum* hann fár við verða ok æmta sér lítt. Þeir töluðu þetta í kirkjugarðinum þar í Görðum. Óláfr varð skjótt í brott aptr af fundi jarls ok reið aptr til Hrafns, bróður síns.“ Og bendir þetta ekki til Skagafjarðar.

Frásögnin virðist rituð af hlýjum hug í garð Andréssona og liggja jarli á hálsi fyrir aftöku Þórðar: „Þá brá þegar mörgum inum betrum mönnum í brún, ok þótti þá

1) Aarböger 1901, 280 nmgr. 1. — 2) bls. 132—133. — 3) Safn III, 353.

þegar eigi efnt þat, er mælt hafði verit."[1]) „Var þá enn víða drepit fé á Rangárvöllum, ok galt margr óverðr þessa ófriðar ok ófagnaðar. ... Þórðr segir svá, at þeir bræðr hans ok aðrir vinir skyldu þat at marki hafa, at þá mundi hann feigr, ef hann tryði Gizuri jarli."[2]) Ekki var það og vel til fallið af vini jarls, er ritaði sögu hans, að halda á lofti jafnhrottalegu og illmannlegu svari sem því, er hann gaf Þórði, frænda sínum, er hann bað hann fyrirgefa sér: „Þat vil ek gera, þegar þú ert dauðr."[3]) Frásögnin er rituð af manni, sem var mun hlýrra í garð Þórðar heldur en jarls.

Tvö atriði gætu virzt benda til sömu heimildar sem áður var farið eftir, að getið er um vist Þórðar að Stað 1260—1261,[4]) sbr. 325. kap., og að minnzt er á aðvörun Hrafns við Gizur fyrir Flugumýrarbrennu.[5]) En hvorttveggja hefur verið alkunnugt, og auk þess mætti vel hugsa sér, að ritari I hefði bætt þessu við.

Hér hefur þá verið sýnt, hver vandkvæði eru á því, að telja þessa frásögn hluta af lengri sögu, sem safnandi Sturlungu og ritari I hafi báðir notað, hvor í sínu lagi. Hins vegar bendir upphaf og einkum niðurlag til þess, að frásögnin hafi aldrei verið lengri. Verður því tækilegast að telja þetta sérstakan þátt, er ritari I hafi tekið upp í bók sína. Engum getum skal um það leitt, hvar eða hvenær þessi þáttur er saminn eða hver muni vera höfundur hans. En allar líkur benda þó til þess, að heimildin hafi verið skrifuð, og sé þetta ekki frumsamið af þeim, er ritaði handritið.

Hér að framan hefur verið bent á, að Sturlunga sú, sem I og II eru runnin frá, muni hafa endað á frásögninni um skattjátun Íslendinga á Alþingi 1262. Mætti telja sennilegt, að Sturla hefði endað rit sitt á þessari frásögn, sem virðist eðlilegt niðurlag á sögu Sturlungaaldar, og það því fremur sem hinni miklu Noregs sögu hans lýkur um svipað leyti. En þar sem 327. kap. virðist ekki geta verið eftir Sturlu, vantar eðlilegt niðurlag á söguna.

1) Sturl.³ II, 316¹⁹⁻²⁰. — 2) Sturl.³ II, 315³²—316¹. — 3) Sturl.³ II, 317¹⁹. — 4) Sturl.³ II, 313⁸⁻¹¹. — 5) Sturl.³ II, 313²³⁻²⁵.

Það er varla ætlandi, að safnandi Sturlungu hafi vikið frá frumriti sínu áður en það þraut og samið sjálfur síðustu frásögnina. Sennilegra er, að Íslendinga saga hafi aldrei náð fram til 1262. Ástæðan til þess, að Sturla hélt ekki frásögninni áfram að þessum eðlilegu tímamótum, getur varla verið önnur en sú, að honum hafi ekki enzt aldur til þess að ljúka við hana, og hefur BMÓ leitt að því rök, að Sturla hafi ritað Íslendinga sögu á efri árum sínum. Verður síðar að þessu vikið.

Hafi Íslendinga saga endað í miðjum klíðum, voru tveir kostir fyrir safnanda. Annar sá, að láta nú einnig staðar numið og bæta einungis svo miklu við, að kalla mætti viðunandi niðurlag, eða að öðrum kosti að halda frásögninni áfram eftir þeim heimildum, sem fengizt gátu, munnlegum eða skrifuðum. Mætti þá álíta annað tveggja, að Íslendinga saga næði fram að 1262, og hafi safnandi einungis bætt við niðurlagi 326. kap. og 327. kap., eða að sagan endaði einhvers staðar fyr.

Í síðustu frásögnum Sturlungu, fram að niðurlagi 326. kap., er ekkert, sem mælir í móti því, að þær geti verið eftir Sturlu. Hins vegar virðist frásögnin mjög slitrótt um hin síðustu árin, og vekur það grun um, að ekki sé allt með felldu. Þó mætti gizka á, að safnandi hafi stytt frásögnina því meir, sem nær dró niðurlaginu — hefur ef til vill staðið svo á örkum — og verði heimild hans því ekki um kennt. En textinn virðist þó ekki bera neitt beint vitni um styttingu eða úrfellingu, svo að engin rök verða leidd að þessu.

Hér að framan var bent á eyðu þá, sem er í texta I og nær yfir þriggja ára bil, frá því um mitt sumar 1255 fram á sumar 1258.[1]) Í II er fylgt frásögn Þorgils sögu skarða um atburði á þessum árum. En þar sem ritari II tekur aftur upp frumtexta Sturlungu, eftir að hann hefur lagt frá sér Þorgils sögu, byrjar I nákvæmlega á sama stað aftur eftir þessa gloppu í frásögninni, að frá skilinni smágrein um víg Þorgils, sem er tekin úr Hákonar sögu

1) Bls. 125.

upp í texta I. Sýnir þetta, að ritari I á ekki sök á þessari eyðu, heldur hefur hún verið í frumriti hans. Og orðalagið, þar sem textarnir verða aftur samferða: „Um sumarit eptir, er Þorgils skarði var veginn um veturinn ...“[1]) virðist benda á, að greinin úr Hákonar sögu hafi staðið í hinu sameiginlega frumriti.

Á þessum 3 árum gerðust margir merkir atburðir hér á landi, sem greint er frá í Þorgils sögu skarða, Hákonar sögu og annálum: útkoma Ívars Englasonar og skattjátun Norðlendinga árið 1256, ríki Þorgils í Skagafirði, fjandskapur þeirra Þorvarðs við Heinrek biskup, deilur Sturlu og Hrafns og sættir, tilkall Þorvarðs til Eyjafjarðar, víg Þorgils, eftirmálið og sættir Sturlu og Sighvats Böðvarssonar við Þorvarð um mitt sumar 1258. Sturla hefði hlotið að segja frá þessum viðburðum í Íslendinga sögu. Og fallist menn á skoðun BMÓ um Gizurar sögu og Þórðar sögu kakala, hve langt þær nái og hve vítt svið frásagnir þeirra taki yfir, er jafn óhjákvæmilegt, að þær hefði báðar sagt frá atburðum þeim, er gerðust á þessum árum. Þórðar saga hefði átt að halda áfram frásögninni um höfðingja þá, er Þórður hafði skipað ríki sitt, og segja frá deilum Hrafns og Sturlu, ríki Þorgils og vígi hans, en þetta leiddi beinlínis af atburðum, er BMÓ kveður Þórðar sögu segja frá, svo sem Þverárfundi, er varð skömmu fyr. Aftur hefði saga Gizurar hlotið að segja frá öðru, svo sem skattjátun Norðlendinga, ríki Þorgils í Skagafirði, tilkalli Þorvarðs til Eyjafjarðar og vígi Þorgils. Að vísu segir BMÓ, að þessir atburðir komi lítið við sögu Gizurar, þar sem hann hafi verið utan, er þetta gerðist, og ekki komið út fyr en Þorgils var allur og ríki hans liðið undir lok.[2]) En þetta kemur ekki heim við það, sem hann heldur fram annars staðar um þá sögu. Að hans ætlun er hún ekki einungis saga Gizurar, heldur og Skagfirðinga, og rituð af Skagfirðingi. Telur hann söguna greina nákvæmlega frá atburðum í Skagafirði, þar sem Gizur var hvergi nær staddur, svo sem lítilfjör-

1) Sturl.[3] II, $298^{32-33}$. — 2) Safn III, 354.

legum deilum fyrir og um 1240, viðureign Kolbeins unga við Þórð og fjölmargt annað, svo að ekki sé minnzt á frásögnina í næsta kapítula á eftir þessari gloppu (316. kap.) um nauðaómerkilega atburði á Norðurlandi og suður á Mýrum, er urðu fyr um sumarið en Gizur kæmi út — hann kom síð af hafi.[1]) Ennfremur telur BMÓ söguna hafa greint allnákvæmlega frá atburðum á öðru landshorni, er gerðust meðan Gizur var utan og koma ekki á neinn hátt við Skagfirðinga, nema að því leyti, að við þá voru riðnir frændur Ásbirninga, Ormssynir, Þórarinssynir og Sæmundarsynir.[2]) Hér er aftur á móti að ræða um stórmerka atburði, er gerðust í sjálfum Skagafirði; er Þorvarður Þórarinsson mjög við þá riðinn, en aðalsöguhetjan og héraðshöfðinginn, Þorgils skarði, er Ásbirningur, systursonur Kolbeins unga. Þögn sögunnar þarf því að skýra, hvort sem gert er ráð fyrir, að hér sé farið eftir Íslendinga sögu, Þórðar sögu eða Gizurar sögu.

Samskeytin, þar sem textarnir verða aftur samferða, benda í þá átt, að Sturlunga hafi verið heil, þegar handritin voru rituð eftir henni, og hafi greinin úr Hákonar sögu staðið í frumritinu, eins og sýnt var hér að framan. Nú er tvennt til, að vantað hafi í heimild Sturlungu, Íslendinga sögu — eða Þórðar sögu og Gizurar sögu, eða þá að saga sú, sem hingað til hafði verið heimild Sturlungu, hafi verið á enda.

Nú má benda á ýmislegt, sem mælir í gegn því, að heimild Sturlunguhöfundar hafi þrotið. Þegar litið er á hina nákvæmu frásögn í 316., 317., 319., 320. og 324.—327. kap. um ýmsa lítt merka atburði, liggur nærri að ætla, að farið hafi verið eftir skrifaðri heimild. Hefði höfundur Sturlungu á hinn bóginn verið nógu fróður um það, sem gerðist á árunum 1258—1262, til þess að geta frumsamið þessar frásagnir, en það er engan veginn ósennilegt, þar sem Sturlunga mun hafa verið sett saman ekki síðar en um 40 árum eftir þessa atburði, mætti það gegna furðu, að hann skyldi ekki hafa annað til brunns að bera um við-

1) Sturl.[3] II, 304[1]. — 2) Hér er átt við frásagnirnar, sem skotið er inn í Svínfellinga sögu.

burði þriggja ára (1255—1258) en litla grein úr Hákonar sögu. Þó gætu legið til þess orsakir, sem vér fáum ekki rennt grun í. Hefði og mátt taka meira upp úr Hákonar sögu, svo sem greinina um Ívar Englason, ef safnandi hefði kosið.

Aftur á móti er lítt sennilegt, að svo snemma hafi týnzt úr handritunum. En sé það hin rétta skýring, er alveg ljóst, að skoðun BMÓ á heimildum Sturlungu er röng. Hann telur Þórðar sögu og Gizurar sögu vera báðar til frásagnar um næstu atburði á undan gloppunni: Þverárfund og fyrirburðina í Miðjum dal. Þá hefði átt að vanta í báðar þessar sögur, og það alveg á sama stað, en það má telja nær óhugsandi. Og þó að segja mætti, að hér hafi vantað í Sturlungu, þegar I og II voru rituð, sem ekki virðist hafa verið, er það ekki fullnægjandi. Eftir skoðun BMÓ hafa ritarar beggja skinnbókanna (I og II) haft fyrir sér Gizurar sögu sérstaka (t. d. frásögnin um Andréssonu í I, Reykhólaför í II), og því getað auðveldlega fyllt í skarðið; hefði legið nær fyrir ritara I að grípa til þeirrar sögu heldur en Hákonar sögu. Ef gert er ráð fyrir tveim heimildum í síðara hluta Sturlungu, Þórðar sögu og Gizurar sögu, fæst því engin viðunanleg skýring á þessari gloppu.

Sé aftur á móti gert ráð fyrir, að höfundur Sturlungu hafi farið eftir einni heimild frá því er hann lagði Svínfellinga sögu frá sér, verður auðveldara að skýra þetta. Fremur væri því trúandi, að vantað hafi í eina sögu, þegar Sturlunga var rituð, heldur en að eyða hafi verið á sama stað í tveim sögum. En þess ber að gæta, að frá samningu Íslendinga sögu þangað til Sturlunga var sett saman hefur tæplega getað liðið lengri tími en 20 til 25 ár. Er ósennilegt, að svo snemma hafi týnzt úr handritinu, einkum þar sem eyðan er svo stutt, að um heilt kver getur ekki verið að ræða.

Samkvæmt því, sem hér hefur verið rakið, verður að telja, að meiri líkur sé til þess, að hvorki hafi vantað í það handrit, sem Sturlunguhöfundur fór hér eftir, né í handrit það, sem I og II eiga rót sína að rekja til.

Engin leið virðist að sætta sig við þá skoðun, að sagnaritarinn hafi gengið alveg fram hjá viðburðum þessara þriggja ára. Sennilegasta skýringin verður því sú, að Íslendinga saga hafi ekki náð lengra en út fyrir Þverárfund, og hafi Sturlu ekki enzt aldur til þess að halda sögunni lengra áfram. Síðan hefur annar maður, safnandi Sturlungu, aukið við niðurlaginu, og byrjað á frásögninni um fyrirburðina í 292. kap. Sjálfstæðar sögur hafa naumast verið heimildir hans um atburði 1258—1262. Frásögnin verður ekki öll skýrð með því að gera ráð fyrir sögu um Gizur, og gloppan á undan ekki heldur. Sturlu þátt hefur safnandi sýnilega ekki þekkt frekar en Þorgils sögu skarða. Vera má, að þessu niðurlagi hafi verið skeytt aftan við Íslendinga sögu, áður en hún komst í hendur safnanda. En sennilegra virðist þó, að safnandi — einhver Narfasona — hafi frumsamið lokaþáttinn. Er þá skiljanlegt, að frásögnin sé mest um Gizur, æðsta og voldugasta mann landsins og ömmubróður Narfasona, en atburðir á Vesturlandi hafa þeim og verið vel kunnir.

Hér hefur nú verið rætt um alla þá kafla, sem BMÓ hefur talið til sögu Gizurar og Skagfirðinga. Um langflesta þeirra hefur verið sýnt fram á, að sterkari rök liggja til þess, að heimfæra þá til sömu heimildar sem aðrar frásagnir Sturlungu, Íslendinga sögu eða Þórðar sögu kakala. Telja má fullsannað, að sumar af þessum frásögnum geti ekki verið úr annari sögu en Íslendinga sögu, svo sem frásögnin um fæðing Gizurar, sem talin hefur verið svo rík sönnun þess, að hér hafi verið notuð sérstök saga um hann, um deilur Kolbeins unga og Sighvats á undan Flatatungufundi, aðför Órækju að Gizuri, um aðdraganda Örlygsstaðafundar og um Flugumýrarbrennu. Ennfremur er enginn vegur að gera ráð fyrir íaukum í Þórðar sögu kakala, að minnsta kosti fyrir framan 199. kap. Sennileg og sterk rök má leiða að því, að sumar af þeim frásögnum, sem um er að ræða, sé eftir safnanda, svo sem Haukdæla þáttur, um börn Þorvalds Gizurarsonar í 55. kap., fyrri hluti 126.

kap., draumakaflarnir tveir, en 213. kap. eftir ritara II. Þá hefur verið sýnt fram á, að þeir menn, sem taldir hafa verið aðalheimildarmenn og jafnvel höfundar Gizurar sögu, eru einmitt manna líklegastir til þess að hafa gerzt tíðindamenn Sturlu, mágar hans í Skagafirði. Frásögnin er hvergi hlýlegri í garð Gizurar en vænta mátti af Sturlu, eftir því sem hann skrifar um hann í frásögnum, sem sannanlega eru úr Íslendinga sögu. Þá hefur verið á það bent, hvað vakað hafi fyrir höfundi Þórðar sögu kakala, og að hún hafi ekki náð fram yfir 1250. Með því fellur sú eina röksemd, sem hefur verið leidd að því, að Íslendinga saga nái ekki lengra en til 1242.

Á hinn bóginn eru svo lítil — og allvíðast alls engin — missmíði sjáanleg, þar sem menn hafa talið Gizurar sögu skotið inn í annan texta, að alveg er óhugsandi, að safnandi Sturlungu hafi gengið svo frá. Ófimleiki hans er sýnilegur alls staðar, þar sem hann hefur fleiri heimildir en eina, er segja frá samtíða viðburðum. Verður því með engu móti gert ráð fyrir, að honum hafi tekizt svo mjög upp með eina sögu, þar sem honum eru mislagðar hendur með allar aðrar. Loks hefur BMÓ orðið að gera ráð fyrir því, svo að allt komi heim, að ritarar handritanna I og II hafi báðir haft Gizurar sögu sérstaka, þar sem hvorugur virðist þó hafa notað nokkura aðra sögu í Sturlungu í sjálfstæðri mynd.

Loks má í þessu sambandi líta á vitnisburð safnanda í „formálanum": „Flestar allar sögur þær, er hér hafa gerzk á Íslandi, [váru ritaðar áðr Brandr biskup Sæmundarson andaðisk.[1]) En þær sögur, er síðan hafa gerzk, váru lítt ritaðar, áðr Sturla skáld Þórðarson sagði fyrir Íslendinga sögur, ok hafði hann þar til vísindi af fróðum mönnum, þeim er váru á öndverðum dögum hans, en sumt eptir bréfum þeim, er þeir rituðu, er þeim váru samtíða, er sögurnar eru frá. Marga hluti mátti hann sjálfr sjá, þá er á hans dögum gerðusk til stórtíðinda. Ok treystumsk mér honum bæði vel til vits og einarð-

1) Svo I, en í II er textinn svo frá [„áðr Brandr biskup Sæmundarson andaðisk, váru ritaðar," og er sá texti betri.

ar at segja í frá, því at hann vissa ek alvitrastan ok hófsamastan. Láti guð honum nú raun lofi betri.“

Auk þeirra sagna, sem taldar eru í upphafi formálans, hafa þessar sögur legið fyrir safnanda, er hann ritaði þessi orð, ef skoðun BMÓ er rétt:

Íslendinga saga 1183—1242.

Gizurar saga og Skagfirðinga (frá landnámsöld, en aðalsagan) 1209—1264, eða lengra (til 1268).

Þórðar saga kakala 1242—1256.

Svínfellinga saga um 1240—1252 (aðalsagan hefst um 1247).

Íslendinga sögu hefur hann notað alla frá upphafi til enda, en fellt þó niður úr henni, þar sem hann tók aðrar heimildir fram yfir, t. d. prestssöguna og Hrafns sögu. Gizurar sögu hefur hann notað alltaf öðrum þræði, tekið að líkindum upp úr henni allt, sem hún sagði fyllra en Íslendinga saga. Þegar Íslendinga sögu var lokið, fylgir safnandi Þórðar sögu um 8 ár, en tekur þó allmikið upp úr Gizurar sögu. Þá ritar hann upp Svínfellinga sögu, en um síðustu 10(12) árin er Gizurar saga aðalheimildin, en þó mikið tekið upp úr Þórðar sögu. Þessi virðist skoðun BMÓ á þessum hluta Sturlungu.

Saga Sturlu næði þá aðeins yfir 60 ár, og væri þó ekki réttnefnd Íslendinga saga (eða sögur) nema um 40 ára bil. Gizurar saga næði yfir 55 ár eða meira — auk inngangsins, og væri réttnefnd Íslendinga saga um langt skeið, að minnsta kosti síðari hluti hennar. Enn mætti kalla Þórðar sögu því nafni frá 1250, eða jafnvel frá 1247.

Þessi niðurstaða kemur ekki vel heim við ummæli safnanda. Eftir þeim lægi næst að ætla, að Sturla hefði ritað mestan hlut þess, sem eftir er af Sturlungu, þegar frá eru teknar þær sögur, er safnandi nefndi rétt á undan. Það er þó vafalaust, að ekki má taka þessi orð bókstaflega; safnandi Sturlungu hefur sannanlega notað sérstaka Þórðar sögu og Svínfellinga sögu, og Þórðar saga er ein til frásagnar um átta ára bil. En eftir orðunum mætti við því búast, að Íslendinga saga næði jafnlangt Sturlungu, eða því sem næst. Að vísu mætti segja, að því sé Sturlu

og sögu hans sérstaklega getið, að tekið hefur verið lengra mál upp úr henni einni heldur en hinum sögunum samanlögðum, Gizurar sögu, Þórðar sögu og Svínfellinga sögu, og af því að Sturla ritaði fyrstur um viðburði á 13. öld, þegar frá er tekin Hrafns saga. En þetta gerir ekki fulla grein fyrir því, hve sterklega er að orði kveðið um Sturlu, hæfileika hans og áreiðanleik, og hann einn nefndur, en ekki minnzt á hinar þrjár sögurnar. Þetta verður aftur á móti eðlilegt, ef menn fallast á, að Þórðar saga nái einungis yfir 8 ár. — Svínfellinga saga greinir aðeins frá einum atburði og aðdraganda hans — en saga um Gizur hafi ekki verið notuð. Þá má með fullum rökum segja, að saga Sturlu hafi verið aðalheimild Sturlungu frá aldamótum. Því mun varla verða mótmælt með rökum, að þessi orð sögunnar sjálfrar gefi heimild til þess að eigna Sturlu sem allra mest af sögu 13. aldarinnar, nema þar sem sýnt verður og sannað með óyggjandi rökum, að farið sé eftir annari heimild.[1])

Hér hefur þá verið sýnt fram á, að það sé ýmist með öllu óleyfilegt eða ástæðulaust að taka þá kafla út úr samhengi, er taldir hafa verið til Gizurar sögu, og að þeir muni eiga heima í sömu heimildum Sturlungu sem aðrar frásagnir, sem enginn vafi leikur á. Þegar þar við bætist, að nokkur hluti frásagnarinnar um Flugumýrarbrennu er alveg vafalaust eftir Sturlu og ekkert bendir til þess, að fleiri sögum en einni sé fylgt um það bil, þá er ástæðulaust að efast um, að Íslendinga sögu einni sé fylgt í Sturlungu, eftir að Þórðar sögu lýkur, og ekki skilið við hana fyr en hún var þrotin.

Þó eru nokkurir kaflar, auk þeirra, sem sýnt hefur verið fram á, að safnandi muni hafa frumsamið, sem ósennilegt er, að sé úr Íslendinga sögu eða þó að minnsta kosti má telja vafasama. Það eru 146. kap., 327. kap. og að öllum líkindum 316., 317., 319., 320., 324.—326. kap.

1) Kålund, sem hefur fallizt á skoðun BMÓ um Gizurar sögu, viðurkennir þetta einnig í Aarböger 1901, 291: „noget overraskende i forhold til dets omfang (hvis det har stanset med Oxf. VII, kap. 163) er Sturlunga-samlerens stærke fremhæven af dette værk i modsætning til hans övrige kilder.“

Um 146. kap. er það að segja, að ekki er óhugsandi, að hann sé úr Íslendinga sögu. Hinir kaflarnir, lokaþáttur Sturlungu, geta ekki allir verið úr sögu um Gizur, og er því ekki einhlitt að gera ráð fyrir henni sem heimild á þessum stað. 265.—267. kap. koma ekki alveg heim við Hákonar sögu, og má þó til sanns vegar færa, eins og sýnt var, enda er í 265. kap. mótsögn við 267. kap., er sýnilega má kenna safnanda um, en ekki höfundi, og því sennilegt, að fleira geti verið aflagað.[1]) 219. og 220. kap. segja rangt frá um atburði, er Sturla hlaut að vita rétt um, en eðlilegast er að kenna safnanda um villuna; hann hefur „leiðrétt" söguna eins og í 162. kap., svo sem sýnt var fram á hér að framan.[2]) 203. og 209. kap. væri eðlilegra að telja til sögu um Gizur heldur en Þórðar sögu, og ef til vill 199. kap. að einhverju leyti, ef sannað væri á annan hátt eða gert sennilegt, að slík saga hafi verið notuð. En þessir kaflar eru sjálfir ekki næg sönnun fyrir sögunni. Loks eru 122. og 145. kap. um skagfirzka atburði, og 328.—329. kap. um Andréssonu. Þessir kaflar hafa einungis staðið í I, en aldrei í II. Frásögnin um Andréssonu hefur og vafalaust ekki heldur verið í Sturlungu frá upphafi, en um 122. og 145. kap. er það óvíst. Hafi þeir verið í frumriti því, sem I og II eru runnin frá, má vel vera, að þeir sé úr Íslendinga sögu, þó að sitthvað mæli því í gegn. Þessir kaflar, sem nú hafa verið taldir, eru svo fáir og sundurleitir og gefa enga ótvíræða vísbending, auk þess sem sumir munu ekki hafa staðið í Sturlungu frá upphafi, að af þeim verður ekki ráðið, að til hafi verið samfelld saga um Gizur og Skagfirðinga, er sagt hafi allnákvæmlega frá atburðum um meira en helming 13. aldar, eða um þau 59 ár, sem Gizur lifði.

Niðurstaða þessarar rannsóknar verður því þessi:

1. Heimild brestur til þess að halda því fram, að safnandi hafi haft sérstaka sögu um Gizur og Skagfirðinga,

1) „forboð biskupa" í 265. kap. — Í 268. kap. er sagt frá útkomu Sigvarðs biskups eftir 4 ára dvöl í Noregi. Þeir Gizur höfðu ekki verið samlendir á Íslandi í 8 ár, frá 1246, er Gizur fór utan. Hlýtur þetta því að vera rangt. — 2) Bls. 104—105.

sem hann hafi notað alltaf öðrum þræði, jafnhliða Íslendinga sögu, Þórðar sögu og Svínfellinga sögu, og því nær eingöngu í niðurlagi Sturlungu.

2. Þórðar saga kakala hefur einungis sagt frá ríki Þórðar á Íslandi og nær því aðeins yfir árin 1242—1250. Þó er sennilegt, að frásögnin um ævilok Þórðar sé niðurlag sögunnar. Sagan hefur verið tekin upp í Sturlungu í heilu lagi og lítið úr henni fellt.

3. Auk Þórðar sögu og Svínfellinga sögu verður ekki séð, að safnandi hafi haft skrifaða söguheimild, aðra en Íslendinga sögu, um það tímabil, sem hér ræðir um. Hann fer eftir Íslendinga sögu, þegar Þórðar sögu og Svínfellinga sögu sleppir og þangað til hana þrýtur, sem er sennilega um 1255. Hefur Sturlu ekki enzt aldur til þess að ljúka við söguna.

4. Safnandi Sturlungu hefur aukið inn Haukdæla þætti og ýmsum öðrum köflum, sem nánari grein er gerð fyrir hér að framan. Að líkindum hefur hann einnig sett saman lokaþátt Sturlungu, en um heimildir fyrir þeirri frásögn er allt óvíst.

5. Sturlunga hefur endað á frásögninni í 327. kap. um skattjátun Íslendinga á alþingi 1262. Við frásögn hennar hefur ritari II bætt niðurlagi Þorgils sögu skarða og þætti um síðustu æviár Sturlu Þórðarsonar, frá því er hann deildi við Hrafn og var rekinn utan. Þessi þáttur er sennilega eftir höfund Þorgils sögu skarða. Ritari I hefur aftur á móti bætt við frásögninni um Andréssonu, eftir ókunnri heimild, og loks nokkurum köflum úr Hákonar sögu. Ekkert hefur vantað aftan af Sturlungu, þegar I og II voru rituð. Þessar skinnbækur munu einnig hafa verið heilar, þegar Björn á Skarðsá ritaði eftir þeim.

## X.

Þess var getið hér að framan, að Sturlu muni ekki hafa enzt aldur til þess að ljúka við Íslendinga sögu, og hafi hann samið hana á efstu árum sínum. Á annan hátt verður tæplega fengin skýring á því, að botninn dettur

úr sögunni, án þess að komið sé fram að eðlilegum tímamótum, sem ætla má, að höfundur hafi ætlað sér að nema staðar við. B. M. Ólsen hefur látið í ljósi sömu skoðun, en hann ætlar, eins og fyr segir, að Sturla hafi ekki verið kominn lengra en fram til 1242, þegar hann féll frá.[1])

Finnur Jónsson hefur aftur á móti haldið því fram, að Íslendinga saga sé eldri en Hákonar saga, samin um 1260 og lokið að fullu áður en Sturla fór utan árið 1263.[2]) Frásögnin beri það með sér, að Sturla hafi ekki borið neinn kala til Gizurar, þegar hann setti saman söguna, og sé hún því samin eftir 1253, þegar þeir Sturla og Gizur sættust og bundu með sér vináttu með tengdum. Hinsvegar hafi á ný risið fjandskapur með þeim um 1262, og sé sagan því ekki yngri. Á þessum árum hafi Sturla haft ágætt næði til ritstarfa. Hann hafi verið búinn að fá mikið orð fyrir sagnaritun sína 1263—64, þegar hann dvaldist fyrst í Noregi; muni endurbætur hans á og viðaukar við Landnámu og Kristni sögu ekki hafa aflað honum mikillar frægðar sem sagnaritara, og hljóti Íslendinga saga því að vera sett saman áður.

Hér má gera þá athugasemd, að hvergi sést, að sérstakt orð hafi farið af sagnagerð Sturlu um þetta leyti. Aftur hafa menn þá vitað, að hann var skáld gott, svo sem var Ólafur hvítaskáld, bróðir hans. Kvæði Sturlu um Hákon gamla munu kveðin um það leyti, sem hann kom fyrst í Noreg, og munu þau fljótt hafa orðið kunn, en áður hafði hann orkt 2 kvæði um Þorgils skarða, Þverárvísur og Þorgilsdrápu. Mikið orð fór af því við hirð konungs þegar í upphafi, hve vel hann sagði sögur. Hvorttveggja þetta, skáldskapur hans og frásagnarsnilld, og að auki mætur þær, sem konungur og drottning fengu á Sturlu, nægir til þess, að gera fulla grein fyrir því, að Magnús konungur fól honum að rita sögu Hákonar konungs, en við það mun FJ eiga. Þarf alls ekki að gera ráð fyrir því, að Sturla hafi þá þegar verið viðfrægur af sagnaritun sinni, enda mundu Norðmenn lítið hafa þekkt til

1) Safn III, 434—435. — 2) Litt. hist., 2. útg., 728.

Íslendinga sögu, þó að henni hefði verið lokið árinu áður. Vér vitum og ekki til þess, að konungur hafi átt völ á öðrum sagnaritara, er hann hefði getað falið þann vanda. Af þessu verður því með engu móti ráðið, að Íslendinga saga sé fyr rituð en Hákonar saga. Það er að vísu rétt, að nýir úfar risu með Sturlu og Gizuri 1261—1262. En það sannar ekkert um það, að Sturla hafi ekki getað verið jafnsanngjarn í garð Gizurar, eftir að hann var allur, sem áður en þessi nýja úlfúð hófst. Ennfremur er það ósennilegt, að Íslendinga saga nái til 1262, en sé samin um 1260 og fullgerð fyrir mitt sumar 1263. Hér hefur verið sýnt fram á, að sagan nær ekki fram til 1262 þar sem frásögnin um alþingi það ár kemur ekki heim við Hákonar sögu. Þó væri ekki með öllu óhugsandi, að hvorttveggja væri eftir sama höfund, ef langur tími hefði liðið á milli, t. d. meira en 15 ár. En enginn vegur er að ætla, að báðar frásagnirnar séu eftir sama mann og ritaðar á tveggja ára fresti, 1263 og 1265. Þar sem Íslendinga saga hefur endað fyr, væri það undrunarefni, að Sturla skyldi ekki halda sögunni áfram að eðlilegum tímamótum einhverntíma á þeim 13 árum, sem hann lifði, eftir að hann kom út með lögbókina.

En auk þess sem þessi rök FJ eru röng, má leiða til þess sennilegar líkur, að sagan sé samin á efstu árum Sturlu. Að vitni þeirra manna, sem bezt skynbragð bera á þá hluti, lýsir stíll Íslendinga sögu meiri snilld og þroska og næmari smekk heldur en Hákonar saga,[1]) og sýnir það, að hún er síðar samin. Eftir að Sturla kom frá Noregi, leiddi hann hjá sér allar deilur og málaferli og hefur haft gott næði til starfa. Hlutleysi hans, hvort sem áttu í hlut fjandmenn ættar hans eða nánustu frændur, ber í senn vitni um, að gróið hefur verið yfir fornar erjur og harma og að þeir, er sagan greinir frá, hafi þá flestir verið komnir undir græna torfu. Hefur Sturla því getað litið á málin með fyllri sanngirni og meira hlutleysi en áður.

Sagan ber um það vitni, að Sturla hefur viðað að sér efni úr mörgum áttum. Að Páll Kolbeinsson og Brands-

1) G. Vigf., Sturl.[2] I, Proleg. cvi; BMÓ, Safn III, 436—437.

synir eru víða tíðindamenn sögunnar, sannar ljóslega, að hún er rituð eftir 1260, þegar Kálfur Brandsson gekk að eiga Guðnýju Sturludóttur. Í lögmannsstöðu hefur Sturlu veitzt auðvelt að spyrja tíðinda af mönnum úr öðrum héruðum.

B. M. Ólsen hefur bent á nokkur atriði, sem sýna, að sagan er færð í letur alllöngu eftir að atburðirnir gerðust.[1]) Í 157. kap. segir svo: „Órækja var réttr aðili eftir föður sinn, eptir þeim lögum, er þá gengu í landi hér.[2]) Þetta er áreiðanlega ritað eftir 1271, þegar aðildir vígsaka hurfu undir konung. Að vísu er hugsanlegt, að þessum orðum sé síðar skotið inn, eins og Finnur Jónsson tekur fram. En ástæðulaust virðist að gera ráð fyrir því, þegar mörg rök önnur hníga að hinu sama, enda má kenna lögmanninn í þessum orðum.[3]) Í 131. kap. er getið um Magnús, „er síðarr varð konungr“,[4]) og í 40. kap. er nefndur Grímur prestur Hólmsteinsson, sem dó 1298.[5]) Hvorttveggja gæti þó verið síðari viðbót. En sagan ber það ljóslega með sér, að hún er færð í letur eftir að Sturla dvaldi í Noregi. Í 46. kap. er sagt frá áverka Eiríks unga við Harald Sæmundarson: „Eiríkr komsk út ór bænum (þ. e. Björgyn) ok varð tekinn langt út frá Mylnudal:“[6]) Í 84. kap. segir, að Jón murtur hafði herbergi fyrir norðan Kristskirkju, „þar sem nú er prestagarðr“, en hann var grafinn „at Kristskirkju, þar sem nú sönghússveggrinn er“.[7]) Þessi orð eru án alls efa rituð eftir að Sturla var orðinn kunnugur í Björgyn.

Allt þetta styður þá ályktun, sem dregin var af niðurlagi sögunnar, að Sturla hafi ritað hana á síðustu æviárum sínum. Sennilega hefur hann alls ekki byrjað á henni fyr en eftir 1271, þegar hann kom út með lögbókina, en ekki enzt aldur til þess að ljúka við hana. Það mun því óhætt að fullyrða, að Íslendinga saga sé rituð einhverntíma á árunum 1271—1284.

---

1) Safn III, 432—435. — 2) Sturl.[3] I, 554. — 3) Narfasynir voru þó líka lögmenn, allir þrír. — 4) Sturl.[3] I, 500. — 5) Sturl.[3] I, 331. — 6) Sturl.[3] I, 351. — 7) Sturl[3] I, 422—423.

## XI.

Á eftir Sturlu sögu stendur í handritum Sturlungu nokkurs konar greinargerð, sem nefnd hefur verið formáli Sturlungu.[1]) Um formála þennan hefur talsvert verið ritað og deilt, og hann verið skýrður á ýmsa vegu; veldur þar mestu, að handritunum ber ekki saman í allverulegu atriði. Síðast hefur B. M. Ólsen birt merkilega ritgerð um þetta efni: Om den såkaldte Sturlunga-prolog o. s. frv. í Christiania Videnskabs-Selskabs Forhandlinger for 1910, No 6.[2]) Kemst hann að þeirri niðurstöðu, að uppistaðan í formálanum sé greinargerð Sturlu sjálfs fyrir heimildum sínum og vinnubrögðum, ástæðunum til þess, að hann hóf að rita sögu sína, og efni því, sem hann ætlaði að gera skil. Hafi Sturla ritað þenna formála fyrir sögu sinni að dæmi Snorra, en safnandi Sturlungu tekið hann upp, breytt honum nokkuð og jafnframt notað tækifærið til þess að gera grein fyrir vinnubrögðum sínum við samsetning Sturlungu. Af því að þessi niðurstaða BMÓ er svo merkileg, og ályktanir þær, sem hann dregur af henni, um tilgang Sturlu með sögu sinni, er rétt að skýra hér frá aðalrökum hans í þessari ritgerð.

Formálinn hefst á þessa leið: „Margar sögur verða hér samtíða, ok má þó eigi allar senn rita: saga Þorláks biskups ins helga ok Guðmundar ins góða Arasonar, þar til hann var vígðr til prests.“ Þetta tímatal á sýnilega við, hve lengi þessar tvær sögur verða samtíða Sturlu sögu, og kemur það heim, að Guðmundur góði var vígður til prests sama ár sem Einar Þorgilsson andaðist (1185), en það er síðasti viðburðurinn sem Sturlu saga greinir frá. En Þorláks saga og prestssagan eru samtíða miklu lengur. — „Saga Guðmundar ins dýra hefsk þrim vetrum eptir andlát Sturlu ok lýksk, þá er Brandr biskup er andaðr, en Guðmundr inn góði[3]) vígðr til biskups. Saga Hrafns Sveinbjarnarsonar ok Þorvalds Snorrasonar er samtíða sögu Guðmundar ins góða, ok lýksk hon eptir andlát

1) Sturl.[3] I, 119—120. — 2) Hér verður vísað til þessarar ritgerðar sem St. prol. — 3) er þá, b. v. II.

Brands biskups, svá sem Sturla Þórðarson segir í Íslendinga sögum."[1])

BMÓ gerir þá athugasemd við upphaf formálans, að ekki geti það verið ætlun safnanda að telja upp þær sögur, er hann hafði undir höndum og ætlaði nú að fara að rita, því að hvorki sé taldar upp allar þær sögur, er safnandi tók upp í handrit sitt, né heldur hafi hann ritað upp allar þær sögur, sem formálinn nefnir. Það hafi að vísu getað valdið nokkuru um, að honum hafi þótt heppilegt að gera grein fyrir þeim sögum, er hann varð að búta í sundur vegna tímatalsins, en það geri þó ekki nægilega grein fyrir orðalagi formálans né því, hvar hann stendur í handritunum. Ef formálinn væri ekki annað en greinargerð safnanda, hefði mátt búast við honum fyr, framan við Sturlu sögu eða í henni miðri, við það ár, er prestssagan hefst (1161), og þá verður óskiljanlegt, að Þorláks saga er talin með hinum sögunum. Bendir BMÓ á, að í formálanum sé þær einar sögur nefndar, sem ætla má, að Sturlu hafi verið kunnugt um, þegar hann reit Íslendinga sögu.

Þá er að minnast á tilvitnunina í Íslendinga sögu. BMÓ vill skilja hana á þann veg, að um hvorttveggja sé vísað til Sturlu: að Hrafns saga sé samtíða prestssögunni og að *hún* (Hrafns saga) ljúkist eftir andlát Brands biskups. Eðlilegast virðist að leggja þann skilning í orðin, að *hún* eigi við Hrafns sögu, eins og BMÓ gerir. En þrátt fyrir það er ekki víst, að tilvísunin til Íslendinga sögu eigi við hvorttveggja: hvenær Hrafns saga endar og að hún sé samtíða Guðmundar sögu; virðist orðalagið fremur benda á, að *hún* eigi einungis við það, hvenær Hrafns saga endar. En hvort sem réttara er, þá er það víst, að um hvorugt er getið í Íslendinga sögu, eða í þeim hluta hennar, sem nú er til.

BMÓ leiðir rök að því, að Sturla muni ekki hafa getið um þetta í miðri frásögninni, heldur eigi þetta heima í formála. Hafi Sturla ritað formála fyrir sögu sinni, að dæmi Snorra, og þar getið um þær sögur, er hann þekkti og gerzt höfðu um sama leyti sem söguefni hans hefst.

1) sögu, II.

Þá er ljóst, hvers vegna Þorláks sögu er getið. Það eru orð Sturlu um sögur þær, er hann þekkti, en ekki orð safnanda um þær sögur, sem hann ætlaði að rita í bók sína.

Með því að líta þannig á þessa grein, að hún sé í raun réttri hluti úr formála Sturlu fyrir Íslendinga sögu, verður ljóst, hvers vegna hún stendur aftan við Sturlu sögu, en ekki framan við hana eða í upphafi handritsins. BMÓ hefur sýnt fram á það í ritgerð sinni í Safni III, að Sturla hafi ekki sjálfur ritað upp prestssöguna, Guðmundar sögu dýra eða Hrafns sögu. Aftur hefur hann leitt sterkar líkur að því, að Sturlu saga hafi frá upphafi staðið framan við Íslendinga sögu.[1]) Þegar frá eru teknar þær sögur, sem safnandi hefir skotið inn á milli Sturlu sögu og Íslendinga sögu, stendur formálinn því framan við Íslendinga sögu. Þessi staður hans er því til mikillar styrkingar þeirri ætlun, að hann sé saminn upp úr formála Sturlu og að Sturlu saga og Íslendinga saga sé ritaðar eftir sama handriti.

Þegar safnandi hafði lokið við Sturlu sögu, leggur hann frá sér handritið, til þess að taka til við Guðmundarsögurnar. En að hann geymdi sér ekki formálann, þangað til hann kom að Íslendinga sögu, ætla eg að stafi af því, að honum hafi þótt tilhlýðilegt að gera nokkura grein fyrir sögum þeim, er hann bútar í sundur, og því notað til þess formála Sturlu og vikið honum við í þessu skyni, sbr. orðalagið: „Margar sögur verða hér samtíða, ok má þó eigi allar senn rita.“

Næst kemur í formálanum grein sú, er svo mjög hefur verið þráttað um: „Flestar allar sögur, þær er hér hafa gerzk á Íslandi, váru ritaðar, áðr Brandr biskup Sæmundarson andaðisk, en þær sögur, er síðan hafa gerzk, váru lítt ritaðar, áðr Sturla skáld Þórðarson sagði fyrir Íslendinga sögur ...“ Þannig er greinin í I, en í II er hún nokkuð á annan veg: „Flestar allar sögur, er gerzk höfðu á Íslandi áðr Brandr biskup Sæmundarson andaðisk, váru ritaðar, en þær sögur, er síðan hafa gerzk, váru lítt ritaðar áðr ...“ BMÓ sýnir fram á, að orðalagið í I sé klaufalegt.

1) Safn III, 385, 391—392.

Menn hafa dregið þá ályktun af þessari grein, að hér sé einnig — og aðallega — átt við Íslendinga sögur; sögurnar um hina eldri Íslendinga hafi flestallar verið ritaðar fyrir 1200 (Finnur Jónsson o. fl.). Flestir munu þó nú orðið fallast á þá skoðun, sem Guðbrandur Vigfússon o. fl. hafa haldið fram og BMÓ rökstyður hér, að þessi athugasemd eigi alls ekki við þær sögur, heldur einungis við þær sögur, sem gerðust á 12. og 13. öld. Þegar sá skilningur er lagður í orðin, verður orðalag II ljóst og eðlilegt: Þær sögur, sem gerðust fyrir 1201 voru ritaðar áður en Sturla hóf að rita Íslendinga sögu, en það söguefni, sem síðar kom til, var þá að mestu óskráð. Virðist í alla staði eðlilegt, að Sturla gerði grein fyrir því, sem áður hafði verið ritað um þann tíma og þá menn, sem hann ætlaði að fara að segja frá. En um nánari rök fyrir þessu verður að vísa til BMÓ.[1])

Þá gerir formálinn grein fyrir heimildum Sturlu, og telur BMÓ það einnig úr formála Íslendinga sögu, og loks ummæli um viturleik hans og hófsemi og bæn fyrir sálu hans, og er það vitanlega sagt frá brjósti safnanda.

Hér hafa verið talin helztu rök BMÓ fyrir skoðun hans á formálanum, en þó er ógetið eins atriðis, sem minnast verður á, af því að það bregður ljósi yfir tilgang Sturlu með riti sínu og verkefni það, sem hann valdi sér.[2])

Íslendinga saga hefst á frásögninni um dauða Sturlu 1183. Þá segir frá vígi Einars Þorgilssonar, en rætur þess liggja í atburðum, er Sturlu saga greinir frá. Því næst tekur að segja frá Sturlusonum, Þórði, Sighvati og Snorra, og málaferlum þeirra. Þegar frá er tekinn Haukdæla þáttur, sem á ekki heima í Íslendinga sögu, er ekki getið um neinn atburð, sem þeir bræður voru ekki við riðnir eða hlutdeildu á einhvern hátt, þangað til sagt er frá láti Brands biskups. Það er fyrsti atburðurinn í sögunni, sem er Sturlusonum óviðkomandi. Í sambandi við lát biskups er sagt frá biskupskosningu, ráðstöfunum biskupsefnis um stólinn — nokkuð af þeirri frásögn er nú glatað, sbr. að framan[3]) — og atviki á Austurlandi, sem kemur ekki

1) St. prol. 16—24. — 2) St. prol. 24—29. — 3) bls. 9, nmgr. 1.

neitt við sögu Sturlusona. En að því loknu er stutt yfirlit um merkustu höfðingja um aldamótin 1200 (Snorra, Sæmund og Orm Jónssyni, Lopt biskupsson, Þorvald Gizurarson, Sighvat, Kolbein Tumason, Ögmund sneis, Hall Kleppjárnsson, Sigurð Ormsson o. fl.), og hefur margra þeirra þó áður verið getið í sögunni. Fram að 1201 má kalla, að Íslendinga saga sé saga Sturlusona einna, en eftir þann tíma er hún sannnefnd Íslendinga saga og greinir ekki síður frá atburðum, sem Sturlungar voru lítt við riðnir eða ekki.

BMÓ vill skýra þetta í sambandi við formálann: Upphafi sögunnar, fram að 1201, er markað svo þröngt svið vegna þess, að um þann tíma voru til eldri sögur. En eftir það ár víkkar sjóndeildarhringur sögunnar, af því að það söguefni, sem skapaðist á 13. öld, var lítt ritað áður en Sturla hóf ritstörf sín. Orð formálans gera grein fyrir því, sem berlega kemur í ljós í sögunni, að fram að 1201 er einungis sagt frá þeim atburðum, sem ekki getur um í öðrum sögum, en gengið fram hjá hinum, er áður voru ritaðir. Sturla hefur því ætlað að rita sögu sína sem viðauka og áframhald þeirra sagna, er færðar höfðu verið í letur áður og hann þekkti.

En er þá hægt að finna í sögunni sjálfri nokkur merki þessa tilgangs og vinnubragða höfundarins?

Samkvæmt formálanum hefur Sturla þekkt þessar sögur: Þorláks sögu, Guðmundar sögu góða (prestssöguna), Guðmundar sögu dýra og Hrafns sögu. Auk þess gæti það vel verið rétt, sem BMÓ gizkar á, að safnandi kunni að hafa fellt úr upptalningu Sturlu á sögunum, og hafi Sturla ef til vill getið um fleiri sögur, svo sem Páls sögu biskups (St. prol. 23).

Í Íslendinga sögu sjást engin merki þess, að Sturla hafi notað biskupasögurnar, Þorláks, Jóns eða Páls. Hann getur ekki um aðalviðburði þeirra, svo sem andlát Þorláks, kosning Páls, vígslu hans og útkomu, og upptöku heilagra dóma Jóns og Þorláks. Þetta voru svo merkir viðburðir í augum 13. aldar manna, að furðu sætir, að Sturla skuli láta þá liggja í þagnargildi. Það virðist

hljóta að vera gert af ráðnum hug. Þögn hans um þessa merkisatburði sannar bezt, að Sturla hefur þekkt sögurnar og leitt efni þeirra alveg hjá sér.

Til Prestssögu Guðmundar Arasonar er hvergi vísað beinlínis. Báðar greina sögurnar frá biskupskosningunni, og er frásögn prestssögunnar miklu fyllri og nákvæmari og kemur í einu atriði ekki alveg heim við Íslendinga sögu, en má þó til sanns vegar færa.[1]) Greinin úr Íslendinga sögu, sem varðveitzt hefur í Resensbók, en er felld niður í Sturlungu, sbr. hér að framan,[2]) er ekki heldur alveg í samræmi við prestssöguna. Í Resensbók og miðsögunni er og getið um Rauðsmál, en fært til rangs árs (1195), en þessa grein vantar í prestssögu Sturlungu, og er hún því innskot úr annálum, sem sett hefur verið á skakkan stað, og kemur hún því ekki til greina í þessu sambandi.[3]) Af þessum smávægilegu missögnum verður ekki ráðið, að Sturla hafi ekki þekkt prestssöguna, og má ætla, að frásögn hans sé réttari og hann hafi því haft ástæðu til að víkja frá prestssögunni, eða hann hefur ekki haft prestssöguna hjá sér, þegar hann ritaði, og misminnt þá um þetta. Þegar frá er talin biskupskosningin, en hún er eftir 1201, getur Sturla ekki um neina atburði, er prestssagan greinir frá, og gildir því það sama um prestssöguna, sem áður var sagt um sögur biskupanna þriggja. Og ef Lambkárr ábóti er höfundur prestssögunnar, sem er allsennilegt,[4]) er varla ætlandi, að Sturla hafi ekki þekkt hana, því að Lambkárr var um hríð heimilismaður hans á Staðarhóli.

Aftur má ganga úr skugga um, að Sturla hefur þekkt Guðmundar sögu dýra. Í 5. kap. er getið um Önundar brennu og sættirnar á þingi um sumarið, er Jón Loftsson skyldi gera um málið. Kemur þetta heim við Guðmundar sögu.[5]) Á þenna minnisstæða atburð er einungis lauslega drepið í Íslendinga sögu, er styður það, að Sturla hefur ekki viljað fjölyrða um atburð, er áður var til nákvæm frásögn um, heldur vísar til hinnar sérstöku sögu. Enn ljóslegar kemur þetta fram í 25. kap.: „Skæringr ...

1) Safn III, 227. — 2) bls. 9, nmgr. 1. — 3) Bisk. I, 448, sbr. Sturl.[3] I, 221. — 4) Bisk. I, lvij—lx. — 5) Sturl.[3] I, 238, sbr. 197.

hann var einhendr; þenna mann höfðu Austmenn handhöggit at Gásum, *þá er* Guðmundr inn dýri mælti eptir hann.“ Frá þessu er sagt nákvæmlega í Guðmundar sögu.[1]) Einnig getur Sturla andláts Guðmundar dýra, en það sannar að vísu lítið.[2])

Um Hrafns sögu og Þorvalds gegnir sama máli. Í grein úr Íslendinga sögu, sem Hrafns saga hefur bolað burt úr Sturlungu, en stendur í Resensbók, er beinlínis vísað í söguna, þar sem minnzt er á víg Hrafns, „sem segir í sögu þeira Þorvalds ok Hrafns,“ og mun ástæðulaust að ætla, að þessu sé síðar skotið inn í textann.[3]) Auk þess eru í Íslendinga sögu tvær tilvísanir í fyrra hluta Hrafns sögu: „Um haustit var veginn Markús á Rauðasandi,“ 5. kap., sbr. Hrafns sögu 7. kap., og „Eptir þat hljóp Þórðr (Kollason) í fjörðu vestr ok tók við honum Þorvaldr Snorrason ok var hann með honum at vígi Ljóts Sela-Eiríkssonar,“ 8. kap., sbr. Hrafns sögu 9. kap.[4])

Það má nærri geta, hvort Sturla hefði ekki getið nákvæmar um víg Hrafns, ef sérstakar ástæður hefðu ekki legið til þess, sem sé það, að til var sérstök saga um þau mál. Auk þess sem hér áttu mjög merkir menn hlut að máli, spruttu af vígi Hrafns miklar deilur og vígaferli, þótt nokkuð seinna væri, er fyrst leiddu til brennu Þorvalds, þá Sauðafellsreiðar og loks lífláts Þorvaldssona, er Sturla orðlengir mjög um, enda eru frændur hans mikið riðnir við öll þessi mál. Öll frásögnin ber það með sér, að hann gerir ráð fyrir, að lesandinn þekki atburðina, og að vísu eftir frásögn Hrafns sögu. Upphaf 51. kap. bendir til þessa,[5]) og enn ljósara verður það síðar í sama kap.: „En með því at Hrafns sonum þótti eigi efnt hafa verit gjörð sú, er Þórðr Sturluson hafði gert um víg Hrafns, eða sekðir Koll-Bárðar, eða fleiri manna, er heraðssekir váru gervir . . .,“ og er frá þessu sagt nánar í Hrafns sögu.[6]) Getið er og Sturlu Bárðarsonar, „er

1) Sturl.³ I, 279 og 225. — 2) Sbr. St. prol. 27. — 3) Bisk. I, 506, sbr. Safn III, 250—251, St. prol. 27. — 4) Sturl.³ I, 238, 240, Bisk. I, 647—648, 653—654. Þar er Þórður talinn Kolason eða Kalason (ritvilla?). Sbr. St. prol. 27. — 5) Sturl.³ I, 360. — 6) Sturl.³ I, 362; 316; Bisk. I, 675.

Þorvaldr lét fóthöggva á Eyri," og vísar þetta einnig til Hrafns sögu.[1])

Þessar tilvitnanir Sturlu í aðrar sögur sanna til fulls það, sem BMÓ heldur fram um tilgang Sturlu og markmið, er hann tók að rita Íslendinga sögu: að taka ekki upp efni úr eldri sögum, heldur leiða hjá sér þá atburði, er áður voru skráðir. Til enn frekari sönnunar skal það tekið fram, að þessi sama meginregla er auðsæ, þegar borið er saman upphaf Hákonar sögu við Böglungasögur, en það skal ekki nánar rakið í þessari ritgerð.

## XII.

Í formálanum er gerð grein fyrir heimildum Sturlu að Íslendinga sögu með þessum orðum: „ok hafði hann þar til vísindi af fróðum mönnum, þeim er váru á öndverðum dögum hans, en sumt eptir bréfum þeim, er þeir rituðu, er þeim váru samtíða, er sögurnar eru frá. Marga hluti mátti hann sjálfr sjá, þá er á hans dögum gerðusk til stórtíðinda."

Það er efunarlaust, að frásögnin er víða þannig vaxin, að rekja má beint til Sturlu, eins og BMÓ hefur sýnt rækilega fram á.[2]) Í síðara hluta sögunnar er mest sagt frá viðburðum, sem Sturla er ekki beinlínis við riðinn eða sjónarvottur að, og er því skiljanlegt, þó að færri frásagnir bendi beinlínis til hans sem höfundar. Hér að framan hefur þó verið bent á nokkura staði, þar sem Sturla lýsir atburðum, sem hann var riðinn við, á þann hátt, að sjá má, að frásögnin er frá honum komin. Svo er um vesturför Halls Gizurarsonar með Sturlu, er þeir hittu Ingibjörgu (252. kap.), brúðkaupið á Flugumýri (255. kap.) og viðtal Þorgils skarða og Sturlu í bardaganum á Þveráreyrum (290. kap.).

En Sturla segir frá fleiru en því, sem hann var sjálfur sjónarvottur að, enda gerist mikill hluti sögunnar fyrir hans daga og meðan hann var í bernsku. Um þá atburði

1) Sturl.[3] I, 360; 315; Bisk. I, 674. — 2) Safn III, 394—413.

hafði hann tíðindi af mönnum, er voru á öndverðum dögum hans, segir formálinn. BMÓ hefur mjög rökvíslega bent á þá menn, sem frásagnir má rekja til í fyrsta hluta sögunnar, en það eru þessir: Þórður, faðir Sturlu, er aðalheimildarmaður hans, Brandur Jónsson, Ólafur hvítaskáld (d. 1259), Árni Auðunnarson (d. 1238), Torfi prestur Guðmundarson í Hjarðarholti, Sturla Bárðarson, Halldór frá Kvennabrekku.[1]) Við þetta heimildarmannatal má bæta Páli Kolbeinssyni Kálfi Brandssyni og Gizuri Þorvaldssyni, eins og sýnt hefur verið fram á. Líklegt er, að benda megi á fleiri heimildarmenn. Í 40. og 43. kap. segir allnákvæmlega frá fyrri utanför Snorra, á þann hátt, að Sturla virðist beinlínis hafa frásögnina frá honum, eins og vænta mátti, t. d. er sagt frá því, hvar Snorri frétti víg Orms Breiðbælings, að hann hafi orðið síðbúinn úr Noregi og látið tré sitt fyrir Austfjörðum.[2]) Í 44. kap. segir frá bardaganum á Breiðabólsstað. Þar var kominn Árni óreiða. Sæmundur í Odda var þar með flokk sinn; „hann lét bjóða Árna grið *einsliga*. En hann lézk með Birni hafa mat etit um kveldit ok sagðisk þar vera mundu um daginn. Loptr spurði,. . .hvárt þar væri nökkur vin eða tengðamaðr Orms Svínfellings eða Snorra Sturlusonar, sagðisk þeim öllum vilja grið gefa. Þá svaraði Árni óreiða: „Hér kenni ek mitt mark á þessu, en þó man ek eigi við Björn skiljask at sinni“.“ Þessi frásögn virðist komin frá Árna, og hafi hann verið tíðindamaður Sturlu — eða Þórðar föður hans — um bardagann. Fleira bendir í sömu átt: Björn mæðist og biður Árna að verja rúm þeirra beggja, en menn Bjarnar léttu á Árna um vörnina, „en Steingrímr mest.“ „Árni óreiða lagði lík Bjarnar á kirkjugarðinn ok bað Sæmund þar taka við mági sínum, „ok er nú verra en fyrr“.“[3]) Árni dó 1250,[4]) og mátti Sturla því vel hafa fregnir af honum.

Frá hrakningum Áróns Hjörleifssonar er sagt allgreinilega í Íslendinga sögu. BMÓ hefur sýnt fram á, að Sturla hafi ekki þekkt Áróns sögu, sem vera mun nokk-

1) Safn III, 415—430. — 2) Sturl.[3] I, 331—332, 339—340. — 3) Sturl.[3] I, 344—346. — 4) Svínf. saga, Sturl.[3] II, 106.

uru yngri en Íslendinga saga.[1]) Er þá líklegt, að Sturla hafi haft tíðindi af Áróni sjálfum, beinlínis eða óbeint. Í frásögninni um Grímseyjarför í 49. kap. virðist sögumaður vera í flokki biskups. Það, sem segir frá síðasta viðtali Áróns og Eyjólfs Kárssonar,[1]) er auðvitað í upphafi komið frá Áróni.[2]) Frásögnin í 60. kap. er beint frá sjónarmiði Áróns: „Árón ... fann eigi fyrr en tveir menn vápnaðir gengu at naustinu. ... Áróni hvarflaði hugrinn ok vissi eigi, hve lengi hann skyldi bíða þeira.“[3])

Í frásögninni um brennu Þorvalds Vatnsfirðings er smágrein, er vísar til sögusagnar Skeggja bónda á Gillastöðum: „Skeggi bóndi gekk út í nætrelding ok sá, at naut váru í túni, sneri inn ok spurði at húskarli, ok í því kom dynr undir húsin. Sneri hann þá til dura ok sá fimm menn úti; heyrði hann þá blót ok bölvun, ok váru nefndir ýmsir menn til atgöngu, Sturla Sighvatsson ok enn fleiri aðrir.“[4])

Frá Sauðafellsreið segir í 76.—77. kap.[5]) Virðist mega rekja frásögnina að nokkuru leyti til Sólveigar, konu Sturlu Sighvatssonar, og Valgerðar, móður hennar, svo sem um það, er þær vöknuðu og viðtal Þórðar Vatnsfirðings við þær. Til sjónarvottar vísar: „Þar var aumligt at heyra til kvenna ok sárra manna.“

Svarthöfði Dufgusson er einn af aðalheimildarmönnum Þórðar sögu kakala, eins og BMÓ hefur bent á. En af þeirri ástæðu einni er ekki ósennilegt, að Sturla hafi getað haft tíðindi af honum, náfrænda sínum. BMÓ hefur bent á frásögnina um draum Svarthöfða í 268. kap.[6]) og að hann virðist hafa sagt frá ýmsum atvikum um Geldingaholtsvíg.[7]) Telur BMÓ þetta rök fyrir því, að þessar frásagnir sé úr Þórðar sögu.[8]) En ekki verða færð rök fyrir því, að Svarthöfði hafi ekki getað sagt Sturlu frá þessum atvikum, og í annan stað má sýna fram á, að Sturla hefur haft sagnir af honum um aðra atburði, sérstaklega um víg Guðmundar brennumanns Ólafssonar í

1) Safn III, 254—272. — 2) Sturl.[3] I, 356—357. — 3) Sturl.[3] I, 374—379, öll frásögnin. — 4) Sturl.[3] I, 396; 72. kap. — 5) Sturl.[3] I, 399—405. — 6) Sturl.[3] II, 222. — 7) Sturl.[3] II, 234, 238. — 8) Safn. III, 459—460.

148. kap.: „Þeir Guðmundr ok Svarthöfði váru þar hjá þeim (Austmönnum). En er þeir sá mannferðina, gengu þeir til búðar; tók Guðmundr öxi. Þá kallaði Svarthöfði hann ór búðinni, er hann kenndi Illuga. Sneru þeir þá upp til sinna manna. Þeir Illugi renna þá eptir þeim. Guðmundr fór seint, ok spurði Svarthöfði, hvárt herfjöturr væri á honum. Hann kvað þat eigi ... Svarthöfða líkaði illa, er hann hafði svá nær verit, ok var hann engi vinr Illuga síðan."[1]) Þessi frásögn hlýtur að vera beint frá Svarthöfða; enginn annar gat sagt frá samtali þeirra Guðmundar, og ekki hefði verið um það getið, hvernig Svarthöfða varð við, því að það skiptir engu máli, ef þessi frásögn hefði gengið margra í milli, áður en hún kom til eyrna Sturlu. Líklegt er, að rekja megi til Svarthöfða frásögnina í 134. kap. um sendiför hans í eyjar.[2])

Enn hefur hér að framan verið drepið á fleiri heimildarmenn: Ingibjörgu Sturludóttur, Þorbjörn nef Þórðarson, Hrafn Oddsson, Þorvarð Þórarinsson, Þorbjörn Sælending, og nægir að vísa til þess.

Um suma af þessum heimildarmönnum verður þó að slá þann varnagla, að vel má vera, að þeir hafi ekki sagt Sturlu sjálfum frá atburðum, heldur getur verið liður, einn eða fleiri, á milli. Og þó að víða berist böndin að ákveðnum heimildarmanni, hefur Sturla auðvitað haldið sem nákvæmast spurnum fyrir um atburðina og freistað að fá vitneskju um þá úr fleiri áttum en einni.

Auk þessara munnlegu heimilda hafa sumir ætlað, að Sturla hafi einnig notað skrifaðar heimildir að einhverju leyti. Þannig hefur BMÓ reynt að sýna fram á, að Halldór Jónsson frá Kvennabrekku hafi ritað frásögnina í 89.—90. kap. um líflát Vatnsfirðinga, og Sturla tekið frásögn hans óbreytta upp í söguna.[3]) Sýnir hann fram á, að mikill hluti þessa kafla sé sagður frá sjónarmiði Halldórs, og hljóti hann að vera sögumaður um þessa atburði. En lýsing þeirra Þorvaldssona sé svo ólík því, sem búast megi við frá hendi Sturlu, er annars lýsi aldrei yfirlitum

1) Sturl.³ I, 542. — 2) Sturl.³ I, 506. — 3) Sturl.³ I, 429—443; Safn III, 425—428.

manna, að hún muni ekki geta verið eftir hann. Aftur á móti sé lýsingin í 63. kap. Laxdælu, á þeim, er voru í aðförinni að Helga Harðbeinssyni, svo nauðalík þessari frásögn, að samband hljóti að vera á milli þeirra, og á þann veg, að lýsingin í Laxdælu sé yngri og gerð eftir þessari. Ætlar hann, að Halldór hafi ritað þetta skömmu eftir atburðina, og hafi þessi þáttur hans þá getað verið í höndum höfundar Laxdælu.

Þetta virðist í fljótu bragði alisennilegt, en við nánari athugun verður það þó vafasamt. Torfi prestur Guðmundarson er allvíða tíðindamaður Sturlu, svo sem BMÓ hefur sýnt fram á. Telur BMÓ hann hafa sagt frá ferðum Þorvaldssona í Dali, er þeir gistu hjá honum, og viðtali hans við þá.[1]) Eftir því ætti þáttur Halldórs að hefjast neðst á bls. 431, er hann kom fyrst til Sturlu. Engin merki sjást þess, að hér komi sjálfstæð heimild til sögunnar, er Sturla hafi haft ritaða fyrir sér og tekið upp óbreytta, en auðvitað væri Sturlu trúandi til að ganga svo frá, að ekki sæist missmíði.

En hér er fleira sem bendir á, að frásögn þessi verði ekki slitin úr samhengi, annað en það, að ekki sjáist votta fyrir samskeytum, þar sem hin nýja heimild kemur til og þar sem henni lýkur.

Í 88. kap. segir svo: „Þá kom vestan Þórðr, son Guðmundar Sigríðarsonar, ok sagði Sturlu mikit af framferði þeira (þ. e. Vatnsfirðinga), ok segja þat sumir, at hann færði ekki í þurrð; en Sturlu fannsk fátt um.“[2]) En í frásögn þeirri, sem hér ræðir um, segir svo: „ „Nú vil ek,“ segir Þórðr, „at þú, prestr, farir til Sturlu ok flytir erindi várt, at hann trúi eigi, at þat sé sakir, er Þórðr Guðmundarson lýgr á oss.“ “ Og síðar: „Þá mælti Þórðr Guðmundarson: „vel er boðit, en ekki munu þeir af halda, ef þeir fá nökkurn kost annan en deyja; er þeim nú ok meirr til várkunnar at virða en fyrr“.“[3]) Fyrri greinin vísar til þess, er sagt var í 88. kap., að Þórður bar sakir á þá bræður og dró ekki af, en hin síðari sýnir berlega, hvern hug

1) Sturl.³ I, 430—431; Safn III, 425. — 2) Sturl.³ I, 428. — 3) Sturl.³ I, 433, 438.

hann bar til Þorvaldssona, er einnig má ráða af 88. kap. — „Þá mælti Snorri Þorvaldsson: „hví sækið þér Sturla ekki at; ok ætla ek, at Dalafreyr sanni nú nafn sitt ok standi ekki nær“,“[1]) má bera saman við 76. kap., er Vatnsfirðingar velja Sturlu sama nafn og skora á hann að felast ekki.[2]) Ummæli Sturlu um Guðmund skáld Oddsson, er hann féll, svo að fótunum kastaði fram yfir höfuðið: „látum hann vera kyrran, ekki man hann saka, svá ferr hann á hverjum fundi,“ virðast benda til framgöngu hans, þegar Vatnsfirðingar riðu til Sauðafells og hann skreið upp á þvertré í skálanum og faldi sig.[3]) Þegar Þorfinnur valskur færðist undan að vega að þeim bræðrum, Þorvaldssonum, segir Sturla „hann eigi glöggt muna bringusárit, er hann fékk í Sauðafellsferð“,[4]) en frá þeim áverka er greinilegar skýrt í 77. kap.

Allt þetta sýnir berlega, að sami er höfundur þessarar frásagnar sem frásagnarinnar um Sauðafellsreið. Verður því að minnsta kosti að hafa fyrir satt, að hér hafi Sturla ekki tekið upp skrifaða frásögn annars manns *óbreytta*, eins og BMÓ heldur fram, heldur aukið hana, breytt henni og vikið við. En þó mælir annað á móti því, að svo sé.

Svo sem getið var um, hefur Torfi prestur verið tíðandamaður Sturlu um ferðir Þorvaldssona, og ætti þáttur Halldórs því ekki að byrja fyr en lýkur að segja frá burtför þeirra úr Hjarðarholti. En þegar eftir vígin er engum vafa bundið, að frásögnin er eftir Sturlu, þar sem rætt er um, hvernig Snorra muni líka eða hvort hann muni yrkja um, og er þar sveigt að Snorra um kveðskap þann, er kom upp í Reykholti eftir Sauðafellsreið (77. kap.).[5]) Halldór ætti þá einungis að hafa ritað um viðtal þeirra Sturlu, för þeirra að stakkgarðinum, bardagann, líflát Þorvaldssona og flutning líkanna. Þennan þátt vantaði því bæði upphaf og niðurlag, nema hann væri hluti af stærri sögu, er Sturla hefði tekið þennan eina kafla úr, sem ekki er ætlandi, eða Sturla hefði fellt burtu bæði upphaf og endi, til þess að betur félli í frásögn hans, og mætti að vísu hugsa sér það.

1) Sturl.³ I, 436—437. — 2) Sturl.³ I, 402. — 3) Sturl.³ 437, sbr. 404. — 4) Sturl.³ I, 440. — 5) Sturl.³ I, 442; 405—406.

En að því er vitað verður var það ekki títt, að menn rituðu smáþætti um einstaka samtíða atburði, og væri þessi frásögn að því leyti eins dæmi.[1]) Hafi Halldór ritað þennan þátt, mun það öllu fremur hafa verið að bæn Sturlu, þegar hann var farinn að búa sig undir að rita sögu sína. Ekki vita menn hvenær Halldór dó, en í Árna biskups sögu er getið um Eyjólf prest Halldórsson að Kvennabrekku, sem vel getur verið sonur þessa Halldórs.[2])

Því verður ekki neitað, að lýsing Vatnsfirðinga í þessari frásögn er með öðrum hætti en vænta mætti í Íslendinga sögu. Sturla er ekki vanur að lýsa útliti manna, eins og BMÓ tekur fram.[3]) Þó má benda á lýsinguna á Eyjólfi ofsa í 252. kap.[4]) og Oddi Þórarinssyni 276. kap.[5]) Í Hákonar sögu eru nokkurar mannlýsingar, er svipar til þessara: Pétur hertogason, Skúli hertogi, Knútur jarl, Hákon konungur ungi og Hákon gamli, og hafði Sturla þó enga þessara séð.[6]) Þessir eru að vísu aðalmenn sögunnar, og mætti segja, að Sturla hefði því svo mikið við þá. En hafi það verið gagnstætt meginreglum Sturlu, er hann hafði sett sér í upphafi, að lýsa ekki yfirlitum manna, hví skyldi hann þá hafa tekið upp slíkar lýsingar eftir aðra höfunda? Væri það ekki jafn mikið brot á reglunni? Og hvaða ástæða er til að ætla, að Sturla hafi sett sér stranga og ófrávíkjanlega reglu um þetta? Aðrir sagnaritarar hafa ekki forðazt að lýsa líkamsvexti manna, andlitsfalli og lyndiseinkunnum, heldur er fjöldi slíkra lýsinga í flestum fornsögum. Sturla hafði næg fordæmi; hví skyldi hann telja slíkar lýsingar óvísindalegar, er Snorri og aðrir ágætishöfundar prýddu rit sín með? Þó að hann sé spar á mannlýsingar, gat hann þá ekki brugðið af venju? Gat ekki straumur frásagnarinnar hrifið hann, listin krafizt síns á stöku stað, skáldið og sögumaðurinn orðið sagnaritaranum yfirsterkari? Fór ekki vel á því, að blása lífsanda í þessa mynd, er þeir stóðu í garðinum og báru við

1) Hugsanlegt er þó, að frásögn Sturlungu um Andréssonu byggist á slíkum þætti, sbr. hér að framan bls. 141. — 2) Bisk. 1, 734. — 3) Safn III, 324. — 4) Sturl.[3] II, 185. — 5) Sturl.[3] II, 239. — 6) Icel. sag. II, 232, 234—235, 321, 289, 357—358; Flat. III, 160, 162, 214, 196, 232.

himin, sneru saman bökum, átta gegn ofureflinu, sviknir í tryggðum og áttu líf sitt að verja?

Hér hefur verið sýnt fram á, að öll frásögnin um viðureignina í stakkgarðinum ber það með sér, að Sturla sé höfundur hennar og Halldór þurfi ekki að vera annað eða meira en venjulegur heimildarmaður vegna þeirrar frásagnar. Er þá þessi eina grein, lýsingin á stakkgarðsmönnum, svo ólík því, sem vænta má af Sturlu, að vegna hennar einnar þurfi að gera ráð fyrir skriflegri heimild fyrir allra frásögninni? Rökin, sem að því hafa verið leidd, eru ekki svo sterk og ótvíræð, gegn því, er bendir í aðra átt.

Sé þessi frásögn frumsamin af Sturlu, verður að gera ráð fyrir, að lýsingin í Laxdælu á Bollasonum og félögum þeirra sé eldri og hafi haft áhrif á Sturlu, þegar hann ritaði þetta.[1])

Finnur Jónsson hefur getið þess til, að Sturla hafi þekkt og notað sögu um Guðmund Arason, er greindi frá biskupsárum hans; hafi hann tekið upp úr henni það, sem honum fannst eiga heima í sögu sinni. En síðan hafi verið bætt inn í hina sérstöku Íslendinga sögu, áður en Sturlunga var rituð, köflum úr þessari sömu biskupssögu, sem koma ekki við þráðinn í Íslendinga sögu og Sturla hafi því sleppt.[2])

Fyrstu frásagnir Íslendinga sögu um Guðmund biskup eru um biskupskosninguna, tildrög flutnings Sigurðar Ormssonar norður í land, deilur biskups við þá Kolbein, þangað til Kolbeinn féll í Víðinesi, flótta Arnórs Tumasonar suður á land og aðfarir biskupsmanna eftir sigurinn; þá segir frá liðsdrætti höfðingja, yfirgangi þeirra við biskupsmenn, veru biskups í Reykholti, sáttaboðum

1) Sbr. Einar Ól. Sveinsson: Laxdæla saga, Rvík 1934, xxxi—xxxii. Kålund, Laxdæla saga, Kh. 1889—91, xl—xlii, og BMÓ. Safn III, 428 telja frásögn Laxdælu yngri, enda sé frásagnirnar um Bolla Bollason yngri en meginsagan. Rétt er að geta þess, að svipuð lýsing er í Þiðriks sögu, bls. 173—181. — 2) Litt. Hist., 2. útg., II, 729: „fra denne saga er der så bagefter, af en förste interpolator — ikke hovedbearbejderen — optaget de kapitler, der ikke har noget direkte at göre med sammenhængen i Sturlas saga“.

Arnórs, bréfum erkibiskups og utanför biskups og höfðingja. Við alla þessa atburði eru flestir höfðingjar landsins riðnir, og á þessi frásögn því heima í Íslendinga sögu. Sama máli gegnir um það, er Arnór handtók biskup og ætlaði að reka utan, um liðveizlu Eyjólfs Kárssonar við biskup, bardagann á Helgastöðum og aðfarir biskupsmanna um þær slóðir, er leiddu til bardagans. Ferð Tuma Sighvatssonar í Skagafjörð, víg hans, Grímseyjarför, sekt Áróns og hrakningar og utanför biskups, allt þetta kemur þeim Sighvati mjög við. En það sem segir um ferðir biskups þess á milli, stendur í sambandi við þessa atburði og greinir frá orsökum þess, að höfðingjar gátu aldrei séð biskup í friði. En þá koma frásagnir, sem í fljótu bragði virðast óviðkomandi söguþræðinum, og á FJ ef til vill við þetta: víg Knúts prests og Jóns Birnusonar.[1]) En þegar betur er að gætt, verður ljóst beint samband við aðra markverðari atburði. Sighvati voru að nokkuru leyti kennd völd vígs Halls Kleppjárnssonar. Af fjandskap þeim, er úr þessu spratt milli Grundarmanna og Hrafngilinga, og til hefnda eftir Tuma, lagði Sighvatur á ráð til að drepa Hafur, ráðsmann Hrafngilinga. Gunnar nokkur kumbi bar á sig vígið, en þó var það almennt kennt Jóni Birnusyni, og greinir sagan ástæður fyrir þeim grun. Kleppjárn Hallsson vegur því Jón til hefnda eftir Hafur, og er þess beinlínis getið, að Jón bæri af sér víg Hafurs í andlátinu. Aftur verður víg Knúts prests ekki sett í samband við annan atburð í sögunni en víg Jóns Birnusonar, og er þó ekkert orsakasamband í milli. En þó að svo sé, er öldungis víst, að þessi frásögn hefur frá upphafi staðið í Íslendinga sögu, en er ekki yngri viðbót, því að Sturla vísar beinlínis í hana í 163. kap.: „Þórðr reið þegar frá skipi ok Snorri Þórálfsson með honum; hann var prestr at vígslu ok var þá leikmaðr, því at hann hafði verit at vígi Knúts prests í Óláfsfirði."[2])

Það virðist því ekki geta verið rétt, að neinum af

1) Sturl.[3] I, 414—416 (81. kap.). — 2) Sturl.[3] I, 576.

þessum frásögnum sé síðar skotið inn í söguna. Aftur má vera, að bréf erkibiskups og þær aðrar greinir, er BMÓ telur safnanda hafa tekið upp úr Guðmundar sögu þeirri er hann nefnir $\beta$,[1]) sé úr Guðmundar sögu, sem er eldri en Íslendinga saga, og jafnvel eins líklegt, að þetta sé komið inn í Íslendinga sögu áður en Sturlunga varð til.

Aftur eru nokkurar líkur til þess, að Sturla hafi notað skrifaða heimild um Guðmund biskup. Á það bendir hin nákvæma frásögn um alla atburði, sem biskup og menn hans eru við riðnir, þótt margir sé ómerkilegir. Virðist frásögnin oft vera frá sjónarmiði þeirra manna, sem voru í flokki biskups. Svo er um bardagann í Víðinesi og aðdraganda hans í 26. kap.; er sagt, að biskup hafi farið með flokkinn á Möðruvöllu, og hafi Arnór og Sigurður Ormsson verið þar fyrir; heimsókn Kolbeins á staðinn er sögð frá sjónarmiði heimamanna. Um ferðir Eyjólfs Kárssonar og biskups norður, bardagann á Helgastöðum (41.—42. kap.), víg Tuma (47. kap.) virðist tíðindamaður hafa verið í flokki biskups; sama máli gegnir um víg Knúts prests og Jóns Birnusonar í 81. kap. og ferðir biskups, þangað til hann settist að í Höfða, og flest annað, sem segir um ferðalög hans.

Ennfremur er stíllinn á sumum þessum frásögnum frábrugðinn því, sem annars er í Íslendinga sögu, og einkum að því leyti, hve mjög er sagt frá í nútíð, eins og FJ hefur bent á. Ber einkum á þessu í 25. og 26. kap., um deilur biskups við Kolbein frá upphafi og allt þangað til Kolbeinn er fallinn og biskupsmenn einráðir um Skagafjörð, í 29. og einkum í 30. kap., um það er Arnór og Sigurður settust á Hólastað, þangað til erkibiskup stefndi þeim utan, í 42. kap., um dvöl biskups í Reykjadal og Helgastaðabardaga, í 81. kap. um víg Knúts prests og Jóns Birnusonar, og enn víðar. Þó að einstaka sinnum bregði fyrir líkri frásagnaraðferð á öðrum stöðum í Íslendinga sögu, kemur það annars ekki fyrir, að henni sé haldið í löngum köflum, eins og hér er gert. Eftirtektar-

1) Safn III, 290, sbr. 303—304.

vert er og, að þessi stílsháttur kemur berast fram í þeim köflum, þar sem frásögnin eltir biskupsmenn og sagan er sögð frá þeirra sjónarmiði, en ætla mætti, að Sturlu væri ókunnast um, en aftur á móti ekki í þeim frásögnum, sem hann átti auðvelt að hafa fregnir af, t. d. Grímseyjarför.

Þess er ekki að vænta, að mikil missmíði sæist á, þó að Sturla hefði haft skrifaða heimild fyrir sér, svo að ljóst væri, hvar heimildin er notuð. Þó eru nokkur atriði, auk stílsháttar þess, er minnzt var á, sem benda í þessa átt. Í 25. kap. segir svo: „Þá kom sunnan Þorvaldr Gizurarson, ok höfðu þeir mál fram á hendr mönnum biskups [, er Guðmundr biskup kallaði undirrót alls þess ófriðar, er Kolbeinn gerði honum ok hans mönnum.“[1]) Í Íslendingasögu eru engin rök leidd að þessu, og Þorvaldur kemur ekki við deilur Kolbeins og biskups fyr en nú; verður því óskiljanlegt, hvað Þorvaldi hefur gengið til, er Sturla lýsir jafnan sem hinum friðsamasta manni. Þetta er og jafnvel í beinni mótsögn við það, sem áður segir í Íslendinga sögu um upptök þessa ófriðar, er sagan kennir Kolbeini einum, svo sem segir í 24. og 25. kap.: „Þá er Guðmundr biskup kom út .... urðu margar greinir með þeim Kolbeini Tumasyni, þær er sinn veg þótti hvárum, ok varð með þeim mikit sundrþykki. Var biskup allt minni leiðingamaðr ok allt ráðgjarnari, en þeir ætluðu. ... Með því upphafi reis deila með Guðmundi biskupi ok Kolbeini Tumasyni ok hans venzlamönnum. Ásbjörn hét prestr, sá er Kolbeinn hafði fyrir sökum um fornt fémál, ok kölluðu sumir menn þá fjárheimtu eigi réttliga.“[2]) Þessum frásögnum um undirrót ófriðarins ber því ekki saman. En af prestssögunni má ráða, af hverju ummæli biskups um Þorvald munu sprottin. Þegar rætt var um biskupskosningu, kom Gizur Hallsson á

1) Sturl.[3] I, 279. — frá [ vantar í Res. á þessum stað (Bisk. I, 491), en síðar er sagt hið sama: „Þorvaldi ... er biskup kallaði grundvöll allra þessara mála.“ (Bisk. I, 495). Resensbók sýnir, að það er Þorvaldur, sem er undirrót ófriðarins, en ekki mál þau, er þeir Kolbeinn höfðu þá fram, enda voru mörg deiluefni áður. — 2) Sturl.[3] I, 276.

fundinn og hélt mjög fram Magnúsi, syni sínum, er biskup varð í Skálholti skömmu síðar, en Guðmundur varð hlutskarpari með fylgi Skagfirðinga.[1]) Af orðum biskups virðist mega ráða, að Þorvaldur hafi tekið upp þykkjuna fyrir bróður sinn og haldið á móti biskupi. Í Íslendinga sögu hefur þessi deila um biskupskosninguna aldrei staðið, því að í 17. kap. segir afdráttarlaust frá því, að Kolbeinn hafi kosið Guðmund við ráð vina sinna, og hefur ekki verið sagt nánar frá kosningunni og ekki getið um það, að reynt var koma Magnúsi Gizurarsyni á biskupsstólinn. Þar sem ofannefnd grein er því alveg tilefnislaus í Íslendinga sögu og jafnvel í beinni mótsögn við það, sem áður var sagt um þessi mál, verður tæplega gerð grein fyrir henni á sennilegri hátt en þann, að hér sjáist í gegn eldri heimild, sem gefið hafi tilefni til þessara orða, líklega á svipaðan hátt sem í prestssögunni. Þetta eru því sterkar líkur til þess, að farið sé eftir sögu um biskup, sem hefur verið framhald prestssögunnar.

Þó að frásögnin sé víða óhlutdræg,[2]) virðist hún þó öllu fremur alloft á bandi biskups og orðalagið stundum benda á, að einhver klerkur hans hafi um hana fjallað. Má þar til nefna, að í 26. kap. er þess getið, að þeir Kolbeinn heyrðu ekki klukknahljóð, og er talið til jarteikna, og síðar komizt svo að orði, að biskupi „þótti ómakliga komnir helgir dómar þeir, er bannsettir menn varðveittu.[3]) Í 29. kap.: „var Sveinn þá limaðr ok söng meðan Ave Maria. Síðan rétti hann hálsinn undir höggit, ok var allmjök lofuð hans hreysti, sem Guð hjálpi honum.“[4]) Í 30. kap. er greinin um ástand kirkjunnar mjög grunsamleg, enda telur BMÓ henni aukið inn af safnanda.[5]) Í 47. kap.: „En er biskup heyrði þetta ok vissi, at Norðlendingar váru hon-

1) Sturl.[3] I, 259; Bisk. I, 474. — 2) T. d. í 25. kap., þar sem Kolbeini er þakkað, að þeir skildu óhappalaust (Sturl.[3] I, 278), og í 29. kap., þar sem ekki er gert upp á milli flokkanna: menn þeir, er Kolbeinn hafði sótt til sektar, eru kallaðir sekir, þó að biskup hefði þá sekt að engu, en hinir, er biskup hafði bannsett, er sagt að hafi fallið „iðrunarlausir“ og „án iðran ok lausn“, en þeir Kolbeinn skeyttu þeirri bannfæringu jafn lítt sem biskup sektunum. — 3) Sturl.[3] I, 281. — 4) Sturl.[3] I, 288. — 5) Sturl.[3] I, 289—290; Safn. III, 297.

um óljúgheitir um þat, er þeir hétu honum illu, þá tók biskup þat ráð, at fara heldr í útlegð en selja menn sína í dauða ok undir vápn þeira óvina. ... Tumi sezk nú á staðinn at Hólum með sveit sína, svá sem þat væri hans föðurleifð."[1]) Í 41. kap.: „Þann vetr var biskup í Ási ok haldinn sem óspekðarmaðr í myrkvastofu" o. s. frv., sbr. ummælin um varðhald hans í 81. kap.[2]) Í 50. kap er sagt, að eftir Grímseyjarför „létu þeir Sighvatr Guðmund biskup fara utan, ok harðliga leikinn af óvinum sínum. Var hann þá nökkura vetr í Noregi, ok gerðusk þar margir merkiligir hlutir þá um háttu hans ok spásagnir."[3]) Við þetta má bæta því, sem sagt er um jarteinir biskups, og má þó vera, að frumsamið sé af Sturlu, því að hann hefur sýnilega verið trúaður á slíka hluti. Í 30. kap. er getið um dvöl biskups í Steingrímsfirði, „ok urðu þar margir hlutir, þeir er frásagnar væri verðir ok jarteinum þótti gegna, þótt hér sé eigi ritnir, bæði þat, er biskup átti við flagð þat, er þeir kölluðu Selkollu, ok margt annat."[4]) Mundu þessi orð ekki benda á það, að Sturla hafi haft fyrir sér Guðmundar sögu, sem í var Selkollu þáttur (sbr. jarteinasöguna),[5]) en ekki viljað taka hann upp í rit sitt? Sama máli mundi þá gegna um reimleikana í Kerlingarfirði (42. kap.): „Guðmundr biskup var í Kerlingarfirði ok bætti þar mjök at reimleikum þeim, er menn þóttusk þar eigi mega úti búa áðr, en síðan varð at því engum manni mein."[6]) Frá þessu er einnig sagt í jarteinasögunni.[7]) Aftur á móti má vafalaust telja nokkurn hluta frásagnarinnar um andlát biskups í 124. kap. síðari viðbót.[8])

Áróns saga verður um hríð samferða Íslendinga sögu. Hefur BMÓ sýnt fram á, að Áróns saga er síðar rituð og að höfundur hennar hefur ekki þekkt Íslendinga sögu,[9]) og mun það óyggjandi. En þó koma fyrir lík orðatiltæki í báðum sögunum. Áróns saga segir svo frá Tuma Sighvats-

1) Sturl.[3] I, 352. — 2) Sturl.[3] I, 332, 415. — 3) Sturl.[3] I, 359. — 4) Sturl.[3] I, 290. — 5) Bisk. I, 604 o. áfr. — 6) Sturl.[3] I, 335. — 7) Bisk. I, 597—598. — 8) Sturl.[3] I, 490[5]—492[7]; sbr. Safn III, 294—295. — 9) Safn III, 256—263.

syni: „Settisk þá Tumi á staðinn at Hólum ok lagði undir sik heilagra manna eign, svá sem hann væri erfingi orðinn.“[1]) Þetta er mjög líkt því, sem komizt er að orði í 47. kap. og tilfært var hér að framan (bls. 174). Í frásögninni um Grímseyjarför í 49. kap. segir svo: „En er hann (Árón) kom at kirkjugarði, gekk biskup á mót honum ok spurði ef hann vildi skriptask. Árón kvað eigi tóm at því. „Ver góðr við fátæka menn,“ segir biskup, „en sjásk munum vit enn“.“[2]) Áróns saga segir svo frá þessu: „ „. . . ok vil ek nú, son minn, at þú gangir til skriptar við mik.“ „Ekki er nú tóm til þess, herra,“ segir Árón. . . . „Vel er slíkt mælt,“ segir biskup, „. . . ok vertu sem bezt við fátæka menn . . . en þó væntir mik, at vit sjáimsk enn síðarr.“ “[3]) BMÓ telur, að þessi líking muni ekki sprottin af öðru en því, að hin munnlega heimild hafi í upphafi verið hin sama, sem sé, að Árón hafi frá þessu sagt.[4])

Það verður þó að teljast nokkuð hæpið, að orðaskipti Áróns og biskups hafi haldizt svo óbreytt í munnlegri frásögn og komið eins fyrir eyru Sturlu og höfundar Áróns sögu. Væri miklu aðgengilegra að gera ráð fyrir sameiginlegri skrifaðri heimild, sögu um biskupsár Guðmundar Arasonar. Þó er því ekki að leyna, að annarstaðar í Áróns sögu er ekki að finna viðlíka orðalíkingar við Íslendinga sögu, nema að því leyti, að í köflunum um biskup ber mikið á frásögn í nútíð, eins og í Íslendinga sögu um sömu atburði. Þær orðalíkingar, sem eru í frásögninni um Hólaför og dráp Tuma Sighvatssonar, stafa af því, að hér vantar í handrit Áróns sögu, en útgefandinn hefur fyllt þá eyðu með frásögn Resensbókar. En ritari þess handrits hefur tekið margt upp úr Íslendinga sögu og fellt inn í frásögn Áróns sögu, sem þar hefur ekki átt heima, og er þetta auðsætt í þeim köflum, sem Resensbók og hin sérstaka Áróns saga eru til samanburðar.[5])

Svo margar stoðir renna undir þá skoðun, að Sturla hafi haft skrifaða biskupssögu fyrir sér, að telja má hana mjög sennilega. Sturla hefur þá farið með þessa heimild

1) Bisk. I, 517. — 2) Sturl.[3] I, 356. — 3) Bisk. I, 526. — 4) Safn II, 259, sbr. 257 neðst. — 5) Sjá Bisk. I, lxi—lxii; Safn III, 254—256.

á annan hátt en þær sögur, sem taldar eru í formálanum, tekið efnið úr henni upp í sögu sína, í stað þess að vísa til hennar. Ástæðan er auðsæ, þessir atburðir eru svo samtvinnaðir því, er hlaut að vera eitt aðalefni Íslendinga sögu á þessum árum, að ekki varð hjá því komizt, að segja frá sömu atburðum sem biskupssagan. Hún gerist einnig öll eftir 1201, en þær sögur, sem Sturla lætur sér nægja að vísa til, gerast allar fyrir þann tíma, nema seinni hluti Hrafn sögu. Vera má og, að biskupssagan hafi aldrei orðið fullsamin; má geta þess til, að Lambkárr ábóti hafi haldið prestssögu sinni áfram og ritað um biskupsár Guðmundar, en ekki lokið verkinu. Verður jafnvel að telja harla ósennilegt, að höfundur prestssögunnar hafi sett sér það verkefni, að lýsa ævi söguhetju sinnar fram til þess, er hann var kosinn til að gegna æðsta embætti sinnar stéttar, en talið sér óskylt að halda á lofti starfsemi hans á biskupsstóli. Því að hafi það ekki orkað tvímælis, að Guðmundur Arason var höfuðprýði andlegrar stéttar á Íslandi á því skeiði ævi sinnar, sem prestssagan greinir frá, voru skoðanir samtíðarmanna því skiptari um kirkjustjórn hans og framkvæmdir á biskupsstóli, sem ollu flokkadráttum, vígaferlum og hryðjuverkum, svo að nærri stappaði hreinni innanlandsstyrjöld. Menn skyldu því ætla, að jafn eldheitur aðdáandi biskups sem höfundur prestssögunnar myndi finna hjá sér sérstaka köllun til þess, að halda áfram sögu sinni og semja varnarrit fyrir biskup, til þess að firra hann ámæli af þeim sökum, sem hann var borinn af höfðingjum. Í jarteinasögunni er Lambkárr Gunnsteinsson borinn fyrir einni sögu,[1]) og er allsennilegt, að hér sé misritað föðurnafnið, eða misminni sé um að kenna, því að Þorgils, faðir Lambkárs ábóta, var Gunnsteinsson. Rennur hér þá enn ein stoð undir þá skoðun, að höfundur prestssögunnar hafi einnig ritað um biskupsár Guðmundar Arasonar.[2])

Gera verður ráð fyrir, að Sturla hafi allmjög breytt frásögn biskupssögunnar og fært hana í stílinn, enda má í

1) Bisk. I, 599. — 2) Sbr. Safn III, 225—226.

þessum köflum sjá ljóst vitni þess, að Sturla hefur um þá fjallað. Í 25. kap., frásögninni um deilur Kolbeins við biskup, er tilvitnunin í Guðmundar sögu dýra, sem fyr var nefnd (bls. 160—161). Allvíða mun Þórður Sturluson vera tíðindamaður í þessum frásögnum, svo sem í 28. kap., um tal þeirra Sighvats, er höfðingjar drógu flokka að biskupi,[1]) um það, er Þórður fylgdi biskupi til Hóla (45. kap.),[2]) í 67. kap., um ferðir biskups um Dali,[3]) og enn víðar. Þó að frásögnin um Helgastaðabardaga sé að mestu leyti frá sjónarmiði biskupsmanna, hefur Sturla einnig haft tíðindi úr hinum flokknum: viðtal Sighvats og Arnórs, orð Sighvats við Guðmund Gilsson og ummæli hans um „sveininn Sturlu" benda á það; hefur Sighvatur sennilega sagt þeim feðgum, Þórði og Sturlu, frá þessu sjálfur.[4]) Það eitt, að hvergi vottar fyrir samskeytum, þar sem þessi heimild kemur til sögunnar eða henni sleppir, sýnir einungis, að eins og vænta mátti hefur Sturla ekki látið sér nægja að rita upp frásögn hennar, heldur hefur breytt henni, stytt hana og aukið, eftir því sem honum þótti bezt henta. Kemur í þessu berlega í ljós munur sá, sem er á starfsháttum vísindalegs sagnaritara og fróðleiksmannsins, sem á ekki sjálfur skapandi mátt, heldur vinnur það eitt, að draga sem mestan fróðleik á einn stað, eins og sá ágætismaður, sem vér eigum það að þakka, að Íslendinga saga og allur meginþorri Sturlungu hefur ekki horfið í hyldýpi gleymskunnar.

1) Sturl.[3] I, 285. — 2) Sturl.[3] I, 350. — 3) Sturl.[3] I, 389—391. — 4) Sturl.[3] I, 337—338 (42. kap.).

## *Eftirmáli.*

*Tildrög þessarar ritgerðar eru þau, að við nám mitt í íslenzkum fræðum hér við háskólann valdi eg Sturlunga sögu að kjörsviði. Haustið 1922 var mér fengið verkefni í 6 vikna ritgerð: „Hlutur Sturlu Þórðarsonar í Sturlungu og einkenni sagnaritunar hans“. Að loknu prófi lá þessi ritgerð í salti í 10 ár, en þá tók eg, fyrir áeggjan kennara minna og annara manna, sem lesið höfðu ritgerðina, að hyggja til að gefa hana út, og sýndi Bókmenntafélagið mér þá velvild, að taka hana upp í Safn til sögu Íslands. Ritgerðin var í upphafi þriðjungi lengri en hún er nú, því að eg taldi heppilegast að einskorða hana við Íslendinga sögu og sleppti því öllu, sem laut að öðrum ritum Sturlu og mestum hluta síðara aðalkafla prófritgerðarinnar, um einkenni sagnaritunar Sturlu. Málfæri hefur allvíða verið breytt, enda var naumur tími til þess að vanda frágang á ritgerðinni á 6 vikum, og má vera, að hún beri þess sumstaðar merki ennþá.*

Pétur Sigurðsson.

BJÖRN M. ÓLSEN

# UM ÍSLENDINGASÖGUR

KAFLAR
ÚR HÁSKÓLAFYRIRLESTRUM

BÚIÐ HAFA TIL PRENTUNAR
SIGFÚS BLÖNDAL OG EINAR ÓL. SVEINSSON

[SAFN TIL SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENNTA VI, NR. 3.]



REYKJAVÍK
RÍKISPRENTSMIÐJAN GUTENBERG
1937—1939

## Formáli.

*Meðan Björn Magnússon Ólsen var kennari við Háskóla Íslands (1911—18), hélt hann fyrirlestra um sögu íslenzkra bókmennta. Fyrsta veturinn fór hann yfir kveðskap fram að 1100, og um sama efni las hann aftur á árunum 1915—17. Á miðju haustmissiri 1912 byrjaði hann á ritöldinni, og um mitt næsta haustmissiri (29. nóv. 1913) hóf hann að ræða um Íslendingasögur, á útmánuðum 1914 hafði hann lokið inngangskaflanum um þær og tók nú að tala um einstakar sögur og hélt því áfram til loka vormissiris 1917; hafði hann þá með Njáls sögu lokið við að ræða um allan þorra Íslendingasagna. Hvernig þessu verki miðaði áfram, má annars lesa í Árbók Háskóla Íslands á þessum árum.*

*Eftir dauða próf. B. M. Ó. lágu fyrirleslrar þessir í salli nokkurn tíma, unz annar undirritaður, Sigfús Blöndal, vakti máls á, að hafizt væri handa um útgáfu þeirra; hafði B. M. Ó. í erfðaskrá sinni ákveðið, að Sigfús Blöndal skyldi fara gegnum handrit þau, er hann léti eftir sig, og gefa út það, sem þælti prenthæft. Fyrir tilstilli ýmissa góðra manna, fyrst og fremsl próf. Sigurðar Nordals, varð það úr, að Hið íslenzka bókmenntafélag gæfi út þann hluta fyrirlestranna, sem meslur fengur væri í, enda hlyti það til þess styrk úr Dánarsjóði B. M. Ólsens. Til að annasl útgáfuna urðum við undirritaðir, en af félagsins hálfu hefur Sigurður Nordal haft eftirlit með henni.*

*Athugun handrilsins leiddi í ljós, að ekki væri rétt að gefa það alll úl, því að það var ekki til þess búið af höfundi; varð þá að velja úr. Lögð var áherzla á það, sem helzt var nýjung í, en sneitt hjá hinu, sem til voru um prentaðar ritgerðir frá hendi B. M. Ó. eða að efni til var í samræmi við skoðanir samtíðarmanna hans. En vel þótti fara á því, að hér kæmi í ljós, að B. M. Ó. hefur margsinnis komið fram með skoðanir, sem aðrir fræðimenn hafa síðan haldið fram, oft án þess að þekkja til rannsókna hans; menn, sem lesið hafa formálana í „Íslenzkum fornritum“, munu auk skyldleika í heildarskoðun, sem útgefendunum hefur verið vel kunn, taka eftir sameiginlegum skilningi um mörg einstök atriði, og hafa þeir þá oft á sjálfstæðan hátt komizl að sömu niðurstöðu.*

*Æskilegt þótti, þegar þess væri kostur, að taka nokkurn veginn samfellda þætti, þó að þá slæddust stundum með stuttir kaflar, sem annars hefði ekki verið brýn ástæða að prenta, eins og sumt í inngangskaflanum um Íslendingasögur, og er þar þó smávegis fellt niður (bls. 37 um Þórðar s. hreðu — er að efni endurtekið, þegar rætt er um söguna sérstaklega — og bls. 107 ályktunarorð inngangskaflans). Það sýndi sig fljótlega, að langveigamestar voru rannsóknir á sumum Íslendingasögum, og heilloga kafla var varla ástæða að taka annarstaðar að. Hinsvegar var bæði þar og í öðrum köflum fyrirlestranna margvíslegt smælki, sem af einni ástæðu eða annari virtist rétt að birta, og var það fyrirætlun okkar, að prenta þetta smælki aftan við með smáu letri. Þetta gat þó ekki orðið. Þess skal getið, að Dánarsjóður B. M. Ólsens hefur greitt fyrir vinnu okkar, sem valið höfum til útgáfunnar og búið undir prentun. Hann hefur og kostað sem svarar níu síðustu arkirnar, sem ekki hefðu getað komið út ella.*

*Þess má geta um leið, að í plöggum þeim, sem B. M. Ó. lét eftir sig, fannst ýmislegt varðandi sömu rit, sem fjallað er um í þessari bók. Um afstöðu Landnámu og Gísla sögu er til brot af ritgerð og auk þess minnisgreinir; um Hallfreðar sögu eru líka til minnisgreinir; auðvitað er kjarni þeirra notaður í fyrirlestrunum. Mörg önnur e x c e r p t a varðandi sögurnar eru til, en flestallt notað. Enn má geta þess, að ritgerð sú um Úlfljótslög, sem getið er á bls. 278, er til, og er sjálfsagt að prenta hana.*

*Eins og við er að búast, eru fyrirlestrarnir skrifaðir c u r r e n t e c a l a m o, og jafnvandvirkur maður og B. M. Ó. hefði breytt miklu og lagað, ef hann hefði séð um prentun þeirra. En hér varð við það að hlíta, sem fyrir hendi var, og er lesandanum skylt að taka tillit til, hvernig þessu er háttað. Útgefendur hafa ekki leyft sér breytingar, nema hvað þeir hafa vitanlega lagfært ritvillur og á fáeinum stöðum orðalaust fellt niður orð, sem um of minntu lesandann á, að þetta væru fyrirlestrar, ávarp til áheyranda o. s. frv. Þegar kaflar hafa verið felldir niður inni í meginmáli, hefur á það verið bent með þremur strikum (svo er t. d. um upptalningar B. M. Ó. á útgáfum sagnanna). Stafsetningunni, sem Sigfús Blöndal óskaði eindregið eftir að væri haldið, höfum við ekki breytt að öðru en því, að við höfum þar sem þurfa þótti fært hana til samræmis. Vegna alþýðu manna höfum við líka samræmt stafsetningu þeirra tilvitnana úr fornu máli, sem koma fyrir í bókinni.*

*Af hálfu Bókmenntafélagsins hefur forseti þess lesið eina próförk.*

SIGFÚS BLÖNDAL EINAR ÓL. SVEINSSON

# Inngangur.

## Almennar athugasemdir um Íslendingasögur.

### I.

Það er gömul skoðun, að flestar Íslendingasögur sjeu eldri enn c. 1200. Hún stafar frá hinum danska vísindamanni P. E. Müller biskupi. Á árunum 1817—28 gaf hann út rit í 3 bindum, er hann nefndi Sagabibliothek, og er það mjög merkilegt firir sína tíma og hefur jafnvel gildi enn í dag. Þar setur hann fram þá kenning, að meginið af Íslendingasögum sje ritað firir dauða Brands biskups Sæmundarsonar (1201). Þessi kenning P. E. Müllers stiðst við einn stað í Sturlungu. Næst á eftir Sturlu sögu (Hvamms-Sturlu) skjóta Sturlunguhandritin inn nokkurs konar formála; er þar first talað um, að hjer verða margar sögur samtíða hver annari, það er lísi viðburðum, sem gerast samtímis, og eru tilnefndar auk Sturlu sögu, sem óbeinlínis er vitnað í, Þorláks saga, Prestsaga Guðmundar góða, Saga Guðmundar dýra, Hrafns saga Sveinbjarnarsonar og Íslendinga saga Sturlu Þórðarsonar. Þessar allar sögur gerast á síðari helmingi 12. aldar og á öndverðri 13. öld og eru þannig hver annari samtíða, að því er viðburðina snertir. Þá kemur í miðjum formálanum sú merkilega grein, sem P. E. Müller stiður kenning sína við. Hún er svo í öðru aðalhandriti Sturlungu (Króksfjarðarbók):

„Flestar allar sögur, þær er hér hafa gerzt á Íslandi, váru ritaðar, áðr Brandr biskup Sæmundarson andaðist, en þær sögur, er síðan hafa gerzt, váru litt ritaðar, áðr

Sturla skáld Þórðarson sagði fyrir Íslendinga sögur, ok hafði hann þar til vísindi af fróðum mönnum, þeim er váru á öndverðum dögum hans, en sumt eftir bréfum þeim, er þeir rituðu, er þeim váru samtíða, er sögurnar eru frá; marga hluti mátti hann sjálfr sjá, þá er á hans dögum gerðust til stórtíðinda".

Það er á firstu klausu þessa máls, að P. E. Müller biggir sína skoðun. Af henni ræður hann, að flestallar Íslendingasögur hafi verið færðar í letur fyrir 1201 eða firir aldamótin 1200. First í stað hölluðust flestir vísindamenn, þar á meðal Finnur Magnússon, að þessari skoðun P. E. Müllers, en laust eftir 1860 fóru að koma fram mótmæli gegn henni frá mjög merkum vísindamönnum, svo sem Niels Mathias Petersen, Guðbrandi Vigfússini og K. Maurer. Síndu þessir vísindamenn fram á, að klausan þannig skilin kæmi í bága við það, sem menn vissu um aldur ímsra hinna helstu Íslendingasagna, sem síndu það sjálfar, að þær væru ritaðar eftir dauða Brands biskups, og að klausan þar að auki kæmi ekki heim við málið á undan og eftir í formálanum, ef átt væri við sögur þær, er gerðust á söguöldinni eða hinar eiginlegu Íslendingasögur. Og Guðbr. Vigfússon sá það af skarpskigni sinni, að hjer var eitthvað bogið við texta Króksfjarðarbókar, sem P. E. Müller bigði á, og reindi að laga textann með mjög miklum skarpleik.

Nú vill svo vel til, að hjer er til samanburðar hitt aðalhandrit Sturlungu, Reikjarfjarðarbók, sem að vísu er nokkru ingra enn Króksfjarðarbók og að öllu samtöldu lakari, enn þó hefur víða rjettari texta enn Króksfjarðarbók. Á dögum P. E. Müllers var þessi bók ókunn, og hann þekti ekki annan texta enn þann, sem stóð í gömlu útgáfunni og var runninn frá Króksfjarðarbók. Þegar nú Guðbrandur Vigfússon fór að rannsaka Reikjarfjarðarbók, þá staðfesti hún getgátu hans, því að þar fann hann texta, sem í öllu verulegu kom heim við það, sem hann hafði getið til, að upphaflegt mundi vera.

Í Reikjarfjarðarbók er textinn svo: „Flestar allar sögur, þær er gerzt höfðu á Íslandi, áðr Brandr biskup Sæmundarson andaðist, váru ritaðar, en þær sögur, er síðan hafa gerzt, váru litt ritaðar, áðr Sturla skáld Þórðarson sagði fyrir Íslendinga sögur.“

Þar sem nú Reikjarfjarðarbók staðfestir svo glæsilega tilgátu Guðbrands Vigfússonar, þá hefði mátt búast við því, að kenning P. E. Müllers, að þessi Sturlungustaður ætti við Íslendingasögur, væri úr sögunni. Enn það var öðru nær. Hún gekk aftur í nírri mind í bókmentasögum þeirra Finns Jónssonar og E. Mogks, og frá þeim breiddist hún svo út, að hún hefur til skamms tíma mátt heita drotnandi skoðun meðal þeirra manna, sem fást við íslenskar bókmentir.

Frá því firsta, er jeg fór að hugsa um þetta mál, hef jeg ekki verið í neinum efa um, að skíring P. E. Müllers á þessum Sturlungustað væri röng, og að hinn upphaflega texta væri að finna í Reikjarfjarðarbók, enn Króksfjarðarbók afbökuð. Jeg hef með öðrum orðum hallast að skoðun Guðbrands Vigfússonar. First ritaði jeg um þetta efni í Sturlungu-ritgerð minni í Safni t. s. Ísl. III og komst þar að þeirri niðurstöðu, að Guðbr. Vigfússon hefði rjett að mæla í aðalefninu, enn leiddi um leið rök að því, að Sturlunguformálinn, sem hin umrædda klausa stendur í, væri ekki frumsaminn af safnanda Sturlungu, heldur hefði hann soðið hann upp úr formála Sturlu Þórðarsonar fyrir Íslendinga sögu. Þessi ritgjörð birtist um síðustu aldamót. Síðan urðu mjer íms atriði ljósari í þessu máli, og miðaði það alt í þá átt, að stirkja mig enn betur í þeirri skoðun, sem jeg hafði haldið fram í Sturlunguritgjörðinni. Varð þetta til þess, að jeg ritaði nía sjerstaka ritgjörð um þetta efni, sem birtist í ritum hins norska Visindafjelags í Kristíaníu 1910 og nefnist: „Om den såkaldte Sturlungaprolog og dens formodede vidnesbyrd om de islandske slægtsagaers alder.“ Jeg hef þar leitast við að sanna, að textinn í Króksfjarðarbók er afbakaður, og að menn komast í hinar verstu ógöngur, ef menn fylgja honum, enn hins vegar

að alt verður ljóst og eðlilegt, ef menn filgja texta Reikjarfjarðarbókar. Enn fremur hef jeg þar leitt ní og, að því er mjer virðist, óiggjandi rök að því, að Sturlunguformálinn hafi geimt aðalefnið í formála Sturlu firir Íslendinga sögu. Áður hafði jeg sínt, að Sturla hafði skrifað Íslendinga sögu sína sem beint áframhald af sögu Hvamms-Sturlu, afa síns. Í formála sínum firir Íslendinga sögu hefur hann svo bent á þau sagnarit, sem til vóru, þegar hann skrifaði Íslendinga sögu, og lístu viðburðum í sögu landsins, sem gerðust samtíða þeim viðburðum, er Sturlu saga og Íslendinga saga Sturlu skíra frá. Þetta eru þær „samtíða“ sögur, sem formálinn getur um: Þorláks s., Prestsaga Guðmundar góða, Guðmundar saga dýra og Hrafns saga. Þær gerast allar samtíða Sturlu sögu og Íslendinga sögu Sturlu, á síðari hluta 12. aldar og firri hluta 13. aldar. Og það eru þær einar og ekki aðrar, sem formálinn á við, þar sem segir:

„Flestar allar sögur, þær er gerzt höfðu á Íslandi, áðr Brandr biskup Sæmundarson andaðist, váru ritaðar, enn þær er síðar hafa gerzt, váru lítt ritaðar, áðr Sturla skáld Þórðarson sagði fyrir Íslendinga sögur.“

Í munni Sturlu þíðir þetta, að flestir merkilegir viðburðir, sem gerðust firir andlát Brands biskups samtíða viðburðum þeim, sem Sturlu saga og Íslendinga saga skíra frá, hafi verið í sögur færðir, er hann samdi sína Íslendinga sögu, enn lítið hafi verið ritað um þá viðburði, sem gerðust eftir lát Brands biskups. Úr þessu ætlar Sturla sjer að bæta með Íslendinga sögu sinni. Hann ætlar sjer að skíra frá þeim viðburðum þessa tíma, sem aðrar sögur hafa ekki skírt frá, með öðrum orðum filla í skörðin, þar sem aðrar sögur eru ekki til. Og að þetta sje hugsun Sturlu í formálanum, sjest á Íslendinga sögu sjálfri. Framan af, alt að dauða Brands biskups, er hún aðeins ættarsaga, framhald af Sturlu sögu, segir eingöngu frá Guðnýju ekkju Hvamms-Sturlu og sonum hennar Þórði, Sighvati og Snorra, eða frá viðburðum, sem þessir menn vóru við riðnir. Enn frá dauða Brands biskups 1201 víkkar sjóndeildarhringur sög-

unnar, svo að hún verður sannkölluð Íslendinga saga og nær ifir sögu als landsins. Þetta kemur alveg heim við orð formálans. Um tímann, sem leið frá dauða Sturlu til 1201, gat sagan verið fáorð, og þurfti ekki að segja frá öðru enn því, sem snerti Sturlunga, af því að um annað merkilegt, sem þá gerðist, vóru til aðrar sögur. Um tímann eftir 1201 var aftur á móti litið ritað, og því varð Sturla að segja nákvæmlega frá öllu, sem þá gerðist, þó að það snerti ekki sögu Sturlunga. Þetta samræmi milli formálans og Íslendinga sögu sjálfrar sínir það ljóslega, að formálinn og sagan eiga saman frá upphafi, og að sögur þær, sem formálinn hefur firir augum, eru eingöngu þær, sem gerast á ofanverðri 12. eða á öndverðri 13. öld, samtíða Sturlu sögu og Íslendinga sögu, enn als ekki þær sögur, sem gerast á söguöldinni (930—1030), hinar svo nefndu Íslendinga sögur.

Af þessum stað í Sturlungu verður því ekki leidd nein áliktun um aldur Íslendingasagna, hvorki með nje móti því, að þær sjeu eldri enn ca.1200. Ifir höfuð að tala fást fornrit vor aldrei beinlínis við spurningar, sem snerta sögu bókmenta vorra, og ef þau upplísa eitthvað í því efni, þá verður höfundunum það altaf ósjálfrátt. Svo er um þennan stað. Þegar Sturla tók það fram í formála sínum firir Íslendinga sögu, að ímsar sögur væru til um tímabilið rjett fyrir aldamótin 1200, svo sem Þorláks saga, Guðmundar saga dýra osfrv., þá gekk honum als ekki það til, að hann vildi gefa upplísingar um aldur þessara sagna, heldur einkum og sjer í lagi hitt, að hann vildi taka fram orsökina til þess, að hann tók ekki efni þessara sagna inn í rit sitt — hann vildi ekki taka með það efni, sem áður var búið að rita um — og jafnframt hefur hann viljað benda fróðleiksfúsum lesanda á, hvar hann gæti fundið það efni, sem hann sjálfur gekk fram hjá. Óbeinlínis vottar Sturla um leið, að allar þær sögur, sem hann nefnir í formálanum, hafi verið ritaðar, þegar hann samdi Íslendinga sögu, eða með öðrum orðum sjeu eldri en hún. Enn þetta vitni ber hann alveg ósjálfrátt; það var ekki það, sem hann sjerstaklega vildi taka fram.

Líkt má segja um annan vitnisburð um aldur sagna, sem stendur í formála Snorra Sturlusonar firir hinni sjerstöku Ólafs sögu helga (sem gefin er út í Kristianíu 1853 og í Fms. 4.—5. b.). Formáli þessi er í öllum aðalatriðum sama efnis og formáli Snorra firir Heimskringlu, mart sagt með alveg sömu orðum, og efnið er að skíra frá þeim heimildum, sem höfundur hafi filgt við samning Noregskonungasagna sinna og meta sögulegt gildi þessara heimilda. Alt snist í þessum formála um Noregskonungasögur eingöngu. Síðari kafli formálans beinist að því að sína, hvert gildi munnlegar sögusagnir, sem lengi hafa geimst í manna minni, hafi gagnvart þeim samtíða heimildum, sem felast í kvæðum fornskálda um Noregskonunga, og höfundur kemst að þeirri niðurstöðu, að skáldakvæðin sjeu þingri á metunum og áreiðanlegri enn munnlegar sagnir um löngu horfna tíma. Og í þessu sambandi segir höfundur:

„Þat var meir en 2 hundruð vetra tólfræð, er Ísland var bygt, áðr menn tæki hér sögur at rita, ok var þat löng ævi ok vant, at sögur hefði eigi gengizt í munni, ef eigi væri kvæði bæði forn ok ný, þau er menn tæki þar af sannindi fræðinnar.“

Þessi vitnisburður um, hvenær Íslendingar fóru first að rita sögur, er ekki sprottinn af áhuga á bókmentasögu Íslendinga, heldur kemur hann að eins fram ósjálfrátt sem einn liður í röksemdaleiðslu höfundarins firir því, að meira sje að marka samtíða skáldakvæði enn gamlar sögusagnir.

Að minni skoðun á þessi vitnisburður ekki við Íslendingasögur þær, er gerast á söguöldinni, heldur sjerstaklega við Noregskonungasögur, því að höfundur hefur þær alstaðar firir augum í formálanum. Þetta sjest meðal annars á því, að höfundur setur þessar sögur á móti skáldakvæðunum, og á þar sjerstaklega við hirðskálda kvæði til Noregskonunga, eins og sjest þar sem höfundur talar um kvæði, kveðin „fyrir sjálf-

um höfðingjanum", og að skáldið mundi ekki þora að segja ósatt um afreksverk höfðingjans frammi firir honum sjálfum og hirðinni. Úr því að höfundurinn, þar sem hann talar um kvæði, á aðeins við kvæði til Noregskonunga, þá hlítur hann líka í þessu sambandi, þar sem hann talar um sögur, að eiga við sögur um Noregskonunga.

Sama verður uppi á baugi, þegar vjer higgjum að efni þessa vitnisburðar. Hann segir, að meira en 240 ár hafi liðið frá því er Ísland var bigt, þangað til Íslendingar fóru að rita sögur. Nú stóð Íslands bigð ifir í 60 ár frá 870—930, og með berum orðum er ekki sagt, hvort á að telja þessi 240 ár frá birjun Íslands bigðar (870) eða frá lokum landnámsaldarinnar (930), svo að þetta virðist í fljótu bragði vera nokkuð óákveðið. Konr. Maurer hefur haldið því fram, að 240 árin eigi að telja frá 930.[1]) Enn það getur með engu móti verið rjett. Vitnisburður þessi stendur í nánu sambandi við það sem sagt er rjett á undan í formálanum, að síðan Haraldr hárfagri tók við ríki, viti menn „miklu gerr sannindi at segja frá ævi Noregskonunga", á hans dögum hafi Ísland bigst, og þá hafi verið mikil ferð (mannflutningar) af Noregi til Íslands, þá hafi menn á hverju sumri haft tíðindi milli landanna og þau tíðindi verið í minni færð og síðan höfð til frásagna. Hjer er það sagt berum orðum, sem og er hárrjett, að hinar munnlegu sagnir, sem bárust til Íslands af Noregskonungum, birji undir eins og fólkstraumurinn hingað frá Noregi hefst, með öðrum orðum með birjun landnámsaldarinnar. Þegar svo höfundur síðar fer að telja saman, hve lengi hinar elstu sagnir, sem til Íslands bárust, hafi geimst í manna minnum, þá hlítur hann að telja alla landnámsöldina með, annars væri hann í mótsögn við það, sem á undan er gengið. Hann telur því frá 870. Frá því ári líða meira en 240 ár, þangað til menn fara

1) Über die Ausdrücke 41. athgr.

að rita *sögur*, það er með öðrum orðum ekki fir en nokkru eftir 1110. Þetta kemur alveg heim, ef höfundur, þar sem hann nefnir „sögur“, á við hin elstu sagnarit, sem Íslendingar hafa ritað um æfi Noregskonunga, með öðrum orðum við sagnarit þeirra Sæmundar fróða og Ara. Ari ritaði *konungaæfi* sem kafla í hinni eldri Íslendingabók sinni á árunum 1122—1132, og bók Sæmundar um Noregskonunga hlítur að hafa verið nokkru eldri, segjum frá c. 1115. Nákvæmar gat höfundurinn ekki komist að orði. Aftur á móti getur höfundurinn með engu móti átt við Íslendinga sögur, þær er gerðust á söguöldinni, því að engar minstu líkur eru til, að menn hafi svo snemma verið farnir að færa þær í letur. Það væri í beinni mótsögn við málfræðisritgjörðina firstu, enda heldur enginn vísindamaður því fram, að þær sögur hafi verið skráðar svo snemma. Þessi vitnisburður Snorra er því alveg þíðingarlaus, að því er snertir Íslendingasögur.

Það er því ekki til neinn gamall vitnisburður um það, að Íslendingasögur sjeu ifirleitt eldri en 1200 eða að sú grein bókmentanna hafi staðið í blóma á síðari helming 12. aldar. Enn vissa um aldur þessara sagna fæst ekki öðruvísi enn með því að rannsaka sem best hverja einstaka sögu, orðfæri hennar og efni, og bera hana nákvæmlega saman við aðrar sögur og önnur rit, ekki síst við Landnámu, og draga fram alt, sem getur gefið bending um aldur sögunnar. Slíkar rannsóknir eru enn skamt á veg komnar. Þó má það heita sannað um margar af hinum helstu sögum, svo sem Eiglu, Eyrbyggju, Laxdælu o. fl., að þær geta ekki verið eldri enn frá öndverðri 13. öld. Um aðrar má sanna, að þær eru ekki eldri en frá síðari helming 13. aldar, t. d. Gunnlaugs saga ormstungu. Njála er eflaust ekki eldri en frá lokum 13. aldar, og sumar sögur, t. d. Grettla, virðast vera frá öndverðri 14. öld. Á þessu sjest, að það er talsverður aldursmunur á sögunum. Merkilegt er það, að flestar Íslendingasögur eru til vor komnar í tiltölulega ungum handritum, frá aldamótum 1300

eða frá 14. öldinni, og varla nokkurt söguhandrit til, sem sje eldra enn 1250.[1]) Þetta bendir í þá átt, að ekki hafi verið skrifað mikið af sögum firir 1200. Ifir höfuð að tala virðist mjer líklegast, að blómatími Íslendingasagna sje á 13. öldinni, til þess tíma virðist mjer allur blærinn á þessum sögum helst benda, orðfæri þeirra og framsetning, enn þó vil jeg ekki fortaka, að einstaka saga kunni að vera rituð firir 1200, og gæti jeg helst trúað því um Heiðarvíga sögu, því að mjer finst hún vera fornlegust allra Íslendingasagna að orðfæri og framsetningu.

## II.

Hvernig eru þessar sögur til orðnar? Á því getur enginn efi leikið, að þær eiga aðallega rót sína að rekja til munnmælasagna, sem gengið hafa um sögukappana. Á það bendir bæði efni sagnanna og orðfæri þeirra og framsetning, sem líkist mjög munnlegri frásögn. Ógrinni af munnmælasögum hljóta að hafa gengið á Íslandi á 11. og 12. öldinni, og þar voru til sagnamenn, sem lögðu það firir sig að skemta mönnum með sögum, eins og t. d. maðurinn, sem sagði Útfararsögu Haralds harðráða og fleiri sögur við hirð Haralds, og þeir Ingimundr prestur Einarsson og Hrólfr af Skálmarnesi, sem skemtu með fornaldarsögum í Reikhólaveislunni 1119. Að vísu finst þess ekkert dæmi í fornritum vorum, að slíkir sagnamenn hafi valið sjer Íslendingasögur að söguefni. Hins er aðeins getið, að þeir hafi sagt frá fornaldarsögum (Ingimundr, Hrólfr) eða frá viðburðum, sem heita máttu samtíða. Svo er um manninn, sem sagði Útfararsögu Haralds harðráða. Laxdæla segir, að Kjartan Ólafsson hafi skemt boðsgestunum í brúðkaupi sínu með því að segja frá utanferð sinni. Það er samtíða viðburður. Í Fóstbræðra sögu stendur þessi meistaralega frásögn

1) Eitt brot af Eiglu virðist vera frá c. 1250 (AM. 162 $\theta$). Elsti parturinn af Heiðarvíga sögu hdr. í Konungsbókasafni í Stokkhólmi nr. 18, 4° er líklega hjerumbil frá sama tíma.

frá vígi Þorgríms trölla, sem hafði drepið Þorgeir Hávarsson, fóstbróður Þormóðar Kolbrúnarskálds. Sagan gerist á alþingi Grænlendinga í Görðum. Þormóðr er þar staddur. Hann hefur gert sjer ferð til Grænlands til að hefna fóstbróður síns. Hann liggur heima í búð og sefur og hefur breitt ifir sig feld sinn tvílitan. Þegar hann vaknar, sjer hann, að búðin er tóm, allir gengnir út, sem áður vóru inni. „Ok í því kemr Egill (Fífl-Egill, filgdarmaður Þormóðs) farandi í búðina ok mælti: „Of fjarri ertu mikilli skemtan". Þormóðr spyrr: „Hvaðan komtu at eða hvat er nú í leikum til skemtanar?" Egill svarar: „Ek var at búð Þorgríms Einarssonar (trölla), ok er þar nú mestr hluti þingheimsins". Þormóðr spurði: „Hvat er þar til skemtanar?" Egill mælti: „Þorgrímr segir þar sögu." Þormóðr mælti: „Frá hverjum er saga sú, er hann segir?" Egill svarar: „Ekki veit ek gjörla, frá hverjum sagan er, enn hitt veit ek, at hann segir vel frá ok skemtilega, ok er stóll settr undir hann úti hjá búðinni, ok sitja menn þar umhverfis ok hlýða til sögunnar." Þormóðr mælti: Kunna muntu nökkurn mann at nefna, þann sem er í sögunni, allra helzt er þú segir svá mikit frá at (gaman sé)." Egill mælti: „Þorgeirr nökkurr var mikill kappi í sögunni, og svá virðist mér, sem hann Þorgrímr mundi verit hafa nökkut við söguna ok gengit mjök vel fram, sem líklegt er. Vilda ek, at þú gengir þangat ok hlýddir til skemtanar." „Vera má þat", sagði Þormóðr. Ríss hann nú upp ok tekr yfir sik feld sinn ok snýr út hinu svarta á feldinum, tekr öxi sína í hönd sér ok setr hött á höfuð sér — gengr til búðar Þorgríms." Þá segir frá, hvernig Þormóðr vegur Þorgrím trölla og sleppur burt. — Það er samtíða viðburður, sem sagan hjer lætur Þorgrím segja frá. Enn samt sem áður er það als ekki fortakandi, að sagnamenn á 11. eða 12. öld hafi stundum valið sjer efni úr fortíð Íslendinga eða Íslendingasögum til sagnaskemtanar, þó að þess sje hvergi beinlínis getið. Og víst má telja, að munnlegar sögur liggja að miklu leiti til grundvallar firir Íslendingasögum vorum.

Sumir fara jafnvel svo langt, að þeir halda því fram, að hinar skriflegu sögur, sem til vor eru komnar, hafi verið til óbreittar eða svo að kalla óbreittar sem munnlegar sögur, áður en þær vóru færðar í letur, og að þeir, sem rituðu þær, hafi í rauninni ekki gert annað við þær enn að skrifa þær upp eins og þær gengu manna á meðal í munnmælum, með öðrum orðum, að þeir sjeu ekki höfundar sagnanna, heldur að eins ritarar eða ritvjelar til að skrásetja þær. Þetta higg jeg vera hinn mesta misskilning og hróplegt ranglæti við þá, sem rituðu sögurnar. Að vísu er það ekki alveg óhugsandi, að sumar hinar minstu eða stitstu sögur, svo sem sumir smáþættir, sjeu skrifaðar upp nokkurn veginn óbreittar eftir munnlegri frásögn. Enn undir eins og sagan verður nokkuð ifirgripsmeiri og söguefnið flóknara, þá verður það mjög ólíklegt, að jeg ekki segi alveg ómögulegt, að óbreitt munnleg sögn liggi alstaðar á bak við söguna. Því betur sem vjer lesum sögur vorar ofan í kjölinn, því dípra sem vjer sökkvum oss ofan í þær, því nákvæmar sem vjer rannsökum þær, því betur munum vjer komast að raun um, að þær eru listaverk, og að listamaður hefur haldið á pennanum, sem festi þær á bókfell, og að á bak við þær liggur ekki ein samanhangandi munnleg saga, heldur fjöldinn allur af einstökum munnmælasögum, sem höfundur sögunnar hefur safnað saman og vinsað úr og reint að gera úr eina heild. Stundum liggja líka skriflegar heimildir á bak við söguna. Einkum hafa margir sagnaritarar haft Landnámu firir sjer, tekið úr henni það, sem þeir þurftu, og ímist notað það óbreitt eða steipt því saman við munnmælasögur þær, sem þeir þektu, eða breitt því eftir munnmælasögunum eða stundum jafnvel eftir geðþótta sínum. Dæmi þessu til sönnunar má finna í rannsóknum mínum um afstöðu ímsra sagna við Landnámu. T. d. er það víst, að höfundur Egils sögu hefur þekt frásögn hinnar upphaflegu Landnámu um takmörkin á landnámum þeirra Skalla-Gríms og Ketils hængs, enn hann

hefur stækkað þessi landnám gífurlega, annaðhvort eftir ingri munnmælasögum eða þó líklega heldur eftir geðþótta sínum. Líka er það víst, að Eyrbyggja hefur þekt hina upphaflegu Landnámu, en breitt frásögn hennar í ímsum atriðum eftir munnmælasögum. Líkt má segja um Þorskfirðinga sögu hina eldri, sem Gull-Þóris saga er frá runnin. Hún hefur þekt hina upphaflegu Landnámu, enn bætt við ímsum landnámsmönnum á því svæði, sem hún nær ifir, eftir munnmælasögum, og síðan hafa þessir landnámsmenn verið teknir inn í tvö af Landnámuhandritum vorum. Stundum hefur söguhöfundur haft firir sjer vísur, samtíða viðburðunum, t. d. höfundur Egils sögu kvæði Egils, Eyrbyggju Máhlíðingavísur Þórarins og Hrafnsmál Þormóðs Trefilssonar um Snorra goða. Oft er erfitt að dæma um, hvort vísur í sögum eru rjett feðraðar. Oft eru þær frá síðari tíma og sumar ortar af söguhöfundi til skrauts og til að gefa frásögninni sannleiksblæ.

Ifir höfuð að tala higg jeg, að þeir sem hafa ritað sögur vorar, hafi farið mjög líkt að og þeir menn á vorum dögum, sem hafa ritað sögur manna, sem lifðu firir minni þeirra, t. d. Gísli Konráðsson, Brynjólfur Jónsson frá Minnanúpi. Þeir hafa safnað öllum þeim munnmælasögum, sem þeir náðu í um persónur sögunnar, vinsað úr þeim það sem þeim þótti sennilegast og sögulegast og fært það síðan í eina heild, fágað það og prítt með ritsnild sinni. Mjög líkt þessu hefur Brynjólfur frá Minnanúpi farið að í sögunni af Þuríði formanni og Kambsránsmönnum. Munurinn er sá, að hann hefur meðfram stuðst við prófin, sem haldin vóru út af Kambsráninu, enn þeir, sem rituðu Íslendingasögur, höfðu engin slík samtíða skjöl við að stiðjast, þau vóru engin til. Lítum og á aðferð Ara fróða. Hana þekkjum vjer til hlítar, því að hann hefur sjálfur tilgreint heimildarmenn sína. Hann safnar að sjer úr öllum áttum munnlegum sögum þeirra manna, sem elstir vóru og áreiðanlegastir og lengst mundu fram. Þessar sagnir

færir hann síðan sjálfur í letur og setur þær saman, svo að þær minda eina heild, hvort sem hún nú heitir Íslendingabók eða Landnáma eða Noregskonungaæfi. Sömu aðferð filgdi Eirikr Oddsson í bók sinni Hryggjarstykki, er hann samdi um sögu Noregskonunga á dögum Haralds gilla og sona hans. Snorri tilgreinir eftir Eiríki 2 af heimildarmönnum hans og bætir við: „Enn nefnir Eiríkr fleiri menn, er honum sögðu frá þessum tíðindum, vitrir ok sannreyndir, ok váru nær, svá at þeir heyrðu eða sá viðburðina, en sumt reit hann eftir sjálfs sín sýn eða heyrn.“ Í Ólafs sögu Tryggvasonar hinni löngu eru taldir 6 heimildarmenn, sem þeir Oddr og Gunnlaugr munkar hafi haft sögur frá, er þeir skráðu sögu Ólafs, og i Þorvalds þætti víðförla, sem er tekinn upp í hina löngu Ólafs sögu, enn frumsaminn af Gunnlaugi munk, er það haft eftir Gunnlaugi, að hann hafi ritað frásögu þáttarins um veisluna á Haukagili, þegar Friðrekr biskup og berserkirnir óðu eldana, eftir sögn sannorðs manns Glúms Þorgilssonar, enn Glúmr hafi numið að Arnóri Arndísarsini. Hjer er um viðburð að ræða, sem á að hafa gerst á Íslandi á söguöldinni, alveg eins og viðburðir þeir, sem Íslendingasögur vorar segja frá. Þessi viðburður, sem Gunnlaugr hefur eftir Glúmi, er ekki nema eitt lítið atriði i Þorvaldsþættinum, og Þorvaldsþáttur er aftur partur af annari stærri heild, Kristniþætti Ólafs sögu. Vjer sjáum þá, hvernig Gunnlaugr hefur verið sjer úti um munnlegar heimildir firir einstökum atriðum, eða með öðrum orðum safnað munnmælasögum, sem hann svo setti saman í eina heild og gerði úr Kristniþáttinn. Sama hefur Sturla Þórðarson gert i Íslendinga sögu sinni. Í Sturlunguritgerð minni (Safn III) hef jeg sínt, að hann hefur haft sögur um ímsa viðburði frá Þórði föður sínum, Ólafi bróður sínum, Órækju og Þorleifi í Görðum frændum sínum o. fl. Má þá ekki ganga að því vísu, að þeir, sem rituðu Íslendingasögur, hafi beitt líkri aðferð og þeir Sturla Þórð-

arson og Gunnlaugr munkur, líkri aðferð og Eiríkr Oddsson og Ari fróði, líkri aðferð og Brynjólfur Jónsson og Gísli Konráðsson o. fl., sem ritað hafa sögur líkar Íslendingasögum á vorum dögum? Jú! Þeir hafa eflaust alveg á sama hátt safnað að sjer munnlegum sögum úr ímsum áttum, klætt þær í fagran búning og fært þær síðan í eina heild. Stundum geta sögurnar líka um missagnir, og sínir það ljóslega, að sagnaritararnir hafa safnað sögum úr ímsum áttum. Oft kemur firir „sumir menn segja“, „þat er sumra manna sögn“, „svá segja menn“ eða því líkt.[1]) Stundum er beinlínis getið um missagnir, einkum í Reykd.[2]) Mjög sjaldan tilgreina Íslendingasögur heimildarmenn með nafni.[3])

Ekki er þó loku firir það skotið, að þeir, sem rituðu sögurnar, hafi aðallega stuðst við einn sögumann, sem þeir hafa haft sögur frá, og getur þá verið álitamál, hvort þessi sögumaður eða sá, sem ritaði eftir firirsögn hans, er höfundur sögunnar. Niðurlag Droplaugarsona sögu virðist í fljótu bragði benda til, að sú saga sje til orðin á þann hátt. Enn textinn er því miður auðsjáanlega eitthvað úr lagi færður, og af því að staðurinn er mjög merkilegur firir þá spurning, sem hjer er um að ræða, verð jeg að taka hann til nákvæmrar íhugunar. Í Möðruvallabók (AM. 132 fol.), hinu eina skinnhandriti, sem til er af niðurlagi sögunnar, standa þessi orð um Helgu Ingjaldsdóttur, ekkju Gríms Droplaugarsonar:

1) Eyrb. k. 43,6 að Snorri goði hafi lagt ráðin á, k. 44,19 að Snorri hafi verið auðveldur í griðasölunni, af því að hann sá til Breiðvíkinga, sem komu til liðs við Steinþór í Álftafirði; Fóstbr., KG., bls. 36, um kappræðu Þorgeirs við Þormóð; Laxd., 17. k., um að Hrappr afturgenginn hafi drepið flest hjú sín. — 2) K. $3^{50}$ missögn um dauðdaga Eysteins Mánasonar, k. $16^{68}$ um dauðdaga Steingríms, k.$25^{59}$ um skilnað Þorlaugar Glúmsdóttur og Víga-Skútu, sbr. Glúmu. sem segir, að Skúta hafi rekið hana frá sjer, k. $26^{63}$ Fluga Skútu, öxi (Reykd.) eða sverð (Gl., k. $16^{40}$). Missagnir eru og greindar í Svarfd., 32. k. — 3) Eyrb., k. 65,15—17, Guðný Böðvarsdóttir um flutning beina Snorra goða o. fl. úr Sælingsdalstungu-kirkjugarði.

„Helga bjó eftir Ingjald (föður sinn) liðinn á Arneiðarstöðum ok *Þorkell*, son þeira Gríms. *Þorvaldr* átti son, er Ingjaldr hét, hans son hét Þorvaldr, er sagði sögu þessa. — Vetri síðar enn Þangbrandr prestr kom til Íslands, fell Helgi Droplaugarson“.

Þessi texti getur ómögulega verið rjettur, því að ættartalan slitnar í sundur. Þorvaldr sá, sem nefndur er, faðir Ingjalds, kemur inn í hana eins og skollinn úr sauðaleggnum. Allir þeir, sem um þetta hafa ritað, vilja laga þetta á þá leið, að breita nafninu *Þorkell* á sini Gríms í *Þorvaldr*. Þeir segja, að „Þorkell“ og Þorvaldr sje bersinilega sami maðurinn, og þeir stiðja mál sitt með því að vitna í Fljótsdælu hina meiri, mjög unga sögu, sem hefur haft Droplaugarsona sögu firir sjer. Þar stendur: „Helga kona Gríms bjó eftir Ingjald föður sinn á Arneiðarstöðum ok *Þorvaldr* son þeira Gríms. Þorvaldr átti son þann, er Ingjaldr hét, hans son var Þorvaldr, er sagði sögu þessa einum vetri síðar enn Þangbrandr prestr kom til Íslands“. Með þessu móti fá menn út samanhangandi ættartölu, sem lítur þannig út — jeg leifi mjer að prjóna ofan við hana ættartölu þeirra Droplaugarsona upp á við eftir sögunni:




Ef sonur Gríms hefur heitið Þorvaldr, enn ekki Þorkell, þá er auðsjeð, að Grímr hefur látið hann heita eftir föður sínum, og mælir það heldur með leiðrjettingunni. Enn hins vegar verður að taka það fram, að

eftir þessari ættartölu er Þorvaldr sá, sem söguna sagði, 3. maður frá Grími Droplaugarsini, sem var veginn 1006 að tali Guðbrands Vigfússonar (Safn I 410). Sá Þorvaldr lifir eftir þessu um 1100, og ætti þá sagan að vera frá firri helmingi 12. aldar, ef hún er rituð af Þorvaldi eða eftir firirsögn hans. Þetta nær engri átt. Eldri en frá ca. 1200 getur Droplaugarsona saga með engu móti verið. Vjer komumst þá í ógöngur með því að breita nafninu *Þorkell* á sini Gríms í *Þorvaldr* og láta ættartöluna standa óbreitta að öðru leiti. Og þó að *Þorvaldr* standi á þessum stað í Fljótsdælu, þá er það ekkert að marka. Þessi saga sínir, hve áreiðanleg hún er — eða hitt heldur — þar sem hún lætur Þorvald ingri segja söguna vetri síðar enn Þangbrandr kom hingað (998), í stað þess að Droplaugarsona saga segir, að þá hafi Helgi Droplaugarson fallið! Líklegast er, að Fljótsdæluhöfundur hafi haft fyrir sjer alveg sama texta og vjer nú höfum af Droplaugarsona sögu, enn sjeð, að hann gat ekki staðist, og því lagfært hann af ásettu ráði með því að setja inn Þorvalds-nafnið í stað Þorkels.

Að minni skoðun er það mjög varhugavert að víkja frá því, sem Droplaugarsona saga segir, að sonur Gríms hafi heitið Þorkell. Á sögunni sjest, að Grímr átti fóstbróður, sem hjet Þorkell, að auknefni trani, fóstbróður, sem var með honum að vígi Helga Ásbjarnarsonar og lagði líf sitt við hans líf. Hvað var eðlilegra enn að Grímr ljeti heita eftir þessum fóstbróður sínum? Auk þess er Ketilsnafnið í ættinni. Föðurbróðir og langafi Gríms hjet Ketill, og Þorkell = Þorketill er ekki annað en Ketilsnafnið með Þórsnafni firir framan. Mjer þikir því alt of djarft að breita þessu nafni, sem stendur í hinu eina handriti sögunnar.

Hitt þikir mjer miklu líklegra, að villan, sem bersinilega er í þessari ættartölu, stafi af því, að afskrifari hafi, eins og oft vill verða, hlaupið ifir einn eða tvo ættliði milli Þorkels og Þorvalds. Væri svo, liti ættartalan frá Grími Droplaugarsini þannig út:

Grímr ∞ Helga Ingjaldsdóttir
|
Þorkell
|
N
|
(N₂?)
|
Þorvaldr
|
Ingjaldr
|
Þorvaldr, er söguna sagði

Með þessu móti irði Þorvaldr sá, sem söguna sagði, 5. eða 6. maður frá Grími og hefði þá verið uppi um 1200 eða jafnvel um 1230, ef tveir liðir væri úr feldir. Nú er líklegt, að Droplaugarsona saga sje einmitt færð í letur á fyrra helmingi 13. aldar, og kemur þetta því ágætlega heim, hvort sem Þorvaldr er hjer nefndur sem heimildarmaður söguritarans eða sem höfundur sögunnar.

Merkilegt er það, að um miðbik 12. aldar var uppi maður, Ingjaldr að nafni, sem nokkrar líkur eru til, að hafi verið kominn af Grími Droplaugarsini og sje jafnvel sami maðurinn og sá, sem talinn er í ættartölunni, faðir Þorvalds. Um 1225 var með Guðmundi biskupi Arasini prestur, sem hjet Ketill Ingjaldsson. Guðmundar saga Arngríms ábóta segir frá því, að Guðmundur biskup sendi þennan prest til Róms á fund páfa í erindum sínum, því að hann átti þá í stórmælum og var firir sökum hafður af erkibiskupi. Katli tókst vel ferðin.[1]) Á síðustu æfiárum Guðmundar biskups (1234—7) þjónuðu honum klerkar tveir ungir, Þorkell sonur Ketils prests Ingjaldssonar, sem fir var nefndur, og Helgi, sem Guðmundar saga telur bróðurson Þorkels, og hefur hann þá verið sonarsonur Ketils Ingjaldssonar.[2]) Þorkell þessi dó mjög gamall sem príor á Munka-

1) Bisk. II, 121—125. Dipl. Isl. I, 516. — 2) Bisk. I, 550 og 584—585, II, 146—147 og 157. Sturl.[3] I, $415^{15}$, $488^{27}$ og $490^{5}$. Á bls. $488^{27}$ segir í Sturl., að Helgi hafi verið bróðursonur Guðmundar biskups, enn það getur ekki verið rjett, því að Guðmundur átti ekki nema 2 bræður og hvorugur þeirra komst af barnsaldri, enda mundi bróður biskups

þverá (Guðm. s. Arngríms). *Öll* þessi 4 nöfn: Ingjaldr, Ketill, Þorkell og Helgi koma firir í ættartölu Gríms Droplaugarsonar, og tímans vegna kemur það mjög vel heim, ef 1 eða 2 liðir hafa fallið úr ættartölu Droplaugarsona sögu frá Grími, að Ketill Ingjaldsson hafi verið bróðir Þorvalds Ingjaldssonar, sem sagði söguna.

Jeg kemst þá að þeirri niðurstöðu, að Þorvaldr Ingjaldsson, niðji Gríms Droplaugarsonar, hafi lifað firir og eftir aldamótin 1200 og hafi vel getað lifað fram á miðja 13. öld. Hann verður því samtíða skrásetningu Droplaugarsona sögu.

Enn hvað þíða orðin „Þorvaldr, *er sagði sögu þessa*"? Er Þorvaldr hjer nefndur að eins sem hinn helsti (og einasti?) heimildarmaður söguritarans? Eða er hann hjer nafngreindur sem höfundur sögunnar?

Hvorttveggja getur staðist. Enn líklegra þikir mjer, að Þorvaldr sje hjer tilgreindur sem höfundur sögunnar. Orðin „*sagði* sögu þessa" geta vel þítt sama sem „samdi sögu þessa", sbr. Sturl. I 120⁸⁻⁹: „Sturla skáld Þórðarson sagði fyrir Íslendinga sögur." Mjög sennilegt, að sagan sje eftir einn af niðjum Gríms. Ef svo er, þá er þetta sú eina saga, sem höfundur er nefndur að. Annars eru þær allar nafnlausar. Vel getur þó verið, að höfundur þessarar sögu hafi ekki nafngreint sig sjálfur, heldur hafi afskrifari, sem vissi, hver söguna átti, bætt orðunum „er sagði sögu þessa" aftan við ættartöluna niður til Þorvalds, sem sagan virðist hafa endað á. Enn annars stendur það ekki á miklu, hvort Þorvaldr hefur sjálfur bæði samið og ritað söguna eða sagt hana firir þeim, sem ritaði. Hvort sem er, hefur hann eflaust safnað að sjer sögum hjá þeim sem kunnu, ættmönnum sínum og öðrum.

Vjer höfum þá sjeð, að Íslendingasögur vorar eru first og fremst bigðar á munnlegum sögum og auk

---

vera getið við sögu hans, ef hann hefði náð fulltíða aldri. Aftur á móti getur það vel verið rjett, sem segir í Guðmundar s. Arngríms, að þeir Þorkell og Helgi væri frændur biskups, líklega í móðurætt Þorkels og móðurætt biskups. Sbr. Dipl. Isl. I, 514.

þess sumar hverjar á skriflegum heimildum (Landnámu eða öðrum sögum) og vísum. Enn þessar heimildir eru ekki hinn eini grundvöllur þeirra. Höfundarnir hafa auðsjáanlega lagt mikið til frá sjálfum sjer. Þeir hafa valið úr hinum munnlegu sögum, sem gengu manna á milli, þær sem þeim þótti sennilegastar eða fallegastar. Þeir hafa raðað þeim niður, svo að þær urðu að einni samanhangandi sögulegri listarheild. Til þess hafa þeir eflaust oft orðið að irkja í skörðin, þar sem sögurnar slitnuðu sundur, til þess að söguþráðurinn hjeldist óslitinn. Þeir hafa fágað þær og klætt þær í fagran búning, fært þær í þennan einkennilega sögustíl, sem minnir á munnlega frásögn, með samtölum milli persónanna á víð og dreif. Þessi samtöl eru auðsjáanlega oftast nær skáldskapur höfundarins, og hafa flestir sagnaritarar verið hinir mestu meistarar í því að gera persónunum upp orðin. Sum af þessum samtölum standa ekki að baki hinum bestu samtölum í leikritum Shakespeares. Jeg skal að eins taka eitt dæmi, sem sínir, af hve mikilli snild slík samtöl eru gerð, samtalið milli Haralds hárfagra og Háreks Hildiríðarsonar, þegar hann rægir Þórólf Kveldúlfsson.[1]) Þó að ólíku sje saman að jafna, minnir þetta samtal á róg Jagós við Óthelló hjá Shakespeare, þegar hann rægir Desdemónu konu Óthellós.

Enn er nú nokkur svo grunnhigginn að trúa því, að þetta *einmæli* þeirra Haralds konungs og Háreks hafi geimst óbreitt í munnmælum, frá því skömmu eftir Hafrsfjarðarorustu (872), þangað til Egils saga var færð í letur um 1207, eða í rjett að kalla hálfa fjórðu öld? Slíkt er óhugsandi. Nei, samtal þetta er eingöngu snildarlegur samsetningur eða skáldskapur söguhöfundarins, íþrótt á háu stigi. Og líkt mun vera um flestöll samtöl í sögum vorum, þó að þau beri ekki öll sama mark snildarinnar. Samt vil jeg ekki neita því, að einstaka orðstef, sem bundið er við mjög merkilega

1) Eg. k. 12, 2—18.

viðburði og er kjarnirt og einkennilegt í sjálfu sjer, kunni að hafa geimst óbreitt í munnmælum frá söguöldinni, þangað til sagan var skráð, jeg tek til dæmis orð þau, sem Snorra goða eru lögð í munn á alþingi 1000, þegar kristni var lögtekin og fregnin kom á þingið um jarðeldinn, sem stefndi á bæ Þórodds goða og heiðnir menn kendu reiði goðanna. „Um hvat reiddust goðin þá“, sagði Snorri, „er hér brann hraunit, þat er nú stöndum vér á.“ Þetta stutta kjarnirði er svo lagað, að það mátti vera minnisstætt og gat geimst um langan aldur.

Ifir höfuð að tala er það mjög mikill vandi að greina milli þess, hvað höfundar sagnanna hafa eftir munnmælum, og hverju þeir bæta við hjá sjálfum sjer, og oft er það með öllu ómögulegt. Enn það má fullirða, að það er mart fleira enn samtölin, sem sagnaritararnir taka frá eigin brjósti án sögulegra heimilda eða jafnvel þvert ofan í sögulegar heimildir. Svo eru t. d. að minni higgju draumar Guðrúnar Ósvífrsdóttur í Laxdælu, sem hún lætur Gest Oddleifsson ráða,[1]) bersínilega tilbúningur söguritarans. Draumarnir segja firir allan gang sögunnar, sem á eftir fer, öll örlög Guðrúnar á komandi tíð. Á þennan hátt vekur höfundurinn spennandi eftirvænting í hjarta lesandans og varpar ifir frásöguna þeim örlagatrúarblæ, sem er svo ríkur í sögum vorum.[2]) Guðrún varð fjórgift, því urðu draumarnir að vera fjórir, einn um hvern eiginmannn. Trúi hver sem vill, að þessir 4 draumar og ráðning þeirra hafi filgt munnmælunum um Guðrúnu frá upphafi. Jeg get það ekki. Mjer finst ljóst, að höfundurinn hefur bætt þeim við af sjálfum sjer til að halda hugum lesendanna vakandi. Þetta er íþrótt, ritsnildarbragð, enn ekki sönn munnmælasaga. Alveg sama bragðinu beitir Gunnlaugs saga ormstungu, sem hefur þekt Laxdælu og vitnar beinlínis í hana. Hún lætur Þorstein,

1) Laxd., 33. k. — 2) Sbr. orð Guðrúnar við Gest, þegar hann hefur ráðið draumana: „Mikit er til at hyggja, ef þetta alt skal eftir ganga“.

föður Helgu hinnar fögru, dreima firir ókomnum örlögum dóttur sinnar ófæddrar.[1]) Í þessum draum Þorsteins sjáum vjer alla söguna, sem á eftir fer, eins og í spegli. Alt bendir til, að höfundur Gunnlaugs sögu hafi hjer tekið sjer til firirmindar drauma Guðrúnar í Laxdælu og skáldað eftir þeim draum Þorsteins. Vjer vitum, að höfundurinn hefur haft firir sjer Laxdælu og vitnar beinlínis í hana. Aftarlega í sömu sögu eru og tveir draumar, sem bersínilega eru tilbúningur höfundarins. Eftir fall þeirra Gunnlaugs og Hrafns dreimir báða feður þeirra sinn drauminn hvorn. Báðum sínist þeim sonur sinn koma til sín alblóðugur og kveða vísu um fall sitt.[2]) Báðar þessar vísur eru mjög keimlíkar hvor annari, báðar bersínilega mjög seint ortar og allar líkur til, að þær sjeu kveðnar af söguhöfundinum eins og flestar vísur í Gunnlaugs sögu. Alt mælir með, að höfundurinn hafi sjálfur búið til þessa drauma og ort draumvísurnar. Hitt mjög ólíklegt, að tveir draumar, svo nauðalíkir hvor öðrum, með tilheirandi tveimur einnig nauðalíkum vísum, hafi gengið í munnmælum þeim, sem höfundurinn hafði firir sjer. Draumar þessir og vísurnar eru ekki annað en ritskraut. Öðru máli er að gegna t. d. um Fróðárundrin í Eyrbyggju. Urðarmáni sjest þar í húsum inni og gengur andsælis. Sauðamaður deir voveiflega og síðan hver að öðrum, og allir ganga þeir aftur, selshöfuð teigir sig upp úr eldhúsgólfinu og gægist á ársalinn Þórgunnu. Þóroddr bóndi og menn hans drukna og ganga aftur. Manndauðinn heldur áfram, og undrin hætta ekki fir enn Snorri goði lætur sækja draugana í diradómi. Þá loks fara draugarnir burt. Öll þessi frásögn ber á sjer sönn þjóðsögumerki. Hún er án als efa tekin eftir munnmælum, enn ekki skáldskapur söguhöfundarins.

Á þeim fáu dæmum, sem nú hef jeg talið, má sjá, að það má stundum takast að komast að nokkurn veginn áreiðanlegri vissu um það, hvort frásögn einhvers

1) Gunnl.s., 2. k. — 2) Gunnl.s., 13. k.

atburðar í sögum vorum er tekin eftir munnmælasögum eða hún er skáldskapur höfundarins. Enn hinir staðirnir eru margfalt fleiri, þar sem enga vissu er unt að fá í þessu efni, og ifir höfuð má segja, að það sé oftast nær ómögulegt að draga takmarkalínu milli þess, sem höfundurinn hefur úr munnlegri sögusögn, og hins, sem hann eikur við frá sjálfum sjer. Enn annars verð jeg að taka það fram, að þetta efni hefur hingað til als ekki verið rannsakað til neinnar hlítar.

## III.

Í nánu sambandi við þetta mál stendur spurningin um, hvert sannsögulegt gildi Íslendingasögur vorar hafi. Hjer hafa aðallega tvær gagnstæðar skoðanir staðið hvor á móti annari og standa enn í dag.

Sumir halda því fram, að Íslendingasögur sjeu ifir höfuð að tala mjög áreiðanlegar sögulegar heimildir. Þeir undantaka að vísu einstaka kinjasögur, t. d. Bárðar sögu Snæfellsáss, Kjalnesinga sögu, Jökuls sögu Búasonar, skáldsögur svo sem Víglundar sögu og Króka-Refs sögu, og jafnvel sumar sögur, sem með rjettu má telja til Íslendingasagna, t. d. Þórðar sögu hreðu, Svarfdælu. Enn annars halda þessir menn, að flestar Íslendingasögur hafa geimt trúlega gamlar munnmælasögur, sem hafi varðveitt trúlega endurminning um sannsögulega viðburði. Sögurnar sjeu því ifirleitt mjög áreiðanlegar sannsögulegar heimildir. Að þessari skoðun hafa hallast ímsir merkir útlendir vísindamenn, t. d. hinn norski sagnaritari P. A. Munch og ágætismaðurinn Konrad Maurer. Enn aðallega eru það þó Íslendingar, sem hafa varið áreiðanleik Íslendingasagna með miklu kappi. Af látnum vísindamönnum íslenskum, sem hafa haldið þessu fram, má nefna Guðbrand Vigfússon, að minsta kosti á ingri árum hans. Þessi skoðun hans á sögunum kemur ljóslega fram í hinni löngu og fróðlegu ritgjörð hans um tímatal í Ís-

lendingasögum í Safni til sögu Íslands I. Enn þá æstari filgismaður sömu skoðunar var bróðir Guðbrands Sigurður fornfræðingur Vigfússon. Hann var allra manna fróðastur í sögum vorum, enn dómgreind hans var ekki að sama skapi. Hann skoðaði alt í sögunum sem heilagan sannleika, jafnvel öll samtöl milli persónanna. Og ef nokkur efaðist um nokkurt atriði í einhverri sögu, þá var það að koma við hjartað í honum. Með heitri sannfæringu og í fullri alvöru setti hann fram þessa meginreglu um áreiðanleik sagnanna: „Það sem getur verið satt, er engin ástæða til að rengja.“ Af núlifandi vísindamönnum, sem eru á líkri skoðun, má nefna Jón prófast Jónsson í Bjarnanesi, frænda minn, og umfram alla Finn prófessor Jónsson, sem hefur ritað langt skeið um þetta mál í hinni stóru bókmentasögu sinni og af miklum fróðleik, sem hans er von og vísa, og má lesa útdrátt af því, sem hann segir, í hinu íslenska bókmentasöguágripi hans.

Aftur á móti eru aðrir, sem líta á sögur vorar eingöngu gegn um gleraugu fagurfræðinnar og skoða þær sem skáldskap, fagran og einkennilegan skáldskap að vísu, enn halda, að þær hafi mjög litið eða ekkert sögulegt gildi. Eftir þeirra skoðun eru sögurnar skáldsögur, „rómanar“. Meðal þessara manna skal jeg first nefna E. Jessen, danskan vísindamann. Hann ritaði árið 1872 ritgjörð „um trúverðugleika Egils sögu og annara Íslendingasagna“ á þísku í Sybels Hist. Zeitschr. XXVIII, og reinir að sína fram á, að í Egils sögu sje engin heil sannsöguleg brú, hún sje tómur skáldskapur, og líkt sje um aðrar Íslendingasögur. Móti honum skrifaði Finnur Jónsson sjerstakega í formálanum firir Egilssögu-útgáfu sinni Kh. 1886—8.

Árið 1880 gaf hinn austurríkski vísindamaður Richard Heinzel út merkilega bók í ritum hinnar keisaralegu Akademíu í Wien, og kallaði hann bókina „Beschreibung der isländischen Saga“ (lísing á Íslendingasögum). Aðalefnið er að lísa þeirri íþrótt, sem kemur fram í samsetningu sagnanna, sundurliða

(analysera) þær og sína fram á í einstökum atriðum, hvaða íþróttameðöl höfundarnir hafa fært sjer í nit í frásögn sinni frá persónum og viðburðum. Sundurliðunin er mjög ítarleg og ber vott um mjög mikinn fróðleik í sögum vorum, og hin einstöku atriði eru flokkuð með þiskri nákvæmni, að jeg ekki segi smásmigli, sem gerir bókina erviða og leiðinlega aflestrar. Höfundurinn lítur á sögurnar eingöngu frá fagurfræðilegu sjónarmiði, skoðar þær sem íþróttaverk, metur þær sem skáldskap, enn fer mjög lítið út í þá spurningu, hvert sannsögulegt gildi þær hafi. Þó virðist hann ekki neita því, að þær skíri að nokkru frá sögulegum atvikum og tilburðum, því að hann nefnir þær í innganginum „historiska rómana“. Mart er í þessari bók skarplega athugað, og hún er mjög nitsöm og handhæg að því leiti, að hún er nokkurs konar orðabók ifir efnið í Íslendingasögum. Nokkru síðar (1885) ritaði A. U. Bååth, sænska skáldið og vísindamaðurinn, sem mörgum Íslendingum er að góðu kunnur († 1912), merkilega ritgjörð „Om kompositionen i några isländska ättsagor“. Þær sögur, sem Bååth tekur til meðferðar, eru Ljósvetninga saga, Vatnsdæla, Laxdæla og Njála. Rekur hann nákvæmlega þráðinn í þeim og sínir, af hverri list þær eru saman settar. Sjerstaklega bendir hann á þá örlagatrú, sem gengur eins og rauður þráður gegnum allar sögur meira eða minna, og sínir, hvernig höfundar nota drauma og forspár spakra manna til að segja firir það, sem fram á að koma síðar í sögunni, og til að vekja eftirvænting lesandans og óþreiju eftir meiru (spenning). Annars minnist Bååth lítið á áreiðanleik sagnanna, sínir að eins dæmi þess, að höfundarnir láta söguþráðinn (kompositionen) sitja í firirrúmi firir sögulegum sannleik (t. d. Njála).

Í fótspor Heinzels hafa margir fetað af vísindamönnum nútímans. Meðal þeirra má nefna Andreas Heusler í innganginum til „Zwei Isländergeschichten“, eru þar sundurliðaðar Hænsna-Þóris saga og Bandamanna saga á líkan hátt og Heinzel gerir. Enn fremur

Gustav Neckel, sem hefur ritað ritgjörðina „Von der isländischen Saga“ í Germanisch-romanische Monatschrift III. Árið 1909 ritaði W. H. Vogt sjerstaka ritgjörð um Egils sögu (í skólaboðsriti frá Gymnasium Augustum í Görlitz í Slesíu). Rekur hann þar þráðinn í 66 hinum firstu kapítulum sögunnar og reinir að greiða úr þeirri spurningu, hvernig söguhöfundurinn hafi farið með það efni, sem firir honum lá, fornkvæði, eldri rit og munnlegar frásagnir. Kemst hann að þeirri niðurstöðu, að söguhöfundur hafi víða lagað þetta efni í hendi sjer og bætt ímsu við frá sjálfum sjer til að gera úr því eina samfasta heild. Sama árið (1909) kom út ritgjörð eftir A. Bley prófessor við háskólann í Gent í Belgíu, líka um Egils sögu. Hann fer miklu lengra enn nokkur annar á undan honum í því að efast um sannsögulegt gildi sögunnar, skoðar hana nær eingöngu sem listaverk, sem fagra skáldsögu, og dæmir hana eftir reglum fagurfræðinnar. Að vísu neitar hann ekki, að höfundurinn hafi verið fróður í Noregskonungasögum og þekt kvæði Egils. Enn hann virðist ekki hugsa sjer, að höfundurinn hafi haft firir sjer munnlegar arfsagnir, fer jafnvel svo langt, að hann fullirðir, að Þórólfr Kveldúlfsson hafi aldrei verið til og að öll frásögnin um deiluna milli Kveldúlfsættarinnar og konungsættarinnar sje tilbúningur söguhöfundarins eða með öðrum orðum einber skáldsaga. Hjer vill svo til, að vjer getum sannað með Melabók Landnámu, að sögnin um það, að Haraldr hárfagri hafi látið drepa Þórólf og Grímr hefnt þess, hefur staðið í hinni upphaflegu Landnámu og er því eldri enn Egils saga. Jeg tek þetta að eins fram sem dæmi til að sína, til hverra öfga það getur leitt að líta á sögurnar eingöngu frá sjónarmiði fagurfræðinnar.

Í hinu andríka riti sínu „Nordisk åndsliv i vikingetid og tidlig middelalder,“ sem kom út 1907, hefur hinn danski vísindamaður Axel Olrik skrifað kafla um Íslendingasögur, og er þar mart vel sagt. Hann

viðurkennir fillilega, að söguhöfundarnir hafi haft firir sjer munnlegar sögusagnir, enn segir, að ekki sje unt að ákveða til neinnar hlítar, hve mikið af frásögn þeirra sje sannsögulegt, eða hve miklu þeir hafi aukið við frá sjálfum sjer af list sinni. Sjerstaklega tekur hann Egils sögu til meðferðar. Hann heldur því fram, að sagan sje að nokkru leiti samin eftir kvæðum Egils, að nokkru leiti eftir munnmælasögum, enn jafnframt, að hún gæti ekki verið annað eins listaverk og hún er, ef hún væri ekki samin af skáldi af guðs náð, sem kunni þá list að velja úr efninu það sem einkennilegt var, skreita það og fága, skipa hverju einu niður á sinn rjetta stað, og skapa svo úr öllu eina listarheild. Axel Olrik stendur þannig bil beggja milli þeirra sem skoða sögurnar sem sannsögulegar og hinna sem halda, að þær sjeu tómur skáldskapur, og að líkri skoðun hallast jeg.

Enginn, sem les Íslendingasögur með athigli, getur neitað því, að ifir þeim hvílir sterkur blær af sannveruleika. Þær eru svo „realistiskar“, sem framast má verða. Þegar vjer lesum þær, þá er sem vjer sjáum viðburðina gerast firir augum vorum. Þær bregða upp firir oss mindum úr daglega lífinu með allri hinni miklu tilbreitni þess, segja blátt áfram frá því, sem gerist (facta), með öllum hinum minstu smáatvikum, og það, sem gerist, er mjög margbreitilegt, alveg eins og í daglega lífinu. Persónunum, sem sagan segir frá, er aðallega líst með gjörðum þeirra og stundum með orðum, sem þeim eru lögð í munn. Þó koma einstöku sinnum firir almennar lísingar, einkum á höfuðpersónum sögunnar, lindiseinkunn þeirra og líkamsgervi. Persónurnar eru mjög margbreitilegar að lundarfari, alveg eins og í daglega lífinu, og höfundunum tekst svo að segja altaf ágætlega að lísa lindiseinkunn hvers eins í orðum hans og gjörðum og láta hvern halda henni óbreittri gegnum öll hin margvíslegu atvik sögunnar. Altaf er frásögnin nákvæmlega staðbundin, hvort sem viðburðirnir gerast á einhverjum bæ í húsum inni eða úti undir beru lofti á förnum vegi, á fjalli eða firði. Flestar sögur gerast

aðallega í einu sjerstöku hjeraði á Íslandi. (Heiðarvígasaga þó í 2 hjeröðum, Húnavatnsþingi og Borgarfirði, Njála er ekki heldur bundin við eitt hjerað, þó að hún aðallega gerist á Rangárvöllum.) Mjög sjaldan fer sjónarsvið sögunnar út ifir takmörk hjeraðsins, og er auðsjeð á öllum frásögnum, að höfundurinn hefur verið nákunnugur öllum staðháttum og örnefnum hjeraðsins, sá sem les söguna nú á dögum og er kunnugur í hjeraðinu, kannast við alla staði, sem sagan getur um, hann filgir persónum sögunnar úr einum þektum stað í annan og finst hann sjá alt gerast firir augunum á sjer, á tilteknum stöðum, sem hann þekkir eins og hendurnar á sjer. Þetta eikur mjög á veruleikablæ sögunnar. Einstaka saga ber það þó með sjer, að höfundurinn hefur ekki verið vel kunnugur á þeim stað, þar sem sagan gerist, t. d. Hávarðar saga Ísfirðings, sú er vjer nú höfum, sem eflaust er samin utanhjeraðs (í Svarfaðardal G. Br., G. V., F. J.). Enn þetta er hrein og bein undantekning.

Alt þetta, sem nú hef jeg tekið fram, öll meðferð sögunnar á viðburðunum með öllum þeirra smáatvikum, á persónum sögunnar og staðháttum, alt þetta hefur þau áhrif á lesandann, að honum finst sagan vera sönn, finst, að viðburðirnir, sem hann les um, hafi gerst í raun og veru. Og þessi áhrif eru því sterkari sem lesandinn þekkir betur lífið á Íslandi að fornu og níju, og því kunnugri sem hann er öllum hugsunarhætti Íslendinga og lindiseinkunnum, og því betur sem hann kannast við þá staði, sem viðburðir sögunnar eru við bundnir. Það er því ekki nema eðlilegt, þó að sjerstaklega við Íslendingar höfum tröllatrú á sannsögulegu gildi sagna vorra.

Hjer við bætist, að ímislegt í sögunum staðfestist af vitnisburði annara rita eða kvæða, eða af rannsóknum síðari tíma. Jeg á þar sjerstaklega við ættartölurnar, sem oft koma heim við Landnámu, og virðist mega telja ættartölurnar með hinu áreiðanlegasta í sögunum. Áður hef jeg drepið á það, að frásögn Egils sögu um

dráp Þórólfs Kveldúlfssonar og hefnd firir það af hálfu Skalla-Gríms, bróður Þórólfs, staðfestist af texta hinnar upphaflegu Landnámu Ara, sem Melabók hefur geimt. Stundum staðfesta rjettfeðraðar samtíða vísur, að frásögnin sje sönn í verulegum atriðum, t. d. Máhlíðingavísur og Hrafnsmál í Eyrbyggju, kvæði Egils í Egils sögu o. fl. Enginn getur t. d. efast um, að Egill hafi flutt Höfuðlausn sína frammi firir Eiríki blóðöx í Jórvík, um það vitnar Höfuðlausn sjálf og Arinbjarnarkviða með sögunni. Rannsóknir Sigurðar Vigfússonar á Bergþórshvoli hafa leitt þar í ljós stórar brunarústir, svo að auðsjeð er, að þar hefur verið stór húsbruni. Allar líkur mæla með því, að þessar brunarústir stafi einmitt frá Njálsbrennu, og staðfestir rannsóknin þannig, að aðalviðburðurinn, sem Njála segir frá, sje sannsögulegur, og er þó Njála ekki talin með hinum áreiðanlegri sögum.

Enn þó að sögur vorar beri á sjer veruleikablæ, þó að suma viðburði, sem þær segja frá, megi sanna með vitnisburði annara rita eða samtíða vísna eða með fornfræðilegum rannsóknum, þá sannar þetta með engu móti, að sögurnar í heild sinni sjeu áreiðanlegar sögulegar heimildir. Skáldsögur góðra nútíðarhöfunda bera einnig á sjer blæ veruleikans. Og þó að sanna megi með samtíða vísum eða öðru, að einhver merkilegur viðburður í einhverri sögu sje sannur, t. d. að Egill hafi flutt Höfuðlausn firir Eiríki í Jórvík, þá er ekki víst firir því, að sagan hermi rjett öll tildrög eða atvik viðburðarins, meira að segja þau sömu kvæði, sem sína, að hinn merki viðburður er rjett hermdur, sanna stundum, að sagan fer ekki rjett með atvik og tildrög. Egill segir sjálfur í Arinbjarnarkviðu:

| | |
|---|---|
| Hafðak endr | Drók djarfhött |
| Ynglings burar | of dökkva skör.[1]) |
| ríks konungs | létk hersi |
| reiði fengna. | heim of sóttan. |

1) herti upp hugann og lagði á stað í ferð.

Af þessu má ráða, að Egill hafi sjálfkrafa tekist á hendur ferðina til Jórvíkur til að hitta Arinbjörn og ná sáttum við Eirík firir meðalgöngu hans. Og þetta staðfestist af lausavísunni „Urðumk leið en ljóta landbeiðaðar reiði". Arinbjarnarkviða er ort löngu eftir viðburðinn í Jórvík, þegar Egill var kominn úr klóm Eiríks, og gat Egill því ekki haft neina ástæðu til að segja annað enn það, sem satt var, um ferð sína. Á sjálfri Höfuðlausn sjest og, að Egill hefur ekki komið beint frá Íslandi til Jórvíkur, heldur frá Noregi *(vestr* fórk of ver" Höfuðl. 1 og „frétt's austr of mar Eiríks of far" Höfuðl. 18). Egils saga segir alt öðruvísi frá tildrögunum: Egill er á ferð frá Íslandi til Suður-Englands á fund Aðalsteins, en stormur rekur skip hans á land nálægt Jórvík mikið á móti vilja hans. Honum þikir óvænt undankomu og ræður af að fara á fund þeirra Arinbjarnar vinar síns og Eiríks, og svo kemur hin fagra lísing sögunnar á fundi þeirra Egils og Eiríks og Gunnhildar, hreinasta snildarverk. Í sambandi við þetta má geta þess, að það er mjög svo ósennilegt, að þau Eiríkr og Gunnhildr hefðu gefið Agli grið, ef það væri rjett, sem sagan segir, að Egill hefði drepið Rögnvald son þeirra. Frásögnin um þetta firr í sögunni er því í meira lagi grunsamleg. Samt mundi jeg ekki þora að tortriggja hana, ef hún staðfestist af konungasögunum norsku. Enn það er öðru nær. Bæði Ágrip og Historia Norvegiæ og Fagrskinna og Heimskringla og hin sjerstaka Ólafs s. helga og hin langa Ólafs s. Tryggvasonar telja upp með nöfnum börn þeirra Eiríks og Gunnhildar, enn enginn af þessum heimildum telur Rögnvald meðal þeirra[1]), því að það er ekkert að marka, þó að eitt hdr. af Ó. H. (Flat.) telji Rögnvald firir Ragnfrøð, sem stendur í öllum öðrum handritum. Það er bersinileg ritvilla í Flat. Alt bendir því til, að það sje tilbúningur Egils sögu höfundarins, þar sem hann lætur Egil drepa

1) Heimskr., F. J., I bls. 164; Ágr. Dahlerup 8. dálkur; Fagrsk., Munch, bls. 14; ÓH. 1853 bls. 9; Hist. Norv. bls. 105; OT. Flat. I 49 (Rögnvaldr f. Ragnfrøðr), Fms. I 20 (Ragnfrøðr).

Rögnvald konungsson — minni hefnd mátti ekki gagn gera. Það er mjög ólíklegt, að hjer liggi til grundvallar gömul munnmælasaga um Rögnvald, þar sem hún hefur ekki komist inn í neina af konungasögunum. Þessi tvö dæmi nægja til að sína, að Egils saga er ekki óskeikul söguleg heimild, þó að hún segi rjett frá aðalviðburðunum, fundi þeirra Egils og Eiríks konungs í Jórvík, því að auðvitað verðum vjer að trúa betur kvæðum Egils sjálfs enn sögunni, sem er samin alt að því 300 árum eftir viðburðinn.

Það er algild regla, þegar meta skal sögulegan áreiðanleik einhvers heimildarrits, að hann fer eftir því, hvernig þær heimildir eru, sem höfundur ritsins hefur haft firir sjer. Ef ritið segir frá viðburðum, sem höfundur hefur sjálfur verið sjónarvottur eða heirnarvottur að, verðum vjer að leggja mikinn trúnað á sögu hans, nema sint verði, að hann fari með rangt mál annaðhvort ósjálfrátt eða vísvitandi. Þessu er ekki að heilsa um sögur vorar, Þær eru allar færðar í letur minst 1½ öld eftir að sögurnar gerast. Þá getur verið, að höfundur ritsins hafi að vísu ekki sjálfur sjeð viðburðina, heldur hafi frásögn sína um þá eftir góðri og gildri samtíða heimild, og er þá ekki nein ástæða til að tortriggja frásögnina, að svo miklu leiti sem hún kemur heim við þessa samtíðaheimild. Vjer höfum tekið það fram, að sögurnar vitna oft í samtíða vísur — um aðrar samtíða heimildir er ekki að ræða í sögunum. Ef þessar vísur bera það með sjer, að þær eru í raun og veru samtíða, rjett feðraðar og ekki síðar ortar, verðum vjer að taka söguna trúanlega í þeim atriðum, sem koma heim við vísurnar, enn ef eitthvað ber á milli, verðum vjer að treista betur samtíða vísum enn sögunni. Ef höfundurinn hefur ekki haft firir sjer neinar samtíða heimildir, enn þó skriflega heimild, sem er eldri enn hann sjálfur, þó ekki sje hún samtíða viðburðunum, þá er alt undir því komið, hve skilrík þessi heimild er, þ. e. a. s. hvort ætla má, að þessi heimild hafi getað haft eða haft áreiðanlegar sagnir frá þeim

tíma, sem um er að ræða, og um leið einlægan vilja til að segja satt frá og afbaka ekki frásögnina. Hjer koma til greina þær frásagnir í sögunum, sem rekja má beinlínis eða óbeinlínis til Ara fróða sem heimildarmanns. Af því að Ari er í sjálfu sjer svo nákvæmur í frásögn sinni og „óljúgfróðr“ — að jeg taki mjer hans sjálfs orð í munn — og af því að hann gerir sjer alstaðar svo mikið far um að rekja sagnirnar aftur í tímann til samtíða manna, verður að telja þær frásagnir, sem frá honum eru runnar, tiltölulega mjög áreiðanlegar, þó að þær að vísu jafnist ekki við samtíða heimildir að skilríki. Ef höfundurinn aftur á móti hefur ekki annað firir sjer enn munnmælasögur, sem geimst hafa um langan aldur í manna minni og gengið mann frá manni, þá verður það mjög vafasamt, að hve miklu leiti frásögn höfundarins hefur að geima sögulegan sannleika. Vjer skulum reina að skíra þetta nokkru nánar. Hjer er mergurinn málsins, því að Íslendingasögur vorar eru aðallega ritaðar eftir munnlegum sögusögnum, eins og jeg áður hef bent á.

Allar munnlegar sögusagnir, sem ganga manna á milli um langan aldur frá einni kinslóð til annarar, eru háðar því lögmáli, að þær aflagast meira eða minna, einkum í minni háttar atriðum, við það að ganga mann frá manni, og afbökunin verður því meiri, sem sagan gengur í gegn um fleiri hendur eða rjettara sagt munna. Eða — með öðrum orðum — því fleiri sem milliliðirnir eru frá hinni firstu samtíða sögn, þangað til sagan loks er færð í letur, því óáreiðanlegri verður sagan. Einn milliliður gleimir þessu atriði, annar hinu. Einn milliliður afbakar, skreitir eða íkir þetta atriði, annar hitt, einn eikur þessu við söguna, annar hinu, sem ekki filgdi henni frá upphafi. Með níjum og níjum kinslóðum, með níjum og níjum milliliðum vaxa íkjurnar líkt og snjókökkur, sem velt er í þíðum snjó.

Sumir, þar á meðal vinur minn Finnur Jónsson, hafa haldið því fram, að íslenskar munnmælasögur

til forna hafi ekki verið háðar þessum lögum, eða þó ekki að sama skapi sem sagnir annara þjóða eða sagnir nú á dögum. Nokkuð er nú eflaust hæft í því, að menn hafa til forna munað betur, meðan alt var lagt á minnið, enn fátt eða ekkert fært í letur, heldur enn nú, þegar menn skrifa hjá sjer það, sem þeir vilja muna, og hugsa svo ekki um það framar. Vjer vitum t. d., að lögsögumaðurinn átti að segja upp lög í heirandi hljóði að lögbergi, Þingskapa þátt á hverju ári, enn aðra þáttu á hverjum 3 sumrum,[1]) og áður enn lögin voru skráð (1117—18) hefur hann orðið að þilja þau eftir minni sínu, og líklegt er, að sumir kaflar laganna, sjerstaklega hið rammforna Baugatal, hafi á þennan hátt geimst nokkurn veginn óbreitt frá Úlfljótslögum, þangað til lögin voru skrifuð upp. Enn það er nokkuð öðru máli að gegna um lög enn um sögur. Sjálft lifið, öll hin mörgu deilumál, sem firir komu í daglegu lífi, studdi að því, að lögin gátu geimst nokkurn veginn óbreitt. Þess ber og að gæta, að til lögsögumanna voru ekki valdir aðrir enn hinir lögfróðustu menn, sem eflaust hafa kunnað mest af lögunum reiprennandi, og að þar tók altaf einn lögsögumaður við af öðrum í óslitinni keðju. Hin árlega uppsaga var og mikið aðhald að lögsögumanninum, sjerstaklega af því að goðar allir eða menn í þeirra stað áttu að hlíða á uppsöguna, og er það kallað að „fylla uppsögu",[2]) enn í því virðist liggja, að goðarnir hafi getað mint lögsögumann á, ef hann gleimdi einhverju, eða leiðrjett hann, ef hann sagði eitthvað rangt. Aftur á móti ganga munnmælin um sögulega viðburði sinn frjálsa gang frá manni til manns. Þar er ekkert aðhald eða eftirlit með, að frásögnin skeiki ekki frá rjettu, og lífið sjálft leiðrjettir ekki orð sögumansins, eins og þegar um lögin er að ræða. Þvert á móti hafa sögumennirnir sterka hvöt til að gera sögu sína sem áheirilegasta og skemtilegasta, enn það getur leitt út í ikjur, að jeg ekki segi ósann-

1) Grág. Kb. I, 209. bls. sbr. 216.—217. bls. — 2) Grág. Kb. I, 216.

indi. Jeg higg því, að forn íslensk munnmæli hafi lotið sömu lögum og önnur munnmæli, þeim lögum að afbakast meira eða minna, ef til vill þó nokkru minna enn munnmæli nú á dögum. Það er fróðlegt að sjá, hverjum augum annar eins maður og Snorri Sturluson leit á munnlegar frásagnir, bæði af því að hann má telja langfremstan meðal höfunda í sundurlausu máli á ritöldinni, og af því að hann var sjerstaklega ágætur sagnaritari og lifði á blómaöld Íslendingasagna og allar líkur til, að hann hafi samið eina þeirra, Egils sögu. Hann segir svo á áður greindum stað í formálanum firir hinni sjerstöku Ólafs sögu sinni, þar sem hann er að bera saman sannsögulegt gildi samtíða skáldakvæða og munnmælasagna, að því er snertir Noregskonungasögur:

Hann tekur first fram, að Ísland hafi bigst á dögum Haralds hárfagra. „Var þá mikil ferð af Noregi til Íslands. Spurðu menn þá á hverju sumri tíðindi landa þessa í milli, ok varð þat síðan í minni fært ok haft eftir til frásagna.“ Þá minnist hann nokkrum orðum á samtíða kvæði, hve skilrík þau sjeu og heldur svo áfram þannig: „Enn sögur þær, er sagðar eru, þá er þat *hætt at eigi skilist öllum á einn veg, enn sumir hafa eigi minni, þá er frá líðr, hvernig þeim var sagt, ok gengust þeim mjök í minni oftlega, ok verða frásagnir ómerkilegar.* Þat var meir enn cc. vetra tólfræð, er Ísland var bygt, áðr menn tæki hér sögur at rita, ok var þat löng ævi og *vant at sögur hefði eigi gengizt í munni,* ef eigi væri kvæði bæði forn ok ný, þau er menn tæki þar af sannindi fræðinnar.“

Auðvitað á höfundurinn hjer sjerstaklega við afstöðu Noregskonungasagna við munnmæli og skáldakvæði sem heimildir, eins og jeg hef áður sínt og sannað. Enn það sem hann segir með almennum orðum um áreiðanleik munnlegra sagna ifir höfuð að tala, það má líka með fullum rjetti heimfæra upp á þau munnmæli, sem Íslendingasögur hafa farið eftir. Og

það sjest glögt á þessum orðum hans, að hann gerir fremur litið úr áreiðanleik munnlegra sagna, sem gengið hafa mann frá manni um langan aldur, og leiðir mjög senniieg rök að máli sínu. Hann hefur ekki haft nándar nærri eins háar hugmindir um óskeikulleik íslenskra munnmæla eins og sumir hafa nú á dögum, enda ber Egils saga, sem jeg higg að sje hans verk, þess ljós merki, að hann hefur þótst hafa mjög frjálsar hendur gagnvart munnmælunum um forfeður sína, niðja Kveldúlfs.

Að íslensk munnmæli hafi aflagast meira eða minna á þeim langa tíma, sem þau geimdust í manna munni, má og sanna með ímsum dæmum úr sögunum. Vjer höfum bent til þess áður, að Egils saga stækkar gífurlega landnám þeirra Skalla-Gríms og Ketils hængs, og að vjer verðum að trúa hinni upphaflegu Landnámu Ara til þess, að landnám þessara manna hafi verið miklu minni enn Egils saga gerir þau. Ef þetta er ekki tilbúningur söguhöfundarins, sem mjer finst líklegast, heldur tekið eftir munnmælasögu, þá sjest, að munnmælin hafa aukið stórkostlega þessi landnám. Laxdæla lætur Ólaf konung Tryggvason með berum orðum bjóða Kjartani Ólafssini sistur sína Ingibjörgu,[1]) um það leiti sem hún var í þann veginn að giftast eða þó öllu heldur var gift Rögnvaldi jarli á Gautlandi, eftir því sem Noregskonungasögur segja. Frásögn Laxdælu er hjer svo ósennileg í sjálfu sjer, að vjer getum ekki verið í neinum vafa um, hvort vjer eigum heldur að trúa henni eða konungasögunum. Eitthvert hið átakanlegasta dæmi þess, að munnmælasögur aflagast, er í Hænsna-Þóris sögu. Henni ber saman um það við Íslendingabók Ara og við Melabók, sem hefur geimt hinn upphaflega Landnámutexta Ara, að brenna mikil hafi verið í Örnólfsdal á dögum þeirra Tungu-Odds og Þórðar gellis nokkru eftir miðbik 10. aldar. Enn um hitt greinir

1) Laxd., k. 43, 19.

söguna á við Ara, bæði Íslendingabók og hina upphaflegu Landnámu, hver það hafi verið, sem inni var brendur. Íslendingabók og Melabók (= Landn. Ara) kallar manninn Þorkel Blund-Ketilsson, og Melabók bætir því við, að sá Blund-Ketill, faðir Þorkels, hafi verið son Örnólfs landnámsmanns, „sem nam Norðtungu alla milli Kjarrár ok Þverár ok bjó í Örnólfsdal.“ Laxdæla, sem hefur notað Landnámu Ara, stiður og frásögn Melabókar, að því er snertir nafn þess, sem inni brann. Í Íslendingabók ber Ari Úlfheðin lögsögumann Gunnarsson (1116) firir þessari sögn, enn hann hefur eflaust haft hana frá Gunnari spaka Þorgrímssini, lögsögumanni 1063—5 og 1073, sem hlítur að vera fæddur snemma á 11. öld, að eins c. 40 árum eftir brennuna, og hefur því getað haft sagnir af mönnum, sem mundu hana. Þessi sögn Ara er því svo vel heimiluð, sem framast má verða. Aftur á móti segir Hænsna-Þóris saga, að það hafi verið alt annar maður og af annari ætt, sem inni var brendur, Blund-Ketill Geirsson hins auðga Ketilssonar blunds. Þessi ætt á heima firir sunnan Hvítá í Flókadal. Á þeim slóðum nemur ættfaðirinn Ketill blundr land, eftir því sem Landnáma segir frá, og þar liggja bólstaðir þeirra ættmanna, Þrándarholt, þar sem Ketill blundr bjó, og Geirshlíð, bústaður Geirs auðga. Á því getur ekki verið neinn efi, að þessi frásögn Hænsna-Þóris sögu er röng, og að missögnin stafar sjerstaklega af því, að nafnið Blund-Ketill (= Ketill blundr) kemur firir í báðum ættum, enda bendir það til, að ættirnar hafi verið skildar hvor annari, þó að vjer vitum nú eigi, hvernig þeim skildleika var varið. Í ritgjörð minni um afstöðu Hænsna-Þóris sögu og Landnámu[1]) hef jeg sínt líkur til, að Hænsna-Þóris saga hafi hjer haft firir sjer munnmæli úr Flókadal.

Þetta dæmi úr Hænsna-Þóris sögu er mjög lærdómsríkt að því er snertir skilríki munnlegra sagna. Vjer

1) Aarb. 1905, 70.—72. bls.

sjáum, að munnmælin, sem sagan filgir, hafa ruglast í nöfnum þessara tveggja ætta. Enn að öðru leiti hafa þau geimt rjett endurminninguna um aðalviðburðinn, sem sagan skírir frá, og ímsar persónur, sem að honum standa. Sögunni og Ara ber saman um það, að brennan hafi verið í Örnólfsdal. Enn fremur, að þeir Þorvaldr, sonur Tungu-Odds, og Hænsna-Þórir hafi staðið firir brennunni, og því hafi Tungu-Oddr orðið forsprakki málsins af hálfu brennumanna. Sömuleiðis, að Hersteinn hafi heitið son þess, sem inni brann, og að hann hafi átt dóttur Gunnars Hlífarsonar[1]) og Helgu Óleifsdóttur feilans, sistur Þórðar gellis, og að Þórðr gellir hafi orðið höfðingi að eftirmálinu sakir þeirra mægða. Loks að málið hafi first farið til Þingnesþings,[2]) enn ekki gengið þar fram firir ófriði, að í þeim bardaga hafi fallið Þórólfr refr, bróðir Álfs úr Dölum, og að síðan hafi málið gengið til alþingis, þar hafi lent í bardaga og Tungu-Oddi veitt miður. Alt þetta, sem kemur heim við frásögn Ara, virðist vera áreiðanlegt. Vjer sjáum þá, að munnmælin hafa varðveitt nokkurn veginn óbjagaða endurminninguna um helstu viðburðina, þó að þeim skjátlist í einstökum atriðum.

Í ritgjörð minni um afstöðu Landnámu og Gull-Þóris sögu (Aarb. 1910) hef jeg sannað, að tvær sögur hafa verið til af Gull-Þóri, önnur eldri, sem Landnáma (Stb.—Hb.) vitnar í, nú glötuð, nema að því leiti sem Stb.—Hb. gera útdrátt úr efni hennar, hin ingri, sem hefur geimst í nokkurn veginn heilu líki. Þegar vjer berum ingri söguna saman við útdrátt þann úr eldri sögunni sem geimst hefur í Landnámuhandritunum, sjest, að ingri sagan hefur íkt frásögn eldri sögunnar á ímsar lundir. Nú er að vísu erfitt að segja, hvað mikið af þessum íkjum ingri sögunnar kann að vera hreinn og beinn skáldskapur þess mans, sem setti saman ingri

---

1) Hænsna-Þóris saga kallar hana Þuriði, Íslbók og Landn. og Laxd. Þórunni — aftur nafnablendingur! 2) Þórnesþings hdr. að Hænsna-Þs., enn bersinilega ritvilla.

söguna, enn líklegt er, að sumt af því að minsta kosti stafi frá ingri munnmælasögum, sem hann hefur farið eftir. Ef svo er, ber hin ingri Gull-Þóris saga vott um, að íslensk munnmæli vaxa í munni.

— — —

Eins og gefur að skilja, er hætt við því, að sagnahöfundar, sem rita 200 til 300 árum eftir viðburðina, sem þeir segja frá, lísi ekki rjett lífi, siðum og tísku manna á þeim tímum, stjórnarskipun þeirra tíma og lögum. Þegar svona stendur á, er ekki nema eðlilegt, þó að lísing höfundanna á öllum itri atvikum, svo sem vopnaburði, klæðnaði, húsaskipun osfrv., dragi dám af því, sem tíðkaðist á tímum höfundarins. Og þó að höfundur hafi einhverja óljósa hugmind t. d. um stjórnarskipun eða lög þeirra tíma, sem hann er að lísa, þá er altaf hætt við, að honum kunni að skjátlast í einstökum atriðum. Allir eru samdóma um, að Njála sje tiltölulega seint rituð, og að minni skoðun getur hún með engu móti verið rituð fir enn um 1300 eða hjer um bil einum mannsaldri eftir að hin gömlu lög þjóðveldisins gengu úr gildi (1271—3). Höfundurinn hefur auðsjáanlega haft mikið indi af hinum fornu lögum þjóðveldisins. Sagan er full af málaferlalísingum, og er auðsjeð, að höfundur gerir sjer far um að láta þær koma heim við Grágásarlög og hefur haft firir sjer í því skini Grágásarhandrit, sem hann tekur úr orðrjettar ímiskonar klausur. Árið 1883 gáfu 2 lærisveinar Konr. Maurers, Karl Lehmann og Hans Schnorr von Carolsfeld, út bók um hina lögfræðilegu kafla Njálu (Die Njálssage, insbesondere in ihren juristischen Bestandtheilen) og reindu að sanna, að þessir kaflar færu í mörgum verulegum atriðum í bága við lög þjóðveldisins og bæru vott um vanþekking höfundarins í því efni. Vilh. Finsen ritaði um þetta mál í riti sínu Den islandske Fristats Institutioner, Kb. 1888, og reindi að sanna, að sumt af því, sem þeir Lehmann og Carolsfeld hafðu átalið, gæti staðist, enn verður þó að játa, að sagan hafi gert sig seka í ímsum vitleisum, og telur upp langa runu af

þeim.[1]) Síðar ritaði F. Jónsson móti þeim Lehmann og Carolsfeld langa ritgjörð í Aarb. 1904 og reinir af fremsta megni að halda uppi vörn firir áreiðanleika sögunnar, enn jafnvel hann verður að játa, að sögunni hafi skjátlast í ímsum verulegum atriðum. Bæði Finsen og Finni Jónssini hættir til að halda, að það í sögunni, sem þeir sjá sjer ekki fært að verja, sje síðari tíma innskotsgreinar, enn það virðist mjer ekki á neinum rökum bigt. Árið 1905 svaraði Lehmann firir sig og Carolsfeld í norsku tímariti, Tidsskrift for retsvidenskap (Karl Lehmann, Jurisprudensen i Njála), og um eitt atriði lagði jeg þar orð í belg í sama tímariti 1906. Þegar á alt er litið, virðast að vísu þeir Lehmann og Carolsfeld hafa farið of langt í einstökum atriðum og dæmt söguna með of mikilli smásmigli. Enn á hinu getur varla leikið neinn efi, að þeir hafa rjett firir sjer í mörgum verulegum atriðum, og að sagan hefur víða gefið ranga eða bjagaða mind af hinu forna rjettarástandi. T. d. er frásögn Njálu um stofnun fimtardómsins og hinna svonefndu níju goðorða bersínilega rammskökk. Sagan segir meðal annars, að hin níju goðorð hafi verið stofnuð á alþingi og veitt þeim mönnum, sem best þóttu til fallnir í fjórðungi hverjum, og hverjum manni, sem vildi, leift að segja sig í þing með þessum níju goðum. Þetta ber vott um, að höfundurinn hefur ekki haft neina hugmind um hið insta eðli goðorða að fornu. Goðorðið var mannaforráð grundvallað á frjálsu sambandi milli goðans og þingmanna hans. Hverjum manni var frjálst að segja sig í þing með þeim goða sem hann vildi, ef goðinn vildi veita honum viðtöku, og úr þingi þess goða, sem hann var í þingi hjá. Slíkt mannaforráð verður ekki með neinu móti skapað með lagaboði á þingi, heldur mindast það smátt og smátt heima í hjeruðum.[2]) — Af þessu leiðir, að vjer getum ekki til hlítar treist sögum vorum, þegar

1) V. Finsen, Inst., 98. bls. og síðar. — 2) Sbr. rit mitt Um kristnitökuna, 43.—44. bls.

um rjettarástand landsins á 10. eða 11. öld er að ræða, eða um lifnaðarháttu og siðu feðra vorra á þeim tímum.

Á þessu hefur að minni higgju sumum vísindamönnum nútímans hætt til að flaska. Vinur minn prófessor Andreas Heusler hefur firir skömmu gefið út mjög fróðlega ritgjörð um rjettarástand að því er sakamál snertir eftir Íslendingasögum og borið það saman við rjettarástand í sömu málum eftir Grágás. Bókin heitir „Das Strafrecht der Isländersagas“ (Leipz. 1911). Hann sínir fram á, að það réttarástand, sem sögurnar lísa, komi að ímsu leiti í bága við rjettarástandið eftir Grágás, og hann kemst að þeirri niðurstöðu, að sögurnar hafi geimt endurminninguna um eldra rjettarástand enn það, sem lísir sjer í Grágás. Jafnframt hefur hann skrifað aðra ritgjörð um rjettarástandið í þessum sömu málum á Sturlungaöldinni („Zum isl. Fehdewesen in der Sturlungenzeit, Berl. 1912“), og hann sínir þar fram á, að rjettarástandið á Sturlungaöldinni kemur heim við rjettarástandið, sem sögurnar lísa, í ímsum þeim atriðum, sem fara í bága við Grágás. Hjer fara þá sögurnar að sumu leiti í bága við Grágás. Hvorum á þá að trúa? Sögunum, sem eru samdar á 13. öld eða jafnvel sumar á 14? Eða lögbókunum, sem ber svo vel saman, að víst má telja, að þær geimi í sjer kjarnann af hinni elstu lögskrá, Hafliðaskrá, sem var færð í letur snemma á 12. öld, og hún aftur að minnsta kosti í sumum greinum kjarna eldri laga? Að vísu er það ekki fortakandi, að sögurnar kunni í sumum greinum að hafa geimt endurminninguna um eldra rjettarástand enn kemur fram í Grágás. Enn í þetta er mjög varlega farandi. Og í þeim greinum, þar sem sögurnar fara í bága við Grágás, enn koma heim við rjettarástandið á Sturlungaöldinni, verður vel að athuga, hvort ekki sje líklegt, að söguhöfundarnir hafi hjer heimfært það rjettarástand, sem þeir sjálfir lifðu við, á Sturlungaöldinni, upp á söguöldina gömlu, sem þeir vóru að lísa. Prófessor Lehmann í Göttingen, sá hinn sami, sem skrifað hefur um Njálu, einn hinn

fróðasti maður um íslensk lög og ágætur lögfræðingur, hefur þegar andmælt aðalatriðunum í þessum bókum Heuslers með sterkum rökum.[1])

Enn þó að lísing sagnanna á söguöldinni hafi oft og tíðum dregið dám af ástandinu á tímum sagnaritaranna, og þó að vjer verðum, að því er þetta snertir, að nota þær með varúð, þá er það aðgætandi, að margir gamlir siðir hafa haldist óbreittir frá söguöldinni til ritaldarinnar, svo að líkur eru til, að sú mind af lífi sögualdarinnar, sem sögurnar gefa, sje að miklu leiti rjett. Hin mesta breiting, sem varð á þessum tíma, var kristnitakan og alt, sem stóð í sambandi við hana, t. d. að goðarnir hættu að vera prestar o. fl. Því er sjerstök ástæða til varúðar að því er þetta snertir.

Að lokum skal jeg taka eitt dæmi, sem sínir, að íslensk munnmæli eru háð sömu lögum og önnur munnmæli að því leiti að þeim hættir til að aflagast, og það jafnvel á skemri tíma enn c. 200 árum. Af Áróni Hjörleifssini höfum vjer tvær sjálfstæðar frásagnir, aðra í Íslendinga sögu Sturlu, sem er rituð á árunum 1272—1284, hina í hinni sjerstöku Áróns sögu, sem er rituð á öndverðri 14. öld. Helstu viðburðir Áróns sögu gerast á árunum 1220—1230, og er þá Íslendinga saga rituð 50—60 árum, enn Áróns saga einum 80—90 árum eftir viðburðina. Þegar vjer nú berum sögurnar saman, þá ber þeim að vísu saman um flest meginatriði, enn þó er sumt, sem þær greinir á um, og þar má sjá, að Áróns saga íkir frásögnina á ímsar lundir, hækkar ímsar tölur, gerir meira úr hreisti Áróns enn Íslendinga saga osfrv., eins og jeg hef sínt og sannað í Sturlunguritgjörð minni í Safni III, 267.—272. bls. Þegar nú Áróns saga, sem er rituð að eins tæpum 100 árum eftir viðburðina, sem hún segir

1) [Hér er sleppt kafla um bók B. S. Phillpotts, Kindred and Clan, sem er útdráttur, víða nærri orðréttur, úr ritdómi höf. um þá bók í Skírni 1914, bls. 211—216. Útg.]

frá, gerir sig seka í íkjum, þá má geta nærri, að sögur, sem eru ritaðar 2—300 árum eftir viðburðina, geti ekki verið lausar við íkjur. Hins vegar hefur Áróns saga geimt trúlega endurminninguna um helstu viðburðina af lífi Áróns og kemur þar heim við Íslendinga sögu Sturlu. Af því virðist mega ráða, að Íslendingasögur segi ifirleitt nokkurn veginn rjett frá aðalviðburðum sagnanna, og verður þó að hafa það hugfast, að þessar sögur hafa geimst meira enn helmingi lengur í manna munni enn Áróns saga, svo að þar er hættara við, að eitthvað hafi farið á milli mála.

Jeg er því á þeirri skoðun, að það sje jafnfjarri sanni að líta á Íslendingasögur sem eintómar skáldsögur eins og hitt, að telja þær í röð óskeikulla sannsögulegra heimilda.

Eins og jeg áður hef tekið fram, eru sögurnar blendingur af endurminningum um fortíðina, sem höfundur hefur safnað saman, og þeirri fágun efnisins, sem hann leggur til frá sjálfum sjer, með öðrum orðum, blendingur af munnmælum og íþrótt. Af þessu tvennu hafa munnmælin ein nokkurt sannsögulegt gildi, og verður þó að taka tillit til þess, að þau geta verið afbökuð á þeim langa tíma, sem þau hafa gengið mann frá manni, sjerstaklega í aukaatriðum, því að mart mælir með því, að íslensk munnmæli hafi geimt trúlega endurminninguna um þá aðalviðburði, sem sögurnar skíra frá. Hitt, sem höfundurinn leggur til frá sjálfum sjer, íþrótt þá, sem hann sínir í fágun efnisins, má ekki taka sem sögulegan sannleika. Öll íþrótt miðar að því að skreita, og skreitni og skrök eru náskildar hugmindir. Vjer verðum því altaf að hafa það hugfast við lestur sagna vorra, þegar vjer viljum dæma um sannsögulegt gildi frásagnarinnar, hvort þetta eða þetta, sem sagan segir frá, stafi frá ósviknum munnmælum eða frá íþrótt söguhöfundarins. Jeg hef áður tekið fram, hve erfitt er að draga hjer ákveðnar takmarkalínur, og minst á íms atriði, sem hjer koma til greina, t. d. sínt, að samtöl milli

persónanna muni oftast nær vera tilbúningur höfundarins. Í þessu sambandi skal jeg minnast fám orðum á tímatalið í sögunum.

Það liggur í hlutarins eðli, að munnmælasögur geima miklu trúlegar endurminninguna um viðburðina sjálfa enn um tímatal viðburðanna. Grípum hendinni í okkar eigin barm. Við geimum hver um sig í sál okkar margbreittan fjársjóð af endurminningum um það, sem á dagana hefur drifið. Ef þessir viðburðir, sem við munum, hafa markað djúpt spor í æfi okkar, þá munum við líka oftast nær glögt, hvert ár þeir gerðust. Enn ef svo er ekki, ef viðburðirnir hafa ekki rutt æfifarveg vorum að neinu leiti níjar brautir eða höggvið okkur nærri á einhvern hátt — og þetta á sjer stað um flesta þá viðburði, sem við munum — þá munu flestir eiga bágt með að árfæra þá viðburði nákvæmlega. Og úr því nú endurminningar hvers einstaks mans hlíða þessu lögmáli, þá má geta nærri, að endurminningar þær, sem ganga í arf frá einni kinslóð til annarar, munnmælasögur um löngu horfna viðburði, muni vera enn þá óáreiðanlegri, að því er tímatalið snertir. Þó að arfsögnin geimi trúlega endurminninguna um viðburðina, einkum hina merkustu, og að nokkru leiti um tímaröð þeirra, þá getum vjer ekki búist við því, að hún kunni að segja rjett og glögglega frá, hve mörg ár liðu milli viðburðanna, eða geti árfært þá nákvæmlega. Af þessu leiðir, að tímatalsákvarðanir í sögunum geta ifirleitt ekki talist áreiðanlegar. Þær eru oftast nær ekki sprottnar frá arfsögninni, heldur viðauki frá söguhöfundi sjálfum. Það er í góðu samræmi við þessa niðurstöðu, að svo lítið ber á tímatalinu í flestum Íslendingasögum. Það bendir til, að ákveðið tímatal hafi sjaldnast filgt hinni munnlegu arfsögn, sem höfundurinn fór eftir, og að söguhöfundarnir sjálfir hafi ekki lagt nærri eins mikla áherslu á tímatalið eins og á viðburðina sjálfa. Ef einhver saga virðist leggja mikið upp úr tímatalinu, ef hún er sjálfri sjer samkvæm að því er það snertir og kemur vel heim við aðrar heimildir,

sjerstaklega við tímatalið í Íslendingabók Ara og konungasögunum, þá eru líkur til, að það sje oftast sprottið ekki frá hinni munnlegu arfsögn, heldur frá lærdómi höfundarins.

Eflaust er allmikill munur á einstökum sögum, að því er snertir áreiðanleik þeirra. Þar virðist mega gefa þessa almennu reglu: því meira sem ber á íþrótt sagnaritarans í sögunni, því meira hefur hann lagt til frá sjálfum sjer og því óáreiðanlegri er sagan. Þær sögur, sem eru samdar af mestri snild, t. d. Njála og Egils saga, eru því ekki hinar áreiðanlegustu.

Sumum Íslendingum finst það ganga næst guðlasti að efast um sögulegt gildi sagna vorra. Þeim finst sögurnar setja niður, ef þar stendur ekki alt eins og stafur á bók. Enn auðvitað verðum við að meta sögurnar í þessu efni eftir sömu reglum og beitt er við öll önnur söguleg heimildarrit, hvort sem okkur líkar það betur eða verr. Og því má ekki heldur gleima, að það sem sögurnar missa í sem söguleg heimildarrit, það græða þær aftur sem íþróttaverk. Hin mikla snild, sem einkennir t. d. Njálu, gerir betur enn að jafna það upp, sem söguna skortir á að vera áreiðanlegt sannsögulegt heimildarrit. Axel Olrik segir á einum stað (Nordisk åndsliv, 85. bls.): „Það sem mestu skiftir, er ekki, hve margir viðburðir af hverju hundraði viðburða, sem sögurnar segja frá, eru sannsögulegir, heldur hinn andlegi fjársjóður, sem sögurnar geima“. Þetta er rjett og vel sagt.

## IV

Jeg hverf þá að því að tala nokkru nánar um *íþrótt* söguhöfundanna. Jeg hef ekki getað komist hjá því að drepa lauslega á þetta efni, eða, rjettara sagt, sum atriði, sem að því lúta, í máli mínu hjer að framan, af því að það snertir mikið þær spurningar, sem jeg hef reint að greiða úr, og mega menn því ekki taka

hart á því, þó að jeg neiðist til að endurtaka sumt af því, sem jeg hef áður sagt.

Enn fremur verð jeg að taka fram, að jeg er leikmaður á svæði fagurfræðinnar. Menn mega því ekki búast við, að jeg tæmi þetta efni. Jeg mun aðeins taka fram hið helsta, sem mjer virðist einkennilegt firir íþrótt sagnamannanna.

Ef vjer berum saman sögur vorar, þá leinir það sjer ekki, að íþrótt sú, sem lísir sjer í samsetningu þeirra, er á misjafnlega háu stigi. Sumar eru samdar af meiri snild en aðrar. Samt sem áður filgja þær allar að ímsu leiti föstum reglum í íþrótt sinni, reglum, sem má segja, að sjeu þeim öllum sameiginlegar. Það getur verið vafasamt, hvort sagnamennirnir hafa verið sjer meðvitandi um þessar reglur. Þær eru hvergi settar fram berum orðum í neinni sögu, enn þær lísa sjer, líklega ósjálfrátt, í meðferð höfundanna á söguefninu, vjer getum lesið þær út úr sögunum sjálfum. Það eru þessar sameiginlegu íþróttareglur, sem jeg vildi reina að benda á. Mun jeg first minnast á efni sagnanna og meðferð þess, síðan á nokkur atriði, sem snerta hið itra form.

*Efni* sögunnar er í aðaldráttunum gefið firirfram, ekki tilbúið af höfundi. Það er tekið úr þeim munnmælasögum, sem höfundur hafði firir sjer, um einhvern þátt í lífinu á söguöldinni. Efnið verður að vera „sögulegt“, þ. e. a. s. merkilegt og einkennilegt að einhverju leiti og frábrugðið hversdagslegum atburðum, til þess að úr því geti skapast skemtileg saga. Langflestar sögur segja frá deilum eða róstum milli einstakra manna eða heilla ætta, sem leiða af sjer vígaferli og vígaferlin aftur hefndir. Þetta og því um líkt er sjerstaklega kallað „sögulegt“, og laga höfundarnir sig í þessu efnisvali bersinilega eftir smekk samtíðar sinnar á 13. öldinni. Slíkt þótti mönnum þá mest gaman að heira, og hefur lengi eimt eftir af því, sbr. söguna um kerlinguna, sem sagði: Ekki er gaman að guðspjöllunum, enginn er í þeim bardaginn. Hinn forni hetju-

skaparandi víkingaaldarinnar lifði enn hjá hinni íslensku þjóð, og hugsjón hans hefur sett mark sitt á flestar sögur vorar, sama hetjuskaparhugsjónin, sem kemur fram í hetjuljóðum Eddukvæðanna. Það er því engin furða, þó að t. d. Gunnari á Hlíðarenda í Njálu svipi til Sigurðar Fáfnisbana í Eddukvæðunum, eða Guðrúnu Ósvífrsdóttur í Laxdælu til Brynhildar. Af því að svo mikið ber á vígaferlum og hefndum í sögunum, leiðir það, að ifir þeim flestum hvílir harmablær (tragiskur blær). Oft hnígur söguhetjan í valinn, og endar þá sagan vanalega á að segja frá hefndum firir víg hans (Gunnars saga og Njáls saga í Njálu, Þórólfs þáttur Kveldúlfssonar í Eiglu, Laxdæla, Gunnlaugs saga ormstungu, Gísla saga Súrssonar, Grettis saga o. fl.). Í sumum sögum sleppur þó söguhetjan lifandi úr öllum þrautum og nær hárri ekki (Egils þáttur í Eiglu, Víga-Glúms saga). Sagnaritarinn hafði hjer auðvitað ekki óbundnar hendur, heldur varð að fara eftir munnmælunum. Ifirleitt er efnið þrungið af alvöru lífsins, enn þó koma firir kímilegir kaflar innanum, sem lífga upp frásögnina (Gísli í Grettlu, „Björn að baki Kára“ í Njálu, Fífl-Egill í Fóstbræðra sögu o. fl.). Það er undantekning, að saga í heild sinni sje kímnissaga, t. d. þáttur Sneglu-Halla, Ölkofra þáttur og um fram alt Bandamanna saga, sem er eitt hið mesta snildarverk í sagnabókmentunum og má jafna við kómedíur Aristofanesar, meinfindin heimsádeila, sem dregur höfðingjana sundur í háði og sínir, hvernig slægur alþíðumaður leikur á þá.

Næst kemur þá til greina *meðferð efnisins.* Hjer virðist mega setja fram eina meginreglu, sem er sameiginleg öllum sagnahöfundum vorum, og hún er svo hljóðandi: Frásögnin á að segja blátt áfram með einföldum orðum frá því, sem gerist (facta), frá öllum athöfnum (framkvæmdum, verknaði, „handlinger“) persónanna, sem sagan er af, með öllum þeim atvikum, smáum og stórum, sem þar að lúta, svo ljóst og greinilega, að sá, sem hlíðir á eða les söguna, sjái viðburðina gerast firir augum sjer, ef svo má að orði kveða. Að

þessu leiti líkjast sögurnar sjónleikum. Athafnirnar — hið *dramatiska* — ifirgnæfir. Alt, sem ekki lísir sjer í athöfnum, verknaði, framkvæmdum er óþörf málalenging og á ekki heima í sögunni. Þó útilokar þetta eigi orð þau, sem persónunum fara á milli við það og það tækifæri, því að orðin má telja með athöfnum persónanna, eða að minsta kosti standa þau í svo nánu sambandi við athafnirnar, að athöfnunum verður ekki líst greinilega, nema orðin filgi.

Að höfundarnir hafa verið sjer meðvitandi um þessa meginreglu, sjest á því, að þeir tala oft um að sagan „*gerist*". Í því felst einmitt, að sagan er fólgin í „*því, sem gerist*", viðburðunum, athöfnum persónanna. Það er þessi meginregla, sem gefur sögum vorum þann veruleikablæ, sem jeg áður hef tekið fram. Þær eru realistiskar í góðum skilningi.

Og af þessari meginreglu leiðir beint flest það, sem sjerstaklega einkennir sögur vorar, þegar vjer berum þær saman við skáldsögur vorra tíma.

Meðal þessara einkenna skal jeg first telja hið algerða *hlutleisi* söguhöfundarins (objektivitet). Almennar hugleiðingar um viðburðina eða dómar um þá með eða móti koma mjög sjaldan firir. Þetta leiðir beint af meginreglunni. Höfundur vill láta viðburðina sjálfa tala til lesendanna eða áheirendanna og eftirláta þeim dóminn. Hugleiðingar um þá frá brjósti höfundarins eru sögunni óviðkomandi og gera ekki annað enn fipa firir.

Undantekningar frá þessari reglu koma örsjaldan firir, og eru þá dómarnir fólgnir í örstuttum athugasemdum, sem hrjóta eins og ósjálfrátt úr penna höfundarins. Dæmi: Þegar Freydís og fjelagar hennar hafa drepið í trigðum bræðurna Helga og Finnboga, bætir sagan við: „Nú fóru þau til skála síns eftir þat *hit illa verk*". (Grænlendinga þáttur, 8. k., Storm, bls. 71[29]). Gísli Súrsson hefur vegið Þorgrím, og vita menn ekki, hver vegið hafi, fir enn Gísli sjálfur kemur upp um sig með vísu, sem hann irkir. Frá því segir hin minni saga

á þá leið: „Gísli kvað þá vísu, *er æva skyldi*" (Gísl., K.G., bls. 33). Stærri sagan sleppir orðunum „*er æva skyldi*" (ib., 117. bls.), og því er líklegt, að afskrifari hafi bætt þeim við. Í upphafi Fóstbræðra sögu Möðruvallabókar er sagt frá því, er Þorbjörg digra gaf Gretti líf, og endar frásögnin á þessum orðum: „Í þessum atburði má hér sýnast, hversu mikill skörungr hon var". Þessi kafli kemur ekkert við Fóstbræðra sögu og er án alls efa síðari íauki (vantar í Flat. II, 92). Orðin, sem tilfærð voru, eru bersínilega sett til að afsaka, að þessi óviðkomandi kafli er tekinn með. Annars er fleira slíkt í þeirri gerð Fóstbræðra sögu, sem stendur í Möðruvallabók. Þar koma jafnvel firir langar almennar hugleiðingar. Enn alt slíkt vantar í þá gerð sögunnar, sem geimst hefur í Hauksbók, og er eflaust síðar íaukið. Annars er það hrein undantekning, að höfundur láti beinlínis í ljós dóm sinn um viðburðina. Hitt kemur oftar firir, að höfundur gefur óbeinlínis í skin, hvernig hann lítur á viðburðina. Oftast gera höfundarnir þetta með því að segja frá, hvernig á málið var litið af samtíðamönnum persónunnar, sem um er að ræða. Þetta er ekki brot á meginreglunni, því að dómur samtíðamanna um viðburðina er sjálfur nokkurs konar atburður (factum), sem höfundur segir frá eins og hverjum öðrum atburði, enn leggur ekki beint dóminn á sjálfur, þó að oftast megi ganga að því vísu, að hann líti eins á málið og samtíðamenn viðburðanna. Dæmi: Snorri goði hefur tekið við óþokkamáli af Þórólfi bægifót á hendur Arnkatli goða, sini Þórólfs. Segir Eyrbyggja (31. k.), að Þórólfr hafi unað vel við þetta, „enn þetta mæltist lítt fyrir af öðrum mönnum". Sbr. eftirmæli Gunnars á Hlíðarenda í Njálu: „Víg Gunnars spurðist ok mæltist illa fyrir um allar sveitir. Var hann mörgum mönnum mjök harmdauði" (Nj., k. $77^{140}$). „Víg Höskulds spurðist um allar sveitir ok mæltist illa fyrir" (Nj., k. $112^{44}$). Þegar Hrútr gefur sveininum, sem hafði hallmælt honum, fingurgullið (Nj., 8. k.), segir sveinninn: „Þínum drengskap skal ek við bregða æ

síðan“, og sagan bætir við: „Af þessu fekk Hrútr gott orð.“ Reykdæla, k. 18[162]: „ok *þótti* Glúmr vera mikill maðr fyrir sér, sem enn má nokkut marka í þessum frásögnum.“ Laxdæla, 19. k., niðurlag: „Því er þessa getit (þ. e. að Hrútr reið á þing með 14 sonu sína), at þat *þótti vera rausn* mikil og afli“. — Mörg fleiri dæmi þessu lík mætti tilfæra. Sjaldnar kemur það firir, að höfundur gefur í skin, hvernig hann líti á viðburðina, með frásögn einhvers einkennilegs atviks. Þar kemur mjer í hug dæmi, ekki úr einni af Íslendingasögum, heldur úr Heimskringlu, sem má á sama standa, því að konungasögurnar og ekki síst Snorri filgja líkum íþróttareglum og Íslendingasögur. Heimskringla segir frá hraustlegri framgöngu Egils ullserks í orustunni við Fræðarberg og hvernig hann ljet þar líf sitt, er hann barðist firir ættjörð sína og konung. Frásögnin endar á þessari einkennilegu setningu: „Hávir bautasteinar standa hjá haugi Egils ullserks“.[1]) Betra eftirmæli gat Snorri ekki gefið Agli ullserk enn að segja frá þessu talandi atviki um bautasteinana. Þessi stutta setning vegur meira enn margar vættir af lofi. Hjer kemur ótvírætt fram dómur höfundarins um Egil, enn um leið íslensk söguíþrótt á hæsta stigi, íþrótt, sem talar til vor í frásögn atburða og atvika.

Þá er annað atriði í meðferð sagnanna á efninu ólíkt því, sem tíðkast í skáldsögum vorra tíma. Margir skáldsagnahöfundar nú á dögum leggja ekki aðaláhersluna á frásögn viðburðanna eða athafna persónanna, heldur á hitt, að lísa sálarlífi persónanna út í istu æsar, sundurliða sem nákvæmast allar geðshræringar þeirra, setja sig inn í hugskot þeirra og hjarta og gera þeim svo upp hugsanir, sem þeir skíra frá með mörgum orðum. Slíkar skáldsögur nefna menn sálfræðilegar (psykologiske romaner). Ekkert slíkt kemur firir í Íslendingasögum. Og þetta er í góðu samræmi við meginreglu sagnamannanna að segja að eins

1) Hkr., F. J., Hák. s. góða, 27. k.

frá því sem *gerist,* því sem *skinja má* með augum, eirum eða öðrum skilningarvitum. Þöglar hugsanir, sem ekki koma fram skinjanlega í verki eða orði, liggja firir utan verkahring sagnamannsins. Og þó ber öllum saman um, að sagnahöfundarnir sjeu meistarar í því að lísa lindiseinkunnum persónanna. Jeg þarf ekki annað en að nefna á nafn nokkrar persónur, valdar af handahófi úr sögunum, til að sanna þetta. Í Njálu t. d. Gunnarr, Njáll, Skarpheðinn, Flosi, Mörðr, Bergþóra, Hallgerðr, Hildigunnr; í Laxdælu umfram alt konurnar, sjerstaklega Guðrún, enn þó einnig Auðr, Hrefna, Þorgerðr Egilsdóttir; í Egils sögu Þórólfr Kveldúlfsson, Skalla-Grímr og umfram alt Egill, enn fremur Haraldr hárfagri, Eiríkr blóðöx, Gunnhildr, Arinbjörn, Hildiríðarsinir; í Gísla sögu Gísli og Auðr; í Hallfreðar sögu Hallfreðr; í Gunnlaugs sögu ormstungu Gunnlaugr sjálfur og Hrafn; Víga-Glúmr í Glúmu osfrv., osfrv. Lindiseinkunnir þessara manna koma ljóst fram með skörpum veruleikadráttum, svo að það er eins og vjer sjáum mennina lifandi frammi firir oss, þegar vjer lesum söguna, og alt af er lindiseinkunn hverrar persónu sjálfri sjer samkvæm gegnum alla söguna frá upphafi til enda. Og hverri aðferð beita nú sagnahöfundarnir til að leiða í ljós lindiseinkunn persónanna, hugrenningar þeirra og geðshræringar? Þeir láta ifirleitt alt slíkt lísa sjer sjálft í athöfnum persónanna, orðum þeirra eða gerðum, látbragði þeirra, limaburði, fasi, andlitsbreitingum, ifir höfuð að tala í einhverju, sem skilningarvitin geta þreifað á. Hjer kemur íþrótt höfundanna fram á sínu hæsta stigi, og verður það best sínt með dæmum.

1. *Hildigunnr og Flosi.* Höskuldr rís upp snemma morguns, fer að sá korni. Hildigunnr kona hans vaknar ekki við. Höskuldr veginn. Hildigunnr vaknar og saknar Höskulds úr rúminu, „harðir hafa draumar verit ok eigi góðir“, fer að leita hans og finnur líkið, „karlmannlegt verk væri þetta, ef einn hefði at verit“, segir hún, annars bregður henni ekki. Hildigunnr

hirðir skikkju Höskulds (Flosanaut), vefur blóðlifrarnar innan í skikkjuna og britur svo saman og leggur niður í kistu sína. „Flosi spyrr víg Höskulds mágs síns, ok fær honum þat mikillar áhyggju ok reiði, ok var hann þó vel stiltr.“ Hann fer á stað að undirbúa vígsmálið og kemur í Vörsabæ til Hildigunnar.

Hildigunnr var úti ok mælti: „Nú skulu allir heimamenn mínir vera úti, er Flosi ríðr í garð. Enn konur skulu ræsta húsin ok tjalda ok búa Flosa öndvegi.“ Síðan reið Flosi í túnit. Hildigunnr sneri at honum ok mælti: „Kom heill ok sæll, frændi — ok er fegit orðit hjarta mitt tilkvámu þinni.“ — „Hér skulu vér“, segir Flosi, „eta dagverð ok ríða síðan.“ Þá váru bundnir hestar þeira. Flosi gekk inn í stofuna ok settist niðr ok kastaði í pallinn undan sér hásætinu ok mælti: „ Hvártki em ek konungr né jarl, ok vil ek ekki láta gera hásæti undir mér, ok þarf ekki at spotta mik.“ Hildigunnr var nær stödd ok mælti: „Þat er illa, ef þér mislíkar; því at þetta gerðu vér af heilum hug.“ Flosi mælti: „Ef þú hefir heilan hug við mik, þá mun sjálft leyfa sik, mun ok sjálft lasta sik, ef illa er.“ Hildigunnr hló at kaldahlátr þann ok mælti: „Ekki er enn mark at — nær munu vit gangast verða áðr enn lýkr.“ Hon settist niðr hjá Flosa, ok töluðu þau lengi hljótt. Síðan váru borð tekin, enn Flosi tók laugar ok lið hans. Flosi hugði at handklæðinu, ok var þat raufar einar ok numit til annars endans. Hann kastaði í bekkinn ok vildi eigi þerra sér á ok reist af borðdúkinum ok þerði sér þar á ok kastaði til manna sinna. Síðan settist Flosi undir borð ok bað menn sína eta. Þá kom Hildigunnr í stofuna ok gekk fyrir Flosa ok greiddi hárit frá augum sér ok grét. Flosi mælti: „Skapþungt er þér nú, frændkona, er þú grætr. Enn þó er þat vel, er þú grætr góðan mann.“ Hon tók þá til orða: „Hvert eftirmæli skal ek nú af þér hafa eða liðveizlu?“ Flosi mælti: „Sækja mun ek mál þitt til fullra laga eða veita til þeira sætta, er góðir menn sjá, at vér sém vel sæmdir af í alla staði.“ Hon mælti: „Hefna myndi Höskuldr þín, ef hann ætti eftir þik at mæla.“ Flosi svaraði: „Eigi skortir þik grimmleik — ok sét er, hvat þú vill.“ Hildigunnr mælti: „Minna hafði misgert Arnórr Örnólfsson ór Forsárskógum við Þórð Freysgoða föður þinn, ok vágu bræðr þínir hann á Skaftafellsþingi, Kolbeinn ok Egill.“ Hildigunnr gekk þá fram í skálann ok lauk upp kistu sína. Tók hon þá upp skikkjuna þá er Flosi hafði gefit Höskuldi. Í þeiri skikkju hafði Höskuldr veginn verit, ok hafði hon þar varðveitt í blóðit alt. Hon gekk þá innar í stofuna með skikkjuna. Hon gekk þegjandi at Flosa. Þá var Flosi mettr ok af borit af borðinu. Hildigunnr lagði yfir Flosa skikkjuna. Dundi þá blóðit um hann allan. Hon mælti þá: „Þessa skikkju gaft þú, Flosi, Höskuldi, ok vil ek nú gefa þér aftr. Var hann í þessi veginn. Skýt ek því til guðs ok góðra manna, at ek særi þik fyrir alla krafta Krists þíns ok fyrir manndóm ok karlmensku þína, at þú hefnir þeira allra sára, sem Höskuldr hafði á

sér dauðum — eða heit hvers manns níðingr ella." Flosi kastaði af sér skikkjunni ok rak í fang henni ok mælti: „Þú ert hit mesta forað ok vildir, at vér tækim þat upp, er öllum oss gegnir verst — ok eru köld kvenna ráð." Flosa brá svo við, at hann var í andliti stundum rauðr sem blóð, enn stundum fölr sem gras, enn stundum blár sem hel. Þeir Flosi fóru til hesta sinna ok riðu í braut. Hann reið til Holtavarðs ok bíðr þar Sigfússona ok annarra vina sinna.[1])

Er ekki þetta meistaraleg lísing á skapsmunum þeirra Hildigunnar og Flosa? Flosi er stiltur maður og gætinn og tregur til stórræða, því að hann sjer það firir af viturleik sínum, að ilt muni hljótast af eftirmálinu, ef ekki komast á sættir. Aftur er Hildigunnr full af heift og hefndarhug. Hún veit, að Flosi er deigur til hefnda. Því geimir hún skikkju Höskulds með blóðinu, og vjer sjáum, að henni kemur undir eins í hug, þegar hún finnur líkið, að nota skikkjuna til að eggja Flosa, ef ekki annað hrífur. First vill hún þó reina, hvort henni tekst ekki að ná vilja sínum með góðu. Því bír hún Flosa öndvegi og tekur á móti honum tveim höndum. Þetta gerir hún auðvitað „af heilum hug", eftir því sem hún segir sjálf, og er engin ástæða til að efa það. Auðvitað er tilgangurinn að vekja metnað hjá Flosa, svo að hann verði tilleiðanlegri til stórræðanna. Enn Flosi sjer, hvað undir bír, hann vill ekki gefa Hildigunni undir fótinn, því tekur hann hásætisbúninginn sem spott og kastar hásætinu í pallinn. Þá kemur kaldahlátur Hildigunnar og hin meistaralegu orð „ekki er enn mark at, nær munum vit gangast verða áðr enn lýkr". Hún hugsar sem svo, úr því að þú vilt ekki gangast firir góðu, þá skaltu gangast firir illu. First lísir hún þessum níja ásetningi í smáatriði, með því að leggja firir hann handklæðisslitrið, sem í rauninni er kvennleg hefnd firir það, að Flosi skildi ekki kunna betur að meta það, sem honum var gert til sóma (hásætið). Svo kemur lögeggjanin, sem birjar á því, að hún gengur firir Flosa, greiðir hárið frá augum sjer og grætur — besta vopn kvenna

1) Njála, 116. k.

eru tárin. Síðan stutt samtal, Flosi stiltur og kaldur, enn þó vingjarnlegur, og reinir að hugga. Hildigunnr er æst og heit og tekur engum sönsum. Og loksins kemur sú bríningin, sem tekur, þegar hún leggur blóðuga skikkjuna ifir Flosa, gefur honum hana, særir hann til hefnda og leggur honum níðings orð á bak, ef hann skorast undan. Síðast stutt lísing á því, hvernig Flosa verður við. Stundum er hann rauður sem blóð, stundum fölur sem gras, stundum blár sem hel. Heift og hefndarhugur Hildigunnar hefur sigrast á stillingu Flosa og higgindum.

Geðshræringar þeirra Flosa og Hildigunnar eru hjer hvergi sundurliðaðar með beinum orðum. Enn þeim er líst óbeinlínis: 1) með athöfnum þeirra (hásætið búið, Flosi kastar því í pallinn, handklæðið, Flosi sker af borðdúknum, skikkjan lögð ifir Flosa), 2) með látbragði þeirra (Hildigunnr grætur — það sem á eftir fer sínir, að gráturinn stafar ekki beint af söknuði hennar og harmi eftir Höskuld, heldur af heift og hefndarhug — Flosi skiftir litum eftir skikkju-athöfnina), og 3) með orðum þeim, sem athöfnunum filgja, frá beggja hálfu, og verður vel að gæta þess, að þessi orð lísa als ekki beinlínis, hvað persónum bír í brjósti. Listin er einmitt fólgin í því, að höfundurinn lætur lesandann ráða í geðshræringar persónanna bak við athafnirnar, látbragðið og orðin. Hjer sjest glögt það, sem jeg tók fram áður í öðru sambandi, hve miklu athafnirnar ráða í sögunum, hve athafnaríkar þær eru og líkar sjónleik. Þennan kapítula í Njálu mætti leiða óbreittan fram á sjónarsviðið og leika hann hvar sem væri.

Í Ólafs sögu helga eftir Snorra, bæði þeirri, sem stendur í Heimskringlu, og hinni sjerstöku, er lítill þáttur, sem líkist mjög þessum Hildigunnarþætti í Njálu, og er fróðlegt að bera þá saman. Ásbjörn selsbani er drepinn með spjóti af Ásmundi Grankelssini, manni Ólafs konungs, og eflaust að undirlagi konungs, því að Ásbjörn hafði brugðið sætt þeirri, sem hann gerði við konung, og var það Þórir hundr, sem eggjaði hann

á það. Móðir Ásbjarnar, Sigríðr, tekur við líkinu og geimir spjótið blóðugt. Hún lætur senda eftir Þóri hund, föðurbróður Ásbjarnar, til að vera við, þegar um líkið var búið. Virðist hafa verið drukkið erfi eftir Ásbjörn, því að Sigríðr gefur vinum sínum gjafir að skilnaði. Þóri filgir hún til skips og segir við hann að skilnaði: „Svá er nú, Þórir, at Ásbjörn sonr minn hlýddi ástráðum þínum. Nú vanst honum eigi líf at launa þat sem vert var. Nú þótt ek sjá verr til fær enn hann myndi vera, þá skal ek þó hafa vilja til. Nú er hér gjöf, er ek vil gefa þér, ok vilda ek, at þér kvæmi vel í hald ... hér er nú spjót þat, er stóð í gegnum Ásbjörn, son minn, ok er þar enn blóðit á. Máttu þá heldr muna, at þat mun hæfast ok sár þat, er þú sátt á Ásbirni bróðursyni þínum. Nú yrði þér þá skörulega, ef þú létir þetta spjót svá af höndum, at þat stæði í brjósti Ólafi digra. Nú mæli ek þat um, at þú verðir hvers manns níðingr. ef þú hefnir eigi Ásbjarnar.“ Sneri hon þá í brott. Þórir varð svá reiðr orðum hennar, at hann mátti engu svara, ok eigi gáði hann spjótit laust at láta, ok eigi gáði hann bryggjunnar, ok mundi hann ganga á kaf, ef eigi tæki menn til hans ok styddi hann, er hann gekk út á skipit“.[1]) Síðar í sögunni er sagt frá því, er Þórir hundr vó að Ólafi konungi með spjóti í Stiklastaða-orustu.

Hjer kemur fram alveg sams konar íþrótt í persónulísingunum eins og í Njálu, og líkingarnar eru svo miklar, að það er sennilegt, að Njáluhöfundur, sem er ingri, hafi haft þennan stað í konungasögunum sjer til firirmindar, enda er frásögn Njálu enn þá áhrifameiri enn frásögnin í Ólafs sögu.

2. *Egill Skalla-Grímsson.* Það sem sjerstaklega einkennir Egil í sögunni, er þrent: víkingseðlið, frændræknin og skáldskaparíþróttin. Hvernig lísir nú sagan þessu?

Víkingseðlið lísir sjer í hinum mörgu æfintírum,

---

1) Hkr., Ól.s. helga, 123. kap.

sem Egill ratar í, einkum í útlöndum, í víkingaferðum hans og hólmgöngum, sjerstaklega hólmgöngunni við Atla, sem hann bítur á barkann, í heiftrækni hans við óvini og áfergju við víg, og loks í fjegræðgi hans. Þið þekkið dæmin úr Egils sögu, svo að jeg orðlengi ekki um þetta, enn skal þó aðeins minna á það, sem mjer þikir einna einkennilegast. Þegar Egill hefur hefnt sín með því að drepa þá Berg-Önund, Hadd og Fróða og 15 menn eða 16 heima á Aski í Fenring, siglir hann út um eijasund. „Egill var nú allreiðr“, segir sagan, „svá at þá mátti ekki við hann mæla“. Reiðin lísir sjer hjer óbeinlínis í því atviki, að hann þegir og svarar engu, þegar á hann er irt. Síðan drepur hann Rögnvald konungsson og þá 13 á karfanum og reisir þeim Eiríki og Gunnhildi níðstöng með formála. Um fjegræðgi Egils eru mörg dæmi, og mun jeg brátt minnast á eitt.

Frændræknin kemur einkum fram, þegar hann missir Þórólf bróður sinn, og síðar, þegar Böðvar druknar og Egill vill svelta sig í hel. Meistaraleg er lísingin á Agli eftir dauða Þórólfs, þegar hann hefur first búið um lík Þórólfs og kemur síðan inn í höll Aðalsteins og konungur skipar honum í öndvegi á móti sjer, og er best að láta söguna sjálfa tala.

Síðan fór Egill með sveit sína á fund Aðalsteins konungs ok gekk þegar fyrir konung, er hann sat við drykkju; þar var glaumr mikill; ok er konungr sá, at Egill var inn kominn, þá mælti hann, at rýma skyldi pallinn þann hinn óæðra fyrir þeim, ok mælti, at Egill skyldi sitja þar í öndvegi gegnt konungi. Egill settist þar niðr ok skaut skildinum fyrir fætr sér; hann hafði hjálm á höfði ok lagði sverðit um kné sér ok dró annat skeið til hálfs, enn þá skeldi hann aftr í slíðrin; hann sat uppréttr ok var gneyptr mjök. Egill var mikilleitr, ennibreiðr, brúnamikill, nefit ekki langt, en ákaflega digrt, granstæðit vítt ok langt, hakan breið furðulega ok svá alt um kjálkana, hálsdigr ok herðimikill, svá at þat bar frá því, sem aðrir menn váru, harðleitr ok grimmlegr, þá er hann var reiðr; hann var vel í vexti ok hverjum manni hæri, úlfgrátt hárit ok þykt ok varð snemma sköllóttr; enn er hann sat, sem fyrr var ritat, þá hleypti hann annarri brúninni ofan á kinnina, annarri upp í hárrætr; Egill var svarteygr ok skolbrúnn. Ekki vildi hann drekka, þó at honum væri borit, enn ýmsum hleypti hann brúnunum ofan eða upp. Aðalsteinn konungr sat í hásæti; hann lagði ok sverð um kné sér, ok er þeir sátu svá um hríð, þá dró konungr sverðit ór slíðrum ok tók gullhring af hendi

sér, mikinn og góðan, ok dró á blóðrefilinn, stóð upp ok gekk á gólfit ok rétti yfir eldinn til Egils. Egill stóð upp ok brá sverðinu ok gekk á gólfit; hann stakk sverðinu í bug hringinum ok dró at sér, gekk aftr til rúms síns; konungr settist í hásæti. Enn er Egill settist niðr, dró hann hringinn á hönd sér, ok þá fóru brýnn hans í lag; lagði hann þá niðr sverðit ok hjálminn ok tók við dýrshorni, er honum var borit, ok drakk af ... Þaðan af drakk Egill at sínum hlut ok mælti við aðra menn. Eftir þat lét konungr bera inn kistur tvær; báru tveir menn hvára; váru báðar fullar af silfri; konungr mælti: „Kistur þessar, Egill, skaltu hafa, ok ef þú kemr til Íslands, skaltu færa þetta fé föður þínum; í sonargjöld sendi ek honum; enn sumu fé skaltu skifta með frændum ykkrum Þórólfs, þeim er þér þykkja ágætastir. Enn þú skalt taka hér bróðurgjöld hjá mér, lönd eða lausa aura, hvárt er þú vill heldr, ok ef þú vill með mér dveljast lengdar, þá skal ek hér fá þér sæmd ok virðing, þá er þú kant mér sjálfr til segja.“ Egill tók við fénu ok þakkaði konungi gjafir ok vinmæli; tók Egill þaðan af at gleðjast.[1])

Hjer leiðir höfundurinn oss firir sjónir baráttuna í hjarta Egils milli frændrækninnar, harmsins, sem hann ber eftir bróður sinn, og fjegirninnar, og það endar á því, að fjegirnin sigrar, bróðurharmurinn þokar firir gleðinni ifir gjöfum Aðalsteins. Og þetta er sett fram ekki með berum orðum, heldur með því að lísa útliti Egils og látbragði og breitingum þeim, sem á því verða, þegar gjafirnar koma til sögunnar. Brúnabrettur Egils eru eflaust teknar út úr lífinu. Jeg hef þekt mann, sem hleipti líkt brúnum, þegar honum var þungt í skapi.

Ekki er minni snild á lísing Egils eftir dauða Böðvars. Undir eins og hann frjettir, að þeir Böðvar hafi druknað, fer hann að leita líkanna, finnur son sinn rekinn, setur hann í hnje sjer og reiðir hann sjálfur til haugs Skalla-Gríms og heigir hann þar hjá föður sínum. Ríður síðan heim og fer í lokrekkju sína og neitir ekki matar. Þá er Þorgerðr sótt, dóttir Egils, og nú kemur hin einkennilega saga um, hvernig hún fær hann first til að tiggja söl og síðan narrar ofan í hann mjólkina og fær hann loks til að irkja erfikvæði eftir Böðvar. Látum söguna tala.

---

1) Egils saga, 55. k.

Þorgerðr lét þegar söðla sér hest, ok fylgdu henni tveir menn; riðu þau um kveldit ok nóttina, til þess er þau kómu til Borgar; gekk Þorgerðr þegar inn í eldhús. Ásgerðr heilsaði henni ok spurði, hvárt þau hefði náttverð etit; Þorgerðr segir hátt: „Engan hefi ek náttverð haft, ok engan mun ek, fyrr enn at Freyju; kann ek mér eigi betri ráð enn faðir minn; vil ek ekki lifa eftir föður minn ok bróður." Hon gekk at lokhvílunni ok kallaði: „Faðir, lúk upp hurðunni, vil ek, at vit farim eina leið bæði." Egill spretti frá lokunni; gekk Þorgerðr upp í hvílugólfit ok lét loku fyrir hurðina; lagðist hon niðr í aðra rekkju, er þar var. Þá mælti Egill: „Vel gerðir þú, dóttir, er þú vill fylgja feðr þínum; mikla ást hefir þú sýnt við mik. Hver ván er, at ek muna lifa vilja við harm þenna?" Síðan þögðu þau um hríð. Þá mælti Egill: „Hvat er nú, dóttir, tyggr þú nú nökkut?" — „Tygg ek söl," segir hon, „því at ek ætla, at mér muni þá verra enn áðr; ætla ek ella, at ek muna of lengi lifa." — „Er þat ilt manni?" segir Egill. „All-ilt," segir hon, „viltu eta?" — „Hvat man varða," segir hann. Enn stundu síðar kallaði hon ok bað gefa sér drekka; síðan var henni gefit vatn at drekka. Þá mælti Egill: „Slikt gerir at, er sölin etr, þyrstir æ þess at meir." — „Viltu drekka, faðir?" segir hon. Hann tók við ok svalg stórum, ok var þat í dýrsborni. Þá mælti Þorgerðr: „Nú eru vit vélt; þetta er mjólk." Þá beit Egill skarð ór horninu, alt þat er tennr tóku, ok kastaði horninu síðan. Þá mælti Þorgerðr: „Hvat skulu vit nú til ráðs taka? lokit er nú þessi ætlan. Nú vilda ek, faðir, at vit lengdim líf okkart, svá at þú mættir yrkja erfikvæði eftir Böðvar, enn ek mun rista á kefli, enn síðan deyju vit, ef okkr sýnist. Seint ætla ek Þorstein son þinn yrkja kvæðit eftir Böðvar, enn það hlýðir eigi, at hann sé eigi erfðr." Egill segir, at þat var þá óvænt, at hann myndi þá yrkja mega, þótt hann leitaði við, — „enn freista má ek þess", segir hann.[1])

Snildarlega tekst höfundinum hjer að breiða hjúp kímninnar ifir þetta alvarlega efni. Og það lísir djúpri þekkingu á mannlegu hjarta að láta sorgina sefast við það, að hún fær afrás í ljóði. Hið ágæta kvæði Egils, Sonatorrek, hefur bersínilega gefið söguhöfundinum tilefni til þessarar lísingar. Það birjar á því að lísa, hve þungt skáldinu er niðri firir, hve bágt hann á með að koma upp nokkru orði firir ekka („Mjök erumk tregt tungu at hræra" osfrv.). Enn í niðurlagi segir skáldið:

Þó hefr Míms vinr
mér of fengnar
bölva bætr,
es et betra telk:

1) Egils saga, 78. k.

Gafumk iþrótt
úlfs of bági
vígi vanr
vammi firða . . .

og kvæðið endar á þessum orðum:

Skalk þó glaðr
með góðvilja
ok óhryggr
Heljar biða.

Hvergi er hjer sorg Egils eða skapbrigðum líst beinum orðum, heldur óbeinlínis með athöfnum þeirra Þorgerðar.

Hjer kemur kveðskaparíþróttin fram sem lækning við sonamissinum líkt og fjegjafir Aðalsteins bættu Agli bróðurmissinn í fyrra dæminu. Í annað sinn bjargar kveðskaparíþróttin lífi Egils, þegar hann flitur Eiríki konungi Höfuðlausn í Jórvík. Meistaraleg er lísing sögunnar á því, hvernig það kvæði verður til. Hann situr ifir að irkja kvæði um sinn versta óvin um nótt, enn við gluggann kvakar svala (Gunnhildr í svöluliki?) og gefur honum enga ró, þangað til Arinbjörn kemur um morguninn og rekur hana burtu. Það er auðsjeð, að höfundurinn leggur mjög mikla áherslu á að lísa skáldskaparíþrótt Egils. Einkennileg er lísingin á Agli sem barni: „Hann var brátt málugr ok orðvíss. Heldr var hann illr viðreignar, er hann var í leikum með öðrum ungmennum.“ Firri setningin veit að skáldmælum Egils, hin síðari að víkingseðlinu. Síðan er kveðskap Egils líst í hinum mörgu lausavísum, sem sagan eignar Agli, og virðast að minsta kosti sumar þeirra vera ortar af söguhöfundi, t. d. vísurnar, sem hann er látinn irkja þrjevetur til Ingvars til að þakka honum firir eggið og kuðungana.

3. *Guðrún Ósvífrsdóttir.* Það sem sjerstaklega einkennir Guðrúnu, er sterkur vilji og hart skap. Hún gerir ekkert til hálfs, heldur leggur sig alla fram í hverju einu sem hún vill koma fram og svífist þá einskis. Ástríður hennar, ást, hatur, öfund, reiði, eru

sterkar hið innra, enn hið itra er hún oftast köld og róleg. Hún elskar Kjartan og ann engri annari konu að njóta hans, því ræður hún honum bana, og af því stafar öfundin til Hrefnu, sem kemur henni til að stela motrinum góða og lóga honum. Alt þetta kemur fram í athöfnum hennar og að nokkru leiti í orðum. Hún eggjar bræður sína og Bolla að drepa Kjartan, og þegar þau Bolli finnast eftir vígið, segir sagan þannig frá:

„Guðrún gekk í móti honum ok spurði, hversu framorðit væri. Bolli kvað þá vera nær nóni dags þess. Þá mælti Guðrún: „Mikil verða hermdarverk, ek hefi spunnit 12 álna garn, enn þú hefir vegit Kjartan“. Bolli svarar: „Þó mætti mér þat óhapp seint ór hug ganga, þóttu mintir mik ekki á þat.“ Guðrún mælti: „Ekki tel ek slíkt með óhöppum. Þótti mér sem þú hefðir meiri metorð þann vetr, er Kjartan var í Nóregi, enn nú, er hann trað yðr undir fótum, þegar hann kom til Íslands. Enn ek tel þat þó síðast, er mér þykkir mest vert, að Hrefna mun eigi ganga hlæjandi at sænginni í kveld.“ Hjer kemur ljóst fram öfundin til Hrefnu og óbeinlínis ástin til Kjartans, enda lætur sagan Bolla skilja það, því að hann svarar: „Ósýnt þykir mér, at hon (Hrefna) fölni meirr við þessi tíðindi enn þú, ok þat grunar mik, at þú brygðir þér minnr við, þó at vér lægim eptir á vígvellinum, enn Kjartan segði frá tíðindum.“[1]) Eigi er síður einkennileg lísingin á framkomu Guðrúnar eftir víg Bolla. Guðrún kemur til vegandanna og talar við þá, eins og ekkert hefði í skorist. Vegandinn, Helgi Harðbeinsson „gekk at Guðrúnu“, segir sagan, „ok tók blæjuendann ok þerði blóð af spjótinu því hinu sama, er hann lagði Bolla í gegnum með. *Guðrún leit til hans ok brosti við.*“ Söguhöfundi hefur þótt þetta þurfa skíringar við. Því lætur hann þá, sem að víginu vóru, tala um, að Guðrúnu mundi þikja litið lát Bolla, enn Halldórr, bróðir Kjart-

1) Laxd., 49. k.

ans, sem þekkir hana betur, segir, að það muni vera þvert á móti, og bætir við: „er þat ok ekki ofmælt, at Guðrún er mjök fyrir öðrum konum um allan skörungsskap". Hjer er gott dæmi þess, sem jeg áður hef tekið fram, að höfundur lætur skoðun sína í ljós með því að leggja hana í munn mönnum, sem vóru uppi, þegar sagan gerðist.[1]) Annað dæmi samskonar er það, er sagan lætur Guðrúnu löngu síðar á gamals aldri trúa Bolla sini sínum firir því, að hún hafi „verið þeim verst, er hún unni mest".[2]) Enn þó að hún inni Kjartani *mest,* þá er þó svo að sjá á sögunni, sem hún hafi elskað fleiri, first Þórð Ingunnarson, annan mann sinn (hún skildi sakir hans við firsta mann sinn og Þórðr við konu sína), síðan virðist hún hafa elskað Bolla, að minsta kosti eftir víg Kjartans, og loks síðasta mann sinn Þorkel Eyjólfsson[3]) — jeg tek þetta fram, af því að líkt tíðkast ekki um kvennlegar höfuðpersónur í skáldsögum vorra tíma. Þær elska vanalega einu sinni firir alt lífið og ekki oftar, einn mann, „þann rjetta", og ekki fleiri.

4. *Líst vígahug. Þórhallr Ásgrímsson og Víga-Glúmr.* Í Njálu er Þórhallr Ásgrímsson, fóstri Njáls, erfingi vitsmuna hans og lögkænsku. Þegar brennumálin koma firir á þingi, liggur hann heima í búð Ásgríms föður síns Elliða-Grímssonar í fótarmeini, og þangað eru sótt ráðin til hans, þegar Mörðr, sem flitur málin, kemst í vandræði. Enn hann er ekki eins friðsamur og Njáll. Það sjest á stað, sem jeg skal nú leifa mjer að tilfæra. Þegar faðir hans og aðrir, sem brennumálunum filgja, eru að búa sig til að ganga til dóma, segir Þórhallr við þá: „Farið þér nú ... at engu allæstir ok gerið nú alt sem réttast. Enn ef nokkut vandast í fyrir yðr, látið mik vita sem skjótast." „Þeir Ásgrímr litu til hans", segir sagan, „ok var andlit hans sem í blóð sæi, enn stórt hagl hraut ór augum honum. Hann

1) Laxd., 55—56. k. — 2) Laxd., 78. k. — 3) „Ástir takast miklar með þeim Þorkatli ok Guðrúnu", Laxd., 69. k.

bað færa sér spjót sitt. Þat hafði Skarpheðinn gefit honum ok var hin mesta gersemi. Ásgrímr mælti, er þeir gengu í braut: „Eigi var Þórhalli frænda gott í hug, er hann var eftir í búðinni, ok eigi veit ek, hvat hann tekr til.“[1])

Hvaða geðshræring er það nú, sem höfundurinn vill mála, þar sem hann segir, að Þórhallr hafi verið rauður sem blóð og stórt hagl hrotið af augum honum? Heinzel heldur, að þetta þíði, að Þórhallr sje reiður.[2]) Það er að nokkru leiti rjett, enn þó liggur hjer annað og meira á bak við. Það er *vígahugur* á Þórhalli. Það sjest á því, að hann biður um spjótið, spjótið sem Skarpheðinn fóstbróðir hans hafði gefið honum, vígamaðurinn mikli, sem hann á nú að mæla eftir, og það sjest á orðum Ásgríms: „Eigi var Þórhalli frænda gott í hug.“ Þórhallr sjer það firir af forspá sinni, að brennumálið muni ónítast, og þá kemur að honum vígahugurinn. Að þetta sje rjettur skilningur, sjest og á því, sem fer á eftir síðar í sögunni. Þegar brennumálin eru ónítt firir afglöp Marðar og vonlaust um, að þau gangi fram að lögum, þá er Þórhalli þó sagt til. „Enn er hann heyrði þetta“, segir sagan, „brá honum svá við, at hann mátti ekki orði upp koma. Hann spratt upp ór rúminu ok þreif tveim höndum spjótit Skarpheðinsnaut ok rak í gegnum fótinn á sér. Var þar á holdit ok kveisunaglinn á spjótinu, því at hann skar út ór fætinum, enn blóðfossinn fellr ok vágföllin, svá at lækr rann eftir gólfinu. Hann gekk nú út ór búðinni óhaltr ok fór svá hart, at sendimaðrinn fekk ekki fylgt honum; ferr hann nú, þar til er hann kemr til fimtardómsins. Þar mætti hann Grími hinum rauða, frænda Flosa. Ok jafnskjótt sem þeir fundust, lagði Þórhallr til hans spjótinu, ok kom í skjöldinn, ok klofnaði hann í sundr, enn spjótit hljóp í gegnum hann, svá at oddrinn kom út í milli herðanna. Þórhallr kastaði honum dauðum af spjótinu.“[3])

1) Njála, 142. k., birjunin. — 2) Beschreibung d. isl. Saga, bls. 114.
3) Nj., 145. k.

Ef þetta skildi ekki þikja næg sönnun þess, að það sje vígahugur, sem líst er á firri staðnum, þá er staður í Glúmu, sem tekur af öll tvímæli. Þegar Víga-Glúmr hefur rekið naut þeirra Þorkels og Sigmundar úr túni móður sinnar í tún þeirra og Þorkell smánar hann í orðum, segir svo í sögunni: „Glúmr veik heim, ok setti at honum hlátr, ok brá honum svá við, at hann gerði fölvan í andliti, ok hrutu ór augum honum tár þau, er því váru lík, sem hagl þat, er stórt er. Ok þann veg brá honum oft síðan, þá er víghugr var á honum.“[1]) Það eru þessi tár, sem Sighvatr kallar *vígtár* í vísu um fall Ólafs helga:

En fullhuginn fellir
flóttstyggr, sás varð dróttin —
várt torrek lízk verra
— vígtár — konungs árum.[2])

Bæði Sveinbjörn Egilsson og Finnur Jónsson hafa ekki skilið, hvað felst í þessu *vígtár* („lacrimæ ob cæsum aliquem effusæ“ Svb., „tårer over den dræbte“, F. J., Skjalded.). Enn samtíðamenn Sighvats hafa skilið það, og samtíðamenn Njáluhöfundar og Glúmuhöfundar hafa skilið, að haglið, sem af augum hraut, kom af vígahug.

Munurinn á Glúmu og Njálu er hjer sá, að Glúma skírir, hvað haglið þíðir, sem af augunum hrítur, enn Njála ekki, og er Njála þar í meira samræmi við íslenska sagnaíþrótt enn Glúma. Höfundur Njálu sjer, að það eikur á indi frásagnarinnar, að lesandinn hafi eitthvert umhugsunarefni og að honum sje ekki gefið alt inn með teskeiðum, ef svo má að orði kveða.

5. *Auðr Vésteinsdóttir.* Ekki finst fallegri lísing á góðri og triggri eiginkonu í Íslendingasögum enn lísing Auðar í Gísla sögu. Meistaralega er henni líst í samtali hennar við Ásgerði svilkonu sína, sem Þorkell, bóndi Ásgerðar, hlíðir á, þessu örlagaþrungna samtali, sem er firsta undirrót allra þeirra harma,

1) Glúma, 7. k. niðurlag. — 2) Sighv. Lv. 22 í F. J., Skjalded.

sem á eftir fara. Skaplindi Auðar, trigð hennar og digð, kemur hjer í ljós með skörpum og skírum dráttum, einmitt af því að það stingur svo í stúf við skaplindi Ásgerðar, sem er ljettúðug og ófirirleitin og treistir því valdi, sem hún veit, að hún hefur ifir manni sínum. Íþrótt söguhöfundarins kemur einmitt fram í því, að hann lætur tvær svo gagnólíkar konur leiða saman hesta sína. Jeg skal leifa mjer að tilfæra þennan kafla í sögunni. Þær Auðr og Ásgerðr eru tvær einar í dingju sinni og vita ekki annað enn allir karlar sjeu að heiverkum, enn Þorkell liggur á hleri firir utan dingjuna.

Nú tekr Ásgerðr til orða: „Veittu mér þat, at þú sker mér skyrtu, Auðr, Þorkeli bónda mínum.“ — „Þat kann ek eigi betr enn þú“, sagði Auðr, „ok mundir þú eigi mik til biðja, ef þú skyldir skera Vésteini bróður mínum skyrtuna.“ — „Eitt er þat sér,“ segir Ásgerðr, „ok svá mun mér þykkja nokkura stund.“ — „Löngu vissa ek þat,“ segir Auðr, „hvat við sik var, ok ræðum ekki um fleira.“ — „Þat þykkir mér eigi brigzl,“ sagði Ásgerðr, „þótt mér þykki Vésteinn góðr; hitt var mér sagt, at þit Þorgrímr hittizt mjög oft, áðr enn þú værir Gísla gefin.“ — „Því fylgdi engir mannlestir,“ segir Auðr; „því at ek tók engan mann undir Gísla, at því fylgdi neinn mannlöstr; ok munu vit nú hætta þessi ræðu.“ Enn Þorkell heyrir hvert orð, þat er þær mæltu, ok tekr nú til orða, er þær hættu: „Heyr undr mikit! heyr örlygi! heyr mál mikit! heyr manns bana, eins eða fleiri!“ ok gengr inn eftir þat. Þá tekr Auðr til orða: „Oft stendr ilt af kvenna hjali, ok má þat vera, at hér hljótist af í verra lagi, ok leitum okkr ráðs.“ — „Hugat hefi ek mér ráð,“ segir Ásgerðr, „þat er hlýða mun; enn ekki sé ek fyrir þína hönd.“ — „Hvert er þat?“ kvað Auðr. „Leggja upp hendr um háls Þorkeli, er vit komum í rekkju — ok mun hann þetta fyrirgefa mér — og segja þá lygi.“ — „Eigi mun því einu mega fyrir hlíta,“ segir Auðr. „Hvert órræði muntu taka?“ segir Ásgerðr. „Segja Gísla bónda mínum alt þat, er ek á vant at ræða eða af at ráða.“ Um aftaninn kemr Gísli heim af verkinu. Þat var vant, at Þorkell þakkaði bróður sínum verkit, enn nú er hann hljóðr ok mælti ekki orð. Nú spyrr Gísli, hvárt honum sé þungt. „Engar eru sóttir á mér,“ segir Þorkell; „enn sóttum verra er þó.“ „Hefi ek nokkut þess gert,“ segir Gísli, „at þér þykki við mik at?“ — „Sá er engi hlutr,“ segir Þorkell, „ok muntu þessa víss verða, þó at síðar sé.“ Ok gengr nú sinn veg hvárr þeira, ok varð ekki talat fleira at sinni. Þorkell neytir lítt matar um kveldit ok gengr fyrstr manna at sofa. Ok er hann var kominn í rekkju, þá kemr þar Ásgerðr og lyftir klæðum ok ætlar niðr að leggjast. Þá tók Þorkell til orða: „Ekki ætla ek þér hér at liggja náttlangt né lengra banni.“ Ásgerðr mælti: „Því hefir svá skjótt

skipazt? eðr hvat berr til þess?“ segir Ásgerðr. Þorkell mælti: „Bæði hróðr ekki at meiri, þó ek hafa lengi leyndr verit; ok mun þinn hróðr ekki at meiri, þó at ek mæla berara.“ Hon svarar: „Þú munt ráða verða hugleiðing þinni um þetta; enn ekki mun ek lengi þæfast til hvílunnar við þik; ok um tvá kosti áttu at velja. Sá er annar, at þú tak við mér ok lát sem ekki sé í orðit; ella mun ek nefna mér vátta nú þegar ok segja skilit við þik, ok mun ek láta föður minn heimta mund minn ok heimanfylgju, ok mun sá kostr, at þú hafir aldri hvíluþröng af mér síðan.“ Þorkell þagnaði ok mælti um síðir: „Þat ræð ek, at þú ger hvárt þér líkar; enn eigi mun ek banna rekkjuna náttlangt.“ Hon lýsti brátt yfir því, hvárr henni þótti betri ok ferr þegar í rekkju sína. Eigi hafa þau lengi bæði saman legit, áðr enn þau semja þetta með sér, svá sem ekki hefði í orðit. Auðr kom nú í rekkju hjá Gísla ok segir honum ræður þeira Ásgerðar ok biðr af sér reiði ok bað hann taka nokkut gott ráð, ef hann sæi. „Ekki sé ek hér ráð til“, sagði hann, „þat sem duga mun; enn þó mun ek ekki kunna þik um þetta; því at mæla verðr einnhverr skapanna málum; ok þat mun fram koma, sem auðit verðr.“[1])

Öllum þeim fjórum persónum, sem við þessa sögu koma, er hjer snildarlega líst. Við sjáum heigulshátt Þorkels, stillingu Gísla, ljettúð Ásgerðar og þó best trigð og digð Auðar. Og öllu þessu er líst með orðum og athöfnum persónanna, þó ekki svo, að þær segi beint, hvað þeim bír í brjósti. Orð Gísla: „mæla verðr einnhverr skapanna málum, ok þat mun fram koma, sem auðit verðr“ miða bersínilega að því að gefa lesandanum í skin, að samtal þeirra Auðar og Ásgerðar muni hafa sorglegar afleiðingar; með þessum orðum vekur höfundurinn óróa og eftirvænting í hjarta lesandans, svo að hann bíður framhalds sögunar með óþreiju. Munum vjer víkja að því síðar. Í því, sem á eftir fer, gefst höfundinum gott tækifæri til að lísa trigð Auðar, og hann sparar það ekki. Ógæfan, sem dinur ifir Gsla, er eldraun Auðar. Í allri hans löngu útlegð stendur hún við hlið hans sem trúr förunautur. Einu sinni kemst hún í vanda. Bróðursinir hennar, Vésteinssinir, hafa vegið Þorkel, bróður Gísla, og koma á hrakningi sínum um nótt til Auðar í Geirþjófsfjörð, þar sem hún er í filgsni með manni sínum. Þeir ná tali af Auði og biðja hana ásjár. Hún hjálpar þeim sem best hún getur, gefur þeim mat og leiðbeinir

1) Gísla s., 9. kap.

þeim, enn þorir ekki að leiða þá firir Gísla. Enn þegar þeir eru farnir, segir hún Gísla upp alla sögu.[1]) Minnisstæð er líka frásögnin um viðureign hennar og Eyjólfs hins gráa, þegar Eyjólfr vill múta henni til að segja til Gísla. Hún lætur first líklega, svo að Guðriðr fóstra þeirra Gísla heldur, að henni sje alvara, og fer til Gísla á laun og segir: „Fóstra mín er nú vitlaus orðin ok vill svíkja þik“, enn Gísli svarar: „Ger þú þér gott í hug, því at eigi mun mér þat at fjörlesti verða, at Auðr sé ráðbani minn.“ Auðr lætur Eyjólf telja fram fjeð og rekur síðan sjóðinn á nasir honum með smánarorðum. Í síðustu baráttu Gísla stendur hún við hlið hans og reinir að verja hann eftir megni. Lísingin á Auði er sjálfri sjer samkvæm frá upphafi til enda, og altaf lísir skaplindi hennar sjer óbeinlínis í athöfnum hennar og orðum, enn þó er lísingin svo glögg og gerð af svo mikilli snild, að hún ber söguna uppi meira enn nokkuð annað, meira en æfintíri Gísla og afreksverk, því að á þessari lísingu er sannkallað mark íslensks sagnameistara.

Jeg þikist þá ekki þurfa að tilfæra fleiri dæmi til að sína, að söguhöfundarinr lísa persónum sínum óbeinlínis með athöfnum þeirra og orðum, sem athöfnunum filgja, enn ekki með því að rekja nákvæmlega sundur instu hugrenningar þeirra, eins og ímsir skáldsagnahöfundar gera nú á dögum. Þó koma oft firir stuttar persónulísingar með almennum orðum. Þessar lísingar taka vanalega fram eitthvað, sem sjerstaklega er einkennilegt firir persónuna, og vanalega er meiri áhersla lögð á að lísa líkamlegum eiginleikum enn andlegum.

Dæmi: (Hallfreðr) „var snemma mikill ok sterkr, karlmannlegr ok skolbrúnn nokkut ok heldr nefljótr, jarpr á hár ok fór vel, skáld var hann gott ok heldr níðskárr ok margbreytinn. Ekki var hann vinsæll.“[2])

Gunnlaugi ormstungu er líst mjög líkt og Hallfreði,

1) Gísla s., 28—29. k. — 2) Hallfr., 2. k., bls. 86.

svo líkt, að miklar líkur eru til, að Gunnlaugs saga hafi hjer haft Hallfreðar sögu til firirmindar. Gunnlaugr „var snemmendis bráðgörr, mikill og sterkr, ljósjarpr á hár ok fór allvel, svarteygr, nokkut nefljótr, ok skapfellegr í andliti, miðmjór ok herðimikill, kominn á sik manna bezt, hávaðamaðr mikill í öllu skaplyndi ok framgjarn snemmendis, ok við alt óvæginn ok harðr, ok skáld mikit og heldr níðskárr".[1])

Í Njálu er mikið af þessum almennu lísingum: Njáll: auðigr at fé, vænn at áliti, óx eigi skegg, lögmaðr svá mikill, at engi fanst hans jafningi, vitr, forspár, heilráðr, góðgjarn, hógværr, drenglyndr (mest áhersla lögð á andlega eiginleika). Bergþóra: kvennskörungr, drengr góðr, nokkut skaphörð.[2]) Skarpheðinn: mikill vexti, styrkr, vígr vel, syndr sem selr, manna fóthvatastur, skjótráðr ok öruggr, gagnorðr ok skjótorðr, enn þó löngum vel stiltr. Jarpr á hár ok sveipr í hárinu, fölleitr ok skapleitr, liðr á nefi, lá hátt tanngarðrinn, munnljótr ok þó manna hermannlegastr.[3])

Þessi dæmi munu nægja til að sína, hvernig þessar persónulýsingar eru. Oftast standa þær þar, sem persónan kemur first til sögunnar, enn stundum er þeim skotið inn í miðja frásögn, þar sem hún gefur tilefni til þess, t. d. lísingin á Agli hjá Aðalsteini eftir dauða Þórólfs. Þær tæma als ekki lindiseinkunn persónanna, taka að eins fram hið einkennilegasta í fari hennar, enn aðallega er lindiseinkunnunum líst óbeinlínis í athöfnum og orðum persónanna, sem áður var sagt.

Merkileg er hin mikla tilbreitni, sem kemur fram í persónulísingum sagnanna. Þar koma firir spekingar (Njáll, Gestr Oddleifsson, Þorkell trefill), ófirirleitnir málaflutningsmenn (Eyjólfr Bölverksson), höfðingjar með mjög ólíkum lindiseinkunnum, sumir ráðríkir og ekki sjerlega vandir að meðölum, enn þó gletnir og glaðlegir í viðmóti (Glúmr, sem er líst mjög líkt og

1) Gunnl., 4. k., bls. 203. — 2) Nj., k. $20^{10-20}$ — 2) Nj., k. $25^{25-31}$.

Sighvati Sturlusini í Sturl.), aðrir mestu öðlingar, sem ekki vilja vamm sitt vita (Áskell goði í Reykdælu), aðrir eru samviskulausir bragðarefir (Mörðr). Enn koma firir glæsimenni, sem líkjast riddurum miðaldanna (Gunnarr, Kári, Gunnlaugr ormstunga, Ólafr pái, Kjartan), víkingar (Egill, Þorgeirr í Fóstbræðra sögu), kappar með nokkrum bændabrag á sjer (Skarpheðinn), kappar í útlegð (Grettir, Gísli), ragmenni (Gísli í Grettlu, Björn að baki Kára), slægir alþíðumenn, sem þikir gaman að leika á höfðingjana (Ófeigr í Bandam. s.), alþíðumenn, sem öfunda höfðingjana og þikir gaman að óförum þeirra (Þorkell á Hafratindum í Laxdælu, 49. k.) osfrv. osfrv. Kvennskörungar (Guðrún, Bergþóra), trúar eiginkonur (Auðr), kvennskrattar (Hallgerðr, Freydís í Grænlþ.) ungar, fagrar stúlkur með hjartað fult af ást til elskhugans, enn oft ósjálfstæðar, svo að þær beigja sig undir vilja foreldra sinna og láta tilleiðast að eiga menn, sem þær elska ekki (Helga í Gunnl.), og kemur þar fram tíðarandinn (ósjálfstæði kvenna), galdrakonur og völur (Katla í Eyrbyggju, Þorbjörg lítilvölva í Eiríks s. rauða, Oddbjörg framsýna í Glúmu), málskrafsmiklar griðkonur (griðkonan í Grettlu, sem virðir firir sjer Gretti sofandi að Reykjum) osfrv. osfrv. Ifir höfuð að tala má segja, að í persónulísingum sagnanna komi fram sama tilbreitni eins og í lífinu sjálfu.

Enn fremur er það einkennilegt, að persónurnar, sem sögurnar lísa, eru hvergi nærri alfullkomnar. Spekingarnir eru t. d. sjaldan um leið hreistimenn (Njáll), og hraustmenni sjaldan spekingar (Gunnarr, Kjartan). Og oftast verða menn varir við einhverjar veilur í fari persónanna, sem sína, að þeir eru breiskir menn, og ná ekki hugsjón alfullkomlegleikans (idealsins). Jafnvel Njáll, sem er svo veglindur, lætur sjer ekki firir brjósti brenna að beita miður vönduðum brögðum; þegar hann vill útvega Höskuldi, fóstra sínum, goðorð, leggur hann „þat til mála manna, sem ekki þótti líklegt, at eyddist sóknir, ok varð af því þræta mikil, er málin

máttu eigi lúkast, ok riðu menn heim af þingi ósáttir"[1]) og hann, sem er svo framsínn og vitur, reinist misvitur, þegar hann geldur bæturnar fyrir Höskuld og leggur ofan á silkislæðurnar, sem urðu til þess að sættir ónittust, enn af því leiddi aftur Njálsbrennu, og misvitur var hann, þegar hann vildi ekki verjast úti á Bergþórshvoli, eins og Skarpheðinn rjeð til, heldur gekk inn í húsin og ljet brenna sig inni. Hjá sumum persónum er lundarfarið blendingur af kostum og ókostum. Svo er t. d. Þorkell Súrsson í Gísla sögu. Hann elskar bróður sinn Gísla og vill auðsjáanlega afstíra frá honum ógæfunni og hjálpa honum, að svo miklu leiti sem það kemur ekki í bága við hagsmuni hans sjálfs, enn ef hann á eitthvað á hættu, verður sjálfselska hans og lítilmenska ifirsterkari bróðurástinni. Þetta, að persónurnar eru ekki altaf við eina fjölina feldar og eru háðar mannlegum breiskleika, gefur þeim veruleikablæ og gerir þær lifandi firir augum vorum.

Í sögum vorum er *mannlífið* í firirrúmi firir öllu öðru. Aðaláherslan er altaf lögð á að lísa mönnum, athöfnum þeirra, orðum og gerðum, ástríðum þeirra og geðshræringum. Frá itri atvikum er að vísu oft sagt allnákvæmlega, enn þau standa þó altaf í nánu sambandi við athafnir persónanna. Jeg hef áður minst á það, að frásagnirnar eru nær því æfinlega staðsettar, sagan tiltekur nákvæmlega þann stað, þar sem það og það hafi gerst, og þetta er eitt af því, sem gefur frásögninni veruleikablæ. Sagan nefnir staðina, sem kunnugur lesandi kannast við, og finst þá honum sem hann sjái viðburðina gerast firir augum sjer. Enn vanalega eru staðirnir aðeins nefndir á nafn, enn ekki líst nákvæmlega. Þar ætlar höfundur lesandanum að filla í gloppurnar, enn leggur sjálfur alla áherslu á að lísa viðburðunum, athöfnum persónanna, enn ekki á umhverfið, staðina, sem viðburðirnir gerast á, náttúruna, sem er í kringum oss. Þetta er í góðu samræmi við

1) Njála, k. $97^{49-51}$.

meginreglu þá, sem jeg tók fram í upphafi þessa máls: sagan segir frá því, *sem gerist* (facta). Þess vegna eru *náttúrulísingar* mjög sjaldgæfar í sögunum, og eru þær að því leiti mjög ólíkar skáldsögum vorra tíma, sem eru fullar af mjög greinilegum og löngum náttúrulísingum, sem oft draga hug lesandans langt burt frá söguefninu. Ef saga segir frá atburðum, sem fara fram erlendis í hjeruðum, sem Íslendingum eru lítt kunn, kemur það einstaka sinnum firir, að sagan lísir stuttlega þessum hjeruðum. Svo er t. d. um lísing Finnmarkar í Egils sögu, 14. k., sem ef til vill er tekin eftir eldra riti um sögu Noregskonunga,[1]) og á öðrum stað lísir sama saga Fríslandi í fám orðum (k. 69, 5—7). Báðar þessar hjeraðalísingar í Egils sögu standa í nánu sambandi við þá atburði, sem sagan skírir frá. Samskonar er lísingin á Vínlandi í Eiríks sögu rauða, 10. k. Grettla lísir á einum stað (61. k.) allnákvæmlega óþektum fjalldal á Íslandi (Þórisdal). Eitt dæmi man jeg, þar sem líst er alþektu íslensku hjeraði. Það er í Eiglu, þar sem hún lísir landnámi Skalla-Gríms í Borgarfirði (28. k.). Þetta er undantekning, sem kemur af því, að sagan leggur mjög mikla áherslu á landnám Skalla-Gríms og íkir það fram úr hófi. Vatnsdæla saga, 3. k., gefur og mjög stutta lísing á landnámi Ingimundar gamla, Vatnsdalnum: „Síðan sótti liðit upp í dalinn ok sá þar góða landakosti at grösum ok skógum; var fagrt um at litast; lyfti því mjök brúnum manna“. Einstöku sinnum eru persónum lagðar í munn náttúrulísingar, og er það þá bersínilega gert til að lísa persónunni, og meðfram er það stundum nauðsinlegur liður í frásögninni. Svo er hin fræga lísing á sumarfegurð Fljótshlíðar, sem Njáluhöfundur leggur Gunnari í munn. Gunnarr ríður heiman og ætlar til skips. Hestur hans drepur fæti, og stekkur Gunnarr af baki. „Honum varð litit upp til hlíðarinnar ok bæjarins at Hlíðarenda ok

1) „Finnmörk er stórlega við“, sbr. „est igitur vastissima solitudo“, Hist. Norw. (Monum. hist. Norw., 82. bls.).

mælti: „Fögr er hlíðin, svá at mér hefir hon aldri jafnfögr sýnzt, bleikir akrar, enn slegin tún, og mun ek ríða heim aftr ok fara hvergi!“. Allir muna hið fagra kvæði Jónasar, Gunnarshólmi. Hann skilur þetta svo, sem Gunnarr hafi snúið aftur af ættjarðarást („því Gunnar vildi heldur bíða hel en horfinn verða fósturjarðarströndum“). Það higg jeg sje misskilningur. Auðvitað kemur hjer fram tilfinning firir náttúrufegurð, sem er sjaldgæf í fornritum, enn aðallega þó ást bóndans á heimili sínu með hinum bleiku ökrum og grasgefna túni, enn ekki hin víðtækari ást til landsins í heild sinni. Merkilegt er, að jöklarnir, sem nú þikja ein hin mesta príði Fljótshlíðarinnar, eru als ekki nefndir á nafn. Enn annars standa þessi orð í beinu sambandi við rás viðburðanna, sem sagan skírir frá. Njáll hefur spáð Gunnari því, að ef hann rjúfi sætt sína og fari ekki utan, sem áskilið var, þá muni hann verða drepinn. Öll sagan, bæði á undan og eftir, miðar að drápi Gunnars, sem er firirfram ákveðið af forlögunum. Höfundurinn varð að skíra, hvað Gunnari gekk til þess að snúa aftur. Með sinni vanalegu snild lætur hann hestinn first hnjóta undir honum. Í sjálfu sjer er þetta ekki annað enn ómerkileg tilviljun, enn hún verður til þess, að Gunnarr lítur aftur, og þá vaknar hjá honum þráin eftir heimili sínu, sem hann er að skilja við. Honum sinist Hliðin svo fögur, akrarnir og túnið svo aðlaðandi, að hann getur ekki slitið sig frá þessu og hverfur aftur, þó að hann viti, hvað við liggur. Þessi orð Gunnars eru því tvent í einu, nauðsinlegur liður í frásögninni og um leið einn þáttur í persónulisingu Gunnars, þáttur, sem jeg vildi einna síst missa, því að þar drepur höfundurinn á streng, sem kveður við í hjarta flestra íslenskra bænda. Indislega lísir Ljósvetninga saga (5. k.) ungri stúlku með því að leggja henni í munn stutta náttúrulisingu. Þórdís, dóttir Guðmundar ríka, elskar Sörla Brodd-Helgason. Einu sinni er hún úti stödd að Þverá hjá Einari föðurbróður sínum og higgur að ljereftum sínum. Þá sjer hún mann ríða í garð mikinn

vexti. „Hon mælti, er hon kendi manninn: „Nú er mikit um sólskin ok sunnanvind — ok ríðr Sörli í garð“. Hjer kemur fram það, sem er mjög sjaldgæft í Íslendingasögum, að strengir mannshjartans eru samstiltir við strengi náttúrunnar í kringum manninn. Það sólskin með sunnanvindi, sem filgir Sörla í garð, er í hjarta hinnar ungu meijar sjálfrar. Lík samstilling kemur fram í hinni stuttu tunglskinslísingu Grettlu, þar sem sagan segir frá viðureign Grettis við Glám.

Grettir reið á Þórhallsstaði, ok fagnaði bóndi honum vel. Hann spurði, hvert Grettir ætlaði at fara, en hann sagðist þar vilja vera um náttina, ef bónda líkaði, at svá væri. Þórhallr kvaðst þökk fyrir kunna, at hann væri, „enn fám þykkir slægr til að gista hér um tíma; mantu hafa heyrt getit um hvat hér er at væla, enn ek vilda gjarna, at þú hlytir engi vandhæfi af mér; enn þó at þú komist heill á burt, þá veit ek fyrir víst, at þú missir hests þíns, því at engi heldr hér heilum sínum fararskjót, sá er kemr.“ Grettir kvað gott til hesta, hvat sem af þessum yrði. Þórhallr varð glaðr við, er Grettir vildi þar vera, ok tók við honum báðum höndum. Var hestr Grettis læstr í húsi sterklega. Þeir fóru til svefns, ok leið svá af náttin, at eigi kom Glámr heim. Þá mælti Þórhallr: „Vel hefir brugðit við þína kvámu, því at hverja nátt er Glámr vanr at ríða húsum eða brjóta upp hurðir, sem þú mátt merki sjá“. Grettir mælti: „Þá man vera annat hvárt, at hann man eigi lengi á sér sitja, eða man af reimast meir enn eina nátt; skal ek vera nátt aðra ok sjá, hversu ferr“. Síðan gengu þeir til hests Grettis, ok var ekki við hann glezt. Alt þótti bónda at einu fara. Nú er Grettir þar aðra nátt, ok kom eigi þrællinn heim. Þá þótti bónda mjök vænkast. Fór hann þá at sjá hest Grettis. Þá var upp brotit húsit, er bóndi kom til, enn hestrinn dreginn til dyra utar, ok lamit í sundr í honum hvert bein. Þórhallr sagði Gretti, hvar þá var komit, ok bað hann forða sér, „því að víss er dauðinn, ef þú bíðr Gláms.“ Grettir svarar: „Eigi má ek minna hafa fyrir hest minn enn at sjá þrælinn.“ Bóndi sagði, at þat var eigi hati at sjá hann, — „því at hann er ólíkr nokkurri mannlegri mynd, enn góð þykki mér hver sú stund, er þú vilt hér vera.“ Nú líðr dagrinn, ok er menn skyldi fara til svefns, vildi Grettir eigi fara af klæðum ok lagðist niðr í setit gegnt lokrekkju bónda; hann hafði röggvarfeld fyrir sér ok knepti annat skautit niðr undir fætr sér, enn annat snaraði hann undir höfuð sér og sá út um höfuðsmáttina. Setstokkr var fyrir framan setit, mjök sterkr, ok spyrndi hann þar í. Dyraumbúningrinn allr var frá brotinn útidyrunum, enn nú var þar fyrir bundinn hurðarflaki ok óvendilega um búit. Þverþilit var alt brotit frá skálanum, þat sem þar fyrir framan hafði verit, bæði fyrir ofan þvertréit ok neðan. Sængr allar váru ór stað færðar. Heldr var þar óvistlegt. Ljós brann í skálanum um náttina; ok er af myndi þriðjungr af nátt, heyrði Grettir út dynur miklar; var þá farit upp

á húsin ok riðit skálanum ok barit hælunum um þekjuna, svá at brakaði í hverju tré. Því gekk lengi; þá var farit ofan af húsunum ok til dyra gengit; ok er upp var lokit hurðinni, sá Grettir, að þræll-inn rétti inn höfuðit, ok sýnist honum afskræmilega mikit ok undarlega stórskorit. Glámr fór seint ok réttist upp, er hann kom inn í dyrnar; hann gnæfði ofarlega við rjáfrinu, snýr at skálanum ok lagði handleggina upp á þvertréit ok gægðist inn yfir skálann. Eigi lét bóndi heyra til sín, því at honum þótti ærit um, er hann heyrði, hvat um var úti. Grettir lá kyrr ok hrærði sik hvergi. Glámr sá, at hrúga nokkur lá í setinu, ok réðst nú innar eftir skálanum ok þreif í feldinn stundar fast. Grettir spyrndi í stokkinn, ok gekk því hvergi. Glámr hnykti í annat sinn miklu fastara, ok bifaðist hvergi feldr-inn. Í þriðja sinn þreif hann í með báðum höndum svá fast, at hann rétti Gretti upp ór setinu; kiptu nú í sundr feldinum í millum sín. Glámr leit á slitrit, er hann hélt á, ok undraðist mjök, hverr svá fast myndi togast við hann; ok í því hljóp Grettir undir hendr honum ok þreif um hann miðjan ok spenti á honum hrygginn sem fastast gat hann, ok ætlaði hann, at Glámr skyldi kikna við; enn þrællinn lagði at handleggjum Grettis svá fast, at hann hörfaði allr fyrir orku sakir. Fór Grettir þá undan í ýms setin. Gengu þá frá stokkarnir ok brotnaði þat sem fyrir varð. Vildi Glámr leita út, enn Grettir færði við fætr, hvar sem hann mátti, enn þó gat Glámr dregit hann fram ór skálanum; áttu þeir þá all-harða sókn, því at þrællinn ætlaði at koma honum út ór hænum; enn svá ilt sem var at eiga við Glám inni, þá sá Grettir, at þó var verra at fást við hann úti, ok því brauzt hann í móti af öllu afli at fara út. Glámr færðist í aukana ok knepti hann at sér, er þeir kómu í anddyrit; ok er Grettir sér, at hann fekk eigi við spornat, hefir hann alt eitt atriðit, at hann hleypr sem harðast í fang þrælnum ok spyrnir báðum fótum í jarðfastan stein, er stóð í dyrunum. Við þessu bjóst þrællinn eigi, hann hafði þá togazt við at draga Gretti at sér, ok því kiknaði Glámr á bak aftr ok rauk öfugr út á dyrnar, svá at herðarnar námu uppdyrit ok rjáfrit gekk í sundr, bæði viðirnir ok þekjan frerin, fell svá opinn ok öfugr út ór húsunum, enn Grettir á hann ofan. Tunglskin var mikit úti ok gluggaþykn; hratt stundum fyrir, enn stundum dró frá. Nú í því, er Glámr fell, rak skýit frá tunglinu, enn Glámr hvesti augun upp í móti, ok svá hefir Grettir sagt sjálfr, at þá eina sýn hafi hann sét svá at honum brygði við. Þá sigaði svá at honum af öllu saman, mæði ok því, er hann sá, at Glámr gaut sínum sjónum harðlega, at hann gat eigi brugðit saxinu ok lá nálega í milli heims ok heljar. Enn því var meiri ófagnaðar kraftr með Glámi enn flestum öðrum aftrgöngumönnum, at hann mælti þá á þessa leið: „Mikit kapp hefir þú á lagit, Grettir,“ sagði hann, „at finna mik, enn þat man eigi undarlegt þykkja, þó at þú hljótir eigi mikit happ af mér; enn þat má ek segja þér, at þú hefir nú fengit helming afls þess ok þroska, er þér var ætlaðr, ef þú hefðir mik eigi fundit; nú fæ ek þat afl eigi af þér tekit, er þú hefir áðr hrept, enn því má ek ráða, at þú verðr aldri sterkari enn nú ertu, ok ertu þó nógu sterkr, ok at því man mörgum verða. Þú hefir frægr orðit hér til af verkum þínum, enn heðan af munu falla til þín sektir ok vígaferli, enn flest

öll verk þín snúast þér til ógæfu ok hamingjuleysis. Þú mant verða útlægr gerr ok hljóta jafnan úti at búa einn samt; þá legg ek þat á við þik, at þessi augu séu þér jafnan fyrir sjónum, sem ek her eftir, ok man þér þá erfitt þykkja einum at vera, ok þat man þér til dauða draga.“ Ok sem þrællinn hafði þetta mælt, þá rann af Gretti ómegin, þat sem á honum hafði verit. Brá hann þá saxinu ok hjó höfuð af Glámi ok setti þat við þjó honum. Bóndi kom þá út ok hafði klæðzt, á meðan Glámr lét ganga tõluna, en hvergi þorði hann nær at koma, fyrr enn Glámr var fallinn. Þórhallr lofaði guð fyrir ok þakkaði vel Gretti, er hann hafði unnit þenna óhreina anda, Fóru þeir þá til ok brendu Glám at köldum kolum. Eftir þat báru þeir ösku hans í eina hit og grófu þar niðr, sem sízt váru fjárhagar eða mannavegir; gengu heim eftir þat, ok var þá mjök komit at degi. Lagðist Grettir niðr, því at hann var stirðr mjök. Þórhallr sendi menn á næstu hæi eftir mönnum, sýndi ok sagði, hversu farit hafði. Öllum þótti mikils um vert um þetta verk, þeim er heyrðu; var þat þá almælt, at engi væri þvílikr maðr á öllu landinu fyrir afls sakir ok hreysti ok allrar atgjörvi, sem Grettir Ásmundarson. Þórhallr leysti Gretti vel af hendi ok gaf honum góðan hest ok klæði sæmileg, því at þau váru öll sundr leyst, er hann hefði áðr horit. Skildu þeir með vináttu. Reið Grettir þaðan í Ás í Vatnsdal, ok tók Þorvaldr við honum vel ok spurði innilega at sameign þeira Gláms, enn Grettir segir honum viðskifti þeira ok kvaðst aldri í þvílíka aflraun komit hafa, svá langa viðreign sem þeir höfðu saman átt. Þorvaldr bað hann hafa sik spakan, ok man þá vel duga, enn ella man þér slysgjarnt verða. Grettir kvað eigi hatnat hafa um lyndisbragðit, ok sagðist nú miklu verr stiltr enn áðr ok allar mótgerðir verri þykkja. Á því fann hann mikla muni, at hann var orðinn maðr svá myrkfælinn, at hann þorði hvergi at fara einn saman, þegar myrkva tók; sýndist honum þá hvers kyns skrípi, ok þat er haft síðan fyrir orðtæki, at þeim ljái Glámr augna eða gefi glámsýni, er mjök sýnist annan veg enn er. Grettir reið heim til Bjargs, er hann hafði gert erindi sín, ok sat heima um vetrinn.[1])

Tunglskinið er í góðri samhljóðan við þessa draugalegu frásögn. Þegar vjer lesum hana, þá er eins og kalt vatn renni milli skins og hörunds, og hrollurinn eikst við tunglskinslísinguna, því að við tunglskinið magnast draugurinn, enn hins vegar dregur alt afl úr Gretti, þegar tunglið sínir honum hin hræðilegu augu Gláms. Tunglskin er oftast sett í samband við lísingar á afturgöngum og forinjum, og þá er tunglið látið vaða í skijum. Svo er t. d. tunglskinslísingin í Njálu, þegar þeir Högni og Skarpheðinn sjá Gunnar dauðan í hauginum: „Þeir Skarpheðinn ok Högni váru úti eitt kveld ok

1) Grett., 35. k.

váru fyrir sunnan haug Gunnars. Tunglskin var bjart, enn stundum dró fyrir. Þeim sýndist haugrinn opinn, ok hafði Gunnarr snúizt i hauginum ok sá i móti tunglinu.“ Í Jökuls þætti Búasonar, þar sem sagt er frá viðureign Jökuls við tröllkonurnar Geit og Gnípu, er tunglskininu líst þannig: „Þá sá lítit af tungli ljóst ok dró ýmist til eðr frá.“ Minna má einnig á urðarmánann í frásögn Eyrbyggju frá Fróðárundrum, hálftungl, sem sjest á veggþili í húsum inni og gengur andsælis um húsið, reglulegur kinjamáni. Enn engin af þessum tunglskinslísingum er jafn ömurleg og lísingin í Grettlu, þegar þeir hvessa augun hvor á annan Glámr og Grettir í tunglskininu.[1]) Manni dettur ósjálfrátt í hug hin meistaralega lísing Egils á augnaráði Eiríks blóðöxar í Arinbjarnarkviðu:

„Vasa þat tunglskin
trygt at líta,
né ógnlaust
Eiríks bráa,
er ormfránn
ennimáni
skaut allvalds
ægigeislum“.

Egill dregur líking af tunglskini, þegar hann lísir þeim ægigeislum, sem stöfuðu undan brúnum Blóðöxar. Líkur blær hvílir ifir þessum vísuhelmingum í Sólarljóðum:

gýgjar sól
er skein grimmlega
ór skýdrúpnis skýjum,
og: heiðnar stjörnur
stóðu yfir höfði þeim
fáðar feiknstöfum.[2])

Á þessum stöðum sjest, að forfeðrum okkar hefur fundist tunglinu filgja einhver ægilegur seiðmagnaður kingikraftur. Hins vegar sjest það á hinni gullfögru lísingu Skúla skálds Þorsteinssonar á sólarlagi og tungls-

1) Sbr. Hjelmquist, Naturskildringarna i den norröna diktningen, 124.—125. bls. — 2) Sólarlj., 51. og 60. v.

uppkomu, að máninn hefur líka stundum, þegar svo bar undir, vakið hjá þeim blíðari tilfinningar:

Glens beðja veðr gyðja
goðblið i vé; siðan
ljós kømr gótt með geislum
gránserks ofan Mána.[1])

Enn ekki man jeg eftir neinu, sem líkist þessari vísu, í sögunum.

Í Fóstbræðra sögu þeirri, sem Konráð Gíslason hefur gefið út eftir Möðruvallabók, er líst skapbrigðum ungrar stúlku, Þórdísar í Ögri, þegar Þormóðr hefur snúið Kolbrúnarvísum upp á hana og talið henni trú um, að hann hafi ekki átt neitt vingott við Kolbrún eða ort um hana. Lísingin er svo:

„Ok svá sem myrkva dregur upp ór hafi ok leiðir af með litlu myrkri ok kemr eftir bjart sólskin með blíðu veðri, svá dró kvæðit allan óræktarþokka ok myrkva af hug Þórdísar, og rendi hugarljós hennar heitu ástar gervalla til Þormóðar með varmri blíðu“.

Þessi lísing fellur algerlega út úr hinum vanalega íslenska sögustíl og inn í riddarasögustílinn. Hin beina lísing á skapsmunum Þórdísar og samlíkingin með náttúrulísingunni, sem í henni er fólgin, er alveg ósöguleg. Náttúrulísingin stendur ekki í neinu sambandi við söguþráðinn, og hin beina skapbrigðalísing fer í bága við þá meginreglu íslenskra sagnamanna að lísa persónunum með athöfnum þeirra, orðum og gerðum. Þessi lísing stendur og ekki í þeirri gerð Fóstbræðra sögu, sem geimst hefur í Hauksbók, og er bersínilega síðari viðauki, gerður af klerki, sem hefur orðið firir áhrifum af riddarasögum.[2]) Ímislegt er fleira þessu líkt í Fóstbræðra sögu Möðruvallabókar, sem ekki finst í Hauksbókarsögunni, og mun jeg minnast á það betur síðar.

Það sem jeg nú hef tekið fram, er alt sem jeg man eftir nú í svipinn af náttúrulísingum í Íslendinga-

1) F. J., Skjalded. B. I, bls. 284. 2) Fóstbr., K. G., 11. k., bls. 38, sbr. Hauksb., útg. F. J., 370 bls. (= K. G. bls. 63—4).

sögunum. Þið sjáið á þessu, að náttúrulísingar eru mjög sjaldgæfar í sögunum, og þá sjaldan þær koma fyrir, eru þær mjög stuttar og standa í nánu sambandi við efnið í kring, annaðhvort við söguþráðinn (landalísingarnar í Eiglu) eða við persónulísingarnar (orð Þórdísar í Ljósvetningasögu) eða hvorttveggja þetta (Fljótshlíðarlísing Gunnars í Njálu).

## V.

Hvaða *lífsskoðun* kemur fram í Íslendingasögum? Þessari spurningu er erfitt að svara, og er það eðlileg afleiðing af því, að sagnahöfundarnir láta hvergi beinlínis í ljósi lífsskoðun sína. Jeg hef áður tekið það fram, að höfundarnir skíra svo að segja aldrei frá dómum sínum um viðburði þá, sem þeir greina, og leiðir það beint af þeirri meginreglu íslenskrar sagnalistar, að frásögnin á að vera algjörlega *hlutlaus* (objektiv).

Enn einmitt í þessu algerða hlutleisi sagnamannanna felst ákveðin lífsskoðun. Sagnamennirnir eru lausir við alla hleipidóma eða láta að minsta kosti enga hleipidóma hafa áhrif á frásögnina. Þeir segja blátt áfram og hlutdrægnislaust frá atburðunum með öllum þeim margvíslegu atvikum, sem þar að lúta, og láta lindiseinkunnir persónanna lísa sjer í athöfnum þeirra, orðum og gerðum, þannig að þeir draga ekki fremur taum eins enn annars. Að líkindum hefur höfundurinn haft meiri samúð með höfuðpersónu sögunnar, söguhetjunni, enn mótstöðumönnum hans. Enn það lísir sjer ekki í frásögninni. Sagan ann óvinum sögukappans fulls sannmælis. Tökum til dæmis Laxdælu. Þar standa þau Bolli og Guðrún á móti Kjartani, sem má skoða sem höfuðpersónu í þeim kafla sögunnar. Bolli hefur gert á hlut Kjartans með því að taka frá honum heitmei hans. Guðrún gerir á hlut hans með því að láta stela sverðinu konungsnaut og motrinum. Enn Kjartan gerir líka á hlut þeirra Bolla og Guðrúnar, þegar hann dreitir

þau inni að Laugum og síðan þegar hann kúgar Þórarin í Tungu til að selja sjer jörðina, sem var lofuð Bolla. Ólafr pái, faðir Kjartans, vítti hann firir það, þegar hann dreitti Laugamenn inni, og kemur þar fram dómur höfundar. Söguhetjan sjálf er þá ekki saklaus. Af þessum mótgerðum á báða bóga leiðir svo víg Kjartans. Enn þó að Guðrún væri ráðbani hans, þá er henni líst sem hinum mesta kvennskörungi, og vegandinn, Bolli, er líka látinn hafa marga góða kosti. Í firri hluta Njálu er Gunnarr söguhetjan. Honum er líst sem glæsimenni og mesta öðlingi, enn þó lætur sagan hann rjúfa þá sætt, sem hann hafði handsalað að halda. Hins vegar er þeim Gizuri hvíta og Geiri goða, sem eru forsprakkarnir að vígi hans, líst sem ágætum og veglindum höfðingjum. Í síðari hluta Njálu er Flosa borin að sínu leiti eins vel sagan eins og Njáli eða Kára. Og svona mætti halda áfram að taka dæmi úr fleiri sögum. Jeg tók það fram áðan, að jafnvel hinar fullkomnustu söguhetjur hafa sínar veiku hliðar. Enn mjer mun hafa láðst þar að taka það fram, að mjög fáum mönnum er svo illa líst í sögunum, að þeir hafi ekki líka einhverja kosti. Jafnvel Mörðr hefur þann kost, að hann elskar konu sína. Uppivöðsluseggurinn og ójafnaðarmaðurinn Óspakr í Bandamanna sögu hefur líka sína kosti. Framan af reinist hann Oddi trúr og diggur, þangað til þeim sinnast útaf goðorðinu, enn upp frá því kemur fram alt hið illa í fari hans. Þegar hann hefur drepið Vala, játar hann þó sjálfur, að það hafi verið hið versta verk. Það er þessi venja sagnamannanna að segja bæði kost og löst á persónunum, hver sem í hlut á, sem gerir persónurnar, sem þeir lísa, svo menskar og um leið svo aðlaðandi firir oss, því að vjer finnum í þeim spegil af hinu daglega lífi í kringum oss. Og í þessari óhlutdrægni sagnamannanna kemur fram ákveðin lífsskoðun. Þeir menn, sem hafa skrifað þessar sögur, hafa verið lausir við hleipidóma, sjóndeildarhringur þeirra hefur verið víður, þeir hafa haft opin augu firir öllu mannlegu, bæði góðu og illu, í fari

manna og mannúð til að skilja og bera í bætifláka firir mannlegan breiskleika. Í stuttu máli: í persónulísingum þessara höfunda kemur fram sú mannúð (humanitet), sú víðsíni, það andans frelsi, sem er eins dæmi í bókmentum miðaldanna.

Sama óhlutdrægni, sama víðsíni, sama andlega frelsi, lísir sjer í frásögn söguhöfundanna frá öllu því, sem snertir fornan átrúnað. Allar Íslendingasögur gerast annaðhvort í heiðni eða á firsta eða í síðasta lagi öðrum mannsaldri eftir kristnitökuna, meðan trúin enn var blendin. Sögurnar geta því ekki komist hjá að lísa heiðnum átrúnaði, heiðnum goðum. Enginn getur efast um það, að söguhöfundarnir vóru sjálfir trúaðir kristnir menn, enda kemur það stundum fram beinlínis eða óbeinlínis í sögunum. Eyrbyggja lætur t. d. Þórgunnu óska sjer kirkulegs í Skálholti, „því at mér segir svá hugr um, at sá staðr muni nokkura hríð vera mest dýrkaðr hér á landi.“ Sbr. Laxdælu, 66. k.: Gestr Oddleifsson vill liggja að Helgafelli, „því at sá staðr mun verða mestr hér í sveitum, þangat hefi ek oft ljós sét“; Gunnlaugs sögu, 5. k.: „Ok þessu næst urðu þau tíðindi, er bezt hafa orðit hér á Íslandi, at landit varð alt kristit ok alt fólk hafnaði heiðnum átrúnaði.“ Glúma segir, að Víga-Glúmr hafi tekið skírn, þegar kristni kom út hingað, lifað 3 vetur síðan og verið biskupaður af Kol biskupi í banasótt, andast í hvítavoðum og verið jarðaður að kirkju í Fornhaga í Hörgárdal. Og mart fleira mætti til tína því til sönnunar, að söguhöfundar hafa verið sannkristnir menn. Enn þrátt fyrir það ber ekki á neinu ofstæki hjá þeim í garð heiðninnar. Þeir eru nógu víðsínir til að skilja það, að trú forfeðra vorra á hin heiðnu goð var jafnrjettmæt og sjálfsögð eins og trú þeirra sjálfra á þríeinan guð, og þeir tala um hina heiðnu trú með fullum skilningi og virðingu, í einu orði með fullkominni óhlutdrægni. Í dírlingasögum eða sögum, sem standa þeim nærri, svo sem sögum Ólafanna, kemur það að vísu firir, að hin heiðnu goð eru skoðuð sem óhreinir andar eða sem nokkurs konar

djöflar, enn í hinum eiginlegu Íslendingasögum kemur slíkt örsjaldan firir.[1]) Jeg skal taka nokkur dæmi, sem sína, hve virðulega sögurnar tala um heiðna trú. Af fóstbræðrunum Ingólfi landnámsmanni og Hjörleifi er Ingólfr trúaður blótmaður, enn Hjörleifr þvert á móti. Leifr fær dapran dauðdaga, því að hann er drepinn við Hjörleifshöfða af auðvirðilegum þrælum. Litlu síðar ber þar að Ingólf, og er hann sjer afdrif Hjörleifs, leggur sagan honum þessi orð í munn: „Lítit lagðist hér fyrir góðan dreng, er þrælar skyldu at bana verða, *ok sé ek svá hverjum verða, er eigi vill blóta*".[2]) Heiðinginn er hjer látinn tala að sínu leiti líkt og kristinn prestur mundi tala ifir moldum mans, sem aldrei hefði sótt kirkju. Eyrbyggja lísir Þórólfi Mostrarskegg sem einlægum Þórsdírkanda. Þegar hann kemst í óvináttu við Harald hárfagra, fjekk hann að blóti miklu í Þórshofi sínu í Mostur og gekk til frjettar við Þór „ástvin sinn", hvort hann skildi sættast við konung eða fara af landi brott. Frjettin vísar honum til Íslands. Hann bír ferð sína, tekur ofan Þórshofið og hefur með sjer flesta viðu úr því og moldina undan stallanum, sem Þórr hafði setið á. Hann siglir firir sunnan land og norður firir Reikjanes. Þá kastar hann firir borð öndvegissúlum þeim, sem staðið höfðu í hofinu, og var Þórr markaður á annari, og mælti svo firir, að hann skildi þar biggja, sem Þórr ljeti súlurnar á land koma. Enn þegar þær hóf frá skipinu, sveif þeim til hins vestra fjarðarins (Breiðafjarðar), og þótti þeim þær fara furðu fljótt. Þeir lenda í Hofsvog og finna á framanverðu Þórsnesi, að þar var „Þórr á land kominn með súlurnar". Þar reisir Þórólfr bæ á Hofsstöðum og gerir upp hofið. Á tangann, þar sem Þórr hafði á land komið, lagði Þórólfr svo mikla helgi, að hann mátti eigi „saurga með heiftarblóði, ok eigi skyldi þar álfrek ganga."[3]) Út af

---

1) Sbr. þó viðureign Þorgils örrabeinsstjúps og Þórs í Flóamanna s., 20.—21. k., sjerstaklega orð Þorgils við Þór í 21. k. („inn leiði fjandi"). — 2) Landn., 1843, I, 7. k.; bls. 35—6. — 3) Eyrb., 4. k.

þessu rísa síðan deilur þeirra Þórsnesinga og Kjalleklinga í sögunni. Hvergi er hjer eitt einasta stigðarirði í garð Þórs eða heiðninnar, og átrúnaður Þórólfs kastar bersínilega engum skugga á hann í augum höfundarins, heldur er honum beint til sóma. Í Gísla sögu segir, að Þorgrímr goði Þorsteinsson Þórólfssonar Mostrarskeggs hafi verið mikill vinur Freys og fært honum blót að veturnóttum. Að blótveislu þeirri var Þorgrímr veginn. Síðan segir, að snjó hafi eigi fest sunnan á haugi Þorgríms, „ok gátu menn þess til, að hann myndi Frey svá ávarðr fyrir blótin, at hann myndi eigi vilja, at fröri á milli þeirra.“1) Frá þessu er sagt blátt áfram, og enginn dómur á það lagður. — Þegar Glúmr flæmir Þorkel háva burt frá Þverá og Freyshofinu, sem hann varðveitti á Hripkelsstöðum, er Þorkatli þungt í skapi, eftir því sem Glúma segir. Þá stendur svo í 9. k.: „Ok áðr Þorkell fór á brott frá Þverá, þá gekk hann til hofs Freys ok leiddi þangat uxa gamlan ok mælti svá: „Freyr,“ sagði hann, „er lengi hefir fulltrúi minn verit ok margar gjafir at mér þegit ok vel launat — nú gef ek þér uxa þenna til þess, at Glúmr fari eigi ónauðgari af Þverárlandi enn ek fer nú. Ok láttu sjá nokkurar jarteiknir, hvártú þiggr eða eigi.“ Enn uxanum brá svá við, at hann kvað við ok fell niðr dauðr, ok þótti Þorkatli vel hafa við látit ok var nú hughægra, er honum þótti sem þegit mundi heitit.“2) Þetta verður og að áhrínsorðum. Glúmr verður að fara frá Þverá. Í 26. k. segir sagan frá draumi Glúms firir þeim tíðindum. „Enn áðr Glúmr riði heiman, dreymdi hann, at margir menn væri komnir þar til Þverár at hitta Frey, ok þóttist hann sjá mart manna á eyrunum við ána, enn Freyr sat á stóli. Hann þóttist spyrja, hverir þar væri komnir.

1) Gisl., 15. og 18. k. — 2) Glúma, 9. k. Mjög lík saga er í Brandkrossa þ. um Odd sindra, er hann fer burt frá Oddstöðum. Helgi Ásbjarnarson kemur í stað Odds, og bir hann þar eftir Dropl., 3. k., þangað til kona hans Droplaug Bessadóttir (Oddlaug Brkr. þ.) druknar og hann kaupir Mjóanes, „ok þótti honum sér þá skjótara firrast líflát Droplaugar.“ Eflaust er sagan um Odd og Frey minduð eftir Glúmu.

Þeir segja: „Þetta eru frændr þínir framliðnir, ok biðjum vér nú Frey, at þú sér eigi á brott færðr af Þverárlandi, ok tjóar ekki, ok svarar Freyr stutt ok reiðulega ok minnist nú á uxagjöf Þorkels hins háva." Hjer er og ekki i neinu hallað á heiðnina. Frásögnin er að því leiti svo vaxin, að hún gæti vel verið sögð af heiðnum manni. — Meistaralega lísir Hallfreðar saga baráttunni milli trúarinnar á Krist og trúarinnar á Óðin, Frey og Njörð í hjarta Hallfreðar vandræðaskálds, og hefur sagan þar stuðning í vísum Hallfreðar. Frásögnin er hjer og alveg hlutlaus, hallar í engu á heiðnina, því að eigi má það hlutdrægt heita, þó að sagan láti Ólaf konung segja við Hallfreð, að hann skuli ekki lengur þjóna fjandanum. Hins vegar lætur hún Hallfreð segja við Ólaf, að hann muni tína þeim kristnum fræðum, sem konungur ljet kenna honum, ef hann hlíði ekki kvæði, sem Hallfreðr hafði ort um hann, „ok eru þau fræði ekki skáldlegri, er þú lézt mik nema, enn kvæðit er, sem ek hefi um þik ort". (Hallfr. s., 6. k.). Annars er svo að sjá á sögunni, sem það hafi fremur verið drottinhollusta Hallfreðar við Ólaf konung enn ifirburðir kristinnar trúar, sem drógu hann til kristni.

Þessi dæmi nægja til að sína, hvernig sagnahöfundarnir bera hinum heiðnu goðum og heiðninni söguna. Vjer sjáum á þessu, að þeir hafa verið andlega frjálsir menn, mannúðlegir og víðsínir í dómum sínum og lausir við þann klerkaofsa, sem einkennir miðaldirnar. Mun það umburðarlindi við heiðna trú, sem hjer kemur fram, vandfundið í ritum miðaldanna, enn minnir aftur sterklega á rit húmanistanna á endurfæðingartímanum. Sama umburðarlindi, sama andans frelsi, sama mannúð lísir sjer í goðasögunum í Snorra-Eddu. Þessir höfundar unna fornum sið sannmælis, enn af því megum vjer ekki álikta, að þeir hafi sjálfir verið blendnir í trúnni eða að trúin á hin heiðnu goð hafi enn lifað í kolunum, þegar sögurnar voru ritaðar.

Aftur á móti virðast söguhöfundarnir hafa tekið í arf frá forfeðrunum eitt atriði í hinni heiðnu lífsskoðun, og það er trúin á hið dularfulla vald örlaganna. Þessi trú er mjög rík í sögunum. Málsháttinn „eigi má sköpum renna“ (eða „við sköpum sporna“) mætti setja sem einkunnarorð firir flestar sögur. Hann kemur firir í Harðar sögu, 35. k. 106. bls., í Vatnsd., 15. k., bls. $26^{17}$ sbr. Gísl. k. 9,22: „mæla verðr einnhverr skapanna málum“. Í Glúmu dreimir Glúm firir því, að hamingja Vigfúsar móðurföður hans, sem er dáinn, komi til Þverár í konu líki og leiti sjer staðfestu hjá Glúmi. Svo filgir hamingjan sumum persónum sagnanna, og hefur hún mörg nöfn: gæfa, gifta, auðna, heill. Slíkum mönnum lánast alt vel, sem þeir taka firir, eru „giftudrjúgir“ (Flóam., 20. k.). Aðra eltir ógæfan í hverju sem þeir gera, hve vel sem þeir eru gerðir, eins og t. d. Gretti, enda lætur Grettis saga Jökul móðurbróður Grettis segja við hann: „satt er þat, sem mælt er, at sitt er hvárt, gæfa eða gervuleikr“ (Grett., 34. k.). Í 31. k. Grettis sögu vill Barði ráða Gretti með sjer til suðurfararinnar (Heiðarvíganna). Enn Þórarinn spaki fóstri hans ræður frá því: „grunar mik um, hversu heilladrjúgr hann verðr, ok muntu þess þurfa, at eigi sé allir ógæfumenn í þinni ferð“. Sbr. orð Ólafs helga: „Mikill ógæfumaðr ertu, Grettir“ k. 39,8. Líkt segir Ólafur helgi við Þorgeir Hávarsson, Fóstbr., 8. k. („ok munt ekki vera í öllu gæfumaðr“). Þegar sættin út af vígi Höskuldar Hvítanesgoða er orðin að engu út af orðasennu þeirra Flosa og Skarpheðins, segir Hallr af Síðu: „helzti miklir ógæfumenn eigu hér í hlut at“ (Nj., k. $123^{102}$). Oft lísir gæfan eða ógæfan sjer í svip mannanna. Svo segir t. d. Þorkell hákr um Skarpheðin, að hann sje „ógæfusamlegr“ (Nj., k. $120^{34}$). Um Þorstein, föður Ingmundar, segir Vigdís, sem varð tengdamóðir hans, að hann sje „giftuvænligr at sjá“, og um Ingimund segir Ingjaldr, vinur Þorsteins: „hamingjusamligr sveinn ertu“. Þessar hugmindir um gæfu og ógæfu, gæfumenn og ógæfumenn, spretta bersínilega af örlagatrúnni. Það sjest t.

d. á orðum Njáls, þegar þeir Ásgrímr Elliða-Grímsson koma bónleiðir til búðar hans: „Búit arki at auðnu, til hvers sem draga vill“ (Nj., 120 k.), eða orðum Þórhalls i Reykdælu, k. 6[29]: „ferr þá sem auðit verðr“, eða orðum Þorsteins i Gunnlaugs sögu (4. k.): „veltr þangat sem verða vill um flesta hluti“.

Þegar Áskell vitir Vémund kögur frænda sinn firir óspektir hans, afsakar Vémundr sig með þessum orðum: „kvað hvern sinum forlögum fylgja verða, ... ok ... þá mun hverr deyja, er feigr er“ (Reykd., 6. k. niðurlagið). Sama hugsun kemur fram í málshættinum „eigi má feigum forða“, sem Harðar saga leggur i munn Helgu, þegar Hörðr, maður hennar, gengur í greipar óvinum sinum (Harðar saga, 35. k., bls. 103). Þegar Njáll gengur inn í húsin á Bergþórshvoli og vill ekki verjast þeim Flosa úti, tekur Skarpheðinn það sem merki þess, að Njáll sje feigur. Lík hugsun kemur fram í orðskviðnum „hverjum bergr nokkut, er eigi er feigr“ (Fóstbr., Hb. k. 9, bls. 100) og „eigi má ófeigum bella“ (Heiðarv. saga, Kålund, 40. bls.). Þetta var lífsskoðun hinna fornu víkinga, og var hún þeim ein hin sterkasta hvöt til góðrar framgöngu í orustum. Vjer sjáum, að hún stendur enn i fullum blóma i Noregi á 12. öldinni, því að Sverrir konungur notar sjer þessa orðskviði i eggjunarræðum til manna sinna á undan orustunni á Íluvöllum. Sverrir segir þar frá heilræðum bónda við son sinn, sem fer i hernað, á þessa leið: Bóndi segir: „Hvernig myndir þú hátta, ef þú kæmir í orrustu ok vissir þú þat áðr, at þar skyldir þú falla?“ Sonurinn svarar: „Hvat væri þá við at sparast at höggva á tvær hendr?“ Karl mælti: „Nú kynni nokkurr maðr þat at segja þér með sannleik, at þú skyldir eigi þar falla?“ Sonur svarar: „Hvat væri þá at hlífast við at ganga fram sem bezt?“ Karl mælti: „Í hverri orrustu sem þú ert staddr, þá mun vera annathvárt, at þú munt falla eða braut komast, ok ver þú fyrir því djarfr, at alt er áðr skapat. Ekki kemr ófeigum í hel, ok ekki má feigum forða — í flótta er fall verst“. Og sama

lífsskoðun kemur enn fram í fullum krafti á 13. öldinni á Íslandi, um það leiti sem flestar Íslendingasögur eru skrifaðar. Það sjest t. d. á hinni ágætu vísu, sem Þórir jökull kveður, þegar hann er leiddur til höggs eftir Örlygsstaða bardaga 1238:

Upp skalt á kjöl klifa,
köld er sjávar drifa,
kostaðu hug þinn herða:
hér muntu lífit verða.
Skafl beygjattu, Skalli,
þót skúr á þik falli —
ást hafðir þú meyja —
eitt sinn skal hverr deyja.[1])

Hjer kemur örlagatrúin sjerstaklega fram í síðasta vísuorðinu, orðskviðnum „eitt sinn skal hverr deyja", sem þíðir hjer um bil sama og „eigi má feigum forða". Vísan ber það með sjer, að hún er ort í sjávarháska, og er því eldri enn Þórir jökull, enn samt sínir hún lífsskoðun hans, örlagatrúna, því að hann gerir orð vísunnar að sínum orðum. Mart er það fleira í Sturlungu, sem sínir, að örlagatrúin lifði enn góðu lífi í hjörtum Íslendinga á 13. öldinni. Trúin á hamingju ættarinnar kemur t. d. ljóst fram í draumnum, sem Egil Halldórsson dreimdi, þegar Snorri Sturluson ætlaði að flitja burt frá Borg (um 1208), ættbóli Míramanna. Egill þessi var af Míramanna kini að langfeðgatali. Hann dreymdi, að Egill Skalla-Grímsson kom til hans og ljet illa ifir því, að Snorri ætlaði burt frá Borg, „því at lítt hafa menn setit yfir hlut várum Mýramanna, þá er oss tímgaðist".[2]) Mjög ljóslega kemur örlagatrúin fram í hinni indislegu sögu um Þórurnar, dætur Guðmundar gríss á Þingvelli. Eldri Þóra spir sistur sína, hvern mann hún mundi helst kjósa að eiga. Ingri Þóra segir: „Enga þörf ætla ek á því, því at alt mun ætlat fyrir, ok gerir því ekki hugsan fyrir slíku at bera eða geipa þar um nokkut." „Nú er þat víst", segir hin eldri Þóra, „at þat er ákveðit, er minna

1) Sturl.³ 1, 532 bls. — 2) Sturl.³ 1, 273.

háttar er enn forlög manna. Enn þó vil ek eigi at síðr at þú segir mér, hvat þú mundir kjósa, ef fyrir lægi." Endirinn verður, að eldri Þóra segir first, að hún mundi kjósa Jón Sigmundarson, enn ingri Þóra óskar sjer, að Jóra biskupsdóttir kona Þorvalds Gizurarsonar andaðist og að hún irði síðari kona Þorvalds. Báðar óskirnar verða síðar að áhrínsorðum.[1]) Mart er það fleira í Sturlungu, svo sem firirburðir og draumar firir stórtíðindum, sem sínir, að örlagatrúin var í fullu fjöri, þegar sögur vorar vóru ritaðar, — hún er jafnvel ekki með öllu kulnuð enn þann dag í dag —, enda er örlagatrúin svo rík í sögunum, að það er ljóst, að höfundar þeirra hafa trúað á örlagavaldið. Afstaða þeirra við örlagatrúna er því alt önnur enn afstaða þeirra við trúna á hin heiðnu goð. Þeir trúa ekki sjálfir á Þór eða Óðin, þó að þeir tali um heiðna trú með allri virðingu, enn þeir trúa á það, að örlög mannanna sjeu ákveðin firir fram. Þó að sagnahöfundarnir sjeu sjer þess meðvitandi, að þeir eru að lísa heiðnum mönnum, sem trúa á heiðin goð, og að það sje skilda þeirra sem sagnamanna að unna þessari trú og heiðnu goðunum sannmælis, þó kemur það tiltölulega sjaldan firir, að þeir minnist á slíkt. Enn örlagtrúin, sem líka er ramheiðin, lísir sjer í annari hverri línu í sögunum, og í sumum sögum er hún svo rík, að hún ber upp alla söguna. Sagnamennirnir taka örlagatrúna í þjónustu sagnalistarinnar og spinna úr henni þann rauða þráð, sem heldur allri sögunni saman.

Örlagatrúarmenn trúðu því, að menn gætu með ímsu móti vitað firir forlög sín. Menn gátu leitað „fréttar" hjá goðunum, eins og Þórólfr Mostrarskegg gerði, áður en hann fór til Íslands. Sumir menn vóru *forvitrir* og gátu sagt firir örlög manna (t. d. Njáll, Gestr Oddleifsson o. fl.). Til slíkra manna má telja *völur* og *spákonur* og *framsínar fóstrur*, sem oft koma

1) Sturl.[3] I, 248—251.

firir í sögunum.[1]) Líka tóku menn mark á ímsum *firirburðum*, og er nóg af þeim bæði í Íslendingasögum og í Sturlungu. Þegar singur í atgeiri Gunnars, veit það á „manns bana eins eða fleiri“ (Nj., k. 79[13]). Ef hrafnar filgja manni á leið til víga, veit það á, að menn fari ekki erindisleisu. Svo filgja hrafnar tveir þeim Högna og Skarpheðni, þegar þeir fara að hefna Gunnars (Nj., k. 79[15]), og sama trú kemur fram á Sturlungaöldinni. Þegar þeir Eyjólfr og Hrafn fara norðan úr Eyjafirði að Oddi Þórarinssini í Geldingaholti, „fljúga tveir hrafnar með þeim um alla heiðina. Hrafni Oddssyni kvaðst það vel líka, er nafnar hans váru þeim í sinni. Þá kvað Þorvarðr tréfótr vísu þessa: Brands fljúga tveir með tíri tafns leitandi hrafnar ... Er þat satt, at á mörgu henda spakir menn mið.“[2]) Meðal firirburða má sjerstaklega nefna *drauma*, sem menn tóku mikið mark á.

Alt þetta, sem nú var talið: spásagnir framsínna manna, karla eða kvenna, firirburði og þó sjerstaklega drauma nota sagnamennirnir í þjónustu íþróttar sinnar. Þeir láta hið ókomna lísa sjer firirfram í spásögnum framsínna manna, firirburðum eða draumum og undirbúa þannig frásögn viðburðanna sjálfra, vekja hjá lesandanum eða áheirandanum eftirvænting um það, sem fram á að koma, von eða kvíða. Í sumum sögum eru svo að segja allir hinir merkari viðburðir boðaðir firirfram á þennan hátt, t. d. í Njálu, og það eru aðallega þessir forboðar, sem halda frásögninni saman og gera hana að einni heild. A. U. Bååth segir um Njálu: „Þegar vjer lítum á Njálu eins og hún er til vor komin, sem eina söguheild, þá sjest, að höfundur hennar hefur haft svo mikið vald ifir efninu, sem hann fór með, að hann hefur þegar í upphafi sögunnar, er hann reit firstu línuna, haft auga á síðustu línunni . . . og að hann hefur frá birjun til enda haft firir augum fasta

---

1) Eyrb., 63. k., fóstra Þórodds; Heiðarv., Kål., bls. 70 og 76—77. — 2) Sturl.[3] II, 233.

uppistöðu („plan“) sögunnar, hugsaða út í æsar og bigða á örlagatrúnni, og lísir þessi uppistaða sjer firirfram í spásögnum um óorðna hluti eða firirboðum firir því, sem síðar gerist.“ Og á öðrum stað segir sami maður: „Í Njálu gerist ekkert — ekki hið allra minsta — nema það sje boðað firirfram.“[1]) Bååth hefur í þessari ritgerð rakið ágætlega alla uppistöðu sögunnar og fært full og gild rök firir þessum dómi sínum. Þó er það nokkuð djúpt tekið í árinni, að „ekki hið allra minsta“ gerist án þess að það sje boðað firirfram, og má ekki taka það of bókstaflega. Í Njálu eru firirboðarnir oftast fólgnir í spásögnum spakra manna (t. d. Njáls, Hrúts) eða manna, sem eru feigir (Skarpheðinn spáir því í brennunni, að Kári muni hefna þeirra feðga),[2]) eða framsinna kvenna (kerlingin og arfasátan), enn stundum eru þeir þó fólgnir í öðrum firirburðum (atgeir Gunnars gefur frá sjer hljóð firir vígum, hrafnarnir, sem filgja Högna og Skarpheðni — sbr. áður) firiburðurinn firir Njálsbrennu, sem ber firir Hildiglúm á Reykjum (maður á grám hesti með eldibrand í hendi kveður vísu), eða í draumum (draumur Flosa firir falli brennumanna, maður í geithjeðni með járnstaf í hendi, Járngrímr að nafni, gengur út úr Lómagnúpi og kallar nöfn þeirra, sem feigir vóru, Nj., 133. k.).

Á þessu sjest, að Njáluhöfundurinn hefur gert þessa firirboða firir hinu ókomna, sem eiga rót sína í örlagatrúnni, að megingrundvelli sagnaíþróttar sinnar. Í engri annari sögu er þessu vopni beitt af jafnmikilli snild eins og í Njálu, enn flestar sögur beita því meira eða minna. Í Gunnlaugs sögu ormstungu speglast allur gangur sögunnar, sem á eftir fer, í draumi Þorsteins, föður Helgu hinnar fögru, í upphafi sögunnar um álftina fögru og örnuna tvo, sem börðust um hana, þangað til þeir hnigu báðir dauðir niður, og valinn úr vestri, sem síðan ljet blítt við álftina og flaug með henni heim

1) A. U. Bååth, Studier öfver kompositionen i några isl. ättsagor 159.—160. og 90. bls. — 2) Nj., k. 129[129]: þat hlægir mik, ef þú kemst í braut, at þú munt hefna vár.

til sín (síðari mann Helgu, Þorkel úr Hraunsdal). Allur hinn síðari hluti Laxdælu er boðaður firirfram í þeim fjórum draumum, sem Guðrúnu Ósvífrsdóttur dreimir og leggur firir Gest spaka til ráðningar. Í Harðar sögu birtir draumur Signýjar, sem hana dreimdi meðan hún gekk með Hörð, örlög Harðar firirfram í meginatriðum. Í Vatnsdælu gengur gifta Vatnsdæla, Ingimundar og þeirra langfeðga, eins og rauður þráður gegnum alla söguna, og er örlagatrúin þar ríkari enn í flestum öðrum sögum, ekki síst í frásögninni um Ingimund sjálfan. Þar er sagan um Finnuna eða Heiði völu, sem Landnáma nefnir svo. Hún spáir Ingimundi, að hann muni biggja á Íslandi, og það til marks, að hlutur sá, sem Haraldr konungur gaf honum í Hafrsfirði, Freyr úr silfri, sje nú horfinn úr pússi hans og kominn í holt það, þar sem hann muni biggja á Íslandi. Ingimundr streitist á móti, vill ekki „selja ættjarðir sínar margar ok góðar ok fara í eyðibygðir þær." Hann sendir Finna í hamförum til Íslands til að sækja hlutinn. Enn það kemur firir ekki. Ingimundr verður að fara til Íslands „af forlögum ok atkvæði rammra hluta," segir sagan (12.k.), og þegar hann reisir hof sitt og grefur firir öndvegissúlum þess, finnur hann hlutinn.

## VI.

Þjer sjáið á þessu, að meginþráðurinn *í uppistöðu* margra Íslendingasagna er ofinn úr örlagatrúnni. Uppistöðu kalla jeg það, sem kallað er á Norðurálfumálum „komposition," og skal jeg nú ræða nokkrum orðum um það atriði.

A. U. Bååth hefur rannsakað nákvæmlega uppistöðuna í 4 Íslendingasögum: Ljósvetninga sögu, Vatnsdælu, Laxdælu og Njálu, í ritgerð sinni, sem áður var nefnd, „Studier öfver kompositionen i några isländska ättsagor." Af þeim er Ljósvetninga saga lausust í sjer, að því er uppistöðuna snertir, og má fremur heita safn

af þáttum enn ein heild, einkum firri hlutinn (Guðmundar saga), enda ber minst á örlagatrúnni í þessari sögu. Í Vatnsdælu er örlagatrúin ráðandi í uppistöðunni, það er hún, sem tengir viðburðina saman og gerir þá að einni heild. Í þeirri sögu eru að vísu þættir, enn þeir taka eðlilega við hver af öðrum, jafnóðum og nijar kinslóðir koma til sögunnar, og er alt áframhaldandi frásögn. Laxdæla er lík Ljósvetninga sögu í firri hlutanum, þangað til Kjartan og Guðrún koma til sögunnar; í þeim hluta eru þættir, sem standa í nokkuð lausu sambandi hver við annan, og það er lítið af þeim firirboðum ókominna viðburða, sem stafa frá örlagatrúnni. Enn síðari hlutinn, saga Kjartans og Guðrúnar, er ein heild frá upphafi til enda, og örlagaþráðurinn, sem lísir sjer í draumum Guðrúnar, aðalþáttur uppistöðunnar. Í Njálu eru að vísu þættir, enn samt er sagan ein heild frá upphafi til enda, og er það örlagaþráðurinn, sem heldur öllu saman, og kemur það fram í því, að allir hinir merkari viðburðir eru boðaðir firirfram með spám, firirburðum eða draumum (sbr. áður). Af þessu dregur síðan Bååth þá áliktun, sem nú skal greina:

Það er örlagatrúin, sem ræður mestu um uppistöðu Íslendingasagna, því veikari sem hún er í frásögninni, því lausara er sambandið milli hinna einstöku þátta sögunnar og því skarpari greiningin milli þeirra. Enn í þeim sögum, þar sem örlagatrúin er sá rauði þráður, er tengir viðburðina saman, þar ber annaðhvort miklu minna á þáttunum, eða þeir hverfa alveg.

Þessi niðurstaða Bååths er rjett, að því er snertir þær fjórar sögur, sem hann hefur rannsakað. Enn hún á ekki við allar Íslendingasögur. Sumar sögur eru ein heild frá upphafi til enda, uppistaðan alveg bláþráðalaus eða svo að segja alveg, öll hin einstöku atriði hníga að söguheildinni, og er hvert um sig nauðsinlegur liður í þræði sögunnar, og þó ber í þeim tiltölulega lítið á örlagatrúnni. Jeg tek til dæmis Hrafnkels sögu, Hænsa-Þóris sögu og Bandamanna sögu. Það er rjett, að örlagatrúin ræður mestu um uppistöðu sumra sagna, enn því

fer fjarri, að hún sje einráð í þessu efni. Annars er uppistaðan mjög misjöfn í sögunum, eins og við er að búast, þar sem efnið var að miklu leiti gefið firirfram í munnmælunum. Í sumum er uppistaðan svo að segja bláþráðlaus, í sumum slitna þræðirnir oft í sundur, og sagan verður ekki ein samhangandi heild, heldur miklu fremur safn af sjerstökum þáttum, sem eru lauslega tengdir hver við annan. Svo er til dæmis um eina af hinum merkustu sögum, Eyrbyggju. Enn annars mætti það æra óstöðugan að rekja uppistöðuna í öllum Íslendingasögum, enda er það ekki tilgangur minn. Jeg hef aðeins viljað drepa á nokkur meginatriði, sem hjer að lúta, til leiðbeiningar þeim, sem lesa sögurnar.

Í nánu sambandi við uppistöðu sagnanna stendur sá siður þeirra að kinna (præsentera) lesandanum þær persónur, sem við söguna koma, segja deili á þeim, áður en sagt er frá athöfnum þeirra. Sögurnar sjálfar kalla þetta „at nefna mann (menn) til sögunnar“[1]) og er það orðatiltæki þó sjaldan haft, þar sem menn eru greindir í birjun sögunnar, heldur inni í miðju máli hennar. First er þá sagt, hvað maðurinn hjet („Maðr hét N. N.“), og þá hvar hann átti heima, stundum hverrar ættar hann var, hvað börn hans hjetu, og svo er oft bætt við stuttri mannlísingu. Sumar sögur birja á nokkurskonar skrá ifir flestar þær persónur, sem segir frá, segja stuttlega deili á þeim öllum í einu í upphafi sögunnar, og líkist þá þessi skrá þeim persónulistum, sem standa firir framan grísk og latínsk leikrit og eins leikrit nútímans (personæ dramatis). Fleiri eru þó þær sögur, sem hafa fleiri enn eina persónuskrá, first í upphafi sögunnar skrá ifir þá menn, sem sagt er frá first í sögunni, síðar aftur aðra, þar sem níjar persónur koma til sögunnar, og birjar þar þá vanalega um leið nír þáttur, og svo koll af kolli, ní skrá, þar sem nír þáttur birjar.

1) Sá maðr er nefndr til sögunnar, er Geir goði hét, Nj., 46. kap. Þessa menn nefnum vér til sögunnar, Svarfd., 16. k. Bræðr þrír eru nefndir til sögunnar Nj., k. 13[1]. Sá maðr er nefndr t. s. er Arnórr hét, Glúma, k. 11[1].

Einstakir menn eru og stundum kintir sjerstaklega, þar sem þeir first koma til sögunnar. Þessar persónuskrár eða kinningar eru bersínilega til þess ætlaðar að átta lesandann í uppistöðu sögunnar. Hann á hægra með að filgja þræði frásagnarinnar, þegar hann veit firirfram nokkur deili á persónum sögunnar. Fróðlegt er að sjá, hvernig Njálusnillingurinn fer með þetta íþróttameðal, og mun jeg því stuttlega skíra frá ganginum í Njálu og í sambandi við það frá persónukinningunum.

Hún birjar á þættinum um hjónaband þeirra Hrúts og Unnar, og í upphafi sögunnar eru taldar þær persónur, sem koma við þann þátt. Þá er þátturinn, sem segir frá Hallgerði og tveimur hinum firstu mönnum hennar, Þorvaldi og Glúmi. Er þar first lísing á Hallgerði í 9. k. (hennar er getið áður í 1. k.), og svo er getið Þjóstólfs, fóstra hennar, og Þorvalds, firsta manns hennar, sem hún ræður bana; þegar búið er að segja frá, hvernig fór milli Hallgerðar og Þorvalds, eru sögð deili á næsta manni hennar Glúmi og bræðrum hans (í 13. k.) og svo frá, hvernig það hjónaband fór. Þessi kafli um tvö hin firstu hjónabönd Hallgerðar er nokkurs konar inngangur að sögu Gunnars, sem verður þriðji maður hennar, og birjar nú þegar meginþáttur sögunnar á níjum persónulista, af því að nú koma níir menn til sögunnar. Gunnari og bræðrum hans er líst í 19. k., Njáli og hans fólki í 20. k., og eru þó börn hans ekki greind sjerstaklega fir enn í 25. k., eftir söguna um fjárheimtu Gunnars af Hrúti firir Unni Marðardóttur, því að þá first fara þeir að koma við söguna, og þar eru líka sögð deili á Merði, Ásgrími Elliða-Grímssini o. fl., sem nú koma til sögunnar. Nú birjar líka nír þáttur í Gunnarssögunni, first um kvonfang Njálssona, þá um utanferð Gunnars og brúðkaup, er hann fær Hallgerðar, enn Þráinn Þorgerðar, síðan um deilur þeirra Bergþóru og Hallgerðar og víg, sem þær ljetu vega hvor firir annari. Í þessum kafla eru menn kintir jafnóðum og þeir koma til sögunnar (t. d. Þráinn og bræður hans í 34.

k., Kolr og Svartr í 36. k., Atli í 37. k., Brynjólfr rósti í 38. k., Þórðr leisingi í 39. k., Sigmundr og Skjöldr í 41. k.). — Með 46. k. birjar nír þáttur, sem segir frá stuldi Hallgerðar í Kirkjubæ og viðureign þeirra Gunnars og Otkels. Þar koma níir menn til sögunnar, og eru þeir greindir í upphafi þáttarins (Geirr goði, Gizurr hvíti í 46. k., Otkell og hans ættmenn og Skammkell í 47. k.). Lög-Skafti og Þóroddr faðir hans eru kintir í 56. k., þar sem þeir koma first við söguna. — Þá er þátturinn um viðureign Gunnars við Starkað undan Þríhyrningi og Egil Kolsson og Þorgeir Otkelsson, sem leiðir til falls Gunnars. Þar er persónuskrá í upphafi þáttarins (Starkaðr og hans ætt í 57. k., Egill og hans ætt og Austmennirnir Þórir og Þorgrímr í 58. k.). Í 59. k. er getið um fæðing Höskulds Hvítanesgoða og sini Gunnars, Högna og Grana, og sjer höfundur þar fram í tímann, því að saga Höskulds er einn af þeim liðum, sem tengir saman Gunnarssöguna og Njálsbrennusöguna, og Högni hefnir síðan Gunnars ásamt Skarpheðni, enn Grani snínst í lið með Þráni og Sigfússonum á móti Njálssonum. Annar þráður, sem tengir Gunnarssöguna við það, sem eftir fer, er hníttur í 75. k., þar sem segir frá firirhugaðri utanför Þráins og Njálssona. Gunnarssagan endar á hefndinni eftir hann og sættum, sem svo komust á, og stuttri frásögn um Kolskegg, bróður Gunnars (81. k.). Þá birjar brennusagan á frásögninni um hvað gerist í utanför Þráins og Njálssona. Bæði Þráinn og Njálssinir eru kintir áður, svo að hjer þarf ekki neina níja persónuskrá í upphafi þessa kafla, enn hins vegar eru þeir menn, sem hjer koma first við söguna, greindir jafnóðum og þeir koma til sögunnar (Kári í 84. k., Sigurðr Orkneijajarl í 85. k., Hrappr í 87. k. o. s. frv.). Af þessari utanför leiðir svo víg Þráins og sættir eftir hann og það, að Njáll tekur Höskuld til fósturs. Þá birjar nír kafli, sem allur stefnir að vígi Höskulds, og er hjer nú enn persónuskrá, sem greinir þá nírja menn, sem nú koma til sögunnar: Flosa og bræður hans og Hildigunni, Hall af Síðu, Þorgeir skorar-

geir og bræður hans (96. k.). Inn í þennan þátt af Höskuldi Hvítanesgoða er fljettað: 1) frásögnin um víg Höskulds Njálssonar, og kemur þar Lýtingr til sögunnar; er hann kintur í upphafi þeirrar frásagnar (98. k.); líka er þar kintur Ámundi sonur Höskuldar, sem á að hefna hans; 2) Kristniþátturinn; eru þar þegar í upphafi greindir þeir menn, sem helst koma við þá sögu og ekki eru áður kintir: Ólafr Tryggvason, Þangbrandr, Guðleifr Arason. Eftir víg Höskulds birjar eftirmálið eftir hann, og eru þar kintir þeir tveir höfðingjar, sem helst koma við eftirmálið, Guðmundr ríki (113 k.) og Snorri goði (114. k.). Þorkell hákr er kintur síðar, rjett áður enn þeim lendir saman á þinginu honum og Skarpheðni (119. k.). Svo kemur sagan um brennuna og aðdraganda hennar; eru þar taldir í einu þeir höfðingjar, sem Flosa filgja (124. k.), enn flestir þeirra eru kintir áður. Þá er eftirmálið eftir brennuna, og er þar ekki um sjerstaka persónuskrá að ræða, því að hjer koma fáir niir menn til sögunnar, og þessir fáu eru greindir jafnóðum og frásögnin kemur að þeim (Eyjólfr Bölverksson í 138. k.). Eftir brennumálin og sættir þær, sem á komust, er sagan um hefnd Kára og að lokum sætt hans og Flosa. Í þessum þætti er lítið um persónuskrár, heldur eru níir menn greindir jafnóðum og þeir koma til sögunnar (t. d. Björn í Mörk í 148. k.). Inn í þennan þátt er skotið Brjánsþættinum, er þar og persónuskrá í upphafi hans (154. k.).

Vjer sjáum þá, að persónuskrár marka vanalega skil í uppistöðu sögunnar. Þær marka upphaf nís kafla í sögunni og standa því vanalega í upphafi hvers kafla, þó því að eins að nokkuð margar níjar persónur komi til sögunnar í kaflanum; ef svo er ekki, er hver einstaklingur kintur, þar sem hann first kemur til sögunnar, þó að það sje inni í miðjum kafla. Mjög sjaldgæft er það, að sagt sje frá manni upp úr þuru, sem ekki hafa verið sögð nein deili á firirfram, og oftast nær stendur eitthvað sjerstaklega á því, ef svo er, t. d. má stundum sanna, að frásögnin um þann mann er tekin eftir öðrum eldri ritum inn í söguna.

Hins vegar kemur það oft firir, þegar sagan hættir að segja frá einhverjum manni, að það er beint tekið fram, að „nú sje hann úr sögunni.“ Þessi siður svarar nákvæmlega til hins siðarins, að kinna mönnum þær persónur, sem frá er sagt, áður en þær koma til sögunnar, og er tilgangurinn sami með hvorutveggja, að leiðbeina lesandanum eða áheirandanum, svo að hann geti betur filgt efni frásagnarinnar, muni deili á þeim persónum, sem frá er sagt, enn íþingi ekki minninu lengur enn þörf er á með þeim persónum, sem úr sögunni hverfa.

## VII.

Þá skal jeg minnast fám orðum á orðfærið í Íslendingasögunum, *sögustílinn,* sem kallaður er. Hver sem les Íslendingasögur, finnur til þess ósjálfrátt, hve vel orðfæri þeirra á við efnið, og dáist að því, enn það er hægra að finna til slíks enn greina nákvæmlega, í hverju sögustíllinn er fólginn. Efnið er viðburðir úr daglega lífinu. Því efni hæfir einföld frásögn og látlaus, og þessir eiginlegleikar einkenna sjerstaklega sögustílinn. Eins og jeg áður hef tekið fram, líkist hann mjög munnlegri frásögn og er einfaldur og óbrotinn eins og hún. Enn þó að stíllinn sje einfaldur og látlaus, eða rjettara sagt, einmitt af því að hann er einfaldur og látlaus, þá tekst sagnamönnunum að leiða viðburðina, sem þeir skíra frá, fram firir sjónir vorar svo ljósa og lifandi, að oss finst sem þeir gerist firir augum vorum. Í því er hin mikla íþrótt sagnastílsins fólgin, að hann lætur söguna gerast framm firir lesandanum, hann hefur alt af augun á atburðunum eða athöfnunum (facta) og vefur sig utan um þá líkt og gagnsæ blæja. Með ensku nafni mætti kalla sögustílinn „matter-of-fact style“, því að *facta,* athafnir, viðburðir, eru efni sögunnar. Setningaskipunin er einföld og óbrotin, lítið um aukasetningar, líkt og í daglegu tali. Frásögnin er laus við óþarfa málalengingar, gjörsneidd allri klerkamærð og íburði, og

komi slíkt firir, þá er því vanalega síðar í aukið af einhverjum klerki. Mest ber á slíku í þeirri gerð Fóstbræðra sögu, sem geimst hefur í Möðruvallabók og Flateijarbók. Þar kemur t. d. firir þessi klausa um Þorgeir Hávarsson: „hinn hæsti höfuðsmiðr hafði skapat ok gefit í brjóst Þorgeiri svá örugt hjarta ok hart, at hann hræddist ekki ok hann var svá öruggr í öllum mannraunum sem hit óarga dýr. Ok af því at allir góðir hlutir eru af guði gervir, þá er öruggleikr af guði gerr ok gefinn í brjóst hvötum drengjum ok þar með sjálfræði at hafa til þess er þeir vilja, góðs eða ills, því at Kristr hefir kristna menn sonu sína gert enn ekki þræla, enn þat mun hann hverjum gjalda, sem til vinnr."[1]) Þessi klerkamærð er svo ólík vanalegum sögustíl sem framast má verða, enda stingur hún í stúf við orðfærið á sjálfri Fóstbræðra sögu bæði á undan og eftir, og er auðséð, að einhver lærður klerkur hefur fjallað um söguna og skotið inn þessari grein og fleirum samskonar greinum, enda er Hauksbókargerð sögunnar til samanburðar í síðari kafla sögunnar, og finst þar ekkert af slíkum viðaukum. Þjer munið eflaust eftir sögunni um víg Þorgríms trölla, sem jeg mintist á firir skemstu. Menn hjeldu first, að Fífl-Egill hefði vegið það víg, enn ekki Þormóðr Kolbrúnarskáld, af því að Fífl-Egill flíði frá vetvangi að undirlagi Þormóðar, og veittu menn því Agli eftirför. Hauksbók segir þannig frá hræðslu Egils: „Egill varð stórum hræddr, er hann sá manna för eftir sér ok með vápnum. Ok er hann var handtekinn, skalf á honum leggr og liðr sakir hræðslu."[2]) Enn í Flateijarbók segir svo: „Egill varð stórum hræddr, er hann sá mennina hlaupa eftir sér herklædda. Ok er hann varð handtekinn, skalf á honum leggr ok liðr fyrir hræðslu sakir. Öll bein hans skulfu, þau sem í váru hans líkama, enn þat váru tvau hundruð beina ok fjórtán bein. Tennr hans nötruðu, þær váru þrjátíu. Allar æðar í hans hörundi pipruðu fyrir hræðslu sakir. Þær váru fjögur

1) Fósbr. s., 3. k. — 2) Hauksb., bls. 395.

hundruð ok fimtán."[1]) Að vísu er þessi upptalningur beina og æða fjarska hlægilegur í þessu sambandi, enn hann stingur alveg í stúf við sögustílinn og er bersínilega í aukið af klerki, sem hefur viljað sína lærdóm sinn, og getur enginn vafi verið á því, að Hauksbók hefur hjer geimt hinn upphaflega texta sögunnar. Í Vatnsdælu koma og firir ímsar smágreinar, sem klerkabragð er að, einkum í síðari kafla sögunnar, þætti Þorkels kröflu, t. d. „Bjóst Þorkell mjök kristilega við sínum dauða, eftir því sem honum samdi, því at hann var vel kristinn maðr ok ræktaði vel trú sína . . . . hann var rétttrúaðr maðr ok elskaði, sem sá er framast elskaði, sannan guð."[2]) Líka bregður oft firir riddarasögustíl í þessari sögu. Það er auðsjeð, að sagan er mjög ung í þeirri mind, sem hún er til vor komin, enda er hún að eins til í til-tölulega ungum handritum. Hins vegar hefur sagan verið notuð af þeim manni, sem Landnáma Sturlubókar og Hauksbókar stafar frá, enn sú gerð Landnámu er til orðin um 1225. Hlítur því sagan í sinni upphaflegu mind að vera frá firsta fjórðungi 13. aldar, og er líklegt, að hún hafi síðar gengið í gegn um hendur mans, sem hefur bætt við hinum klerklegu klausum og sett sum-staðar riddarasögublæ á orðfærið.

Sögustíllinn líkist einnig að því leiti munnlegri frá-sögn, að höfundarnir skjóta oft inn samtölum milli per-sónanna eða segja frá, hvað persónurnar hafi sagt við það og það tækifæri. Þessi samtöl eða orð, sem lögð eru í munn persónunum, lífga mjög upp alla frásögnina, gefa henni lit og fegurð, og kemur snild sagnamann-anna fram í þeim á sínu hæsta stigi. Orðstefin — svo kalla jeg „replikkurnar" — eru oftast nær stutt og kjarn-góð, hvöss og beitt sem sverð, einkennileg og eiga vel við tækifærið. Leikritasnillingar nútímans, einkum Björnson og Ibsen, hafa að þessu leiti bersínilega tekið sjer orðstef fornsaganna til firirmindar. Auðvitað er snild sú, sem kemur fram í þessum samtölum, meiri í

1) Flat. II, 211. — 2) Vatnsd., 47. k.

sumum sögum enn öðrum. Meðal þeirra, sem bera af öðrum í þessu efni, má t. d. nefna Njálu, Egils sögu, Grettis sögu og ekki síst Bandamanna sögu. Í innganginum að útgáfu sinni af Bandamanna sögu talar Heusler um samtölin í þeirri sögu og dáist mjög að þeirri snild, sem þar kemur fram. Til dæmis um snildina skal jeg leifa mjer að taka upp svolítinn kafla úr Bandamanna sögu.

Þat var einn dag, er Ófeigr karl gekk frá búð sinni, ok var áhyggjumikit; sér enga liðveizlumenn sína, enn þótti við þungt at etja; sér varla sitt færi einum við slíka höfðingja, enn í máli váru engar verndir; ferr hækilbjúgr; hvarflar í milli búðanna ok reikar á fótum; ferr þannig lengi; kemr um síðir til búðar Egils Skúlasonar. Þar váru þá menn komnir til tals við Egil. Ófeigr veik hjá búðardyrunum ok beið þar til þess, er menninir gengu í brott. Egill fylgdi þeim út; enn er hann ætlar inn að ganga, þá snýr Ófeigr fyrir hann ok kvaddi Egil. Hann leit við honum ok spurði, hverr hann væri. „Ófeigr heiti ek," sagði hann. Egill mælti: „Ertu faðir Odds?" Hann kvað svá vera. „Þá muntu vilja tala um mál hans; enn þat þarf ekki við mik at tala; miklu er því meir fyrir komit, enn ek mega þar neitt til leggja; eru ok aðrir meir fyrir því máli enn ek: Styrmir ok Þórarinn; láta þeir mest til sín taka, þó at vér fylgim þeim at." Ófeigr svarar, ok varð staka á munni:

Fyrr var sæmra
til sonar hugsa.
Gekk ek aldregi
Odds at sinni;
sá hann lítit
til laga, gassi,
þótt fjár hafi
fullar gnóttir.

Ok enn kvað hann:

Þat er nú gömlum
gleði heimdraga,
at spjalla helzt
við spaka drengi.
Muntu eigi mér
máls of synja;
því at virðar þik
vitran kalla.

„Mun ek fá mér annat til skemtanar enn tala um mál Odds; hefir þat verit ríflegra enn nú; muntu eigi vilja synja mér máls. Er þat nú helzt gaman karls, at tala við þess háttar menn ok dvelja svá af stundir." Egill svarar: „Eigi skal varna þér máls." Ganga þeir nú tveir saman ok setjast niðr. Þá tekr Ófeigr til orða: „Ertu búmaðr,

Egill?“ Hann kvað svá. „Býr þú þar at Borg?“ „Þat er satt,“ segir Egill. Ófeigr mælti: „Vel er mér frá þér sagt ok skapfeldlega; er mér sagt, at þú sparir við engan mann mat ok sér rausnarmaðr ok okkr sé ekki ólíkt farit, hvárrtveggi maðrinn ættstórr ok góðr af sínu, enn óhægr fjárhagrinn; ok þat er mér sagt, at þér þykki gott vinum þínum at veita.“ Egill svarar: „Vel þættu mér, at mér væri svá farit at frétt sem þér, því at ek veit, at þú ert ættstórr ok vitr.“ Ófeigr mælti: „Þat er þó ólíkt, því at þú ert höfðingi mikill og óttast ekki, hvat sem fyrir er, ok lætr aldri þinn hlut, við hvern sem þú átt, enn ek litilmenni; enn skaplyndi kemr saman helzt með okkr, ok er þat harmr mikill, er slíka menn skal nokkut fé skorta, er svá eru miklir horði.“ Egill svarar: „Þat kann vera, at þat skiftist hrátt, at hægist ráðit.“ „Hversu kemr þat til?“ kvað Ófeigr. „Þannig hygst mér,“ sagði Egill, „ef undir oss herr féit Odds, at þá muni fátt skorta, því at oss er þar mikit af sagt auð þeim.“ Ófeigr svarar: „Eigi mun þat aukit, þó at hann sé sagðr ríkastr maðr á Íslandi; enn þó mun þér forvitni á, hverr þinn hlutr verðr af fénu, því at þú ert þess mjök þurfi.“ „Þat er satt,“ kvað Egill, „ok ertu góðr karl ok vitr, ok muntu vita görla um fé Odds.“ Hann svarar: „Þess vænti ek, at þat sé eigi öðrum kunnigra enn mér, ok kann ek þat at segja þér, at engi segir svá mikit frá, at eigi sé þó meira. Enn þó hefi ek hugsat um áðr fyrir mér, hvat þú munt af hljóta.“ Ok varð honum vísa á munni:

Satt er, at sækir átta
seims ágirni heima,
orð gerast auðar Njörðum
ómæt, ok ranglæti;
ynnak yðr fyr mönnum
Iðja hlátr at láta,
þundum þykkra randa
þeys, ok sæmdarleysis.

„Hratt mundi þat ólíklegt,“ segir Egill, „ok ertu skáld gott.“ Ófeigr mælti: „Ekki skal þat draga fyrir þér, hverja fullsælu þú munt upp taka, enn þat er enn sextándi hlutr ór Melslandi.“ „Heyr á endemi,“ sagði Egill, „eigi er þá féit jafnmikit sem ek hugða; eða hversu má þetta vera?“ Ófeigr svarar: „Eigi er þat, allmikit er féit; enn þess væntir mik, at þessu næst munir þú hljóta. Hafi þér eigi svá talat, at þér skylduð hafa hálft fé Odds, enn fjórðungsmenn hálft? Þá telst mér þannig til, ef þér eruð átta bandamenn, at þér munið hafa hálft Melsland; því at svá munuð þér til ætla ok svá mælt hafa, þó at þér hafið þetta með fádæmum upp tekit meirum enn menn viti dæmi til, þá munuð þér þessi atkvæði haft hafa. Eða var yðr nokkur ván á því, at Oddr, son minn, mundi sitja kyrr fyrir geisan yðvarri, er þér ríðit norðr þangat? Nei,“ sagði hann, Ófeigr; „eigi verðr yðr hann Oddr ráðlauss fyrir; ok svá mikla gnótt sem hann hefir til fjár, þá hefir hann þó eigi minni gæfu til vitsmunanna ok til ráðagerða, þegar hann þykkist þess við þurfa; ok þat grunar mik, at eigi skriði at síðr knörrinn undir honum um Íslandshaf, þó at þér kallið hann sekjan. Enn þat má eigi sekt heita, er svá er rangliga upp tekit; ok mun á

þá falla, er með fara; ok þess væntir mik, at hann muni nú í hafi með alt sitt, nema landit á Mel, þat ætlar hann yðr. Frétt hafði hann þat, at eigi var löng sjávargata til Borgar, ef hann kæmi á Borgarfjörð. Nú mun þetta svá setjast, sem upp var hafit, at þér munuð fá af skömm ok svívirðing, ok gengr þó at maklegleikum, ok þar með hvers manns ámæli.“ Þá sagði Egill: „Þetta mun vera dagsanna, ok eru nú brögð í málinu. Var þat miklu líkara, at Oddr mundi eigi sitja ráðlauss fyrir, ok mun ek eigi at þessu telja; því at eru þeir sumir í málinu, er ek ann vel svívirðingar af ok mest æsa málit, svá sem er Styrmir eða Þórarinn ok Hermundr.“ Ófeigr mælti: „Þat mun fara sem betra er ok maklegt, at þeir munu fá margs manns ámæli af þessu; enn þat þykki mér illa, er þú hefir eigi góðan hlut af; því at þú fellst mér vel í geð ok bezt af yðr bandamönnum.“ Lætur hann nú síga fésjóð einn digran niðr undan kápunni. Egill brá til augum. Ófeigr finnr þat, kippir upp sem skjótast undir kápuna ok mælti: „Á þá leið er, Egill!“ segir hann, „at mik væntir, at því nær skal fara, sem ek hefi sagt þér. Nú mun ek gera þér sæmd nokkura;“ — vindr nú upp sjóðnum ok steypir ór silfrinu í skikkjuskaut Egils. Þat váru tvau hundruð silfrs, þess er bezt kunni verða. „Þetta skaltu þiggja af mér, ef þú gengr eigi í móti málinu; ok er þetta nokkurr sæmdarhlutr.“ Egill svarar: „Þat ætla ek, at þú sér eigi meðalkarl vándr. Er þér engi þess ván, at ek muna vilja rjúfa særi mín.“ Ófeigr segir: „Eigi eru þér þó slíkir sem þér þykkizt: vilið heita höfðingjar, enn kunnið yðr engan fögnuð, þegar þér komið í nokkurn vanda. Nú skaltu eigi svá með fara, heldr mun ek hitta þat ráð, at þú munt halda særi þín.“ — „Hvert er þat?“ segir Egill. Ófeigr mælti: „Hafi þér eigi svá mælt, at þér skylduð hafa sektir eða sjálfdæmi?“ Egill kvað svá vera. „Þat kann vera,“ segir Ófeigr, „at oss, frændum Odds, sé þess unt, at kjósa, hvárt vera skal. Nú mætti svá til bera, at undir þik kæmi gerðin; vil ek þá, at þú stillir henni.“ Egill svarar: „Satt segir þú, ok ertu slægr karl og vitr; enn þó verð ek eigi til þess búinn, ok hvárki hefi ek til mátt né liðsafla at standa einn í mót þessum höfðingjum öllum; því at fjandskapr mun fyrir koma, ef nokkurr ríss við.“ Ófeigr mælti: „Hversu mun, ef annarr kemr í málit með þér?“ — „Þá mun nær fara,“ sagði Egill. Ófeigr mælti: „Hvern viltu helzt til kjósa af bandamönnum? Láttu svá, sem ek eiga á öllum völ.“ — „Tveir eru til,“ sagði Egill; „Hermundr er mér næstr, ok er illa með okkr; enn annarr er Gellir; ok hann mun ek til kjósa.“ — „Þat er mikit til at vinna,“ segir Ófeigr; „því at öllum ynna ek ills hlutar af þessu máli nema þér einum; enn hafa mun hann vit til þess at sjá, hvárt betra er af at kjósa: at hafa fé ok sæmd, eða missa fjár ok taka við óvirðing. Eða viltu nú ganga í málit, ef undir þik kemr, til þess at minka gerðina?“ — „Þat ætla ek víst,“ sagði Egill. „Þá skal þetta vera fast með okkr,“ sagði Ófeigr; „því at ek mun koma hegat til þín af annarri stundu.“[1])

Í þessu samtali er alt snildarlegt, hvort sem litið er á heildina eða á einstök atriði. Jeg hef áður bent til, að

1) Bandams., 8. k.

samtölin í sögunum hljóti ifir höfuð að vera tilbúin af höfundunum sjálfum og ekki tekin eftir munnlegum sögum. Þetta er því áþreifanlegra sem samtölin eru samin af meiri íþrótt. Það er óhugsandi, að þetta snildarlega samtal þeirra Ófeigs og Egils hafi geimst í munnmælum og höfundur Bandamanna sögu ekki gert annað enn skrifa það upp eftir öðrum. Vinur minn, próf. Heusler, hefur nílega sent mjer ritgjörð eftir sig, þar sem hann heldur því fram, að flestar Íslendingasögur hafi verið til svo að segja óbreittar á vörum þjóðarinnar, áður enn þær vóru skrifaðar, og að sagnaritararnir hafi lítið annað átt í þeim enn uppskriftina, sjeu í rauninni ekki rjettnefndir höfundar þeirra. Önnur eins samtöl eins og þetta, sem jeg nú las upp, eru einhver hin sterkasta sönnun firir því, að þessi skoðun getur ekki verið á rökum bigð, og slík samtöl eru als ekki svo sjaldgæf í sögunum. Með þessu vil jeg þó engan veginn neita því, að sagnaritararnir eigi munnlegum sögnum mikið að þakka. Enn það mark guðdómlegrar íþróttar, sem er á sögum vorum, sumum meira, sumum minna, það stafar aðallega frá sagnahöfundunum, þeim sem firstir færðu þær í letur.

Jeg hef þá líst sem best jeg get íþrótt þeirri, sem kemur fram í Íslendingasögum. Jeg hef drepið á efni þeirra og meðferð efnisins, hve hlutlaus (objektiv) frásögnin er; jeg hef minst á snild þeirra í því að lísa persónunum með orðum þeirra og gjörðum, á hinar fáu náttúrulísingar, sem firir koma, á lífsskoðun þá, sem kemur fram í sögunum og gefur þeim einkennilegan blæ, hve lausir höfundar þeirra hafa verið við hleipidóma, hve mannúðlegir og andlega frjálsir og víðsínir, og að örlagatrúin er mjög rík í flestum sögum, svo rík í sumum, að hún setur sinn blæ á alla uppistöðu sögunnar og er á þann hátt tekin í þjónustu sagnalistarinnar, jeg hef tekið fram íms atriði, sem lúta að uppistöðu sagnanna, sjerstaklega þann sið, að kinna persónurnar áður enn þær koma til sögunnar, og sint, hvernig persónuskrárnar gera vanalega skil í uppistöðunni. Og loks hef jeg farið

nokkrum orðum um orðfærið á sögunum, sögustílinn, og í sambandi við hann minst á samtölin.

Því verður ekki neitað, að í öllu þessu, sem einkennir sögurnar, kemur fram íþrótt á háu stigi, sem veit, hvert hún stefnir, íþrótt, sem kann að fara með sögur, enda eru allir vísindamenn nú á dögum samdóma um að dást að þessari íþrótt. Axel Olrik segir,[1]) að Íslendingasögur hafi, að því er íþrótt snertir („kunstnerisk"), komist upp á hæðir, sem mansandinn sjaldan kemst upp á. J. E. Sars segir, að í hinum bestu Íslendingasögum komi fram „snild á hæsta stigi" („fuldendt mesterskab"). Enn fullur skilningur á íþrótt Íslendingasagna verður ekki gefinn með almennum orðum. Menn verða að lesa sögurnar sjálfar til að skilja hana til hlítar.

## VIII.

Jeg hverf þá að spurningu, sem mönnum hefur orðið mjög tíðrætt um: hvað vita menn um höfunda þessara sagna?

Allar Íslendingasögur eru til vor komnar nafnlausar, að undanskilinni Droplaugarsona sögu einni, ef það er rjett, sem jeg hef haldið fram áður, að höfundur hennar sje sá Þorvaldr Ingjaldsson, sem nefndur er í niðurlaginu með þeim orðum, að hann hafi „sagt sögu þessa". Heusler telur þetta stirkja þá skoðun sína, að þeir, sem first færðu sögurnar í letur, hafi ekki mátt heita höfundar þeirra, heldur hafi sögurnar verið til áður svo að segja óbreittar í munnlegri frásögn. Það hefði því ekki verið rjett af þeim, sem skrifuðu þær upp, að eigna sjer þær, þar sem þeir áttu ekki annað í þeim enn uppskriftina. En Heusler játar sjálfur, að sumar sögur, t. d. Njála og Eigla, beri það með sjer, að sá, sem first skrifaði þær upp, hafi líka skapað söguna sem höfundur, og eru þó báðar þessar sögur nafnlausar. Nafnleisi sagnanna sannar því als ekki,

1) Nord. åndsliv, 81. bls.

að þær hafi áður verið til í munnlegri frásögn, enda má skíra það eðlilega á annan hátt. Jeg hef áður tekið það fram, sem einkennir sögurnar fremur öllu öðru, og það er, hve hlutlausar þær eru, hvað illa þeim er við að skíra frá nokkru öðru enn því, sem beint við kemur sögunni. Og nafn þess, sem söguna samdi, er sjálfri sögunni alveg óviðkomandi. Þá ber og þess að gæta, að Íslendingasögur eru ekki hin einu rit Íslendinga, sem eru til vor komin nafnlaus, heldur má sama segja um langflest þau rit, sem samin eru á ritöldinni, t. d. Biskupasögurnar, Hungrvöku, Þorláks sögu og Páls sögu, Prestsögu Guðmundar biskups, Þorgils sögu og Hafliða, Hvamms-Sturlu sögu, Hrafns sögu, Árons sögu, Gizurar sögu og Skagfirðinga, Þórðar sögu kakala, Þorgils sögu skarða, enn fremur Ágrip, Fagrskinnu, Ólafs sögu helga hina elstu, allar Fornaldarsögurnar osfrv., osfrv. Í engri af þessum sögum nafngreinir höfundurinn sig sjálfur, og sama er að segja um Heimskringlu og Hákonar sögu gamla. Vjer vitum, að Heimskringla er eftir Snorra óg Hákonar saga eftir Sturlu Þórðarson, enn hvorugur þeirra nafngreinir sig í ritinu sjálfu, svo að menn hafa jafnvel verið í efa um, að Heimskringla væri verk Snorra, og það jafnvel aðrir eins menn og Konrad Maurer,[1]) og það eru first rannsóknir G. Storms, sem taka af allan efa í því efni. Hvort Sturla Þórðarson hefur nafngreint sig sem höfund í Íslendinga sögu sinni, er vafasamt. Sömuleiðis er mjög vafasamt, hvort Snorri hefur nefnt sig sjálfur sem höfund Eddu sinnar. Nafn hans finst þar aðeins í ifirskrift Uppsalabókar og í klausu aftan við málfræðisritgjörð Ólafs hvítaskálds, sem eflaust er síðar við bætt. Meðal nafnlausra rita má enn nefna 3 af málfræðisritgjörðunum, homiliubækurnar, flestar þíðingar helgar, Elucidarius osfrv. Í einu orði má segja, að langflest íslenzk rit í sundurlausu máli sjeu til vor komin án höfundarnafns. Sama er að segja um hið merkasta rit Norðmanna, Kon-

1) Über die Ausdr. altnord., altnorw. u. isl. spr. 15—16 með athugas. 24 og 25.

ungsskuggsjá. Þeir höfundar, sem nafngreina sig, eru fljóttaldir. Það eru helst hinir elstu, sem rituðu á 12. öld eða á takmörkum 12. og 13. aldar: Ari fróði og líklega Sæmundr fróði, Eiríkr Oddsson að öllum líkindum, Þingeiramunkarnir Karl ábóti, Oddr og Gunnlaugr og að líkindum Styrmir, sem stendur í nánu sambandi við Þingeiraklausturshöfundana, ef hann er sonur Kára Runólfssonar, sem var ábóti Þingeiraklausturs 1181—87, og uppalinn í klaustrinu, eins og Hannes Þorsteinsson hefur leitt sterkar líkur að (Skírnir 1912). Nikulás ábóti (d. 1159) virðist og hafa tilgreint nafn sitt í riti sínu „Leiðarvísir og borgaskipan", og Gizurr Hallsson (d. 1206) í ferðasögu sinni (Flos peregrinationis), sem var skrifuð á latínu. Allir þessir menn eru klerkar nema ef til vill Eiríkr Oddsson. Á 13. öld eru það að eins fáeinir menn auk Styrmis (sem þó má að nokkru telja til 12. aldar), sem hafa ritað með nafni, helst þíðendur heilagra manna sagna (svo sem Brandr Jónsson, Runólfr Sigmundarson, Grímr Hólmsteinsson, Jón hestr), alt klerkar. Á 14. öld er það einkum Arngrímr ábóti, sem virðist skrifa undir nafni — rit hans var upphaflega á latínu — og svo tveir þíðendur heilagra manna sagna, Bergr Sokkason og Árni Lárentíusson, líka klerkar. Vjer sjáum á þessu, að það eru ifirleitt aðeins klerkar, sem segja sjálfir til sín sem höfundar, og þó einkum klerkar á 12. öldinni. Á 13. öldinni, þegar flestar Íslendingasögur verða til, er það hreinasta undantekning, að höfundar segi til nafns síns. Það að þeir, sem færðu Íslendingasögur í letur, láta ekki uppi nafn sitt, sannar því als ekki það, sem Heusler vill láta það sanna, að þessir menn hafi ekki viljað eigna sjer sögurnar, af því að þær hafi verið áður til í munnlegri frásögn og skrifararnir hafi ekki átt annað í þeim enn uppskriftina. Þeir, sem first rituðu sögurnar, geta vel verið sannir höfundar sagnanna, þó að þeir filgdu þeim almenna sið að greina ekki nafn sitt. Enn af því að þeir segja ekki til nafns, leiðir hins vegar það, að vjer vitum ekki, hverjum vjer eigum að þakka fyrir þessi snildarverk, sem eru hin mesta príði bókmenta vorra. Höfund-

arnir hafa sjálfir látið nöfn sín falla í gleimsku og dá, enn jafnframt hafa þeir gert alla hina íslensku þjóð að erfingja þessara rita sinna. Eina undantekningin frá þessu er Droplaugarsona saga. Hún virðist nefna Þorvald Ingjaldsson sem höfund sinn. Auk þess má heita komin fram full sönnun þess, að Snorri Sturluson muni eiga Egils sögu. Enn hverjir sje höfundar allra hinna, það verður að öllum líkindum altaf óráðin gáta.

Samt getum vjer lært ímislegt af sögunum um höfunda þeirra. Þær bera t. d. órækan vott um, hvaða lífsskoðun höfundarnir höfðu í ímsum atriðum, og hef jeg áður minst á það. Hinar nákvæmu staðlísingar flestra sagna bera vott um það, að höfundar þeirra hafa verið nákunnugir öllum staðháttum í því hjeraði, þar sem sagan gerist. Af því virðist mega ráða með nokkurri vissu, að höfundar flestra sagna hafi annaðhvort verið bornir og barnfæddir á sögustöðvunum eða þó búsettir þar um lengri eða skemri tíma. Þessi áliktun stirkist og af því, að munnmælasögur þær, sem sagan fór eftir, hafa eflaust verið fílstar og greinilegastar á þeim stöðum, þar sem sagan hafði gerst, og er því líklegt, að þeim hafi einmitt verið safnað og sagan skráð þar á staðnum. Þar á sögustöðvunum má og ætla, að menn hafi verið móttækilegastir firir skrifaða sögu hjeraðsins og haft mest indi af henni. Er því líklegast, að þeir sem skráðu hjeraðasögur þessar, hafi einmitt sjerstaklega haft hjeraðsbúa firir augum, er þeir sömdu söguna, og ritað hana sjerstaklega firir þá, og þá eflaust á sögustöðvunum. Í sömu átt benda þær tvær sögur, sem vjer vitum höfunda að. Þorvaldr, höfundur Droplaugarsona sögu, var af ætt Gríms Droplaugarsonar og allar líkur til, að hann hafi verið búsettur á Austfjörðum nálægt sögustöðvunum, þó að Ketill prestur, sem líklega var bróðir hans, væri um hríð með Guðmundi biskupi (sjá áður). Snorri, höfundur Egils sögu, var að vísu ekki borinn og barnfæddur í Borgarfirði, enn hann var þar búsettur allan síðari hluta æfi sinnar og bjó að Borg 5 eða 6 ár (1202 til 1207 eða 1208), og síðan í Reikjaholti.

Ef vjer gætum að, hvar sögurnar gerast, sjáum vjer, að sum hjeröð eru miklu sagnauðugri enn önnur, og sum alveg sögulaus. Að tölunni til stendur Húnavatnsþing efst — þar gerast 8 sögur (Kormáks s., Grettis s., Bandamanna s., Þórðar s. hreðu, Heiðarvíga s. (síðari hlutinn), Vatnsdæla, Hallfreðar s. og (að mestu) Finnboga s.). Í Borgarfirði og á Mírum gerast 4 sögur (Egils s., Gunnlaugs s., Hænsna-Þóris s., Bjarnar s. Hitdælakappa); í Þórsnesþingi 4 (Eyrbyggja, Vígastyrs s. (fyrri hluti Heiðarvíga sögu), Laxdæla, Bárðar s.); í Þorskafjarðarþingi 4 (Gull-Þóris s., Gísla s., Hávarðar s., Fóstbræðra s.); á Ströndum og í Hegranesþingi engin; í Vaðlaþingi 4 (Glúma, Valla-Ljóts s., Svarfdæla, Þorleifs þáttr jarlsskálds); í Þingeijarþ. 2 (Ljósvetninga s. (sem gerist að nokkru við Eyjafjörð) og Reykdæla). Sunnudalsþing og Múlaþing tek jeg saman, því að takmörkin eru óljós; í þeim 2 þingum gerast 7 sögur (Vápnfirðinga s., Þorsteins s. hvíta, Þorsteins þáttr stangarhöggs, Hrafnkels s., Droplaugarsona s., Gunnars þáttr Þiðrandabana, Þorsteins s. Síðu-Hallssonar). Í Skaftafellsþingi engin. Í Rangárþingi Njála, sem vegur móti mörgum. Í Árnesþingi Flóamanna s., í Kjalarnesþingi Kjalnesinga s. og Harðar s. Þessi munur, sem er á hjeröðunum, virðist helst stafa af því, að í sumum hjeröðum hefur það orðið að tísku að rita sögur, enn í öðrum annaðhvort als ekki eða ekki að sama skapi. Mælir þetta heldur með því, að sögurnar sje ifirleitt samdar á sögustöðvunum.

Um stjett höfundanna er hæpið að ráða nokkuð víst af sögunum. Margir halda, að höfundar flestra Íslendingasagna hafi verið klerkar, og ráða það helst af því, að við og við kemur firir í sögunum ímislegt, sem ber vott um, að höfundarnir hafa verið hlintir kristindómnum. Jeg hef áður drepið lauslega á þetta atriði i sambandi við lífsskoðun höfundanna og tekið fram íms dæmi, sem sína, að kristin trú hefur haft áhrif á frásögnina. Enn hvernig gat það verið öðruvísi? Að vísu er það ljóst, að klerkamærð sú, sem kemur fram í þeirri gerð Fóstbræðra sögu, sem geimst hefur í Möðruvallabók og Flateijarbók, hlítur

að stafa frá klerki, og sömuleiðis sumt í Vatnsdælu. Enn jeg hef þegar sínt líkur til, að þessu hafi síðar verið bætt inn í þessar sögur af klerki, sem um þær hefur fjallað. Flest hitt, sem menn hafa bent á því til sönnunar, að saga sje af klerki samin, er svo vaxið, að það getur eins vel verið ritað af trúuðum leikmanni eins og af klerki. Og þegar vjer lítum á sögurnar í heild sinni, þá virðist miklu fremur vera á þeim leikmanna blær enn klerka. Hin andlega víðsíni, það andans frelsi, sú mannúð, sem kemur fram í þeim, og sjerstaklega meðferð þeirra á heiðnum goðum og heiðinni trú, bendir miklu fremur til, að höfundarnir hafi verið þjóðlega mentaðir leikmenn enn klerkar eða klaustramenn. Um Snorra, höfund Egils sögu, vitum vjer og, að hann var leikmaður og ekki klerkur. Um Þorvald Ingjaldsson, höfund Droplaugarsona sögu, vitum vjer hvorki til nje frá. Finnur Jónsson hefur jafnvel haldið því fram, að klaustrin hafi verið hinar helstu gróðrarstíur Íslendingasagna, og að í þeim sjeu þær flestar til orðnar. Hann ræður það af því, að flestar sögur sjeu til úr þeim hjeröðum, þar sem klaustur vóru sett á 12. öldinni, Borgarfjarðarsögurnar nálægt Hitárdalsklaustri, Breiðafjarðar og Vestfjarðasögurnar kringum klaustrið að Helgafelli (og Flatei), sögurnar úr vestanverðu Húnavatnsþingi kringum Þingeiraklaustur, Eijafjarðar og Þingeijarþingssögurnar kringum Þverárklaustur og Njála ekki fjarri klaustrinu í Veri (Þikkvabæjarklaustri í Álftaveri). Aftur sjeu engar sögur til úr Skagafirði nje úr austurhluta Húnavatnsþings, og ekki frá Austfjörðum firir sunnan Fljótsdal,[1]) og standi það í sambandi við, að þau hjeröð hafi farið á mis við áhrif frá klaustrunum. Þessar röksemdir virðast mjög veikar. Hitárdalsklaustrið stóð skamma stund og aldrei með neinum blóma. Frá Austfjörðum eru 7 sögur,[2]) og þar er ekkert klaustur sett firr enn um 1500 í Skriðu. Njála gerist mest í Rangár-

1) Þetta er ekki alveg rétt. Þorsteins saga Síðu-Hallssonar gerist við Álftafjörð. — 2) Jeg tel ekki Brandkrossa þátt, því að hann má heita inngangur til Droplaugarsona s., og ekki Draum Þorst. Síðu-Hallssonar, því að hann má varla heita saga.

þingi, sem er allfjarri klaustrinu í Veri. Og hvernig stendur á því, að engar sögur eru til, sem gerast í nágrenni við það klaustur? Óskiljanlegt er og, hversvegna klaustrið í Flatei skapar sögur á Vestfjörðum, enn enga í Strandasíslu, sem stendur þó, að því er suðurhlut síslunnar snertir, í svo nánu sambandi við Dalina, þar sem Laxdæla gerist. Eða hvers vegna skapast sögur í vesturhluta Húnavatnsþings, enn engar í austurhlutanum, þar sem þó Þingeiraklaustur lá í miðju þinginu? Skagafjörður liggur miðja vega milli Þingeiraklausturs og Þverárklausturs. Hvernig stendur á, að þar skapast engar sögur af áhrifum þessara klaustra, þar sem þó Finnur Jónsson heldur, að áhrifin frá Þverárklaustri hafi náð norður á við til sagnanna, sem gerast í Reikjadal og við Mívatn? Helst mætti trúa því, að hinar mörgu sögur í Húnavatnsþingi stæðu í einhverju sambandi við klaustrið á Þingeirum og fræðimenn þá, er þar störfuðu. Enn Karl ábóti virðist ekki hafa ritað um aðra enn Sverri, og þeir Oddr og Gunnlaugr skrifuðu um dírðlinga (Jóns s. Gunnlaugs) eða hálfgerða dírðlinga (Ólafasögur þeirra beggja) og báðir á latínu, og bera rit þeirra als ekki þjóðlegan blæ líkt og Íslendingasögur. Hjer getur því varla verið um annað eða meira að ræða enn það, að sú menning, sem breiddist út frá klaustrinu, kunni að hafa vakið leikmenn þar í kring til ritstarfa. Annars virðist nágrenni söguhjeraðanna við klaustrin vera alveg þíðingarlaust í þessu efni. Þegar klaustur vóru komin á fót í öllum landsfjórðungum nema í Austfirðingafjórðungi, gat ekki hjá því farið, að þau lægi nálægt einhverjum sögustöðum. Hins vegar er það líf, sem sögurnar lísa með svo miklum kærleik til efnisins, svo ólíkt klaustralífi sem framast má verða, og sama má segja um lífsskoðun sagnamannanna, þá víðsíni og skort á hleipidómum, sem einkennir sögurnar, ekkert af þessu ber neinn klaustrakeim. „Klaustralífið er ekki vant að geta af sér slíkar sögur,“ segir gamli P. E. Müller, og það er dagsanna. Jeg higg því, að flestar Íslendingasögur sjeu samdar af leikmönnum, enn vil þó ekki neita því, að einstöku saga geti verið eftir klerk, því að meðal klerka vóru líka

til víðsínir menn og hleipidómalausir. Menn hafa það helst á móti leikmönnunum, að um þessar mundir hafi verið fáir leikmenn, sem kunnu að lesa og skrifa. Enn hvað vita menn um það? Vóru ekki Þóroddr rúnameistari og Stjörnu-Oddi leikmenn? Um Snorra hef jeg áður talað. Sturla Þórðarson var og leikmaður. Dæmi þeirra Snorra og Sturlu sína, að höfðingjasinir hafa fengig gott uppeldi og lært bæði að lesa og skrifa, þó að þeim væri ekki ætlað að taka vígslur. Og dæmi þeirra Þórodds og Stjörnu-Odda, sem báðir vóru óbreittir alþíðumenn, eru því til sönnunar, að sumir alþíðumenn hafi verið bæði lesandi og skrifandi, enda var það eðlilegt, að sú „góða list“ að lesa og skrifa breiddist út frá klerkunum til ekki fárra manna af alþíðustjett, þar sem íslensk alþíða var svo fróðleiksgjörn, með því líka að allur þorri klerka vóru sjálfir alþíðumenn.

Aðalefnið í flestum Íslendingasögum eru deilur höfðingja eða vígaferli, sem höfðingjar eru við riðnir. Sumar þeirra rekja jafnvel sögu höfðingjaætta, kinslóð eftir kinslóð, og mega því með sönnu heita ættarsögur, t. d. Egils saga, Vatnsdæla, Laxdæla, Reykdæla og Vápnfirðinga saga. Oftast eru höfuðpersónur sagnanna höfðingjar eða af höfðingjaætt. Þetta alt mælir með því, að höfðingjastjettin íslenska eigi drjúgan þátt í Íslendingasögum, enda er höfðingjabragur (aristokratisk tone) á flestum sögum. Hjá höfðingjastjettinni geta menn og helst búist við því víðsíni og andans frelsi, sem kemur fram í lífsskoðun sagnanna. Um höfund Egils sögu, Snorra, vitum vjer og, að hann var höfðingi. Alt bendir því til, að það sje fremur höfðingjastjettin enn klerkastjettin, sem hefur sett mark sitt á sögurnar. Þó er líklegt, að óbreittir alþíðumenn eigi líka einhvern þátt í sögunum. Sumar sögur eru svo vaxnar, að það er mjög ólíklegt, að höfðingjar hafi samið þær, t. d. Bandamanna saga, sem er frá upphafi til enda ekki annað enn napurt háð (satíra) um höfðingjastjettina.

# Einstakar sögur.

## Bjarnar saga Hitdælakappa.

Af sögunni, eins og hún var upphaflega, hafa aðeins tvö blöð geimst á skinni, og eru þau nú í AM 162 F, fol. Aftur á móti eru til pappírshandrit af þessari mind sögunnar, og eru þau afskriftir af glataðri skinnbók, sem hefur verið náskild AM 162 F, fol. Í þessum pappírshandritum er sagan miklu fillri enn í 162 F, fol., enn þó vantar þar bæði upphaf sögunnar, sem hefur sagt frá uppvaxtarárum Bjarnar Hitdælakappa, og dálítinn kafla inni í miðri sögunni. Hefur þessa kafla vantað í skinnbókina, sem pappírshandritin stafa frá, þegar þau voru rituð eftir henni. Sagan birjar í þessum pappírshandritum í miðri utanferð Bjarnar, er hann kemur í annað sinn til hirðar Eiríks jarls frá Garðaríki, í 5. kap. sögunnar. Upphafið væri með öllu glatað, ef eitt handrit af Ólafs sögu helga hefði ekki tekið upp sem sjerstakan þátt útdrátt úr upphafi sögunnar, af því að hann kemur dálítið við Ólafs sögu. Þetta skinnhandrit fjekk Árni frá Saurbæ á Rauðasandi, og er það nefnt Bæjarbók. Því miður brann þetta handrit að mestu, að því er virðist í brunanum 1728 (sumir halda 1795), og eru ekki til af því nú nema 4 blöð, sem ekki snerta Bjarnar sögu Hitdælakappa. Enn til allrar hamingju eru til pappírsafskriftir af Bæjarbók, meðan hún var heil, og í þeim hefur geimst þátturinn af Birni Hitdælakappa, sem stóð í þessari Ólafs sögu. Þessi þáttur hefur haft firir sjer söguna, meðan hún var heil, og farið eftir henni. Enn af því að sá, sem tók upp þáttinn í Ólafssöguna, hefur aðallega augun á því, sem snerti Ólaf kon-

ung, sleppir hann mörgu úr sögunni, sem honum var óviðkomandi, tekur aðeins með það, sem nauðsinlegt var til þess að þátturinn gæti komið fram sem ein söguheild. Alt stefnir í þessum þætti að viðskiptum Bjarnar við Ólaf helga og sjerstaklega að sögunni um það, þegar þeir fóru í laug saman og Björn tók óvart hosureim konungs í misgripum, þegar þeir klæddust, og fjekk hana að gjöf frá konungi, enn síðan, þegar Björn var löngu dáinn og bein hans grafin upp, fanst ræman ófúin um fótlegg hans og var höfð fyrir messufatalinda á Görðum á Akranesi. Þátturinn hættir í 10. kap. og segir síðast frá skilnaði þeirra Björns og Ólafs konungs, þegar Björn fór heim til Íslands frá honum. Þar endar þátturinn á stuttri athugasemd um deilur þeirra Bjarnar og Þórðar Kolbeinssonar og kveðst sleppa því efni, af því að það snerti ekki Ólafssöguna, enn vísar um það til Bjarnar sögu Hitdælakappa. Eftir þessum þætti hefur upphaf Bjarnar sögu verið filt í útgáfum hennar, enn auðvitað getur það ekki bætt upp missi sögunnar sjálfrar, því að auðséð er, að þátturinn hefur slept mörgu úr. Meðal annars sjáum vjer á þættinum, að í sögunni hefur verið sagt frá því, að þeim Þórði Kolbeinssyni og Birni hefur lent saman á uppvaxtarárum Bjarnar, og enn fremur ber sagan það síðar með sjer, að Björn hefur í bernsku sinni um stund notið fósturs hjá manni, sem Ingjaldr hjet.[1]) Samt er það upphaf sögunnar, sem geimst hefur í afskriftum Bæjarbókar, miklu betra enn ekki neitt, þó að vjer hefðum heldur kosið að eiga söguna heila. Eiðan, sem er í miðri sögunni, verður ekki filt.

Efnið í Bjarnar sögu Hitdælakappa eru ástir þeirra

---

1) Þetta hafa menn ekki skilið, enn mjer virðist það ljóst af eftirfarandi stöðum. Í 7. k., þegar þeir Björn og Þórðr hittast í Brenneyjum, segir Þórðr honum „andlát Skúla, enn lif föður þíns og fóstra“. Í 10. k. segir frá heimkomu Björns úr utanferðinni. Þar stendur svo: „Þeir Arngeirr ór Hólmi (faðir Bjarnar) *ok Ingjaldr* fara til skips“ ... „ok bjóða Birni til sín“ ... „Hann kvaðsk fara mundu *til föður síns.*“ Síðan segir, að fóstri hans hafi gefið honum hund, enn faðir hans hest. Af sambandinu má ráða, að Ingjaldr muni vera fóstrinn (sbr. aths. Boers við staðinn).

Bjarnar Hitdælakappa Arngeirssonar og Oddnýjar eykyndils Þorkelsdóttur úr Hjörsei og deilur þeirra Bjarnar og Þórðar skálds á Hitárnesi Kolbeinssonar útaf Oddnýju. Tildrögin til deilunnar eru mjög lík og tildrögin til deilunnar milli þeirra Gunnlaugs ormstungu og Hrafns um Helgu hina fögru. Bæði Björn og Gunnlaugur fastna sjer ástmei sína rjett áður enn þeir ætla að fara utan til að leita sjer frægðar og frama, og skal heitmærin bíða þeirra þrjá vetur. Báðir hitta þeir keppinaut sinn í útlöndum, og fer keppinauturinn heim á undan þeim. Báðir eru utan lengur enn 3 vetur, og notar keppinauturinn það til að vjela heitmeina frá þeim, sem hún var lofuð, og eiga hana sjálfur. Líkur eru til, að annarhvor söguhöfundurinn hafi hjer lagað frásögn sína í einstökum atriðum eftir sögu hins, og hafa sumir haldið, að höfundur Bjarnar sögu Hitdælakappa hafi haft Gunnlaugs sögu firir sjer. Þetta var eðlilegt, meðan menn hjeldu, að Gunnlaugs saga væri með eldri sögum. Enn þar sem jeg hef sínt, að Gunnlaugs saga er ekki samin fir enn á síðari helmingi 13. aldar, verður afstaða sagnanna alt öðruvísi. Að minni higgju er enginn efi á því, að Gunnlaugs saga er ingri enn Bjarnar saga Hitdælakappa og hefur tekið eftir henni íms einstök atriði í frásögn sinni, og hef jeg leitt rök að þessu í ritgerð minni um Gunnlaugs sögu.

Hin eina leiðbeining, sem sagan gefur sjálf um aldur sinn berum orðum, er það, að hún vitnar til Runólfs Dálkssonar („Dagsson“ er hann nefndur ranglega í hdr.) um það, að Björn hafi látið gera kirkju á Völlum og eignað Tómási postula og ort drápu um Tómás. Þessi Runólfr Dálksson var uppi um og eftir miðja 12. öld, er hans getið bæði í Nafnaskrá íslenzkra presta frá 1143 (pr. í D. I. I og víðar) og í Sturlungu. Af Sturlungu má ráða, að Runólfr hefur um 1174 verið á vist hjá tengdasini sínum Ólafi presti Sölvasini á Helgafelli og hefur þá verið roskinn maður. Menn vita ekki firir víst, nær hann dó. Boer hefur það eftir íslenskum annálum, að hann hafi dáið 1186, enn það er ógát, því að þar er ekki um hann að ræða, heldur Runólf son Ketils biskups, sem vanalega

er kallaður „biskupsson“. Þeir voru bræðrasinir Runólfarnir, því að Dálkr, faðir Runólfs þess, sem hér ræðir um, var bróðir Ketils biskups á Hólum Þorsteinssonar, og vóru þeir bræður Möðrvellingar, komnir í beinan karllegg frá Guðmundi ríka. Ekki er ólíklegt, að Runólfr Dálksson hafi dáið um sama leiti og Runólfr biskupsson. Af orðum sögunnar (svá sagði R. D.) er svo að sjá, sem Runólfr hafi verið dáinn, þegar sagan var færð í letur, enn hitt verður ekki sagt með neinni vissu, hvort höfundur hefur sjálfur munað Runólf og haft sögnina beint frá honum eða talað við menn, sem mundu hann, og heirt þá hafa þetta eftir honum. Sagan getur því firir þessu vel verið færð í letur alllöngu eftir dauða Runólfs, sem jeg higg að hafi að borið um 1185, og fráleitt er hún skrifuð firir aldamótin 1200. Hins vegar mun hún ekki vera ingri en 1250. Frásögnin er einföld og blátt áfram, stíllinn ljós og laus við allan riddarasögukeim, og hvergi sjest það á meðferð efnisins, að sagan hafi orðið firir áhrifum af riddarasögum líkt og Gunnlaugs saga. Söguкappinn Björn er hraustur maður og hugrakkur, enn honum er annars líst sem íslenskum bónda og ekki sem riddaralegum glæsimanni, eins og þeim Gunnlaugi og Hrafni í Gunnlaugs sögu. Á utanlandsferð sinni ratar hann í æfintíri, fellir nokkurskonar berserk (Kaldimar) á hólmi austur í Garðaríki, líkt og Egill feldi Ljót bleika, og drepur dreka í leiðangri með Knúti konungi. Slík æfintíri filgja oft sögnum um svaðilfarir Íslendinga í útlöndum, og eru þau sniðin eftir munnmælasögum um fornaldarkappa, enn stafa ekki frá riddarasögum. Finnur Jónsson heldur, að slíkt komi ekki firir nema í ingri sögum eða þá sem síðari viðbót í eldri sögum. Enn jeg get ekki sjeð neitt því til firirstöðu, að þetta sje upphaflegt í Bjarnar sögu Hitdælakappa og að hún geti þrátt firir það verið tiltölulega gömul. Jeg higg, að sagan sje til orðin einhvern tíma á árunum 1200—1250, þó líklega heldur nær 1250 enn 1200, því að orðfærið er ekki sjerlega fornlegt, enn þar er þess að gæta, að skinnbók sú, sem liggur til grundvallar firir pappírshandritum sögunnar, hefur

verið tiltölulega ung, og má vera, að orðfærið hafi verið ingt upp í meðferð afritara.

Það sjest á sögunni, að höfundur hefur þekkt Noregskonungasögu og tímatalið í henni á stjórnarárum þeirra Eiríks jarls og Ólafs helga, því að eftir því sníður hann tímatal sitt, þar sem hann segir frá utanferð Bjarnar Hitdælakappa. Enn hins vegar ber sagan ekki með sjer, að höfundur hafi þekt aðrar Íslendingasögur, ekki einu sinni Egils sögu, sem þó gerist á næstu grösum. Hjer við er þó það að athuga, að öll sagan gerist eftir það, að Egils saga endar, nema ef til vill upphafið, sem vjer höfum ekki í upphaflegri mind, og má vera, að höfundur hafi þar notað Egils sögu, því að Björn var náskildur Míramönnum; móðir hans var sisturdóttir Egils Skallagrímssonar. Tímatal sögunnar kemur að ímsu leiti í bága við tímatal í öðrum sögum. Eftir sögunni dvelur Björn í uppvexti sínum hjá Skúla Þorsteinssyni, sem þá bír að Borg. Eftir Gunnlaugs sögu bír Þorsteinn faðir Skúla á Borg um sama leiti, enn Skúli er enn erlendis. Flestir, t. d. Guðbrandur Vigfússon, sem firstur manna hefur bent á mótsögnina, og Boer, trúa hjer betur Gunnlaugs sögu, enn það tel jeg mjög vafasamt, að hún hafi rjettara firir sjer. Vjer höfum ekki nægileg skilríki til að dæma milli sagnanna, enn víst er það, að vitnisburður Bjarnar sögu Hitdælakappa er eldri enn vitnisburður Gunnlaugs sögu. Af sögunni er svo að sjá sem Björn hafi komið heim úr utanferð sinni 1019 og verið drepinn nokkru eftir 1030, því að sagan skoðar Kolla sem launson hans og Oddnýjar, fæddan minst 1 ári eftir heimkomu Björns (1020), og lætur hann vera að vígi Bjarnar, og ætti hann þá að hafa verið minnst 12 ára gamall. Hins vegar segir sagan, að þeir Þorsteinn Kuggason og Þorkell Eyjólfsson hafi verið riðnir við eftirmálið eftir Björn. Enn íslenskir annálar segja, að Þorkell hafi dáið 1026, enn Þorsteinn 1027, og að líkri niðurstöðu kemst Guðbrandur Vigfússon samkvæmt tímatali Laxdælu og Grettis sögu, þó svo, að hann heldur, að Þorsteinn Kuggason hafi dáið um haustið 1026. Ef það er rjett, að þessir menn hafi dáið svo snemma, sem

getur verið nokkuð vafasamt, þá er sagan hjer óneitanlega í mótsögn við rjett tímatal. Enn á það legg jeg firir mitt leiti ekki mikla áherslu. Mótsögnin er einmitt sönnun firir því, að höfundur hefur farið eftir munnmælasögum þeim, sem firir honum lágu, óbreittum og ekki lagað þær eftir neinum tímatalskreddum, og get jeg ekki tekið það sem neinn vott þess, að sagan sje seint samin, heldur höfum vjer hjer eitt dæmi af mörgum, sem sínir, að hin munnlega sögusögn er óáreiðanleg, sjerstaklega að því er tímatalið snertir.

Bjarnar saga tilfærir allmargar lausavísur máli sínu til sönnunar líkt og Egils saga og Gunnlaugs saga. Margar af þeim finst mjer vera vafageplar og líklega síðar ortar, enn sumar af þeim eru þó eflaust rjett feðraðar, t. d. brot af Grámagaflími, níðkvæði, sem Björn orti um Þórð; er það merkilegt af því, að svo að segja ekkert annað hefur geimst af þess konar kveðskap.

Bjarnar saga er ekki samin af nærri eins mikilli snild og Gunnlaugs saga, að jeg nú ekki líki henni saman við Egils sögu. Uppistaðan er að vísu skipuleg, enn frásögnin um hin mörgu deiluefni þeirra Þórðar og Björns er nokkuð smásmugleg og staglkend og fremur þreitandi firir lesandann, og er það auðvitað efninu að kenna, sem höfundur tók eftir munnmælum. Sumir kaflar eru þó mjög vel sagðir, t. d. sagan um það, þegar Þorsteinn Kuggason, óvinur Bjarnar, neiddist til að gista hjá honum um jólin og gerðist síðan vinur hans. Persónulísingarnar hjá honum eru og allgóðar og sjálfum sjer samkvæmar, enn í samtölum persónanna lísir sjer ekki nein sjerleg snild.

Finnur Jónsson heldur, að höfundur hafi verið klerkur, og ræður það af ímsum málsgreinum í sögunni, sem honum finst klerkakeimur að. Enn þessar greinir eru þó þess eðlis, að þær geta vel verið samdar af leikmanni, svo að jeg tel alt eins víst, að leikmaður hafi ritað söguna.

## Bollaþáttr.

Í nánu sambandi við Laxdælu stendur Bollaþáttr. Í handritum y-flokksins[1]) er hann beint áframhald af sögunni og engin skil gerð á milli, og í öllum útgáfum er hann prentaður aftan við hana, og útgáfan 1826 greinir hann ekki frá sögunni sem sjerstakan þátt. Það gera aftur á móti útgáfur Kålunds. Það er einkum tvent, sem sínir, að þátturinn heirir ekki sögunni til frá upphafi, heldur er aukið aftan við hana síðar: Annað það, að hann stendur aðeins í handritum y-flokksins, enn ekki í handritum z-flokksins, sem ifirleitt eru fornlegri og upphaflegri enn handrit y-flokksins. Í handritum z-flokksins endar sagan á 78. k., og í niðurlagi þess kap. stendur „Ok lýkr þar nú sögunni", enda er það auðsjeð á efni 78. k., eins og hann er í báðum handritaflokkum, að hann er nokkurskonar eftirmáli við söguna, Hitt, sem sínir, að Bollaþáttr er síðari viðauki, er það, að allur blærinn á honum er ólíkur sjálfri Laxdælu. Persónulísingarnar eru daufar og rista ekki djúpt, samtölin milli persónanna fremur ólíðleg, og ifirleitt er frásögnin sneidd þeirri snild, sem einkennir Laxdælu. Þátturinn gerist svo að segja allur á Norðurlandi, í Skagafirði og Eijafirði, og segir frá viðureign Bolla Bollasonar við norðlenska höfðingja og er að því leiti líkur síðasta kafla Laxdælu, að hann otar Bolla mjög fram og reinir að gera frægð hans sem mesta. Enn höfundur virðist hafa verið mjög ófróður um

---

1) [Handrit Laxdælu skiftast í tvo flokka, sem Kr. Kålund hefur kallað y-flokk og z-flokk. Til y-flokksins teljast Möðruvallabók og Vatnshyrna (til í eftirriti), frá 14. öld, og brotið AM 162 D1 fol., frá því um 1300. Af z-flokknum eru til fjögur skinnbókabrot og margt pappírshandrita. Sjá formálann að útg. Kålunds eða Ísl. fornrit V. *Útg.*]

sögu landsins, því að allir þeir höfðingjar, sem Bolli skiftir við, virðast hafa verið dánir um það leiti, sem þátturinn gerist, eða um miðja 11. öld. Sagan nefnir Hjaltasonu, Arnór kerlingarnef, Goðdala-Starra, Valla-Ljót og Guðmund ríka. Af þeim virðist Guðmundur hafa verið ingstur, og hann andast 1025 eftir sögn Snorra Sturlusonar.[1]) Svo fáfróður í sögu landsins er Laxdæluhöfundur ekki, þó að mart og mikið megi setja út á tímatalið hjá honum.

Höfundur Bollaþáttarins hefur verið gagnkunnugur í Skagafirði, einkum utantil nálægt Hofstöðum í Blönduhlíð og Miklabæ í Óslandshlíð, og í Eijafirði, einkum í Svarfaðardal. Af þessu og af því, að þátturinn gerist mestallur norður í Skagafirði og Eijafirði, hefur Kålund viljað ráða, að höfundur þáttarins hafi verið Norðlendingur. Það verð jeg að telja mjög vafasamt. Sínu máli til sönnunar telur Kålund það, að höfundur fari í mannjöfnuð milli landsfjórðunga og telji Norðlendinga fremsta. Enn jeg get hvergi fundið neitt slíkt í þættinum. Þvert á móti verða allir þeir norðlensku höfðingjar, sem bekkjast til við Bolla, að lúta firir honum, Vestfirðingnum. Ennfremur segir Kålund, að áttatáknanir þáttarins bendi fremur til þess, að höfundur hafi verið Norðlendingur enn Breiðfirðingur, og virðist hann eiga við það, að þátturinn hefur tvisvar atviksorðið *suðr* um stefnuna úr Skagafirði eða Eijafirði að heimili Bolla, Sælingsdalstungu í Hvammssveit.[2]) Enn mjer finst þetta fremur benda til þess, að höfundur sje Breiðfirðingur enn Norðlendingur. Norðlendingar segja enn í dag og hafa víst alltaf sagt *vestr* um stefnuna úr norðurhjeröðunum til Breiðafjarðarhjeraðanna.[3]) Aftur á móti segja Breiðfirðingar og hafa altaf sagt *norðr* um stefnuna úr Breiðafjarðarhjeröðunum til

1) Heimskr., F. J., Óh. 129. k. — 2) K. 80, 1: Guðrún (á Marbæli í Óslandshlið) mælti: „ek mun ríða suðr til Tungu“, 86, 3: Guðmundr (ríki á Möðruvöllum í Eijafirði) mælti (við Bolla): „ríð suðr í vár“, 88, 7: Bolli ríðr nú í brott af Miklabæ (í Óslandshlið) ... ok heim suðr. — 3) Svo líka á einum stað í Bollaþ., k. 88, 5: hon (Sigríðr á Skeiði í Svarfaðardal) vildi fara *vestr* með honum (Bolla).

norðurhjeraðanna, og er þá ekki óeðlilegt, þó að þeim verði það að hafa *suðr* um stefnuna úr norðurhjeröðunum til Breiðafjarðarhjeraðanna. Þátturinn hefur altaf undantekningarlaust *norðr* um stefnuna frá Sælingsdalstungu til Skagafjarðar eða Eijafjarðar,[1]) þar sem hann hins vegar hefur þrisvar *suðr*, enn einu sinni *vestr* um hina gagnstæðu stefnu, virðist það heldur benda til, að höfundurinn hafi verið breiðfirskur. Líklegast þikir mjer því, að höfundur hafi verið Breiðfirðingur, enn hann hefur verið vel kunnugur firir norðan og líklega dvalið þar um hríð, annaðhvort í Svarfaðardal eða utarlega í Skagafirði, nálægt Hofstöðum eða Miklabæ í Óslandshlið. Um og firir miðja 13. öld vóru mikil viðskifti milli Eijafjarðar og Dala, þegar þeir rjeðu firir báðum hjeröðunum Sighvatr og Sturla son hans og síðar Þórðr kakali og eftir hann umboðsmenn hans Eyjólfr Þorsteinsson og Hrafn Oddsson. Má ætla, að þá hafi ímsir breiðfirskir menn flutt norður og setst þar að og að viðskiftin milli hjeraðanna hafi haldist fram eftir öldinni. Hrafn Oddsson, sem lengi hafði búið að Sauðafelli og ráðið firir í Dölum, flutti og norður í Skagafjörð um eða laust eftir 1280 og bjó í Glaumbæ. Var hann þá skipaður ifir alt land af konungi sem merkismaður, og má ætla, að þá hafi verið með honum einhverjir menn úr Dölum.[2]) Hrafn virðist hafa búið í Glaumbæ til dauðadags, og þar búa ættmenn hans eftir hann, t. d. Hrafn Jónsson korps, sonarsonur hans, um 1320.[3]) Glaumbær er ekki fjarri þeim stöðum í Skagafirði, þar sem höfundur þáttarins er kunnugastur. Jeg tek þetta fram til að sína, hvernig á því *getur* staðið, að breiðfirsk saga eins og Laxdæla fær þennan viðauka, sem aðallega snist um viðburði norðanlands. Höfundur þáttarins virðist hafa þekt Valla-Ljóts sögu. Í 87. k. segir þátturinn um Valla-Ljót, að hversdagsbúningur hans hafi verið svartur kirtill og refði í hendi, enn

1) K. 81, 1; 83, 5—6. — 2) Bisk. I 760—761. bls., árið 1286, er Hrafns first getið í Glaumbæ í Árna s., sbr. þó 758. bls. efst. — 3) Laurent. s., 35. k., Bisk. I 834.

ef hann bjóst til víga, hafi hann haft bláan kirtil og öxi snaghirnda. Þessu er líst með mjög líkum orðum í Valla-Ljóts s., 2. kap., og er ljóst, að höfundur hefur það þaðan, þó virðist hann ekki beint hafa haft söguna sjálfa firir sjer, þegar hann skrifaði, heldur tekið þetta upp eftir minni.

Þó að Bollaþáttr beri það með sjer, að hann er ingri enn Laxdæla, þá getur það ekki munað mjög miklu. Þátturinn stendur í þeim handritaflokki, sem Kålund nefnir y-flokkinn, enn af þeim flokki er til eitt handrit (AM 162 D1 fol.) skrifað um 1300. Þátturinn getur því ekki verið ingri enn frá síðustu árum 13. aldar og gæti vel verið saminn um það leiti, sem Hrafn Oddsson bír í Glaumbæ. Um höfundinn er ekki til neins að leiða neinum getum.

## Gísla saga Súrssonar.

Af sögu þessari eru til 2 gerðir, og eru menn vanir að kalla aðra þeirra Gísla sögu hina minni, en hina Gísla sögu hina stærri. Minni sagan hefur geimst í AM 556a, 4to, skinnhandriti frá 15. öld, enn stærri sagan er ekki til nema í pappírshandritum, og eru merkust þeirra 2 afskriftir Ásgeirs Jónssonar í Árnasafni, nr. 149, fol., og 482, 4to, eftir skinnbók í konungsbókhlöðunni í Kaupmannahöfn, sem síðar hefur glatast; frá þessum handritum eru runnin þau pappírshandrit, sem til eru bæði af minni og stærri sögunni. Þó segir Finnur Jónsson, að nr. 1181, fol. í N. kgl. safni sje sjálfstæð afskrift af hinni glötuðu Konungsbók; á Katalog Kålunds sjest, að afskrift þessi er gerð um 1780 af Jóni Johnsonius (Jónssini Sigurðssonar) eftir skinnbókinni sjálfri, sem þá er enn til í vörslum Jóns,[1]) og enn fremur er til afskrift Árna Magnússonar af vísum sögunnar eftir hinni glötuðu skinnbók. Loks er til brot af sögunni á skinni í AM 445 c, 4to, skrifað í birjun 15. aldar. Brot þetta er úr miðri sögunni og hefur ennþá ekki verið gefið út eða notað sem skildi, enn Finnur Jónsson telur það skildara stærri sögunni en hinni minni.

Ef vjer nú berum saman þessar tvær gerðir sögunnar, hina meiri og hina minni, þá sjest brátt, að mestur hluti sögunnar er svo að segja eins í báðum að efni til, að eins er stærri sagan vanalega orðfleiri. Það leinir

1) Jón þessi (Urða-Jón) hjálpaði Suhm við fornfræðaútgáfur. þíddi Njálu á latínu, varð síslumaður í Ísafjarðarsíslu 1797, d. 1826. Honum má ekki rugla saman við alnafna hans og samtíða mann Jón síslumann Jónsson í Bæ, sem líka hafði Ísafjarðarsíslu um stund, d. 1831.

sjer ekki heldur, að minni sagan er ifirleitt upphaflegri og fornlegri, enn stærri sagan eikur víða málið með óþörfum málalengingum. Þó kemur það líka stundum firir, að stærri sagan virðist hafa geimt frumlegri texta enn minni sagan, svo að vjer verðum alstaðar að hafa hliðsjón af henni, ef vjer viljum gera oss rjetta hugmind um hina upphaflegu sögu. Minni sagan hefur líka sína viðauka fram ifir stærri söguna, sem ekki eru upphaflegir í sögunni, þó að þetta komi ekki oft firir. Á bak við báðar gerðir sögunnar eigjum vjer því sameiginlegt frumrit, sem liggur til grundvallar firir báðum gerðum í mestallri sögunni. Að eins í upphafi sögunnar, í 3 hinum firstu kapítulum minni sögunnar og firri hluta 4. k., eru gerðirnar svo ólíkar hvor annari, að það er ómögulegt, að báðar sjeu runnar frá sameiginlegu frumriti.

Hvernig stendur nú á þessum mikla mun, sem er á gerðunum í upphafi sögunnar? Sá sem best hefur greitt úr því máli, er Finnur Jónsson, og eftir nákvæman samanburð get jeg sagt, að jeg sje honum nokkurn veginn samdóma.

Þegar vjer berum saman upphöf beggja gerðanna, kemur það glögglega í ljós, að minni sagan er þar miklu upphaflegri og frumlegri enn stærri sagan. Þessi síðarnefnda gerð er ikt með „reifarasögum" um stigamenn á Kili (hjer er eiða í sögunni) og viðureign Gísla við víkinga, sem minni sagan veit ekki um. Þetta er bersínilega skáldskapur í meiri sögunni. Líka bætir stærri sagan framan við alllangri grein um ímsa landnámsmenn, sem er tekin eftir Landnámu og líklega að nokkru leiti eftir Íslendingabók Ara. Þessi grein er bersínilega ekki upphafleg í sögunni. Ef vjer nú vinsum úr þessa bersínilegu viðauka í upphafi stærri sögunnar, þá verður eftir kjarni frásagnarinnar um uppruna söguhetjunnar og tildrögin til þess, að hann fluttist til Íslands frá Noregi, og er aðalefni þessa kjarna mjög svipað aðalefninu í upphafi minni sögunnar, enn þó eru talsverðar missagnir og hvergi orðrjett samhljóðun milli sagnanna.

Er því auðsjeð, að gerðirnar geta ekki á þessum kafla verið sprottnar frá sömu skriflegu heimild eins og í meginsögunni, sem á eftir fer. Hins vegar liggur það í augum uppi, að stærri sagan er hjer sem annarstaðar ófrumlegri og ingri enn minni sagan. Finnur Jónsson skírir þetta á þann hátt, að í það handrit af sögunni, sem höfundur stærri gerðarinnar hafði firir sjer, hafi vantað upphafið. Í það skarð hafi hann reint að bæta, sumpart með því að skjóta inn áðurnefndum innskotsgreinum, sumpart með því að safna saman þeim munnmælasögum, sem vóru á gangi um Gísla á hans dögum, og prjóna þær framan við söguna, enn þær hafi þá — á síðari hlut 13. aldar að skoðun Finns Jónssonar — verið orðnar afbakaðar og úr lagi færðar. Það er eflaust rjett, að upphaf sögunnar hefur vantað í það handrit, sem stærri sögu höfundurinn hafði firir sjer, og að hann hefur filt í eiðuna frá eigin brjósti. Enn hitt finst mjer ólíklegt, að hann hafi þar farið eftir munnmælasögum sinna tíma. Flestar missagnir við minni söguna eru fólgnar í mannanöfnum, og er auðsjeð, að höfundur stærri sögunnar hefur vilst í nöfnunum, og liggur næst að halda, að allur sá ruglingur stafi af *misminni*. Til dæmis að taka geta báðar sögurnar um tvo menn, sem lögðu hug á Þórdísi, sistur Gísla, meðan hún var í föðurgarði í Noregi. Báðar segja þær, að annar þessara manna hafi heitið Bárðr, hinn heitir Kolbjörn í minni sögunni, en Kolbeinn í stærri. Enn það er einkennilegt, að stærri sagan hefur hausavíxl á mönnunum, segir það um Kolbein (= Kolbjörn), sem minni sagan segir um Bárð, og um Bárð það, sem minni sagan segir um Kolbjörn. Þetta og annað fleira þessu líkt, sem of langt irði að greina, sinist helst vera sprottið af misminni. Sá sem setti saman stærri söguna, hefur, eins og Finnur Jónsson getur til, haft firir sjer handrit, sem upphafið vantar í, virðist handritið hafa birjað á orðunum „Vésteinn Vésteinsson gerðist fardrengr góðr“,[1]) því að upp frá þeim

1) Útg. F. J., k. 4, 9.

orðum eru báðar gerðir sögunnar svo að segja samhljóða. Hins vegar hefur hann eflaust þekt söguna í heilu líki, af lestri eða áheirn, þó að hann hefði ekki upphafið skrifað firir sjer, þegar hann tók að skrifa upp söguna. Hann tekur því það ráð, að prjóna upphafið framan við söguna eftir minni sínu. Stigamanna-sögunni og sögunni um viðureign Gísla við víkingana bætir hann við frá sjálfum sjer og eins innskotsgreininni úr Landnámu. Með þessu móti, ef upphaf stærri sögunnar er aðallega bigt á frumsögunni, enn skrifað eftir minni, verður skiljanlegur sá ruglingur, sem þar er á mannanöfnum, og þikir mjer þetta líklegra enn að höfundur stærri sögunnar hafi tekið sig til að safna samtíða munnmælasögum og bigt á þeim.

— — —

Þegar vjer eigum að dæma um Gísla sögu, verðum vjer að biggja dóm vorn aðallega á minni sögunni, því að hún ein gefur nokkurn veginn ljósa hugmind um söguna eins og hún var í upphafi, og verðum vjer þá að kveða upp þann dóm, að Gísla saga sje ein með hinum allra fegurstu Íslendingasögum. Hún lísir lífi seks skógarmans líkt og Grettis saga, og tekst það meistaralega. Uppistaðan er ekki margþætt, en föst og vel ofin.

— — —

Persónulísingar Gísla sögu eru svo ágætar, að sagan verður í því efni að teljast í fremstu röð meðal Íslendingasagna. Ekki síst tekst sögunni upp að lísa sögukappanum, Gísla Súrssyni sjálfum. Hann er skörungur hinn mesti, kemur fram heill og óskiftur í öllu því, sem hann legst á, triggur vinur vina sinna og reiðubúinn til að leggja líf sitt við þeirra líf. Í hefndinni eftir Véstein beitir hann slægð og undirferli, þegar hann vegur Þorgrím, enn honum er þar óvandur eftirleikurinn, því að Þorgrímur hafði að firra bragði beitt hinu sama gagnvart Vésteini. Meistaralega er líst lífi hans í sektinni og áhrifum þeim, sem hinar sífeldu ofsóknir hafa á skapsmuni hans. Óróinn í sál hans lísir sjer í draumum þeim, sem firir hann bera, sumum góðum með von um betri

daga, enn miklu fleiri vondum. Hann á tvær draumkonur, aðra góða, hina vonda. Kristnar hugmindir hafa hjer eflaust haft áhrif á munnmælin um Gísla, því að góða draumkonan táknar bersínilega von kristinna manna um annað betra líf eftir þetta, t. d. þar sem góða draumkonan leiðir hann með sjer inn í fagra höll og heitir honum því, að hann skuli lifa þar sælu lífi eftir dauðann, og jafnframt leggur hún honum lífsreglur, sem eru algerlega í anda kristninnnar, að hann skuli láta sjer leiðast fornan sið, vera vel við blinda menn og halta og sjer minni menn. Móti henni berst vonda draumkonan, hún ríður hann allan í manna blóði, setur dreiruga húfu á höfuð honum, segist skulu bregða því öllu, sem betri draumkonan hjet honum. Hún á bersínilega að tákna heiðnina. Sagan lísir því, hvernig hin góða kristna lífsskoðun berst við vonda, heiðna lífsskoðun í hjarta skógarmannsins og hvernig hann sveiflast altaf milli vonar og ótta. Jeg skal nú að vísu engan veginn neita því, að slíkur tvískinnungur, sem hjer kemur fram, hafi getað átt sjer stað í brjósti íslensks skógarmanns um þessar mundir, enda segir sagan, að Gísli hafi látið prímsignast í Vébjörgum. Enn samt finst mjer það ljóst, að kristnir tímar hafa sett sinn lit á þessar frásagnir um drauma Gísla, hvort sem þær eru bigðar á þjóðsögum eða þær eru skáldskapur höfundar. Draumvísurnar, sem sögunum filgja, virðast mjer vera ortar í kristni, og kem jeg að því síðar. Einkennilegt er það og, að hvergi ber á kristinni lífsskoðun hjá Gísla í því, sem sagan segir um athafnir hans, nema í þessum draumum. Í þessum sögum af Gísla kemur fram snarræði hans, hugpríði og hreisti, snarræðið ekki síst í hinni kímilegu sögu um hvernig hann slapp úr höndum Barkar á Breiðafirði, þegar hann var einn á báti með ambáttinni og leikur Ingjaldsfíflið, hreistin og hugpríðin ekki síst í síðustu baráttunni, þegar hann fjell. Á þessa eiginleika Gísla, hugpríðina og hreistina, virðist höfundur hafa lagt mesta áherslu, því að hann tekur það tvisvar fram, að hann hafi verið hinn mesti

hreistimaður og fullhugi, þó að ekki væri hann gæfumaður, og brítur höfundur með þessu það hlutleisislögmál, sem annars tíðkast í Íslendingasögum.

Gagnólíkur Gísla er bróðir hans Þorkell. Hann er lítilmenni, heigull gagnvart konu sinni, undirförull gagnvart Vésteini, sem hann grunar um konu sína, hleipir Þorgrími á hann, enn stendur sjálfur á bak við tjöldin; í rauninni ann hann Gísla bróður sínum; hann veit, að Gísli hefur drepið Þorgrím, enn reinir að breiða ifir það, sem hann veit, og varna því að sannleikurinn komist upp, með því að fela hina snjóugu skó Gísla, og síðan rjettir hann Gísla hvað eftir annað hjálparhönd í sektinni, þó svo að hendur verði ekki hafðar í hári hans firir bjargirnar, vill ekki leggja neitt verulegt í sölurnar firir hann, gerir alt hálft. Hann er hálfgerður Farísei. Það er auðsjeð, að höfundur lísir þannig lítilmensku Þorkels til þess að láta enn meira bera á skörungsskap og stórmensku Gísla í samanburði við hann.

Við hlið Gísla stendur kona hans Auðr í öllum raunum hans, trú og digg til dauðans. Lísingin á þessari konu skógarmannsins er hin langhelsta príði Gísla sögu og jafnast að snild við bestu kvennlísingar í öðrum sögum, t. d. lísing Guðrúnar í Laxdælu, Hallgerðar í Njálu, og að siðferðislegu þreki og kvennlegum digðum ber Auðr af öllum kvennmönnum, sem sögurnar lísa. Einna helst má jafna Bergþóru, konu Njáls, við hana. Trigðin og digðin er hin sama, enn það er þó eitthvað kalt og ekki vel kvennlegt við Bergþóru. Eins og höfundur setur Þorkel við hlið Gísla sakir mótsetningarinnar milli þeirra, eins setur hann Ásgerði, konu Þorkels, við hlið Auðar. Í samanburði við ljettúð Ásgerðar ber enn þá meira á trigð og digð Auðar.

Einkennileg er lísingin á Þórdísi, sistur Gísla. Það er hún, sem kemur því upp, að Gísli hafi vegið Þorgrím bónda hennar, og þegar svo Gísli er veginn, er það hún, sem reinir að hefna hans. Hvorttveggja er vel skiljanlegt frá sálarfræðislegu sjónarmiði. Frakkar mundu kalla slikt

„inconséquence féminine“, enn þess verður þó sjerstaklega að gæta, að hjer koma í bága tvö öfl, sem ríkust vóru í þá daga: ástin til eiginmansins og bróðurástin.

Orðfærið er einfalt og óbrotið, setningar stuttar og lítið um aukasetningar. Samtölin milli persónanna eðlileg og sumstaðar gerð af hinni mestu snild, t. d. samtalið milli þeirra Auðar og Ásgerðar, sem verst hlítst af, og viðtal þeirra beggja eftir það við menn sína. Einkennilegt er það, að sagan lætur Þorkeli verða ljóð af munni, þegar hann hefur hlítt á tal konu sinnar og Auðar („heyr undr mikit, | heyr örlygi, | heyr mál mikit, | heyr manns bana“). Þetta er auðvitað gert til þess að gefa í skin, hve alvarlegar afleiðingar þetta samtal muni hafa firir söguna, sem á eftir fer, enn orðstefið er ekki vel eðlilegt í munni Þorkels.

Um afstöðu Gísla sögu við aðrar sögur er það að segja, að hún — það er að segja hin upphaflega saga — virðist vera öðrum sögum óháð og þær henni. Þó verður að gera eina undantekningu frá þessari almennu staðhæfingu, og kem jeg að því síðar. Sjerstaklega hef jeg rannsakað afstöðu hennar við Landnámu, og niðurstaðan er þessi: Landnámuhöfundur hefur þekt aðalefnið í Gísla sögu og segir frá ímsu hinu sama sem hún, enn þó með svo miklum missögnum, að óhugsandi er, að hann hafi haft firir sjer söguna, heldur filgir hann bersínilega sjálfstæðum munnlegum heimildum. Hins vegar er ljóst, að báðir þeir menn, sem settu mark sitt hvor á sína gerð Gísla sögu, minni söguna og stærri söguna, hafa hvor um sig notað Landnámu, höfundur stærri sögunnar meira, höfundur minni sögunnar minna. Enn allar þær greinir, bæði í stærri og minni sögunni, sem Landnáma hefir verið notuð við, eru bersínilega síðari íaukar þeirra, sem settu saman gerðir sögunnar, og hafa ekki staðið í hinni upphaflegu Gísla sögu, sem hefur verið alveg óháð Landnámu.

Í Eyrbyggju eru stöku kaflar líks efnis og kaflar í Gísla sögu, einkum frásögnin um það, þegar Þórdís reindi að hefna bróður síns á Eyjólfi. Orð Þórdísar við þetta

tækifæri — „mun eigi vel fagnat Gísla bana, ef grautr er görr ok gefinn“ — eru svo að segja eins í báðum sögunum. Enn þessi orð eru svo einkennileg, að þau gátu vel geimst í manna munni, og getur vel verið, að hvor um sig hafi þau eftir óháðri munnlegri frásögn. Hins vegar er ímislegt, sem sögunum ber á milli, og virðist flest mæla með því, að þær sjeu óháðar hvor annari, eða að minsta kosti er það ekki sannað, að önnur hafi haft hina firir sjer.

Gull-Þóris saga veit um bjargir þær, sem Ingjaldr í Hergilsei veitti Gísla Súrssini, og að Börkr hinn digri átti sök á því, enn að öðru leiti ber sögunum ekki saman. Gísla saga segir, að Ingjaldr hafi verið landseti Barkar, enn af Gull-Þóris sögu má ráða, að Ingjaldr hefur átt sjálfur Hergilsei, því að hún segir, að Börkr hafi „gert af Ingjaldi eyjarnar“ firir bjargirnar. Af þessu virðist ljóst, að Gull-Þóris saga og Gísla saga eru hvor annari óháðar.

Vjer komum nú að undantekningunni, sem áður var getið. Sterkar líkur má leiða að því, að höfundur Gísla sögu hafi þekt og tekið sjer til firirmindar á einum stað sögu, sem gerist í fjarlægum landsfjórðungi, á Austfjörðum; jeg á þar við Droplaugarsona sögu. Sagan um víg Þorgríms í Gísla sögu er mjög svipuð sögunni um víg Helga Ásbjarnarsonar í Droplaugarsona sögu, svo svipuð, að líkur eru til, að þar sje eitthvað samband á milli. Eftir báðum sögunum er vígið vegið um nótt á bæ, þar sem mjög er gestkvæmt, af því að veisla er þar haldin. Í báðum sögunum er það húsbóndinn, sem er veginn í rekkju hjá konu sinni. Eftir báðum sögum er innangengt í fjós úr bæjarhúsunum, þar sem vígið fer fram, og kemur vegandinn first inn í fjósið og hnítir (eða lætur hníta) saman halana á kúnum, sem þar eru (í Droplaugarsona sögu lætur Grímr Glúm fjelaga sinn gera þetta, enn í Gísla sögu gerir Gísli það sjálfur), og er það auðsjáanlega gert til þess að tefja firir þeim, sem elta muni vegandann út um þær dir. Síðan gengur vegandinn eftir báðum sögum til bæjardira og fer þar inn í skálann að hvílunni, þar sem bóndi sefur hjá konu sinni, tekur á

öðru þeirra með kaldri hendi (í Gísla sögu tekur Gísli first á konunni, í Droplaugarsona sögu tekur Grímr á bóndanum), og heldur það hjónanna, sem á er tekið, að rekkjunautur sinn hafi tekið á sjer, og kvartar um, að höndin sje köld. Vegandinn bíður þess, að hjónin sofni aftur, vekur síðan bóndann og leggur hann í gegn. Þá biður annað hjónanna menn vaka í skálanum, því að víg sje vegið (í Gísla sögu er það Þórdís, sem segir: „Vaki menn í skálanum, Þorgrímr er veginn, bóndi minn,“ í Droplaugarsona sögu segir Helgi Ásbjarnarson, þegar sverðið stendur í gegnum hann: „Vaki sveinar í seti: maðr vegr at mér.“) Þá leitar vegandinn útgöngu og kemst undan. Eins og menn sjá, er hjer svo líkt líst öllum atvikum, að varla getur leikið efi á, að önnurhvor sagan hafi hjer haft hina til hliðsjónar, og ef svo er, þá hlítur það að vera Gísla saga, sem hefur notað Droplaugarsona sögu, enn ekki þvert á móti. Frásögnin í Droplaugarsona sögu er sjálfri sjer samkvæm frá upphafi til enda, enn það er frásögnin í Gísla sögu ekki. Áður enn Grímr gengur inn, lætur hann Glúm gera farartálma í fjósinu, af því að hann ætlar sjer að ginna þá, sem elta vegandann, til að leita að honum í fjósinu, meðan hann sjálfur fer út um sjálfar bæjardyrnar. Því er það, að hann, þegar hann hefur vegið Helga, kastar riðvelinum, sem hann hafði inn með sjer, í skíðahlaðann, sem stendur við dirnar, sem til fjóss vóru, svo að hlaðinn fellur. Af því leiðir, að þeir, sem ætla að ná vegandanum, hlaupa þangað sem þeir heira skarkið, að fjósdirunum, því að þeir halda, að vegandinn hafi hlaupið þar út, og með því gefa þeir Grími tóm til að komast undan út um bæjardirnar. Í Gísla sögu gerir Gísli líka farartálma í fjósinu áður enn hann gengur inn, með því að binda saman kirhalana, og sagan bætir því beinlínis við, að hann hafi *lokað aftur fjósinu og búið svo um, að ekki mátti lúka því upp að innan.* Síðan gengur hann til hinna venjulega dira, bæjardiranna, og þar inn í skálann og inn eftir skálanum að lokhvílunni, sem þau Þorgrímr sofa í, og virðist hún eftir frásögninni vera skamt frá dirunum, sem til fjóss

vóru. Eftir vígið segir svo sagan, að Gísli hafi gengið til fjóssins *„ok þar út sem hann hafði ætlat“*. Hjer er sagan í beinni mótsögn við sjálfa sig. Því að þó að vjer nú hugsum oss, að Gísli hafi getað smogið undir halana á kúnum hindrunarlaust, hvernig gat hann þá komist út um útidirnar á fjósinu, sem hann hafði sjálfur búið svo um, eftir því sem sagan segir, að þeim varð ekki lokið upp að innan? Hvernig stendur nú á þessari mótsögn? Hún er skiljanleg, ef vjer hugsum oss, að höfundur Gísla sögu hafi þekt frásögn Droplaugarsona sögu um víg Helga Ásbjarnarsonar og lánað úr henni ímsa drætti til að skreita með munnmælasögur þær, sem hann hafði firir sjer um víg Þorgríms. Sagan segir, að logndrifa hafi verið kvöldið, sem Þorgrímr var veginn, og því hafi Gísli, til að hilja spor sín, gengið heiman götu þá, sem til lækjarins lá, síðan eftir læknum og loks eftir götu þeirri, sem lá frá læknum til fjóssins á Sæbóli, og að hann hafi farið sömu leið heim aftur frá víginu. Þetta virðist benda til þess, að munnmælasögurnar, sem söguhöfundur hafði firir sjer, hafi látið Gísla fara inn um fjósið til vígsins, og út sömu leið frá víginu. Þessum sögum virðist höfundur hafa blandað saman við frásögnina í Droplaugarsona sögu. Af því mun ruglingurinn og mótsögnin stafa. Firri hluti frásagnarinnar, um það að Gísli fór first inn í fjósið, batt saman halana og lokaði fjósinu svo að utan, að því varð ekki lokið upp að innan, er sniðinn eftir Droplaugarsona sögu, og bendir til að höfundur, þegar hann ritaði þetta, hafi ætlað sjer að láta Gísla ganga út frá víginu um bæjardirnar eins og Grímr gerir í Droplaugarsona sögu. Enn síðan hafa munnmælasögurnar, sem hann hafði firir sjer, komið honum til að láta Gísla ganga út um fjósið, og hefir hann ekki gætt þess, að þetta var í beinni mótsögn við það, sem áður var sagt. Með þessu móti má skíra, hvernig á mótsögninni stendur, enn annars er hún lítt skiljanleg.

Vjer höfum þá sjeð, að Droplaugarsona saga er eina sagan, sem líkur eru til, að höfundur hinnar upphaflegu Gísla sögu hafi þekt og notað. Þá er það og merkilegt,

að Sturla Þórðarson minnist í Íslendinga sögu sinni, sem hefur geimst í Sturlungu, á Grásíðu, kingispjótið, sem mest ilt hlautst af, og hefur um það orð, sem sína, að Sturla muni ekki hafa þekt Gísla sögu. Þetta er í frásögninni um bardagann á Breiðabólstað í Fljótshlíð 17. júní árið 1221, þar sem þeir áttust við Loftr biskupsson og Björn Þorvaldsson, hálfbróðir Gizurar jarls, og lauk svo, að Björn var veginn af Guðlaugi Eyjólfssini Jónssonar í Odda Loftssonar. Segir Sturla þannig frá: „Hljóp Guðlaugr fram ok lagði til Bjarnar með spjóti því, er þeir kölluðu Grásíðu og sögðu átt hafa Gísla Súrsson. Lagit kom í óstinn, ok snerist Björn upp at kirkjunni og settist niðr. Guðlaugr gekk til Lofts ok sagði honum, at Björn var sárr orðinn. Loftr spurði, hverr því olli. „Vit Grásíða", svarar hann." Í vísu, sem ort var rjett eftir fundinn, er og Grásíðu getið.

Björn frák brýnðu járni
— bragð gott var þat — lagðan,
gerði Guðlaugr fyrðum
geysihark, í barka.
Auðkýfingr lét æfi
óbliðr fyrir Grásíðu,
hvöss var hon heldur at kyssa.
Harðmúlaðr var Skúli.[1])

Grásíðu nefnir Sturla líka spjót það, sem Sturla frændi hans Sighvatsson hafði á Örlygsstöðum, þegar hann fjell: „Sturla varðist með spjóti því, er Grásíða hét, fornt og ekki vel stint málaspjót; hann lagði svá hart með því jafnan, at menn fellu fyrir, enn spjótit lagðist, ok brá hann því undir fót sér nokkurum sinnum."[2]) Líklega er þetta sama spjótið, sem Guðlaugr átti. Sturla hefur líklega fengið það hjá Álfheiði, sistur Guðlaugs, er hann tók af heimildir á Oddastað 1237.[3]) Guðlaugr andaðist á suðurvegum skömmu eftir 1221, og er líklegt, að Álfheiðr hafi erft spjótið eftir hann.[4]) Hitt er vafasamara, hvort Grásíða þessi var sú sama, sem Gísla saga segir frá, enn merkilegt

1) Sturl.³ I, 345—348. bls. — 2) Sturl.³ I, 528. bls. — 3) Sturl.³ I, 501 sbr. 506. — 4) Sturl.³ I, 351.

er það, að Gísla saga segir, að mál hafi verið í Grásíðu,[1]) og kemur það heim við það, að Sturla lísir Grásíðu sem fornu málaspjóti. Enn hvernig sem þessu nú er varið, þá er það víst, að Sturla talar um það sem sögn manna, að *Gísli Súrsson* hafi átt *spjótið Grásíðu.* Þetta er ekki rétt eftir Gísla sögu. Frá upphafi var Grásíða, eftir því sem sagan segir, sverð, sem Kolr þræll átti og ljeði Gísla föðurbróður Gísla Súrssonar til hólmgöngu, síðan vildi Gísli ekki skila sverðinu, og vógu þeir þrællinn og Gísli hvor annan út úr því. Við það tækfæri brotnaði Grásíða, og gengu sverðsbrotin síðan í arf til Þorbjarnar föður Gísla Súrssonar og frá honum til sona hans Þorkels og Gísla. Þegar þeir bræður skiftu fje með sjer, segir sagan, að sverðsbrotin hafi fallið í hlut Þorkels, og úr þeim smíðar Þorgrímr nef spjótið Grásíðu. Með því vegur svo Þorgrímr Véstein og skilur spjótið eftir í sárinu. Gísli tekur spjótið úr undinni og geimir það, þangað til hann vegur Þorgrím með því, enn hann eignast það aldrei, það gengur aldrei úr eigu Þorkels bróður hans. Sú mótsögn, sem hjer er milli Íslendinga sögu og Gísla sögu um eiganda spjótsins, bendir helst til, að Sturla hafi ekki þekt Gísla sögu, heldur aðeins einhverjar óljósar sagnir um afstöðu spjótsins við Gísla. Þó er ekki alveg óhugsandi, að Sturla hafi þekt söguna, og að missögnin sje sprottin af rangminni.

Njála (114. k.) minnist lauslega á Gísla sem bróður Þórdísar móður Snorra goða, enn af því verður ekki ráðið með neinni vissu, að Njáluhöfundur hafi þekt Gísla sögu.

Aldur frumsögunnar er erfitt að ákveða, af því að hún kemur svo lítt við aðrar sögur. Orðfærið er fremur fornlegt, enn þó ekki eins og t. d. á Heiðarvíga sögu. Þó að nílegri orðatiltækjum bregði fyrir sumstaðar, þá er það ekki vel að marka, því að sagan hefur geimst í tiltölulega ungum handritum og afskrifarar eru vanir að færa málið í seinni tíma búning. Í minni sögunni kemur á

1) Gísl., F. J., k. 11, 3.

einum stað firir *æva* í merkingunni „aldrei“. Þegar minni sagan segir frá því, að Gísli hafi kveðið vísuna, sem kom upp um hann, að hann hefði vegið Þorgrím, bætir hún við „er æva skyldi“.1) Í orðum þessum brítur höfundur bág við hlutleisisreglu þá, sem tíðkast í Íslendingasögum, og bæði af þessari ástæðu og af því að setninguna vantar í meiri söguna, skoðar Finnur Jónsson hana sem síðari innskotsgrein. En fornirðið *æva* bendir til, að setningin hafi staðið í frumsögunni. Orðið *æva* = aldrei er algengt í fornum kveðskap, enn kemur varla firir í óbundnu máli nema á þessum stað í Gísla sögu.2) Síðari afskrifari mundi ekki hafa orðað þetta svona. Þess ber og að gæta, að höfundur Gísla sögu brítur hlutleisisregluna á stöku stað öðrum en þessum. Ef setningin hefur filgt frumsögunni, bendir hún til, að Gísla saga sje fremur gömul. Hins vegar mun sagan vera ingri en Droplaugarsona saga, ef það er rjett, sem jeg hefi haldið fram, að hún hafi þekt þá sögu og haft hana til firirmindar. Droplaugarsona saga virðist vera með eldri Íslendingasögum, líklega frá firstu árum 13. aldar. Gæti þá Gísla saga verið frá c. 1220. Þetta kemur nokkurn veginn heim við niðurstöðu Finns Jónssonar, að sagan sje „ekki mikið ingri“ („nicht erheblich später“) enn 1200.

Um höfundinn vitum vjer annars sama sem ekki neitt, nema það sem sagan ber með sjer, að hann hefur verið ritsnillingur — söguna má telja með þeim, sem best eru sagðar af sögum vorum — og að hann hefur eflaust átt heima í Dírafirði eða þar á næstu grösum, því að hann þekkir þar hverja þúfu. Það, að hann virðist þekkja svo fáar sögur og hefur t. d. ekki notað Landnámu, er vel skiljanlegt, ef hann er Dírfirðingur, því að hjeraðið er fremur afskekkt. Hins vegar bendir það, að hann virðist hafa haft firir sjer Droplaugarsona sögu, á það, að hann muni ef til vill hafa dvalið um hríð á Austfjörðum eða Droplaugarsona saga borist á

1) Gísl., 18. k. — 2) Finst ekki í Larsson, Ordförrådet.

einhvern hátt til Dírafjarðar. Sagan lísir miklu fremur lífi alþýðu manna en höfðingja, og er því varla líklegt, að höfundur hafi verið af höfðingjastjett. Finnur Jónsson heldur helst, að hann hafi verið klerkur, og ræður það einkum af því, að sagan talar um, að Gísli hafi verið prímsigndur, og að Auðr kona hans og Gunnhildr, mágkona hennar, taka kristni og ganga suður til Róms. Þetta getur vel verið, og ef draumvísur Gísla eru eftir söguhöfundinn, sem mjer virðist mjög líklegt, þá stiður það mjög skoðun Finns Jónssonar. Þessar draumvísur eru bersínilega ortar í kristni löngu eftir daga Gísla, og sumar þeirra eru svo klerklegar, að líkur eru til, að prestur hafi ort þær.[1]) En full sönnun firir því, að höfundurinn hafi verið klerkur, fæst varla.

Í sögunni eru margar fleiri vísur enn draumvísurnar. Sumar þeirra eru töluvert grunsamlegar, enn sumar virðast vera rjett feðraðar. Þetta atriði er enn ekki rannsakað til hlitar. Að höfundurinn hafi verið skáldmæltur, sjest á vísunni „Heyr undr mikit", sem hann leggur Þorkeli í munn. Hún að minsta kosti hlítur að vera eftir söguhöfundinn.

---

1) T. d. vísan; Vald eigi þú vígi / (ver þú ótyrrinn) fyrri / morðs við mæti-Njörðu / — mér heitið því — sleitinn. / Baugskyndir, hjálp blindum / — Baldr hygg at því skjaldar / — ilt kveða háð at höltum. / Handlausum tẏ (imp. af týja = efast, bika) granda. Eða þessi helmingur: Mér bar hljóm í heimi, / hör-Bil, þá er vit skilðumsk / — skekkek dverga drekku — / dreyra sals fyr eryru. [Dreyra salr = líkami, fyr eyru dreyra sals = f. líkams eyru; F. J. heldur, að eigi saman: í heimi sals (= jarðar) dreyra = í heimi árinnar = í hjeraðinu kringum Botnsá — enn það er ómögulegt.]

## Hávarðar saga Ísfirðings eða Ísfirðinga saga.

Saga þessi er nú því miður ekki til nema í pappírshandritum, fremur ljelegum, sem öll virðast stafa frá sama skinnhandriti, og eru þó tvær gerðir af sögunni, önnur stærri, hin minni. Af þeim er hin stærri upphaflegri, minni gerðin hefur haft Landnámu til hliðsjónar og tekið þaðan ímsar leiðrjettingar, enn er annars ekki annað enn stærri sagan dálítið stitt, einkum að því leiti sem flestum vísum er slept.

— — —

Söguhetjan Hávarðr halti er gamall víkingur, sem hefur særst í hnjeskelina á víkingaferðum sínum og gengur haltur síðan. Sagan telur hann hafa verið af góðum ættum, en rekur þó ekki framætt hans, og sama er að segja um Landnámu, þar sem hún getur um Hávarð. Meira segir sagan ekki af ingri árum Hávarðs, og er óþarfi að hneixlast á því, eins og Finnur Jónsson gerir, því að aðalefni sögunnar er að segja frá hefnd þeirri, sem Hávarðr tók eftir víg sonar síns, Ólafs bjarnyls. Hávarðr bír að Blámíri í Laugardal, á tanganum, sem skagar út í Ísafjarðardjúp að vestanverðu milli Skötufjarðar og Mjóafjarðar. Móðir Ólafs, kona Hávarðs, heitir Bjargey, vitur kona og skörungur hinn mesti, eftir því sem sagan lísir henni. Ekki rekur sagan heldur framætt Bjargeyjar, enn það gerir Landnáma, sem segir, að hún hafi verið Valbrandsdóttir, Eyvindarsonar knés landnámsmanns, sem nam Álftafjörð og Seiðisfjörð (er ganga til suðurs af Ísafjarðardjúpi); á sama stað[1]) telur Landnáma (Sturlubók og

1) Útg. 1843 á 149. bls. — II. p., 29. k.; F. J. Stb., 148 k., Hb., 119 k.

Melabók ingri) bræður Bjargeyjar, Hallgrím og Gunnar.[1]) Hjer er Hávarðar saga í mótsögn við Landnámu, því að Hávarðar saga nefnir bræður Bjargeyjar, þá Valbrand á Valbrandsstöðum, Þorbrand á Þorbrandsstöðum og Ásbrand á Ásbrandsstöðum. Hjer kemur fram hið firsta dæmi þess, sem er svo einkennilegt firir Hávarðar sögu, að hún ruglast í mannanöfnum og sömuleiðis í örnefnum. Bæirnir Valbrandsstaðir, Þorbrandsstaðir og Ásbrandsstaðir eiga að liggja við Ísafjarðardjúp, enn enginn þeirra þekkist annars fir eða síðar. Söguhöfundurinn virðist hafa munað óglögt föðurnafn Bjargeyjar, Valbrandr, enn gerir hann að bróður hennar (sbr. Hauksbók) og bír svo til eftir því nafni nöfn hinna bræðranna og skírir eftir þeim bústaði þeirra. Landnámu er miklu betur trúandi um nöfn bræðranna.

Ólafr bjarnylr vex upp hjá foreldrum sínum og er hið besta mansefni, allra manna sterkastur og best vígur, enn jafnan góðviljaður og hjálpfús við nágranna sína. Á Laugabóli, næsta bæ við Blámíri, bír höfðinginn Þorbjörn Þjóðreksson, ójafnaðarmaður hinn mesti. Sagan ættfærir hann ekki nánar, þar sem hún nefnir hann í upphafinu, enn af Landnámu vitum vjer, að Þjóðrekr, faðir Þorbjarnar, bjó í Saurbæ (í Dalasíslu) og var Sleitu-Bjarnarson, og að bræður Þorbjarnar hjetu Víga-Sturla, Knöttr og Þjóðrekr. Landnáma getur þess,[2]) að Þjóðrekr faðir Þorbjarnar hafi flutt úr Saurbæ til Ísafjarðar (= Ísafjarðardjúps) og að þar gerist saga þeirra Þorbjarnar og Hávarðar hins halta. Þessi tilvitnun virðist þó ekki hafa staðið í Melabók eldri, sem hjer er til hliðsjónar (32. k.). Síðar í Hávarðar sögu eru nefndir bræður Þorbjarnar, og kemur það ekki heldur heim við Landnámu, því að sagan nefnir aðeins Sturlu af þeim, sem Landnáma nefnir, getur ekki Þjóðreks nje Knattar, enn telur í stað þeirra 2

1) Hauksbók telur Bjargey á þessum stað dóttur Eyvindar knés og sistur Valbrands, enn það kemur bersínilega af því að handritið fellir úr á þessum stað, því að á öðrum stað (Hb., 121. k.) telur Hauksbók hana Valbrandsdóttur. — 2) Stb., 117. k., og Hb., 89. k.

bræður, sem báðir heita Ljótr, annar búsettur að Mánabergi, enn hinn á Rauðasandi.[1]) Hér kemur fram sami nafnaruglingurinn, og mun jeg minnast á það betur síðar. Hjá Þorbirni er ráðskona, Sigríðr að nafni, sem Ólafr Hávarðsson legst á hugi við, og líkar Þorbirni það illa, og það bætir ekki um, að Vakr, frændi Þorbjarnar og heimamaður, illmenni hið mesta og mjög líkur Skammkatli, gerir alt sitt til að rægja þau Ólaf við Þorbjörn. Tvisvar kemur það firir á hausti, að fje heimtist illa af fjalli, einkum fje Þorbjarnar, og tvisvar leitar Ólafr um afrjettina og finnur flest, sem vantaði, og skilar hverjum sínu, þar á meðal Þorbirni, enn fær ekki annað enn óþökk og smánarirði í staðinn hjá honum. Þriðja haustið vantar Þorbjörn enn fjölda fjár, enn þá leitar Ólafr ekki, og ljetu þeir Þorbjörn þau orð um fara, að Ólafr mundi hafa stolið sauðunum. Út af þessu o. fl. þrútnar fjandskapur milli heimilanna, og líkur svo, að þeir Þorbjörn og Vakr ráðast á Ólaf á förnum vegi, og tekst þeim með hjálp þriðja mans að vega hann eftir hraustlega vörn.[2]) Hávarðr bregður svo við sonarmissinn, að hann legst í rekkju og liggur næstu 12 mánuði, þá fær Bjargey, kona hans, hann til að fara til Þorbjarnar og beiðast bóta, en Þorbjörn bíður honum ekki annað en afgamlan húðarjálk í sonarbætur. Eftir það legst Hávarðr aftur í rekkju og liggur annað árið. Þá fær Bjargey hann aftur til að biðja Þorbjörn bóta, meðan Þorbjörn er á þingi, og segir, að Gestr Oddleifsson hinn spaki muni stiðja mál hans. Þorbjörn hafði þá nílega gengið að eiga sistur Gests, eftir því sem sagan segir. Þessi sistir Gests er ekki nefnd á nafn first þar sem hennar er getið í sögunni, eins og títt er í sögum, enn seinna í sögunni er

1) Um þennan Ljót, sem sagan nefnir Hólmgöngu-Ljót, segja öll handrit, eins og um hinn Ljótinn, að hann væri bróðir Þorbjarnar, enn í einu handriti er það leiðrétt eftir Landnámu og sagt, að Þorbjörn ætti sistur hans, og hefur Gunnlaugur Þórðarson ranglega tekið þessa leiðrjettingu inn í texta sögunnar. — 2) Landnáma getur um þetta víg og bætir við: „Þar af gerist saga Ísfirðinga ok víg Þorbjarnar.“

hún nefnd Þorgerðr. Það verður og úr, að Gestr stiður málstað Hávarðs á þinginu svo fast, að hann segist munu rifta ráðahag Þorbjarnar og sistur sinnar, ef Þorbjörn vilji ekki gjalda Hávarði fullar sonarbætur, og verður það úr, að Gestr gerir um málið þrenn manngjöld á hendur Þorbirni, enn Þorbjörn rífur sættir með því að slá á nasir hans með knítiskauta, sem í vóru tennur, er hann hafði höggvið úr Ólafi sini hans. Er þá lokið sættunum, og fer Hávarðr heim og legst í sæng sína og liggur svo þriðja árið. Þá tekur Bjargey að undirbúa hefndina. Fer hún first til Valbrands bróður síns og fær loforð firir 2 nótum hans — það eru 2 sinir hans, vaskir menn — síðan til Þorbrands bróður síns og fær loforð firir 2 netum (= sonum) hans, og loks til Ásbrands bróður síns og fær loforð firir torfóxi, sem hann átti — það er Hallgrímr sonur hans. Síðan eggjar hún Hávarð til hefnda. Verður Hávarðr þá sem ungur í annað sinn, og sitja þeir, hann og bróðursinir Bjargeyjar og 2 menn aðrir, firir Þorbirni við lendinguna hjá Laugabóli, þegar hann kemur heim þangað ásamt Sturlu bróður sínum o. fl., og vega báða bræðurna og fjelaga þeirra. Að því búnu fara þeir að Ljóti á Mánabergi, bróður Þorbjarnar, og vega hann. Eftir það leita þeir fjelagar sjer traustes hjá „Steinþóri á Eyri“, og tekur hann við þeim. „Steinþórr á Eyri“[1]) er einn af hinum alkunnu Eyrbyggjum, sem Eyrbyggja segir frá, og virðist sagan láta hann búa gegnt Otradal í Arnarfirði, annaðhvort á Eiri í Geirþjófsfirði (Krosseiri) eða á Eiri í Arnarfirði (Hrafnseiri). Það er auðsjeð, að hjer er eitthvað blandað málum, enda segir Landnáma,[2]) að það hafi verið Eyjólfr grái (sem bjó í Otradal, sjá Gísla sögu) og Stein*grímr* son hans, sem skutu skjólshúsi ifir Hávarð og fjelaga hans, og er það miklu líklegra, að þeir hafi leitað trausts hjá vestfirskum höfðingja enn hjá höfðingja, sem bjó á Snæfellsnesi. Það er og ljóst, að Sturlubók hefur hjer

1) Hallbjarnareiri í Eirarsveit á Snæfellsnesi. — 2) Sturlub., 142. k.

sína frásögn eftir hinni eldri Hávarðar sögu, sem hún vitnar í á tveim stöðum. Hjer kemur enn fram ruglingur sögunnar í mannanöfnum.[1])

Nú kemur næst í sögunni kafli, sem stendur í nokkuð lausu sambandi við meginsöguna og segir frá því, að tveir bræður, drengir 10—12 ára gamlir, vega kappann „Hólmgöngu-Ljót á Rauðasandi“, sem sagan telur bróður Þorbjarnar Þjóðrekssonar, út af ágreiningi milli Ljóts og föður drengjanna um læk, sem rann milli landa þeirra, og engi, sem læknum var veitt á. Það er fróðlegt að bera þennan kafla saman við tilsvarandi kafla í Landnámu um deilu þeirra Ljóts hins spaka og Gríms kögurs um læk, sem hafður var til áveitu, og lauk svo, að sinir Gríms kögurs drápu Ljót. Kafli þessi er bersínilega síðari innskotsgrein í Landnámu, stendur aðeins í Sturlubók (142. k.) og Melabók ingri, enn ekki í Hauksbók. Efnið er í verulegum atriðum hið sama og í Hávarðar sögu, enn nöfn og örnefni eru öðruvísi. Eftir Landnámu er Ljótr ekki bróðir Þorbjarnar Þjóðrekssonar heldur Þorgrímsson, 3. maður frá Ingjaldi Brúnasini, sem nam Ingjaldssand, enn hann er mægður við Þorbjörn á þann hátt, að Þorbjörn á Halldísi, sistur Ljóts. Eftir Landnámu gerist sagan öll á Ingjaldssandi og kemur þar ágætlega heim við alla staðháttu. Bær Ljóts er eflaust Sæból á Ingjaldssandi, Grímr kögurr bír á Brekku, og lækurinn, sem Landnáma nefnir Ósóma, er aðaláin, sem rennur eftir dalnum milli bæjanna. Eftir Hávarðar sögu á Ljótr heima á Rauðasandi, sagan segir ekki á hvaða bæ þar, enn andstæðingur hans á Eyri, sem als ekki er til á Rauðasandi, og sínir þetta hinn vanalega glundroða sögunnar í staðháttum. Eftir Landnámu ber Ljótr auknefnið hinn spaki, enn í Hávarðar sögu er hann nefndur Hólmgöngu-Ljótr

1) Brynj. Jónsson hefur bent á það, að Otradalr heitir í Bjarnarhafnarfjalli vestanverðu gegnt Hallbjarnareiri, og heldur, að sagan sje staðsett þar á Snæfellsnesi. Enn það er mjög ólíklegt, með því líka að Háv. s. annars ber vott um, að höfundur hennar hefur verið alveg ruglaður í staðháttum, þar sem sagan gerist.

(Hólmgöngu-Ljótr er og nefndur í Laxd., enn bætt við „af *Ingjalds*sandi"). Andstæðingur Ljóts heitir í Landnámu Grímr kögurr, sem áður er sagt, og sinir hans, sem vógu Ljót, Sigurðr og Þorkell, enn í Hávarðar sögu heitir andstæðingurinn Þorbjörn og drengirnir Grímr og Þorsteinn. Auðsjeð er, að þetta er alt sama sagan, staðbundin frá upphafi við Ingjaldssand; Hávarðar saga hefur ruglað bæði mannanöfnum og örnefnum, enn Landnáma (Sturlub. og Melab. ingri) geimt hina upphaflegu sögu. Saga þessi er tengd á mjóum þræði við sögu Hávarðs, því að bæði eftir Landnámu og Hávarðar sögu leita sveinarnir, sem vógu Ljót, hælis hjá Hávarði halta og fjelögum hans eða rjettara sagt hjá þeim höfðingja, sem skaut skjólshúsi ifir þá Hávarð. Í Landnámu er sagan síðari íauki, eins og jeg tók fram, og af því að efnið kemur heim við kafla í Hávarðar sögu vorri, virðist mega ráða, að sagan eins og hún er í Landnámu-handritum hafi staðið í hinni upphaflegu Hávarðar sögu, sem Sturlubók hafði firir sjer og vitnar í, og sje þaðan komin nokkurnveginn óbreitt inn í Sturlubók (og Melab. ingri), með öðrum orðum, að Sturlubók hafi hjer geimt hinn upphaflega texta Hávarðar sögu.

Eftir þáttinn um Hólmgöngu-Ljót heldur sagan áfram. „Steinþóri" verður kostnaðarsamt að halda þá fjelaga og leitar til mágs síns, Atla, auðugs bónda, sem bír gagnvart „Eyri", hinumegin fjarðarins, í Otradal, eftir föngum. Atli er lítilmenni og felur sig undir heikleggja, þegar hann sjer til Steinþórs, enn kona hans, sistir Steinþórs, skörungur mikill, lætur bróður sinn hafa alt, sem hann vill. Lætur Steinþór menn sína fara heim með föngin, enn verður sjálfur eftir hjá sistur sinni til að sjá, hvernig Atla verður við. Birjar nú skringileg saga. Atli kemur nú úr filgsni sínu og fárast first mikið um fjárlát og eiðslusemi konu sinnar, enn þegar hann er kominn í sæng til hennar, skiftir hann skapi, hrósar konu sinni firir örlæti hennar og lofar Steinþór á hvert reipi, segir, að það sje vel komið, sem hann

hafi fengið. Steinþórr hefur hlítt á alt þetta í leini, gefur sig nú fram og hvetur hann til að sína sig eftirleiðis sem göfgan mann og veglindan. Atli lætur sjer þetta að kenningu verða. Um vorið fer Steinþór til þings til að halda svörum uppi firir Hávarð og fjelaga hans í vígsmálunum. Þá biður Atli honum að taka þá Hávarð, meðan hann er á þingi, og fara þeir til hans. Veitir hann þeim nú stórmannlega og ver þá með hreisti og fjölkingi gegn árás fjandmanna þeirra. Á þinginu sættist Steinþórr á vígin, mest firir milligöngu Gests Oddleifssonar, sem er fenginn til að gera um málin. Var vígum jafnað saman og bættur skakki. Skildu sumir af vegendum fara utan um stund, enn Hávarðr færa bústað sinn burt úr Vestfirðingafjórðungi. Fer Hávarðr þá norður í Svarfaðardal og sest þar að í Uxadal á bæ, sem hann nefnir Hávarðsstaði. Síðar fer hann utan ásamt Bjargeyju konu sinni og Þórhalli frænda sínum á fund Ólafs Tryggvasonar, og taka þau öll kristna trú. Í þeirri ferð andast Bjargey, en þeir Hávarðr og Þórhallr fara heim til Íslands til Eijafjarðar og setjast nú að í Þórhallsdal (nú Þorvaldsdal, milli Svarfaðardals og Hörgárdals). Litlu síðar andast Hávarðr og er grafinn að kirkju, sem Þórhallr ljet reisa í Þórhallsdal. Merkilegt er, að örnefni þau, sem nefnd eru í Svarfaðardal og Þórhallsdal, koma heim við staðháttu þar, og virðist höfundurinn hafa verið kunnugri þar nirðra enn í Vestfjörðum.

Vjer höfum sjeð, að Landnámu-handrit vor vitna á einum stað til „sögu þeira Þorbjarnar og Hávarðar halta“ og á öðrum stað til „Ísfirðinga sögu“, og efnið sínir, að hvorttveggja þetta hlítur að vera sama sagan. Þessi saga hefur verið sama efnis og Hávarðar saga, sem vjer nú höfum, enn það litið, sem Landnáma tilfærir úr sögunni, bendir til, að hún hafi verið laus við þann rugling í manna og staða nöfnum, sem kemur svo greinilega fram í Hávarðar sögu vorri. Sjerstaklega er þetta ljóst af kaflanum um Ljót spaka á Ingjaldssandi, þegar hann er borinn saman við tilsvarandi

kafla í Hávarðar sögu um Hólmgöngu-Ljót á Rauðasandi. Af Landnámu-handritunum er ljóst, að firir þeim hefur legið Hávarðar saga í eldri mind enn vjer nú þekkjum, og þar sem bæði Sturlubók og Hauksbók vitna til sögunnar, hlítur þessi eldri Hávarðar saga að vera eldri enn sú Landnámugerð (Styrmisbók?), sem Sturlubók og Hauksbók stafa frá, eða eldri en ca. 1230.

Hávarðar saga sú, sem vjer nú höfum, hlítur að vera miklu ingri. Á það bendir sá ruglingur á manna og staða nöfnum, sem hún gerir sig seka í og eldri sagan virðist hafa verið laus við. Sömuleiðis það, að sagan á einum stað talar um *lögmann* þeira Ísfirðinganna, og síðar í sögunni er sagt, að þeir Þorbjörn og Hávarðr hafi leitað *„lögmanns úrskurðar“* um hvalmál.[1]) Vjer vitum ekki til, að neinir slíkir lögmenn, sem feldu úrskurð um mál manna, hafi verið til á þjóðveldistímanum. Þeirra er ekki getið í Grágás og ekki í öðrum sögum enn Hávarðar sögu og Svarfdælu, sem er mjög óáreiðanleg. Lögmenn og lögmannaúrskurðir komu hingað first með hinum norsku lögum, Járnsíðu og Jónsbók 1271—1281. Sagan hefur hjer bersínilega dregið dám af hinu níja rjettarástandi, sem komst á með lögbókunum, og er ólíklegt, að þetta sje ritað fir enn rjettarástand lögbókanna hafði náð nokkurri festu í meðvitund manna, líklega ekki fir enn svo sem einum mannsaldri eftir að Járnsíða var lögtekin (1271), eða um 1300. Annað, sem sögunni hefur verið fundið til foráttu, virðist vera sprottið af misskilningi. Þegar þeir Hávarðr og Ólafr sonur hans færa bústað sinn frá Blámíri vestan Ísafjarðardjúps sakir ifirgangs Þorbjarnar, flitja þeir, eftir því sem sagan segir, norður firir djúpið og setjast þar að á landi, sem „engi maðr á“, og svo bætir sagan við þessum orðum: „Váru þeir einir bændr í þennan tíma í Ísafirði, er landnámsmenn váru.“ Bæði Guðbrandur Vigfússon og Finnur Jónsson hneixlast á þessum orðum og halda, að þau þíði sama sem sagt

1) Háv. GÞ., 1. og 3. k. (bls. 2 og 7—8).

væri, að *allir* bændur við Ísafjarðardjúp um þessar mundir hafi verið landnámsmenn, sem nær engri átt, því að sagan ber það með sjer, að hún á að gerast seint á 10. öld, og þá er landnámstíð löngu á enda og landnámsmenn dauðir og grafnir. Enn sambandið sínir, að þeir Guðbrandur Vigfússon og Finnur Jónsson hafa misskilið söguna. Hin rjetta þíðing orðanna er bersínilega: Um þessar mundir vóru þeir Hávarðr og Ólafr sonur hans einu bændurnir við Ísafjarðardjúp, sem kalla mátti landnámsmenn, af því að þeir námu óbigt land að norðanverðu við djúpið. Af þessum orðum verður því ekkert ráðið um aldur sögunnar, enda þarf þess ekki með. Það sem áður er sagt, er nóg til að sanna, að sagan í þeirri mind, sem vjer þekkjum, getur varla verið eldri enn frá aldamótunum 1300.

Um höfund sögunnar vitum vjer eins og vant er lítið sem ekkert. Af því að sagan, eins og hún nú er, ber svo víða vott um ókunnugleika höfundar á Vestfjörðum, má ráða, að höfundur þessarar ingri gerðar sögunnar hafi ekki verið Vestfirðingur, eða að minsta kosti ekki Ísfirðingur. Af því að sagan endar á að segja frá því, að Hávarðr flutti sig norður í Svarfaðardal og að frændi hans og fóstri Þórhallr staðfestist þar og jók þar kin sitt, hafa menn viljað ráða, að höfundurinn hafi verið Svarfdælingur og að sagan sje samin þar nirðra eftir afbökuðum munnmælasögum, sem hafi gengið í ætt Þórhalls. Sá firsti, sem kastaði þessu fram, var Gísli Brynjúlfsson ingri, í athugasemdum sínum við söguna, sem eru prentaðar aftan við útgáfu Gunnlaugs Þórðarsonar,[1]) og síðan hafa þeir Guðbrandur Vigfússon og Finnur Jónsson tekið það eftir honum. Í sjálfu sjer er það ekki ósennilegt, að höfundur ingri sögunnar, þeirrar sem vjer höfum, hafi verið Svarfdælingur eða að minsta kosti Eifirðingur, því að sagan talar kunnuglega um staðháttu í Svarfaðardal og þar í grend, sem áður er sagt. Merkilegt er það og, að Hávarðs saga og

1) Sjá þar 138. bls.

Svarfdæla eru þær einu sögur, sem geta um lögmann í hjeröðum og lögmansúrskurði á þjóðveldistímanum, Hávarðar saga um Þorkel lögmann í Æðei, Svarfdæla um Höskuld lögmann í Svarfaðardal. Hins vegar finst mjer mart mæla á móti því, að sagan sje samsett eftir svarfdælskum munnmælasögum. Þegar vjer berum sögu vora saman við það, sem læra má af Landnámu um efni eldri sögunnar, og sjerstaklega við kaflann í Sturlubók um Ljót spaka á Ingjaldssandi, þá virðist ljóst, að eldri sagan er sá grundvöllur, sem ingri sagan er bigð á, þó ekki svo að skilja, að sá, sem samdi ingri söguna, hafi haft hina eldri firir sjer *skrifaða*, heldur hefur hann einhvern tíma heirt hana lesna og munað aðalefni hennar og skrifað hana svo upp eftir minni. Hann hefur líklega verið Eifirðingur og ókunnugur á sögustöðvunum. Með þessu móti verður skiljanlegur sá ruglingur, sem er á mannanöfnum og lísingum staðhátta. Alstaðar þar, sem ingri söguna greinir á við hina eldri, virðist sú skiring liggja beinast við, að það sje sprottið af rangminni, t. d. Steinþórr firir Steingrímr, Ljótr af Rauðasandi firir Ljótr á Ingjaldssandi (Rauðasandr miklu kunnugri enn Ingjaldssandr, sem er afskektur og miklu minni en Rauðasandr), Valbrandr faðir Bjargeyjar gerður að bróður hennar, Ljótr gerður að bróður Þorbjarnar í stað þess að hann er mágur hans, af sveinunum, sem vega Ljót, er annar nefndur *Þor*steinn firir *Þor*kell í eldri sögunni, hinn Grímr, og er honum bersínilega ruglað saman við föður sinn Grím (kögur) í eldri sögunni.

Leifar þær, sem geimst hafa af eldri sögunni í Landnámu, þó litlar séu, benda til þess, að eldri sagan hafi verið laus við þann rugling, sem kemur fram í mannanöfnum og sérstaklega í staðlísingum ingri sögunnar. Jeg hef áður tekið það fram, að staðlísingin á Ingjaldssandi í kaflanum um Ljót spaka er laus við alt slíkt, og er ljóst, að sá kafli er samin af gagnkunnugum manni. Bendir þetta til, að höfundur hinnar upphaflegu sögu hafi verið Vestfirðingur og að sagan sje upphaf-

lega samsett þar vestra eftir munnmælum þar á staðnum.

Annars er Hávarðar saga skemtileg aflestrar og samin af talsverðri snild. Mannlísingar eru ifirleitt sjálfum sjer samkvæmar og lísa talsverðri mannþekkingu. Hávarðr sínir oss sanna mind af gömlum víkingi, sem sorgin út af sonarmissinum lamar um stund, enn hefndarhugurinn reisir á fætur aftur. Menn hafa hneixlast á hinni snöggu breitingu, sem á honum verður, þegar hann alt í einu rís úr kör sinni sem ungur í annað sinn til að koma fram hefndinni. Enn mjer finst sú breiting vera vel skiljanleg frá sálarfræðislegu sjónarmiði og í góðu samræmi við hugsunarhátt þeirra tíma. Sagan minnir að nokkru leiti á sorg Egils og viðreisn eftir lát Böðvars — þar er kveðskapurinn meinabót, hjer hefndarhugurinn. Líka má minna á söguna í Njálu um Ámunda blinda, sem fær sjón sína aftur, meðan hann hefnir föður síns. Við hlið Hávarði stendur hin trúa og digga kona hans Bjargey, sem svipar að sumu til Bergþóru í Njálu. Ólafr sonur þeirra er ágæt ímind (typus) ungs íslensks bóndasonar, og í Þorbirni er vel líst ofstopafullum og ifirgangssömum höfðingja; Vakri og Brandi, filgdarmönnum Þorbjarnar, er og mjög sennilega líst, þó að ólíkir sjeu. Aftur á móti er sú mikla breiting, sem verður á Atla, úr litilmenni í hinn mesta skörung, fremur ólíkleg, og tekst þó sögunni ekki illa að gera grein firir, hvernig á henni stendur. Samtalið milli Atla og konu hans og Steinþórs eftir ránið er snildarlega samið, og ifirleitt eru samtöl þau, sem firir koma í sögunni, eðlileg og vel orðuð. Orðfærið er ljóst og lipurt, enn ekki mjög fornlegt, enda er það eðlilegt, þar sem sagan er ekki til nema í ungum handritum.

Í sögunni eru margar vísur, ein eignuð Ólafi bjarnyl, fremur ómerkileg og líklega síðar ort, hinar allar eignaðar Hávarði. Kjarninn í þessum vísum, að minsta kosti sumum þeirra, virðist vera gamall. Um eina þeirra má sanna, að hún er gömul. Það er vísan „Hlakkar hagli stokkinn“. Enn hún er eflaust ekki eftir Hávarð, því að

Landnámu eignar firri helming hennar Þorbirni þynu, sini Hrómundar halta, enn síðari helminginn Hrómundi halta, og er það eflaust rjettara. Höfundur sögunnar, sem ritar eftir minni, virðist hafa vilst á nöfnum höfundanna Hrómundar halta og Hávarðs halta. Annars eru vísur Hávarðs hræmuglega afbakaðar í handritunum. Gísli Brynjúlfsson og Finnur Jónsson hafa reint að lagfæra þær, eg hefur einkum hinum siðarnefnda tekist eftir öllum vonum, enn margar af vísunum hefur hann orðið að irkja upp, svo að þær lagfærðar mega eins vel heita verk Finns Jónssonar sem Hávarðs.

## Fóstbræðra saga

segir frá þeim fóstbræðrum Þorgeiri Hávarssini og Þormóði Bersasini Kolbrúnarskáldi. Hún hefur bæði geimst sjerstök og í sambandi við Ólafs sögu helga í Flat.

Hin sjerstaka saga hefur frá upphafi staðið öll í 2 merkum handritum, Möðruvallabók (AM 132 fol.), hinu fræga söguhandriti, og í Hauksbók. Nú eru því miður ekki til nema 4 blöð af Fóstbræðra sögu Möðruvallabókar, enn svo vill vel til, að Ásgeir Jónsson hefur afskrifað söguna eftir þessu handriti, meðan það var fillra enn nú, og er sú afskrift nú geimd í Árnasafni nr. 566 B 4to; samt vantar aftan við söguna eftir þessu handriti Ásgeirs alt að því helming hennar.

Í Hauksbók vantar aftur framan við söguna sem svarar þriðja parti. Þessi tvö handrit filla því hvort annað, og hafa bæði saman tekin geimt í öllum verulegum um atriðum hið upphaflega efni sögunnar. Enn á þeim kafla, sem hefur verið sameiginlegur firir bæði handritin, sjest með samanburði, að hjer er um 2 nokkuð mismunandi gerðir sögunnar að ræða. Frásögnin í Hauksbók er ifirleitt einföld og óbrotin, enn í Möðruvallabók eru miklar málalengingar fullar af klerklegri mærð og mælsku. Vjer munum hverfa að þessu síðar.

Auk þessara tveggja skinnhandrita af sögunni hefur verið til að minsta kosti ein skinnbók af henni í safni konungs, því að í Árnasafni eru til 2 pappírshandrit með hendi Ásgeirs Jónssonar, rituð eftir þessari Konungsbók, sem nú er glötuð (AM. 142, fol. og 566 A, 4to). Ennfremur eru til tvö pappírshandrit, AM. 565 A, 4to og 566 C, 4to, sem ef til vill hafa sjálfstætt gildi, af því að þau hafa geimt einkennilegan viðauka, sem ekki stendur í

öðrum handritum, við frásögnina um víg Þorgeirs Hávarssonar, þess efnis, að Þorgeir hafi í andarslitrunum slitið úr sér garnirnar og kastað þeim framan í Þorgrím trölla og sagt, að hann skildi hafa þær út til Grænlands og láta konu sína gera úr þeim *„sýr“*, enn svo sé kölluð á Grænlandi „sú matgerð, er konur tóku kálfagarnir ok söxuðu í smátt ok bjuggu svá til, ok var þat ríkra manna réttr.“ Viðauki þessi er auðvitað ekki upphaflegur í sögunni, enn samt er hann ekki ómerkilegur, af því að hann hefur geimt forngrænlenskt orð *(sýr)*, sem annars er óþekt, og sínir þetta, að vert væri að gefa gaum að þeim pappírshandritum, sem nú vóru talin, enn það hefur ekki verið gert til neinnar hlítar, þó að Finnur Magnússon hafi tekið orðamun úr þeim í þá kafla af sögunni, sem hann gaf út í Grönlands historiske Mindesmærker, og Gunnlaugur Oddsson notað sum þeirra við Hafnarútgáfuna 1822. Eftir því sem Finnur Jónsson segir eru öll þessi handrit skildari Möðruvallabók enn Hauksbók.[1])

Loks hefir sagan geimst í sambandi við Ólafs sögu helga í Flateijarbók. Hún er þar liðuð sundur í kafla, sem eru fljettaðir inn hingað og þangað í Ólafssöguna. Þessi gerð sögunnar í Flateijarbók er mjög svipuð þeirri sögu, sem stendur í Möðruvallabók, hefur sömu málalengingar og sömu klerklega mærð sem hún, enda er það engin furða, því að upphaf sögunnar í Möðruvallabók bendir til, að sagan í því handriti sé frá upphafi tekin úr Ólafs sögu.[2])

---

1) [Nákvæmur samanburður handrita sögunnar er gerður í útgáfu Bjarnar K. Þórólfssonar, Kh. 1925—1927. Útg.]. — 2) „Á dögum hins helga Ólafs konungs váru margir höfðingjar undir hans konungsdæmi ... ok váru þeir allir mest virðir af guði, er konungi líkaði bezt við“, M upphafið. Þessi inngangur stendur orðrjett eins í Flat. (II 92) framan við 1. kafla sögunnar og á þar vel við, enn mjög ólíklegt, að sjerstök saga þeirra fóstbræðra hafi birjað þannig. Þess ber og að geta, að Fóstbrs. í Hb. endar á svofeldum orðum: „Ok lýkr hér frásögn þeiri, sem vér kunnum at segja frá Þormóði, *kappa hins helga Ólafs konungs.*“ Gæti þetta niðurlag bent til þess, að Hb.-gerðin stæði líka í einhverju sambandi við Ól. s. h.

— — —

Jeg hef áður getið þess, að í þeim kafla, sem er sameiginlegur firir Hauksbók og Möðruvallabók, er það einkennilegt fyrir M, að hún hefur ímsar málalengingar, sem ekki standa í Hb. og eru fullar af klerklegri mærð. T. d. skal jeg taka frásögnina um það, þegar Þormóðr heillar að sjer Þórdísi með því að snúa Kolbrúnarvisum upp á hana. Í M (38) stendur svo: „Ok svá sem myrkva dregr upp ór hafi ok leiðir af með litlu myrkri ok kemr eptir bjart sólskin, svá dró kvæðit allan óræktarþokka ok myrkva af hug Þórdísar ok rendi hugarljós hennar heitu ástar görvalla til Þormóðar með varmri blíðu.“ Í Hb. (64[1]): „Ok tekst nú upp með þeim ný vinátta.“ Eða þessi klausa um hina hinstu vörn Þorgeirs: „Almáttigr er sá, sem svá snart hjarta ok óhrætt gaf í brjóst Þorgeiri, ok ekki var hans hugprýði af mönnum ger né honum í brjóst of borin, heldr af enum hæsta höfuðsmið.“ Hb. hefur ekkert tilsvarandi til þessarar klausu. Eða þetta um hjarta Þorgeirs: M (57): „Svá segja sumir menn, at þeir klyfði hann til hjarta ok vildu sjá, hvílíkt væri, svá hugprúðr sem hann var, enn menn segja, at hjartat væri harðla lítit, ok höfðu sumir menn fyrir satt, at minni sé hugprúðra manna hjörtu enn huglausra — því at menn kalla minna blóð í litlu hjarta enn miklu, enn kalla hjartablóði hræzlu fylgja, ok segja menn því detta hjarta manna í brjóstinu, at þá hræðist hjartablóðit ok hjartat í manninum.“ Hb. (77): „Þeir skáru upp líkam hans ok vildu sjá hjarta hans, ok var þat eigi meira enn vathnot ok hart sem sigg ok ekki blóð í.“

Það væri blindur maður, sem ekki sæi, að þessar málalengingar í M eru ekki annað en klerklegar hugleiðingar („reflexionir“) út af hinu einfalda efni, sem stendur í Hb. Slíkar hugleiðingar ríða algerlega í bága

Enn þó er það í sjálfu sjer ekki óeðlilegt, að frásögnin frá dauða Þormóðar endi á því að minnast á samband hans við hinn helga mann, og þar sem Hb.-gerðin annars er alveg óháð Ól. s., virðist líklegt, að þar hafi aldrei verið neitt samhand á milli.

við hinn einfalda, hlutlausa íslenska sögustil. Það er með öðrum orðum ljóst, að Hb. hefur hjer varðveitt hinn upphaflega texta sögunnar. Enn þessar klerklegu málalengingar koma eigi aðeins firir í þeim kafla sögunnar í M, sem líka hefur geimst í Hb., heldur og allvíða í firri hluta sögunnar í sama handriti, þar sem Hb. er ekki til samanburðar. Enn af því að Hb. er altaf sjálfri sjer samþykk í því, að sleppa öllu slíku í sameiginlega partinum, má ráða, að svo hafi og verið í firri hluta sögunnar, sem nú er glataður í Hb., og að málalengingarnar í tilsvarandi kafla í M sjeu ekki upphaflegar í sögunni. Að vinsa þær úr er ifir höfuð að tala mjög auðvelt, því að hin klerklega mærð, sem lísir sjer í þeim, stingur greinilega í stúf við hina einföldu og óbrotnu frásögn í kring, og ef vjer tökum þær burtu, verður eftir ljós og einföld saga í hinum vanalega íslenzka sagnastíl, og má ganga að því vísu, að sú saga sé hin upphaflega Fóstbræðra saga eða því sem næst.

Hver er afstaða Flat. við þessar málalengingar í M? Í einu orði sú, að hún hefur þær allar eða flestar hinar sömu sem M, oftast nær orðrjett eins, sumstaðar með nokkrum orðamun, og er þá textinn stundum rjettari í Flat., og eftir að M þrítur hjer um bil í miðri sögunni, halda alveg samskonar málalengingar áfram að koma firir við og við í Flat. í síðari helmingi sögunnar, þar sem Hb. ein er til samanburðar, og sjest á þeim stöðum, að Hb. sleppir altaf öllu slíku og hefur alstaðar varðveitt hina upphaflegu einföldu frásögn. Allar þessar málalengingar Flateijarbókar í síðari hluta sögunnar eru með alveg sama marki brendar og þær, sem eru sameiginlegar Flat. og M í firri hlutanum og auðsjáanlega eftir sama manninn; kemur stundum fram í þeim ekki lítil kímni, t. d. í lísingunni á hræðslu Fífl-Egils, þegar hann flír og heldur, að menn ætli að drepa sig. Þessi lísing er meistarastikki í sinni röð:

Flat. (II 211): „Ok er hann varð handtekinn, skalf í honum leggr og liðr fyrir hræzlu sakir. Öll bein hans skulfu, þau sem váru í hans líkama, enn þat váru cc bein

og xiij bein. Tennr hans nötruðu, þær váru xxx; allar æðar i hans hörundi pipruðu fyrir hræzlu sakir, þær váru cccc ok xv."[1])

Þessi lísing hræðslunnar minnir nokkuð á ameríska kímnihöfunda nú á dögum t. d. Mark Twain.

Ef vjer berum Flat. saman við hin handritin, þá sjáum vjer, að hún sleppir einni grein, sem stendur í upphafi sögunnar i M, frásögninni um viðureign Grettis og Ísfirðinga, þegar Þorbjörg digra bjargaði honum. Þessi frásögn á bersínilega ekki heima í Fóstbræðra sögu, er efni hennar alveg óviðkomandi og er í M tekin eftir Grettis sögu, 52. k., sem segir frá hinu sama. Líka sleppir Flat. dálitlum kafla, sem stendur í M, um það, að Þorgeir hafi farið kaupferð til Vindlands, skömmu eftir að hann gerðist hirðmaður Ólafs konungs, og verið síðan í förum milli Íslands og Noregs og dvalið annanhvorn vetur á Íslandi, enn annanhvorn við hirð Ólafs konungs í Noregi. Þessi kafli stendur í 8. k. í M (KG. bls. 29) og filgir vísan *Sex lét sævar faxa* o. s. frv. Kaflinn virðist hafa staðið í sögunni frá upphafi, og er ranglega slept í Flat. Hins vegar finnast í Flat. ímsar smágreinar, sem ekki standa í M eða Hb. Sumar af þessum greinum hafa eflaust staðið í Fóstbræðra sögu frá upphafi, enn verið sleppt í sameiginlegu frumriti Möðruvallabókar og Hauksbókar, aðrar eiga bersínilega ekki heima í Fóstbræðra sögu, heldur eru teknar úr þeirri Ólafs sögu helga, sem liggur til grundvallar firir Flat., og má þekkja þær greinar á því, að greinar sama efnis koma firir í hinum eldri Ólafssögum. Í útgáfu Valdimars Ásmundssonar eru sumar af þessum aukagreinum, enn ekki allar, prentaðar aftan við sem viðaukar.

Þær aukagreinar, sem Flat. hefur fram ifir hin handritin og ætla má að hafi frá upphafi staðið í Fóstbræðra sögu, eru þessar:

1) *Hb.* (89): *„Ok er hann var handtekinn, skalf á honum leggr ok liðr sakir hræzlu.“*

1. Frásögnin um víg Torfa bögguls, Flat., Óh. 85. k. Þetta gerist á leið Þorgeirs til skips, staðháttum er líst kunnuglega (Böggullækur, Þorgeirr nær samferðamönnum sínum í Mjósyndi); Grettis saga, sem hefur notað Fóstbræðra sögu í 26. og 27. k., getur um víg „Böggul-Torfa"[1]), og sínir það, að þetta er upphaflegt í Fóstbræðra sögu. Slept í M, Hb. glötuð.

2. Frásögnin um víg sauðamanns að Hvassafelli, Flat., Óh. 86. k. niðurlagið. Mjög einkennileg og sjálfsagt upphafleg í sögunni. Um víg þetta leggur sagan Þorgeiri þessi orð í munn: „Eigi hafði hann nokkurar sakir til móts við mik, en hitt var satt, at ek mátta eigi við bindast, er hann stóð svá vel til höggsins!" Þessi viðburður gerist líka á leið Þorgeirs til skipsins eins og víg Böggul-Torfa. Slept í M, Hb. glötuð.

Í sambandi við þetta skal jeg líka geta þess, að upphafið á sömu frásögninni, um ferð Þorgeirs til skips, er í Flat. líklega frumlegri enn í M. Þar segir frá, er þeir fóstbræður skildu út af því, að Þorgeirr spurði Þormóð, hvor þeirra mundi af öðrum bera, ef þeir reindi með sjer, og tók Þormóðr spurningunni svo, að hann sagði sundur fjelag þeirra. Þetta er sagt með miklu nánari atvikum í Flat. enn í M (Hb. tínd) og staðhættir, þar sem það gerðist (við hamarinn Drífandi)[2]), greindir með meiri kunnugleik. Eftir M virðist það gerast einhverstaðar norður á Ströndum. Samt er M upphaflegri að því leiti, að hún greinir við þetta tækifæri vísu Þormóðar um missætti þeirra fóstbræðra, sem Flat. sleppir.

Orsökin til þess, að M sleppir sögnunum um víg Torfa bögguls og sauðamannsins, virðist vera sú, að skrifara bókarinnar hafa þótt þessi víg tilefnislaus og tilgangslaus og kasta rírð á sögukappann, og sú önnur, að hann hefur ekki fundið þessara víga getið í erfidrápu þeirri, sem Þormóðr orti um Þorgeir. M tilfærir vísuna um víg Þorgils Mássonar og þeirra Skúfs og Bjarna, enn þar er ekki getið um víg Torfa nje sauða-

1) Grett., 27. k. — 2) Í Flat. rangl. gerður að *á*.

mansins. Flat. sleppir þessari vísu. Um leið og hann feldi þessa kafla burt, hefur hann svo kipt sögninni um ágreining og skilnað fóstbræðra út úr því sambandi, sem hún stóð í við söguna um ferð Þorgeirs til skips.

3. kafli, sem Flat. hefur fram ifir hin handritin, er sögnin um það, þegar þeir fóstbræður vóru að tína sjer hvannir í bjargi hjá Horni (Hornbjargi?) og aurskriða brast undan fótum Þorgeirs, og hefði hann fallið firir björg ofan, ef hann hefði ekki gripið um hvannnjóla og haldið sjer uppi á honum, þangað til Þormóðr bjargaði honum. Þessi kafli stendur í Flat., Óh. 121. k., enn hvorki í M nje Hb. Hugpríði Þorgeirs kemur fram í því, að hann kallar ekki til Þormóðs að hjálpa sjer, þó að hann sje svo nauðuglega staddur, og þegar Þormóði leiðist eftir honum og spir, hvort hann hafi ekki enn fengið nóg af hvönnum, gefur hann honum það einkennilega og tvíræða svar: „Ek ætla, at ek hafa þá nógar, at þessi er uppi, sem ek held um.“ Líklegt þikir mjer, að þessi kafli sje upphaflegur í sögunni og slept í M-Hb., af því að hann grípur ekki að neinu leiti inn í þráð frásagnarinnar.

4. Í beinu framhaldi af þessari sögu um Þorgeir og hvannnjólann segir Flat. (Óh. 121. k.) frá því, að þeir fóstbræður og Grettir hafi allir þrír í einu verið á vist hjá Þorgilsi Arasini á Reykhólum, og að Þorgils hafi sagt svo á alþingi að lögbergi, er hann var spurður að veturtaksmönnum sínum, að Grettir væri mirkhræddur, Þormóðr guðhræddur, enn Þorgeirr kinni ekki að hræðast. Sama sagan að efni til stendur í Grettlu, 50. k. Er nú þessi saga upphafleg í Fóstbræðra sögu og tekin þaðan inn í Grettlu, eða hefur ritari Flat. bætt henni við eftir Grettis sögu? Í M og Hb. finst hún ekki. Í Flat. er sagan mjög einföld og meðal annars ekki sagt, hver það var, sem spurði Þorgils um veturtaksmennina. Enn í Grettlu er sagan skreitt með því móti, að spurningin er lögð í munn Skafta lögsögumanni, og verður úr því heilt samtal milli þeirra Þorgils og Skafta. Það virðist ljóst, að hin einfalda frásögn Flat. er upphaflegri enn hin

skreitta í Grettlu, og að sá, sem samdi söguna, eins og hún er í Flat., mundi hafa getið þess, að það var Skafti, sem spurði, ef hann hefði tekið hana eftir Grettlu. Hins vegar vitum vjer, að Grettis saga hefur víðar enn á þessum stað notað Fóstbræðra sögu. Jeg tel það því vafalaust, að þessi saga hafi frá upphafi staðið í Fóstbræðra sögu. Þaðan er hún komin inn í Fóstbrs. Flateijarbókar, og úr Fóstbrs. hefur höfundur Grettlu tekið söguna nokkuð skreitta inn í sitt rit.

Þetta eru hinar helstu greinar, sem Flat. hefur fram ifir hin handritin og telja má upphaflegar í sögunni. Af þessu má sjá, að Flat. hefur að sumu leiti geimt upphaflegri texta enn hin handritin. Um eitt af þeim mörgu æfintírum, sem Þormóðr rataði í á Grænlandi, ber Flat. ekki saman við Hb. (M glötuð á þeim kafla), og er Flat. þar talsvert fillri en Hb. Það er þar sem segir frá því, að Þormóðr tók bát Þórdísar á Löngunesi og var eltur af Þórdísi og Böðvari sini hennar. Flat. getur þar um, að Þormóðr hafi, þegar hann tók bátinn, veitt Kár, verkstjóra Böðvars, áverka; í frásögn Flat. eru hér ímsar mótsagnir, sem ekki eru í Hb.; t. d. skilst ekki, hvers vegna Þormóðr þarf að taka bátinn, þar sem hann eftir frásögn Flat. kemur þangað sjálfur á báti; líka lætur Flat. Kár haltra heim til að segja húsbónda sínum um bátstuldinn, enn jafnframt segir Flat., að Þórdís hafi sjeð þetta í svefni og sagt Böðvari til, sem virðist óþarft í sögunni, first Kárr er á leiðinni til að láta Böðvar vita, hvað um sje að vera. Eftir Hb. hefur Þormóðr engan bát á Löngunesi, og er þá eðlilegt, að hann taki bátinn, og þar er það Þórdís ein, sem kemur upp um ferðalag Þormóðs. Þessi saga um áverkann við Kár virðist því ekki eiga heima í sögunni frá upphafi, og hefur Hb. hjer geimt hinn upphaflega texta. Sá sem bætti við söguni um áverkann við Kár, virðist hafa gert það til að skreita söguna, honum hefur ekki fundist hún nógu söguleg eins og hún var, og hefur viljað láta Þormóð vinna hjer eitthvað til frægðar sjer.

Þá eru nokkrir viðaukar í Flat., sem bersínilega

eiga ekki heima í Fóstbræðra sögu frá upphafi, heldur eru teknir eftir þeim Ólafs sögum helga, sem Flat. fór eftir. Hvaða Ólafssögur eru það, sem Flat. hefur haft firir sjer? Aðallega tvær. 1) Ólafs sögu Snorra, og er hægt að vinsa úr langa kafla, sem þaðan eru teknir hjer um bil orðrjett, af því að saga Snorra er til samanburðar. 2) „Lífssögu Ólafs helga“ eftir Styrmi, sem Flat. vitnar til berlega. Sú saga er nú því miður ekki til í heilu lagi, enn það virðist mega ganga að því vísu, að þeir kaflar úr Ólafs sögu, sem Flat. hefur fram ifir Ólafs sögu Snorra, sjeu teknir úr bók Styrmis, svo framarlega sem þeir eru ekki teknir eftir öðrum sögum enn Ólafs sögum (t. d. kaflarnir úr Fóstbræðra sögu). Þessar greinar eru nokkurnveginn auðþektar úr á því, að frásögnin er með klerkakeim, og oft finnast þessir kaflar svo að segja óbreittir eða lítið breittir í hinni svonefndu „helgisögu“ Ólafs (Kria 1849, „den legendariske saga“), og virðist Styrmisbók hafa verið náskild helgisögunni. Styrmir og helgisagan hafa aftur haft firir sjer hina svonefndu *elstu* Ólafs sögu. Af henni eru nú því miður ekki til nema brot, sem fundist hafa í bókbandi utan um gamla fógetareikninga frá 17. öld í Ríkisskjalasafninu norska, als 6 blöð eða blaðslitur, og hefur G. Storm gefið þau út ljósprentuð með mjög fróðlegum athugasemdum í Kristianíu 1893. Brot þessi eru leifar af mjög gömlu handriti, varla ingra enn frá 1220. Þessar allar Ólafs sögur verðum vjer að bera saman við Flat. og við hinar sjerstöku Fóstbræðra sögur í M og Hb., ef vjer viljum gera oss rjetta hugmind um afstöðu Flat. við hinar Ólafssögurnar og afstöðu hinnar sjerstöku Fóstbræðra sögu við sögur Ólafs helga. Allar Ólafssögurnar hafa eitthvað að segja frá Þormóði. Það var mjög eðlilegt, að Ólafs saga tæki upp ímsar sagnir um Þormóð, þar sem hann var svo lengi með Ólafi konungi og var hirðskáld hans. Hjer eru um fram alt þrjár spurningar, sem áríðandi er að svara. Hafa Ólafssögurnar þekt og notað Fóstbræðra sögu? Eða hefur hin upphaflega Fóstbræðra saga notað Ólafs sögu? Eða eru Ólafssögurnar

og Fóstbræðra saga hvor annari óháðar? Undir því, hvernig þessum spurningum er svarað, er að miklu leiti kominn dómur vor um aldur sögunnar.

Í hinni elstu Ólafs sögu hefur geimst brot af sögu um Þormóð, sem segir frá veru hans við hirð Knúts ríka og firstu samfundum hans og Ólafs helga. Sama saga finst í heilu líki í helgisögu Ólafs, 57.—58. k., og ber henni svo vel saman við brotin, það sem þau ná, að Gustav Storm hefur getað filt í eiður brotanna eftir helgisögunni. Sama sagan hjer um bil með sömu orðum stendur líka í Flat. II, 148.—150. k. Aðalefnið er þetta: Þormóðr kemur first til Danmerkur. Þar er Knútr ríki konungur firir og gerir orð eftir Þormóði og biður hann gerast hirðskáld sitt. Þormóðr færist undan, þangað til konungur lofar honum mörk gulls í mála. Þormóðr gengur að því, enn hefur þó nokkrar dilgjur um, að konungur efni ekki altaf það sem hann lofar. Við hirðina kinnist Þormóðr víkingi, Háreki að nafni, og firir tilmæli Knúts gerist Þormóðr stafnbúi á skipi Háreks, þó með því skilirði, að hann fái að ráða, hvar í hafnir skal leggja eða í burt halda. Áður enn Þormóðr fer burt með Háreki, irkir hann vísu til konungs og óskar í henni að fá mörk gulls í mála, sem um samið var. Konungur gefur honum gullhring, sem stóð ½ mörk, enn Þormóðr gerir sig ekki ánægðan með það og minnir á, að hann hafi heitið sjer mörk gulls. Konungur játar því og gefur honum annan hring, síðan irkir Þormóðr vísu um örlæti konungs. Að því búnu fer hann burt með Háreki. Eitt sinn um sumarið vill svo til, að þeir Hárekr liggja í höfn, þá kemur þangað dreki Ólafs konungs helga, og vill Hárekr þoka úr læginu firir drekanum, enn Þormóðr ræður, að það er eigi gert. Drekinn brunar að þeim, og lendir þeim saman stafnbúa konungs og Þormóði, og líkur svo, að Þormóðr vegur stafnbúann og stekkur síðan upp á drekann, enn Hárekr forðar sjer og skipi sínu. Þormóðr gengur aftur eftir skipinu til liftingar og er tekinn höndum. Firir milligöngu Finns Árnasonar tekst honum þó að koma

sjer í sátt við konung og gengur honum á hönd. Eftir Flat. gerist þetta í firstu utanferð Þormóðs rjett eftir víg Þorgeirs fóstbróður hans. Gustav Storm higgur, að elsta Ólafs sagan hafi tekið þennan kafla eftir Fóstbræðra sögu og hafi hann þaðan komist inn í helgisöguna, og leiðir af því þá áliktun, að allir þeir „partar af Fóstbræðra sögu“, sem finnast í helgisögunni, hafi frá upphafi staðið í elstu sögunni.[1]) Þar sem nú hin elsta Ólafs saga, eftir því sem Storm leiðir rök til, er samin á árunum 1155—1180,[2]) þá leiðir af þessu, að Fóstbræðra saga hlítur að vera dálítið eldri, samin um eða laust eftir miðja 12. öld. Þetta nær engri átt. Það er rangt hjá Storm, að Ólafs saga hin elsta hafi tekið þennan kafla eftir Fóstbræðra sögu, enn honum er nokkur vorkunn, því að hann fer eftir útgáfu Fóstbræðra sögu frá 1822, enn sú útgáfa er prentuð eftir handriti, sem er runnið frá eða náskilt Flat. og kemur alveg heim við hana í þessum kafla. Það vill nú svo vel til, að vjer höfum hjer báðar hinar sjerstöku sögur, bæði M og Hb. til samanburðar. Þær segja báðar frá hinni firstu utanferð Þormóðs og hvernig hann komst first í kinni við Ólaf helga, og kemur þeim í öllu vel saman, enn þær segja söguna alt öðruvísi enn Ólafssögurnar. Þær vita ekkert um, að Þormóðr hafi first verið hjá Knúti ríka eða verið stafnbúi Háreks, eða um það, að hann hafi vegið stafnbúa Ólafs konungs, þegar hann hitti hann í firsta sinni, vita ifir höfuð að tala ekkert um söguna eins og hún er í Ólafssögunum. Þær segja, að Þormóðr hafi farið utan rjett eftir fall Þorgeirs beina leið til Noregs. Þar hittir hann Ólaf konung; konungur tekur honum vel og gerir hann að hirðmanni sínum. Af þessu má ráða, að sagan, eins og hún er í Ólafs sögu hinni elstu, hafi als ekki frá upphafi staðið í Fóstbræðra sögu og sje als ekki þaðan tekin, heldur sje hún upphafleg í Ólafs sögu elstu. Með þessu fellur öll röksemdaleiðsla

1) Útg. Storms af elstu Ól. s. h., formálinn, 10. bls. — 2) S. st. 22.—23. bls.

Storms um, að hin elsta Ólafs saga hafi notað Fóstbræðra sögu, og verður því ekki af aldri elstu sögunnar dregin nein áliktun um aldur Fóstbræðra sögu. Annars er fróðlegt að sjá, hvernig Flat. fer með þessa sögu um hina firstu samfundi Þormóðs og Ólafs. Hún eikur þar inn sögu, sem stendur síðar í helgisögunni (í 88. k.), um það, að konungur hafi spurt Þormóð, hve mörg víg hann hafi vegið, og Þormóðr svarað með vísunni „Sex hefk alls síz uxu.“ Þessi vísa með tilheirandi sögu hefur eflaust frá upphafi staðið í hinni elstu Ólafs sögu, enn hún finst hvergi í hinum sjerstöku Fóstbræðra sögum. Loks má sjá, að Flat. hefur hjer haft firir sjer Fóstbræðra sögu, því að hún endar frásögnina um firstu fundi þeirra konungs með því að tilfæra sömu vísuna sem stendur í M og Hb., þar sem þær segja frá firstu samfundum þeirra („Þarf sá er þér skal hvarfa“). Þessi vísa stendur annars ekki í neinni Ólafs sögu.[1]) Líka birjar Flat. sína frásögn á því, að Þormóðr hafi farið utan í Vaðli eftir víg Þorgeirs, og er það tekið eftir Fóstbræðra sögu.[2])

Fleiri eru sagnir um Þormóð í Flat. enn þær, sem nú vóru greindar, er rekja má til Ólafssagnanna. Því miður er hin elsta Ólafs saga ekki til samanburðar nema um söguna um veru Þormóðs hjá Knúti og firstu samfundi hans við Ólaf konung. Að þeirri sögu undanskildri finst ekkert um Þormóð í þeim fáu brotum, sem geimst hafa af elstu sögunni, nema hvað þess er getið lauslega, að hann hafi ásamt fleirum nafngreindum mönnum filgt konungi í útlegð hans, austur í Garðaríki. Enn í helgisögu Ólafs eru ímsar greinir um Þormóð, sem líklegt er, að staðið hafi í elstu sögunni og sjeu þaðan komnar inn í helgisöguna. Ein af þessum greinum gengur þó frá. Helgisagan segir í 62. k., að Þormóðr hafi eftir áskorun Ólafs konungs ort vísuna „Geisli stendr til grundar“ um mind af Sigurði Fáfnisbana og Fáfni, sem

1) Sbr. Flat. II, 202.—203. bls. við Fóstbrs. KG, 58.—59. bls. og 77.—78. bls. — 2) Fóstbrs., KG., 58. bls.

var mörkuð á tjald eitt. Hjer er „Þormor“ (svo hdr.) ritvilla firir *Þorfiðr*, eins og sjest á samanburði við elstu Ólafssöguna, sem hefur sömu söguna, enn eignar vísuna Þorfinni munni, öðru skáldi konungs,[1]) og samhljóða elstu sögunni er Flat. III, 244. bls. Helgisagan (90. k.) eignar og Þormóði vísuna „Þora mun ek þann arm verja“, enn Heimskringla og Fagrskinna og allar aðrar Ólafs sögur, þar á meðal Ólafs saga í Flat., eigna hana Haraldi harðráða, og mun það rjettara. Þó getur verið, að Ólafs saga hin elsta hafi í þessu verið samhljóða helgisögunni. Aðrar greinar um Þormóð í helgisögunni eru þessar: Í 83. k. segir hún frá því, að Þormóðr og fleiri af konungsmönnum hafi troðið niður akur firir bónda í Veradal, Þorgeiri að nafni, sem bauð Ólafi konungi heim. Flat. getur bæði þess, að konungsmenn hafi troðið akur firir Þorgeiri — þá sögu hefur Flat. eftir Heimskringlu[2]) — og líka þess, að Þormóðr og fleiri hafi troðið akur firir ónefndum bónda í Veradal — sú saga er sammæðra við söguna í helgisögunni — og hvorttveggja er auðvitað frá upphafi sama sagan. Snorri segir hana aðeins á einn hátt, dálítið öðruvísi enn helgisagan, og er munurinn fólginn í því, að Þormóðs er ekki við söguna getið hjá Snorra, og að skemdin á akrinum gefur tilefni til jarteinar Ólafs konungs, hann lætur akurinn ná sjer aftur. Flat. tekur upp báðar þessar missagnir sem tvær sjerstakar sögur.[3]) Í hinni sjerstöku Fóstbræðra sögu í Hb. (M tínd) er ekkert þessu líkt, og virðist sagan því vera upphafleg í Ólafs sögu, enn ekki eiga heima í Fóstbræðra sögu.

Sama er að segja um það, sem helgisagan segir í 83. k., að Þormóðr hafi jetið mörbjúga á föstudegi. Sagan stendur líka í Flat. í 267. k., enn ekki í hinni sjerstöku Fóstbrs. Hauksbókar (M tínd) og á þar ekki heima frá upphafi.

Í hinni sjerstöku Fóstbræðra sögu (Hb.) er þess get-

1) Útg. bls. $2^7$, 1. blað. — 2) Hkr., F. J., Óh. 203 k. — 3) Flat. Óh. 264. og 267. k.

ið, að Þormóðr hafi firir Stiklastaðaorustu ráðið konungi til að brenna bigð bænda, og filgir sögninni vísa Þormóðs um þetta efni: „Brennum öll fyrir innan“. Sama söguin stendur og í Ólafs sögu Heimskringlu, þó svo breitt, að þar er það Finnr Árnason, sem leggur á ráðið, enn Þormóðr stiður mál hans með vísunni. Sagan stendur líka í helgisögunni og ifir höfuð að tala í öllum Ólafs sögum. Hún virðist vera upphafleg bæði í Fóstbræðra sögu og í Ólafs sögunum, tekin í báðum eftir munnmælasögu, sem studdist við vísuna, og virðast sögurnar hvor annari óháðar. Þó er orðfærið á þessari sögn í helgisögunni mjög svipuð því, sem er í Fóstbræðra sögu, og virðist það koma af því, að helgisagan hefur hjer haft Fóstbræðra sögu til hliðsjónar. Vjer munum sjá, að helgisagan hefur haft firir sjer Fóstbræðra sögu í frásögninni um Stiklastaðaorustu, sem vjer nú komum að.

Um athafnir Þormóðs í Stiklastaðaorustu og dauða hans eftir bardagann hafa frá upphafi verið til tvennar frásagnir, hvor annari óháðar, önnur í hinni elstu Ólafs sögu, hin í hinni sjerstöku Fóstbræðra sögu, og hefur sú frásögn, að því er virðist, geimst nokkurnveginn óbreitt í Hb., enn frásögn hinnar elstu Ólafs sögu um þetta efni er því miður glötuð. Samt má gera sjer nokkra hugmind um hvað þar hefur staðið með því að bera saman þær Ólafs sögur, sem geimst hafa til vorra tima. Eftir nákvæman samanburð hef jeg komist að þeirri niðurstöðu, að frásögn hinnar elstu Ólafs sögu hafi geimst best í Ólafs sögu Snorra í Heimskringlu og í hinni sjerstöku Ólafs sögu hans (Kria 1853), sem kemur í öllu verulegu heim og saman við Heimskringlu. Ef vjer berum frásögn Snorra saman annars vegar við frásögnina í hinni sjerstöku Fóstbræðra sögu, hins vegar við frásögnina í helgisögunni og Flat., þá sjest first og fremst, að sögn Snorra er alveg óháð frásögn Fóstbræðra sögu, eins og líka við er að búast, ef Snorri hefur hjer farið eftir hinni elstu Ólafs sögu,[1]) og í annan stað, að frásögn Snorra er miklu

1) Sbr. F. J. í form. Hb.-útg., LXXIX.—LXXX. bls.

frumlegri enn tilsvarandi kaflar í hinum Ólafssögunum, helgisögunni og Flat.-sögunni, því að báðar þessar sögur eru hjer blendingar af því efni, sem finst hjá Snorra, og því, sem finst í hinni sjerstöku Fóstbræðra sögu. Jeg skal ekki rekja þennan samanburð í öllum einstökum atriðum, enn til þess að færa sönnur á mitt mál verð jeg þó að taka eitt ljóst dæmi:

Snorri segir frá því, að Þormóðr var lostinn öru í síðuna vinstri seint í bardaganum. Síðan gekk hann heim til húsanna (á Stiklastöðum) og kom að hlöðu nokkurri, þar sem sárir menn vóru inni: Í dirunum mætir hann manni af bóndahernum, sem nefnist Kimbi. „Sá mælti: „Furðu ill læti eru hér inni, veinan ok gaulan. Skömm mikil, er karlmenn hraustir skulu eigi þola sár sín, ok vera kann, at konungsmenn hafi allvel fram gengit, enn allódrengilega bera þeir sárin sín." Þormóðr spir hann: „Vartu í bardaga?" „Var ek," segir hann „með bóndum, er betr var." „Ertu nökkut sárr," segir Þormóðr. „Lítt," segir Kimbi, „eða vart þú í bardaga." Þormóðr svarar: „Var ek með þeim, er betr höfðu." Kimbi sá, at Þormóðr hafði gullhring á hendi. Hann mælti: „Þú munt vera konungs maðr, fá þú mér gullhringinn, enn ek mun leyna þér; bændr munu drepa þik, ef þú verðr á veg þeira." Þormóðr segir: „Haf þú hring, ef þú fær, látit hef ek nú meira." Kimbi rétti fram höndina og vildi taka hringinn. Þormóðr sveifldi til sverðinu ok hjó af honum höndina, ok er svá sagt, at Kimbi bar sár sitt engum mun betr enn hinir, er hann hafði fyrr á leitat."

Fóstbræðra saga Hauksbókar hefur mjög svipaða sögu. Hún segir líka frá sári því, sem Þormóðr fjekk af ör í brjóstið, enn með alt öðrum orðum enn Ólafs saga Snorra. Hún getur og þess, að Þormóðr gekk til bigghlöðu, þar sem sárir menn vóru. Þormóðr hittir þar mann af bændaliðinu, sem fárast um það, hve þróttlausir konungsmenn sjeu — „því at mér þykkir svá mega at kveða," segir hann, „at þeir menn, sem hér eru inni, þoli varla óæpandi sár sín ..." Þormóðr mælti:

„Svá má vera, sá sé hér nokkurr maðr í hlöðunni inni, er ekki sé þrekmikill — ok ekki mun þér sýnast mitt sár mikit.“ Bóndi gengr at Þormóði ok vildi sjá sár hans. Enn Þormóðr sveipar öxinni til hans ok særir hann miklu sári. Sá kvað við hátt og stundi fast. Þormóðr mælti þá: „Þat vissa ek, at vera mundi nokkurr sá maðr inni, er þreklaus mundi vera. Er þér illa saman farit — leitar á þrek annarra manna — því at þú ert þrek-lauss sjálfr. Eru hér margir menn mjök sárir, og stynr engi þeirra, enn þeim er ósjálfrátt, þótt hátt láti í sárum þeira, enn þú stynr, þó at þú hafir fengit eitt lítit sár.“[1]

Það er auðsjeð, að þessar tvær frásagnir eru hvor annari óháðar, því að orðfærið á þeim er mjög mismunandi og sum minni háttar atvik öðruvísi sögð, svo sem það, að Snorri nefnir manninn Kimba, enn Fóstbræðra saga segir ekki, hvað hann hjet, og að Þormóðr fær höggfæri á manninum með því að egna firir hann með hringnum eftir sögn Snorra, enn eftir sögn Fóstbræðra sögu með því, að látast ætla að sína honum sár sitt. Enn samt er það ljóst, að hvorttveggja er frá upphafi sama sagan, sem hefur breitst misjafnlega í munnmælum, áður enn hún var skrifuð upp.

Hvernig fer nú helgisaga Ólafs með þetta efni? Hún tekur upp báðar sögurnar, bæði söguna um Kimba, sem Þormóðr hjó af höndina, og söguna um hinn ónefnda mann, sem Þormóðr særði, og setur þær hvora við hlið annarar. Það er ljóst, að höfundur helgisögunnar hefur haft Kimbasöguna úr hinni elstu Ólafs sögu, enn söguna um ónefnda manninn úr Fóstbræðra sögu. Konr. Maurer hefur firir löngu sjeð það rjett, að helgisagan gerir sig hjer seka í sagnablendingi, og að sagan um ónefnda manninn er tekin eftir Fóstbræðra sögu.[2]) Þó er orðfæri helgisögunnar nokkuð ólíkt orðfæri heim-

1) Hkr. FJ. Óh. 233. k., Óh. Kria 1853, 233. k., Fóstbrs., K.G., 110.—112. bls. — 2) K. Maurer: Über die ausdrücke altnord. altnorweg. u. isl. sprache, Anm. 18, s. 88 sq.

ildanna í báðum sögunum. T. d. kippir hún nokkru af viðtali Þormóðar við Kimba, eins og það er í Heimskringlu, út úr Kimbasögunni, og setur það inn í söguna um ónefnda manninn, og missagnir eru nokkrar, enn óverulegar (t. d. lætur helgisagan Kimba vera sáralækni og segir, að ónefndi bóndinn hafi dáið úr sárum, sem Þormóðr veitti honum). Enn þetta raskar með engu móti þeirri niðurstöðu, að helgisagan hefur hjer haft firir sjer tvær heimildir, Ólafs sögu hina elstu og Fóstbræðra sögu, og blandað saman frásögnum þeirra.[1])

Ennþá ljósari er sagnablendingurinn í Ólafs sögu Flateijarbókar. Hún tekur Kimbasöguna svo að segja óbreitta eftir Heimskringlu og söguna um ónefnda manninn með mjög litlum breitingum eftir Fóstbræðra sögu.[2]) Breitingarnar í sögunni um ónefnda manninn eru aðeins fólgnar í því, að Flat. skreitir sumstaðar hinn einfalda stíl Fóstbræðra sögu og bætir því við, auðsjáanlega til að gera útreið bóndans hlægilegri, að sárið, sem Þormóðr veitti honum, hafi verið í því fólgið, að hann hjó af honum þjóhnappana, og hafi maðurinn æpt og gripið til þeirra báðum höndum. Flat. staðfestir því niðurstöðu þá, sem vjer komumst að um helgisöguna. Í þessum síðasta kafla Flat. um Þormóð eru og ímsar smágreinar, sem ekki standa í Fóstbræðra sögu Hauksbókar og eiga þar ekki heima, heldur eru teknar annaðhvort nokkurnveginn orðrjett eftir Ólafs sögu Snorra (t. d. vísan „Undrask öglis landa“ með næstu orðum á undan og því sem á eftir fer um dauða Þormóðs), eða eftir þeirri annari Ólafs sögu, sem Flat. hafði firir sjer, og má þá oft finna líkan kafla í helgisögunni. Enn það irði of langt mál að rekja þetta í einstökum atriðum.

Vjer getum nú svarað spurningu þeirri, sem jeg setti áður fram og öll þessi rannsókn hefir stefnt að, spurningunni um afstöðu hinnar sjerstöku, upphaflegu Fóst-

---

1) Óh. Kria 1849, 96. k., 71.—72. bls. — 2) Flat., Óh. 293. k. (II, 363.—364. bls.).

bræðra sögu við Ólafssögurnar. Hin upphaflega Fóstbræðra saga hefur verið gersamlega óháð öllum Ólafssögum. Ólafs saga hin elsta og Ólafs sögur Snorra virðast sömuleiðis vera alveg óháðar Fóstbræðra sögu. Aftur á móti hefur helgisagan haft Fóstbræðra sögu til hliðsjónar og lagað eftir henni einstök atriði. Um Flat. vitum vjer, að hún hefur í Ólafs sögu sinni haft firir sjer Ólafs sögu Snorra og Ólafs sögu Styrmis og fljettað inn í sína Ólafs sögu nálega alla Fóstbræðra sögu eftir handriti, sem á stöku stað virðist hafa verið fillra og betra enn þau handrit hinnar sjerstöku Fóstbræðra sögu, sem vjer nú höfum. Menn verða því að hafa Flat. til hliðsjónar við texta sögunnar, enn þó að hún hafi sumstaðar betri texta enn Hb., þá raskar það ekki þeirri niðurstöðu, sem vjer höfum áður komist að, að Hb. er ifirleitt frumlegasta handritið, það sem hún nær.

Um aldur sögunnar má nokkuð ráða af einum stað í henni, þar sem segir, bæði í M og Flat., að þilin í skálanum á Reikjahólum, sem þeir Vegglágr og Þorgeirr smíðuðu, hafi haldist alt til þess, er Magnús biskup var að staðnum í Skálholti hinn síðari.[1]) Hjer er átt við Magnús Gizurarson, sem var biskup 1216—1236. Hb. breitir þessu þannig, að skálinn hafi staðið enn, er Árni biskup hinn síðari (Helgason) var vígður til Skálholts, eða til 1304, og lísir skálanum nánar[2]), og er auðsjeð, að Haukr hefur breitt þessu, af því að hann sjálfur hefur sjeð skálann eða haft afspurn af honum á sínum dögum. Það liggur í augum uppi, að M og Flat. hafa hjer haft firir sjer c. 80 árum eldri texta enn þann, sem stendur í Hb. Af þessu má að minsta kosti ráða, að sagan muni ekki vera mikið ingri enn frá 1236, og ef þessi orð eru upphafleg í sögunni, getur hún ekki verið eldri en frá 1216. Finnur Jónsson efast um, að þau sjeu upphafleg, og heldur, að maður, sem afskrifaði söguna á

1) Fóstbrs., KG., 44. bls., Flat., Óh. 119. k. (II 157. bls.). — 2) „Hann er 19 álna ok 40 álna langr; hann stóð enn er Árni biskup enn síðari var vígðr til Skálaholts; hann er þiliðr um endilangt“, Hb. Fóstbrs. KG., 67. bls.

dögum Magnúss biskups, hafi lagað tímatakmarkið eftir sínum tíma, enn upphaflega hafi staðið eldra tímatakmark, líkt og Hb. óneitanlega hefur gert. Þetta er í sjálfu sjer als ekki óhugsandi, enn samt þikir mjer líklegt, þar sem M og Flat. ber alveg saman, að þau hafi hjer geimt hinn upphaflega texta sögunnar, enda er ekkert í Fóstbræða sögu, sem ber vott um, að hún sje eldri enn frá 1216. Vjer höfum sjeð, að Ólafs saga helga hin elsta muni ekki hafa notað Fóstbræðra sögu og Fóstbræðra saga ekki hana nje Ólafs sögu Snorra. Af því verður þá ekkert aldurstakmark dregið firir söguna. Aftur virðist helgisagan hafa haft firir sjer Fóstbræðra sögu, sem áður er sínt, enn helgisagan í þeirri mind, sem vjer höfum hana, er varla eldri enn frá síðari helmingi 13. aldar; helgisagan sannar því ekki, að Fóstbræðra saga sje eldri enn frá miðri 13. öld. Vjer höfum sjeð, að Grettis saga hefur notað Fóstbræðra sögu, enn Grettis saga er varla eldri enn frá firstu árum 14. aldar, enn það vitum vjer, að Fóstbræðra saga hlítur að vera töluvert eldri enn svo. Ekki verður heldur neitt ráðið af afstöðu sögunnar við Landnámu. Að vísu hefur hún í firstu 2 kapítulunum ættartölur, sem koma heim við tilsvarandi ættartölur í Landnámu í flestum atriðum, enn þó eru þar missagnir, sem sína, að sagan muni ekki tafa tekið þessar ættartölur eftir Landnámu, t. d. þar sem sagan segir, að Ólafr hviti hafa verið Ingjaldsson Fróðasonar (hins frækna, er Svertlingar drápu, Laxd.) í staðinn firir Ingjaldsson, Helgasonar, og kemur sagan í þessu efni heim við Laxdælu, eða þar sem hún segir, að móðir Álfs úr Dölum hafi verið Hildr dóttir Þorsteins rauðs — Landnáma nefnir hana Þórhildi. Sagan segir, að Hávarr faðir Þorgeirs hafi verið Kleppsson, og kemur það heim við Hauksbók og Melabók Landnámu, enn Sturlubók segir, að Hávarr hafi verið Einarsson Kleppssonar. Það sem gerir, að jeg held, að Fóstbræðra saga hafi ekki notað Landnámu, er þó einkum það, að hún getur þess ekki, að Þorgeirr var kominn frá Jörundi hinum kristna, sini Ketils Bresasonar landnáms-

mans á Akranesi — Jörundr er eftir Landnámu faðir Klepps, sem fir var nefndur, — og ekki getur sagan heldur þess, sem Landnáma segir, að Þormóðr Kolbrúnarskáld var 3. maður í beinan karllegg frá Gunnbirni Úlfssyni kráku, sem fann Gunnbjarnarsker, og að afi hans Halldórr son Gunnbjarnar hafði ásamt Gunnsteini bróður sínum numið Skötufjörð, Laugadal og Ögur til Mjóvafjarðar. Báðir sögukapparnir eru af frægum landnámsættum, enn þess er ekki getið. Enn má geta þess, að bæði Landnáma og Fóstbræðra saga skíra frá því, að Þorbjörg kolbrún var dóttir Kötlu og Glúms, enn Landnáma segir það fillra, að Katla hafði síðar gengið að eiga Eyjólf Nesja-Knjúksson Þórólfsson sparrar. Líklega hefði Fóstbræðra saga sagt nánari deili á Þorbjörgu, ef höfundurinn hefði þekt Landnámu. Annars heldur Finnur Jónsson ættartölurnar í 2. k. sje síðari innskotsgrein. Enn þær standa bæði í Flat. og M, — Hb. því miður glötuð, — og finst mjer því ekki ástæða til að útiloka þær úr hinum upphaflega texta sögunnar, þar sem þær í filsta lagi snerta efni hennar. Enn hvaðan höfundurinn hefir haft þær og hvernig stendur á missögnunum við Landnámu og á því, að sagan rekur framætt Breiðfirðinga upp til Fróða ins frækna eins og Laxd., um það getum vjer nú ekki sagt neitt víst nema það, að Fóstbræðra saga virðist ekki beinlínis hafa notað Landnámu, og Landnámu-handritin ekki Fóstbræðra sögu. Ljósvetninga saga hefir í 32. k. allgreinilega frásögn um víg Þorgeirs Hávarssonar, enn hún er mjög ólík frásögn Fóstbræðra sögu, og er þar bersínilega ekkert samband á milli. Eftir Ljósvetninga sögu gerist þetta í Hrútafirði (í Hraunshöfn á Melrakkasljettu, Fóstbræðra s.), og Þorgríms tröllа er ekki getið við sjálft vígið í Ljósvetninga sögu, enn síðar er þó sagt, að Þormóðr hafi farið til Grænlands að drepa Þorgrím í hefnd eftir Þorgeir. Ljósvetninga saga filgir auðsjáanlega alt annari munnmælasögu enn Fóstbræðra saga. Hvorug sagan hefur þekt hina.

Hin eina fótfesta, sem vjer höfum til að ákveða ald-

ur sögunnar, er þá sögn hennar um skálaþiljurnar á Reikjahólum. Eftir henni er hún samin ekki fir enn 1216; af því að sagan segir „þau þili heldust“ (þátíð), ekki „haldast“ (nútíð), verður aldurstakmarkið niður á við nokkuð óákveðið, og getur þetta, og þarmeð sagan, verið skrifuð nokkru, enn ekki löngu, eftir dauða Magnúss biskups (1236). Sagan virðist því vera til orðin hjer um bil á árunum 1220—1250.

Orðfærið á þeim kafla sögunnar, sem geimst hefur í Hb., kemur vel heim við þessa niðurstöðu, því að það er ekki tiltökumál, þó að á stöku stað sje nílegri blær á málinu en svarar tímanum 1220—1250, þar sem Hb. er ekki rituð fir enn snemma á 14. öld. Stöku sinnum kemur það firir, að Flat. hefur varðveitt eldri leshætti, t. d. hefur hún hið fornlega *búimanna* (= gesta, aðkomandi manna) II 208², þar sem Hb. hefur aðeins *manna.*[1]) Hins vegar hefur bæði M og Flat. hinar klerklegu klausur, sem jeg áður hef getið um, og má ekki taka tillit til þeirra, þegar dæmt er um aldur frumsögunnar. Þeim er bersínilega síðar bætt við af klerki, sem fjallað hefur um söguna; líklega eru þær ekki eldri enn frá lokum 13. aldar, því að málið á þeim hefur á sjer ingri blæ. Klerkur sá, sem hefur bætt þeim við, hefur þó verið ritfær maður, því að víða eru þær mjög einkennilegar og findnar. Þess má til geta, að þær sjeu samdar af þeim manni, sem first fljettaði Fóstbræðra sögu inn í Ólafs sögu helga; því til sönnunar er það, að þær finnast aðeins í M og Flat., enn áður er sínt, að sú gerð, sem stendur í M, hefur frá upphafi verið partur af Ólafs sögu, og í Flat. er sagan beint þáttur í Ólafssögunni.

Uppistaða sögunnar er bláþráðalaus og vel ofin. Á tveim stöðum koma þó firir þættir, sem lítið eða ekkert koma við efni sögunnar.

Annar þeirra er þátturinn um Helga hinn hvíta, sem Hvítsstaðir á Mírum eru við kendir, son Hækils-Snorra. Hann stendur ekki í neinu öðru sambandi við söguna

1) Sbr. Ark. f. n. filol. XXXI, bls. 79.

enn því, að faðir Helga er veginn af Þorgeiri. Þetta tilefni notar sagan til að skjóta inn þættinum, sem segir frá deilu þeirra Helga og Þorsteins Egilssonar Skallagrímssonar um Gufufitjar.[1]) Það er bágt að koma þessari sögu heim við Bjarnar sögu Hitdælakappa, að því er tímatal snertir, og hefur Guðbrandur Vigfússon bent á það.[2]) Eftir Fóstbræðra sögu gerist víg Hækils-Snorra eftir það, að Þorgeirr er orðinn hirðmaður Ólafs helga, eða 1014 í firsta lagi, því að þá kemur Ólafr til ríkis. Helgi hvíti er ungur, þegar faðir hans er veginn (M og Flat., ekki í Hb.). Hann bír eftir föður sinn á Hvítsstöðum (hjet áður á Mel). Ekki sjest á sögunni, hve langt leið frá vígi Snorra, þangað til þeir Þorsteinn deildu, mætti giska á svo sem 6 ár, og hefði deilan þá gerst um 1020. Enn eftir Bjarnar sögu Hitdælakappa virðist Þorsteinn hafa dáið firir c. 1007, því að um það leiti elst Björn Hitdælakappi upp hjá Skúla, sini Þorsteins, sem þá bír á Borg, enn Egils saga segir, að Skúli hafi búið þar eftir föður sinn látinn. Jeg skal láta ósagt, hvor sagan hefur rjettara firir sjer — það stendur ekki á miklu — enn að eins taka fram, að tímatalið í Bjarnar sögu Hitdælakappa virðist vera mjög á ringulreið og að þáttur Helga hvíta í Fóstbræðra sögu kemur als ekki í bága við Egils sögu, sem segir, að Þorsteinn Egilsson hafi orðið gamall maður. Guðbrandur Vigfússon heldur, að Þorsteinn sje fæddur um 950. Hefur hann þá verið sjötugur um 1020, og er ekkert því til firirstöðu, að hann hafi átt deilu við Helga á þeim aldri. Merkilegt er það, að Egils saga getur ekki einu orði um þessa deilu.

Hinn þátturinn, sem ekki kemur við efni Fóstbræðra sögu, er sagan um þá frændur og fóstbræður Eyjólf Þórdísarson í Ólafsdal og Þorgeir hófleysu, sem vóru mjög samrímdir á unga aldri, enn svo spáði kerling firir þeim, að þeir mundu verst skilja sitt vinfengi, og varð það að áhrínsorðum, því að þeir urðu hatursmenn og drápu

1) Fóstbrs. KG., 42.—43. bls. (M) og 66.—67. bls. (Hb.), Flat. II 156.—157. bls. (Óh. 118. k.). — 2) Safn I 467.

hvor annan. Saga þessi er fjarska svipuð sögunni, sem Glúma segir um þá frændur og fóstbræður Arngrím Þorgrímsson og Steinólf Arnórsson, sem Oddbjörg farandkona spáði, að mundu berast á banaspjót, og gekk það eftir, enn þó virðist hvor sagan óháð annari. Þátturinn stendur í því einu sambandi við efnið í Fóstbræðra sögu, að rjett áður enn þeir Eyjólfr og Þorgeirr hófleysa vega hvor annan, gerist sá firirburður, að bræðurnir Kálfr og Steinólfr sjá Þorgeir Hávarsson afturgenginn og menn þá, sem með honum vóru vegnir, ganga alblóðga að þeim stað, þar sem víg þeirra Eyjólfs og Þorgeirs hófleysu gerast síðan við Garpdalsá, og hverfa þar sínum.[1])

Báðir þessir þættir, um Helga hvíta og þá Eyjólf fóstbræður, standa í öllum handritum sögunnar, og sje jeg enga ástæðu til að útiloka þá úr frumsögunni eða skoða þá sem síðari iauka. Þess eru nóg dæmi fir og síðar í bókmentum Íslendinga, að þeim hættir til að gera „útúrdúra“ frá efni því, sem þeir fara með, ef þeim dettur í hug einhver fróðleikur, sem þeir vilja skíra lesendum sínum frá, og íslenskir höfundar eiga í þessu sammerkt við höfunda annara þjóða.

Af mannlísingum sögunnar ber mest á lísingum fóstbræðranna Þormóðs og Þorgeirs. Sagan filgir þeim frá upphafi til enda, í firri hlutanum meira Þorgeiri, þangað til hann er veginn, í síðari hlutanum Þormóði, og er þó sá partur sögunnar líka um Þorgeir, því að hann segir aðallega frá hefnd þeirri, sem Þormóðr tók eftir hann. Flestar aðrar persónur koma aðeins við lítinn kafla sögunnar, þeim bregður að eins firir í svip, og eru fljótt úr sögunni.

Þeim fóstbræðrum er snildarlega líst, og þó eru þeir mjög ólíkir. Í Þorgeiri kemst berserkseðlið á sitt hæsta stig. Hreisti hans er óviðjafnanleg og hugpríðin engu síður. Sagan segir frá því, að hann kunni ekki að hræð-

---

1) Fóstbrs. KG., 50. og 59.—60. bls. (Hb.); 71. og 78.—80. bls. (Flt. II 167).

ast, enn það kunnu þeir Þormóðr og Grettir, og söguhöfundurinn dáist sjerstaklega að honum firir þetta og virðist jafnvel að þessu leiti taka hann fram ifir Þormóð. Hann hefur ánægju af að segja frá hriðjuverkum Þorgeirs, sem lísa svo miklum ofstopa og vígamóði, að oss, sem nú lifum, blöskrar að lesa, Þorgeir elskar vígin sakir þeirra sjálfra, er altaf með vopnin á lofti, getur ekki stilt sig um að vega alsaklausa menn firir ekki aðra sök en þá, að þeir „stóðu vel til höggsins". Ofurkapp hans kemur einna ljósast fram í sögunni um það, þegar hann fer í metnað við fóstbróður sinn og spir hann, hvernig mundi fara, ef þeir reindu með sjer. Þormóðr, sem er tilfinningamaðr, þolir ekki þessa spurningu og segir sundur fjelag þeirra út af henni. Þorgeirr segist ekki hafa spurt í alvöru. Þormóðr svarar: „Í hug kom þér, meðan þú mæltir, ok munum vér skilja félagit." Í þessari spurningu Þorgeirs og undirtektum Þormóðs kemur fram snild höfundarins í mannlísingum, því að hvorttveggja er eins og talað út úr hjarta hvors um sig. Höfundurinn virðist hafa tekið þessa ágætu lísing upp hjá sjálfum sjer, því að í vísu þeirri eftir Þormóð, sem hann tilfærir, um ágreining þeirra fóstbræðra, er ekki sveigt að neinum metnaði frá Þorgeirs hálfu, heldur gefið í skin, að vondir menn hafi rægt þá hvorn við annan. Andlega ifirburði hefur Þorgeirr enga og engar ástríður nema að berjast og vega menn. Sagan tekur það t. d. beint fram, að hann hafi ekki verið kvennhollur, „sagði þat vera svívirðing síns krapts at hokra at konum."[1]) Hann hafi verið „óblíðr og óhýrr hversdaglega við alþýðu." Í stuttu máli: Þorgeirr er, eftir því sem sagan lísir honum, áflogakragi og ekkert meira. Og þessari lísingu er ágætlega haldið gegnum alla söguna.

Þormóðr er geðríkur og tilfinninganæmur, eins og skáldin eru oft, hefur opið auga og hjarta firir öllu fögru, ekki síst kvennlegri fegurð, mjög vel lísir sagan

1) Fóstbrs. KG., bls. 8: Flat. II, 95. bls. (Hb. glötuð).

ástaræfintírum hans; hann er ekki við eina fjöl feldur, elskar first Þórdísi, dóttur Grímu í Ögri, síðan Þorbjörgu kolbrúnu Kötludóttur í Arnardal og irkir um hana Kolbrúnarvísur, sem því miður eru glataðar; síðan endurnijar hann vinfengið við Þórdísi og snír Kolbrúnarvísum upp á hana, enn iðrast þess aftur og gerir bragarbót við Kolbrúnu. Í þessu lísir sjer eigi lítil ljettúð og óstöðugleiki, og er það ekki óeðlilegt af skáldi. Enn hins vegar elskar hann sverð sitt eigi síður enn kvennfólkið, hefur indi af æfintírum og glæfraferðum, sneiðir aldrei hjá hættum, sjest aldrei firir, tekur með ánægju þátt í svaðilförum Þorgeirs, svo lengi sem þeim semur. Og eitt er einkennilegt. Svo óstöðugur sem þessi maður er í ástamálum, svo stöðuglindur er hann í vináttu, triggur sem tröll við vini sína og altaf boðinn og búinn til að leggja alt í sölurnar firir þá. Hann gerir sjer ferð til Grænlands til að hefna fóstbróður síns. Sagan segir snildarlega frá öllum þeim æfintírum, sem hann rataði í á Grænlandi, og svo líkur, að hann vegur eigi að eins Þorgrím trölla, heldur og marga aðra í hefnd eftir Þorgeir. Náskild trigðinni og vinfestunni er drottinhollusta Þormóðs við Ólaf konung. Henni lísir sagan átakanlega í frásögninni um Stiklastaðabardaga og andlát Þormóðs. Hann er Ólafi konungi trúr til dauðans, vill ekki lifa eftir hann. Víða varpar höfundur með mikilli list blæ gletninnar ifir lísing Þormóðs, t. d. í frásögninni um víg Þorgríms trölla, sem má telja meðal þeirra sagna, sem best eru sagðar og snildarlegast í Íslendingasögum. Eða í sögunni um það, er Þormóðr skifti ifirhöfnum við Lúsa-Odda. Hálfkæringur kemur og fram í sögunni um bóndann, sem brá konungsmönnum um þrekleysi og Þormóðr særði til að sjá, hvort hann þildi betur sár sín enn þeir, sem hann var að niðra. Einkennilegt er það, hve mikill veruleika og sennileika blær er á lísingu Þormóðs. Höfundur gerir sjer ekkert far um að breiða ifir galla þá, sem eru í fari hans, eða fegra (idealisera) hann firir lesandanum. Og einmitt

þess vegna, af því að Þormóðr er sannur maður með mannlegum breiskleika, verður hann lesandanum því kærari og hugðnæmari. Lísing hans á þar sammerkt við lísing Þorgeirs, að báðar virðast vera teknar beint úr lífinu sjálfu.

Aðrar persónur, sem við söguna koma, eru aðeins dregnar upp með lauslegum dráttum, eins og eðlilegt er, af því að þær koma að eins snöggvast fram á sjónarsviðið. Sumar af þessum mannlísingum eru þó mjög einkennilegar, t. d. lísingin af Fífl-Agli eða grænlenska flækingnum Lúsa-Odda.

Um höfundinn vitum vjer lítið annað enn það, að hann hlítur að hafa verið gagnkunnugur um Vesturland frá Gilsfirði suður að Hvítá. Sjerstaklega er auðsjeð, að hann þekkir mjög vel til í Borgarfirði, veit t. d. að taka, að bærinn Hvítsstaðir hjet áður á Mel, og að „mannahúsin“ (bæjarhúsin) lágu áður „neðar í tungunni“, þangað til Helgi hvíti flutti þau þangað sem bærinn nú er. Sömuleiðis er leiðinni frá Reikhólum um Saurbæ (Mjósindi) og Dali suður í Borgarfjörð mjög kunnuglega líst, þar sem segir frá ferð Þorgeirs frá Reikhólum til skips í Norðurá. Sömuleiðis er hann kunnugur við Ísafjarðardjúp. Menn hafa fett fingur út í það, sem segir um Dyrðilmýri, þar sem Bersi faðir Þormóðs bjó first, af því að menn hafa haldið, að það væri sama og Tyrðilmýri á Snæfjallaströnd firir norðan djúpið, enn það nær engri átt, því að bær Bersa liggur eftir sögunni skamt frá Vatnsfirði og skamt frá Jöklakeldu, bæ Þorgeirs í Mjóafirði. Þar sem höfundurinn annars sínir kunnugleika um þessar slóðir, er líklegast, að bæjarnafnið sje nú glatað. Norður í Jökulfjörðum virðist hann ekki hafa verið eins kunnugur, því að hann segir, að Sigrfljóð hafi búið hinumegin við fjörðinn, sem Sviðinsstaðir (nú Sviðningsstaðir) standa við, gegnt Sviðinsstöðum, enn tilgreinir hvorki nafn bæjarins, líklega Eyri, nje fjarðarins (Hrafnsfjörður). Á Hornströndum talar höfundur um Almenningar og Horn, enn greinir

annars ekki örnefni (nema Þorgeirstó í Flat. í hvannnjólasögunni — vafasamt örnefni, þekkist ekki nú) og hefur því líklega ekki þekt vel til þar nirðra.

Af því að báðir þeir fóstbræður standa í nánu sambandi við Ólaf helga, gat ekki hjá því farið, að sagnirnar um þá, einkum þó Þormóð, drægi nokkurn dám af helgisögum. Af því verður það ekki leitt með neinni vissu, að höfundur hafi verið klerkur. Hitt er ljóst, að þær klerklegu klausur, sem standa í M og Flat., stafa frá klerki. Enn Hb. er laus við slíkt, eins og jeg áður hef sagt. Að eins á tveim stöðum bregður firir orðalagi, sem er óvanalegt í íslenzkum sögum. Firri staðurinn er lísingin á druknun Falgeirs[1]): „skýtr þá upp þjónum ok herðunum ok við andlátit skaut upp andlitinu; var þá opinn munnrinn ok augun, ok var því líkast at sjá í andlitit sem þá er maðr glottir at einhverju.“ Enn þessi lísing er beint tekin eftir vísu Þormóðs um þennan atburð og er því eflaust upphafleg í sögunni. Hinn staðurinn er þar sem Gríma afsakar það, að hún hafi Þór merktan á stólsbrúðum sínum, með því að hún hafi það til að minna sig á, hversu miklu meiri guð kristinna manna sje heldur enn Þórr, því að líkneski hans megi hún brenna í eldi, ef hún vilji.[2]) Sagan sjálf gefur tilefni til þessarar afsökunar. Höfundurinn var neiddur til að finna einhverja afsökun firir Grímu. Getur vel verið, að klerkur hafi skrifað þetta, enn víst er það als ekki. Jeg læt það því liggja á milli hluta, hvort höfundur frumsögunnar hefur verið klerkur eða leikmaður.

Sagan tilfærir margar vísur eftir Þormóð, sjerstaklega úr erfidrápu þeirri, sem Þormóðr orti eftir Þorgeir fóstbróður sinn. Um þessa erfidrápu hefur orðið deila milli Guðbrands Vigfússonar og Finns Jónssonar. Finnur Jónsson hjelt því fram, að brot þau af drápunni, sem geimst hafa í Fóstbræðra sögu, væri rjett feðruð, enn Guðbrandur Vigfússon heldur því fram í Origines Islandicae II, að vísurnar ættu ekkert skilt við

1) Fóstbrs. KG., 94. bls. — 2) Fóstbrs. KG., 99. bls.

Þormóð, heldur væri seint ortar. Helsta ástæða hans firir þessu er það, að í einni af þessum vísum er sagt, að Þorgeirr hafi gengið á skip *„með Rögnvaldi“* og herjað með honum.[1])

Sagan segir, að þessi Rögnvaldr, sem vísan nefnir, sje Rögnvaldr Brúsason, og lætur Þorgeir í einni utanferð sinni koma við í Orkneijum og ráðast í lið með Rögnvaldi. Guðbrandur Vigfússon bendir á það, sem er alveg rjett, að um þessar mundir — líkl. um 1020 — var Rögnvaldr barn að aldri. Vjer vitum af Ólafs sögu helga og Orkneyinga sögu, að Rögnvaldr varð eftir hjá Ólafi helga 1021 í gíslingu firir trúnaði föður síns, Brúsa jarls, við konung, og er hann þá sagður 10 vetra. Af þessari mótsögn við rjett tímatal áliktar Guðbrandur Vigfússon, að vísan, sem talar um hernað Þorgeirs *„með Rögnvaldi“*, hljóti að vera rangfeðruð og ort löngu síðar, og sama hljóti þá líka að ganga ifir allar hinar vísurnar um Þorgeir, sem sagan eignar Þormóði, þær sjeu allar seinni tíma tilbúningur. Við þessa röksemdaleiðslu Guðbrands Vigfússonar er það að athuga, að vísa sú, sem hjer er um að ræða, segir aðeins, að Þorgeirr hafi herjað *„með Rögnvaldi“*, enn greinir als ekki nánar, hvaða Rögnvaldr þetta hafi verið. Það er *sagan*, sem segir, að hjer sje átt við Rögnvald Brúsason, og það er bersínilega misskilningur söguhöfundarins. Eftir vísunni getur þetta verið hvaða Rögnvaldr sem vera vill, ef hann aðeins er uppi sem fulltíða maður um 1020, enn líklegt er þó, þar sem hann er nefndur eintómur Rögnvaldr, að hjer sje um einhvern nafnkendan höfðingja að ræða með Rögnvalds nafni. Og sá maður

1) Njörðr gekk á skæ skorðu
skeljeggr (enn þann teljum
hjaldr) es herja vildi
hjörgaldrs með Rögnvaldi.
Litt sparði fjör fyrða
fremdar mildr at hildi
— drengs var dáð at lengri —
djarfra Hávars arfi.

er til. Það er Rögnvaldr jarl á Vestrgautlandi, Úlfsson. Vjer vitum, að Ingigerðr, dóttir Ólafs Svíakonungs, tók Rögnvald jarl með sjer austur í Garðaríki, þegar hún giftist Jarisleifi Garðakonungi árið 1019 og áskildi honum þar jarlsríki til forráða. Hefur hann líklega um 1020 verið landvarnarmaður Garðakonungs, og er mjög líklegt, að Þorgeirr hafi farið þangað austur til hans og ráðist í lið með honum. Ástæður Guðbrands Vigfússonar firir því, að *vísan* sje rangfeðruð, eru því einskis virði. Hitt var mjög eðlilegt, að höfundur Fóstbræðra sögu viltist á Rögnvöldunum af vanþekkingu eða í ógáti, og hefir það haft þær afleiðingar, að hann lætur Þorgeir dvelja um hríð í Orkneijum, sem líklega er að eins tilbúningur hans, sprottinn af röngum skilningi vísunnar. Mjer virðast allar þær vísur sögunnar, sem heimfæra má til erfidrápunnar, bera þess merki, að þær sjeu rjett eignaðar Þormóði, og skal jeg sjerstaklega taka fram hina ágætu vísu Þormóðar um missætti þeirra Þorgeirs, þar sem hann segir svo fagurlega, að hann vilji einskis minnast „nema okkars góða“.[1])

Vísan er að nokkru leiti í mótsögn við söguna sjálfa um tilefnið til ágreinings fóstbræðranna, eins og jeg áður hef tekið fram, og er það sterk sönnun firir því, að hún sje eldri enn sagan og rjett eignuð Þormóði. Það er mjög fróðlegt að bera þessi brot af erfidrápunni saman við söguna sjálfa. Öll saga Þorgeirs er að miklu leiti nokkurs konar umgjörð um erfidrápuvísurnar, sem mega teljast með helstu heimildum söguhöfundarins, þó að hann hafi auðvitað meðfram stuðst við munnmælasögur, og vísurnar sína, að saga Þorgeirs er að flestu leiti

1) Frétt hefr öld at áttum
(undlinns) þá er svik vinna
(rjóðanda nautk ráða)
rógsmenn saman gnóga.
Enn vilk einskis minnast
(æsidýrs við stýri
raun gatk fyrða fjóna
flóðs) nema okkars góða.

sönn og áreiðanleg. Vísur þær, sem Þormóðr kveður kringum Stiklastaðabardaga, koma flestar heim við sömu vísur, sem geimst hafa í Ólafs sögu helga, þó svo, að missagnir eru um, hvaða vísuhelmingar eigi saman, og stöku vísa stendur í Fóstbræðra sögu, sem vantar í Ólafs sögu, og þvert á móti. Þetta sínir, að Fóstbræðra saga og Ólafs saga helga eru hvor annari óháðar. Þessar vísur virðast því sömuleiðis allar rjettfeðraðar. Meiri vafi finst mjer leika á þeim vísum, sem sagan eignar Þormóði um framgöngu hans á Grænlandi. Sumar af þeim að minsta kosti virðast mjer bera seinni tíma blæ.

Að öllu samtöldu má telja Fóstbræðra sögu með hinum merkari og best sögðu Íslendinga sögum. Hún varpar ljósi ifir mart í lífi feðra vorra, ekki síst fóstbræðralagið. Höfundur hefur haft indi af fornum fróðleik um siðu feðranna. Það sjest t. d. á athugasemd hans í 3. kap. um það, að sverð hafi verið ótíð mönnum til vopnabúnings á dögum fóstbræðra, enn spjót og axir mest tíðkaðar.

Jeg tók það fram áður, að sögur vorar væru ekki enn rannsakaðar nándar nærri til hlítar, og að enn vantaði tilfinnanlega sjerstakar rannsóknir (monografíur) um einstakar sögur. Úr þessu hef jeg viljað reina að bæta nokkuð í þessum firirlestrum, og það verður að vera mjer til afsökunar, að jeg skuli hafa þreitt iður, heiðruðu áheirendur, á svo löngu máli um Fóstbræðra sögu. Það er mín skoðun, að menn læri meira á því að rannsaka nákvæmlega einstök rit, einkum hin merkari, og gera sjer ljóst til nokkurrar hlítar, hvað af þeim má læra um mentalíf feðra vorra, enn á hinu, að drepa lauslega á mart og kafa hvergi til botns. Ef jeg gæti með þessum firirlestrum vísað einhverjum af áheirendum mínum veg til slikra rannsókna, bent þeim á hina rjettu aðferð (methode), sem þar verður að filgja, vakið þá til að lesa með athigli sögur vorar, vega þær og meta, þá væri starf mitt margfaldlega launað.

## Þáttr af Hrómundi halta

hefur geimst í Flateijarbók[1]), og er þar skotið inn í Ólafs sögu Tryggvasonar, og er þar ekkert samband á milli annað enn það, að Hallsteinn sonur Hrómundar fer að lokum utan og gengur á hönd Ólafi konungi, berst með honum á Orminum langa og fellur þar við góðan orðstír. Það er auðsjeð, að þátturinn á frá upphafi als ekki heima í Ólafssögunni, heldur hefur verið sjerstök lítil saga. Það sjest og á því, að Landnáma hefur tekið upp útdrátt úr sömu sögunni, sem stendur bæði í Sturlubók—Hauksbók og í Melabók ingri. Þetta sínir líka, að sagan er tiltölulega gömul. Eins og jeg hef áður sínt, er sú Landnámugerð, sem liggur til grundvallar firir Sturlubók og Hauksbók, til orðin um 1230. Þá hefur þátturinn verið til sem sjerstök saga, og frá þeirri sögu er kinjaður hinn stutti útdráttur í Landnámu og þátturinn í Flateijarbók. Sagan virðist því vera samin á firsta fjórðungi 13. aldar.

Hún gerist öll á Íslandi. Hrómundr er borinn og barnfæddur norður í Húnavatnsþingi, sonur Eyvindar sörkvis, ástvinar Ingimundar gamla. Segir þátturinn, að Eyvindr hafi getið hann í elli við ambátt sinni. Frá uppvexti Hrómundar í Húnavatnsþingi segir þátturinn ekki annað enn það, að hann hafi gengið að eiga Auðbjörgu dóttur Más Jörundarsonar háls, og að Auðbjörg væri ambáttar dóttir, og drepur lauslega á það, að Hrómundr hafi verið með Mávi tengdaföður sínum, er hann barðist við Ingimundarsonu um *Deildarhjalla*, og vegið í þeirri orustu Högna Ingimundarson, enn orðið sár á

1) Flat I, 409.—414. bls.

fæti, svo hann bar þess jafnan menjar og var kallaður Hrómundr halti. Vatnsdæla greinir frá deilum þeirra Más og Ingimundarsona, enn kallar landið, sem deilan var um, *Hjallaland* (ekki Deildarhjalla eins og þátturinn bæði í Flateijarbók og Landnámu), segir Vatnsdæla mjög ítarlega frá orustunni og greinir meðal annars, að það var Jökull Ingimundarson, sem særði Hrómund; hún getur og þess, að Hrómundr var son Eyvindar sörkvis og átti dóttur Más. Enn þó að frásögnin um orustuna sje svona ítarleg í samanburði við Hrómundar þátt, þá greinir þó þátturinn sumt framar, t. d. að Hrómundr hafi verið ambáttar son og kona hans Auðbjörg ambáttar dóttir. Um þetta hvorugt er getið í Vatnsdælu, og ekki heldur er kona Hrómundar þar nefnd á nafn. Þetta og missögnin um nafn deilulandsins bendir til, að þátturinn og Vatnsdæla sjeu hvort öðru óháð.

Bæði Vatnsdæla og þátturinn segir frá því, að Hrómundr hafi verið gerður hjeraðssekur firir víg Högna milli Jökulsár í Skagafirði (Hjeraðsvatna) og Hrútafjarðarár. Upp frá því segir Vatnsdæla ekki meira frá Hrómundi, enn þátturinn heldur sögunni áfram. Hrómundr kaupir sjer land að Fagrabrekku í Hrútafirði og setst þar að, og birjar nú aðalefni þáttarins, enn það er að segja frá deilum Hrómundar og sona hans við Sleitu-Helga og hans fjelaga, norska kaupmenn, mestu ifirgangsmenn og víkinga. Þeir feðgar stefna þeim Sleitu-Helga um hrossastuld. Í hefndarskini gera víkingarnir 12 saman atför að þeim feðgum á Fagrabrekku og komast inn í virki, sem er um bæinn. Enn Hrómundr og sinir hans 2, Þorbjörn þyna (þynna? — svo Hauksbók) og Hallsteinn, og Þorleifr Hrómundarfóstri, sonur Þorbjarnar, verjast hraustlega, þó að þeir sjeu ekki fleiri firir enn fjórir, og svo líkur, að þeir reka víkingana af höndum sjer og drepa af þeim 7 menn, enn þá stendur þó ekki uppi nema Hallsteinn einn, enn þeir Hrómundr og Þorbjörn eru fallnir og Þorleifr óvígur. Þorleifr er síðan græddur, enn Hallsteinn fer utan og fellur á Orminum langa með Ólafi Tryggvasini.

Ef vjer berum saman þáttinn í Flateijarbók við útdráttinn í Landnámu, þá sjest, að efnið er alveg sama. Þó er ein lítil missögn. Eftir Flateijarbók er það Sleitu-Helgi, sem vegur Þorbjörn þynu með því að skjóta spjóti til hans, enn Þorbjörn tekur sjálfur spjótið úr sárinu og skítur því í flokk Austmanna, og kom á Jörund, bróður Helga, og bíður hann bana af. Eftir Landnámu var það Jörundr,[1] sem skaut atgeiri gegnum Þorbjörn, Þorbjörn tekur atgeirinn úr sárinu og setur hann milli herða Jörundi, svo að út kom um brjóstið. Verið getur, að Landnáma hafi hjer geimt eldri texta enn Flateijarbók, enn missögnin er mjög óveruleg. Útdrátturinn í Landnámu er mjög stuttur, tekur að eins fram helstu viðburði, enn lísir þeim ekki nánar einsog þátturinn í Flateijarbók. Samt er Landnámuþátturinn að einu leiti fillri enn Flateijarbók. Sögunni hafa filgt frá upphafi vísur þær, sem þeir Hrómundr feðgar ortu við þetta tækifæri. Landnáma hefur als 11 vísur — þar af standa þó aðeins 7 hinar firstu í Hb. — enn Flateijarbók hefur aðeins 3 hinar firstu, sleppir hinum átta. Ein missögn er um vísurnar. Flateijarbók eignar Hrómundi aðra vísuna (Hlakkar hagli stokkinn), enn Landnáma eignar hana Þorbirni þynu, sem eflaust er frumlegra. Það er enginn efi á, að allar vísurnar eru upphaflega í sögunni og að Flat.-þátturinn gerir sig hjer sekan í úrfellingu. Það kemur oftar firir, að Flateijarbók sleppir vísum úr þeim sögum, sem hún notar, t. d. í Fóstbræðraþættinum, sem jeg benti á við Fóstbræðra sögu. Vísurnar eru eflaust allar rjett feðraðar í Landnámu. Þær bera öll merki þess, að þær sjeu gamlar og góðar, þó að sumar sjeu nokkuð afbakaðar. Þær hafa frá upphafi verið ein hin helsta príði sögunnar, og virðist hún í firstu vera samin til að vera umgjörð utan um vísurnar.

Allar líkur eru til, að Flateijarbók hafi geimt hina gömlu sögu nokkurn veginn óbreitta, þó að orðfærið sje

1) Svo Hb. og Mb. i.; Stb. greinir ekki, hver skaut Þorbjörn með atgeirnum.

á stöku stað klætt í níjari tíma búning, t. d. þar sem sagt er frá tilhugalífi Sleitu-Helga og Helgu Þórisdóttur með svo feldum orðum: „Ok er þeir (Austmennirnir) höfðu verit þar (á Mel hjá Þóri föður Helgu) um hríð, þá bar oft saman fundi þeira stýrimanns ok bóndadóttur, ok reittist á um tal ok kossa ok kneikingar með alvöru ok blíðu, ok fylgdi framkvæmd byrgiskapar.“ Þetta er klerkamál, enn ekki sögumál, og er líklegt, að það stafi frá klerki þeim, sem skaut sögunni inn í Ólafssöguna.

Persónur sögunnar eru sjálfum sjer samkvæmar, það sem sagan nær, enn um verulegar persónulísingar getur varla verið að ræða í svo stuttri sögu. Sagan bregður upp sannri mind úr lífinu á 10. öld.

## Heiðarvíga saga.

First er að skíra frá, hvernig sagan hefur geimst til vorra daga. Það er nógu skrítin saga og gott dæmi þess, sem rómverska skáldið segir, að „bækur hafa sín örlög“ — *habent sua fata libelli.*

Á dögum Páls Vídalíns, á öndverðri 18. öld, er svo að sjá sem menn hafi ekki þekt eða átt neitt handrit af Heiðarvíga sögu á Íslandi, og ekki hafði Árni Magnússon getað komist ifir eða spurt uppi neitt handrit af henni á ferðum sínum um landið. Enn Árni hafði um 1691 komist á snoðir um, að til væri handrit af sögunni í Stokkhólmi, og lagt drögur firir að fá það lánað til Kaupmannahafnar. Samt dróst það, að hann fengi handritið, þangað til 1725. Þá vóru honum send frá Stokkhólmi 12 skinnblöð í 2 heftum, 8 í öðru, enn 4 í hinu, og var þar á brot af Heiðarvíga sögu. Skinnblöð þessi lágu hjá Árna til áramótanna 1727—1728. Þá lét hann Jón Ólafsson frá Grunnavík taka eftirrit af þeim. Enn svo illa fór, að bæði afskriftin og frumritið brann í brunanum mikla 1728 ásamt mörgum fleiri bókum, er Árni átti. Nú hugðu menn, að sagan væri algjörlega tínd og tröllum gefin, og því reindi Jón að rifja upp fyrir sjer efnið í brotinu, sem hann hafði skrifað eftir, og færði alt það, sem hann mundi, í letur árið eftir brunann (1729) og jók við ári síðar (1730) nokkrum athugasemdum frá sjálfum sjer. Var honum það til mikils stuðnings, að hann hafði ritað hjá sjer ímsa talshætti og einstakar málsgreinir úr sögunni, er honum þóttu merkilegir, og það hafði ekki brunnið. Það sem vjer vitum um efnið í þessum kafla sögunnar, eigum vjer alt Jóni að þakka.

Nú liðu svo rúm 40 ár, að menn vissu ekki meira um Heiðarvíga sögu enn þetta. Þá vildi svo til árið 1772, að Hannes Finnsson, er síðar var biskup, var á ferð í Stokkhólmi. Hann rakst þá á brot úr Heiðarvíga sögu í bókhlöðu konungs nr. 18, 4to, og sá brátt, að þetta handrit tók við, þar sem útdráttur Jóns Ólafssonar endaði, og var framhald af þeim parti handritsins, sem brunnið hafði í vörslum Árna Magnússonar, og náði til enda sögunnar, enn því miður vantaði inn í brotið á einum stað. ... Það hafði þá orðið þessum síðari kafla Heiðarvíga sögu til lífs, að Svíar höfðu í nokkurs konar ógáti sent Árna Magnússini að eins 12 skinnblöð, sem firsti kaflinn var á, framan af handritinu, enn skilið eftir síðari kaflann, sem var áfastur við sögur þær, er á eftir fóru.

Handritið 18, 4to, í bókhlöðu konungs í Stokkhólmi er eitt af þeim handritum, sem Jón Eggertsson flutti til Stokkhólms 1682—3; hafði fornfræðaskjalasafnið sænska hann þá í sinni þjónustu og ljet hann safna handritum á Íslandi. Svíar lögðu þá mikla stund á að safna íslenskum handritum. Eins og handritið er nú, er það 54 blöð, sem skiftast á 7 „kver“ („legg“). Er þar first brot af Heiðarvíga sögu á einu 8 blaða kveri og 3½ blaði af næsta (nú 2.) kveri. Þá tekur við Gunnlaugs saga ormstungu, þá er stutt ævintíri skrifað sem blaðsíðufillir, þar sem Gunnlaugs saga endar. Þá tekur við Hrólfs saga Gautrekssonar og loks Ólafs saga Tryggvasonar eftir Odd munk. Enn þegar handritið first kom til Stokkhólms, var það 12 blöðum lengra, sem skiftust á 2 kver (8 blöð í firra kverinu, 4 í því síðara). Á þessum blöðum, sem tíndust í vörslum Árna, var firri hluti Heiðarvíga sögu, sem Jón Ólafsson gerði útdráttinn úr, og sjest á efninu, að handritið, sem til er í Stokkhólmi, tekur við og heldur áfram sögunni, þar sem útdráttur Jóns endar, og að þar hefur ekkert fallið úr á milli. Enn aftur á móti hefur vantað framan við söguna, því að útdráttur Jóns birjar í miðju kafi. Þess er og getið í handritaskrá frá 1693, að þá vantaði framan við Heið-

arvíga sögu, og er líklegt, að svo hafi verið, þegar Jón Eggertsson kom með handritið til Svíþjóðar 1682—3. Sömuleiðis vantar nú eitt blað í Heiðarvíga sögu aftan til, og hefur það líklega verið glatað, þegar handritið kom til Svíþjóðar. Samt hefur handritið þá verið með hinum stærri íslensku handritum, þar sem í því vóru als 66 blöð, sem skiftust í 9 kver.

Samt verðum vjer að fara enn þá miklu lengra aftur í tímann til þess að rekja til hlítar það, sem vjer vitum um æfisögu þessarar merkilegu skinnbókar. Það sem geimst hefur af handritinu í Stokkhólmi, ber það með sjer, að á því eru ekki færri enn 7 rithandir, og bæði handarlag og stafsetning ber þess vitni, að handirnar eru mjög misgamlar. Elst er áttablaðakverið firsta af Heiðarvíga sögu, skrifað ekki síðar enn um 1250, og er það því ásamt litlu broti af Egilssöguhandriti elsta skinnbrot, sem til er af nokkurri Íslendingasögu. Framhald Heiðarvíga sögu eða niðurlagið í 2. kveri og Gunnlaugs saga, sem tekur við af henni í sama kveri og endar í 3. kveri á næstöftustu blaðsíðu, er með 3 höndum, sem allar eru samtíða og virðast vera frá síðari helmingi 14. aldar. Hjer í 2. kveri er eiðan í Heiðarvíga sögu, sem jeg áður gat um — hefur glatast 2. blað kversins. Blaðsíðufillirinn á síðustu bls. 3. kvers (æfintírið) er ritað um 1400 og Hrólfs saga Gautrekssonar (4. kver) litlu síðar, enn Ólafs saga Tryggvasonar (5.—7. kver) er aftur með eldri hendi frá því um 1300.

Þjer sjáið þá, að handritið, eins og það er nú, er næsta mislitt. Og enn þá mislitara hefur það þó verið, áður enn firstu 2 kverin, sem Jón Ólafsson afskrifaði, glötuðust hjá Árna, því að Kålund hefur leitt sterk rök að því, að þau hafi ekki verið með sömu gömlu hendinni (frá ca. 1250), sem hefur skrifað firsta kverið, heldur með sömu hendi (eða höndum), sem eru á niðurlagi sögunnar í 2. kveri og á Gunnlaugs sögu og stafar frá síðara helmingi 14. aldar.

Saga handritsins verður þá í stuttu máli þessi. Um 1250 skrifaði ókunnur íslenskur maður upp Heiðarvíga

sögu eftir eldra handriti. Rúmri öld síðar, á seinni helmingi 14. aldar, virðist þetta handrit hafa verið orðið skemt af einhverjum ástæðum bæði að framan og aftan, og kemst það þá í hendur mans, sem gjarnan vill eiga heilt og óskemt eintak af allri sögunni. Hann tekur þá út úr gamla handritinu eitt hver, sem var nokkurn veginn óskemt — það er 8 blaða kverið, sem enn er geimt í Stokkhólmi. Á 14. og 15. bls. þessa kvers hefur hann skírt upp eina línu neðst á hvorri síðu um sig, sem hafa verið orðnar máðar, og bendir það til skemda á handritinu. Síðan afskrifar hann eða lætur afskrifa söguna frá upphafi aftur að þar sem gamla kverið tekur við og sömuleiðis niðurlag hennar frá þeim stað, þar sem gamla kverið þraut, og eikur svo aftan við þetta Gunnlaugs sögu ormstungu. Þetta alt heftir hann saman, og á þá heilt og gott handrit af Heiðarvíga sögu og Gunnlaugs sögu. Alt bendir til, að handritið hafi ekki verið lengra, þegar þessi maður skildi við það, og var þá aftasta blaðsíðan auð, næst á eftir niðurlagi Gunnlaugs sögu. Þessa eiðu fillir svo einhver nokkru síðar (um 1400) með æfintírinu. Svo líða nokkur ár. Þá, um 1425(?), lætur nír eigandi þessa handrits afskrifa Hrólfs sögu Gautrekssonar og festa hana aftan við handritið ásamt eldra handriti, sem hann átti, af sögu Ólafs Tryggvasonar eftir Odd munk. Upp frá þeim tíma vitum vjer ekkert um forlög handritsins fir en Jón Eggertsson kemur með það til Svíþjóðar árið 1682—3. Þá hefur verið glatað framan af því upphaf Heiðarvíga sögu og ef til vill meira, því að vel getur verið, að ein eða fleiri sögur hafi staðið firir framan Heiðarvíga sögu í handritinu, meðan það var heilt. Sömuleiðis hefur þá verið glatað það blað úr Heiðarvíga sögu, sem nú vantar í 2. kveri.

— — —

Jeg sní mjer þá að sögunni sjálfri. Dómur vor um hana fer að nokkru leiti eftir því, hvort vjer megum treista efnisifirliti Jóns Ólafssonar ifir hinn glataða firri hluta sögunnar, og munum vjer því first drepa lauslega

á þá spurningu. ... Koma first til greina orð Jóns Ólafssonar sjálfs um það efni í dálitlum formála, sem hann hefur sett framan við „inntakið". Hann segir svo:

„... Það sem undan gekk berserkjadrápinu og þar til, er Þórhalli komst í sakir við Styr, man jeg eigi glöggvara en hjer er sett. Af historíunni um víg Styrs, atrekandanum til þess og hefndunum eftir hann, er án efa engu gleimt, því er í membrana stóð, og eigi fjarri því niður raðað efninu, enn hversu Heiðarvígin hnittust þar við, var so eður mjög líkt því, sem hjer greinir. Um nöfn þeirra manna, sem lítið koma við söguna, hef jeg um getið, hvar jeg man þau ei glögt. So og um bæjanöfn. Var mjer ei auðvelt þau að muna, því jeg hef hvergi verið í Eirarsveit nje þar í Borgarfirði, sem sagan mest um getur, og eru þær sveitir so að segja mjer als ókunnar. Jeg las og eigi membranam oftar ifir enn í því eina sinni, er jeg skrifaði hana upp, og er nú síðan heilt ár og nokkrir mánuðir. Var mjer þá annara að lesa hana rjett enn setja ríkt á mig sögunnar efni. ... Þetta hef jeg helst þar firir uppteiknað, að menn nærri lagi viti, hvað mikið þetta fragment innihjelt og hvílíkt innihaldið hafi verið, þeim til vilja, er það eigi forsmá, heldur vel virða, hvers jeg vænti.

Þeirra þjenustuviljugur vin
Jón Ólafsson."

Þessi ifirlísing Jóns ber öll einkenni sannleikans og hreinskilninnar. Jón var sómamaður hinn mesti, og vjer höfum enga ástæðu til að vefengja orð hans, enda kemst Kr. Kålund að þeirri niðurstöðu, þar sem hann rannsakar þetta mál í formálanum firir útgáfu sinni, að „inntak" Jóns sje svo áreiðanlegt sem framast má við búast eftir atvikum, þar sem það er skrifað meira enn ári eftir það, að Jón afritaði sögubrotið, og Kålund bendir sjerstaklega á íms atriði í þeim hluta sögunnar, sem enn er til í Stokkhólmi, er staðfesta sögn Jóns. Jeg get ifirleitt vísað til þess, sem Kålund segir, enn skal þó reina að skíra þetta mál dálítið frá mínu sjónarmiði.

Jón segir sjálfur, að hann treysti síst minni sínu

um firsta kaflann aftur að berserkjadrápinu, enn telur víst, að hann muni ekki hafa gleimt neinu verulegu af því, sem stóð í skinnbókinni um aðdragandann að vígi Styrs, vígið sjálft og hefndirnar firir það, aftur á móti fullirðir hann ekki eins sterklega, að hann hafi munað rjett síðasta kaflann, sem segir frá, hvernig saga Styrs hníttist við Heiðarvígin, segir, að það hafi verið „svo eða mjög líkt því, sem hjer greinir.“ Vjer verðum að taka þetta trúanlegt. Engum er betur treistandi enn Jóni sjálfum til að bera um, hve langt eða skamt minni hans náði.

Í firsta kaflanum, sem Jón vill síst ábirgjast, geng jeg fram hjá upphafinu um hið firsta víg, sem Styrr vó, því að þar er ekkert til stuðnings nema 2 greinar, sem Jón hefur skrifað hjá sjer orðrjettar eftir skinnbókinni. Í berserkjaþættinum, sem líka heirir til þessum kafla, má sanna, að Jón hefur haft Eyrbyggju til hliðsjónar. Hann vísar víða til Eyrbyggju neðanmáls í „inntaki“ sínu og tekur fram, hvar Eyrbyggja komi ekki heim við það, sem stóð í Heiðarvíga sögu, og á einum stað, þar sem hann tilfærir vísu Leiknis berserks til Ásdísar Styrsdóttur, segist hann beinlínis taka vísuna eftir Eyrbyggju, sem annars eignar Halla þessa vísu, og vjer getum meira að segja sagt eftir hvaða Eyrbyggju-handriti Jón hefur skrifað þessa vísu. Það er afskrift Ásgeirs Jónssonar af Vatnshyrnu, sem geimd er í Árnasafni Nr. 448, 4to, og eru vísurnar þar með hendi Árna Magnússonar sjálfs, skrifaðar eftir skinnbókinni, sem þá var enn óbrunnin í safni Resens, enn þegar Jón skrifaði „inntakið“, hafði Vatnshyrna glatast í sama brunanum og Heiðarvígasögubrotið. Afskrift Jóns af vísunni kemur nákvæmlega heim við 448, 4to, og má af því ráða, að hann hefur haft það Eyrbyggju-handrit firir framan sig til hliðsjónar, þegar hann rifjaði upp firir sjer berserkjaþátt Heiðarvíga sögu. Einmitt þetta mun vera aðalástæðan til þess, að Jón þorði ekki að treista til hlítar minni sínu í þessum kafla. Frásögn Eyrbyggju gat beint orðið til að rugla firir Jóni,

þegar hann reindi að rifja upp efnið í Heiðarvíga sögu, því að hætt var við, að hann blandaði saman sögunum, með því að efnið var líkt. Vjer getum því búist við, að mart sje líkt frásögu Eyrbyggju hjá Jóni, enda er það svo einkum í lísing hinna smávægilegri atvika t. d. í samtali Vermundar og Hákonar jarls, þegar jarlinn lætur loks tilleiðast að gefa honum berserkina o. fl., og er ekki ólíklegt, að frásögn Jóns hafi á slíkum stöðum dregið dám af Eyrbyggju. Enn þó verður að gæta þess, að Eyrbyggja vitnar í Heiðarvíga sögu og hefur notað hana, og gæti verið, að líkingar þær, sem jeg nefndi, stöfuðu af því, að Eyrbyggja hefði þar farið eftir Heiðarvíga sögu og frásögnin því orðið keimlík í báðum sögunum. Þetta verður því altaf nokkrum vafa bundið. Enn hitt er víst, að sumt í „inntaki" Jóns kemur beint í bága við Eyrbyggju. Meðal annars segir Jón, að Halli hafi lagt hug á dóttur Vermundar, enn Leiknir á Ásdísi dóttur Styrs, enn Eyrbyggja segir, að Halli hafi first beðið Vermund fá sjer sæmilegt kvonfang og síðar lagt hug á Ásdísi, dóttur Styrs, enn getur Leiknis hvergi við nein kvennamál. Af því að Jón hafði Eyrbyggju firir sjer, má ganga að því vísu, að hann hafi verið sjer meðvitandi um þessar missagnir og aðrar smærri, enda tekur hann það beint fram neðanmáls á tveim stöðum, þar sem hann segir frá ástamálum berserkjanna, að Eyrbyggja segi öðruvísi frá. Vjer getum því ekki efast um, að Jón greini rjett missagnir þær, sem hann tekur fram, enn á hinu gæti verið efi, hvort missagnirnar hafi ekki verið fleiri enn þær, sem Jón greinir.

Þá kemur kaflinn, sem Jón þikist muna best, um víg Styrs með aðdraganda og afleiðingum, vígi Þorsteins Gíslasonar. Í Eyrbyggju er sagt lauslega frá vígi Styrs og deilum Snorra út af því við Borgfirðinga. Virðist sögn Eyrbyggju ekki vera annað enn stuttur útdráttur úr Heiðarvíga sögu og staðfestir í aðalatriðunum útdrátt Jóns. Í niðurlagi þessa kafla segir Jón frá því, að Borgfirðingum fjell það svo illa, að Snorri skildi hafa dvalist í búfjárhögum í hjeraðinu eftir víg Þorsteins og

sloppið úr greipum þeim, að þeir settu það í lög sín, að hver maður skildi vera skildur að leita þegar að veganda um landeign sína, ef víg væri vakið innanhjeraðs. Í þeim kafla sögunnar, sem geimst hefur í Stokkhólmshandritinu, minnist Þórarinn spaki á það við Barða, að Borgfirðingar hafi tekið þetta í hjeraðslög. Er þetta því dæmi þess, hve vel Jón gat munað jafnvel smærri atriði.

Í síðasta kafla inntaksins er mart, sem bendir til hins sama. T. d. getur Jón um það (60. bls.), að Þórði bónda á Másstöðum í Vatnsdal hurfu hestar ágætir í þingför með Barða. Jón hefur hjer stuðning í smágrein, sem hann hefur skrifað hjá sjer eftir sögunni, — á henni sást, að maðurinn hjet Þórðr — enn annars filgir sögn Jóns engin skíring þess, hvernig á þessu stóð eða hvaða þíðing það hafði firir frásögnina. Enn skíringin kemur í Stokkhólmshandritinu. Þar segist Þórarinn fóstri Barða (bls. 70) hafa valdið hestahvarfinu, af því hann vildi nota það sem átillu firir njósnarmenn, sem hann sendi suður, að spirja að hestunum. Jón man þetta alveg rjett og vissi þó ekkert um hverja þíðing það hafði firir söguna, nema hann misminnir um bæ Þórðar, nefnir hann Másstaði firir Breiðavað við Blöndu.

Jón segir frá því, að Þórarinn hafi látið „Narfa“ frænda Gíslunga ná frá þeim sverði. Narfi gerir tilraunir hjá tveimur, enn hepnast ekki nema hjá öðrum, sem Jón nefnir Þórólf, enn hinn segir hann hafi búið á Veggjum, enn nefnir ekki nafn hans. Á leifum sögunnar í Stokkhólmi sjest, að Jón man þetta rjett að öðru leiti enn því, að þessi frændi Gíslunga nær frá þeim 2 sverðum, öðru frá Þorgauti (ekki Þórólfi), hinu frá Þorbirni Brúnasini á Veggjum, og að frændinn heitir ekki Narfi heldur (Lyga-) Torfi.

Sömuleiðis man Jón það rjett í niðurlagi inntaksins, að „þeir Gíslungar, þrír bræður (heldur enn fjórir), höfðu einn teig við Hvítá að slá, og skildi teigurinn búinn á tilteknum tíma.“ Á leifum sögunnar sjest, að þeir þrír bræður, Gíslungar, Gísli, Ketill og Þormóðr Þorgautssinir fóru á ákveðnum degi, miðvikudegi í 5. viku

firir veturnætur, að slá Gullteig, og þar komu þeir Barði og fjelagar hans að þeim, og drap Barði Gísla. Jón gat ekki vitað firir víst, hvaða þíðing þetta hafði firir frásögnina á eftir, enn þó fer hann nærri um það í „tilgátum“ sínum, sem prentaðar eru aftan við útgáfu Kålunds. Hann man alt rjett, nema nöfnunum hefur hann gleimt, bæði á teignum og bræðrunum.

Enn þá meiri furða er, að hann skildi muna það atvik, sem hann segir næst þessu, að „Sá hlutur varð til nýlundu um hjeröð Vatnsdal og Víðidal, að aftókust öll mannamót á þeim misserum.“ Engin skíring filgir þessu. Enn skíringin kemur í þeim kafla sögunnar, sem Jón vissi ekki af. Þar sjest (á 64. bls.), að Þórarinn goði, fóstri Barða, olli þessu í því skini, að því fleiri kæmu til þess mannamóts, þar sem Barði átti að tala við þá menn, sem hann vildi fá til suðurfararinnar með sjer. Mesta furða, að Jón skildi muna þetta atvik.

Inntakið segir síðast frá því, að stírimaður að nafni Einar (m.m.) hafi haft hest í hafti hjá Halldóri (m.m.) bónda á Kleifum (m.m.) á Blöndubakka og hesturinn horfið, og hafi stírimaður kvartað undan bónda við Höskuld goða á Höskuldsstöðum. Jón man hjer rjett efnið, enn misminnir um nöfnin. Það var stírimaðurinn, sem hjet Halldórr, fóstbróðir Barða, enn bóndinn hjet Þórarinn og bjó að Klifum við Blöndubakka (ekki Kleifum).[1]) Stokkhólmshandritið heldur einmitt hjer áfram sögunni, þar sem Jón skilur við hana, og sínir þetta, hve minnugur Jón var á atvik, enn síður á mannanöfn.

Flest af þessum dæmum um minni — og misminni — Jóns hefur Kålund bent á í formálanum firir útgáfu sinni. Jeg skal leifa mjer að bæta við enn þá einu, sem jeg veit ekki til, að neinn hafi tekið eftir. Þar sem Jón segir frá því, sem gerðist á alþingi, þegar Barði beiddist bóta í 3. og síðasta sinn, stendur þessi grein í inntakinu:

1) Þar heitir enn eiðibili Klifakot, og þar er kölluð Klifamíri rjett hjá Klifunum, þar sem brúin liggur nú ifir Blöndu skamt firir ofan Blönduóskaupstað.

Helga hjet ekkja ung, hún bjó vestur í Dölum (m.m.), hennar bað maður sá, er Grímr hjet (m.m.), norðan úr Eyjafirði. Konan var í ætt við Kleppjárn. Maðurinn var á alþingi, og var honum konan föstnuð, skildi brúðkaupið standa hálfum mánuði fyrir vetur (m.m.). Barði kom eitt sinn að búð Kleppjárns, og „*mæltu þeir þar mundmálum*". Þar sá Barði Narfa (þ. e. (Lyga-Torfa) o. s. frv.

Þegar vjer lesum þetta, þá búumst vjer við, að síðar í sögunni verði eitthvað minst á þetta brúðkaup, sem á að fara fram rjett firir vetrarbirjun, milli ekkjunnar Helgu og mansins „úr Eyjafirði". Það getur nú ekki verið tilviljun ein, að Stokkhólmshandritið getur þess (á 71. bls.), að Þorgils Arason frá Reikjahólum reið norður í þeirri viku, sem gekk á undan Heiðarvígunum, til að sækja brúðkaup sitt að Þverá í Eijafirði. Barði fór að sækja förunauta sína laugardag í 5. viku firir vetur, og þá er Þorgils um riðinn norður, og eftir Heiðarvígin, þegar „4 vikur lifa sumars" ($96^{24}$), þá kemur Þorgils að norðan ásamt Snorra goða, úr brúðkaupinu, og þá slæst Barði á laun í flokk þeirra, og lætur Þorgils Snorra ginna sig til að mæla firir griðum, enn iðrast eftir, þegar hann kemst að því, að Barði er í förinni, því að Þorgils var hinn mesti vinur Borgfirðinga, enn heldur samt griðin við þá Barða. Síðar er Þorgils einn af þeim, sem dregur saman sættir eftir Heiðarvígin og gerir um þær sakir ásamt Snorra goða o fl., svo að frásögnin um þessa brúðkaupsferð hans er merkilegt atriði í sögunni. Í þeim hluta sögunnar, sem geimst hefur í Stokkhólmi, er hvergi nefnd brúðurin og ekki heldur beinlínis faðir brúðarinnar. Enn að hún hafi verið dóttir Einars Þveræings má ráða með fullri vissu af því tvennu, sem sagan segir, first, að brúðkaupið stóð að Þverá (l. c.), og af því öðru, að sagan segir, að þeir Þorgils og Snorri „*áttu systur tvær*" ($101^{14}$), enn það vitum vjer af öðrum heimildum, að Snorri átti Hallfríði dóttur Einars.[1]) Jón Ólafs-

1) Eyrb. appendix; Mb. Landn., útg. 1843, 220. bls., sbr. Mb. eldri, útg. F.J., 26. k., og útg. 1843, bls. 99 nmgr., 4; Þ. hreð., Kh. 1848, 65. bls.

son fullirðir, að brúðurin hafi verið ekkja og heitið Helga (ekki neitt „m.m." við nafnið), og þetta kemur alveg heim, því að vjer vitum, að Einar átti dóttur, sem Helga hjet og var gift Ljóti Síðu-Hallssini,[1]) og þessi Ljótr fjell á Alþingi eftir Njálsbrennu, eftir því sem Njála segir, enn það virðist hafa gerst firir Heiðarvíg; Helga hefur því verið ekkja eftir Ljót, þegar hún giftist Þorgilsi. Jón man því þetta rjett, enn hefur vilst á heimkinni brúðarinnar og brúðgumans og nafni brúðgumans, og er það vorkunn, þar sem hann gat ekki vitað, hverja þíðing þetta hafði firir frásögnina í síðari hluta sögunnar. Þar sem hann segir, að brúðurin hafi verið úr Dölum, getur verið, að sagan hafi gefið honum nokkurt tilefni til þess, því að ekki er ólíklegt, að það hafi staðið í sögunni, að Helga hafi eftir lát firri mans síns dvalið hjá Hallfríði sistur sinni, konu Snorra, í Sælingsdalstungu og Þorgils á Reykjahólum kinst henni þar (sbr. bls. 106[23]). Þorgils hafði áður átt Grímu Hallkelsdóttur, sistur Illuga svarta, og af þeim mægðum stafaði vinátta hans við Borgfirðinga.[2])

Niðurstaðan af þessari rannsókn verður þá sú, að Jón hafi ifirleitt munað furðu vel efni og atvik, enn villist oft í mannanöfnum og örnefnum, þar sem hann hefur ekki sjer til stuðnings þær smágreinar, sem hann hefur skrifað orðrjettar upp úr sögunni. Hitt getum vjer nú ekki reitt oss á, að lísing og útmálun einstakra atvika í sögunni hafi verið lík því, sem Jón segir frá, þar sem þessar smágreinir ná ekki til. Meira að segja er líklegt, að Jón hafi í þessu atriði bætt ímsu við frá sjálfum sjer. Það sínir orðfærið, því að þótt Jón bersínilega geri sjer far um að líkja eftir fornum sögustíl, þá verður honum það oft ósjálfrátt að viðhafa 18. aldar orð og talshætti. Í þessu efni er fróðlegt að rannsaka, hvort Jón hefur stitt söguna frá því, sem hún var í frumriti hans, eða teigt úr henni með málalengingum. Það má sjá með

1) Þ. hreð. l. c., Biskupa ættir Ísl.[2] I 361[5—6]. — 2 Heið. 100[15]. — Jón segir, að það hafi verið í eða hjá *„búð Kleppjárns"*, sem ekkjan Helga var föstnuð. Skildi þetta ekki vera misminni firir *búð Illuga svarta?*

einföldu reikningsdæmi. Vjer vitum, að handritið, sem Jón afskrifaði og gerði „inntakið“ úr, var 12 blöð, og Kålund hefur sínt líkur til, að þau hafi verið ekki með gömlu hendinni, sem er á firsta kveri Stokkhólmshandritsins, heldur með þeim 2 níjari höndum, annarihvorri eða báðum, sem eru á niðurlagi Heiðarvíga sögu í handritinu. Þessar tvær handir eru hjer um bil jafndrjúgar (þjettar). Til eins blaðs með firri hendinni svara 88 prentaðar línur í útgáfu Kålunds, enn með síðari hendinni 93 pr. l. Að meðaltali samsvara þá 90½ prentaðar línur einu blaði í þeim kafla handritsins, sem er með þessum 2 höndum. Enn inntak Jóns tekur upp ca. 1500 prentaðar línur með sama letri og er á sögunni sjálfri (inntakið er í útgáfunni prentað með dálítið þjettara letri enn sagan). Vjer þurfum nú ekki annað en deila í línutölu inntaksins 1500 með þeirri línutölu, sem samsvarar einu blaði handritsins skrifuðu með sömu höndum og niðurlagið, til að finna, hve mörg handritsblöð inntakið mundi upp taka, skrifað með þessum sömu höndum. Niðurstaðan verður, að inntakið mundi taka upp (1500 : 90½ =) rúm 16 handritsblöð. Enn blöðin, sem Jón tók inntakið eftir, voru ekki fleiri enn 12 eða fjórðungi færri enn svarar inntakinu. Eftir þessu er inntakið talsvert orðfleira enn frumritið virðist hafa verið, og hlítur það að stafa af málalengingum hjá Jóni.[1])

Þjer hafið þá sjeð, að með samanburði við það, sem geimst hefur af sögunni í Stokkhólmi, má leiðrjetta ímislegar villur í inntaki Jóns, og er það mikils virði, því að hvert orð í þessari sögu er gullvægt. Þetta er önnur aðalástæðan til þess, að jeg hef fjölirt svo mikið um inntakið. Hin ástæðan er sú, að þetta er firsta sporið til að svara annari enn þá markverðari spurningu, sem

1) Rithöndin á gamla kverinu í Stokkhólmshandritinu er miklu þjettari eða drigri enn þær tvær hendur, sem eru á niðurlagi sögunnar, svarar þar 130½ prentuð lína til eins blaðs í handritinu. Ef frumrit Jóns hefur verið skrifað með þeirri hendi, þá verður inntakið hjer um bil jafnlangt og frumritið (12 blöð). Þetta *gæti* bent til þess, að frumritið hafi verið með gömlu hendinni, að minsta kosti að einhverju leiti.

má orða stuttlega þannig: Hver er afstaða firri hluta sögunnar við síðari hlutann?

Jeg hef áður tekið það fram, að Heiðarvíga saga greinist eftir efni sínu í tvent. Hefur firri hlutinn sagt aðallega frá Víga-Styr og hefndum Snorra eftir hann, eða deilum hans við Borgfirðinga. Í síðari hlutanum, sem birjar aftarlega í inntaki Jóns, er aftur á móti sagt frá deilum Norðlendinga, Víga-Barða og bræðra hans, við Borgfirðinga út af vígi Halls Guðmundssonar, og stefnir sá kafli allur að Heiðarvígunum og snist um þau. Kaflarnir loða saman á vígi Halls, eins og jeg áður hef drepið á, því að tilefnið til þess er, að Hallr kemur einum af þeim, sem vóru með Snorra að vígi Þorsteins Gíslasonar, undan hefndum Borgfirðinga, enn af vígi Halls stafar aftur öll saga Heiðarvíganna. Eiga nú þessir tveir kaflar saman frá upphafi? Hafa þeir frá upphafi mindað eina söguheild? Eða er hjer tveimur upphaflega sjálfstæðum sögum steipt saman í eina? Hefur Víga-Styrs saga verið til sem sjerstök saga og hún síðar skeitt við aðra sjálfstæða sögu, sem sagði frá Heiðarvígunum? Þetta er spurningin.

Fljótt á litið virðist sumt mæla með því, að sögurnar hafi verið tvær frá upphafi. Þar sem síðari kaflinn birjar, koma margir níir menn til sögunnar, og úr því gerist mest af henni — að sjálfum Heiðarvígunum undanteknum — norðanlands, enn allur firri kaflinn gerist annaðhvort við Breiðafjörð eða kringum Faxaflóa. Af þessu virðist liggja nærri að álikta, að firri kaflinn sje saminn á Vesturlandi, enn síðari kaflinn á Norðurlandi. Þessu til stuðnings má og segja það, að allur síðari kaflinn ber vott um, að höfundur hans hefur verið nákunnugur í Húnavatnsþingi og líkur til, að sá sem hefur samið firri kaflann, hafi verið að sínu leiti eins kunnugur vestra, þar sem sá kafli gerist, því að þó þar bregði firir ókunnugleika á stöku stað, t. d. þar sem sagt er óbeinlínis, að Ferjubakki sje sunnan Hvítár,[1]) o. fl., þá

1) Bls. 29[17-18], sbr. 22[15].

ber þess að gæta, að sá kafli er ekki til nema í „inntaki“ Jóns, og að allar líkur eru til, að villurnar í lísingum staðhátta sjeu honum að kenna, enn ekki höfundi, einkum þar sem Jón segir sjálfur, að þær sveitir, þar sem þessi kafli aðallega gerist, „sjeu sjer svo að segja als ókunnar“. Sömuleiðis má benda á það, að það er ekki eins dæmi, að tvær eða fleiri sögur, sjálfstæðar frá upphafi, hafi síðar verið skeittar saman í eina heild. Jeg tek til dæmis Sturlungu — hún er ekki annað enn samsteipa af mörgum sjálfstæðum sögum — eða Njálu — það er enginn efi á því, að framan við hana hefur verið skeitt Gunnars saga og inn í hana aftan til skotið kafla úr Brjáns sögu. Samt sem áður eru þessi dæmi öll frá miklu síðari tímum enn Heiðarvíga saga, sem virðist vera ein hin elsta af öllum Íslendingasögum. Og hins vegar er mart, sem bendir til þess, að sagan hafi verið ein heild frá upphafi.

Sá maður, sem mest og best hefur fengist við Heiðarvíga sögu, bókavörður Kr. Kålund, heldur, að öll sagan sje og hafi altaf verið ein samanhangandi heild. Hann leggur áherslu á það, að í „inntaki“ Jóns Ólafssonar sjáist ekki nein merki þess, að ní saga hafi birjað, þar sem sögukaflarnir mætast, og að í firri kaflanum komi firir sumt, sem beinlínis bendir til og undirbír síðari kaflann. Vísa Eiríks viðsjár aftan til í sögunni „Styrr lét snarr og Snorri | sverðþing háit verða ... enn varð eigi in minna | ættskarð þats hjó Barði“ o. s. frv. bendi til, að saga Styrs og saga Heiðarvíganna sje ein heild, og að hún öll sje samin firir norðan, enn ekki í átthögum Styrs, sje líklegt af því, að sagan komi víða í bága við Eyrbyggju, sjerstaklega um tímatal, og geri sig þar seka í ímsum villum, sem beri vott um ókunnugleika í sögu Breiðfirðinga.

Af þessu, sem Kålund telur, legg jeg firir mitt leiti lítið upp úr tímatalsmissögnunum við Eyrbyggju. Þær sína það eitt, að höfundur Heiðarvíga sögu, sem er eldri enn höfundur Eyrbyggju, hefur ekki lagt eins nákvæmlega niður fyrir sjer tímatalið eins og Eyrbyggju-höfund-

ur, sem hefur þekt Heiðarvíga sögu og lagað tímatalið eftir því, sem hann taldi rjettast. Hitt bendir alt í þá átt, að Styrskaflinn og Heiðarvígakaflinn hafi átt saman sem ein heild frá birjun, enn einkum þó það, að í Styrskaflanum kemur firir að minsta kosti ein frásögn, sem undirbír eitt atriði í Heiðarvígakaflanum. Í Styrskaflanum er sagt frá því, að Borgfirðingar settu þau lög í hjeraði sínu, að menn skildu leita í landeign sinni, ef víg væri vakið innan hjeraðs. Þetta er endurtekið í Heiðarvígasögukaflanum, eins og jeg hefi áður minst á, og kemur beinlínis til framkvæmda þar, þegar þeir Barði vega Gísla á Gullteig. Þá ríða hjeraðsmenn eftir, samkvæmt þessum lögum, og af því hljótast Heiðarvígin. Líka má benda á það, að frásögnin í Styrskaflanum frá reið Snorra, þegar hann fer að Þorsteini og drepur hann, er mjög keimlík frásögninni um reið Barða og fjelaga hans, þegar þeir fara að bræðrunum, sem slá á Gullteig. Bæði Snorri og Barði senda njósnarmenn á undan sjer. Báðir fá að vita, að færi sje á þeim, sem þeir ætla að drepa, á tilteknum degi. Báðir senda orð eða semja við þá, sem í atförinni eiga að vera, að þeir skuli vera tilbúnir ákveðinn dag; sem er 6 vikum firir vetur firir förunauta Snorra,[1]) enn 5 vikum firir förunauta Barða. Frá heimanbúnaði beggja er skírt nákvæmlega. Báðir forðast bigðir sem mest í atreiðinni. Snorri, sem ætlar að Bæ í Borgarfirði, bústað Þorsteins, leggur krók á leið sína inn í Dali og ríður þaðan ifir Bröttubrekku suður í Hvítársíðu í næturmirkri og þoku; á leið hans þaðan niður að Bæ birtir af degi, og heiðir upp þokuna, „ok sá tíðendi yfir heraðit“ (orðrjett tilvitnun Jóns.[2]) Barði fer að óvinum sínum ifir Tvídægru ofan í Kjarradal og þaðan ofan í Hvítársíðu — þangað er förinni heitið, á Gullteig — þar sem Þórarinn leggur á ráðin með honum, segir hann meðal annars, að þeir

1) Um þetta er til stuðnings ein af þessum orðrjettu tilvitnunum úr frumriti Jóns Ólafssonar, sem hann hefur skrifað hjá sjer. — 2) Heið., Kål., bls. 44[20].

skuli fara ofan á brúnina „þar er þér *séð tiðendi* um heraðit“.[1]) Hjer er orðrjett samhljóðun milli sögukaflanna. Eftir vígin dilst Snorri i búfjárhögum firir óvinum sínum og kemst heim orustulaust, enn Barði er eltur og lendir i Heiðarvígunum. Hjer er munur. Enn sagan skírir sjálf, hvernig á þeim mun stendur, með frásögninni um lagasetning Borgfirðinga gegn árásum utanhjeraðsmanna, sem hefur staðið í báðum köflum sögunnar og stendur enn i síðari kaflanum. Þessi sögn sínir ljóslega, að náið samband er á milli frásagnanna um reið þeirra Snorra og Barða, eins og líka sjest á samanburðinum hjer að framan. Atvikin eru að nokkru leiti hin sömu og orðrjett samhljóðan á einum stað, og um fram alt er öll meðferðin á efninu svo lík, að það er alveg óskiljanlegt nema með því móti, að sami maður hafi ritað báðar frásagnirnar. Hjer við bætist enn þá eitt. Í kaflanum um reið Snorra tilfærir Jón orðrjett þessi orð úr frumritinu: *„kona sú er embættir fé“* (bls. $44^{22}$, sbr. $111^{5}$). Þessi talsháttur *„at embætta fé“* sama sem „að mjólka fé“ (eiginl. veita því þjónustu) kemur að eins firir á 2 stöðum i fornritum vorum, og hinn staðurinn er í hinum síðari kafla Heiðarvíga sögu, að vísu ekki i frásögninni um reið Barða á Gullteig, heldur síðar i sögunni, á bls. $71^{24}$ *ok koma þar, er fé var embætt at morgunmáli milli miðdegis ok dagmála.* Þetta einkennilega orð bendir og til, að báðir kaflar sögunnar sjeu eftir sama manninn, og í sömu átt bendir talshátturinn (leggja eða gefa) *„fé til farningar ehm“* sem kemur firir i Styrskaflanum á bls. $36^{7}$ (sbr. $111^{20}$) og í Heiðarvíga-kaflanum á bls. $102^{26\ 27}$.[2])

1) Heið., bls. $79^{23}$, sbr. $81^{29}$ sá tíðendi gerva á Gullteig og $85^{5}$ ok sá gerva tíðendi á Gullteig. — 2) Jeg legg enga áherslu á það, að í þeim parti af inntaki Jóns, sem heirir til Heiðarvíga-kaflanum, koma firir orð og talshættir í tilvitnunum, sem líka koma firir síðar í Stokkhólmshandriti sögunnar, t. d. tilvitnunin *„ok hefir þú haft vel ok drengiliga ór þessum málum“* bls. $53^{13}$ ($111^{23}$), sbr. sagan bls. $68^{5}$ *hafið drengiliga af þessu við mik.* Orðið *skattyrðast* kemur firir í tilvitnun á bls. $59^{3}$ ($113^{17}$) og í sögunni bls. $101^{2}$ og $101^{9}$. Þessir staðir sína að eins það, sem enginn efast um, að allur Heiðarvígasögukaflinn er eftir sama manninn.

Þó að Heiðarvígakaflinn beri það með sjer, að höfundur þessa kafla hefi verið nákunnugur í Húnavatnsþingi, og allar líkur sjeu til, að höfundur Styrskaflans hafi verið nákunnugur í Borgarfirði og við Breiðafjörð, þá sannar það als ekki, að hjer sje um 2 höfunda að ræða, annan húnvetnskan, hinn borgfirskan eða breiðfirskan, því að ekkert er því til firirstöðu, að sami maður hafi verið jafnkunnugur á báðum aðalstöðvum sögunnar. Og að svo hafi verið, að sá maður, sem samdi Heiðarvígaflann, hafi verið gagnkunnugur að minsta kosti í Borgarfirði, það sínir Heiðarvígakaflinn sjálfur, sjerstaklega í frásögninni um reið Barða og fjelaga hans á Gullteig og þaðan aftur og um eftirreið Borgfirðinga eftir honum. Hjer er öllum staðháttum líst svo nákvæmlega, að það er auðsjeð, að höfundur hefur þekt svo að segja hverja þúfu og vitað rjett afstöðu allra þeirra bæja, sem hann nefnir, af eigin sjón. Af kunnugleika þess mans, sem hefur skrifað Styrskaflann, um Borgarfjörð og Breiðafjörð, verður því með engu móti dregin sú áliktun, að sá kafli sje eftir annan mann enn Heiðarvígakaflinn eða að þessir tveir kaflar sjeu ekki frá upphafi ein söguheild, rituð af sama manninum.

Hins vegar eru báðir þessir kaflar ein samfeld keðja af viðburðum, sem leiðir hvern af öðrum. Í firri kaflanum er víg Styrs afleiðing af vígi Þórhalla og víg Þorsteins Gíslasonar afleiðing af vígi Styrs. Af vígi Þorsteins leiðir aftur víg Halls Guðmundssonar — hjer eru samskeitin á milli kaflanna, — og af vígi Halls leiðir aftur alla sögu Heiðarvíganna í síðari kaflanum, sem endar á að skíra frá afleiðingum Heiðarvíganna, eftirmálunum eftir þá, sem fjellu, utanferð Barða og fjelaga hans og dauða Barða. Þessi óslitni orsakaþráður er það, sem gerir uppistöðuna í Heiðarvíga sögu svo fullkomna og bláþráðalausa, og hann sínir betur enn nokkuð annað, að öll sagan, báðir kaflarnir, er ein heild frá upphafi. Það raskar ekki þessu, þó að níir menn, Norðlendingarnir, komi til sögunnar í birjun Heiðarvígakaflans, með því líka að ímsir af þeim gömlu, sem Styrskaflinn

segir frá, eru líka riðnir við Heiðarvígakaflann, t. d. Borgfirðingarnir og Snorri. Af Borgfirðingunum eru þeir menn, sem sagan nefnir „Gíslunga“, taldir í fremstu röð, og af því að þeir eru að minni higgju einn hlekkur í þeirri festi, sem tengir saman báða kafla sögunnar, skal jeg reina að sína, hvaða menn það eru, sem sagan nefnir „Gíslunga“.

Á fleirum enn einum stað eru sinir Þorgauts bónda á Þorgautsstöðum, eiganda Gullteigs, nefndir Gíslungar. Jón Ólafsson segir í inntaki sínu, að þeir þrír bræður, sem áttu að slá Gullteig, hafi verið Gíslungar ($62^{19}$). Á þeim kafla sögunnar, sem geimst hefur í Stokkhólmi, sjest síðar, að þessir menn eru þeir þrír Þorgautssinir, Gísli, Þormóðr og Ketill brúsi ($78^{3}$ og 84—86). Að þeim er hefndarför Barða gerð og sjerstaklega að Gísla, sem fellur firir Barða á Gullteig. Af því að hefndin kemur first og fremst niður á Gísla, má ráða, að þessi Gísli Þorgautsson sje sami maðurinn og sá, sem smánaði Barða á alþingi, þegar hann krafðist bróðurgjalda, eftir því sem Jón Ólafsson segir í inntakinu og stiðst þar við orðrjettar tilvitnanir úr frumriti sínu. Jón Ólafsson getur þess til, að Gísli þessi hafi verið Þorsteinsson, þess sem Snorri drap Gíslasonar (56 nm.), sami Gísli, sem Grettir hiddi.[1]) Enn það getur varla verið rjett. Orðrjett tilvitnun lísir Gísla þeim, sem smánaði Barða, svo, að hann hafi verið *„bráðskeyttr til máls ok frigjarn“* (framgjarn?). Í góðu samræmi við þetta er það, að á Gullteig gerir hann gis að bræðrum sínum firir hræðslu þeirra við Barða. („Svá láti þér sem Barði muni koma undir hverri hríslu í alt sumar, ok hefir hann enn eigi komit“ $85^{22}$). Líka segir önnur orðrétt tilvitnun, að hann hafi svarað Barða, þegar hann beiddist bótanna firir víg Halls, að hann (þ. e. Gísli) „þættist nokkuð þverkominn við málið“. Það gat hann varla sagt, ef hann var sonur þess manns, sem Hallr var veginn í hefnd firir. Þeir vóru fleiri, sinir Þorgauts, enn þeir þrír, sem slógu

1) Grett., 59. k.

á Gullteig. Auk þeirra eru nefndir tveir, Árni að Hávafelli og Fróði (líkl. á Fróðastöðum 87[20]), og þessir tveir og Þormóðr, bróðir þeirra, eru nefndir Gíslungar á bls. 96[10] ásamt Þórarni þverhliðing, sem var tengdafaðir Árna Þorgautssonar (87[26-7]). Þorgautr faðir þeirra bræðra er hvergi beint feðraður í sögunni, eins og hún er nú, og er það eðlileg afleiðing af því, að þeir persónulistar, sem vanalega filgja sögum vorum og eflaust hafa filgt Heiðarvíga sögu, eru tíndir. Enn hjer má geta í eiðurnar með nokkurn veginn fullri vissu. Kristian Kålund hefur getið þess til (bls. 59 nm.), að Gíslungar hafi verið afkomendur Þorgauts landnámsmans, sem Landnáma getur og segir að hafi fengið land niðri í Síðu (þ. e. Hvitársíðu) á Þorgautsstöðum hjá Hrosskatli landnámsmanni Þorsteinssini og átt 2 Gísla firir sonu.[1]) Þessi Þorgautr landnámsmaður getur ómögulega verið sami Þorgautrinn, sem Heiðarvíga saga getur um og fjell í Heiðarvígum á öndverðri 11. öld, heldur hlítur að vera forfaðir Þorgauts ingra, að öllum líkindum afi hans. Ef vjer gerum eina ættartölu úr þeim tveim ættliðum, sem Landnáma telur, og Heiðarvígasögu-ættliðunum, þá lítur sú ættartala þannig út:

Landn. {
 Þorgautr landnámsmaður á Þorgautsstöðum
 Gísli — Gísli

Heið. {
 Þorgautr ingri á Þorgautsstöðum
 Gísli — Ketill brúsi — Þormóðr — Árni á Hávafelli — Fróði (ɔ: Gíslungar)

Ef þetta er rjett, — og ættarnöfnin og bústaður Þorgautanna bendir ótvíræ
tt til þess, — þá hafa Gíslungar dregið nafn af Gísla, síni Þorgauts eldra og föður Þorgauts ingra. Nú vil jeg leifa mjer að rifja upp viðburð-

1) Landn. 1843, 67. bls.

ina frá vígi Þorsteins Gíslasonar til Heiðarvíganna. Af vígi Þorsteins hlítst víg Halls, sem Hárekssinir drápu. Af því að Hárekssinir drukna rjett á eftir, beiðist Barði bóta firir Hall bróður sinn hjá ættingjum þeirra á þrem þingum. Á þriðja alþingi svarar Gísli Þorgautsson firir hönd ættingjanna, þikist „nokkuð þverkominn við málið“ og bíður smánarboð. Firir það vegur Barði Gísla á Gullteig, og af því hljótast Heiðarvígin. Af orsakasambandinu er ljóst, að Hárekssinir eru náfrændur Þorsteins Gíslasonar og Gísli og þeir Þorgautssinir náfrændur Hárekssona, með öðrum orðum að Þorsteinn, Hárekssinir og Þorgautssinir eru allir Gíslungar. Þetta kemur vel heim, að því er Þorstein snertir, því að vjer vitum bæði af inntaki Jóns og Eyrbyggju, 56. kap., að hann var Gíslason, efalaust sonur þess Gísla, sem Gíslungar eru við kendir og bróðir Þorgauts ingra Gíslasonar. Og alt bendir til, að Hárekr, faðir þeirra Hárekssona, sem var hniginn að aldri, þegar sagan gerðist (sjá tilvitnun bls. 56[14]), hafi verið þriðji bróðirinn, Gíslason, Þorgautssonar eldra. Þeir Þorsteinn og Þorgautr eru líka rosknir menn, eiga fulltíða sonu. Náskildur Gíslungum er auðsjáanlega Þorbjörn Brúnason á Veggjum, sem fjell í Heiðarvígum. Þorbjörn virðist vera talinn með Gíslungum í „inntaki“ Jóns, því að þar segir, að „Narfi“ (þ. e. Lyga-Torfi) væri „frændi Gíslunga“, sem hann laug sverðið út úr (bls. 57[13]), enn annar þeirra er Þorbjörn (76[8]). Líka er Þorbjörn kallaður frændi Þorgauts (84[10]). Enn vjer vitum ekki glögt, hvernig þeirri frændsemi var varið. Í föðurætt hefur Þorbjörn ekki verið frá Gísla, sem Gíslungar eru við kendir, því að Landnáma[1]) segir, að Brúni, faðir hans, hafi verið sonur Geirmundar gands landnámsmans. Enn vel má vera, að móðir Þorbjarnar hafi verið dóttir Gísla, sistir þeirra Þorsteins, Þorgauts og Háreks Gíslasona. Hann væri þá annar maður frá landnámsmanni í föðurætt, enn þriðji í móðurætt, sem vel getur staðist.

1) Landn., Stb. k. 52, Hb. k. 40.

Kleppjárn, sem er einn hinn fremsti af Borgfirðingum í Styrskaflanum eftir inntaki Jóns, hefur að líkindum verið nátengdur þeim bræðrum Gíslasonum, enn ekki bróðir þeirra, því að líklega er hann sami maður og „Kleppjárn hinn gamli“, sem Eyrbyggja (56. k.) nefnir í andstæðingaflokki Snorra goða við Haugsvað, þegar Snorri varð frá að hverfa, og Landnáma segir, að hafi verið Þórólfsson viligisls og búið í Flókadal (sbr. Heið. 78[19] þingmenn Flókdæla). Móðir hans var eftir Landnámu Arnleif sistir Svartkels landnámsmanns, og hefur hann því verið fjörgamall um þetta leiti og líklega dáið rjett firir Heiðarvígin, því að hans er ekkert getið við þau í þeim kafla sögunnar, sem geimst hefur í Stokkhólmi. Eftir því sem Jón Ólafsson segir í „inntakinu“, bjó hann að Reikjum (líkl. Kleppjárnsreikjum, sem þó liggja í Reikholtsdal). Ættartala Gíslunga verður þá svona:




Jeg higg, að menn muni skilja talsvert betur Heiðarvíga sögu, ef menn hafa hugfasta þessa ættartölu. Líka mælir hún með því, að sagan sje ein heild, því að Gíslungar eru sterklega riðnir við báða aðalkafla sögunnar, Þorsteinn Gíslason sjerstaklega við Styrskaflann og við Heiðarvígakaflann að því leiti, sem Heiðarvígin eru afleiðing af vígi Þorsteins, hinir sjerstaklega við Heiðarvígakaflann. Illugi svarti kemur og við báða kafla.

Vjer höfum þá bent á svo mart, sem sínir, að Heiðarvíga saga öll hlitur að hafa verið ein heild frá upp-

hafi og eftir sama manninn. Næst skulum vjer athuga afstöðu hennar við aðrar sögur, og first við Landnámu.

Það er mikið mein, að persónulistar þeir, sem eflaust hafa filgt upphafi sögunnar og líklega samskeitunum milli Styrskaflans og Heiðarvígakaflans, eru glataðir, því að ef þeir væri til, þá mundi rannsóknin um afstöðu Landnámu og Heiðarvíga sögu vera auðveldari og aðgengilegri. Nú verðum vjer að tjalda því, sem til er, og þeir staðir, þó að fáir sjeu, þar sem Heiðarvíga saga, eins og hún er nú, snertir Landnámu, virðast nægja til að sanna, að þessi rit eru hvort öðru óháð. Að vísu vitnar Melabók ingri á einum stað til sögu Víga-Barða, enn sú tilvitnun stendur ekki í hinum Landnámu-handritunum, og allar líkur mæla með, að sr. Þórður Jónsson í Hitardal, skrifari Melabókar ingri, hafi bætt þessu við frá sjálfum sjer.[1]) Þetta er því ekki að marka. Næst skulum vjer líta á meðferð Landnámu og Heiðarvíga sögu á því efni, sem þeim er báðum sameiginlegt.

Landnáma getur Víga-Barða og bræðra hans, enn nefnir ekki bræðurna (Hallr, Steinn, Steingrímr í Heið.). Um það kemur sögunum saman, að Barði hafi verið Guðmundarson, enn Landnáma rekur ætt hans langfeðgum upp til Skíða hins gamla Bárðarsonar í Ál (Skíðungaætt). Í Heiðarvíga sögu, eins og hún nú er, er ættin ekki rakin lengra upp enn til föður Barða, enn það er gefið í skin, að ættin hafi verið göfug (102[1]), og er líklegt, að hún hafi verið rakin í þeim kafla sögunnar, sem tíndur er. Eilífr örn landnámsmaður, langafi Barða, var afi Þorvalds víðförla Koðránssonar frá Giljá.

---

1) Landn. 1843, bls. 70 nmgr. 17. Þar getur um Þorbjörn Brúnason, „er fell í Heiðarvígi“ í öllum hdr., enn Mb. bætir við: „sem ritat er í sögu Víga-Barða“, og á spássíu firir utan orðið *Heiðarvigi* skrifar sr. Þórður: „Heiðarvijgin“ í flt. Og síðar (bls. 186, nmgr. 10), þar sem Þórarinn spaki, 5. maður frá Holta, er nam Langadal í Húnavatnsþingi, er nefndur, bætir sr. Þórður við in marg. „Þórarinn spaki ráðgjafi Víga-Barða“. Þórður er vanur að bæta við slíkum spássíugreinum frá sjálfum sjer, og eru þessar auðsjáanlega frá honum. Þær sína, að hann hefur þekt Heiðarvíga sögu, og er því líklegt, að hann hafi líka bætt tilvitnuninni við frá eigin brjósti.

Sonur hans var Þjóðólfr goði á Hofi á Skagaströnd, sem að öllum líkindum hefur verið faðir þeirra höfðingjanna Eilífs og Höskulds á Höskuldsstöðum, sem Heiðarvíga saga getur, og hafa þeir verið náfrændur Barða. Er því eðlilegt, að Halldórr stírimaðr, fóstbróðir Barða, fengi hann til að koma sjer í sátt við þá Höskuld og Eilíf, enn ekki getur sagan, eins og hún er nú, um þennan skildleika. Líka var Eilífr örn afi Þórlaugar, konu Guðmundar ríka á Möðruvöllum, föður Eyjólfs (Landnáma). Barði hefur því verið mjög nákominn Möðruvellingum, enda tekur Barði Guðmund til gerðar eftir Heiðarvígin ($101^{20}$), og þegar Barði brítur skip sitt við Siglunes, bjóða þeir feðgar Eyjólfr og Guðmundr Barða og félögum hans til veturvistar, enn hvergi er þess getið í því, sem nú er til af Heiðarvíga sögu, að Barði hafi verið í ætt við Möðruvellinga. Ifirleitt má segja, að það, sem Heiðarvíga saga nú segir um ætt Barða, sje svo óákveðið, að ekki verður neitt af því ráðið um afstöðu Heiðarvíga sögu við Landnámu.

Bæði Heiðarvíga saga ($100^{16}$) og Landnáma[1]) geta þess, að Þorgils Arason á Reikjahólum átti Grímu Hallkelsdóttur, sistur Illuga svarta. Enn Heiðarvíga saga ein getur þess, að Þorgils hafi síðar átt Helgu Einarsdóttur þveræings, ekkju Ljóts Síðu-Hallssonar. Um þessar mægðir Reiknesinga og Þveræinga veit engin önnur saga enn Heiðarvíga saga, og bendir það helst til, að Heiðarvíga saga og Landnáma sjeu hvor annari óháðar.

Landnáma getur um og ættfærir tvo menn, sem hafi fallið í Heiðarvígi. Annar þeirra er Þorbjörn Brúnason[2]) og kemur það alveg heim við Heiðarvíga sögu, sem segir greinilega frá Þorbirni og falli hans „í Heiðarvígi“. Enn sögunum ber ekki saman um bústað Þorbjarnar; segir Landnáma, að hann hafi búið að Steinum, enn Heiðarvíga saga á Veggjum (Síðumúla). Þetta þarf ekki að

1) Útg. 1843, bls. 67 og 86. — 2) Landn. 1843, 70. bls., Stb. 52. k., Hb. 40. k.

vera nein mótsögn, því að vel getur verið, að Þorbjörn hafi búið lengi að Steinum, en flutt þaðan að Veggjum skömmu firir Heiðarvíg. Enn missögnin sínir, að sögurnar eru hvor annari óháðar.

Hinn maðurinn, sem Landnáma[1]) segir, að hafi fallið „í Heiðarvígi", er „Ljótr á Veggjum" Þorbjarnarson Ísröðarsonar landnámsmans. Þessi Ljótr er auðsjáanlega sami maðurinn, sem Heiðarvíga saga kallar Þorljót og segir, að hann hafi verið kappi mikill og átt heima á Veggjum (heimamaður Þorbjarnar), enn sumir segi hann frá Sleggjulæk. Það er auðsjeð, að Heiðarvíga saga hefur hjer firir sjer sjálfstæðar munnmælasagnir, óháðar Landnámu, og að höfundur Heiðarvíga sögu hafi ekki þekt Landnámu, sjest á því, að hann ættfærir ekki Þorljót, sem hann annars efalaust mundi hafa gert. Enn annars er hjer engin mótsögn milli heimildanna, því að *Ljótr* í Landnámu getur vel verið stitting firir *Þorljótr*.[2])

Af öllu þessu virðist ljóst, að Heiðarvíga saga og Landnáma eru hvor annari óháðar.

Þegar jeg talaði um Eyrbyggju, sindi jeg fram á, að Eyrbyggja hefði á ímsum stöðum notað Heiðarvíga sögu og vitnaði beinlínis til hennar á einum stað. Jeg mun því ekki fjölirða um það. Eyrbyggja hefur notað þá kafla Heiðarvíga sögu, sem skíra frá sama efni og Eyrbyggjuhöfundur vildi taka í sína sögu, t. d. berserkjaþáttinn, frásögnina frá vígi Styrs og afturgöngu í Hrossholti og frá deilum Snorra við Borgfirðinga. Enn höfundur Eyrbyggju hefur jafnframt haft firir sjer aðrar munnmælasögur um sama efni, sem hann tekur fram ifir sögn Heiðarvíga sögu, — af því stafa missagnirnar milli Eyrbyggju og Heiðarvíga sögu. Eyrbyggjuhöfundur er sjálfstæður í meðferð sinni á Heiðarvíga sögu, og tímatal viðburðanna lagar hann auðsjáanlega eftir sínum kreddum.

1) Útg. 1843, 69. bls.; Stb. 47. k.; Hb. 35. k. — 2) F. J. hefur ekki skilið, að „Þorljótr á Veggjum" í Heið. er sami maður og „Ljótr á Veggjum" í Landn., og heldur, að Heið. hafi hjer gert tvo menn (Ljót Þorbjarnarson og Þorbjörn Brúnason Landn.) að einum (Þorbirni Brúnasini, Heið.). Enn þetta er bersínilega ógát.

Í einum kafla, þar sem efnið ekki er hið sama, virðist höfundur Eyrbyggju hafa lagað frásögn sína eftir Heiðavíga sögu. Sagan um flutninginn á líki Þórólfs bægifóts (einkum í 34. kap. Eyrbyggju) er svo nauðalík sögn Heiðavíga sögu um flutninginn á líki Styrs,[1]) að það verður varla skírt öðruvísi enn að Eyrbyggja hafi sniðið sína frásögn eftir Heiðarvíga sögu.

Önnur saga, sem hefur notað Heiðavíga sögu, er Grettis saga. Hún talar svo kunnuglega um Heiðarvígin og þó sérstaklega um undirbúninginn undir þau, ráð þau, sem Þórarinn spaki lagði Barða, að það er ljóst, að höfundur hennar hefur haft firir sjer Heiðarvíga sögu. Grettis saga segir, að Grettir hafi boðið Barða filgd sína i Heiðarvígin, og að Barði hafi feginn viljað taka því boði, enn Þórarinn ræður frá að hafa ólánsmanninn í förinni, svo að Barði lætur ekki Gretti vita, þegar hann fer. Út af þessu hafi svo Grettir reiðst Barða og gert honum firirsát, þegar hann kom að sunnan frá Heiðarvígunum, enn ekki þorað að ráðast á hann sakir liðsmunar. Alt þetta er bersinilega skáldskapur í Grettis sögu, enn það sínir, að höfundurinn hefur þekt vel efnið í Heiðarvíga sögu.

Laxdæla saga getur um Víga-Barða og föður hans Guðmund Sölmundarson og sistkini hans, Hall, Stein og Steingrím, Ólöfu og Guðrúnu. Alt þetta kemur heim við Heiðarvíga sögu og getur verið tekið þaðan.[2]) Þar segir og, að Þuríðr, kona Guðmundar, enn móðir Barða, væri dóttir þeirra hjóna Ólafs pá og Þorgerðar Egilsdóttur, og hefur það eflaust líka staðið í Heiðarvíga sögu, meðan hún var heil, enn nú er Þuríðr, móðir Barða, hvergi ættfærð í Heiðarvíga sögu. Merkilegt er það, hve likt þær mæðgurnar koma fram gagnvart sonum sínum, Þorgerðr í Laxdælu og Þuríðr í Heiðarvíga sögu. Þorgerðr eggjar sonu sína kröftuglega að hefna Kjartans bróður þeirra á Bolla og ræðst sjálf með þeim í atförina að Bolla. Þuríðr eggjar sonu sína af miklum móði að hefna

1) Heið. 28. — 2) Guðrún, sistir Barða, er nefnd í Heið., bls. 72[26], sem móðir Guðbrandssona, „sistursona“ Barða.

Halls, bróður þeirra, á Borgfirðingum, og ræðst í atförina með þeim, enn þeim tekst að tálma för móður sinnar. Atvikin eru að vísu nokkuð öðruvísi, enn andinn hinn sami. Allar líkur eru til, sjerstaklega þar sem um mæðgur er að ræða, að önnur sagan hafi hjer sniðið frásögn sína eftir hinni, og þá hlítur það að vera Laxdæla, sem hefur tekið sjer Heiðarvíga sögu til firirmindar, því að enginn efi er á, að Heiðarvíga saga er eldri enn Laxdæla. Annars fer Laxdæla ekkert út í efni Heiðarvíga sögu, getur þó þess, að Hallr var í förum milli landa, enn um Barða segir hún það eitt, að hann hafi tekið þátt í atförinni að Bolla með Ólafssonum.

Vatnsdæla og Heiðarvíga saga hafa ekkert sameiginlegt annað enn það, að Vatnsdæla nefnir Barða á einum stað, enn ættfærir hann öðruvísi, segir, að hann hafi verið Sölmundarson Guðmundarsonar í stað Guðmundarson (Sölmundarsonar). Heiðarvíga saga nefnir Guðbrand á Guðbrandsstöðum í Vatnsdal, sem átti Guðrúnu, sistur Barða. Ekki segir sagan, hvers son hann var. Það getur því verið vafasamt, hvort Heiðarvíga saga á við sama Guðbrand sem Vatnsdæla segir að hafi búið á Guðbrandsstöðum, son Þorsteins Ingimundarsonar hins gamla. Vatnsdæla getur ekki um, að Guðbrandr væri kvongaður Guðrúnu sistur Barða. Hins vegar getur Vatnsdæla þess, að Þorsteinn, faðir Guðbrands, átti firir konu Þuríði gyðju, föðursistur Barða (sbr. Landn.), enn um þær mæðgur stendur ekki eitt orð í Heiðarvíga sögu, eins og hún er nú. Alt bendir til, að sögurnar sjeu óháðar hvor annari. Aftur á móti eru nokkrar líkur til, að önnur saga úr Húnavatnsþingi hafi þekt og notað Heiðarvíga sögu. Frásögnin í Kormáks sögu (1. k.) um framsínu fóstruna, sem fer höndum um Ögmund, áður en hann gengur á hólm, er nauðalík sögunni um Kjannök, hina framsínu fóstru Barða, sem fer höndum um hann, áður en hann leggur á stað í Heiðarvígin. Hjer er orðrétt samhljóðun. Þegar kerlingarnar hafa farið höndum um fóstra sína, segir Kjannök: „hvergi þykki mér við hnita, svá at ek finna stórum“, og hin: „kvað hvergi

stórum við hnita". Líklegt er, að Kormáks saga hafi hjer haft firir sjer Heiðarvíga sögu.

Afstaða Heiðarvíga sögu við aðrar sögur er þá sú, að hún virðist sjálf ekki hafa notað eða þekt neina af þeim sögum, sem vjer nú höfum, enn hins vegar hefur Eyrbyggja og Grettis saga og ef til vill Laxdæla og Kormáks saga notað Heiðarvíga sögu.

Þá er að minnast nokkrum orðum á þá *íþrótt*, sem kemur fram í Heiðarvíga sögu, drepa á meðferð höfundar á efninu, orðfæri og stíl.

Jeg hef áður tekið það fram, að *uppistaðan*, alt frá því er Styrr vegur Þórhalla á Jörfa alt til enda sögunnar, er fullkomin og bláþráðalaus. Í nánu sambandi við víg Þórhalla stendur það víg, sem Styrr vó þar næst á undan (Einars? J. Ó.). Enn það sem þar er firir framan, berserkjaþátturinn og hið firsta víg, sem inntakið getur um (Þórmóðs eða Þorbjarnar? J. Ó.), leikur nokkuð lausu við það efni, sem á eftir fer, ef treista má inntaki Jóns, og bendir þó Jón sjálfur til[1]), að firsti maðurinn, sem Styrr vó, muni hafa verið skildur Kleppjárni, sem síðar skítur skjólshúsi ifir Gest, veganda Styrs, og stendur þá þetta víg í beinu sambandi við frásögnina um deilur Borgfirðinga við Snorra goða síðar í sögunni. Uppistaðan er því óaðfinnanleg, að svo miklu leiti sem vjer nú getum um hana dæmt, enn af því að upphaf sögunnar vantar alveg og firsti kafli inntaksins ekki sem ábiggilegastur, verður ekki sagt neitt víst um þann kafla.

Ifirleitt má segja, að *íþrótt* sú, sem lísir sjer í Heiðarvíga sögu, standi skör lægra enn íþrótt sú, sem kemur fram í þeim sögum, sem samdar eru af mestri snild, t. d. í Njálu eða Egils sögu. Það er eins og íþróttin sje enn í barndómi. Og þó sjást glöggar menjar þess, að höfundurinn hefur haft firir augum íþróttareglur, sem aðrar sögur beita með meiri snild. T. d. beitir hann með fullri meðvitund því bellibragði sagnanna, að vekja athigli og eftirvænting lesandans eða áheirandans með því að boða firir-

1) Bls. 3 nm.

fram þá viðburði, sem síðar verður sagt frá í sögunni. Dæmi: Í frásögninni um lög þau, sem Borgfirðingar settu um eftirreið eftir veganda úr öðru hjeraði, er boðuð löngu á undan eftirreiðin eftir Barða, þegar hann hefur vegið Gísla á Gullteig. Í inntaki Jóns Ólafssonar segir frá því, að Þórarinn hafi ráðið Barða að fá „Narfa" (ɔ: Lyga-Torfa) norður með sjer frá alþingi, „ og kvað til nokkurs koma mundi".[1]) Þetta undirbír frásögnina um sverðastuldinn frá Gíslungum.[2]) Í sambandi við bótabeiðslu Barða á alþingi firir Heiðarvígin hefur sagan[3]) skírt frá firirhuguðu brúðkaupi þeirra Þorgils Arasonar og Helgu Einarsdóttur þveræings, sem átti að standa í 6. viku fyrir vetur að Þverá í Eijafirði (sbr. áður). Þennan þráð tekur sagan upp aftur.[4]) Í inntakinu segir Jón frá því, að þeir Gíslungar (Þorgautssinir) áttu að slá (Gull)teig á ákveðnum tíma; þetta boðar firir fram frásögnina um víg Gísla á Gullteig.[5]) Sagan segir frá því, að Ólöf kjannök, fóstra Barða, hafi lagt steinasörvi um háls honum, þegar hún þreifaði um hann firir Heiðarvígin, og lagt ríkt á við hann að láta ekki sörvið haggast,[6]) enn síðan, þegar Barði gisti hjá Njáli bónda í suðurferð sinni, hafi sörvið þokast úr stað við það, að Barði tók tigilknif af hálsi sjer til að gefa sveininum, sini Njáls. Hjer er boðuð firirfram frásögnin um skeinuna, sem Barði fjekk á hálsinn í Heiðarvíginu.[7]) Stundum eru firirboðarnir fólgnir í draumum eða furðulegum firirburðum, t. d. draumum þeirra Þorbjarnar Brúnasonar og Gísla firir feigð sinni og firirburðum þeim, sem Þorbjörn sjer firir dauða sinn,[8]) stundum eru firirboðarnir fólgnir í hugboði spakra og framsinna manna. Eið grunar, að hið hvatskeitlega svar Gísla við bótabeiðni Barða muni koma Borgfirðingum í koll, og ávítar því Gísla, og af líkum ástæðum er það, að bæði Eiðr og Þorgautr letja sína menn að veita Barða eftirför eftir vígið á Gullteig.[9]) Enn um fram alt má

1) Heið. 57. — 2) Inntakið Heið. 60—61 og sagan sjálf 76. bls. — 3) Heið. 59. — 4) Á bls. 71 (norðurför brúðgumans) og 98—100 (heimför sama). — 5) Heið. 78—80 og 84—86. — 6) Heið., 77. bls. — 7) Heið., 91. bls. — 8) Heið., 82—84. bls. — 9) Heið., 87. og 88. bls.

segja, að ekkert markvert gerist, hvorki í undirbúningi Heiðarvíganna nje í Heiðarvígunum sjálfum, án þess að það sje boðað firirfram í ráðleggingum Þórarins spaka við Barða.

Í öllum þessum firirboðum lísir sjer þá íþrótt höfundarins sem sagnamans, og vjer sjáum, að hann beitir henni með fullri meðvitund um, hvaða áhrif hún hefur til að vekja athigli og eftirvænting áheiranda eða lesanda. Enn hann beitir henni stundum óhönduglega. Sjerstaklega gerir hann alt of mikið úr ráðleggingum Þórarins við Barða, spillir með því einfaldleik frásagnarinnar, gerir sig sekan í eilífum þreitandi endurtekningum, og gerir Barða, sem er hetjan í þessum kafla sögunnar, að ósjálfstæðum og viljalausum leiksoppi í hendi Þórarins, enn það kemur illa í bága við þá stífni og einþikni, sem annars kemur fram í fari Barða, þegar hann er ekki undir hendi Þórarins, t. d. gagnvart Auði, konu hans, seint í sögunni. Líka hættir höfundi til að tiggja upp aftur það, sem hann hefur áður sagt um þessa firirboða, eins og hann vilji gefa lesendum (áheirendum) þá aftur inn með teskeiðum; svo segir sagan t. d. tvisvar frá lagasetning Borgfirðinga um eftirreið eftir veganda, lætur Þórarinn að óþörfu skíra Barða frá, hvernig hann hafi komist að vopnum Gíslunga, sem áður var sagt frá greinilega. Og á einum stað filgir fyrirboðanum tilvitnun til sögunnar, sem á eftir fer. Þetta kemur firir í sögunni um steinasörvið. Þegar búið er að segja frá því, að Ólöf kjannök lagði það um háls Barða og bað hann að láta það ekki haggast, og enn fremur, að það þokaðist til, þegar Barði gaf sveininum tigilknífinn, þá bætir sagan við: *ok þess verðr getit síðar*. Þetta er óþörf viðbót og klaufaleg, því að hún lísir vantrausti á minni og dómgreind lesanda. Þessi dæmi sína, að sagnalist höfundarins er *enn í bernsku*. Það er altítt i Íslendingasögum, að boða viðburðina svona firirfram, enn flestar beita þær þessu íþróttarbragði með meiri snild enn Heiðarvíga saga, og engin með meiri snild enn Njála. Þar er svo að segja alt boðað firirfram, enn með óviðjafnanlegri snild. Í Njálu kemur Njáll fram sem ráðgjafi

gagnvart Gunnari á mjög líkan hátt og Þórarinn gagnvart Barða í Heiðarvíga sögu, svo líkan, að það er grunur minn, að Njála hafi að nokkru leiti tekið sjer Þórarin til firirmindar við lísinguna á Njáli. Enn hvílíkur munur á íþrótt höfundanna!

Það er fleira, sem sínir, að sagnaíþróttin hefur verið á bernskuskeiði, þegar sagan var skrifuð. Höfundinum hættir við að endurtaka sjálfan sig víðar enn í firirboðunum, sem greindir vóru. Jeg hef áður tekið það fram, að reið Snorra suður til Borgarfjarðar er líst með mjög líkum atvikum eins og reið Barða suður, þegar hann fór að Þorgautssonum á Gullteig. Sama er að segja um þrjú af þeim vígum, sem Styrr vegur: firsta vígið (upphaf inntaksins bls. 3), víg Einars (?, bls. 15—16) og víg Þórhalla á Jörfa (bls. 18—20). Atvikin („motivin") eru svo að segja hin sömu. Maðurinn óvingast við Styr, vill flitja sig búferlum úr grend við hann, Styrr kemst að þessu, eltir manninn eða situr firir honum, þegar hann er að flitja sig, og drepur hann. Þessar endurtekningar eru nokkuð þreitandi. Í Njálu koma líka firir endurtekningar, og er fróðlegt að bera það saman. Þær Hallgerðr og Bergþóra láta á víxl drepa menn hvor firir annari, meðan bændur þeirra eru á þingi, og er altaf sendur maður til þings til að láta vita um vígið. Enn þeir Njáll bæta hvor öðrum vígin jafnóðum. Samt eru endurtekningarnar ekki þreitandi, því að atvikin að vígunum eru alsendis ólík og sögurnar að öðru leiti snildarlega sagðar.

Í frásögninni um eggjun Þuríðar við sonu sína lætur sagan hana leggja á borð firir þá uxabóg britjaðan í þrent — auðsjáanlega til að koma að orðstefinu: „Stærra var Hallr, bróðir yðarr, brytjaðr" — og lætur filgja sinn steininn handa hverjum þeirra — auðsjáanlega til að koma að orðstefinu: „Melt hafið þér þat bræðr, er eigi er vænna til enn steina þessa, er þér hafið eigi þorat að hefna Halls, bróður yðvars." Enginn getur neitað, að í þessu er fólgin list, því að höfundur hefur bersínilega búið til matreiðslusöguna af eigin brjósti utan um orðstefin, sem hann hefur hugsað sjer first, óhugsandi að

hún hafi filgt munnmælunum frá upphafi. Það er meira enn list, sem hjer kemur fram, það er það sem við köllum á íslensku vanalega *tilgerð*, enn gætum líka ef til vill kallað *oflist*. Matreiðslusagan er fjarstæð öllum sennileika, óeðlileg og smekklaus. Laxdæluhöfundur virðist hafa haft þessa lísing á Þuríði í huga, þar sem hann lísir eggjun Þorgerðar, móður Þuríðar við sonu sína. Enn hann fer öðru vísi að. Hann lætur Þorgerði kveðja sonu sína til filgdar við sig og tekur þá með sjer að túngarðinum í Sælingsdalstungu, þar sem Bolli, bróðurbani þeirra, bjó, og eggjar þá þar. Hjer er alt eðlilegt og smekklegt. Njáluhöfundur er þó mestur snillingur í að matreiða þess konar eggjanir, þar sem hann lætur Hildigunni leggja kápuna, sem Höskuldr var veginn í, blóðuga utan um Flosa. Annað dæmi þess, að höfundur virðist hafa búið til sögu til að koma að einkennilegu orðstefi og skíra það, er sagan, sem Gísli segir, þegar hann svarar bótabeiðni Barða á alþingi: um manninn, sem bar fjesjóð Gísla burt á spjótsoddi sínum. Þessi saga undirbír hið eiginlega svar til Barða, að bæturnar, sem hann biður um, sjeu „á vandar veifi“, þ. e.: að hann skuli aldrei fá neinar bætur firir bróður sinn. Sagan, sem Gísli segir, ber það sjálf með sjer, að hún hefur varla filgt munnmælunum frá upphafi, heldur er hún tilbúin af höfundinum til að undirbúa svarið.

Þriðja dæmi hins sama er í orðasennu þeirra Barða og Þórðar melrakka, húskarls í Ásbjarnarnesi. First er sagt frá því, að verkmenn komu heim frá slætti, og dró Þórðr melrakki eftir sjer ljáorf sitt. Barði segir: „Dregr melrakki eftir sér halann sinn nú.“ „Svá er“, segir Þórðr, „... enn þess varir mik, at þú dragir þinn hala mjök lengi, áðr þú hefnir Halls, bróður þíns“. Hjer er tilefnið — að Þórðr dró á eftir sjer ljáorfið — auðsjáanlega skáldskapur höfundarins, tilbúinn í því skini, að koma að orðstefjunum.

Annars er höfundur stundum heppinn í þeim orðstefjum, sem hann leggur persónum sögunnar í munn. Sum af þeim eru kjarnirt og smellin og eiga vel við efnið.

Jeg tek til dæmis það, sem Gestr segir, þegar hann hefur vegið Styr: „Þar launaða ek þér lambit grá“ (Styrr hafði smánað hann með því að bjóða honum grátt hrútlamb í föðurbætur). Þetta orðstef er svo einkennilegt, að það hefur að öllum líkindum filgt sögunni um víg Styrs frá upphafi, og getur vel verið sannsögulegt, enda er það almennur talsháttur enn í dag, þó að fæstir viti eða hugsi um, hvernig á því stendur. Þá er það og einkennilegt, sem sagan lætur Snorra segja við Þórð litla kausa son sinn, þegar hann eggjar hann að drepa sveininn litla, son Þorsteins Gíslasonar: „Sér köttrinn músina? Ungr skal at ungum vega.“ Hjer skreitir höfundur orðstefið með málshætti (Ungr o. s. frv.). Sama kemr firir víðar t. d.: „vera á vandar veifi“ í orðstefi Gísla við Barða, sem jeg áður drap á, og í orðstefi Eiðs, þegar hann ávítar Gísla: „segja skal þursi, ef hann sitr nökkviðr við eld“ og í svari Gísla til Eiðs á sama stað:[1]) „nýsir fjarri, en nær[2]) sjaldan“. Enn hins vegar er einn stórgalli á sumum af þeim samtölum, sem firir koma í sögunni. Höfundi hættir til að skjóta athugasemdum frá sjálfum sjer inn í viðtal persónanna. Einna hneixlanlegast er þetta í viðtali þeirra Þórarins og Barða firir Heiðarvígin, þegar Þórarinn leggur á ráðin. Í þessu lísir það sjer, að sagnalistin er enn í barndómi.

Um *mannlísingar* sögunnar getum vjer ekki dæmt til hlítar í firri kaflanum, sem að eins er til í inntaki Jóns, enn þó virðist mega ráða af því, að lísingin á Styr og Gesti, veganda hans, hafi verið einkennilegar og sjálfum sjer samkvæmar. Líka virðist höfundur hafa haft lag á að lísa Snorra sem slægvitrum höfðingja — sama kemur og fram í fari hans í síðari hlut sögunnar, enn þó ber þar meira á viturleik Þórarins. Áður hef jeg minst á þann galla, sem er á lísingu Barða, enn hann er bersínilega hetjan í síðari kafla sögunnar. Af aukapersónum er Þuríði, móður Barða, einkennilega líst, og sama virðist

1) 58. bls. — 2) Svo ber eflaust að lesa firir „ver“, sem Jón hefur lesið.

mega segja um þá Gísla Þorgautsson og Lyga-Torfa, ef vjer getum treist inntaki Jóns.

Orðaleikur kemur firir í orðstefi Barða við Þórð melrakka, sem dró á eftir sjer orfið: „Dregr melrakki eftir sér halann sinn nú", bendir til auknefnis Þórðar. Líka í orðstefi Þuríðar: „Melt hafi þér þat bræðr, er eigi er vænna til enn steina þessa" (orðið *melt* tvírætt).

Gletni (humor) kemur fram í sögunni um það, hvernig Barði lætur húskarlana hefta för Þuríðar, móður sinnar.

Annars er orðfærið einfalt og látlaust, enn þó töluvert stirðara, ekki eins mjúkt eða lipurt eins og á hinum bestu sögum vorum. Málið er fornlegra enn á nokkurri annari Íslendinga sögu. Af fornum orðmindum og orðum og talsháttum, sem koma firir í sögunni, má nefna: Orðmindir: (eigi) *myklogi* (minna) $88^{29}$, (eigi) *stórugi* (meiri) $101^{6-7}$, í *Gnúpsdali* (þáguf.) $77^{25}$, *förna* firir *förina* $65^{2}$, $88^{33}$, *brúna* f. *brúnina* $79^{23}$, *óru* f. *váru* $48^{16}$, $73^{1}$, *götva* (= grafa, eiginl. leggja í gröf með herklæðum, af *götvar)* $4^{6}$, *þarstu* f. *þar es þú* $62^{6}$; *svá nökkvi* $63^{13}$, *umb* $71^{13}$, *umbráð* $77^{22}$, *of* (4 sinnum). Orð: *tæja* = hjálpa $41^{1}$ og $48^{19}$; *farrek* (= farartálmi) $60^{10}$; *mangi* $62^{10}$; *forkuðr* (forvitni) $66^{30}$; *deila* (mat, dögurð = skamta) $73^{19,21}$, *deild* (= skamtur) $73^{15}$. Talshættir: *setja úfa við ehm.* $54^{9}$; *vera á vandar veifi* $58^{21}$, *vera lífi minnr* (= dauður) $56^{7}$; *bjóða löð* $97^{25}$, *bægja hendr við* ehm. $51^{2-3}$. Og fleira mætti til tína. Griðamál þau, sem sagan leggur í munn Þorgilsi, eru í sumum atriðum fornlegri enn griðamál Grágásar.

Höfundur skreitir sögu sína allvíða með vísum. Í firri hlutanum hefur, að vitnisburði Jóns Ólafssonar, staðið hin fagra vísa um Ásdísi Styrsdóttur, sem Heiðarvíga saga eignar Leikni berserki, enn Eyrbyggja Halla, heil vísa vel ort eftir Gest Þórhallason um víg Styrs og vísuhelmingur eignaður sama. Í síðari hlutanum: eggjunarvísa Þuríðar til Barða, sonar síns, sjö vísur eftir Eirík viðsjá um Heiðarvígin; fjórar, þaraf tvær mjög einkennilegar, vísur eftir Þorbjörn Brúnason, ein eftir Gísla Þorgautsson og ein

eftir Tind Hallkelsson. Allar þessar vísur eru eldri enn sagan og flestar líklega rjett feðraðar. Efnið í tveimur hinum einkennilegu vísum Þorbjarnar er ávítur til konu hans firir, að hún vilji sig dauðan. Sagan fljettar þær inn í sögu um kinjafirirburði, sem Þorbjörn á að hafa sjeð firir dauða sinn, sem vísurnar eiga ekkert skilt við, og sínir þetta best, að vísurnar eru eldri enn sagan. Heiðarvíga saga er gott dæmi þess, að jafnvel hinir elstu íslensku sagnamenn hafa skreitt Íslendingasögur með vísum.

Að sagan sje gömul, líklega elst af öllum þeim Íslendinga sögum, sem geimst hafa til vorra tíma, á það bendir eigi að eins hið fornlega orðfæri sögunnar, heldur og ímislegt annað. Elsti kafli Stokkhólmshandritsins, gamla kverið, er, eins og jeg hef þegar tekið fram, skrifaður um miðja 13. öld, og hann er bersínilega ekki frumrit sögunar, því að í honum koma firir ímsar villur og úrfellingar, sem ómögulega geta stafað frá frumhöfundi sögunnar. Að þessu kveður svo mikið, að það er varla líklegt, að þessi elsti kafli sje skrifaður beint eftir frumritinu, gæti vel stafað frá því í 3. eða 4. lið. Af þessu virðist mega ráða, að frumritið geti varla verið ingra enn frá aldamótum 1200, enn kunni hinsvegar að hafa verið talsvert eldra, t. d. frá h. u. b. 1180—1190. Í sömu átt bendir það, að Heiðarvíga saga virðist als ekki hafa notað aðrar sögur, enn hins vegar hafa að minsta kosti Eyrbyggja og Grettis saga notað hana. Af þeim tveim sögum er Eyrbyggja miklu eldri, rituð, eftir því sem jeg hef komist næst, um 1220. Nokkru eldri hlítur Heiðarvíga saga að vera, og kemur það heim við það, sem áður var sagt. Ef vjer berum Heiðarvíga sögu saman við þær sögur, sem áreiðanlega eru til orðnar snemma á 13. öld, t. d. Egils sögu (um 1208), Eyrbyggju (um 1220), þá virðist mjer orðfærið og ifirleitt allur blærinn á Heiðarvíga sögu mæla með því, að hún sje hjerumbil mansaldri eldri, rituð um 1180—90.

Um *höfundinn* vitum vjer ekki annað enn það litið, sem ráða má af sögunni. Hann hefur verið gagnkunnugur bæði í Húnavatnsþingi og í Borgarfirði, að minsta kosti

í Hvítársíðu, og líklega sömuleiðis á Snæfellsnesi og við Breiðafjörð, enn það er þó nokkuð vafasamara, því að upphaf sögunnar, sem þar gerist, er ekki til nema í inntaki Jóns Ólafssonar, og síðari hlutinn kemur svo lítið vð Breiðafjörð, að hann sker ekki úr. Af þessu leiðir, að erfitt er að segja, hvort höfundurinn hefur verið Húnvetningur eða Borgfirðingur eða jafnvel Breiðfirðingur. Finnur Jónsson hallast helst að því, að hann hafi verið Húnvetningur, og færir firir því helst þá ástæðu auk kunnugleikans, að hann dragi fremur taum Barða og Norðlendinga enn Borgfirðinga í sögunni um Heiðarvígin, og úr Eyrbyggjuhjeraðinu geti hann varla verið, af því að missagnir Heiðarvíga sögu við Eyrbyggju síni, að höfundur Heiðarvíga sögu hafi ekki bigt á sömu munnmælasögum og Eyrbyggju höfundur. Á þessa síðarnefndu ástæðu legg jeg enga áherslu. Í sama hjeraðinu gátu vel gengið mismunandi munnmælasögur um sömu viðburði, og missagnir þær, sem eru um tímatal, eru þíðingarlitlar, því að þar kemur fremur til greina útreikningur höfundanna enn munnmælasögur. Það er rétt, að Heiðarvíga saga hallast fremur á sveif Norðlendinga enn Borgfirðinga í frásögninni um Heiðarvígin, enn það getur komið af því, að höfundurinn hefur í því efni filgt norðlenskum sögnum, og getur hann vel verið Borgfirðingur eða Breiðfirðingur firir því. Hins vegar er það einkennilegt, að sumt í lísingum sögunnar á staðháttum í Húnavatnsþingi bendir til, að höfundur sje annaðhvort ekki borinn og barnfæddur Húnvetningur eða að hann skrifi ekki firir Húnvetninga, heldur firir menn, sem þar eru ókunnugir. Lega bæja og staða er greind með þeirri nákvæmni, sem var alveg óþörf firir Húnvetninga, og er tæpast skiljanleg nema því að eins, að höfundurinn hafi haft ókunnuga utanhjeraðsmenn firir augum eða ef til vill verið sjálfur frá upphafi ókunnugur um þessar slóðir og viljað láta aðra verða aðnjótandi þess kunnugleika, sem hann síðar hafði aflað sjer. Staðirnir, sem jeg ræð þetta af, eru þessir: 64[14]: Bær heitir á Bakka (= Hjaltabakka), hann er firir utan Húnavatn; 64[21]: Þar er kallat í sveit þeiri á Kólgumýrum, ok eru

þar bæir margir, ok heitir bær á Meðalheimi; $64^{26-27}$: Bær heitir at Búrfelli milli Svínavatns ok Blöndu; þat er á Hálsum (nú Ásum) út; $64^{30}$: Í Langadal heitir bær á Auðólfsstöðum; $65^{3}$: í Sléttadal, þat er upp frá Svínavatni; $65^{12}$: at Ásmundargnúpi — þat er milli Vatns (dals?) og Víðidals; $66^{4}$: Bær heitir í Vestrhópi at Þernumýri; $75^{1}$: Hann (ɔ: Faxalækr) fellr ór Vestrhópsvatni ok ofan í Víðidalsá; einkennilegast er þó það sem Þórarinn er látinn segja við Barða um hinn alkunna stað, þar sem þing Húnvetninga var haldið frá ómuna tíð og klaustrið stóð síðar, á bls. $64^{6}$: Nú mun vera mannamót á milli Hóps ok Húnavatns, þar sem heitir Þingeyrar. Staðir þessir eru of margir til þess að menn geti skírt þá sem innskotsgreinar, sem afskrifarar, ókunnugir í Húnaþingi, hafi bætt inn í. Þeir hljóta að vera upphaflegir í sögunni. Að efninu til eru allar þessar staðskíringar keiprjettar og bera vott um, að höfundur þekkir hverja þúfu. Enn hvað kemur til, að hann greinir þetta svo nákvæmlega? Hjer er um tvent að gera. *Annaðhvort* er höfundurinn ekki borinn og barnfæddur í Húnavatnsþingi, heldur hefur kinst hjeraðinu á fullorðins árum; þá er skiljanlegt, að hann sje sjer þess meðvitandi, að aðrir, sem söguna lesa, muni þurfa nákvæma skíringu á staðháttunum. *Eða* höfundur hefur aðallega haft aðra firir augum enn Húnvetninga sem lesendur sögunnar, líklega helst Breiðfirðinga eða Borgfirðinga og skrifað firir þá. Þeir þurftu nákvæmra staðskíringa, enn firir Húnvetninga vóru þær óþarfar. Ef þessi síðari skíring er hin rjetta, þá getur vel verið, að höfundur hafi verið borinn og barnfæddur í Húnavatnsþingi, enn að öllum líkindum er sagan þá rituð utan Húnavatnsþings, líklega við Breiðafjörð eða í Borgarfirði.

Finnur Jónsson heldur, að höfundur hafi verið klerkur, og ræður það af því, hvernig sagan lísir Guðlaugi sini Snorra goða, sem er á bænum í kirkju að Helgafelli, þegar faðir hans er að búa sig í atförina að Þorsteini Gíslasini, og neitar að veita föður sínum vígsgengi, fer síðan til Englands og gerist þar munkur. Frásögnin er

því miður ekki til nema í inntaki Jóns Ólafssonar, enn af því að Jón annars man vel efni sögunnar, þó að hann villist oft í nöfnum, er engin ástæða til að rengja söguna,[1]) og hún ber greinilega klerkablæ í inntakinu. Mjer þikir því líklegt, að höfundur hafi verið klerkur. Enn sá klerkur hefur eflaust verið af höfðingjaætt, því að hann hefur bersínilega mikið gaman af að lísa deilum höfðingja og vígaferlum.

Nokkrar líkur eru til, að höfundur hafi verið af Möðruvellingaætt. Aftan til í sögunni lísir sagan víðar enn á einum stað drenglindi Eyjólfs Guðmundarsonar hins ríka, sem Möðruvellingar vóru frá. Barði, sem er höfuðpersónan í síðari hluta sögunnar, var og náfrændi Eyjólfs, sem áður er sínt. Líka segir sagan nákvæmlega frá tengdum Snorra og Þorgils Arasonar við Einar þveræing, bróður Guðmundar ríka. Því miður vitum vjer mjög lítið um æfi þeirra Möðruvellinga, sem uppi vóru, þegar sagan var skrifuð. Til greina geta komið Runólfr Dálksson, sem dvaldi um 1174 á Helgafelli, Runólfr Ketilsson biskups, sem er talinn með norðlenskum prestum í prestaskránni frá 1143 og deir 1186 (ísl. ann.), og er þá munkur, líklega í Þingeiraklaustri hjá Kára sini sínum, föður Styrmis fróða, eftir því sem Hannes Þorsteinsson hefur sínt firstur manna. Kári var ábóti á Þingeirum 1181—1187. Bæði Kári og sistursonur hans Ketill ábóti á Helgafelli, sonur Hermundar Koðránssonar á Gilsbakka, gætu vel verið höfundar sögunnar, og þikir mjer Ketill sjerstaklega líklegur til þess, því að í honum koma saman ættir Möðruvellinga (móðurætt Koðráns, Álfheiðr Runólfsdóttir), Gilsbekkinga (föðurætt Koðráns) og Skíðunga (formóðir Koðráns Gunnhildr, kona Hermundar Illugasonar á Gilsbakka, dóttir Orms Koðránssonar frá Gilljá Eilífssonar arnar, langafa Barða).[2]) Ketill ábóti dó 1220, og er líklega fæddur um 1160. Þikir mjer líklegt, að hann hafi á árunum 1181—7 dvalið í Þingeiraklaustri hjá Kára ábóta,

1) Guðlaugs munks er og getið í viðbæti við Eyrbyggju. — 2) Sbr. Skírni 1912, 130.—131. bls.

móðurbróður sínum, og þar kinst bæði staðháttum í Húnavatnsþingi og sögnum um Heiðarvígin. Enn annars virðist hann hafa alið allan aldur sinn utan Húnavatnsþings. Hann er borinn og barnfæddur á Gilsbakka, þar sem höfundur Heiðarvíga sögu er nákunnugur, síðar vitum vjer, að hann var þjónustumaður Páls biskups á efstu árum hans (d. 1211), og 1216 varð hann ábóti á Helgafelli. Ef hann er höfundur, verða hinar nákvæmu upplísingar sögunnar um legu staða í Húnavatnsþingi skiljanlegar. — Enn annars verður að skoða þetta, sem jeg nú hef sagt, að eins sem bendingu. Full vissa um höfundinn verður aldrei fengin.

## Kormáks saga.

— — —

Sagan segir mest frá ástum og hernaði líkt og t. d. Gunnlaugs saga og Bjarnar saga Hítdælakappa. Hún er mjög ólík Gunnlaugs sögu að því er frásögn snertir. Ifir Gunnlaugs sögu hvílir riddarasögu-blær, sem ekki ber neitt á í Kormáks sögu. Gunnlaugs saga fegrar (idealiserar) bæði persónur og viðburði. Það gerir ekki Kormáks saga, og líkist hún að því leiti meira Bjarnar sögu Hítdælakappa.

Um afstöðu Kormáks sögu við aðrar sögur er það að segja, að nokkrar líkur eru til, að hún hafi þekt og notað Heiðarvíga sögu, þar sem hún segir frá því, er fóstra Helgu jarlsdóttur þreifar um Ögmund, áður enn hann fer til einvígis, líkt og fóstra Barða þreifar um hann, þegar hann fer á stað í Heiðarvígin. Landnámu hefur höfundur Kormáks sögu ekki þekt. Það má sjá á því, sem sagan segir um „Skíðinga“ (—unga?). Sagan veit, að Þorvaldr tinteinn er af þeirri ætt, og að hann var Eysteinsson, enn rekur þetta ekki nánar. Það mundi höfundur eflaust hafa gert, ef hann hefði þekkt Landnámu, því að þar er ættin greinilega rakin. Þeir frændur kölluðu sig Skíðunga, af því að þeir röktu ætt sína upp til Skíða hins gamla Bárðarsonar, sem lifði firir landnámstíð. Sonarsinir Skíða voru tveir landnámsmenn, Þorkell vingnir, sem nam Vatnsskarð og Svartárdal, og Eilífr örn, sem virðist hafa numið land ifir þveran Húnaskaga, bæði í Hegranesþingi og Húnavatnsþingi, firir sunnan Hólmgöngu-Mána. Frá báðum þessum landnámsmönnum eru ættir komnar, einkum þó stór ætt frá Eilífi, og gat jeg um hana við Heiðarvíga sögu. Eilífr var langafi Víga-Barða, afi Þorvalds trúboða víðförla Koðránssonar, og

afi Þorvalds tinteins, því að eftir Landnámu er Eysteinn, faðir Tinteins, einn af Eilífssonum. Að ættin hafi verið rík og í miklum metum, sjest á því, að sonur Eilífs, Þjóðólfr, er nefndur goði að Hofi á Skagaströnd í Húnavatnsþingi, og að hún mægist við Vatnsdæli í Húnavatnsþingi, Höfðamenn í Skagafirði og Eyfirðinga í Vaðlaþingi. Alt þetta veit Kormáks saga auðsjáanlega ekkert um, því að hún segir að vísu, að ættin hafi verið fjölmenn, enn bætir því við, að hún hafi haft „litla mannheill". Það hefði höfundurinn ekki sagt, ef hann hefði þekt Landnámu. Auk þess kemur hún beint í bága við Landnámu, að því er Þorvarð snertir, bróður Tinteins. Hún þekkir ekki aðra bræður Tinteins enn þennan Þorvarð. Landnáma telur aftur á móti tvo bræður Tinteins, Örn í Fljótum og Þorstein heiðmenning, enn getur ekki Þorvarðs. Það eina, sem kemur heim við Landnámu, er það, að bróðirinn bír í Fljótum. Þetta nægir til að sína, að Kormáks saga og Landnáma eru hvor annari óháðar, og fleira er því til sönnunar, sem of langt irði að fara út í. Landnáma minnist að vísu á einum stað á Kormák og ber saman við Kormáks sögu um, að móðir hans hafi verið Dalla, dóttir Önundar sjóna, sistir Steinars, enn þessi staður í Sturlubók og Hauksbók er tekinn eftir Egils sögu og hefur ekki staðið í hinni upphaflegu Landnámu. Ekki virðast heldur Egils saga og Kormáks saga eiga neitt skilt hvor við aðra. Egils saga getur að vísu Kormáks og ber saman við Kormáks sögu um nöfn foreldra hans, enn það ber á milli, að Egils saga segir, að faðir Ögmundar, föður Kormáks, hafi heitið Galti, enn Kormáks saga nefnir hann Kormák. Nú gæti þetta að vísu komið heim, ef Kormákr þessi hinn eldri, afi Kormáks skálds, hefði haft auknefnið galti.[1]) Enn missögnin bendir til, að sögurnar muni vera hvor annari óháðar, og því til stirkingar er það, að Egils saga drepur ekki einu orði á hólmgöngu Steinars við Bersa, sem Kormáks saga segir frá, nje Kormáks saga á deilur Steinars og Þorsteins Egilssonar, sem Egils saga

---

1) Sbr. Snæbjörn galti Landn., Þorsteinn galti Sturl.

segir frá. Egils saga lætur Steinar flitja að Elliða í Staðarsveit á Snæfellsnesi, þegar hann er flæmdur frá Ánabrekku. Kormáks saga lætur hann búa að Elliða, enn getur ekki veru hans á Ánabrekku. — Bæði Kormáks saga og Laxdæla tilfæra vísurnar, sem Hólmgöngu-Bersi orti um sig og sveininn fóstra sinn Halldór, son Ólafs pá, annar þeirra er örvasa firir elli sakir, hinn firir bernsku sakir, enn sögunum ber ekki saman um texta vísunnar, sem virðist rjettur í Laxdælu, enn firri hlutinn hræmuglega afbakaður í Kormáks sögu.[1]) — Auk þess er skírt mjög eðlilega frá tilefninu í Laxdælu, enn þvert á móti í Kormáks sögu. — Halldórr virðist þar ekki liggja í vöggu, heldur vera kominn á legg. Báðar sögurnar hafa hjer haft firir sjer sömu munnmælasöguna, Laxdæla rétta, enn Kormáks saga aflagaða, enn hvorug sagan þekkir hina.

Ein saga virðist hafa þekkt og notað Kormáks sögu, og það er Grettis saga. Hún segir frá því, að Grettir hafi á uppvaxtarárum sínum átt illdeilur við tvo bræður, sem bjuggu á Mel(stað) og hjetu Kormákr og Þorgils. Sá sem þekkir vel Grettis sögu, getur varla verið í efa um, að höfundur hennar hefur tekið þessa bræður beint úr Kormáks sögu. Jeg mun síðar sína dæmi þess, að höfundur Grettlu tekur til láns nöfn úr ímsum sögum og spinnur utan um þau frásagnir um deilur Grettis við þá menn, sem nöfnunum heita. Nú er það að vísu ljóst, að Kormákr, sem irkir um Sigurð Hlaðajarl föður Hákonar „illa“, hefur varla getað deilt illdeilum við Gretti, í þann mund sem Ólafr helgi gekk til ríkis (1014 svo hjer um bil eftir tímatali Grettlu), og það því síður, ef Kormákr hefur fallið á Skotlandi á dögum Haralds gráfelds, eins og Kormáks saga segir. Því hjelt Guðbrandur Vigfússon því fram í Safni til sögu Íslands, tímatalsritgerðinni, að þessir bræður á Mel, sem Grettis saga segir frá, væri ekki Kormákr skáld og Þorgils bróðir hans, heldur sinir Þorgils,

1) Liggjum báðir / í lamasessi, / Halldór ok ek, / höfum engi þrek. / Veldr æska þér, / enn elli mér, / þess batnar þér, / enn þeygi mér.

bróðursinir skáldsins, og þetta hafa síðan flestir tekið eftir Guðbrandi. Enn i Origines fellur Guðbrandur aftur frá þessu og heldur, að höfundur Grettis sögu tali hjer um skáldið og bróður hans og geri þá i ógáti samtíða Gretti. Jeg hallast heldur að hinni eldri skoðun Guðbrands, því að höfundur Grettlu er annars fremur skír i tímareikningi, og svo mundi hann eflaust hafa auðkent Kormák með nafninu „skáld", ef hann ætti við skáldið. Enn hvort sem rjettara er, held jeg að það sje vafalaust, að Grettis sögu höfundurinn hafi lánað þessi nöfn úr Kormáks sögu og spunnið utan um þau söguna um viðureign mannanna við Gretti. Niðurstaðan verður þá sú, að nokkrar líkur, enn ekki neinar órækar sannanir, eru firir því, að Kormáks saga hafi þekt Heiðarvíga sögu. Hins vegar virðist Grettis saga hafa notað Kormáks sögu. Annars sínist ekki vera neitt samband milli Kormáks sögu og annara sagna.

Í Íslendingadrápu Hauks Valdísarsonar eru tvær vísur hvor á eftir annari, hin firri um Hólmgöngu-Bersa og hin síðari um Kormák. Það, að þessir 2 kappar eru teknir saman, gæti bent til, að höfundurinn hefði þekt viðureign þeirra úr Kormáks sögu. Um Bersa segir Haukr, að hann hafi vegið hálfan fjórða tug manna, sem kemur heim við vísu Bersa í 16. kap. Kormáks sögu. Enn um Kormák, að hann *„trúði á sik"*, ɔ: á sinn mátt og megin. Þetta stendur að vísu hvergi í Kormáks sögu, enn kemur vel heim við lísing sögunnar á Kormáki. Meðferð hans á töfrasverðinu Sköfnungi þvert ofan í allar varúðarreglur eigandans, Miðfjarðar-Skeggja (9. k.), og framkoma hans gagnvart Þórdísi spákonu, þegar hann hvað eftir annað truflar kukl hennar (22. k.), sínir, að Kormákr trúði meira á sjálfan sig enn á forneskju eða galdra, sbr. orð hans við Þórdísi (22. k.) „ekki trúi ek á slíkt". Það sem Haukr segir um Bersa og Kormák, gæti því beint verið dregið út úr Kormáks sögu. Enn víst er það ekki. Hann gæti vel þekt efnið frá munnmælasögum. Ef Haukr hefur notað Kormáks sögu, gefur það nokkra bendingu um aldur sögunnar. Menn hefur greint á um aldur Íslendingadrápu. Finnur Jónsson telur hana orta á síðari helmingi 12. aldar,

aðrir, Guðbrandur Vigfússon, Möbius, á 13. öld. Nokkrar líkur eru til, að Haukr sje sami maður og Víga-Haukr, son Orms Fornasonar, sem getur um í Sturlungu. Ormr, faðir Víga-Hauks, var sonur Forna Sökkólfssonar, sem Fornungar eru við kendir, og Vigdísar sistur Guðmundar díra.[1]) Nú vitum vjer, að Guðmundr díri, móðurbróðir Orms, átti sjer frillu, sem hjet Valdís, og við henni eina dóttur, Ingibjörgu.[2]) Nafnið Valdís er sjaldgæft, ekki nefndar fleiri enn 2 Valdísar í Sturlungu, önnur þessi, hin dóttir Hreins ábóta á Þverá, sem getur ekki komið til greina sem móðir Hauks, því að hún var gift Magnúsi Þorlákssini á Melum. Ekkert er líklegra enn að móðir Hauks hafi einmitt verið Valdís, frilla Guðmundar díra, og að hann hafi gefið hana Ormi sistursini sínum, þegar hann var sjálfur orðinn leiður á henni. Um Víga-Hauk vitum vjer, að hann flæktist í skærur Vestfirðinga nokkru eftir 1200 og varð að fara af landi burt sakir vígaferla um 1209, first til Noregs og þaðan til Grænlands, ásamt Hallberu konu sinni. Ef hann er höfundur Íslendingadrápu, þá er líklegt, að hann hafi ort hana, áður enn hann fór hjeðan, og hafi hann þekt Kormáks sögu, hlítur sagan að vera eldri enn 1209. Enn alt þetta er þó nokkuð vafasamt.

Þá er næst að tala um *íþrótt* þá, sem lísir sjer í Kormáks sögu. Að því er snertir uppistöðuna, er Kormáks saga ólík öðrum Íslendingasögum að því leiti, að í henni eru vísurnar sú beinagrind, sem heldur saman sögunni. Aðrar sögur dreifa vísum inn í frásögn hingað og þangað til príðis, enn vísurnar koma fram sem aukaatriði og bera ekki frásögnina í sundurlausu máli ofurliði. Enn í Kormáks sögu eru vísurnar bersínilega sá þráður, sem frásögnin er spunnin utan um, sá meginþáttur, sem heldur saman sögunni. Langflestar af þessum vísum eru eignaðar Kormáki, als 65 vísur eða vísustúfar, þá Bersa 15, Steinari 2, Steingerði 1, 1 vísa nafnlaus, 1 fjórðungur Narfa, og

1) Um Fornunga sbr. E. O. Brim í Safni III 534—6. — 2) Sturl.[3] I, 173. bls.

allar líkur til, að þær sjeu flestar fornar og rjett feðraðar, að minsta kosti eldri enn sagan. Sagan er bersínilega svo til orðin, að höfundur hefur ráðist í að búa til sögu utan um þessar vísur með stuðningi í þeim og munnlegum sögnum, sem vísunum filgdu. Enn því miður hefur hann kunnað vísurnar mjög afbakaðar — það bera þær sjálfar best með sjer — og munnmælasögurnar, sem filgdu, hafa líka verið ruglaðar — það sjest á því, að höfundur tilfærir stundum sömu vísuna við tvö ólík tækifæri, stundum þó lítið eitt breitta, og stundum er að eins annar helmingur vísunnar endurtekinn og heimfærður upp á annan viðburð enn áður. Í sjálfu sjer er ekkert óeðlilegt í því, að sama vísan eða vísuhelmingurinn gæti gefið tilefni til tveggja ólíkra sagna, enn höfundur hefur tekið alt slíkt hugsunarlaust upp í söguna eftir munnmælunum. Jeg hef skrifað um þessar endurtekningar vísna í Kormáks sögu í ritgerð minni um vísur sögunnar í Árb. f. n. oldk. og hist. 1888, 2.—4. bls. — Af því að vísurnar eru meginþáttur uppistöðunnar, er eðlilegt, að hún dragi dám af þeim. Á einum stað í sögunni er útúrdúr; er það, þegar hún heldur áfram að segja sögu Bersa, eftir að viðureign þeirra Kormáks er á enda. Flestir, t. d. Finnur Jónsson, Guðbrandur Vigfússon og Möbius, halda, að höfundurinn hafi hjer haft firir sjer sjerstaka Bersa sögu og tekið Bersaþáttinn mestmegnis eftir henni. Þetta finst mjer ekki nauðsynlegt. Það er að eins niðurlag Bersaþáttarins (15.—16. k.), sem ekki kemur Kormáks sögu við, og það ber alveg sama blæ og þátturinn á undan; kjarninn í niðurlaginu eru vísurnar, eins og í firri hluta þáttarins og eins og í sögunni allri. Jeg er því sannfærður um, að allur Bersaþátturinn er upphaflegur í sögunni. Höfundurinn hefur kunnað vísur Bersa, eigi að eins um viðureign hans við Kormák og Steinar, heldur og um þá atburði, sem niðurlag þáttarins skírir frá, og var því mjög eðlilegt, að hann vildi koma þeim fróðleik sínum að sem framhaldi af sögnum þeim, sem beint koma við Kormáks sögu. Enn við þetta kemur óneitanlega snurða á uppistöðuna. Enn að öðru leiti hefur höfundi tekist furðanlega að

sameina hina sundurleitu viðburði, sem vísurnar eiga við, í eina heild, svo að úr verður nokkurn veginn samföst æfisaga Kormáks.

Í mannlísingum hefur höfundi tekist einna best að lísa Kormáki. Hann er tilfinningamaður, eins og skáldum er títt, og lætur geðshræringar sínar ráða mestu, hraustur er hann og hugprúður, sjest ekki firir og lætur „vaða á súðum“. Ást hans er sterk og ekki síður hatur hans og reiði. Ef honum er mótspyrna veitt, þá færist hann í aukana og sækist af öllu afli eftir því, sem honum er bannað, enn sje honum gefinn kostur á að fá það, sem hann hefur mest sótst eftir — þá hirðir hann ekki um það. Þetta mislindi hans kemur ljóslega fram gagnvart Steingerði. Því miður spillir höfundurinn þessari ágætu lísingu með því að eigna töfrum Þórveigar mislindi Kormáks við Steingerði. Lífsskoðun hans virðist vera að trúa á mátt sinn og megin, að minsta kosti trúir hann ekki á forneskju eða fjölkingi, enn mislindið kemur hjer aftur fram í því, að hann sækist eftir töfrasverðinu Sköfnungi, enn beitir því gagnstætt öllum forneskjureglum, sömuleiðis að hann leitar aðstoðar Þórdísar spákonu til að fá sigur í hólmgöngu, enn ruglar sjálfur firir henni seiðinn og hellir ifir hana skömmum. Ifirleitt má segja, að lísing Kormáks sje snildarleg. Hún er ekki uppi í skíjunum, heldur beint tekin út úr lífinu. Kormákr er ekki fegraður (idealiseraður), heldur er lundarfar hans undarlegt sambland af frosti og funa, kostum og ókostum, og einmitt þess vegna verður hann lesandanum kær. Steingerðr er líka mislind eins og elskhugi hennar, enn mind hennar er ekki dregin með eins skörpum dráttum eins og mind Kormáks. Bersa er og allvel líst; hann er garpur hinn mesti og drengur góður, bíður t. d. fjandmanni sínum, Kormáki, að lækna sárið, sem hann hefur sært hann, enn Kormákr vill ekki þiggja. Lísingin á lítilmensku Þorvalds tinteins er og fremur góð og sjálfri sjer samkvæm. Á öðrum persónum ber minna.

Annars er sagnaiþróttin ekki á háu stigi í Kormáks sögu. Samtöl persónanna eru fremur dauf og máttlaus.

Á stöku stað bregður höfundur firir sig þeirri íþrótt, að boða firirfram þá viðburði, sem á eftir fara, t. d. þegar hann lætur Þórveigu seiða til þess, að þau Kormákr og Steingerðr skuli ekki mega njótast. Þar sem höfundur í birjun Bersaþáttarins segir, að sinir Þórðar Arndísarsonar hafi báðir verið ingri enn Ásmundr Bersason, undirbír hann líka frásögnina síðar í þættinum um missætti Bersa og Þórðar, sem hlautst af því, að Ásmundr misþirmdi sonum Þórðar í leikum. Enn annars ber litið á slíku í Kormáks sögu. Persónuskrá er engin fremst í sögunni eins og í svo mörgum sögum, heldur eru persónurnar kintar (præsenteraðar firir) lesandanum smátt og smátt, jafnóðum og þær koma til sögunnar, og sumar eru jafnvel als ekki kintar á rjettum stað.[1]) Þessi og fleiri smíðaliti sína, að íþrótt sögunnar stendur á fremur lágu stigi, að minsta kosti þegar hún er borin saman við þær sögur, sem samdar eru af mestu snild.

Á Kormáks sögu er meiri forneskju-blær enn á flestum öðrum Íslendingasögum. Höfundur hefur auðsjáanlega haft mikið indi af fornum fróðleik, einkum þeim, sem snertir siðu og þjóðtrú heiðinna forfeðra. Hvergi er fornum hólmgöngusiðum líst jafn greinilega og þar. Höfundur lætur Bersa á einum stað[2]) gera þann mun á hólmgöngu og einvígi, að á hólmgöngu sje vandhæfi, enn als ekki á einvígi, með öðrum orðum, að hólmgangan sje bundin ströngum og nákvæmum lögum, enn einvígi ekki. Sommarin, sænskur maður, sem hefur skrifað um Kormáks sögu, heldur, að þetta sje rangt hjá höfundi, og að enginn munur hafi verið á hólmgöngu og einvígi, og Finnur Jónsson tekur í sama streng, enn jeg sje ekkert því til firirstöðu, að höfundur hafi hjer rjett firir sjer, og stiður það hans mál, að víða í öðrum sögum er getið

1) T. d. Gunnhildr konungamóðir 2. k., bls. 4[5]; bræður Bersa 11. k., bls. 22[4]; þar sem þeir bræður Þorvaldr tinteinn og Þorvarðr eru first kintir (17. k., bls. 36[3]), er getið um bústað Þorvarðs (í Fljótum), enn ekki Þorvalds; siðar (20. k., bls. 42[26]) er greindur bústaður Þorvalds, og endurtekið um bústað Þorvarðs; Þórólfr, maður Þórdísar spákonu, er ekki nefndur, þar sem hennar er first getið (9. k., 18. bls.), heldur löngu siðar (22. k., 45. bls.). — 2) 10. k., bls. 20[24].

um hólmgöngulög,[1]) enn hvergi, svo jeg muni, um einvígislög. Hvergi nema í Kormáks sögu er talað um *tjösnur* eða *tjösnublót*, og hefur sagan þar eflaust geimt endurminning um heiðinn sið. Sama er að segja um það, er sagan segir, að álfar hafi verið blótaðir með því að rjóða hól þann, er þeir áttu að búa í, uxablóði og gera álfunum veislu af uxaslátrinu; þetta er eflaust forn siður, enn það sínir ófimleik höfundar í meðferð efnisins, að hann lætur þann, sem blótar, rjóða hólinn löngu eftir að uxinn er drepinn og blóðið farið forgörðum. — Forn trú á galdra kemur víða fram í sögunni (Þórveig, Vígi heimamaður Bersa, og þó einkum Þórdís spákona), sömuleiðis trú á töfra, sem filgdu einstökum sverðum, og lifsteina, sem gætu læknað sár manna (Sköfnungr Skeggja, Hvítingr Bersa, sem lifsteinn filgir).

Höfundur hefur miklar mætur á orustulísingum og víkingasögum. Kormákr er altaf með sverðið á lofti, ekki síst í utanferðum sínum, þegar hann legst í víking.

Í orðfæri sögunnar hef jeg ekki fundið neitt, sem beri vott um, að sagan sje mjög ung, nema ef vera skildi orðið *skjaldsveinn* (12. k., bls. 28[1]). Að því er eitthvert riddarasögubragð, því að riddarasögur hafa það til að þiða með orðið fr. *escuier*, en. *esquire*, þjónn, sem ber skjöld riddara, enn í Kormáks sögu er það haft um mann, sem heldur skildi firir annan í hólmgöngu, og getur vel verið, að sú þiðing sje forn í málinu. Af þessu orði verður því ekkert ráðið um aldur sögunnar. Níleg orð: *falskona*, 9. k., bls. 18[14] — *fals* kemur firir í St. Hom. —; *forsmaðr*, 9. k., 19[23], *fors (forz)*, hvorugk. kemur firir talsvert snemma, og enginn veit, hve gamalt orðið kann að vera í íslensku. Annars er engin furða, þó að níleg orð komi firir í sögu, sem ekki er til nema í ungum handritum. Afskrifarar löguðu ósjálfrátt orðfærið eftir máli sinna tíma. Hins vegar koma firir íms einkennileg, gömul orð, sem koma firir sjaldan eða aldrei annars staðar, t. d. *málvöndr*, kvarði til að mæla með, *tjösnur*, *leiðindr*, adj.,

1) Eg., Valla-L., Svarfd., sbr. Víga-Gl., k. 4.

óþægilegur (í viðmóti)[1]); sögnin *skría* (skrjá): *Narfi skrjáði um hít ytra* k. 5., bls. 12[2]; *hrakdýr* k. 7, bls. 15[5] (hvaðanæfa augun sem á hrakdýri — óvís þíðing, sbr. auknefnið *hrakauga).*

Af þeim vísindamönnum, sem ritað hafa um Kormáks sögu á síðari tímum, er Guðbrandur Vigfússon sá eini, sem virðist halda því fram, að hún sje tiltölulega gömul. Að vísu drepur hann ekki berum orðum á aldur sögurnar, enn í Prolegomena firir Sturlungu segir hann, að sagan sje „hið frumlegasta rit í sundurlausu máli á íslensku, sem geimst hafi til vorra tíma", og verður það varla skilið öðruvísi enn að sagan sje gömul að hans dómi. Allir aðrir, Möbius, Finnur Jónsson, E. Mogk, segja, að hún sje „eftirklassisk", þ. e. rituð eftir blómaöld Íslendingasagna. Að dómi þeirra er hún samin seint á 13. öld. Ástæður þær, sem þeir færa firir máli sínu, eru í stuttu máli þessar:

1. Vísurnar bera sjálfa söguna ofurliði. „Eftirklassiskt" (Mogk, Möbius).

2. Sagan er full af bábiljum um galdra, töfrasverð og lífsteina, sömuleiðis sögum um viðureign við víkinga. Þetta fer í bága við sögulegan sannleika. Sömuleiðis er tímatalið víða rangt. Alt þetta sínir, að sagan er „eftirklassisk" (Möbius, Mogk, Finnur Jónsson).

3. Upphaf sögunnar: „Haraldr konungr hinn hárfagri réð fyrir Noregi, þá er saga sjá gerðist", er öðruvísi enn tíðkast í klassiskum sögum og ber vott um, að hún er „eftirklassisk" (F. J.).

Mjer finst sambandið milli þessara forsendna og áliktunarinnar, að sagan sje „eftirklassisk", vera mjög vafasöm. Mín skoðun er, að út úr þessum forsendum megi öllu fremur leiða þá áliktun, að sagan sje „*for*-klassisk", samin *firir* gullöld íslenskra sagna. Sjerstaklega gildir þetta um *firstu* forsenduna, að vísurnar taka

1) Kemur firir í hvorugk. *leiðint* í St. Hom. 50[18], Hauksbók og Vémundar sögu — sjá Fritzner[2] — og er af orðabókunum ranglega heimfært undir *leiðinn*, sem ekki virðist koma firir, hvorki í fornu nje níju máli — *leiðinligr* stendur eflaust firir *leiðindligr*.

upp svo mikið rúm í sögunni. Sagnaritun Íslendinga á ritöldinni á bersínilega rót sína að rekja til næsta tímabils á undan, sem má kalla kveðskaparöldina, þegar alt var lagt á minnið og kvæði skáldanna voru hinn besti stuðningur til að muna sagnirnar. Firsta sporið í þá átt að skrifa samanhangandi sögur mun hafa verið fólgið í því, að söguritarinn safnaði í eitt vísum um viðburðina og tengdi þær saman með frásögnum í sundurlausu máli, sem vísunum filgdu. Jeg hef áður í þessum firirlestrum bent á það, að vísur muni hafa verið aðalkjarninn í sögum þeim, sem þeir Hrólfr af Skálmarnesi sögðu í Reikhólaveislunni 1119[1]). Það voru fornaldarsögur um Hröngvið víking og Hrómund Greipsson og Orm Barreyjaskáld. Þessar sögur virðast hafa staðið með annan fótinn í kveðskaparöldinni, þar sem vísurnar voru, enn með hinn í ritöldinni, að svo miklu leiti sem vísurnar voru tengdar saman með frásögn í sundurlausu máli. Og líkt má segja um Kormáks sögu. Í mínum augum eru hinar mörgu vísur sögunnar vottur þess, að hún stendur nær kveðskaparöldinni enn flestar sögur aðrar og verður að teljast með hinum elstu Íslendinga sögum, líklega nokkurn veginn samtíða Heiðarvíga sögu. Þjóðsögurnar um töfrasverð og galdra eru því als ekki til firirstöðu, að sagan sje gömul. Slíkar sagnir hafa gengið hjer á landi frá því að það bigðist og ímindunarafl þjóðarinnar jafnan skapað níjar. Það sínir t. d. Rúnatal í Hávamálum, Grógaldr, Sigrdrífumál o. fl. Eddukvæði. Af töfrasverðum má t. d. nefna Lævatein í Grógaldri og sverðið í Sigarshólmi, sem Sváfa gefur Helga Hjörvarðssyni — um það segir Helga kviða Hjörvarðssonar: „Liggr með eggju ormr dreyrfáiðr, enn á valböstu verpr naðr hala.“ Líkt er það, sem Kormáks saga segir um Sköfnung, að ormur skríði undan hjaltinu, þegar honum sje brugðið. Enn má geta um Tyrfing, sem Hervör sækir í haug Angantýs föður síns. Um það hefur geimst kvæði í Hervarar

1) Sturl. ³ I 22. bls.

sögu, sem líklega er hjer um bil samtíða Kormáks sögu. Ekki sanna heldur sögurnar um víkingaferðir Kormáks, að sagan sje ung. Að Íslendingar á 12. öld hafi haft gaman af slíkum sögum, sanna víkingasögurnar, sem sagðar voru í Reikhólaveislunni 1119. Á tímatalsvillur í sögunni legg jeg enga áherslu. Hún getur vel verið gömul firir þeim. Kormáks saga á því sammerkt við aðrar Íslendingasögur, að menn mega ekki taka alt, sem hún segir, sem sögulegan sannleika. Finnur Jónsson áliktar sem svo: Kormáks saga hefir bigt á óáreiðanlegum og afbökuðum munnmælum; því er hún ekki skrifuð fir enn á síðari helmingi 13. aldar, eða hjer um bil 300 árum eftir að sagan gerðist; svo langan tíma heldur hann þurfi til þess að íslensk munnmæli afbakist. Enn þetta er hugarburður. Íslenskar munnmælasögur geta afbakast á skemri tíma enn 200 árum, og sagan getur vel verið skrifuð, segjum um 1180, tveim öldum eftir viðburðina, þó að ekki sje alt í henni sem sannsögulegast. Þá eru upphafsorð sögunnar. Það er satt, að flestar sögur birja þannig: „N. N. hét maðr“ eða „Maðr er nefndr N. N.“, miklu færri líkt og Kormáks saga: „Haraldr hinn hárfagri réð fyrir Noregi, þá er saga sjá gerðist.“ Enn það er nokkuð djarft að ráða af þessu, að sagan sje ung. Íslendingabók Ara hin ingri, sem er rituð um eða laust eftir 1134, birjar þannig: „Ísland bygðist fyrst ór Noregi á dögum Haralds ens hárfagra“, og Hrafnkels saga og Gísla s. Súrssonar, sem Finnur Jónsson telur báðar með hinum eldri Íslendingasögum, birja mjög líkt og Kormáks s. („Þat var á dögum Haralds konungs hins hárfagra at“ o. s. frv., Hrafnk. s.; „Þat er upphaf á sögu þessi, at Hákon konungr Aðalsteinsfóstri réð fyrir Noregi“ Gísl. s.).

Hjer að framan hef jeg bent á ímislegt, sem sínir, að sagnaiþróttin hefur verið í bernsku, þegar sagan var samin. Þetta bendir til, að hún sje með elstu sögum, og í sömu átt bendir forneskjubragurinn, sem á sögunni er, og ekki síst afstaða sögunnar við vísurnar, sem hún tilfærir. Jeg get ekki sjeð neitt því til firirstöðu, að hún

sje til orðin á ofanverðri 12. öld, enda sjást engin merki þess, að hún hafi notað aðrar sögur, nema ef til vill Heiðarvíga sögu, sem er með elstu sögum.

Um höfundinn verður ekkert sagt með vissu annað enn það, að hann virðist hafa verið kunnugur í Miðfirði og þar í grend, enn ókunnugur í Saurbæ í Dalasíslu, því að staðlísing sögunnar í þeirri sveit er mjög rugluð. Annars vísa jeg um staðlísingar Kormáks sögu til Íslandslísingar Kålunds, enn skal þó geta þess, að mjer virðist hann stundum ósanngjarn við söguna, t. d. þar sem hann heldur, að það sje rangt hjá höfundi, að hann kallar þann bæ Gnúpsdal, sem nú er nefndur Efri-Núpur. Heiðarvíga saga virðist að þessu leiti koma heim við Kormáks sögu, og má af því ráða, að Gnúpsdalr sje eldra nafn á Efra-Núpi.[1]) Eftir staðlísingunum að dæma virðist höfundurinn helst hafa verið Miðfirðingur eða úr vesturhluta Húnavatnsþings. Sagan er laus við allan klerkablæ, og er því líklegra, að höfundur hafi verið leikmaður.

1) Sumt af því, sem Kålund átelur í staðlísingum sögunnar, virðist vera ókunnugum afskrifurum að kenna, t. d. villan Sunnudalr f. Svínadalr á tveim stöðum.

## Hallfreðar saga

hefur geimst bæði sem sjerstök saga í AM 132, fol., eða Möðruvallabók, hinu fræga söguhandriti, og svo í sambandi við hina löngu Ólafs sögu Tryggvasonar, sem er gefin út bæði í Fornmanna sögum eftir ímsum handritum og í Flateijarbók, I. b., eftir Flateijarbók. Efnið í báðum þessum gerðum sögunnar er í öllu verulegu hið sama, aðeins er sú gerðin, sem kemur fram sem þáttur í Ólafssögunni, vanalega nokkuð ítarlegri og langorðari enn sjerstaka sagan (í Möðruvallabók). Guðbrandur Vigfússon heldur því fram í formálanum firir útgáfu sinni af sögunni (í Fornsögum, Lpz. 1860), að sjerstaka sagan sje upphaflegri enn Ólafssögugerðin eða þátturinn, sem sje ekki annað enn hin upphaflega saga aukin með óþarfa mærð, og þessa skoðun hafa síðan aðrir tekið eftir Guðbrandi, t. d. Finnur Jónsson í bókmentasögu sinni. Enn við nákvæman samanburð á gerðum sögunar munu menn komast að raun um, að afstaða þeirra er talsvert flóknari enn Guðbrandur Vigfússon hjelt.

— — —

Ef vjer berum saman Hallfreðarþáttinn í Ólafs sögu Fornmanna sagna og sama þátt í Ólafs sögu Flateijarbókar, þá sjest, að þar er talsverður munur á. Til dæmis að taka segir Fms. miklu stittra frá ástum þeirra Valgerðar Óttarsdóttur, sistur Hallfreðar, og Ingólfs hins fagra Þorsteinsonar heldur enn Flat. T. d. hefur Fms. ekki eitt orð um knattleikinn, sem varð til þess, að þau Valgerðr og Ingólfr kintust first, enn frá því er sagt nákvæmlega í Flat. (að knötturinn, sem Ingólfr kastaði, barst til Valgerðar, enn hún tók hann undir skikkju sína og bað þann sækja, er kastað hafði). Líka er þessi Val-

gerðar og Ingólfs þáttur í annari röð í Fms. heldur enn í Flat. Í Fms. stendur hann á eftir sögunni um firstu ástir þeirra Hallfreðar og Kolfinnu Ávaldadóttur, enn í Flat. á undan þeirri sögu. Bæði að því er snertir efni og röð Valgerðarþáttarins kemur Flat. heim við hina sjerstöku Hallfreðar sögu (M), og skildu menn því halda, að sú frásögn væri upphaflegri. Enn svo mun þó ekki vera. Flat. og hin sjerstaka saga, sem hafa Valgerðarþáttinn á undan Kolfinnuþættinum, komast einmitt þess vegna í mótsögn við sjálfa sig. Valgerðarþátturinn endar á því, að Þorsteinn Ingimundarson kveður upp gjörð, sem meðal annars gerir Óttar föður Hallfreðar hjeraðsrækan úr Vatnsdal, svo að hann flitur suður í Norðurárdal. Síðan láta bæði Flat. og M Kolfinnuþáttinn gerast, sem segir frá því, að Hallfreðr lenti út úr Kolfinnu í illdeilum við Ávalda föður hennar og Blót-Má og Grís, festarmann hennar, og í þessum deilum hjálpar Óttarr Hallfreði, rjett eins og hann ætti þá enn heima í Vatnsdal og væri ekki fluttur suður, sem áður var sagt. Sá sem hefur skrifað hina sjerstöku sögu (M), hefur fundið til þessarar ósamkvæmni, því að hann hleipir inn grein þess efnis, að Óttarr hafi ekki flutt suður fir enn eftir að deilur Hallfreðar við þá Ávalda, Má og Grís vóru um garð gengnar, enn þessi setning stendur ekki í Flat. og er bersinilega að eins sett inn til að breiða ifir ósamkvæmnina. Fms.-þátturinn er alveg laus við alla þessa ósamkvæmni. Þegar vjer berum frásögn Flat. og hinnar sjerstöku sögu saman við Vatnsdælu, þá verður ljóst, hvernig á öllu stendur. Vatnsdæla hefur söguna um knattleikinn, sem varð til þess, að þau Valgerðr og Ingólfr kintust, alveg eins og Flat. og M, og er auðsjeð, að þessi tvö handrit hafa tekið hana eftir Vatnsdælu. Líka hefur Vatnsdæla Valgerðarþáttinn á undan frásögninni um ástir þeirra Hallfreðar og Kolfinnu, sem hún að vísu drepur aðeins lauslega á; þetta skírir, hvernig á því stendur, að Flat. og M hafa breitt röðinni. Þau filgja að því leiti Vatnsdælu. Enn Fms. hafa geimt hina upphaflegu Hallfreðar sögu, bæði að því er efni og röð snertir.

Í sambandi við þetta stendur önnur missögn milli Fms. öðrumegin og Flat. og M hinumegin. Bæði Vatnsdæla og Hallfreðar saga segja frá því, er Galti, bróðir Hallfreðar, var veginn, og frá undankomu vegandans. Það er auðsjeð, að sögurnar eru hjer hvor annari óháðar, því að hjer eru ímsar missagnir, t. d. sú, að eftir Vatnsdælu gerist þetta rjett áður enn þeir Friðrekr biskup og Þorvaldr víðförli komu hingað að boða trú (981), enn eftir Hallfreðar sögu næsta vor eftir fall Ólafs Tryggvasonar (1001); líka ber sögunum ekki saman um nafn vegandans (Hermundr Vatnsd., Brandr Hallfrs.), og fleira ber á milli, sem jeg skal ekki þreita menn á að telja. Enn sagan um undankomu vegandans, eins og hún er í Flat. og M, er bersínilega tekin eftir Vatnsdælu. Það er Hildr, móðir vegandans, sem skítur honum undan bæði eftir Vatnsdælu og Flat.-M, og þegar Þorkell krafla leitar eftir honum, vitnar Hildr til þess, að hún hafi áður skotið Þorkeli undan eftir víg Glæðis, þegar Þorgils og Þorvaldr sóttu eftir lífi hans. Þetta efni heirir eingöngu til Vatnsdælu, enn kemur Hallfreðar sögu als ekki við, og er auðsjeð, að Flat. og M hafa tekið þetta úr Vatnsdælu. Einnig á þessum stað hafa Fms. geimt upphaflegan texta Hallfreðar sögu, því að þar stendur að eins, að vegandanum hafi verið undan skotið, enn atvik ekki greind nánar. Í Fms. er frásögnin hjer alveg óháð Vatnsdælu frá upphafi til enda.

Í ritgjörð minni um Gunnlaugs sögu ormstungu hef jeg sínt, að kafli, sem stendur bæði í hinni sjerstöku Hallfreðar sögu (M) og í Hallfreðar þætti Flat., um viðureign þeirra Gunnlaugs ormstungu og Hallfreðar, hlítur að vera tekinn eftir Gunnlaugs sögu, sem segir frá hinu sama svo að segja með sömu orðum. Þar hef jeg líka bent á, að þennan kafla vantar alveg í Hallfreðarþáttinn í Fms., og að hann hefur ekki staðið í Hallfreðar sögu frá upphafi, heldur er síðari íauki í Flat. og M. Hjer hefur þá Fms.-þátturinn líka geimt hinn upphaflega texta sögunnar.

Af því, sem jeg nú hef tekið fram, er það ljóst, að Fms.-textinn hefur á ímsum stöðum betri og eldri texta enn bæði Flat. og hin sjerstaka saga í M, og að Fms.-

textanum hefur hingað til ekki verið nægilega mikill gaumur gefinn. Það er mikið mein, að einmitt sá texti hefur, að því er virðist, ekki verið gefinn út með nógu rækilegum samanburði handritanna.[1]) Vjer höfum og sjeð, að Flat.-þátturinn og hin sjerstaka saga minda að nokkru leiti flokk sjer gagnvart Fms.-þættinum.

Hins vegar er það mart, sem er sameiginlegt með þáttunum í Fms. og Flat., þar sem hin sjerstaka saga hefur annan texta. Sumstaðar stafar það af því, að ritari M hefur afbakað textann með því að fella úr orð, sem geimst hafa í Flat. og Fms. T. d. þar sem talað er um, að þeir sveinarnir Óttarr og Ávaldi leita hælis hjá Galta, móðurbróður Óttars, stendur svo í M: „Síð dags kómu þeir til Galta móðurbróður Óttars ok settust útarliga. Galti gekk at þeim ok spurði, hverir þeir væri. Óttarr sagði satt til þeira. „Þá er skaplig kváma ykkar", segir Galti, *„ok gangit til sætis"*. Þetta síðasta er undarlegt, þar sem áður var sagt, að þeir hefðu „sezt útarliga", enn á þeim stað hafa Flat. og Fms.: „ok settust útarliga *í hálm"*, og verður þá alt eðlilegt. M hefur ranglega slept orðunum *í hálm*. Áður enn Hallfreðr tekur kristni, kemur hann eitt sumar með fleiri heiðnum mönnum frá Íslandi á skipi sínu til Agðaness, og frjetta þeir þar, að Hákon jarl sje dauður, enn Ólafr Tryggvason hafi tekið ríki. Þeir heita þá, eftir því sem Fms. og Flat. segja, á goðin, að þeir skuli gefa Frey fje mikið og *3 sálda öl*, ef þeim gefi í burtu til Svíþjóðar, enn Þór eða Óðni, ef þeim gefi til Íslands. M sleppir hjer úr hinum einkennilegu orðum *ok 3 sálda öl*, sem eflaust eru upphafleg. Fleiri dæmi þessu lík gæti jeg talið. Það er rjett, sem Guðbrandur Vigfússon segir, að Flat. og Fms. eru ifirleitt orðfleiri enn M, enn þetta, sem jeg hef tekið fram, nægir til að sína, að það eru ekki altaf Flat. og Fms., sem auka frásögnina með málalengingum, heldur kemur það líka stundum firir,

1) [Nákvæmur samanburður þessara handrita er í bók W. van Eedens, De overlevering van de Hallfreðar saga, Amsterdam. Útg.]

að þær hafa geimt hinn upphaflega fillri texta, enn M stitt hann með úrfellingum.

Sjerstaklega skal jeg taka það fram, að kaflinn um Gautlandsferð Hallfreðar er ifirleitt ítarlegri og, að því er mjer virðist, upphaflegri í Fms. og Flat. enn í M. Þó er það bersinilega viðauki í Flat., að Ólafr konungur hafi gefið Hallfreði tigilknífinn, sem bjargar lífi hans, þegar Önundr stigamaður veitir honum tilræðið, enda ber Fms. saman við M að því leiti, að hvorug getur þess, að hnífurinn hafi verið gjöf frá Ólafi konungi. Annars er fróðlegt að bera saman frásögnina um tilræðið í Fms. við M.

| Fms.: | M: |
|---|---|
| Hallfreðr hafði leyst af sér beltit ok kastat á háls sér, var þar við tygilknífr mikill, sem þá var mönnum títt at hafa, ok lá knífrinn aftr á bak Hallfreði, er hann lagðist niðr at kveykja eldinn. Þá kom Önundr inn með viðinn ok kastaði niðr, enn hann snaraði at Hallfreði sem harðast með reidda öxina ok hjó til hans tveim höndum um þvert bakit, kom öxin í knífinn, ok skeindist Hallfreðr lítt tveim megin á hrygglundunum, er öxarhyrnurnar námu. | Hann (Hallfreðr) grúfði at eldinum ok hafði kastat belti sínu á háls sér, ok var þar knífr mikill, er mönnum var þá títt at hafa, ok var knífrinn á bak honum. Nú kemr Önundr inn með byrði; hann hleypti þegar at honum Hallfreði ok hjó til hans tveim höndum með öxinni, ok kom í tygilknífinn. |

Hjer er auðsjeð, að Fms. hafa hina upphaflegu frásögn, enn M styttir, gefur sjer t. d. ekki tíma til að segja frá því, að Önundr kastaði niður viðarbirðinni, eða að Hallfreðr skeindist lítt tveim megin á hrigglundunum, er öxnarhirnurnar námu.

Merkilegt er, að frá líku atviki er sagt í Eyrbyggju, 58. k., með svo að segja sömu orðum og í Fms., þar sem segir frá viðureign þeirra Þóris Gullharðarsonar og Óspaks Kjallakssonar. Óspakr heggur á bak Þóri með öxi, enn tigilknífr hlífir honum, „Þórir hafði haft tygilknif á hálsi, sem þá var títt, ok kastat á bak sér aftr“, segir Eyrbyggja, — „ok hafði þar í komit höggit, enn hann hafði skeinzt á hrygglundunum tveim megin ok þó lítt“. Það er ekki gott að segja, hvort hjer er nokkuð beint sam-

band milli sagnanna, annað enn það, að líkt efni skapar líka frásögn, enn óneitanlega stiður Eyrbyggja hjer frásögn Fms.-þáttarins, að hann sje upphaflegri enn frásögn hinnar sjerstöku sögu.

Niðurstaðan af þessum samanburði milli handrita sögunnar verður þá, að hinn upphaflegi texti Hallfreðar sögu verður ekki fundinn nema með nákvæmum samanburði þeirra allra. Stundum finst hann í M, einkum á þeim stöðum, þar sem sá maður, sem hefur skeitt söguna inn í hina löngu Ólafs sögu, hefur vikið við textanum til að laga Hallfreðar sögu eftir öðrum sögnum, sem hann hafði firir sjer, sjer í lagi í frásögnina um hina firstu viðkinning Hallfreðar við Ólaf, því að þar verður hann að koma að öðrum sögum, t. d. frásögn Laxdælu um viðureign Kjartans við Ólaf konung, þar verður að treista betur hinni sjerstöku sögu. Enn mjög oft finst hinn upphaflegi texti í Flat. og Fms., þar sem þær eru samhljóða, og stundum í Fms. einum, þar sem bæði Flat. og M hafa breittan og aukinn texta. Og ifirleitt higg jeg, að Fms.-textinn standi víðast næst hinni upphaflegu sögu. Þó ber þess að geta, að Fms.-textinn sleppir sumu, sem er upphaflegt í sögunni, t. d. sumum af hinum klúru vísum Hallfreðar um Grís og Kolfinnu, enn það er beint tekið fram, að slíkar vísur sje eigi þörf á að rita, sem sinir, að þessu er slept af ásettu ráði. Merkilegt er, að bæði Fms. og Flat. sleppa sögunni um það, er filgja Hallfreðar birtist honum rjett firir dauða hans, sem geimst hefur í hinni sjerstöku sögu. Þeim klerki, sem skeitti Hallfreðar sögu inn í Ólafssöguna, hefur auðsjáanlega þótt of heiðinglegt bragð að þessari sögu.

Hallfreðar saga er að því leiti lík Kormáks sögu, að vísur söguhetjunnar eru sá kjarni, sem sagan er að miklu leiti spunnin utan um, enn þó ber hjer minna á kjarnanum og meira á hinni sundurlausu frásögn enn í Kormáks sögu. Vísur Hallfreðar, sem sagan tilfærir, virðast flestar vera rjett feðraðar, og eru margar af þeim mjög merkilegar, af því að þær sína svo glögt, hvernig heiðnin og

kristnin berjast í hjarta einstaklingsins, og hve blendnir menn voru í trúnni framan af.

Um afstöðu Hallfreðar sögu við aðrar sögur höfum vjer þegar rætt nokkuð hjer að framan. Vjer höfum sjeð, að hin upphaflega Hallfreðar saga muni hafa verið óháð Vatnsdælu í frásögn sinni frá ástum þeirra Valgerðar og Ingólfs fagra og frá ástum Hallfreðar og Kolfinnu, og að Fms. hafi þar geimt hið upphaflega, enn M og Flat. lagað frásögn sína eftir Vatnsdælu, og alveg sama er að segja um frásögnina frá vígi Galta og undankomu vegandans; þar hafa M og Flat. aukið söguna eftir Vatnsdælu, enn Fms.-gerðin er óháð Vatnsdælu og hefur geimt hinn upphaflega texta sögunnar. Annars er ekkert, sem síni, að Hallfreðar saga hafi þekt eða notað Vatnsdælu. Sömuleiðis hef jeg sínt fram á það, að kaflinn í M og Flat. um viðureign Gunnlaugs ormstungu og Hallfreðar er innskotsgrein í Hallfreðar sögu, tekin eftir Gunnlaugs sögu, og að Fms.-gerðin, sem fellir þenna kafla alveg burtu, hefur þar líka geimt hið upphaflega. Hallfreðar saga er þá hjer alveg óháð Gunnlaugs sögu. Í ritgerð minni um Gunnlaugs sögu hef jeg bent á, að lísing Gunnlaugs í þeirri sögu er grunsamlega lík lísingu Hallfreðar í Hallfreðar sögu, og sínt fram á, að þetta og ímislegt fleira, sem er líkt með sögunum, hljóti að stafa af því, að Gunnlaugs saga hafi þekt og notað Hallfreðar sögu, enn ekki af hinu, að Hallfreðar saga hafi þekt og notað Gunnlaugs sögu.

Landnámuhandritin Sturlub. og Hauksb. geta að eins lauslega um Hallfreð á einum stað (í kap. um Eyvind sörkvi).[1]) Þau þekkja bróður hans Galta, sem þau nefna Óttarsson, og segja, að hann hafi verið veginn af Brandi Ávaldasini á Húnavatnsþingi. Alt þetta kemur heim við Hallfreðar sögu, enn er í mótsögn við Vatnsdælu, að því leiti sem sú saga segir, að Galti hafi verið veginn á leiðmóti í Vatnsdal, og að vegandinn hafi verið Hermundr (ekki

1) Stb., 183. k., Hb., 149. k.

Brandr) Ávaldason. Mjer þikir ólíklegt, að Hallfreðar saga hafi hjer haft firir sjer Landnámu; fremur gæti jeg trúað því, að sá maður, sem Landnámu-gerðin Stb.-Hb. er frá, hefði þekt Hallfreðar sögu, enn vel má vera, að sögurnar sjeu hvor annari óháðar og að það, sem líkt er, stafi frá tveim samhljóða munnmælasögum. Athugavert er, að bæði Hallfreðar saga og Landnáma geta um Hildi, konu Ávalda, móður Brands, enn ber ekki saman um ætt hennar. Hallfreðar saga telur hana dóttur Eyvindar sörkvis, vinar Ingimundar gamla, og sama segir Vatnsdæla. Enn Landnáma telur hana sonardóttur Eyvindar (Hermundardóttur, Eyvindarsonar), sem er miklu líklegra sakir tímans. Þetta bendir til, að Hallfreðar saga hafi ekki haft firir sjer Landnámu. Annað, sem bendir til, að sögurnar sjeu óháðar hvor annari, er það, að Hallfreðar saga getur um Þórhöllu, konu Ólafs að Haukagili, ömmu Hallfreðar, og segir, að hún hafi verið dóttir Ævars hins gamla, enn Landnáma telur ekki Þórhöllu með börnum Ævars.

Heimskringla segir nokkuð svipað og Hallfreðar saga frá firstu kunnleikum Hallfreðar og Ólafs Tryggvasonar.[1]) Heimskringla veit, að Hallfreðr vildi ekki láta skírast, nema konungur sjálfur hjeldi honum undir skírn, og ekki ganga á hönd konungi, nema konungur lofaði að reka hann aldrei frá sjer, og sömuleiðis getur Heimskringla um kveðskaparþrautina, sem konungur lagði firir Hallfreð, að irkja vísu um sverðið konungsnaut, svo að hann nefndi sverð í hverju vísuorði. Alt þetta finst líka í Hallfreðar sögu, enn frásögnin er svo ólík, að það virðist ljóst, að hvorug sagan hefur þekt eða notað aðra. Sama sjest og á því, að Heimskringla lætur Hallfreð ekki koma til Ólafs konungs fir enn haustið 999, nokkru áður enn Þangbrandr kom frá Íslandi með þá fregn, að Íslendingar mundu aldrei við kristni taka, og eru þá ímsir fleiri nafngreindir Íslendingar í Niðarósi auk Hallfreðar, hver á sínu skipi, heiðnir menn, og bannar konungur þeim öllum

1) Hkr. F. J., Ó. T., 81. og 83. kap.

brottför. Meðal þeirra eru nefndir t. d. Kjartan Ólafsson, Halldórr Guðmundarson hins ríka frá Möðruvöllum, Kolbeinn son Þórðar Freysgoða og Svertingr Runólfsson. Þessa alla menn fær konungur til að láta skírast, annaðhvort með góðu eða illu. Eftir tímatali Heimskringlu gerist þetta á næstsíðasta ríkisári Ólafs konungs. Enn eftir Hallfreðar sögu kemur vandræðaskáldið til konungs rjett eftir, að hann er kominn til ríkis, á firsta ríkisári hans, því að sagan tekur það beint fram, að Hallfreðr og skipverjar hans hafi ekki frjett dauða Hákonar jarls nje höfðingjaskiftin í Noregi, fir enn þeir lentu við Agðanes. Líka getur sagan ekkert um, að aðrir Íslendingar hafi verið þá samflota Hallfreði eða komið til Þrándheims og tekið kristni um leið og hann. Þetta bendir til, að sögurnar sjeu hvor annari óháðar. Annars er frásögn Hallfreðar sögu um þennan atburð eflaust miklu nær rjettu tímatali enn frásögn Heimskringlu. Alt bendir til, að Hallfreðr, sem áður hafði verið skáld Hákonar jarls, hafi komið til Ólafs á firstu ríkisárum hans, enn ekki á ofanverðri æfi hans, eins og Heimskringla segir. Annars er Snorri ekki sá firsti, sem lætur Hallfreð koma til Ólafs samtímis Kjartani og öðrum Íslendingum, sem Snorri nefnir, heldur tekur hann þetta eftir eldri Ólafs sögum, Odds munks og sjerstaklega Ólafs sögu Gunnlaugs munks. Sbr. um þetta ritgerð mína um Ara fróða.[1]) Jeg hef þar leitt rök að því, að Snorri hafi í kaflanum um Íslendingana í Niðarósi haft sjerstaklega firir sjer Ólafs sögu Gunnlaugs.

Niðurstaðan af þesari rannsókn verður þá, að Hallfreðar saga virðist vera óháð öðrum sögum, sem nú eru kunnar.

Orðfærið á sögunni er ekki nærri eins fornlegt og t. d. á Heiðarvíga sögu, enn mjög lipurt og náttúrlegt, laust við alla tilgerð, líkt og er á hinum bestu sögum. Uppistaðan er góð. First segir sagan stuttlega frá föður Hallfreðar Óttari og fóstbróður hans, Ávalda, hvernig á því stóð, að þeir hurfu frá ættstöðvum sínum í Noregi út til Íslands

1) Árb. f. n. Oldk. 1894, 335—346.

og staðfestust þar. Þetta er nokkurs konar inngangur að meginsögunni. Þá segir frá uppvexti Hallfreðar, ástum hans og Kolfinnu Ávaldadóttur og deilum við þá Grís, Má og Ávalda, sem leiða til þess, að Hallfreðr fer utan og gengur first á hönd Hákoni jarli. Þá kemur sagan um kristnitöku Hallfreðar og dvöl hans hjá Ólafi Tryggvasini. Er þar meistaralega sagt frá því, hvernig heiðnin og hin nija trú heija einvígi í brjósti hans, og sagan studd með hinum einkennilegu vísum Hallfreðar, enn fremur frá hinni einkennilegu sendiferð til höfuðs Þorleifi spaka og Gautlandsferð Hallfreðar. Þá fer Hallfreðr í orlofi konungs heim til Íslands, þar rifjar hann aftur upp ástir sínar til Kolfinnu, lendir út úr því í deilum við Grís mann hennar, og er að því komið, að þeir gangi á hólm, enn þá frjettir Hallfreðr fall Ólafs konungs, og það fær honum svo mikils, að hann beiðist sátta við Grís, og það verður úr, að þeir sættast. Síðan fer Hallfreðr til Noregs og irkir erfidrápu um Ólaf konung, kemst síðan á vald Eiríks jarls og irkir kvæði um hann. Loks segir frá, að Hallfreðr fer út til Íslands og fær áfall á leiðinni, sem dregur hann til dauða. Líkinu er skotið firir borð og látnir filgja dírgripir, sem Ólafr konungur hafði gefið honum. Líkið rekur í Eynni helgu (Iona) í Suðureijum, þar stela sveinar ábóta gripnum og sökkva líkinu í fen, enn Ólafr konungur birtist ábóta í draumi og hótar honum hörðu, ef hann láti ekki grafa líkið sómasamlega. Ábóti krefur sveina sína sagna, og Hallfreðr fær virðulegan gröft. Sagan endar þannig á jartein Ólafs konungs. Á þessu stutta ifirliti ifir efni sögunnar sjest, að uppistaðan er einföld og ljós, laus við alla bláþræði og útúrdúra.

Um persónulísingar sögunar er það að segja, að þar ber langmest á Hallfreði, eins og eðlilegt er, og að lísing hans er hreinasta snildarverk. Hallfreðr er tilfinningamaður, eins og skáldum er títt, og gjörðir hans stjórnast fremur af geðshræringum hans enn skinsemi. Þetta sínir hann í ástum sínum til Kolfinnu og ekki síður í drottinhollustu sinni við Ólaf Tryggvason dauðan, þegar hann hættir við hólmgönguna og setur að veði sóma sinn, af

harmi út af falli konungs. Hann er harður í horn að taka og níðskældinn við óvini sína (Grissvísur), triggur vinur vina sinna og veglindur, þegar því er að skifta. Hann er findinn og hefur altaf svar á reiðum höndum, t. d. þegar Ólafr konungur neitar að hlíða kvæði, sem Hallfreðr hefur ort um hann, svarar skáldið: „Þú munt því ráða, enn týna mun ek þá þeim (kristnu) fræðum, er þú lézt mik nema, ok eru þau fræði ekki *skáldligri* enn kvæðit er, þat er ek hefi um þik ort“. Í þessu lísir sjer íþrótt höfundarins og um leið, hvað hann er algerlega laus við alla klerklega hleipidóma. Hið sama andans frelsi kemur fram í lísingunni á því, hvernig skáldið flöktir milli heiðninnar og kristninnar. Gletni höfundar lísir sjer, þar sem hann gefur í skin, að Hallfreðr hafi ekki haldið sem best trú sína, þegar hann dvaldi á Gautlandi meðal heiðingja: „Þat hafði hann helzt til trúar“, segir sagan, „at hann blés í kross yfir drykk sínum, enn fátt söng hann“. Ágætlega er Hallfreði líst í frásögninni um viðureign hans við Þorleif spaka og Kálf hirðmann Ólafs, sem hafði fjandskapast við Hallfreð og rægt hann við konung.

Fróðlegt er að bera hina meistaralegu lísing sögunnar á Hallfreði saman við kvæði hans. Vjer sjáum þá, að lísingin er í meginatriðum grundvölluð á kvæðunum. Lísingin á baráttunni milli hins gamla og hins nýja siðar í hjarta skáldsins er beint dregin út úr vísum hans. Ást Hallfreðar til Kolfinnu og ófirirleitni hans í kveðskap kemur og fram í vísum hans um Kolfinnu og Grís. Drottinhollusta hans við Ólaf konung og söknuður eftir lát hans kemur ljóslega fram í stefinu, sem sagan tilfærir úr erfidrápu Ólafs:

Norðr eru öll of orðin
auð lönd at gram dauðan.
Allr lemsk friðr af falli
flugstyggs sonar Tryggva,

og þó enn betur í þessum helmingi drápunnar:

Bíða munk þess es breiðan
barðmána vann skarðan
margaukanda mækis
móts aldregi bótir.

Eða þegar skáldið í annari vísu telur það hið mesta mein, að hann stóð fjarri konungi við Svoldr, „þótt oft sé smátt und einum“. Þegar vjer lesum þessa og fleiri staði í erfidrápunni, furðum vjer oss á því, að Hallfreðr skömmu síðar skildi geta fengið af sjer að irkja lof um Eirík jarl, fjandmann og banamann Ólafs. Sagan skírir þetta svo, að Ólafr konungur hafi birst Hallfreði í draumi og ráðið honum frá því, sem honum bjó í hug, að drepa jarl, og sagt, að hann skildi heldur irkja drápu um hann. Enn að þetta muni ekki vera annað en óáreiðanleg munnmælasaga, það sjest á tveimur erindum í erfidrápu Ólafs konungs. Þar segir:

Ítrfermðum réð ormi
orðsæll konungr norðan
— snörp varð at þat sverða
snót — Eireki at móti.
Enn húfjöfnum hefnir
hlýrs þeim Gota stýrði
— áðr óx of gram góðan
gunnr — Hákonar sunnan.

Hjer er jafnvirðulega talað um báða Ólaf og Eirík, og í rauninni gæti þetta erindi eins vel verið úr lofkvæði um Eirík eins og úr lofkvæði um Ólaf. Á öðrum stað í drápunni er Eiríki beint hrósað. First talar skáldið um fall hinna hraustu drengja, sem vörðu Orminn með Ólafi. Síðan bætir hann við:

Vanr mun Ormr, þó at Ormi
alldýrr konungr (jöfurr?) stýri,
hvars skríðr með lið lýða
lengi slíkra drengja.

Enginn efi er á, að skáldið á við Eirík, þar sem hann segir, að „alldýrr“ konungr (jöfurr) stíri nú Orminum. Þessar vísur erfidrápunnar benda til, að Hallfreðr hafi verið í þann veginn að koma sjer í mjúkinn hjá Eiríki eða þó að minsta kosti ekki viljað stiggja hann, þegar hann orti erfidrápuna, og bendir til, að það, sem sagan segir um hatur Hallfreðar til Eiríks og um vitrun Ólafs konungs, sje óáreiðanleg þjóðsaga. Skáldin voru ekki lengi að snúa við blaðinu, ef hagsmunir þeirra kröfðust þess. T. d. orti

Sighvatr lof um Knút ríka og Erling Skjálgsson, verstu fjandmenn Ólafs konungs, og sjálfur hafði Hallfreðr lofað Hákon jarl, áður enn hann gerðist hirðskáld óvinar hans Ólafs Tryggvasonar. Slíkt verður skiljanlegt, þegar vjer athugum, að það var atvinnuvegur skáldanna, að irkja lof um höfðingja. Skáldin voru hirðmenn og „diplómatar“. Enn þó að sagan hafi í þessu atriði filgt óáreiðanlegri þjóðsögu, þá raskar það því ekki, að lísing hennar á Hallfreði muni vera mjög nærri sanni í öllum aðalatriðum. Í samanburði við Hallfreð ber fremur lítið á öðrum persónum sögunnar, eins og eðlilegt er. Einkennilegt er það, að sagan ann Grísi, fjandmanni Hallfreðar og keppinauti, fullkomlega sannmælis og lætur hann koma vel fram, einkum þegar Hallfreðr er í öngum sínum út af láti Ólafs konungs og vill sættast. Kemur í þessu fram, hve höfundur er laus við hleipidóma. Kolfinna er ein af þessum ósjálfstæðu og kjarklausu kvennpersónum, sem koma svo oft firir í sögunum; hún lætur aðra ráða firir sig, sínir hvergi sjálfstæðan vilja; slíkir kvenmenn hafa víst verið margir í þann tíma, og er það eðlileg afleiðing af stöðu þeirra í mannfjelaginu, meðan þær voru ógiftar.

Ifirleitt má telja Hallfreðar sögu með þeim Íslendingasögum, sem best eru ritaðar. Það er auðsjeð, að íslensk sagnaritun er ekki framar í barndómi, þegar hún er rituð. Hún er ekki nærri eins fornleg og t. d. Heiðarvíga saga. Hins vegar ber ekki á, að sagan hafi orðið firir neinum áhrifum af riddarasögum, og bendir það á, að hún sje að minsta kosti ekki ingri en 1250, og eftir öllum blæ sögunnar að dæma þikir mjer líklegt, að hún sje rituð á firsta fjórðungi 13. aldar, og þá hjer um bil samtíða Egils sögu og Eyrbyggju.[1]) Þessi niðurstaða kemur vel heim við það, að sagan virðist vera öðrum sögum óháð, og líkur til, að Gunnlaugs saga að minsta kosti hafi notað hana. Vatnsdæla vitnar beint til Hallfreðar sögu á

1) Finnur Jónsson segir „um 1200“ (Litt. hist.); Guðbr. Vigfússon „um 1220“ (Fornsögur, formáli).

einum stað, enn það er ekki allsendis að marka, því að handrit Vatnsdælu eru ung, og óvíst, að tilvitnunin sje upphafleg. Annars mun jeg minnast á þetta nánar, þegar jeg kem að Vatnsdælu.

Af því að sagan endar á því að segja frá jartein Ólafs konungs, vill Finnur Jónsson ráða, að höfundur hafi verið klerkur. Það finst mjer djörf áliktun. Slíkar jarteinasögur gengu eigi að eins meðal klerka, heldur og meðal leikmanna, sem trúðu á þær alt að einu eins og klerkarnir, t. d. annar eins maður og Sturla lögmaður Þórðarson. Þó vil jeg engan veginn fortaka, að höfundur hafi verið klerkur, enn hann hefur þá verið furðu laus við alla hleipidóma, og það játar Finnur Jónsson, að hvergi sje neinn klerkakeimur að orðfæri sögunnar. Líklegt þikir mjer, eins og Finni Jónssini, að sagan sje samin í Húnavatnsþingi. Enn annars vitum vjer ekki neitt um höfundinn.

## Vatnsdæla saga.

Saga þessi er nú því miður ekki til nema í tiltölulega níjum handritum. Hún stóð í hinu fræga söguhandriti Vatnshornsbók eða Vatnshirnu, sem stafaði frá Jóni Hákonarsini í Víðidalstungu, eins og Flateijarbók. Á 17. öldinni var þetta handrit tekið í sundur í tvo parta, og komst annar parturinn í eign Ped. Hans Resens og eftir hans dag með öðrum bókum hans í háskólabókasafnið í Kaupmannahöfn og brann þar 1728. Enn af hinum partinum, sem eftir varð á Íslandi, komust síðan nokkrar leifar í eign Árna Magnússonar og eru nú geimdar í AM 564 A, 4°. Handrit þetta hlítur að hafa verið skrifað um aldamótin 1400. Vatnsdæla var í þeim parti, sem Resen eignaðist. Til allrar hamingju höfðu verið teknar afskriftir af Vatnsdælu þessa handrits, áður enn það brann. Meðal þeirra er ein afskrift á skinni, sem Þorlákur biskup Skúlason ljet taka um miðja 17. öld, AM 128, fol., enn þó að hún sje á skinni, má telja hana með lakari afskriftum sögunnar. Best er afskrift Ásgeirs Jónssonar, skrifara Þormóðar Torfasonar og Árna, sem nú er greind í AM 559, 4°. Líka er til afskrift Jóns Gizurarsonar í AM 138 fol., sem er allgóð. Ifir höfuð að tala eiga allar pappírsafskriftir sögunnar, sem nú eru kunnar, kin sitt að rekja til Vatnshirnu, eftir því sem Guðbrandur Vigfússon segir.[1]) Enn auk þess er til eitt lítið brot á skinni óháð Vatnshirnu, eitt einasta blað, sem geimst hefir í AM 445 B 4° meðal hinna sorglegu leifa af hinu fræga handriti, sem nefnt er Melabók hin eldri. Hafa þar geimst, auk Vatnsdælu-

---

1) [Síðan hefur Finnur Jónsson fundið handrit af sömu ætt og Melabókarbrotið, sjá útgáfu hans af sögunni, Kh. 1934. Útg.]

brotsins, 2 blöð úr Landnámu, 1¼ blað úr Flóamanna sögu og 6¾ blað úr Eyrbyggju. Alls hafa af þessu handriti geimst 11 blöð. Það er ekki eldra en frá 15. öld, enn er þó sjerlega merkilegt, sjerstaklega Landnámu-blöðin, því að þau hafa geimt leifar af Landnámu í sinni elstu mind. Blaðið úr Vatnsdælu kemur í meginatriðum saman við Vatnshirnutextann; orðamunur er tiltölulega lítill og áhöld um handritin, hvort betra er.

— — —

Orðfærið á sögunni, eins og hún er til vor komin, er mjög svo mengað níjari orðum og orðatiltækjum. Allvíða bregður fyrir rósamáli riddarasagnanna, t. d. „hætta ok hörð einvígi“, „frami ok fagrligir penningar“, „leggja sik í hættu ok herskap, aflandi svá fjár ok frægðar“ „reyfarar ok ránsmenn“ o. s. frv. Ní orð *reyfari, skelmir, einvöldugr* o. fl. Ifir höfuð að tala ber allur blær sögunnar það með sjer, að hún getur tæplega verið eldri enn frá 14. öldinni í þeirri mind, sem hún hefur nú. Enn þetta er ekki að marka. Bæði Vatnshirna og Melabók, sem textinn hvílir á, voru tiltölulega ung handrit, og það er ekkert því til firirstöðu, að einhver hafi á 14. öldinni steipt söguna upp úr eldri sögu og lagað hana eftir sinna tíma smekk. Að svo sje, verður ljóst, þegar vjer athugum afstöðu sögunnar við Landnámu.

Þegar vjer berum þá kafla Landnámu, sem segja frá Ingimundi gamla og fjelögum hans, saman við tilsvarandi kafla í Vatnsdælu, þá er ljóst, að frásögn Landnámu er ekki annað enn útdráttur úr Vatnsdælu, þó með nokkrum afbrigðum, sem líklega stafa að nokkru leiti af því, að þeir, sem skrifuðu Landnámuhandritin, hafa haft firir sjer eldri Landnámutexta við hliðina á Vatnsdælu, enn sumpart líka af því, að Vatnsdælutextinn, sem þeir notuðu, var eldri og upphaflegri enn sá Vatnsdælutexti, sem vjer nú höfum. Til dæmis að taka er það víst tekið eftir gömlum Landnámutexta (sem kemur heim við Egils sögu), þar sem Sturlub.-Hauksb. nefna föður þeirra bræðra Gríms og Hrómundar hinna háleysku Þóri, enn Vatnsdæla (og Melabók ingri) nefnir hann Ingjald. Líka er

það eflaust tekið eftir gömlum Landnámutexta, þar sem Sæmundr, fjelagi Ingimundar, sem nam Sæmundarhlíð, er kallaðr „hinn suðreyski" í öllum Landnámuhandritum, enn Vatnsdæla telur hann sygnskan og búsettan í Sogni, áður enn hann fer til Íslands. Hins vegar hygg jeg, að nafn völunnar, sem spáir Ingimundi, *Heiðr*, sem stendur í *öllum* Landnámuhandritum, sje tekið eftir gömlum Vatnsdælutexta. Í Vatnsdælu, eins og hún er nú, er völvan hvergi nefnd á nafn. Annað dæmi þess, að nafn hefur fallið úr Vatnsdælu, enn geimst í Landnámuhandriti, er það, að Melabók ingri segir, að Þorkell krafla hafi fengið Vigdísar Ólafsdóttur frá Haukagili. Í Vatnsdælu, eins og hún er nú, er Vigdís hvergi nefnd, enn að hennar hafi verið getið sem konu Þorkels í hinni upphaflegu Vatnsdælu, er ljóst af því, að sagan talar á tveim stöðum um mágsemd þeirra Þorkels og Ólafs, föður Vigdísar, eins og hún væri kunn lesandanum.[1]) Líka held jeg, að Landnámuhandritin hafi geimt hinn upphaflega texta Vatnsdælu í frásögninni um njósnarferð húskarlsins í Ás til Ljótar og Hrolleifs; þegar hann kemur heim og skírir Þorsteini frá ferð sinni, segist hann hafa sjeð inn í skálanum *„fatahrúgu á bröndum"*, eftir því sem stendur í Landnámuhandritum öllum, enn í stað þessara einkennilegu orða stendur í Vatnsdælu *„hrúgu eina mikla"*, sem eflaust er síðari breiting. Vjer lærum á þessu, að Landnámuhandritin hafa oft upphaflegri og eldri texta enn Vatnsdæluhandritin, sem vjer nú höfum, og í annan stað, að sagan hlítur að vera eldri enn Landnámugerðirnar, sem geimst hafa til vorra tíma. Vatnsdælu-útdrættirnir eru sameiginlegir firir Sturlubók og Hauksbók, enn sú gerð Landnámu er frá c. 1230. Í Landnámu Melabókar ingri eru aðalatriðin, sem tekin eru úr Vatnsdælu, eins og í Sturlub.-Hauksb., og af því að þessar Landnámugerðir hafa annars hvorug notað hina beinlínis, hljóta útdrættirnir að hafa verið komnir inn í frumrit beggja nokkru áður enn Sturlub.-Hauksb. varð til, segjum t. d. um 1220.

1) Forns., $76^{29}$ og $77^{19-20}$.

Enn annars eru útdrættirnir í Melabók ingri að ímsu leiti einkennilegir — hún hefur kaflana í nokkuð annari röð enn Sturlub.-Hauksb. og tekur ifirleitt meira með af efni Vatnsdælu, einkum úr sögu Þorkels kröflu; þessar einkennilegu mismunargreinir sína, að útdrættir þessir hljóta að hafa staðið í Melabók eldri, enda hnítir Melabók ingri við útdrættina ættartölu frá Þorkatli kröflu niður til Helgu, er Snorri Markússon átti, enn til Helgu er Melabók eldri vön að telja. Líklegt þikir mjer, að Melabók hafi einmitt bætt við útdrættinum um Þorkel kröflu, sem ekki er í Sturlub.-Hauksb., af því að Þorkell krafla var ættfaðir Helgu. Það er annars merkilegt, að þessir útdrættir úr Vatnsdælu skildu standa í handriti, sem tók auk Landnámu ifir Vatnsdælu í heild sinni, eins og sjá má af þessu eina blaði úr Vatnsdælu Mb., sem enn er til. Þetta blað er úr frásögninni um Hrolleif, sem líka er til í útdrætti í Melabók ingri, og má þar bera Vatnsdælutexta Melabókar saman við Landnámutexta hennar.

Vjer komumst þá að þeirri niðurstöðu, að útdrættir úr Vatnsdælu hafi verið komnir inn í Landnámuhandrit um 1220, og hlítur sagan því að vera eldri enn c. 1220. Af því leiðir aftur, að alt það í sögunni, sem ber vott um 14. aldar mál og smekk, hlítur að stafa frá því, að einhver maður hefur á 14. öldinni umsteipt sögunni í anda samtíðar sinnar.

Þá skulum við hverfa að afstöðu Vatnsdælu við aðrar sögur enn Landnámu. Jeg hef þegar minst á afstöðu hennar við Hallfreðar sögu. Þegar jeg talaði um Hallfreðar sögu, komst jeg að þeirri niðurstöðu, að hin upphaflega Hallfreðar saga mundi ekki hafa þekt eða notað Vatnsdælu. Enn hefur þá Vatnsdæla þekt og notað Hallfreðar sögu? Það er enginn efi á, að sagan í þeirri mind, sem hún er nú, hefur þekt efnið í Hallfreðar sögu, því að hún vitnar beint til hennar á einum stað um ástir þeirra Hallfreðar og Kolfinnu.[1]) Enn það er mjög vafasamt, hvort þessi tilvitnun er upphafleg í Vatnsdælu.

1) Vatnsd., 45. k. (Forns., bls. $75^{14-15}$).

Ímsar missagnir í sögunum benda til, að þær muni vera hvor annari óháðar, og líklegast þikir mjer, að tilvitnunin til Hallfreðar sögu sje sett inn í Vatnsdælu af þeim manni, sem umsteipti sögunni á 14. öldinni.

Í 46. kap. segir Vatnsdæla frá haustboði því, er Ólafr á Haukagili hjelt, þegar Friðrekr biskup vígði eldana, sem berserkirnir óðu, Haukar tveir, og frá drápi berserkjanna. Frá sama efni segir Ólafs saga hin langa í Fms. I 265—6 og Flat. I 269, og er sagan þar tekin eftir Ólafs sögu Gunnlaugs munks, enn Gunnlaugur vitnar beint til munnlegs heimildarmanns, Glúms Þorgilssonar, sem hafi haft söguna eftir öðrum manni nafngreindum. Líka segir Kristni saga frá sama viðburðinum í 2. k.[1]). Ef vjer berum hjer saman Vatnsdælu við Ólafs söguna löngu (Gunnlaugs-textann), þá sjest, að þar eru ímsar missagnir, sem á milli ber,[2]) og er auðsjeð, að sögurnar eru hvor annari óháðar, enda vitum vjer um heimild Gunnlaugs, að það var ekki Vatnsdæla, og hitt er óhugsandi vegna missagnanna, að Vatnsdæla hafi haft firir sjer sögu Gunnlaugs. Aftur á móti kemur frásögn Kristni sögu í öllu verulega saman við Vatnsdælu, og getur það varla stafað af öðru enn því, að Kristni saga hafi þekt og notað Vatnsdælu. Það eitt ber á milli, að Vatnsdæla segir, að Þorkell krafla hafi ekki látið skírast við þetta tækifæri, heldur ekki firr enn síðar, um það leiti sem kristni var lögtekin á Íslandi, enn Kristni saga segir, að Þorkell hafi látið *prímsignast* þá þegar; higg jeg, að Kristni saga hafi vikið þessu við af ásettu ráði,[3]) þótt það eðlilegra, að jartein sú, sem biskup gerði, hefði haft áhrif þá

1) Bisk. I 5—6. bls. — 2) T. d. segir Ólafs saga, að Haukagilsveislan hafi verið brúðkaupsveisla, og að Þorvaldr víðförli hafi þar gengið að eiga Vigdísi, dóttur Ólafs að Haukagili. Enn eftir Vatnsdælu er veislan vanalegt haustboð, og áður hef jeg sínt, að eftir Vatnsdælu var það Þorkell krafla, sem átti Vigdísi dóttur Ólafs að Haukagili, enn ekki Þorvaldr víðförli. Eftir Ólafs sögu deija berserkirnir af því að vaða hinn vígða eld. Enn eftir Vatnsdælu ríður eldraunin þeim ekki að fullu, heldur eru þeir síðar lamdir lurkum til bana. — 3) Sbr. ritgerð mína um Ara fróða í Árb. f.n. oldk. og hist. 1893, 310.—311. bls.

þegar. Kristni saga í sinni núverandi mind er rituð laust fyrir miðja 13. öld, á dögum Bótólfs biskups (1238—46), sbr. Kristni sögu, 3. k. niðurl. Ef hún hefur notað Vatnsdælu, hlítur Vatnsdæla að minsta kosti að vera eldri enn c. 1240, og staðfestir það niðurstöðu þá, sem við komumst að áður um aldur hinnar upphaflegu Vatnsdælu.

Þá á Vatnsdæla að nokkru leiti sameiginlegt efni við Finnboga sögu ramma, þar sem er frásögnin frá viðureign Ingimundarsona, einkum Þorsteins og Jökuls, við Finnboga ramma og Berg rakka. Gering hefur í formálanum firir Finnboga sögu sinni borið sögurnar nákvæmlega saman. Það er óhugsandi, að Vatnsdæla hafi notað Finnboga sögu, því að Finnboga saga er án als efa talsvert ingri en Vatnsdæla. Hitt virðist mjer líklegt, að Finnboga saga hafi haft firir sjer Vatnsdælu. Missagnir eru að vísu talsverðar, enn sumar af þeim virðast sprotnar af því, að höfundur Finnboga sögu hefur af ásettu ráði vikið frá Vatnsdælu, þar sem honum þótti hún bera Ingimundarsonum of vel eða Finnboga og Bergi of illa söguna, og breitt frásögninni sínum söguköppum í vil.

Loks getur Vatnsdæla um bardaga í Hafursfirði og segir, að hans geti víða í sögum. Að öllum líkindum hefur höfundurinn haft firir sjer einhverja konungasögu, og Finnur Jónsson heldur, að það hafi helst verið Upphaf ríkis Haralds hárfagra, sem svo er kallað, því að þar ber Haraldr auknefnið Dofrafóstri eins og í Vatnsdælu, og einstök orð um þennan viðburð, einkum lísingin á Úlfhjeðnum Haralds, eru lík í Vatnsdælu og Upphafi, enn mjer finst líkingarnar svo ómerkilegar, að jeg þori ekki að fullirða neitt.

Í orðfæri sögunnar er ímislegt, sem virðist benda til, að sá, sem það hefur ritað, hafi verið klerkur. Í 23 k. hrósar Þorsteinn föður sínum Ingimundi firir, hve vel honum hafi farist við Hrolleif, sem vó hann, og bætir við: „Njóta mun faðir minn þess frá þeim, er sólina hefir skapt ok allan heiminn, hverr sem sá er, enn þat má vita, at þat mun nokkurr gert hafa.“ Í 37. k. heitir Þorsteinn á þann, „er sólina hefir skapat“, að berserksgangurinn

hverfi af Þóri bróður hans. Og í 46. k. segir Þorkell krafla við Friðrek biskup, sem biður hann láta skírast, að hann vilji ekki hafa aðra trú enn Þorsteinn Ingimundarson og Þórir fóstri minn. „Þeir trúðu á þann, er sólina hefir skapat ok öllum hlutum ræðr.“ Biskup svarar: „Þá sömu trú boða ek með þeiri grein, at trúa á einn guð, föður son ok heilagan anda, ok láta skírast í vatni í hans nafni.“ Jeg firir mitt leiti legg nú ekki svo mikið upp úr því, þó að höfundurinn láti heiðna menn trúa á þann, sem sólina hefur skapað; hann getur vel verið leikmaður firir því. Enn það eru orðin í kring, sem mjer virðast vera prestleg, einkum þó orð Friðreks biskups. Í niðurlagi sögunnar er sagt um Þorkel kröflu, að hann hafi verið „rétt trúaðr maðr — ok elskaði, sem sá, er framast elskaði, sannan guð“, og ennfremur: „bjóst Þorkell mjök kristiliga við sínum dauða, því at hann var vel kristinn maðr ok ræktaði vel trú sína“. Þessi orð virðast bersínilega skrifuð af klerki. Enn það er nokkur vafi á, hvort þau og annað, sem klerkakeimur er að í Vatnsdælu, er upphaflegt í sögunni; það getur verið komið inn í hana á 14. öldinni, þegar hún var færð í nijan búning.

Sagan gerist mestöll í Vatnsdal og hjeröðunum þar í kring í Húnavatnsþingi, og er höfundur þar gagnkunnugur. Allar líkur til, að höfundur hafi verið Húnvetningur.

## Bandamanna saga.

*Handrit:* Vjer erum nokkurn veginn vel settir með handrit af þessari sögu, því að hún er til vor komin í 2 skinnbókum, þau eru að vísu miklu ingri enn sagan. Hið eldra þeirra er hin nafnfræga sögubók í Árnasafni 132 fol., sem vjer höfum áður talað um og nú er vanalega kölluð Möðruvallabók, skrifuð á firri hluta 14. aldar, hin er hjerumbil einni öld ingri, geimd í Gl. kgl. samling í Kaupmannahöfn, nr. 2845, 4°, rituð á 15. öld (Konungsbók). Bandamanna saga er þar fremst, og á eftir fara ímsar fornaldarsögur, auk Orms þáttar Stórólfssonar og Rauðólfs þáttar. Í báðum þessum handritum hefur sagan geimst í heilu lagi. Enn auk þess er til eitt skinnblað af sögunni í Jóns Sigurðssonar safni, sem í flestu kemur heim við Möðruvallabók, enn hefur þó á stöku stað rjettari texta. Skinnblaðið er frá ofanverðri 15. öld að dómi Pálma Pálssonar og er geimt meðal Skinnbókarbrota í nr. 6. Það er í 4°, áfast í kjölnum við blað úr Krókarefs sögu. Þegar vjer berum saman bæði aðalhandritin, sjáum vjer, að hjer er um tvær gerðir sögunnar að ræða, sem koma heim hvor við aðra í aðalefninu, enn eru talsvert ólíkar í einstökum atriðum.

— — —

Guðbrandur Vigfússon vakti firstur manna athigli á K-textanum í ritdómi sínum í Nýjum Fjelagsritum[1]) og ljet í ljós um leið, að sá texti væri eldri og upphaflegri enn M-textinn. Þetta álit Guðbrands fjell í góða jörð hjá flestum þeim, sem síðar fjölluðu um söguna. Cederschiöld, K. Maurer, Finnur Jónsson og Eugen Mogk hafa allir

1) XVIII, 156—59.

tekið í sama strenginn og Guðbrandur. Aftur á móti voru þeir Heinzel og Eiríkur Magnússon á annari skoðun. Enn þessir menn hafa öllu fremur bigt skoðanir sínar á hugarburði sínum enn nákvæmum samanburði á þessum tveim gerðum sögunnar í einstökum atriðum. Í formálanum firir útgáfu sinni hefur Heusler reint að leisa úr þeirri spurningu, hvor gerðin sje upphaflegri, með því að bera saman einstök atriði í þeim, og það er auðvitað eini rjetti vegurinn til að skera úr því máli. Ifirleitt er M-textinn fjölorðari enn K-textinn. Spurningin verður þá: hefur M lengt og íkt frásögnina frá því sem hún er í K, eða hefur K stitt hana frá því sem hún er í M? Þeir Guðbrandur Vigfússon hafa haldið því fram, að M hafi íkt frásögnina. Gagnvart þessu bendir Heusler á það, sem jeg er honum fullkomlega samdóma um, að þegar um tvær gerðir af sögum er að ræða, aðra stittri, enn hina lengri, þá muni það vera oftar, að stittri gerðin sje ágrip af hinni lengri, enn að lengri gerðin sje aukning úr hinni stittri. Þetta er og eðlilegt, því að vanalega vildu afritararnir spara sjer tíma og bókfell með því að fella úr það, sem þeim þótti óþarft. Jeg skal og bæta því við, að K er stundum fillri enn M. T. d. að taka, þegar Oddr fer að Óspak til að stefna honum firir sauðastuldinn, þá verður hann eftir utangarðs, meðan Vali fóstbróðir hans fer heim að semja við Óspak, enn Óspakr veitir Vala banasár. Vali ræður þá til, að Óspakr skuli senda konu sína Svölu á fund Odds og segja honum, að Vali hafi sætst á málið firir hans hönd við Óspak, og beðið sig að skila, að Oddr skildi fara heim. Við það fer Oddr heim á Mel. Svo heldur sagan þannig áfram í K: „Annan dag eftir sá þeir (ɔ: Oddr og heimamenn hans), at menn mjök margir fóru at garði á Mel; gengr Oddr út á móti þeim og sér, hver efni í eru. Þar fóru menn með lík Vala. Nú kemr upp alt málit, og verðr Oddr varr við, hann unir svá illa, at stóru bar“. Þessi áhrifamikla og lifandi frásögn er í M dregin saman í þessi fáu orð: „Vali lét líf sitt og var lík hans flutt á Mel. Oddi þótti þetta mikil tíðendi ok ill“. Hjer er M auðsjáanlega ágrip af K, og fleira þessu líkt mætti tilfæra. Er þá ekki

hins vegar líklegt, að K sje ágrip af M, þegar svo stendur á, að K sleppir úr ímsu því, sem máli skiftir úr frásögninni eins og hún er í M? Og þetta kemur mjög oft firir. Þegar Oddr ætlar utan snemma í sögunni, biður hann Óspak first að taka við búi sínu á Mel í fjarveru sinni og síðan að annast goðorð sitt. Óspakr færist í bæði skiftin fastlega undan í firstu, enn lætur þó til leiðast að lokum firir bænastað Odds. Um þetta ber báðum gerðum sögunnar saman. Enn í bæði skiftin gefur M í skin, að undanfærsla Óspaks hafi verið tóm ólíkindalæti, og að hann hafi undir niðri verið óðfús til að taka bæði við búi og goðorði. Þessu sleppir K úr á báðum stöðunum. Enn það er bersínilega mjög svo einkennilegur og meistaralegur dráttur í lísingunni á lundarfari Óspaks, sem varla er ætlandi öðrum enn frumhöfundi sögunnar, er kann svo vel að lísa mönnum. Hjer hefur því K auðsjáanlega stitt af ásettu ráði og slept úr því, sem ritaranum fanst ekki beint vera nauðsinlegt til að skilja gang sögunnar. Sömuleiðis sleppir K að mestu leiti þeim einkennilegu lísingum á Ófeigi karli, sem standa í M, þar sem verið er að segja frá göngu hans milli höfðingjanna á alþingi. First, þegar hann fer að finna Egil, segir M svo frá, að hann hafi gengið frá búð sinni og verið áhiggjufullur, „sér enga liðveizlumenn sína ... enn í máli váru engar verndir, ferr hækilbjúgr, hvarflar milli búðanna og reikar á fótum“ — meistaraleg lísing, sem vekur eftirvænting lesandans. Þegar hann hefur fengið ádrátt hjá Agli, gengur hann til Gellis — „ok er allhældreginn, er þó eigi svá dapr með sjálfum sér, sem hann er hrumr á fótum, ok eigi svá laustækr í málum, sem hann er lasmeyrr í göngunni.“[1]) Og loks, þegar Ófeigr hefur unnið Gelli á sitt mál, stendur í M: „Síðan ferr Ófeigr nú í braut ... ok hvárki seint né krókótt ok eigi bjúgr“. Hjer er meistaraleg list, hvernig Ófeigr verður hressari og hressari í göngunni, eftir því sem honum aukast vonir um að koma sínu fram (klimax í frá-

---

1) Heusler heldur, að þessi einkennilega setning sje síðari viðbót — það finst mjer óhugsandi.

sögninni). Öllu þessu sleppir K, því að óneitanlega skilst gangur sögunnar vel, þó að það falli burt. Jeg tel eflaust, að þetta sje upphaflegt í sögunni og felt úr af ásettu ráði í K, og það því fremur sem K sleppir ekki úr lísingunni á Óspaki, þegar hann kemur til sögunnar á alþingi firra árið, þegar mál Odds er komið í óefni, og Ófeigr mætir honum, er hann gengur frá dómi — þar stendur svo í K: „gengr maðr einn í móti þeim (Oddi) gamall ok hrumr ok hafði kápu svarta ok ein ermr á, bjúgstaf í hendi ok broddr í"; hjer stendur í M samskonar lísing að efni til, nema M bætir við: „hafði síða hettuna ok rak undan skygnur, stappaði niðr stafnum ok fór heldr bjúgr". Þessari viðbót sleppir K, eflaust af ásettu ráði, enn það sem K tekur með af lísingunni, er nóg til að sína, að bæði þessi lísing Ófeigs og hinar, sem á eftir fara, muni vera upphaflegar í sögunni.

Annars kemst Heusler að þeirri niðurstöðu, að hvorug gerðin *í heild sinni* geti talist upphaflegri enn hin, heldur sje M upphaflegri á þessum stað, enn K á hinum, og verði í því efni að rannsaka hvert einstakt atriði í hvorri gerð um sig í samanburði við tilsvarandi atriði í hinni, og þessari niðurstöðu er jeg alveg samdóma. Samt er það mín skoðun, að M standi ifirleitt nær hinum upphaflega texta, og skal jeg leifa mjer að færa nokkrar ástæður firir því.

Vjer höfum komist að þeirri niðurstöðu, að þar sem önnur gerðin er fillri enn hin, þá muni oftast nær fillri gerðin hafa geimt hið upphaflega, enn hin gerðin stitt af ásettu ráði. Nú kemur það oftar firir, að M er fillri enn K. Af því leiðir, að M hefur oftar geimt hið upphaflega.

Söguhöfundurinn hefur bersínilega verið gagnkunnugur í Húnavatnsþingi, og er því líklegt, að sagan sje samin þar, enda gerist hún mestöll þar, að svo miklu leiti sem hún gerist ekki á alþingi. Nú má sjá það á M, að sú gerðin stafar einhversstaðar þar að norðan, líklega úr miðju þinginu eða austan til í því, þar sem sagan í þeirri gerð birjar á því að segja, að Ófeigr, faðir Odds, hafi búið *vestr* í Miðfirði, og hermir litlu síðar, að Styrmir frá Ásgeirsá

hafi verið mikill höfðingi *vestr* þar. Á báðum þessum stöðum hefur K *norðr* f. *vestr*, og sínir það, að sú gerð hlítur að vera samin í Vestfirðinga- eða Sunnlendingafjórðungi, að öllum líkindum helst í Dölum, því að Dalasísluhjeruðin hafa frá alda öðli staðið í mjög nánu sambandi við vestursveitir Húnavatnsþings. Nú er það í sjálfu sjer líklegt, að gerð, sem stafar frá því hjeraði, þar sem sagan er til orðin, muni vera upphaflegri enn gerð, sem rituð er utan hjeraðs, enda finnast í K nokkrir síðari viðaukar, sem virðast vera settir inn í söguna af vestfirskum manni, og ein leiðrjetting, sem ber vott um, að höfundur þeirrar gerðar hafi verið kunnugur breiðfirskum ættum. Þannig finst mjer það bera vott um vestfirskan uppruna, þar sem K kallar Þórarin spaka *Lax*dælagoða og ættfærir hann þannig, að hann hafi verið sonur Óspaks (auðsjáanlega ógátsvilla eða ritvilla f. Ólafs) ɔ: Höskuldssonar Kolssonar og Þorgerðar dóttur Egils Skallagrímssonar. M kallar manninn Langdælagoða og ættfærir hann ekki, og er það eflaust hin upphaflegi texti. Þórarinn er síðar einn af Bandamönnum, og ber sagan það með sjer, að hann hefur búið í Húnavatnsþingi, enn ekki í Dölum, og verið samþingisgoði Styrmis, því að þeir tveir af Bandamönnum fara stefnuför saman til Odds,[1]) og síðan ríða þeir „norðan“ til alþingis í einum flokki og hitta bandamenn sína, sem koma að vestan, á Bláskógaheiði (svo stendur í K sjálfri, bls. $10^5$). Af Landnámu vitum vjer, að Þórarinn spaki hjet 4. maður frá Holta, er nam Langadal (Langdælaætt), og er hann líklega sami maður og Þórarinn spaki á Lækjamóti, „ráðgjafi Víga-Barða“ (svo Melabók ingri), í Heiðarvíga sögu og ef til vill sami maður sem Bandamanna saga talar um, enn þá hefur þó sagan gert sig seka í tímatalsvillu, því að Bandamanna saga gerist laust eftir miðja 11. öld, enn svo lengi hefur fóstri Víga-Barða varla lifað. Að minsta kosti virðist alt mæla með því, að Þórarinn Bandamanna sögu hafi verið af Langdælaætt, — Guðbrandur Vigfússon getur til, að hann hafi

1) M. Heusler, bls. $41^{29}$ = K [útg. Cederschiölds] bls. $9^{28}$ og $10^2$.

verið sonarsonur Þórarins spaka, fóstra Víga-Barða — enn hitt er fjarstæða, sem K segir, að hann hafi verið af Breiðfirðingakini, enda átti Ólafr pái engan son með því nafni að vitni Laxdælu og Landnámu. Líklegast þikir mjer, að K-höfundur hafi blandað honum saman annars vegar við Þorberg son Ólafs pá og hins vegar við Þórarin goða úr Langadal á Skógarströnd, sem Laxdæla getur um. Og á því getur enginn efi leikið, að M hefur hjer geimt hið upphaflega, enn K afbakað textann. Annað dæmi þess, að K-höfundur hefur aukið söguna sakir kunnugleika síns firir vestan, finst að minni higgju í samtali þeirra Ófeigs og Gellis á alþingi. Ófeigr spir, hverjir sjeu bestir kvennkostir í hjeraði Gellis. Samkvæmt M svarar Gellir, að það sjeu dætur Snorra goða og Steinþórs á Eyri, enn K ($12^{10}$) lætur Gelli auk þess telja dætur *Þorgils Arasonar.*[1]) Þessu held jeg að K-höfundur hafi bætt við, af því að honum hefur þótt það óviðkunnanlegt, að Reiknesinga skildi ekki vera getið að neinu. Enn stendur í M, þar sem sagt er frá andláti Hermundar Illugasonar á Gilsbakka, að ónefndur prestur frá Síðumúla hafi stumrað ifir honum í andlátinu,[2]) enn K nafngreinir prestinn og segir,[3]) að það hafi verið Þórðr prestur Sölvason í Reikjaholti.[4]) Hjer virðist enn koma fram kunnugleiki K-höfundar í nágrannahjeröðum Breiðafjarðar, og higg jeg, að þessu hafi hann bætt inn, enn M varðveitt frumtextann. Merkilegt er, að allir þeir þrír viðaukar, sem taldir eru, miða að því, að sína fróðleik höfundarins um ættir höfðingja við Breiðafjörð og í Borgarfirði, og verður eitt ifir þá alla að ganga. Loks ber að geta þess, að M telur Banda-

1) Eftir K spir Ófeigr first, hverjir ungir menn sjeu vænstir til höfðingja þar vestra, og svarar Gellir, að það sjeu sinir hinna sömu höfðingja, Snorra, Þorgils og Steinþórs. Þessi spurning er í rauninni alveg óþörf og þíðingarlaus í þessu sambandi sem inngangur að bónorðinu, er á eftir fer, og virðist vera síðari íauki. Merkilegt er, að K-höf. virðist ekki hafa haft neinn grun um það, sem Laxdæla segir, að Gellir væri kvongaður Valgerði, dóttur Þorgils Arasonar. — 2) M Heusl. $58^{6}$. — 3) Cedersch. $17^{14}$. — 4) Eflaust = Þórðr Sölvason af Geitlendingaætt, ættfaðir Reykhyltinga. Sbr. Landn., III. p. 21. k., Sturl. Oxf. I, 4 (sbr. 25, 190 og 211).

manninn Gelli (afa Ara fróða) Þórðarson, enn það er villa firir Þorkelsson, sem stendur í K. Mjer þikir ekki ólíklegt, að villan stafi frá frumhöfundi Bandamanna sögu, og að hann hafi ruglast í nafninu, af því að hann hafi haft í huga Þórð gelli, langafa Gellis Þorkelssonar. Hjer hefur þá K leiðrjett frumtextann, af því að hann sem Breiðfirðingur vissi betur ættina.

Heusler hefur bent á það, að þar sem tölur koma firir í sögunni og gerðunum ber ekki saman, þá standi svo að segja altaf hærri tölurnar í K. Nú er það einmitt einkennilegt firir ingri gerðir sagna að íkja tölur, og á einum stað að minsta kosti má beint *sanna*, að M hefur hina upphaflegu lágu tölu, enn K hefur íkt hana af ásettu ráði. Eftir því sem M segist frá, gera þeir Egill og Gellir Oddi að gjalda *13 aura* silfurs til Bandamanna gegn niðurfalli á sökum (M 53[35], 54[9,13], 55[34]), og þegar Þorgeirr Halldórsson er óánægður með þetta 13 aura gjald, brígslar Egill honum um, að kotkarl hafi markað í höfði honum 13 kúlur og Þorgeirr tekið 13 lambær firir. K segir á *4 stöðum* (15[9,14,15], 16[11]), að þeir hafi gert 30 aura gjald, enn á einum stað 13 aura (15[16]), og þar kemur auðvitað fram hið upphaflega, og sömuleiðis í því, að K lætur Egil segja, að kúlurnar, sem markaðar vóru í höfði Þorgeirs, væri 13 og lambærnar, sem hann tók firir, sömuleiðis 13 (16[13]).

Þetta, sem nú hef jeg talið, eru sínileg merki þess, að K muni vera ingri gerð enn M og ekki eins nærri frumriti sögunnar. Þar að auki *finst mjer* ifirleitt sagan vera betur sögð í M heldur enn í K, og hitt miklu sjaldnara, að K segi betur frá. Enn þetta er auðvitað tilfinningamál.

Enn hjer er önnur spurning, sem krefst svars, spurning, sem stendur í nánu sambandi við spurninguna um, hvor gerðin sje upphaflegri. Hvernig stendur á hinum mikla mun, sem víða er á gerðunum? Af því að meginatriði sögunnar eru hin sömu i báðum gerðum, má þó álikta með fullri vissu, að sameiginleg frumheimild liggi til grundvallar firir þeim. Enn var sú frumheimild skrifleg eða munnleg? Heusler heldur, að hún hafi verið

munnleg. Hann heldur, að sagan hafi, áður en hún var færð í letur, verið til í tveimur ólíkum *munnlegum* gerðum, sem auðvitað hafa átt kin sitt að rekja til einnar sameiginlegrar munnlegrar frumheimildar, og að síðan hafi tveir menn, sem hvorugur vissi af öðrum, ritað upp hvor sína munnlegu gerð óbreitta. Af því stafi munurinn, sem á gerðunum er. Þessi skoðun Heuslers stendur í nánu sambandi við þá skoðun hans og fleiri vísindamanna nú á dögum, að flestar af sögum vorum hafi skapast í munnlegri frásögn og verið til, áður enn þær voru skrásettar, í svo að segja sömu mind og þær eru nú til skrifaðar, og að þeir, sem skrásettu þær, hafi í rauninni ekki unnið annað að þeim enn að skrifa þær upp óbreittar eftir þeim sögumanni, sem sögurnar kunni. Ef það irði sannað, að munurinn, sem er á gerðum Bandamanna sögu, stafaði frá tveimur mismunandi munnlegum gerðum, sem tveir menn hefðu skrifað upp óháðir hvor öðrum, þá væri þar með sannað, að þessi saga að minsta kosti hafi verið til í munnlegri frásögn firir skrásetninguna, og þá getur svo verið um fleiri. Spurningin er mjög mikilvæg firir bókmentasögu vora, því undir svarinu er það að miklu leiti komið, hvernig vjer lítum á tilorðning sagnanna, og hvort vjer eigum að skoða þá, sem skrásettu þær, sem sjálfstæða höfunda eða sem skini skropnar ritvjelar.

Þegar vjer berum saman gerðirnar K og M, sjáum vjer, að sumstaðar koma firir villur í annari hvorri gerðinni, þar sem hin hefur hið rjetta. T. d. stendur svo í M ($30^{25-26}$): „Oddi hugnar vel við Óspak ... Hann var bæði harðvirkr ok mikilvirkr ok þarfr búinu". Í K er þetta alveg eins, nema þar stendur *hagvirkr* firir *harðvirkr*, og á það (hagvirkr) miklu betur við í þessu sambandi; *harðvirkr* er auðsjáanlega ritvilla, sprottin af ógáti. Á öðrum stað stendur í M ($30^{10}$): „Óspakr ... gerist brátt hollr Oddi, sýslar vel um búit ok vinnr sem tveir aðrir". Í K ($3^{2}$) er þetta svona: „Óspakr gerðist Oddi hendilangr ok hollr sýslu ‚ok vinr' maðr". Hjer á bersínilega að taka saman *hollr sýslumaðr*, og

er það stitting ritarans firir *hollr ok sýslar vel um búit.* Jafnframt hefur hann auðsjáanlega first ætlað sjer að taka með setninguna „ok vinnr sem tveir aðrir“, enn setur upphaf hennar í ógáti inn á rangan stað, áttar sig svo og ræður af að sleppa henni alveg, enn gleimir að strika út upphafið, sem hann var búinn að skrifa. Orðin eiga auðsjáanlega að falla úr í K. Þessi villa er mjög eðlileg, ef skrifleg heimild, samhljóða M, hefur legið firir ritaranum, enn alveg óskiljanleg, ef hin sameiginlega heimild hefur verið munnleg. Á þriðja staðnum stendur í M ($32^{20}$): „*annathvárt at taka upp bú hennar*“ (Svölu), og er það án als efa hinn rjetti og upphaflegi texti. Enn K hefur „*annathvárt at taka umboð hennar*“ ($4^{14}$), sem er hrein vitleisa í þessu sambandi og bersínilega rangt. Hjer er *umboð* auðsjáanlega ritvilla firir *upp bú,* og er ljóst, að firir báðum gerðum hlítur hjer að hafa legið skrifleg samheimild, sem M hefur farið rjett með, enn K afbakað. Á fjórða staðnum hefur M ($48^{15-16}$): „Hall Styrmisson“ (ɔ: frá Ásgeirsá), og er það bersínilega rjett, því að vjer vitum af öðrum heimildum,[1]) að Styrmir átti son, sem Hallr hjet. Enn K ($12^{16}$) hefur „*son Hallsteins frá Ásgeirsá*“. Þessi ritvilla er vafalaust sprottin frá, að í handritinu, sem K hafði firir sjer, hefur staðið *hall st.s.,* sem K svo les *Hallsteins son* og breitir í *son Hallsteins* til þess að fá úr einhverja hugsun. Villan væri óskiljanleg, ef munnleg samheimild lægi á bak við báðar gerðir. Á 5. staðnum hefur M ($34^{21}$) *hætt við orði,* sem eflaust er rjett, enn K ($5^{22}$) *helzt við orði,* sem er bersínileg ritvilla.

Enn þá meiri áherzlu legg jeg þó á það, að sumir mjög einkennilegir kaflar, sem hætt var við að breittist í munnlegri sögusögn, eru sem næst alveg eins í báðum gerðum. Ifir höfuð að tala finst mjer Heusler hafa einblínt of mikið á það, sem er ólíkt í gerðunum, enn haft ekki nógu opin augu firir hinu, sem er þeim báðum

---

1) Landn., III. p., 6. k., útg. 1843, 189. bls.

sameiginlegt. Jeg legg ekki svo mikla áherslu á það, að gerðunum beri saman um helstu atburði sögunnar og allan gang viðburðanna. Slíkt gat lengi geimst nokkurn veginn óbreitt í munnlegri sögusögn. Enn jeg legg áherslu á það, að ímisleg einkennileg aukaatriði, sem snerta form frásagnarinnar og búning hennar, hafa geimst svo að segja óbreitt í báðum gerðum. Jeg tel það alveg óhugsandi, að slík og þvílík aukaatriði, sem ekki beint skifta máli, geti geimst óbreitt í munnlegri frásögn. Jafnóðum og sagan gengur munnlega mann frá manni, frá einum viðtakanda til annars, hlítur hver nír viðtakandi að setja sitt persónulega mark á þess konar aukaatriði, er hann endurtekur söguna, og svona ganga breitingarnar koll af kolli. Jeg á hjer einkum og sjer í lagi við samtöl sögunnar, sem eru eitt hið fegursta skraut sögunnar. Að vísu þikir mjer það ekki svo mikið tiltökumál, þó að viðtöl Ófeigs karls við höfðingjana á þingi og seinna Egils við bandamenn sína sjeu nokkurn veginn eins í báðum gerðum, því að þessi samtöl snerta svo mikið aðalefni sögunnar, að ekki er alveg óhugsandi, að þau hafi varðveitst svo að segja eins í verulegum atriðum, og eru þó samtölin grunsamlega lík. Enn hitt gegnir meiri furðu, að óveruleg samtöl, sem lítið eða ekki snerta aðalefnið, skuli hafa haldist svo að kalla óbreitt í tveimur munnlegum gerðum. Þessi samtöl eru:

1. Viðtal Óspaks við Odd, er hann biður Odd taka sig til vistar M (Heusler) $29^{32}$, $30^{9}$ = K (Cedersch.) $2^{29-35}$.
2. Viðtal Odds við Óspak M $31^{14-24}$ = K $3^{25-30}$. Oddr biðr Óspak taka við goðorði sínu.
3. Svar Þórarins goða við bónorði Óspaks M $32^{18-23}$ = K $4^{12-15}$ (þar er í K ritvillan *umboð* f. *upp bú)*.
4. Samtal Odds og Vala um geldingahvarfið, sem er eignað Óspaki M $34^{9-25}$ = K $5^{14-24}$ (þar er í K ritvillan *helzt* f. *hætt)*.
5. Samtal Vala og Óspaks M $34^{34}$—$35^{27}$ = K $5^{33}$—$6^{16}$.

Vali reinir að fá Óspak til að meðganga sauðaþjófnaðinn með góðu gegn uppgjöf saka, enn Óspakr færist undan.

6. Samtal milli Óspaks og Vala, þegar Óspakr hefur sært hann til ólífis M $36^{7-12}$ = K $6^{27-31}$.
7. Samtal Styrmis og Þórarins um að ónita eftirmálið eftir Vala firir Oddi M $36^{29}$—$37^{15}$ = K $7^{9-24}$.

Því er ekki að neita, að þessi samtöl eru príði á frásögninni, gera hana fjörugri og áhrifameiri. Enn hins vegar eru þau als ekki nauðsinleg firir þráð frásagnarinnar, sum mættu missa sig með öllu og sum mætti draga saman í eina setningu. Í staðinn firir 1 og 2 nægði að segja, að Oddr tók við Óspaki og líkaði svo vel við hann, að hann trúði honum firir búi og goðorði, þegar hann fór utan. Í stað 3 mátti nægja að segja, að Þórarinn vildi ekki veita samþikki sitt til bónorðs Óspaks, o. s. frv. Samtöl þessi eru bersinilega ekki annað enn skraut á frásögninni, skraut, sem mjög tíðkast í sögum vorum. Og þetta skraut er svo að segja orðrjett eins í báðum gerðum sögunnar, orðamunurinn ekki meiri enn hann er vanur að vera í tveimur söguhandritum, sem bæði stafa frá sameiginlegu frumriti. Jeg sje því ekki minstu ástæðu til að fara á bak við hina firstu skriflegu skrásetning sögunnar til að skíra, hvernig á þessari samhljóðun stendur, eða að rekja hana til munnlegrar frásagnar. Þvert á móti tel jeg það mjög ólíklegt, og jeg vil segja alveg óhugsandi, að slík samtöl hefðu getað haldið sjer svo samhljóða, ef hin sameiginlega frumheimild hefði að eins verið munnleg og ekki lægi nein sameiginleg skrifleg heimild bak við gerðirnar, því að í munnlegri frásögn hlutu slík aukaatriði sem samtölin óumflijanlega að gangast í munni eða gleimast, er þau gengu mann frá manni. Og hjer við bætist, að í þessum samtölum koma firir setningar, sem bera á sjer ljóst mark bókmáls, enn ekki munnlegrar frásagnar, t. d. M $35^{6}$ = K $6^{2}$: „Á þá leið er", segir Vali, „er þó höfum vit [þetta talat (um þetta rætt K), [þá er því ekki at leyna (sl. M.), at þat vilja sumir menn kalla eigi óvænt, at nokk-

ut (vera M) muni af þínum völdum". Báðum deildum ber hjer saman í öllu verulegu. Aldrei hefur nokkur Íslendingur talað svona. Hjer sjást greinilega fingraför *rit*höfundarins, enn hitt er alveg óhugsandi, að setningin hafi skapast svona í munnlegri frásögn, og því síður, að hún hafi gengið svona óbreitt mann frá manni. Jeg verð að telja þessa setningu óiggjandi sönnun firir því, að skrifleg frumheimild standi að baki báðum gerðum. Því fer þá fjarri, að Heusler hafi tekist að sanna, að Bandamanna saga hafi verið til í tveimur munnlegum gerðum, áður enn hún var skrásett. Vjer komumst ekki lengra aftur á bak enn til skriflegrar samheimildar beggja gerða. Út úr Bandamannasögu-handritunum verður því ekki leidd nein sönnun til stirkingar þeirri skoðun, að sögur vorar hafi í upphafi verið skrásettar óbreittar eftir eldri munnlegri frásögn.

Enn hvernig stendur á þeim mun, sem óneitanlega er á gerðum sögunnar? Sú spurning krefst svars. Vjer höfum sjeð, að skrifleg frumheimild liggur á bak við báðar gerðir. Vjer höfum líka sjeð, að stundum hefur M geimt hið upphaflega, enn stundum K. Af því verður ekki leidd önnur áliktun enn sú, að hvorug gerðin hafi nákvæmlega filgt hinu sameiginlega frumriti, heldur hafi ritarar beggja gerða leift sjer hjer og hvar að breita, auka eða stitta. Þess eru nóg dæmi deginum ljósari í sagnahandritum vorum, að ritarar þeirra hafa ekki talið sjer skilt að rita upp frumrit sitt með filologiskri nákvæmni, heldur þótst hafa rjett til að víkja sögunni við bæði að efni og formi, eftir því sem þeim þótti best fara, með öðrum orðum að endursemja söguna á grundvelli hinnar skriflegu heimildar sinnar. Þetta er einmitt það, sem ritarar eða höfundar M og K hafa gert. Báðir hafa að vísu altaf haft hliðsjón af hinni skriflegu samheimild, enn báðir hafa leift sjer að endursemja söguna að nokkru leiti eftir geðþótta sínum og smekkvisi, og hafa þeir þó ifirleitt engu verulegu haggað í efni sögunnar. Þegar jeg les K og ber saman við M, finst mjer ljóst, að ritarinn hefur altaf haft firir sjer frumrit sitt öðru hvoru, enn við og við sleppt bókinni

og skrifað suma kafla að nokkru leiti eftir minni. Þetta skírir til fullnustu þann mun, sem er á gerðunum, og er þá engin ástæða til nje þörf á að hugsa sjer, að hann stafi frá munnlegri samheimild.

Um afstöðu Bandamanna sögu við aðrar sögur er það að segja, að litlar eða engar líkur eru til, að höfundur hennar hafi þekt eða notað aðrar sögur, sem nú eru kunnar. Að vísu eru flestir helstu menn kunnir af öðrum sögum, að minsta kosti að nafninu til. Enn það, sem aðrar sögur segja um þá, snertir ekki efnið í Bandamanna sögu, enda gerist Bandamanna saga síðar enn flestar aðrar Íslendingasögur, ekki fir enn eftir miðja 11. öld, og er því eðlilegt, að efni hennar komi lítt við aðrar sögur. Af Oddi Ófeigssini er til lítill þáttur, sem er fljettaður inn í sögu Haralds harðráða (Mork., Fornms., Flat.), og ber þeim þætti saman við Bandamanna sögu um það, að Oddr hafi verið í förum og fengist við verslun, enn annars er efnið alt annað enn í Bandamanna sögu, og sama er að segja um það, sem Hemings þáttur segir frá Oddi. Gellir Þorkelsson kemur líka við Heimskringlu og Ólafs sögu helga. Ólafr helgi sendi hann til Íslands með boðskap sinn til Íslendinga um 1026, að sögn Snorra, og hefur hann þá verið firir innan tvítugt, ef þetta er satt, því að eftir íslenskum annálum dó hann 1073, 65 ára gamall, og er því fæddur 1008. Ari fróði nefnir hann oftar enn einu sinni í Íslendingabók og í ættartölu sinni aftan við Íslendingabók — hann var föðurfaðir Ara. Laxdæla segir líka töluvert frá Gelli. Enn þetta kemur als ekki við efni Bandamanna sögu. Hermundr Illugason kemur við Gunnlaugs sögu og Heiðarvíga sögu, Skeggbroddi Bjarnason við Ljósvetninga sögu og Ölkofra þátt, Járnskeggi Einarsson við Ljósvetninga sögu. Í Landnámu er nefndur Styrmir Þorgeirsson og Hallr sonur hans. Um Þórarin Langdælagoða hef jeg talað áður. Enn það, sem segir í þessum heimildum, snertir annars als ekki efnið í Bandamanna sögu. Að því er Landnámu snertir sjerstaklega, er það einkennilegt, að hún getur als ekki um þá feðga Odd og Ófeig eða forföður þeirra

Ófeig í Skörðum Járngerðarson, og þó að hún nefni einstaka af höfðingjum Bandamanna sögu, sem lið í ættartölu, þá verður ekki af því leidd sú áliktun, að Landnáma hafa notað Bandamanna sögu, eða Bandamanna saga Landnámu. Sú eina af hinum eldri sögum, sem virðist hafa þekt Bandamanna sögu, er Eyrbyggja. Hún getur um Óspak, son Glúms Óspakssonar og Þórdísar, sistur Grettis sterka, og segir, að hann hafi deilt við Odd í Miðfirði Ófeigsson. Af þessu verður þó als ekki ráðið, að Eyrbyggjuhöfundur hafi þekt Bandamanna sögu, hann gat vel þekt þetta af munnmælum. Grettis saga getur um Óspak Glúmsson með mjög líkum orðum og Eyrbyggja („Son Glúms og Þórdísar Ásmundardóttur var Óspakr, er deildi við Odd Ófeigsson"), enn bætir við: „sem segir í Bandamanna sögu", og má af því ráða, að höfundur hefur þekt söguna. Jeg skal um leið taka það fram, að nafnið „Bandamanna saga" er einmitt tekið eftir þessum stað í Grettlu. K hefur ekki neitt nafn á sögunni, enn í M er hún nefnd „Saga Ófeigs bandakarls". Af því að „bandakarl" er ekki rjettnefni á Ófeigi — hann var als ekki einn af Bandamönnum, heldur þvert á móti sundraði hann bandalagi þeirra, og af því öðru, að Ófeigr er á einum stað í sögunni nefndur bragðakarl (M $50^{7}$ Gellir segir við Ófeig: „Ertu mikill bragðakarl"), hafa menn áliktað, að *bandakarl* í M sje ritvilla firir *bragðakarl.* Það higg jeg rjett vera. Enn sú villa er bersínilega sprottin af því, að ritarinn hefur haft Bandamenn í huga. Líklegast þikir mjer, að frumhöfundur hafi nefnt söguna „Sögu Ófeigs bragðakarls ok Bandamanna". Þá er bæði skiljanleg villan í M og nafnið Bandamanna saga í Grettlu, enda verður ekki fundið hæfilegra nafn á söguna enn að kenna hana bæði við Ófeig og Bandamenn.[1])

Enn er ein lítil saga, sem virðist hafa þekt Bandamanna sögu, og það er Ölkofra saga eða þáttur,

1) Bandamenn eru þeir fjelagar nefndir M $45^{20}$, $49^{2}$, K $13^{7}$, sbr. Ganga nú síðan í bönd M $41^{20}$ (= ganga í band K $9^{22}$).

sem virðist vera sniðin eftir Bandamanna sögu sem firirmind. Efnið er nauðalíkt, þó að persónurnar sjeu aðrar, og meðferð efnisins sömuleiðis. Bæði Heusler og Gering, sem hefur gefið út Ölkofra sögu, eru sammála um, að Ölkofra saga hafi haft firir sjer Bandamanna sögu, og leiða að því sennileg rök.

Út úr afstöðu Bandamanna sögu við aðrar sögur verður ekki leidd nein áliktun um aldur hennar, nema að hún hljóti að vera eldri enn Grettla og Ölkofra saga. Þetta segir ekki mikið, því að Grettis saga er líklega ekki eldri enn frá birjun 14. aldar, og Ölkofra saga varla eldri enn frá aldamótunum 1300. Orðfærið er fremur fornlegt og laust við það rósamál, sem kemst inn með riddarasögum. Orð, sem eru útlend að uppruna, eru fá, og ekkert því til firirstöðu frá þeirra hálfu, að sagan sje gömul.[1]) Að efni til er sagan líka laus við allan riddarasögublæ. Af þessum ástæðum finst mjer líklegt, að sagan sje samin á firri hluta 13. aldar. Það kemur vel heim við þetta, að M segir í niðurlagi sögunnar, að frá Oddi sjeu komnir „Miðfirðingar, Snorri Kálfsson ok mart annat stórmenni“, hvort sem hjer er átt við þann Snorra Kálfsson, sem dó 1175, eða sonarson hans samnefndan, sem virðist hafa lifað fram á 13. öld.[2])

Guðbrandur Vigfússon hneixlaðist á því, að málið gegn Oddi firir að hafa borið fje í dóm skuli eftir sögunni ekki vera sótt í fimtardómi, því að slíkt var fimtardómssök að lögum. Enn sagan segir hvergi, að málið hafi ekki komið firir fimtardóm, heldur lætur það óákveðið, hvort sótt var í fimtardóm eða fjórðungsdóm.[3]) Guðbrandur Vigfússon virðist hafa vilst á því, að Ófeigr gerir ráð firir því í viðræðu sinni við Egil, að fjórðungsmenn

1) Sbr. Heusler, form. LIX. (XXVIII. og XXXIX.) bls. — 2) Sagan á eflaust við Snorra eldri, sem var í fremri höfðinga röð á sinni tíð. Kálfr sonur hans (d. 1198) átti marga sonu auk Snorra ingra, og er Þorgils talinn firir þeim. Hann bír á Mel um 1216 (Sturl. Oxf. I, 229. bls.). Ef sagan vildi nefna einn af Kálfssonum, þá lá nær að nefna Þorgils. Sbr. ritg. mína um Ávellingagoðorð í Tímar. Bókmentf. II, 20.—21. bls. — 3) Sbr. Maurer í Germania, 19. bd.

fái helming eigna Odds, ef hann verður sekur. Enn það áttu þeir að fá, hvort sem sektin var dæmd í fjórðungsdómi eða fimtardómi.[1])

Heusler hefur ritað ágætlega um Bandamanna sögu frá fagurfræðilegu sjónarmiði í formálanum firir útgáfu sinni. Sagan er eitt hið mesta snildarverk í sagnabálki vorum og jafnast að því leiti, þó að stutt sje, við þær sögur, sem best eru sagðar, t. d. Njálu og Egils sögu. Að efni og meðferð efnis er hún einstæð í sinni röð meðal Íslendingasagna, þegar Ölkofra þáttur er fráskilinn, sem er ekki annað enn eftirlíking eftir Bandamanna sögu. Flestar aðrar sögur eru gagnsirðar af hetjuskaparanda víkingaaldarinnar. Af því leiðir, að þær hefja persónur sögunnar, einkum sögukappann, upp í nokkurs konar æðri hugsjónaheim, „idealisera“ þá, lísa þeim sem drenglunduðum, hugprúðum og hraustum með afbrigðum. Að þessu og fleiru leiti eiga flestar sögur skilt við tragediurnar grísku. Á þessu ber ekkert í Bandamanna sögu. Hún lætur persónurnar koma til dira eins og þær eru klæddar, hefur skarpt auga firir breiskleika þeirra og brestum og dregur þær sundur í nöpru háði. Að því leiti líkist Bandamanna saga kómedíum Aristófanesar. Og sjerstaklega verða íslensku höfðingjarnir hart úti. Það er eins og höfundur hafi viljað sína hnignun höfðingjavaldsins. Sagan er römm heimsádeila (satíra) í garð höfðingjanna. Þeir sæta miklu illkvitnislegri meðferð í sögunni enn Demos í „Riddurum“ Aristófanesar. Oddr er eiginlega fremur kaupmaður enn höfðingi, enda er hann uppskafningur og kann ekki með sakir að fara, kann ekki að beita hinu nífengna valdi sínu, þó að kaupskapurinn hafi veitt honum „afl þeirra hluta, sem gera skal“. Allir hinir höfðingjarnir, Bandamennirnir svonefndu, eru meira eða minna dregnir niður í sorpið. Þeir standa allir á lágu siðferðisstigi. Takmarkalaus fjegirnd er það, sem mest ber á í fari þeirra allra og stjórnar öllum gjörðum þeirra. Það er fjegirndin, sem

1) Grágás Kb. I 86. Sbr. ritg. mína um Kjalarnesþing í Germ. Abh. zum Geburtst. K. Maurers, 127. bls.

kemur þeim til að ganga í bandalag gegn Oddi, og fjegirndina notar Ófeigr til að tvístra þeim og fá tvo úr þeirra hóp, Egil og Gelli, til að svíkja fjelaga sína. Þegar Egill hikar við að láta Ófeig múta sjer til að svíkja fjelaga sína, nema Ófeigr geti fengið annan af þeim til að ganga í málið með sjer, þá segir Ófeigr: „Hvern vilt þú helzt kjósa? Láttu svá, sem ek eiga á öllum völ.“ Orðin minna á orð Jugurthu um Rómverja: „Urbem venalem et mature perituram, si emptorem invenerit“.[1]) Í þeim kemur fram hámark firirlitningarinnar firir höfðingjavaldinu, og ekki batnar í lok sögunnar, þegar alt lendir í rifrildi milli Bandamannanna og þeir bregða hver öðrum um skammir og klæki. Hnignun höfðingjavaldsins lísir sjer líka í því, að sumir af höfðingjunum eiga við mjög örðugan fjárhag að búa (Egill og Gellir) og hinir hafa allir einhvern annmarka, auk fjegirninnar, sem er þeim öllum sameiginleg. Styrmir er svíðingur og sveltir hjú sín og auk þess ragmenni. Þórarinn er að vísu spakur, enn hann er heigull, hleipir altaf öðrum á foraðið, og þegar Egill gerir hann hlægilegan og segir, að honum sje betra að þegja, svarar hann: „Hafa skal heil ráð, hvaðan sem koma“, setst niður og þagnar. Um Þorgeir Halldórsson lætur höfundur Ófeig segja, að hann, höfðinginn, „kunni eigi mál at meta ok hafi eigi vit til heldr enn uxi eða asni.“ Þeim Járnskeggja og Skeggbrodda brígslar Ófeigr um ofmetnað. Hermundi brígslar Egill um, að hann hafi fólgið fje sitt í jörðu, og höfundur staðfestir brígslin með því að láta Hermund segja á dauðastundinni: „tvö hundruð í gili“, því að það er ljóst af sambandinu, að þar er átt við fje, sem Hermundr hefur fólgið í gilinu, sem bær hans var við kendur (Gilsbakka). Egill og Gellir svíkja fjelaga sína firir eigin hagsmuna sakir. Svona lísir Bandamanna saga þeim mönnum, sem rjeðu lögum og lofum á Íslandi. Heusler hefur líkt sennunni milli Egils og Bandamanna í lok sögunnar við Lokasennu, og er það mjög heppileg samlíking. Jeg hef áður

1) Sall., Jug. 35,10.

í þessum firirlestrum leitt rök að því, að Lokasenna sje nöpur árás á hina heiðnu trú, og að höfundur hennar með fullum ásetningi reini að gera heiðnina hlægilega og draga hana sundur í háði. Á sama hátt higg jeg, að höfundur Bandamanna sögu hafi af ásettu ráði í riti sínu veitst að siðleisi og hnignun hinnar íslensku höfðingjastjettar og viljað fletta ofan af eimdarskap höfðingjanna og spillingu með því að sína þeim í spjespegli sögunnar sína eigin mind. Og jeg higg, að höfundur hafi í þessari lísingu haft samtíð sína firir augum. Því get jeg ekki verið þeim mönnum samdóma, sem halda því fram, að Bandamanna saga sje ekki samin fir enn seint á 13. öldinni, eftir að landið komst undir konung. Mjer finst sagan tæplega skiljanleg, nema hún sje samin, áður enn goðavaldið leið að fullu undir lok. Háðið hefði varla orðið svona napurt, ef höfundur hefði ekki sjálfur búið undir goðavaldinu og þekt höfðingjana af eigin reinslu. Margar af lísingunum virðast teknar beint út úr lífinu. Sá andi, sem gengur í gegnum söguna, kemur vel heim við þá niðurstöðu, sem jeg komst að hjer að framan, að sagan muni vera til orðin á firra helmingi 13. aldar. Þá hafði hnignun hinna fornu höfðingjaætta, sem birjar á 12. öldinni, leitt til þess, að goðorðin höfðu safnast á fárra manna hendur, og þá hefur endurminningin um hnignun goðaættanna og orsakir hennar verið í fersku minni. Þá voru enn á lífi nánustu niðjar margra höfðingja, sem mist höfðu vald sitt, sem lifandi vottur um hnignun ættar sinnar. Og meðal orsakanna til hnignunarinnar er í fremstu röð siðspilling goðanna og ekki síst fjegirnd þeirra, sem Bandamanna saga lísir af svo frábærri snild. *Ἡ φιλοχρηματία Σπάρτην ὀλεῖ, ἄλλο δ'οὐδὲν,* „Fjegirndin og annað ekki mun verða Spörtu að falli“, var spáð meðal Grikkja. Líkt má að nokkru leiti segja um goðavaldið.

Mannlísingar sögunnar eru samdar af óviðjafnanlegri snild og bera vott um djúpa mannþekking höfundarins. Sjerstaklega hefur hann opin augu firir brestum og annmörkum persónanna, sem hann lísir, og kemur þar fram kímni hans. Öllum öðrum snjallari er lísingin á

hinum samviskulausa bragðaref Ófeigi. Hann er hreifiafl sögunnar, hefur alla þræði sögunnar í hendi sjer, bindur hnútana og leisir þá, vefur höfðingjunum um fingur sjer og stendur sigri hrósandi og hróðugur í sögulokin, og er hann þó ekki annað enn óbreittur bóndi. Um lindiseinkunnir höfðingjanna hef jeg þegar talað. Ágæt er lísingin á Óspaki. Hann er sá eini vígamaður, sem kemur firir í sögunni, og ber að því leiti nokkurn keim af þeim hetjuskaparanda, sem einkennir aðrar Íslendingasögur, hefnigjarn og ófirirleitinn. Snildarlega er líst, hvernig hann smátt og smátt breitist til hins verra, í firstu er hann trúr og diggur Oddi húsbónda sínum. Enn þegar Oddr hefur trúað honum firir búi sínu og goðorði, þolir hann ekki upphefðina, finst það sætt að vera ifir aðra settur, og vill ekki sleppa goðorðinu við eigandann. Þegar Oddur svo kúgar af honum goðorðið með valdi, þá vaknar í honum óargadírið, hann fillist heiftar við Odd og hefnir sín á honum, first með því að stela frá honum sauðunum, og síðan með því að vega Vala í misgripum firir Odd. Verður síðan sekur skógarmaður, líkt og Grettir frændi hans, og útileguþjófur. Á móti Óspaki setur sagan öðlinginn Vala. Hann er eina persónan í sögunni, sem ekki er sagt annað enn gott um. Hann firirgefur veganda sínum og reinir að bjarga honum líkt og Ingimundur gamli í Vatnsdælu. Þetta sáttfúsa og kristilega hugsandi valmenni stingur auðvitað í stúf við hliðina á heiftrækni og grimd Óspaks, og lísir sjer í því íþrótt höfundarins að setja þá hvorn við annars hlið.

Eins og aðrar Íslendingasögur lísir Bandamanna saga persónunum sjaldan beinlínis með því að telja upp eiginleika þeirra, heldur lætur hún þær aðallega lísa sjer sjálfar með gjörðum sínum og orðum, enn þó einkum með orðum í viðtali við aðrar persónur. Heusler hefur tekið það fram, að í Bandamanna sögu beri meira á samtölum enn í nokkurri annari Íslendingasögu, og er það rjett athugað. Samtölin eru svo ifirgnæfandi, einkum í síðari kaflanum, sem er þungamiðja frásagnarinnar, kaflanum, sem skírir

frá gangi málanna á alþingi, að það mætti fara með söguna mjög lítið breitta upp á sjónarsviðið og leika hana. Samtölin eru sögunnar „sterka hlið", segir Heusler. Þau eru samin af óviðjafnanlegri snild, einkum samtölin í aðalkafla sögunnar, þar sem Ófeigr kemur ár sinni firir borð, first gagnvart dómurunum, síðan gagnvart höfðingjunum, og Heusler hikar ekki við að segja, að í þeim kafla komist íslensk sagnamanna-iþrótt á sitt hæsta stig. Þar lísir sjer bæði djúp þekking á mannlegri sálu og frábært hugvit í því að gera persónunum upp orðin. Jeg man ekki eftir neinum samtölum í öðrum sögum, sem komast í samjöfnuð við þessi, nema ef vera skildi samtalið í Eglu, 12. k., milli Háreks Hildiríðarsonar og Haralds hárfagra, þegar Hárekr rægir Þórólf. Heusler rekur samtölin nákvæmlega í sundur og sínir, hve mikil snild er í þeim fólgin. First er samtal þeirra feðga Odds og Ófeigs, þegar Oddr kemur frá dómi og hefur heikst á málinu gegn Óspaki. First lætst Ófeigr ekkert vita um þann ósigur, sem sonur hans hefur beðið í málinu, og vill ekki trúa Oddi, þegar hann segir honum sannleikann; ólíkindalæti, spott og meinleg stríðni skiftast á í orðum karlsins, og háðið kemst á sitt hæsta stig, þar sem Ófeigr segir, að það sje eina bótin í málinu, sem Oddr hafi gert óafvitandi, þegar hann gekk frá dómi áður enn lögvörn var framfærð. Oddr verður með kinnroða að játa sitt óvænna og biðja föður sinn að reina bjarga málinu og fær honum fje til. Þá er ræða Ófeigs firir dómendunum. Ófeigr sínir fram á, hvílíkur ábirgðarhluti það sje firir dómendur, að dæma ekki hinn versta mann sekan, þjóf og manndrápsmann, þó að formgalli sje á, einkum þar sem þeir hafi svarið eið að því að dæma það, sem þeir vissi sannast og rjettast og helst að lögum, og jafnframt hampar hann framan í þá silfrinu, og loks kemur hann svo fortölum sínum, að dómendur renna á agnið, þiggja mútur og dæma Óspak sekan. „Hjer blandast saman hárfínar orðaflækjur, siðferðisleg gremja, vingjarnleg góðmenska og afl peninganna í ræðu Ófeigs," segir Heusler, „með svo

miklum krafti, að Ófeigr hefur sitt mál fram, sem annars síndist vonlaust um.“ Meistaralegast allra er þó viðtal Ófeigs á síðara þinginu við þá Egil og Gelli. Efnið er að nokkru leiti hið sama í báðum þessum samtölum. First lætur Ófeigr sem sjer komi mál Odds als ekki við og að hann ætli als ekki að minnast á það — annars hefði hann ekki náð tali höfðingjanna. Þá víkur hann að því, hve mikill harmur það sje, að slík mikilmenni sem höfðinginn er skuli skorta fje. Svo bendir hann á, hversu litið muni koma í hvers einstaks höfðingja hlut af fje Odds, ekki nema sextándi hlutur úr Melslandi! Þá gerir hann ímist að hóta höfðingjanum (Oddr hefur frjett, að eigi er löng sævargata til Borgar, ef hann kemur í Borgarfjörð) eða smjaðra firir honum (Enn það þikir mjer illa, er þú hefur eigi góðan hlut af, því at þú felst mjer vel í geð og best af iður Bandamönnum). Þá otar hann fram silfrinu. Og þegar höfðinginn segist ekki vilja rjúfa eiða sína við hina Bandamennina og segist ekki hafa liðsafla til að ganga einn á móti þeim öllum, þá hittir Ófeigr ráð til þess, að höfðinginn geti veitt Oddi lið án þess að rjúfa eiðana, og segist eiga völ á hverjum, sem hann helst kjósi, úr flokki Bandamanna til að ganga í málið með honum. Og þá er björninn unninn. Þó að viðtalið við Gelli sje svipað viðtalinu við Egil að efni til, þá er þar þó tilbreitni í orðum og sumt öðruvísi, t. d. það, að Ófeigr biður dóttur Gellis til handa Oddi. Sagan lísir bersínilega Gelli sem meira drengskaparmanni enn Agli, og því tekur Ófeigr á honum með míkri höndum. Fjeð, sem hann greiðir honum, er að nafninu til engin múta, heldur samkvæmt festarmálunum ætlað til heimanfilgju með dóttur Gellis, sem Oddr tekst á hendur að gjalda.

Í þessum samtölum Ófeigs og höfðingjanna og eigi síður í undirtektum þeirra undir málaleitanir hans kemst gletni sögunnar hæst. Í ræðu Ófeigs, sem á eftir fer, þar sem hann kís milli höfðingjanna í gerðina, vegur þá á metaskálum og setur sína skömmina í hvern, enn þó einkum í sennu Egils við hina Bandamennina, er gamanið

grófgerðara. Í sennunni lendir alt í rogaskömmum og hótunum.[1])

Uppistaða sögunnar er bláþráðalaus og óslitin frá upphafi til enda. Heusler skoðar allan firri hluta sögunnar, er segir frá uppgangi Odds og viðureign hans við Óspak, sem inngang að hinni eiginlegu sögu, sem birji um leið og málin koma firir alþingi, og honum finst höfundur hafa teigt um of úr þessum inngangi með óþörfum málalengingum. Enn mjer finst ekki als kostar rjett að gera þannig upp milli parta sögunnar. Að vísu er það rjett, að allur firri kaflinn stefnir að þingdeildunum, sem eru hámark sögunnar, og má vel kalla frásögnina um þær meginhluta hennar. Rjett er það og, að firri hlutinn undirbír þingdeildasöguna, enn jafnframt hefur hann líka sjálfstætt gildi sem lísing á lífi fornmanna. Að höfundur sögunnar hafi sjálfur litið á þetta mál eins og jeg, sínir sig í niðurlagi sögunnar. Heusler hefur bent á, að skáldsöguhöfundar vorra tíma mundu hafa lokið máli sínu og slegið í botninn, þegar búið var að segja frá málalokum á alþingi og sigri þeirra feðga Ófeigs og Odds. Enn þar kemur á eftir first dálítill kafli um dauða Hermundar Illugasonar og síðar stutt frásögn um afdrif Óspaks. Heusler sínir, að þessi viðauki er í samræmi við þá venju íslenskra sagnamanna, að taka upp aftur þá þræði, sem þeir höfðu slept fir í frásögninni, og spinna þá til enda.[2]) Í sennunni miklu hafði Hermundr haft í hótunum við Egil og gefið í skin, að hann mundi ráða hann af dögum, í orðunum: „Þat mynda ek vilja, at vit værim eigi báðir á þingi annat sumar.“ Egill skilur þetta svo sem Hermundr hafi hjer ósjálfrátt spáð sínum eigin dauða firir næsta þing. Venja íslenskra sagnamanna krafðist þess, að síðar í sögunni væri gerð grein firir, hvort og að hve miklu leiti þessi spásögn varð að áhrinsorðum. Af því leiddi, að höfundur bætti við kaflanum um Hermund, þegar hann hafði leitt

1) Sbr. Heusler: Zwei Isländergeschichten, formálann, LIV.—LIX. bls. — 2) Heusler, Zwei Isländergesch., form. LII. bls.

til likta aðalefni sögunnar. Á sama hátt fann höfundur sjer skilt að segja frá afdrifum Óspaks. Hann hafði skilist við hann í firri hluta sögunnar með þessum orðum: „Nú hverfr Óspakr á braut, svá at eigi vitu menn, hvat af honum verðr.“ Höfundur veit firirfram, að forvitinn lesandi eða áheirandi muni ekki láta sjer nægja þetta, heldur spirja: Hvað varð síðar af Óspaki? Því tekur hann þennan þráð upp aftur í niðurlagi sögunnar og segir frá afdrifum Óspaks. Enn einmitt þetta sínir, að höfundur sjálfur hefur ekki skoðað sögu Óspaks eingöngu sem inngang að meginefninu í Bandamanna sögu, frásögninni um þingdeiluna, heldur jafnframt sem sögu með sjálfstæðu gildi.

Í M eru nokkrar vísur, sem sagan eignar Ófeigi, og ein eignuð Óspaki. K sleppir þeim öllum nema Óspaksvísunni. Enn einmitt það, að K hefur þessa einu vísu, bendir til, að hún hafi slept hinum úr og að þær sjeu allar upphaflegar í sögunni, sjerstaklega þar sem Óspaksvísan er með fornirðislagi eins og sumar af Ófeigs-vísunum og blærinn á henni mjög líkur og á þeim. Það er auðvitað erfitt að segja með vissu, hvort þessar vísur eru rjett feðraðar. Mjer firir mitt leiti virðast þær ekki vera fornlegar, og hneigist jeg helst að því, að þær sjeu ortar af söguhöfundi til að príða með söguna.

Um höfund sögunnar vitum vjer eins og vant er sama sem ekki neitt. Áður hef jeg tekið fram, að kunnugleiki hans í Húnavatnsþingi bendi helst til, að hann hafi verið Húnvetningur. Afstaða hans við höfðingjastjettina veit helst að því, að hann hafi sjálfur ekki verið í höfðingjaröð. Í sögunni er ekkert, sem mælir með, að hann hafi verið prestur, hvergi neinn klerkakeimur að orðfæri nje hugsunum. Þrátt firir það er ekki óhugsandi, að hann hafi verið af klerkastjett, enn þar sem höfuðpersóna sögunnar, Ófeigr, er óbreittur alþíðumaður, þikir mjer samt líklegra, að hann hafi verið leikmaður af alþíðustjett. Niðurlag sögunnar, þar sem getið er um Snorra Kálfsson og Miðfirðinga (= Melsmenn), gæti bent til, að hann hefði verið af þeirri ætt (einn af Kálfssonum?), enn auðvitað er það ekki annað enn laus getgáta.

Hvernig sem á Bandamanna sögu er litið, verður að telja hana með hinum merkustu Íslendingasögum. Hún er sannkallaður gimsteinn í bókmentum vorum. Ker segir,[1]) að hún sje hinn elsti skinsamlegi kímnileikur með nítísku sniði, sem til sje í sögu Norðurálfunnar á síðari tímum (the first reasonable and modern comedy in the history of modern Europe). Enn nafn snillingsins, sem vjer eigum þetta ágætisrit að þakka, er gleimt og verður líklega altaf hulin ráðgáta.

1) Epic and Romance, 2. útg., bls. 229.

## Þórðar saga hreðu.

Þessi saga er að því leiti lík Bandamanna sögu, að hún er til, eða rjettara sagt hefur verið til, í tveim gerðum, enn ólík að því leiti, að þessar tvær gerðir eru svo frábrugðnar hvor annari, að það er ljóst, að hjer er í rauninni ekki um tvær gerðir af hinni sömu sögu að ræða, runnar frá einni og sömu skriflegri frumheimild, heldur eru þetta tvær sjálfstæðar sögur, ritaðar hvor í sínu lagi af tveimur ólíkum höfundum, sem hvorugur vissi af öðrum. Því miður er að eins önnur af þessum tveim Þórðarsögum til í heilu lagi. Af hinni er nú ekki til nema upphaf og endir. Að dæmi Maurers kalla jeg til hægðarauka sögubrotið Þhreð. A, enn hina söguna, sem er heil, kalla jeg Þhreð. B.

Það sem til er nú hreint og ómengað af Þhreð. A, hefur geimst meðal hinna sorglegu leifa af Vatnshirnu í AM 564 a, 4°. — — — Þar á meðal eru 3 blöð úr Þhreð. A, og er þó firsta blaðið ekki nema lítil ræma, næst kjölnum. Á því hefur verið upphafið, og hefur Guðbrandi Vigfússini tekist að filla það með hjálp 2 pappírsafskrifta, AM 486 og 564 b, 4°, sem hafa verið teknar, meðan blaðið var heilt. Þessi handrit virðast enn fremur hafa haft firir sjer eitt blað af framhaldi sögunnar, sem nú er algjörlega glatað, því að í því, sem næst fer á eftir, eru þessi handrit blendingur af báðum hinum sjálfstæðu sögum, A og B, og má með samanburði við B vinsa úr það sem tekið er úr A. Hin tvö blöðin úr Þhreð. A, sem varðveitst hafa í 564 a 4°, eru heil, og stendur á þeim niðurlag sögunnar. Allur miðpartur þessarar sögu er algerlega glataður.

— — —

Þhreð. B hefur aftur á móti geimst í allmörgum handritum. Heil virðist hún vera í AM 152 fol., skinnhdr. frá

15. öld, sem enn hefur lítt verið notað. Upphafið stendur í AM 551 d β 4°, frá birjun 15 aldar, enn það þrítur á 12. bls. í útg. Halldórs Kr. Friðrikssonar. Náskilt því handriti er pappírshandritið nr. 139 fol., skrifað af Jóni Erlendssini, og er sagan þar heil. Auk þess er sagan í AM 471 4° og 486 4°, skinnhandritum frá 15. öld, enn í bæði þessi handrit er gloppa í miðri sögunni. Þá eru og tvö skinnhandrit í konungsbókhlöðunni í Kaupmannahöfn (Ny kgl. saml. 1147 fol. og Gl. kgl. saml. 1003 fol.), enn þau eru bæði frá 17. öld. Auk þess eru til pappírshandrit af sögunni í AM 554 h β 4°, skr. af Katli Jörundssini, o. fl., sem jeg hirði ekki að telja. Því miður er sem stendur ekki unnt að átta sig á afstöðu þessara handrita, því að nákvæma útgáfu vantar.[1])

— — —

Ef vjer nú first hreinsum A-söguna af því efni, sem pappírshandritin hafa skotið inn í hana úr B-sögunni, og berum svo báðar sögurnar saman, þá er ljóst, að þær eru svo ólíkar bæði að efni og orðfæri, að þær geta með engu móti verið runnar frá einni og sömu skriflegu heimild. Að vísu er ekki til nema upphaf og endir ą A-sögunni, því að allur miðkafli þeirrar sögu er glataður. Enn það lítið, sem til er af henni, virðist vera nóg til að sanna, að hún hefur verið gagnólík B-sögunni, einnig í miðkaflanum. K. Maurer hefur í ritgerð sinni: „Die quellenzeugnisse über das erste landrecht und über die ordnung der bezirksverfassung des isländischen freistaats“ rakið mjög greinilega það sem sögunum ber á milli. T. d. hefur B-sagan ekkert tilsvarandi til 1. kap. í A-sögunni. Í 2. k. segja báðar sögur frá Þórði eldra, föður sögukappans, enn það ber á milli, að B veit ekkert um, að sá Þórðr hafi líka heitið að auknefni hreða og síðan verið nefndur Hisingarskalli, ekki heldur, að hann hafi gengið á hólm við Bárek berserk Brenneyjarfaxa og

1) [Til A-sögunnar er hjer á eftir vitnað eftir útg. Guðbrands Vigfússonar (Nordiske Oldskrifter XXVI), til B-sögunnar eftir útg. Halldórs Kr. Friðrikssonar (Nord. Oldskrifter VI). Útg.]

dáið úr sárum, enn Þórðr ingri hreða hefnt hans síðan i einvígi, ekki heldur um það, að Þórðr eldri hafi verið tvígiftur og átt Þórð ingra við síðari konu sinni, enn frá öllu þessu segir A-sagan greinilega. Eftir eiðuna miklu í A birjar sú saga á frásögn um það, að Þórðr er í þann veginn að flitja búferlum norður til Skagafjarðar og segir við Eið fóstra sinn, að hann fari þaðan til að firrast vandræði við Skeggja, föður Eiðs, og af því að hann hafi reint ímsa menn í Miðfirði að ótrúleika við sig, og nefnir til þess Börk hinn gamla á Barkarstöðum, Þórveigarsonu á Steinsstöðum og Grím Skárason á Skárastöðum. Af því má ráða, að eitthvað hafi verið sagt frá fjandskap Þórðar og þessara manna í miðkafla sögunnar, sem glataður er. Enn B-sagan nefnir als ekki neinn af þessum mönnum. Hins vegar segir B-sagan greinilega frá deilum Þórðar við þá bræður Ásbjörn og Orm, enn þeirra getur Þórðr að engu á þessum stað í A-sögunni í viðtali sínu við Eið. Frá bónorði Þórðar við Ólöfu er sagt alt öðruvísi í A enn í B. Eftir brúðkaup þeirra Ólafar segir B-sagan greinilega frá bardaga, sem varð milli þeirra Þórðar og Sörla hins sterka, sem lauk svo, að Sörli fjell, sömuleiðis frá skálasmíð Þórðar að Hrafnagili. A minnist ekki einu orði á þetta, enn segir aftur á móti frá vináttu Þórðar við Eyvind prúða og fjelagsskap Eyvindar við Eið Skeggjason, sem B veit ekkert um. Eftir A er Eyvindr þessi Kálfsson, og eru þeir feðgar náskildir Ólöfu, konu Þórðar. Um það veit B-sagan ekki neitt, enn aftur talar hún um tvo bændur skagfirska, Kálf og Eyvind, vini Þórðar, sem ekki virðast vera neitt skildir hvor öðrum eða Ólöfu.

Það er auðsjeð, að þessi atriði, sem sögurnar greinir á um, geta ekki verið runnin frá sömu skriflegu heimild. Hins vegar er sumt, sem sögunum ber saman um. Báðar sögurnar kalla kappann Þórð hreðu, enn ekki ber þeim saman um, hvenær eða hvernig hann hlaut þetta auknefni. Báðar ættfæra hann nokkurn veginn eins. Hann er í báðum talinn Þórðarson Hörðakárasonar, og sistkini hans bera sömu nöfn í báðum sögum (Klyppr, Steingrímr, Eyjólfr og Sigríðr), enn eftir B, sem ekki veit, að

Þórðr eldri væri tvígiftur, eru þau alsistkini hans, enn aðeins hálfsistkini að föðurnum í A (Þórðr er þar síðari konu barn föður síns). Báðum ber enn fremur saman um, að Þórðr hafi verið fósturfaðir Eiðs Skeggjasonar og að fjandskapur hafi verið með honum og Skeggja, föður Eiðs. Sömuleiðis, að Þórðr hafi gengið að eiga Ólöfu, skagfirska konu, og að hann hafi verið húsasmiður hinn besti. Báðar sögurnar fara og vel að lokum, Þórðr kemst sigri hrósandi út úr öllum sínum ævintírum. Enn þetta, sem sögunum kemur saman um, eru aðeins helstu aðaldrættirnir úr lífi Þórðar, og það er svo almens efnis, að af því verður með engu móti leidd sú áliktun, að skrifleg samheimild liggi á bak við báðar sögurnar, einkum þar sem alt annað er mismunandi. Enn hvernig stendur þá á þessu, sem er báðum sögunum sameiginlegt? Hjer er að eins ein skíring hugsanleg og eðlileg. Það litla, sem er eins í báðum sögum, er tekið eftir munnmælum, sem báðir söguhöfundarnir hafa haft firir sjer. Það er einmitt einkenni munnmæla, að geima best hina almennu drætti sögusagnarinnar, enn gleima einstökum atriðum eða víkja þeim við. Þórðarsögurnar eru ljóst dæmi þessu til sönnunar. Jeg mun víkja að þessu efni nánar, þegar jeg hef talað fáein orð um hvora sögu firir sig.

A-sagan er fráleitt eldri enn frá 14. öld. Jeg legg ekki svo íkja mikla áherslu á það, að hún rekur ættir til manna, sem lifðu um miðja 14. öld eða jafnvel seint á þeirri öld, t. d. til Þorsteins ábóta böllótts á Helgafelli (d. 1353), til Jóns Hákonarsonar, sem lifði fram ifir aldamótin 1400, og til Ingileifar Árnadóttur, sem var fjórði maður frá Þórði kakala. Síðustu liðunum í þessum ættartölum gæti verið bætt við síðar. Hitt er veigameira, að höfundur hefur tínt saman, einkum úr Landnámu, ímislegan fróðleik til að príða með sögu sína, enn slíkur samtíningur úr ímsum áttum er einmitt einkennilegur firir 14. aldar höfunda. Maurer hefur bent á þá staði í sögunni, sem dregnir eru út úr Landnámu, og skal jeg ekki þreita menn á þeirri upptalningu, heldur vísa til

Maurers. Þegar vjer berum þessa Landnámuútdrætti saman við handrit þau, sem nú eru til af Landnámu, þá er það einkennilegt, að þeir koma stundum heim við eitt Landnámuhandrit, stundum við annað, og stundum við ekkert þeirra. Þetta sínir, að höfundur hefur haft firir sjer alveg sjerkennilegt Landnámuhandrit, frábrugðið þeim, sem vjer nú höfum. Merkastur af þessum útdráttum úr Landnámu er kaflinn um Úlfljótslög og fjórðungaskipun í 1. kap. Vjer höfum þar til samanburðar kafla sama efnis í Landnámuhandritunum Melabók og Hauksbók og kafla í Flateijarbók, sem er þar skotið inn í upphafið á Þorsteins þætti uxafóts. Þegar vjer berum þennan kafla A-sögunnar saman við hin handritin, þá sjáum vjer, að skrifarinn hefur stundum slept úr af ásettu ráði til að stitta eða af gáleisi og gerir sig stundum sekan í beinum villum. Enn hins vegar stiður A sumstaðar rjetta leshætti í öðrum handritum, og á tveim stöðum kemur það firir, að A-sagan ein hefur geimt upphaflega leshætti, sem ekki finnast í neinu af hinum handritunum. Þetta sínir ekki, að handrit það, sem sagan hafði firir sjer af Landnámu, hafi ifirleitt verið eldra eða betra enn þau handrit af Landnámu, sem vjer nú höfum, heldur hitt, að það hefur ekki verið kinjað frá neinu því Landnámuhandriti, sem nú er kunnugt, villur þær, sem eru í þessum kafla sögunnar, benda öllu fremur til, að það hafi verið tiltölulega ungt, enn þrátt firir það er það mjög eðlilegt, að það hafi á stöku stað geimt hið upphaflega, úr því að það er sjálfstætt og óháð hinum handritunum. Þessi niðurstaða er í góðu samræmi við það, sem áður er sagt um afstöðu Landnámu-útdráttanna í sögunni við Landnámu-handritin. Samt er Úlfljótslagakaflinn í A bersínilega skildari Melabók ingri enn hinum handritunum, eins og Maurer hefur sínt. Jeg skal geta þess, að jeg hef um þennan Úlfljótslagakafla skrifað sjerstaka ritgerð, sem að nokkru leiti leiðrjettir þær skoðanir, sem Maurer hafði sett fram um sama efni í áðurnefndri ritgerð sinni, enn þessi ritgjörð mín er enn óprentuð. Maurer hjelt, að Landnámuútdrættirnir í A-sögunni væri síðari innskotsgreinar, ingri

enn sjálf sagan. Enn þeir eru, eins og jeg áður hef tekið fram, í góðu samræmi við tímann, sem sagan er frá, rithátt manna á 14. öld, og fæ jeg því ekki sjeð neitt á móti því, að þeir sjeu upphaflegir í sögunni. Til 14. aldar benda og helst þær íkjur, sem koma firir í sögunni, ekki síst frásögnin um Bárek berserk Brenneyjarfaxa. Auknefni hans, sem er dregið af Brenneyjum, alræmdu víkingabæli firir Gautelfarósum (getið í Eglu), bendir helst til, að höfundur hafi sjálfur búið til þessa persónu og spunnið upp alla söguna um hann. Aftan til í sögunni er kafli, sem er tekinn úr Laxdælu, um viðureign Gríms Helgasonar og Þorkels Eyjólfssonar, enn sá kafli virðist ekki vera upphaflegur í sögunni. Honum er á mjög grunsamlegan hátt skotið inn í mitt efni, sem tekið er úr Landnámu. Maurer heldur, að Vatnshirnuritarinn hafi bætt inn í söguna þessum Laxdælukafla, enn það getur ekki verið rjett, því að Laxdæla hefur í heild sinni verið tekin inn í Vatnshirnu, og er því óhugsandi, að sjálfur ritari þess handrits hafi skotið kafla úr þeirri sögu inn í Þórðar sögu í stað þess að eins að vísa til hennar. Hitt er aftur mjög eðlilegt, að hann hafi skrifað þennan kafla í hugsunarleisi eftir þeirri Þórðar sögu, sem hann hafði firir sjer, og ekki munað í svipinn, að hann stóð líka í Laxdælu.

Af því að svo lítið er til af sögunni, verður ekki dæmt til hlítar um sagnaiþrótt höfundar, enn það sem til er, bendir í þá átt, að hún hafi ekki staðið á háu stigi.

Um **B-söguna** má segja hið sama og um A-söguna, að hún er með ingstu Íslendingasögum, eflaust samin á 14. öldinni. Á 42. bls. segir hún um skálann, sem Þórðr smíðaði í Flatatungu: „Stóð sá skáli alt til þess, er Egill byskup var at Hólum“. Hjer er átt við Egil Eyjólfsson, sem var biskup á Hólum 1331—41. Ef þessum orðum er ekki síðar í aukið af afskrifara, þá er sagan ekki samin fir enn um miðja 14. öld. Orðin virðast standa í öllum handritum sögunnar, að minsta kosti getur Halldór Kr. Friðriksson þess ekki, að neitt handrit sleppi þeim. Vjer höfum því enga ástæðu til að halda, að þau hafi ekki staðið

í sögunni frá upphafi, enda er mart í sögunni, sem bendir til, að hún muni vera mjög ung. Hún íkir fram úr öllu hófi afreksverk Þórðar, lætur hann rata í hverja raunina á fætur annari og vinna sigur í hverri raun, hversu mikið ofurefli sem á móti er. Aftur er heldur hallað á mótstöðumenn Þórðar, t. d. Miðfjarðar-Skeggja. Að sagan sje ekki nema að litlu leiti grundvölluð á lifandi munnmælasögum, heldur að mestu skáldskapur höfundarins, virðist ljóst af ímsum fjarstæðum og mótsögnum, sem hún gerir sig seka í. Fjarstætt er það t. d., að sagan, sem á að gerast í heiðni, getur um mann Jón að nafni að Hvassafelli í Norðurárdal. Þá vóru engir Jónar til, þeir koma first með kristninni. Óhugsandi, að sannveruleg munnmælasaga hafi mindast og haldist um mann með því nafni. Það sem sagan segir um hann, hlítur því að vera eintómur skáldskapur. Grunsamlegt er það og, hve lík þau æfintíri, sem Þórðr ratar í, eru hvert öðru. Þeir menn, sem Þórður á í höggi við, eru svo að segja altaf stírimenn eða kaupmenn, aðskotadír, sem koma hingað frá útlöndum, og allir venslaðir Miðfjarðar-Skeggja beinlínis eða óbeinlínis. First kemur Ásbjörn, sistursonur Miðfjarðar-Skeggja, og treður illsakar við Þórð, enn fastnar þó að lokum Sigríði sistur hans. Þá kemur Ormr, bróðir Ásbjarnar, sem legst á hugi við festarkonu bróður síns, fær heitorð Þórðar um hana að Ásbirni frágengnum, enn lætur sjer það ekki nægja og vill fífla hana, enn er þá veginn af Þórði. Öll þessi saga um Orm er svo ósennileg sem framast má verða og bersínilega ekki annað enn skáldskapur, og hann mjög ófimlega samsettur og smekklaus. Út af þessu vígi berst Þórðr við Indriða kaupmann, fjelaga og fóstbróður Orms, sem vill hefna hans, þangað til Indriði er óvígur, lætur síðan græða hann og sættist við hann. Í þessari sögu kemur firir mótsögn, sem sínir, að sagan er ekki annað enn uppspuni, samsettur af hroðvirku skáldi. Eftir víg Orms sendir Skeggi, segir sagan, mann norður til Indriða til að segja honum vígið og biðja hann koma vestur í Miðfjörð, ef hann vilji leita hefnda (29. bls.). Síðar (32. bls.) er það aftur tekið fram, að Indriði frjettir

vígið. Út af því ríður hann frá skipi sínu í Kolbeinsárósi áleiðis vestur og mætir Þórði, sem er á norðurleið, hjá Arnarstapa á Vatnsskarði. Þegar þeir hittast, spir Indriði Þórð, „hvat Orm dveldi“ (33. bls.), rjett eins og hann viti ekkert um vígið. Höfundur gleimir hjer í ógáti því, sem hann hefur tvítekið áður, að Indriði hafði frjett vígið, áður enn hann fór af stað! Næst situr Özurr Ásgrímsson, sistursonur Skeggja og frændi Orms, um líf Þórðar og vill hefna frænda síns, gerir 3 atrennur að Þórði og fellur firir honum að lokum. Hann er sá eini af þessum aðvífandi fjandmönnum Þórðar, sem ekki er kaupmaður, heldur bóndi og „goðorðsmaðr um hinn efra hlut Skagafjarðar“. Enn það er grunsamt, að engin önnur saga þekkir þennan skagfirska höfðingja. Er því líklegt, að sagan um hann sje einber skáldskapur, enda er hjer mótsögn í sögunni, því að first segja öll handrit hennar, að hann biggi á Grund, enn síðan að Þverá. Kålund færir þó nokkrar líkur firir því, að bæirnir Grund (nú Ista-Grund) og Þverá, sem liggja stutt hvor frá öðrum, sje upphaflega sami bærinn.[1]) Um Þverá er og getið í Laxdælu og Sturlungu. Við þessa sögu kemur og Þórhallr bóndi, maður Ólafar, sem síðar giftist Þórði. Hann er nauðalíkur Birni í Mörk í Njálu, og hefur höfundur hjer bersínilega haft Njálu til firirmindar. Um Þórhall er lík mótsögn og um Özur. First segja öll handrit, að Þórhallr ætti heima á Miklabæ í Óslandshlíð, enn síðar er hann oftast talinn á Óslandi (bls. 28. nm.). Þá kemur Ásbjörn út í annað sinn og veitir Þórði aðsúg til hefnda eftir Orm bróður sinn, enn svo líkur, að Eiðr, fóstri Þórðar, sættir Þórð bæði við Skeggja og Ásbjörn, sem gengur að eiga Sigríði. Loks kemur Sörli hinn sterki, föðurbróðir þeirra Ásbjarnar og Orms, út norður í Eijafirði og reinir að hefna Orms, situr firir Þórði hjá Lurkasteini, enn fellur firir honum. Allar þessar sögur um ásóknirnar við Þórð eru eins og sambornar sistur, allar steiptar í sama mót, hver annari svo nauðalíkar, að það er ljóst, að hjer er ekki um sann-

1) Kålund, Isl. II 76.

sögulega atburði að ræða eða munnmælasögur, sem mindast hafa af þeim, heldur er þetta skáldskapur, sem ekki ber vott um mikið ímindunarafl hjá höfundi, eða að hann hafi haft hugvit til að gera efnið breitilegt.

Jeg þikist þá hafa leitt rök að því, að höfundur B-sögunnar hefur að miklu leiti búið sögu sína til frá eigin brjósti og lítið stuðst við munnmælasögur. Þessar íkjur benda til, að sagan muni vera seint samin.

Um afstöðu B-sögunnar við aðrar sögur er það að segja, að hún hefur eflaust notað einhverja Noregskonungasögu í frásögninni um það, er Klyppr (Þorkell klyppr) vó Sigurð konung slefu Gunnhildarson firir það, að hann hafði tekið konu hans frillutaki.[1]) Þó kemur sagan ekki heim við neina af þeim konungasögum, sem frá þessu segja. Engin þeirra getur Þórðar hreðu, bróður Klypps, að neinu við vígið, enn í B-sögunni kemur hann fram sem helsti hvatamaður að víginu og gengur fram best allra eftir fall Sigurðar og Klypps. Hjer koma bersínilega fram hinar vanalegu íkjur höfundar. Aftur virðast aðrar missagnir, t. d. um staði og mannanöfn, stafa frá heimild, sem nú er ókunn. Einna líkust B-sögunni er frásögnin í þætti Sigurðar slefu í Flateijarbók, enn þó eru þar ímsar missagnir. Þar sem Miðfjarðar-Skeggi kemur first til sögunnar, er getið um Skinna-Björn föður hans og auknefni hans skírt af því, að hann hafi farið kaupferð í Austurveg og fært þaðan gráskinn. Sama stendur í Melabók ingri af Landnámu og er líklega þaðan tekið eða eftir Landnámuhandriti, sem að þessu leiti kom heim við Melabók. Á sama stað segir B-sagan frá því, er Miðfjarðar-Skeggi braut haug Hrólfs kraka og tók þaðan Sköfnung Hrólfs og öxi Hjalta hins hugprúða, enn náði ekki Laufa, sverði Böðvars bjarka. Frá hinu sama segir Landnáma[2]) hjer um bil eins, og er hún líklega heimild B-sögunnar. Á einum stað (29. bls.) nefnir B-sagan „Hrolleif, er nam Hrolleifsdal“ sem föður Ólafar, er síðar giftist Þórði. Virð-

1) Sbr. 5. bls. um fall Gamla: „sem segir í sögu Noregskonunga“. — 2) Útg. 1843, III 1, bls. 169.

ist það tekið eftir Landnámu,[1]) þó að Ólafar sje þar ekki getið, enn ekki virðist B-söguhöfundur hafa neina hugmind um, að þessi Hrolleifr, faðir Ólafar, var illmennið, sem vó Ingimund gamla.

Þrátt firir allar íkjurnar er sagan rituð af talsverðu fjöri og ekki óskemtileg aflestrar. Orðstefin eru oft fremur smellin, enn stundum eru þau tekin eftir eldri sögum, t. d. eru orð Skeggja á 20. bls. „rýta mun göltrinn, ef grisinn er drepinn" sniðin eftir orðum Ragnars í Ragnars sögu loðbrókar, 15. k., „Gnyðja mundu grísir, ef þeir vissi hvat hinn gamli þyldi". Uppistaðan er nokkurn veginn samföst. Sá þráður, sem heldur henni saman, er frásögnin um afstöðu Þórðar við Eið fóstra sinn og Skeggja föður hans. Þessi þráður bindur söguna sterkum böndum við Miðfjörð. Hún gerist að vísu að nokkru leiti í Skagafirði og er að því leiti eins dæmi meðal Íslendingasagna. Enn samband hennar við Skagafjörð er lausara enn við Miðfjörð. Höfundur er gagnkunnugur eigi að eins í Miðfirði og þar í grend í Húnavatnsþingi heldur og í Skagafirði og jafnvel norður í Eijafirði, og einkum þekkir hann vel fjallvegina milli þessara þriggja hjeraða, Vatnsskarð og Öxnadalsheiði. Höfundur gæti sakir kunnugleikans vel verið Skagfirðingur, enn líklegast þikir mjer þó, að sagan sje til orðin á aðalstöðvum sínum, í Miðfirði eða þar í grend.

**Niðurlagsorð um báðar sögurnar.** — Vjer höfum sjeð, að báðar sögurnar eru að mestu leiti skáldskapur, sem höfundarnir hafa tekið frá eigin brjósti, enn ekki eftir munnmælasögum, enda staðfestist sú niðurstaða við hinar miklu missagnir milli sagnanna, sem áður er bent á. Hins vegar höfum vjer sínt, að báðum sögunum er sameiginlegur dálítill kjarni, sem hvor höfundur um sig hefur spunnið sína sögu utan um, og að þessi kjarni getur ekki verið tilbúningur höfundanna, heldur hafa þeir hvor um sig tekið hann eftir munnmælasögum, sem hafa

1) Útg. 1843, III 10, bls. 199—200.

verið á gangi, þegar sögurnar voru skrifaðar. Samhljóðan beggja sagnanna um þennan kjarna bendir sterklega til, að efni hans sje sannsögulegt. Menn hafa skoðað Þórðarsögurnar sem eintómar skröksögur. Því get jeg ekki verið samdóma. Vjer höfum í sögunum tvöfaldan vitnisburð um það, að á 9. öldinni hafi verið til maður að nafni Þórðr hreða af Hörðakáraætt, sem kom til Miðfjarðar á dögum Miðfjarðar-Skeggja og fóstraði Eið son hans, enn lenti í deilum við Skeggja sjálfan, að Þórðr þessi flutti síðan norður til Skagafjarðar og gekk að eiga skagfirska konu, Ólöfu að nafni, og loks, að Þórðr var hinn besti húsasmiður og að honum voru eignaðar skálasmíðar norður í Eijafirði á Hrafnagili og víðar. Sagnirnar um húsasmíðar Þórðar hafa haldist við alt til vorra daga.[1]) Af skála, sem stóð í Flatatungu, hafa geimst nokkrar útskornar fjalir með mindum, sem munnmælin enn eigna Þórði, og eru þó að dómi skinbærra manna miklu ingri enn frá 10. öld. Hvort þær eru leifar af sama skálanum, sem B-sagan getur um að hafi staðið í tíð Egils biskups, læt jeg ósagt. Sigurður Vigfússon telur þær vera frá 13. eða 14. öld,[2]) og Matthías Þórðarson fortekur, að þær geti verið frá heiðni. Samt verður það ekki út skafið, að munnmælasögur um húsasmíð Þórðar hafa haldist alt til vorra daga. Og af því að sjaldan ríkur úr kolum nema í þeim logi, higg jeg, að einhver hæfa sje firir því, að Þórðr hafi verið góður húsasmiður, og að hitt, sem *báðar* sögurnar segja um hann, geti verið satt.

Þórðarsögurnar eru mjög merkilegar firir bókmentasögu vora, að því leiti sem þær eru sterk sönnun firir því, að það eru öfgar, sem ímsir vísindamenn nú halda fram, að Íslendingasögur hafi geimst í heild sinni í munnmælum öld eftir öld og að þeir, sem skrásettu þær, hafi ekki gert

1) Páll Vídalín telur upp gamla skála á Valþjófsstað, Hrafnagili, Silfrastöðum, Auðkúlustöðum og Ljáskógum í grein sinni „Alin, meðalmaðr“ (Skýringar yfir forny. lögb., 53. bls.) og bætir við, að um þá alla segi „sonur og sonarsonur & c. eftir föður og föðurföður frá aldaöðli mótmælalaust“, að þá hafi smíðað Þórðr hreða. — 2) Árb. Flf. 1892, 80. bls.

annað enn skrifa upp þessar munnmælasögur óbreittar. Vjer höfum sjeð, að þegar Þórðarsögurnar eru skrifaðar á 14. öldinni, hefur ekki verið eftir af munnmælunum um Þórð annað enn helstu megindrættir úr æfi hans. Nú er sagan að vísu heilli öld ingri enn Íslendingasögur ifirleitt. Enn hafi heil og ítarleg saga af Þórði gengið í munnmælum um miðja 13. öld, þá er ekki líklegt, að hún hafi gleimst svo á einni öld, að um miðja 14. öld hafi ekki verið annað eftir enn sá magri kjarni, sem er báðum sögunum sameiginlegur. Þórðarsögurnar sína, að höfundar Íslendingasagna muni oftast ekki hafa látið sjer nægja að skrifa upp óbreittar munnmælasögur, heldur skreitt þær og bætt ímsu við frá eigin brjósti.

# Grettis saga.

Tveir eru þeir menn, sem flest örnefni eru kend við hjer á landi, Guðmundur biskup „hinn góði“, sem allir Gvendarbrunnarnir eru nefndir eftir, og Grettir hinn sterki, sem öll Grettistökin eru eignuð. Þetta sínir, að báðir þessir menn hafa um langan aldur skipað öndvegissess í íslenskri þjóðtrú, svo gagnólíkir sem þeir eru, annar þeirra fulltrúi hins kaþólska klerkavalds, sem á rót sína að rekja til útlanda, hinn fulltrúi fornislensks hetjuskaparanda, sem á sjer rætur lengst aftur í heiðni. Guðmundr er nú mikið til gleimdur hinni íslensku þjóð, ef Gvendarbrunnarnir hjeldu ekki við minningunni um hann. Enn minning Grettis lifir enn í hjarta og á vörum hvers Íslendings. Af báðum eru sögur, af Guðmundi fleiri enn ein. Enn sögur Guðmundar eru nú lítt lesnar af öðrum enn fróðleiksmönnum, þó að þær sjeu stórmerkilegar sem vottur um tíðarandann, þegar þær urðu til. Grettis sögu þekkir aftur á móti hvert mannsbarn, því að við erum allir fóstraðir með henni, enda er hún ein af þeim Íslendingasögum, sem skemtilegastar eru og sagðar af mestri snild. Það er þessi saga, sem jeg ætla nú að gera að umtalsefni.

*Handrit.* Því miður hefur ekki enn verið gefin út nein nákvæm útgáfa af sögunni, er síni til fulls afstöðu handritanna og hvað í hverju þeirra stendur. Guðbrandur Vigfússon skiftir handritunum í 2 aðalflokka, og kemur sú skifting *nokkurn veginn* heim við niðurstöðu Boers í útgáfu hans, sem er fullkomnasta útgáfa sögunnar. Als eru til 4 skinnhandrit, ekkert eldra enn frá 15. öld. Best er talið AM 551 a 4°, skrifað á 15. öld, kom til Árna frá Skálholti. Eitt blað er hjer glatað framan til í sögunni, nær

eiðan ifir síðari hluta 2. k., allan 3. k., og firri hluta 4. k. Firir framan Grettis sögu stendur í handritinu fremst niðurlag Bárðar sögu Snæfellsáss og þar næst Víglundar saga. Þetta handrit hafa síðustu útgefendur lagt til grundvallar, það sem það nær. Náskilt þessu handriti er AM 556, 4°, líka frá 15. öld, þar er sagan heil, og þar hefur líka staðið kvæðið Grettisfærsla um viðureign Grettis við Ísfirðinga, enn það er svo máð í handritinu, að lítið sem ekkert hefur orðið lesið af því. Þar eru 3 aðrar sögur enn Grettis saga (Sigrgarðs saga frækna, Gísla saga Súrssonar og Harðar saga). Eftir þessu handriti hafa útgefendur filt eiðuna, sem er í 551,4°. — Þá er 2. handritaflokkur, nokkuð frábrugðinn þessum. Til hans telst skinnhandritið AM 152 fol. frá 15. öld og pappírshandritið 151 fol. með hendi Jóns Gizurarsonar (17. öld). Merkilegt er, að á einum stað í 152 fol. stendur skrifað á jaðri handritsins með samtíða hendi: „Þessa sögu hefur skrifað bróðir Bjarnar Þorleifssonar“. Þessi B. Þ. er eflaust Björn ríki Þorleifsson, sem varð hirðstjóri 1457 og var drepinn af enskum mönnum í Rifi 1467. Hann átti 2 bræður, Einar, sem varð hirðstjóri um 1440 og dó 1453 (aðrir 1463, Gottsk. Ann. 1473), og Árna, sem er getið 1431 við vitnisburð að Helgafelli.[1]) Líklega er það Árni, sem hefur skrifað handritið, heldur enn Einar. Í handritinu eru margar fleiri sögur enn Grettla, bæði Fornaldarsögur og Riddarasögur og Þórðar saga hreðu. Þessi handritaflokkur hefur stundum betri leshætti enn firsti flokkurinn. Þá er skinnhandrit frá 15. öld í Uppsölum, nr. 10 fol. í safni De la Gardie's, þar vantar niðurlag sögunnar, og 2 eiður eru inni í sögunni. Loks er AM 150 fol., pappírshandrit með hendi Ásgeirs Jónssonar, skrifað eftir skinnbók, sem nú er glötuð (vottar Jón Sigurðsson). Þessi 2 handrit eru að dómi Boers blendingar, blanda saman textum þeirra 2 flokka, sem áður var getið.

— — —

Þegar vjer litum á Grettis sögu í þeirri mind, sem

1) Fornbrs. VI, 47.

firir oss liggur í handritum, þá er ljóst, að höfundur hennar hefur viljað safna saman öllum þeim sögusögnum, sem hann kunni um Gretti, skreita þær og auka með ímindunarafli sínu, geta í vonirnar, þar sem sagnirnar voru óljósar, færa þetta alt í eina söguheild, gera úr því eina samfelda frásögn, einfalda og óbrotna, enn þó prídda því listaskrauti, sem einkennir góða Íslendingasögu. Og honum hefur tekist þetta furðu vel. Hann er meistari að segja frá, hefur hið fagra sögumál alveg á valdi sínu. Að eins á stöku stað bregður firir nílegum orðum eða orðatiltækjum, sem sína, að sagan er ekki mjög gömul, t. d. *tornat* (líkl. um taumana, = fljettað, úr selskinni) *beizl* k. 54,2; *klókliga* 58,3; *slentr* 21,2; *kompánn* 19,11; *dáruskapr* 30,2; *ríkr* = auðugur 32,4; 70,8; *kassi* 52,9; *kvinna* 65,4; *vága (voga)* 68,7; *fyrir þann skuld (skyld)* 92,3; *piltr* 39,5 og 7 o. s. frv. Hvert eitt af þessum orðum sannar að vísu ekki mikið um aldur sögunnar, því að erfitt er að segja, hve snemma þau hafa komist inn í íslenskuna, enn öll saman tekin benda þau til, að sagan sje tiltölulega ung. Í niðurlagi sögunnar, Spesarþættinum, þar sem segir frá því, að þau Þorsteinn drómundr og Spes hafi setst í helgan stein til að bæta firir sindir sínar, fipast höfundi í hinum einkennilega íslenska sögustíl, og verður þar talsverður klerkakeimur að orðfærinu. Menn hafa af því og öðru viljað ráða, að Spesarþátturinn sje síðar í aukinn af öðrum höfundi. Enn það finst mjer mjög vafasamt. Efnið gefur sjálft tilefni til þess, að frásögnin fær annan, klerklegan blæ; als ekki óeðlilegt, að sami höfundur lagi orðfæri sitt eftir efninu. Enn óneitanlega bendir þetta til, að höfundur hafi verið klerklega mentaður maður.

Sagan ber það með sjer, að höfundur hennar hefur verið hinn mesti fróðleiksmaður og þekt fleiri Íslendingasögur enn flestir aðrir höfundar Íslendingasagna. Tímatalið í sögunni er oftast í fullu samræmi við hið almenna íslenska tímatal, eins og Ari og Sæmundr höfðu gengið frá því, og höfundur gerir sjer bersínilega far um að raða viðburðunum nákvæmlega eftir tímaröð.

Þar sem sagan kemur í mótsögn við sjálfa sig um tímatalið, má ganga að því vísu, að annaðhvort sje um innskotsgrein að ræða eða textinn sje úr lagi færður. Þetta kemur firir á 2 stöðum. Í k. 82, 20 stendur í öðrum handritaflokknum (551 og 566) ifirlit ifir tímatalið í æfi Grettis, að hann hafi verið 14 vetra, þegar hann vó Skeggja, tvítugur, þegar hann átti við Glám, hálfþrítugur, þegar hann fjell í útlegð, verið í sekt vel 19 vetur og dáið 44 ára gamall. Þetta tímatal er í beinni mótsögn við söguna sjálfa og er bersínilega síðari innskotsgrein, enda stendur það als ekki í hinum handritaflokknum (152, 151 og Upps. 10). Guðbrandur Vigfússon sá þetta firstur manna,[1]) og Boer sleppir klausunni rjettilega í útgáfu sinni. Hinn staðurinn er í 77. k., þar sem sagan segir, að umræða hafi orðið um það á alþingi, hve lengi Grettir hefði í sekt verið, og Steinn lögsögumaður beiddur úrskurðar. Hjer stendur alt öðruvísi á. Klausa sú, sem um er að ræða, stendur í báðum handritaflokkum, sem bendir til, að tilsvarandi klausa hafi staðið í báðum handritaflokkum, enn flokkunum ber ekki saman. Af því að þessi staður skiftir mjög máli viðvíkjandi spurningunni um innskotsgreinar í Grettis sögu, skal jeg skíra frá, hvað stendur í báðum flokkum.

| A-flokkurinn (551 og 150 fol.). | B-flokkurinn (152, 151 og Upps.). |
| --- | --- |
| Enn hann bað þá rannsaka, hvárt þat væri af hinum 20. tólfmánuðum, er þá var af sumrinu, síðan hann var sekr görr, enn þat varð svá. Þá gekk at Þórir ór Garði ok leitaði at færa í alla trega, þá er mætti ok gat hann fundit, at Grettir hafði komit út at áliðnu sumri ok hafði eigi hér á landi þat í sekt setit, ok urðu þá 19 tólfmánuðir ok því fátt í, er frá því alþingi var ok til þess er Grettir kom út um haustit, er hann hafði hér í sekt setit. Þá sagði lögsögumaðr, at engi skyldi lengr í sekt vera enn 20 vetr alls, þó at hann gerði útlegðarverk á þeim tímum. | Enn hann bað þá rannsaka, hvárt þat væri hit 20. sumar síðan hann var sekr görr, enn þat varð svá. Þá gekk at Þórir ór Garði ok leitaði at færa í alla trega, þá er mætti ok gat hann fundit, at Grettir hafði verit einn vetr út hér, svá at hann var ósekr, ok urðu þá 18 vetr þeir sem hann hafði í sekt verit. Þá sagði lögsögumaðr, at engi skyldi lengr í sekt vera enn 20 vetr alls, þótt nokkurr vetr yrði milli sekta. |

1) Ný Fjelagsr. 18, 162—3.

Þetta gerist eftir sögunni á alþingi 1031 á firsta lögsagnarsumri Steins Þorgestssonar. Til þess að skilja rjett staðinn í báðum handritaflokkum, verður maður að rifja upp, hvað sagan segir á undan um sekt Grettis. Hann er first gerður sekur á alþingi 1011 eftir tímatali sögunnar,[1]) enn aðeins til 3 ára, og þá sekt afplánar hann með því að fara utan samsumars og vera utan 3 ár, kemur út 1014 um sumarið (17.—28. k.). Árið 1014—1015 dvelur hann hjer á landi ósekur. Næsta sumar (1015) frjettist, að Ólafr digri (helgi) sje kominn til ríkis í Noregi, og þá fer Grettir utan um haustið. Það er þessi vetur, sem Þórir úr Garði vill draga frá sektartíma Grettis eftir B-flokknum. Enn þó svo sje gert, þá verða þó sektarárin ekki færri enn *19*, ekki „18", eins og stendur í sama flokks handritum.[2]) Í utanferð sinni haustið 1015 verður Grettir valdur að dauða Þórissona og er gerður sekur firir það á alþingi næsta ár, 1016 (46. k.), og sama haust „at áliðnu sumri" (k. 47,1) kemur Grettir út úr ferð sinni. Það er þessi kafli úr sumrinu frá alþingi til síðustu vikna sumarsins, í hæsta lagi 15 vikur, sem A-flokkurinn segir, að Þórir hafi viljað draga frá tuttugu árunum, sem liðin vóru síðan Grettir fjell í sekt, enn þá verður það rangt í reikningi sömu handrita, að frá sekt væri liðin *19 ár* ÷ tímanum frá alþingi til útkomunnar, líklega er það ónákvæmt til orða tekið, upphaflega hefur víst staðið í sögunni, að Þórir hafi viljað draga frá tímann frá dauða Þórissona til alþingis, þegar sektin var dæmd, og sömuleiðis tímann frá sektardómnum til útkomunnar sama sumar. Þá verður rjett, sem stendur í þessum handritum, að sektartíminn verður 19 ár ÷ tímanum frá sektardómnum síðara til útkomunnar. Báðir handritaflokkar eru því í mótsögn við sjálfa sig og tímatal sögunnar, báðir hafa afbakað textann með því að fella úr, annar árið, sem Grettir var hjer á landi ósekur, hinn árið, sem hann var í Noregi 1015—16. Hinn upphaflegi texti virðist hafa

1) Sbr. Boer, XXXIV. bls. — 2) Guðbrandur Vigfússon og Boer vilja breita „18" í „19", enn það hafa þeir ekki leifi til.

verið hjer um bil svona: „Þá gekk at Þórir ór Garði ok leitaði at færa í alla trega, þá er mætti ok gat hann fundit, at Grettir hafði verit einn vetr út hér, svá at hann var ósekr (152, 151 og Upps.) *ok annan í Noregi ok* (b. v. af mjer) komit út at áliðnu sumri ok hafði eigi hér á landi þat í sekt setit (551 og 150) ok urðu þá 18 (152, 151, Upps.) tólfmánuðir ok því fátt í, er frá því alþingi var ok til þess er Grettir kom út um haustit, er hann hafði hér í sekt setit (551, 150). Þá sagði lögsögumaðr, at engi skyldi lengr í sekt vera enn 20 vetra alls, þó at hann gerði útlegðarverk á þeim tímum (551, 150) *ok* (b. v. af mjer) þó at nokkurr vetr yrði milli sekta (152, 151, Upps.)". Ef svo er ritað, þá verður þessi staður í fullu samræmi við sjálfan sig og við söguna á undan, og engin ástæða til að skoða þetta sem innskotsgrein, eins og Boer gerir.

Höfundur vitnar beint í þessar sögur: Laxdælu (k. 10,5), Bandamanna sögu (k. 14,3), Eiríks sögu jarls (k. 19,5) og Bjarnar sögu Hitdælakappa (k. 58,7). Allar þessar sögur hefur hann notað, einungis er það óvíst, hvaða sögu af Eiríki jarli Hákonarsini hann hefur haft firir sjer. Af honum er nú ekki til nein sjerstök saga, heldur er saga hans fljettuð inn í Noregskonungasögur þær, sem geimst hafa. Líklegast, að tilvitnunin eigi ekki við sjerstaka sögu, heldur við kafla í einhverjum Noregskonungasögum, enn það sem sagan segir um Eirík, er flest svo almens eðlis, að ómögulegt er að segja, hvaða konungasögur þetta hafi verið. Þar sem sagan segir frá Hafursfjarðarorustu, segir hann, að við hana komi flestar sögur, og á þar víst sjerstaklega við Noregskonungasögur (2, 4).[1]) Enn fremur nefnir hann Böðmóðs sögu ok Grímólfs ok Gerpis (líkl. rjettara Böðmóðs sögu ok Grímólfs gerpis), enn þessi tilvitnun er beint tekin eftir Landnámu, sem höfundur afritar á þessum stað (12, 19). Enn auk þessara sagna, sem hann nefnir, hefur hann þekt og

1) Líkt segir Vatnsdæla, 8. k., um Hafursfjarðarorustu („sem víða getr í sögum").

notað ímsar fleiri, og hef jeg áður í þessum firirlestrum sínt, að hann hefur notað Heiðarvíga sögu, Kormáks sögu, Fóstbræðra sögu. Í 13. k., þar sem sagt er frá Þorkeli kröflu og trúboði Friðreks biskups og Þorvalds víðförla, virðist höfundur hafa haft firir sjer Kristni sögu, því að hún er sú eina saga, sem kemur heim við Grettlu um það, að Þorkell krafla hafi þá látið prímsignast.[1]) Enn um fram alt hefur hann notað Landnámu.

Jafnframt þessum skriflegu heimildum hefur höfundur haft firir sjer munnmælasögur um Gretti og ættmenn hans. T. d. eru sögurnar um brek Grettis í uppvextinum svo einkennilegar, að varla er hugsandi, að þær sjeu ekki annað enn skáldskapur höfundar. Sagan um viðureign Grettis við Glám hefur öll þjóðsögueinkenni, og sama má segja um frásögnina um trölladráp Grettis í Bárðardal. Af því að þessi saga er ekki alveg ósvipuð viðureign Beowulfs við móður Grendels í Beowulfskvæði, og af því að orðið *heftisax*, sem kemur firir á þessum stað í Grettis sögu, er svipað orðinu *hæftmece*, sem kemur firir í Beowulfssögunni, hafa menn viljað ráða, að höfundur Grettlu hafi hjer haft firir sjer Beowulfskvæði og sniðið sína sögu eftir því. Enn það finnst mjer mjög ólíklegt, engar líkur til, að höfundur hafi þekt eða skilið hið engilsaxneska kvæði — engar menjar þess annars staðar, að það eða efni þess hafi nokkurn tíma verið þekt hjer á Íslandi —, enda eru sögurnar mjög ólíkar í einstökum atriðum, og þetta eina orð, sem er svipað, orðið *heftisax*, er í Grettlu haft um vopn tröllsins, sem Grettir drepur, enn í Beowulfskvæði er *hæftmece* haft um vopn Beowulfs, sem drepur tröllið. Nei, sagan ber öll merki þess, að hún sje í aðalatriðunum ófölsuð íslensk þjóðsaga, tengd við nafn Grettis, þó að líklegt sje, að höfundur hafi sjálfur skreitt hana og fært hana í stílinn í einstökum atriðum og t. d. bætt við vísunum, sem henni filgja, frá eigin brjósti, því að þær eiga í því sammerkt

1) Einkennilegt fyrir Grett., að Þorkell hafi búið á Másstöðum í Vatnsdal (Hofi, Vatnsdæla).

við flestar aðrar vísur í Grettlu, að þær eru bersínilega seinni tíma tilbúningur, eflaust samtíða sögunni og ortar af söguhöfundinum. Þetta er nú viðurkent af öllum, bæði áður af Jóni rektor Þorkelssini og Konráð Gíslasini og nú af Janusi Jónssini, sem hefur ritað sjerstaka ritgerð um vísur Grettlu, og af Finni Jónssini, og er það nægilegt til að sína, að höfundur telur sig ekki bundinn eingöngu við heimildir sínar, skriflegar eða munnlegar, heldur fillir í skörðin frá sínu eigin brjósti, bætir við ímsu, sem er ekki annað enn hans eigin skáldskapur, hvort heldur í samföstu eða sundurlausu máli.

Jeg hef áður í þessum firirlestrum, í innganginum að kaflanum um Íslendingasögur, bent á, hve ervitt það er, að greina sundur, hvað höfundarnir taka eftir heimildum munnlegum eða skriflegum, og hverju þeir bæta við frá sjálfum sjer, og tekið fram, að þessi mikilvæga spurning hefur enn ekki verið rannsökuð til neinnar hlítar. Þegar um Grettis sögu er að ræða, stöndum vjer fremur vel að vígi í þessu efni, af því að vjer höfum enn í dag til leiðbeiningar flestar þær sögur, sem höfundur Grettlu hefur notað, og getum borið söguna saman við heimildirnar. Jeg mun því reina að greiða nokkuð úr þessari vandasömu spurningu, að því er Grettis sögu snertir.

Grettlu má skifta í 3 aðalþætti. First er forsagan, ef svo má að orði kveða, þ. e. kaflinn um forfeður Grettis, þangað til hann sjálfur kemur til sögunnar, þá er æfi Grettis sjálfs, og loks sagan um hefndir þær, sem komu firir víg hans, eða þátturinn af Þorsteini drómundi og Spes. Jeg tek first forsöguna.

First segir frá Önundi tréfót, langafa Grettis. Í upphafi sögunnar er hann talinn Ólafs son burlufótar, Ívarssonar beytils, og rakin frændsemi hans við Ólaf helga. Alt þetta er beint tekið eftir Landnámu.[1]) Kjarninn í þessum Önundarþætti er það, að hann barðist móti Haraldi hárfagra í Hafursfirði og fór loks út til Íslands og nam

1) Stb., 161. k., Hb., 130. k.

þar land á Ströndum frá Ófæru og þær þrjár víkur, Kaldbaksvík, Kolbeinsvík og Birgisvík — til „Kaldbakskleifar“, og þetta er alt líka tekið eftir Landnámu (s. st.). Utan um þennan kjarna spinnur svo höfundur ímsar reifarasögur um víkingaferðir Önundar og ævintíri, sem gerast áður enn hann fór til Íslands, sumar í Noregi, sumar firir vestan haf. Nú er mjög ólíklegt, að munnmælasögur um þessa viðburði, sem gerðust firir og eftir Hafursfjarðarorustu, hafi í raun og veru geimst þangað til Grettis saga var samin um eða eftir aldamótin 1300. Sennilega hefur höfundur Grettis sögu ekki vitað meira um Önund enn það, sem Landnáma skírir frá. Hvaðan kemur honum þá þessi ítarlega frásögn um ævintíri Önundar? Eflaust frá eigin brjósti. Það sjáum vjer á því, að persónurnar í þessum Önundarþætti eru flestar bersínilega teknar eftir Landnámu. First er Önundr í fjelagi við Bálka Blæingsson af Sótanesi, Orm hinn auðga og Hallvarð súganda. Af þeim eru þeir Bálki og Hallvarðr beint teknir út úr Landnámu.[1]) Ormr er líklega ekki tekinn úr Landnámu, því að Grettis saga getur þess hvergi síðar, að hann hafi farið út til Íslands og numið þar land, eins og hún getur um landnám hinna fjelaganna, hann er því varla sami maður og sá Ormr auðgi eða ánauðgi, sem Landnáma segir, að hafi numið Vestmannaeijar eða verið sonur Herjólfs, sem nam þær. Það sem sagt er first um hernað þeirra fjelaga, gefur ef til vill bending um, hvaðan Grettis saga hefur þann mann. Sagan segir, að þeir hafi first barist við Barreyjar gegn Kjarvali Barreyjakonungi, haft þar sigur og setst í eijarnar. Nú þekkjum vjer fornt heiðið skáld, sem nefnist Ormr Barreyjaskáld, og vitum, að um hann var saga, sem Ingimundr prestur sagði í hinni nafnfrægu Reikhólaveislu árið 1119. Bardaga þennan við Barreyjar þekkir engin önnur saga. Enn Finnur Magnússon hefur firir löngu getið þess til, að „Ormr hinn auðgi“, sem berst

1) Sbr. Grett., k. 1,2 og 5,1 við Landnámu, Stb., k. 166 og 144, Hb., k. 135 og 114.

við Barreyjar með Önundi og setst síðan í eijarnar, muni vera sami maður og Ormr Barreyjaskáld, og á sömu skoðun var Guðbrandur Vigfússon.[1]) Þetta er mjög líklegt, og eins það, að Grettis saga hafi tekið þessa persónu og bardagann eftir sögu Orms.

Þá kemur í sögunni frásögnin um Hafursfjarðarorustu. Önundr tekur þátt í henni ásamt áðurnefndum fjelögum sínum (Bálka, Hallvarði og Ormi), missir þar fót sinn eftir hrausta framgöngu, enn er bjargað á skip Þrándar mjöksiglanda, sem líka er í andskotaflokki Haralds, og kemst undan með honum vestur um haf ásamt Bálka og Hallvarði (Orms ekki getið þar), og verður Þrándr síðan trúr vinur og fjelagi Önundar. Þrándr er beint tekinn eftir Landnámu eins og þeir Bálki og Hallvarðr.[2]) Enn hvers vegna velur nú höfundur einmitt þessa landnámsmenn — Bálka, Hallvarð súganda og Þránd — og ekki aðra til fjelagskapar við Önund? Það sjest glögt, þegar vjer lítum í Landnámu. Þessir menn eru nefnilega *þeir einu* af þeim, sem síðar námu land á Íslandi, sem *Landnáma segir um hvern í sínu lagi, að hafi barist móti Haraldi hárfagra í Hafursfirði, eins og hún segir um Önund.*[3]) Grettis sögu höfundur hefur auðsjáanlega vinsað úr Landnámu alla þá landnámsmenn, sem þetta var sagt um, og gert þá að félögum Önundar. Ef vjer hefðum Orms sögu Barreyjaskálds, higg jeg, að vjer mundum þar finna þess getið, að Ormr hafi barist gegn Haraldi í Hafursfirði, og stæði þá eins á fjelagsskap hans við Önund eins og á fjelagsskap hinna. Jeg þarf varla að geta þess, að Landnáma veit ekkert um fjelagsskap þessara manna. Það er bein-

1) Safn I, 234. bls. — 2) Sbr. Grett., k. 2, 8—9 og 3, 7—9 við Landn., Stb., k. 378 og 217, Hb., k. 333 og 184. — 3) Auk þeirra getur Landn. að eins um einn mann, sem hafi barist í Hafursfirði móti Haraldi. Eftir Stb. og Melab. ingri er það Eyvindr jarl Ármóðsson (Landn. Stb., 391. k., útg. 1843 bls. 317—18). Enn hann er ekki landnámsmaður. Eftir Hb. er það sonur þessa Eyvindar jarls, Ormr hinn gamli landnm., sem nam kringum Ingólfsfell. Ormr auðgi fjelagi Önundar í Grettlu skildi þó ekki vera samsteipa úr þessum Ormi gamla og Ormi Barreyjaskáldi? Skrítin tilviljun, að nafnið Ormr kemur heim við Hb.

línis tilbúningur Grettis sögu. Eftir Hafursfjarðarorustu er í Grettis sögu ekki annað sagt frá Bálka og Hallvarði súganda enn að þeir hafi farið út til Íslands og numið þar land (k. 5, 1), og er það, sem segir um landnám þeirra, beint skrifað út úr Landnámu. Eftir það eru þeir úr sögunni, og sjest á því, að Grettis saga tekur þá að eins með, af því að Landnáma segir um þá eins og Önundr, að þeir hafi barist móti Haraldi hárfagra í Hafursfirði. Enn nú heldur sagan áfram að segja frá Önundi og hinum nýja fjelaga hans Þrándi mjöksiglanda. Þeir leita vestur um haf og hitta þar í Suðureijum þá frændur Ófeig gretti og Þormóð skafta bróðurson hans og binda við þá mægðir. Gengur Önundr að eiga Æsu dóttur Ófeigs, enn Þrándr dóttur Þormóðs ónefnda. Báðir þessir menn Ófeigr og Þormóðr eru teknir beint út úr Landnámu, ættfærðir eins og þar, og landnám þeirra greind eins og þar.[1]) Landnáma veit ekki neitt um þessar mægðir Önundar við Ófeig gretti, enn hún telur 3 dætur Ófeigs með þessum orðum: „Aldís, móðir Valla-Brands, ok Ásvör, móðir Helga hins svarta; *Æsa hét ein*." Nú er það merkilegt, að Grettis saga lætur Önund ganga að eiga Æsu, þá eina af dætrunum, *sem Landnáma veit engin deili á*. Þetta bendir sterklega til þess, að það sje ekki annað en tilbúningur Grettlu, að Önundr hafi átt Æsu. Enn hvað hefur hjer vakað firir honum? Landnáma telur *Gretti* firstan af sonum Önundar.[2]) Þennan son kallar Grettis saga (k. 11, 1 og 12, 13—18) *Ófeig gretti*, hann er með öðrum orðum heitinn *eftir afa sínum* eftir Grettis sögu. Allar líkur eru til, að höfundur hafi viljað skíra nafn sögukappans. Í Landnámu finnur hann, að afabróðir Grettis sterka hjet Grettir eins og hann. Enn honum nægir þetta ekki, hann vill rekja nafnið lengra upp, og nú áliktar hann, að móðurfaðir Grettis eldra hafi heitið Grettir og sje sami maður og Ófeigr grettir í Landnámu, sá eini maður í Landnámu, sem ber þetta

1) Sbr. Grett., k. 3, 4—5 og 5, 3—4, við Landn., útg. 1843, 283. og 308.—310. bls., Stb., k. 344 og 379, Hb., k. 303 og 334. — 2) Útg. 1843, 157. bls.

nafn að undan skildum sini Önundar, og er þá sjálfgefið, að Önundr hlítur að hafa átt dóttur Ófeigs grettis. Og höfundur fer feti lengra, hann lætur son Önundar og Æsu heita fullu nafni Ófeig gretti eftir afanum. Hann gætir þess ekki, að Ásný, móðir Æsu, er sonardóttir Ketils hængs landnámsmans eftir sögunni sjálfri og Landnámu og dótturdóttir annars landnámsmans, Hildis í Hildisei eftir Landnámu. Æsa er eftir því í báðar ættir 3. maður frá landnámsmönnunum, og því mjög ólíklegt, að hún hafi verið kona Önundar tréfóts, sem barðist í Hafursfjarðarorustu. Enn á þessu biggir þó höfundur síðar frásögnina um það, að Önundr hafi veitt sonum Ófeigs grettis að eftirmáli eftir hann, þegar hann var veginn. Öll sú frásögn virðist ekki vera annað enn uppspuni Grettis sögu, nema það sem Landnáma segir,[1]) að Ófeigr „fell fyrir Þorbirni jarlakappa í Grettisgeil hjá Hæli" — þessa setningu tekur Grettla alveg orðjetta eftir Landnámu.[2]) Enn þar sem Grettis saga lætur Þránd mjöksiglanda, fjelaga Önundar, eiga dóttur Þormóðar skafta ónefnda, þá er sagan í beinni mótsögn við Landnámu, sem segir þvert á móti, að Þormóðr skafti hafi átt Helgu, dóttur Þrándar mjöksiglanda. Á því getur enginn efi leikið, að höfundur Grettlu hefur vitað, að Landnáma sagði þetta öðruvísi, því að hann þekkir Landnámukapítulann um Þránd mjöksiglanda, þar sem þetta stendur, út í hörgul og notfærir sjer efni hans, t. d. að Þrándr bjó í Þrándarholti. Hann hefur því auðsjáanlega í þessu atriði vikið frá Landnámu af ásettu ráði. Líklega hefur honum þótt það eiga best við, að Þrándr ætti dóttur Þormóðar, úr því að hann var kominn að þeirri niðurstöðu, að Önundr fjelagi hans hefði átt dóttur Ófeigs fjelaga Þormóðar. Enn sjeu tímatalsannmarkar á því, að Hafursfjarðarkappinn Önundr hafi átt Æsu Ófeigsdóttur, sem áður er sínt, þá eru engu minni annmarkar á því, að Þrándr Hafursfjarðarkappi hafi átt dóttur Þormóðar *bróðursonar Ófeigs*. Hitt er aftur á móti í góðu samræmi við tímatal, sem

1) Útg. 1843, 309. bls., Stb., 379. k., Hb., 334. k. — 2) Sjá Grett. 10. k.

Landnáma segir, að Þormóðr skafti hafi átt dóttur Þrándar. Að þessu hefur höfundur Grettis sögu ekki gætt eða hirðir ekki um það.

Þá segir sagan frá viðureign þeirra Önundar og Þrándar við víkingana Vígbjóð og Vestmar. Þessi saga er steipt alveg í sama mót og þessar vanalegu einkennilegu (typisku) víkingasögur, sem koma firir hjer og hvar í Íslendingasögum og Fornaldarsögum, og eru auðsjáanlega ekki annað en skáldskapur.

Af því að Þrándr mjöksiglandi, fjelagi Önundar, er sonur Bjarnar Hrólfssonar og Helgu, dóttur Öndótts kráku, hálfbróðir Eyvindar austmanns, fljettar Grettluhöfundur inn í Önundarþáttinn alllangt mál um Öndótt kráku, afa Þrándar, Björn föður hans og Eyvind, flest eftir Landnámu. Hann lætr Önund filgja Þrándi, þegar hann fer að sækja föðurarf sinn til Noregs, sem Öndóttr kráka, afi Þrándar, hjelt til handa honum firir Grími hersi. Alt þetta um arfinn er tekið eftir Landnámu, nema það, að Önundr hafi nokkuð verið við málið riðinn. Síðan, þegar Þrándr er farinn til Íslands, verður Önundr eftir í Noregi, og þegar Grímr hersir hefur vegið Öndótt, þá hjálpar Önundr sonum Öndótts Ásmundi og Ásgrími til að hefna föður þeirra á Grími og Auðuni geit. Öll þessi sögn er beint tekin eftir Landnámu, nema hvað Landnáma getur Önundar als ekki við hefndirnar. Því bætir Grettluhöfundur við.

Eftir hefndirnar verður Önundr samferða Ásmundi Öndóttssini til Íslands, og segir frá landnámum þeirra. Þetta er alt spunnið og skreitt út af hinni stuttu frásögn Landnámu um landnám þessara manna, enn því bætir höfundur við, að þeir Ásmundr hafi orðið samferða. Einkum lísir Grettla nákvæmlega ferðum Önundar, eins og eðlilegt er, og er sú sögn skreitt vísum, þar á meðal einni ágætri, sem endar svo:

Hefk lönd og fjölð frænda
flýit, enn hitt er nýjast:
Kröpp eru kaup, ef hreppek
Kaldbak, enn lætk akra.

Ef hjer stæði ekki *flýit* firir eldra *flœit* í aðalhendingunum við *nýjast*, væri engin ástæða til að efa, að Önundr hefði ort vísuna. Enn með þessum aðalhendingum kemur söguhöfundur ósjálfrátt upp um sig, að hann hefur ort vísuna. Þetta hefur Konráð Gíslason bent á. Það sem hjer segir (í 9. k.) um landnám Eiríks snöru, nágranna Önundar, er beint eftir Landnámu, og síðar — í 11. k. — er getið um þrjá aðra landnámsmenn þar í grendinni, Ingólf, Ófeig og Eyvind, og er það sömuleiðis tekið úr Landnámu. Í ferð með Önundi er maður, Kolbeinn að nafni, sem first er nefndur í 7. k. sem vinur Önundar og bóndi á Rogalandi. Þessum manni fær Önundr bústað í landnámi sínu í *Kolbeinsvík*, og má af því ráða, að söguhöfundur hefur búið hann til einmitt sakir víkur þessarar. Landnáma veit ekkert um hann.

Þá kemur í 10. k. sagan um eftirmál eftir Ófeig gretti, sem áður var á vikið. Á leið sinni suður til liðveislu við sonu Ófeigs lætur sagan Önund koma við í Hvammi hjá Auði djúpauðgu, og felur Auðr honum að stiðja bónorð sonar síns Óleifs feilans til Álfdísar barreysku. Höfundur hefur hjer haft firir sjer Laxdælu, vitnar beint í hana, og sum orð eru beint tekin þaðan (t. d. „Mjök var Auðr þá ellimóð“ = Laxd. k. 7,3: „Unnr gerðist þá mjök ellimóð“). Enn ekki getur Laxdæla þess, að Önundr hafi verið neitt við bónorð Óleifs riðinn. Það er skáldskapur í Grettis sögu. Annars hefur Grettluhöfundur hjer líka haft Landnámu til hliðsjónar, því að hann getur um auknefni Álfdísar „barreysku“, sem stendur í Landnámu, enn ekki Laxdælu, og um ætt hennar (k. 3,4), eftir Landnámu, sem Laxdæla greinir ekki. Þó er það ógátsvilla í 10. k., að Álfdís væri *bræðrunga* Æsu Ófeigsdóttur, þær eru þremenningar eftir sjálfri Grettlu (k. 3,4) og Landnámu,[1]) sem höfundur hefur haft firir sjer.

Í 11. k. bindur Grettis saga enda á Önundarþáttinu með því að segja frá sonum hans og dauða. Eftir því,

---

1) Útg. 1843, 308.—309. bls.

sem hjer segir, átti Önundr með Æsu tvo sonu, Þorgeir, sem síðar var nefndur flöskubakr, og Ófeig gretti, enn þá andast Æsa, og gengur hann þá að eiga Þórdísi Þorgrímsdóttur úr Miðfirði og á með henni Þorgrím hærukoll. Eftir lát Önundar giftist síðan Þórdís Auðuni skökli á Ásgeirsá í Víðidal og á með honum son, Ásgeir að Ásgeirsá. Hjer er höfundur bæði í mótsögn við Landnámu og Laxdælu, sem hann hefur haft firir sjer, og er frásögn hans ekki annað enn tilraun til að koma þessum tveim heimildum sínum, sem hjer greinir á, í samræmi hvorri við aðra. Í Landnámu las hann, að Þorgrímr hærukollr og Ásgeirr æðikollr hefðu verið bræður, sinir Önundar tréfóts, í Laxdælu, að þeir hefðu verið bræður, enn sinir Auðunar skökuls. Hvorttveggja gat ekki verið rjett. Þá hugkvæmist Grettissögu-höfundinum það þjóðráð, að skifta sonunum milli þeirra, eigna Önundi Þorgrím, Auðuni Ásgeir, enn láta þá vera bræður að móðurinni. Þess vegna bír hann það til, að Önundr hafi kvongast í annað sinn þessari Þórdísi Þorgrímsdóttur, sem enginn önnur saga veit neitt um, og átt með henni Þorgrím, og lætur hana síðar giftast Auðuni og eiga með honum Ásgeir. Að þessi síðari kona Önundar hafi heitið Þórdís, getur hann sjer til, af því að hann las í Bandamanna sögu, 2. k., að Þorgrímr hærukollr, sonur hennar, hefði átt sonardóttur, Þórdísi að nafni, sistur Grettis.[1] Og að hún hafi verið Þorgrímsdóttir, ræður hann af nafni Þorgríms, sonar hennar, hærukolls. Að Þorgrímr eldri hafi verið Miðfirðingur og Þórdís skild Miðfjarðar-Skeggja, álítur hann af því, að Þorgrímr hærukollr flitur síðan til Miðfjarðar „ok keypti land at ráði Skeggja“ (k. 13,1). Um þessa Þórdísi segir sagan enga einkennilega sögu, sem síni, að nokkrar munnmælasögur hafi um hana gengið. Hún er ekki annað hjá honum enn „kítti“, sem hann hefur sjálfur búið til, í því skini að binda saman ættirnar og samríma heimildir sínar. Þetta er bersínilega ekki annað enn getgáta höfundar, sem ber vott um hugvit

1) Sbr. Grettis sögu, k. 14,3 með tilvitnun í Bandamanna sögu.

hans og skarpleik, enn er þó ekki annað enn heilaspuni og hugarburður. Höfundur kemur líka sjálfur upp um sig með einni ógátsvillu, sem honum verður á í Spesarþættinum. Þar segir hann (k. 90,1), að Haraldr Sigurðarson (síðar konungur, hinn harðráði) hafi virt *„frændsemi* við Þorstein drómund“. Þetta er rjett, ef Þorgrímr, afi Þorsteins, var sonur Auðunar skökuls, eins og Laxdæla segir, því að eftir Landnámu er Auðunn langafi Ástu, móður þeirra bræðra Ólafs helga og Haralds (Auðunn — Þóra mosháls — Úlfhildr — Ásta). Enn nú gerir Grettla fir í sögunni Þorgrím að sini Önundar *tréfóts,* og er þá enginn vegur að koma ættum þeirra Þorsteins drómundar og Haralds harðráða saman. Á þessu stendur bersínilega svo, að höfundur er í Spesarþættinum búinn að gleima því, að hann hafði gert Þorgrím að sini Önundar, og kemur þetta upp um hann. Í ritgjörð minni um afstöðu Laxdælu við Landnámu[1]) hef jeg skrifað allítarlega um þetta mál og sínt fram á, hvernig stendur á mótsögnunum milli Landnámu og Laxdælu, og að engar líkur sjeu til, að getgáta Grettluhöfundar hafi við neitt að stiðjast.

Lítum snöggvast aftur á við ifir Önundarþáttinn í heild sinni. Vjer höfum sínt, að Landnáma er svo að segja hin eina heimild höfundar. Þátturinn er allur spunninn utan um hinar stuttu og óglöggu frásagnir Landnámu frá Önundi tréfót og þeim, sem börðust með honum móti Haraldi hárfagra í Hafursfirði. Þessar mögru frásagnir klæðir höfundurinn holdi og blóði með ímindunarafli sínu, skreitir þær með atvikum, teknum úr daglegu lífi, svo að vjer sjáum söguna gerast firir augum vorum, príðir þær með samtölum milli persónanna, og skapar úr þessu samfelda sögu, sem iðar af fjöri. Meðferð efnisins er alveg sú sama sem hjá nútímahöfundum, sem setja saman skáldsögur úr sannsögulegu efni, eins og t. d. hjá Jóni trausta í „Góðum stofnum“. Íþróttin er í því fólgin, að blása lífsins anda í magrar frásagnir

1) Árb. f. n. oldk. og hist. 1908, 211. bls. og síðar.

firri alda. Saga Önundar er skáldsaga á sannsögulegum grundvelli (historisk novelle).

Þá kemur í sögunni niðurlag forsögunnar, sem segir frá sonum Önundar, einkum Þorgrími hærukoll, afa Grettis, og Ásmundi hærulang sini Þorgríms, föður Grettis. Vel getur verið, að höfundur hafi þekt einhverjar munnmælasögur um þessa menn, því að sagan er nú komin heim til Íslands og nær dögum höfundar, og als ekki ólíklegt, að einhver munnmæli hafi haldist við um þetta efni, þangað til sagan var færð í letur. Landnáma nefnir son Önundar Þorgeir flöskubak með viðurnefni, enn Grettis saga ein segir frá tilefninu til auknefnisins, að flugumaður hjó á herðar honum, enn leðurflaska, sem hann bar á bakinu fulla af síru, varð firir högginu og bjargaði lífi Þorgeirs. Þessi frásögn er als ekki óeðlileg, og líklegt, að hún sje tekin eftir munnmælum. Vísan, sem filgir sögunni, ber þó merki söguhöfundar *(vómr: sóm-)*. Sömuleiðis getur vel verið, að sagan um bardagann milli Önundarsona og Flosa Eiríkssonar úr Trjekillisvík út af hvalrekum við Rifsker sje í meginatriðum tekin eftir munnmælum. Vísan, sem filgir þeirri sögu, gæti verið gömul, þó að orðmindin *þessi* f. *sjá* í n. sg. fem. sje nokkuð grunsamleg. Sagan um tildrögin til nafnsins Trjekillisvík, norska skipið, sem brotnaði í Trjekillisvíkinni og var smíðað upp og gert stittra og þá nefnt Trékyllir, er tekin eftir Landnámu. Enn að Austmennirnir af því skipi, þar á meðal Steinn stírimaður, hafi tekið þátt í bardaganum við Rifsker, virðist vera tilbúningur söguhöfundar.

Eftir deilurnar við Flosa flitur Þorgrímr norður til Miðfjarðar, setur bú að Bjargi og gengur að eiga Þórdísi dóttur „Ásmundar undan Ásmundargnúp, er numit hafði Þingeyrasveit“. Þetta um Ásmund er tekið eftir Landnámu, enn Landnáma getur alls ekki um mægðir Þorgríms við hann, og þær eru eflaust tilbúningur höfundar. Af því að Þorgrímr átti son, sem hjet Ásmundr (hærulangr), hefur höfundur ráðið, að tengdafaðir hans, afi Ásmundar, hafi heitið sama nafni, enn nú vildi svo vel

til, að hjer var landnámsmaður með því nafni á næstu grösum eftir Landnámu. Af þessu virðist höfundur hafa áliktað, að Þorgrímr hafi gengið að eiga dóttur Ásmundar undan Ásmundargnúpi. Annars er saga þeirra feðga Þorgríms og Ásmundar, þangað til Grettir fæðist, fremur mögur, og auðsjeð, að höfundur hefur haft fáar sagnir af þeim, nema helst um eldra bróður Grettis Þorstein drómund, sem síðar kemur við söguna. Eftirtektarvert er, að höfundurinn lætur Ásmund vera óþjálan í æsku við föður sinn og kalt á milli þeirra feðga, líkt og síðar segir nánar um þá feðga Ásmund og Gretti.

Í 14. k. segir frá börnum Ásmundar hærulangs, og birjar nú hin eiginlega Grettis saga á frásögninni um uppvöxt Grettis, þangað til hann vegur Skeggja og verður að fara utan sakir þess. Sögurnar um brek Grettis í uppvextinum — um meðferð hans á heimagæsunum, sem hann átti að gæta, og á Keingálu, og hvernig hann fór að klóra föður sínum á bakinu við eldinn — þessar sögur eru svo einkennilegar, að líklegt þikir, að höfundur hafi hjer farið eftir gömlum munnmælasögum, enn ekki búið þetta til sjálfur, heldur aðeins skreitt frásögnina, meðal annars með vísunum, sem filgja — þær eru eflaust hans verk.

Hvað mikið í sögunni um viðureign Grettis og Auðunar á Auðunarstöðum í knattleiknum á Miðfjarðarvatni, um alþingisreið Grettis og víg Skeggja, sem leiddi til þriggja ára sektar hans, og um æfintíri hans á leiðinni til útlanda — hvað mikið í þessum sögnum er tekið eftir munnmælasögum, og hvað er skáldskapur höfundar, læt jeg liggja milli hluta, því að hjer er ekkert við að stiðjast, sem úr þessu skeri. Þá kemur sagan um æfintíri Grettis í Noregi, first hjá Þorfinni bónda í Haramarsei (Haramsö firir utan Sunnmæri), þegar hann braut haug Kárs, föður Þorfinns, og drap berserkina, síðan hjá Þorkeli í Sálfti á Hálogalandi, þegar Björn glettist við hann og hann drap björninn, síðan frá vígi Bjarnar og bræðra hans. Af því að þetta gerist í Noregi, skildu menn ekki halda, að munnmæli um það hefðu geimst á Íslandi, og

víst tel jeg, að sagan um það, er Grettir fór í haug Kárs gamla, sje ekki annað enn skáldskapur í líking við aðrar sögur líks efnis, sem koma firir í öðrum sögum. Enn um hinar sögurnar er best að fara varlega í því að fullirða nokkuð til eða frá. Og sjerstaklega verður að geta þess viðvíkjandi sögunni um berserkjadrápið, þessari einkennilegu sögu, sem er svo snildarlega sögð í sögunni, að saga sama eða mjög líks efnis hefur gengið í sjálfri Haramarsei í Noregi og verið skrifuð þar upp eftir munnmælum á öldinni sem leið. Þessi Haramarseijarsaga nefnir þó ekki kappann, sem rjeð berserkina af dögum, enn annars eru atvikin mjög lík og í Grettis sögu. Sá, sem firstur vakti eftirtekt á þessari norsku sögusögn, var L. Daae.[1]) Ef nú mætti ganga að því vísu, að norska sagan væri óháð Grettis sögu, þá mætti telja sannað, að hér væri um sannan viðburð að ræða, sem sögur hefðu gengið af bæði á staðnum, þar sem hann gerðist í Noregi, og hjer á landi. Enn nú er athugavert, að þessi saga er ekki sú eina saga um Gretti, sem gengið hefur í munnmælum í Noregi. Sögnin um viðureign hans við tröllin í Bárðardal nálægt Sandhaugum hefur gengið ekki mikið bjöguð í Sætersdalen á Ögðum (upp frá Kristianssand) á öldinni sem leið, og þar filgdi nafn Grettis Ásmundarsonar sögunni. Um þessa sögu hefur G. Storm sannað, að hún stafi frá Jens Lauritzsön Wolf's Norrigia illustrata, sem kom út í Kaupmannahöfn 1651, og er þar beinlínis eða óbeinlínis runnin frá Grettis sögu.[2]) Af því vill Storm ráða, að Haramarseijarsagan um berserkjadrápið muni líka vera runnin frá Grettlu. Enn það finst mjer nokkuð fljótfærnislega áliktað. First og fremst er það til stuðnings því, að Haramarseijarsagan sje frumleg, að hún hefur geimst á staðnum, þar sem viðburðurinn gerist. Og í sömu átt bendir það, að nafn Grettis filgir ekki sögunni eins og Sætersdalssögunni. Ef Haramarseijarsagan væri tekin úr Grettlu á síðari öldum, þá væri

1) [Norsk] Hist. Tidskr. I B., 498. bls. — 2) [Norsk] Hist. Tidskr. I 500. bls. og 2. Række, II B., s. 377.

líklegt, að nafn Grettis hefði filgt henni. Og loks hafa menn ekki hingað til getað bent á neina heimild firir þessari Haramarseijarsögu í norskum ritum frá síðari öldum, sem líkur væru til, að hefðu notað Grettlu, eins og Storm hefur gert að því er snertir Sætersdalssöguna. Jeg get því ekki sjeð neitt því til firirstöðu, að Haramarseijarsagan sje sjálfstæð og óháð Grettlu. Enn af því leiðir, að þessi saga að minsta kosti getur ekki verið skáldskapur hjá Grettissöguhöfundi, heldur er kjarninn úr henni tekinn eftir munnmælum, sem geimst hafa hjer á landi. Enn auðvitað hefur höfundur sett á þennan kjarna sitt mark, skreitt söguna og fært hana í þann snildarbúning, sem hún er klædd í sögunni.

Í 25. k. víkur sagan heim til Íslands og segir frá því, sem gerðist meðan Grettir var utan, vígi Þorgils Mákssonar, sem þeir fóstbræður Þorgeirr Hávarsson og Þormóðr drápu að hvalskurði norður á Ströndum. Frá þessu sama er sagt í Fóstbræðra sögu, og er auðsjeð, að Grettluhöfundur hefur haft Fóstbræðra sögu firir sjer, segir t. d. frá vígi Böggultorfa (sbr. Flat.) og þeirra Skúfs og Bjarna, sem ekkert kemur við Grettis sögu, og getur þess, að Gautr Sleituson hafi ráðið sjer far með sama skipi og Þorgeirr, enn gekk af skipi sakir Þorgeirs, og að þetta hafi orðið þeim að sundurþikki, „sem síðar bar raun á“. Út af þessu mætti búast við, að Grettis saga mundi síðar geta um, hvernig fór með þeim Gauti og Þorgeiri, að þeim lenti síðar saman norður á Sljettu og að Þorgeir vó Gaut, sem Fóstbræðra saga segir frá. Enn ekkert slíkt er í Grettis sögu, og er Gautr þar úr sögunni. Alt þetta sínir glögglega, að það er Grettis saga, sem hefur notað Fóstbræðra sögu við þessa frásögn, enn ekki Fóstbræðra saga Grettlu. Nokkrar missagnir eru í Grettlu, einkum um sekt Þorgeirs, og stafar það bersínilega af því, að Grettis saga víkur við og eikur frásögnina frá afskiftum Ásmundar hærulangs af eftirmálinu eftir Þorgils Máksson.

Síðar í Grettlu, í 50. og 51. k., er sagt frá því, að þeir vóru saman á Reikhólum Grettir og þeir fóstbræður

Þorgeirr og Þormóðr, og frá dómi Þorgils Arasonar húsbónda þeirra um þá alla, að Þormóðr var guðhræddur, Grettir mirkhræddur, enn Þorgeirr kunni ekki að hræðast. Um þetta er mjög stutt frásögn í Fóstbræðra sögu Flateijarbókar, og leiddi jeg rök að því, þegar jeg talaði um Fóstbræðra sögu, að hin stutta frásögn hennar mundi upphaflegri enn frásögn Grettlu, sem bersínilega skreitir söguna, að nokkru ef til vill eftir munnmælasögum. T. d. er ekki ólíklegt, að sagan um það, þegar þeir sóttu uxann út í Ólafseijar, sje að nokkru eftir munnmælum. Annars minnir saga þessi að nokkru á sjóferð þeirra Þórs og Hymis í Hymiskviðu.

Endurminning úr Fóstbræðra sögu kemur og fram seint í sögunni í Drangeijarþætti, þar sem Grettis saga í 78. k. talar um fjölkingi Þuríðar, fóstru Þorbjarnar önguls, og segir: „Enn þó at kristni væri á landinu, þá váru þó margir gneistar heiðninnar eftir.“ Sama hugsun með svo að segja sömu orðum kemur fram í Fóstbræðra sögu.[1])

28. k. segir frá útkomu Grettis og viðureign hans við Auðun á Auðunarstöðum og Víga-Barða. Um Auðun er Grettis saga ein til frásagnar, og ekki unt að segja, hvað af þeirri frásögn höfundur hefur tekið eftir munnmælum, og hvað hann leggur til frá eigin brjósti. Enn sagan um viðureignina við Barða hjer og í 31. k. er bersínilega spunnin út úr Heiðarvíga sögu, sem höfundur hefur þekt. Heiðarvíga saga veit ekkert um það, að Grettir hafi boðið Barða filgd sína í Heiðarvígin nje um miskliðina, sem reis af því, að Barði gerði hann liðrækan, nefnir ekki einu sinni Gretti. Þessu bætir höfundur við frá sjálfum sjer.

Í 29. k. segir frá hestaþinginu, sem varð tilefni til fjandskapar Grettis og Melmanna, þeirra bræðra Kormáks og Þorgils. Nöfn bræðranna Kormáks og Þorgils eru bersínilega tekin eftir Kormáki skáldi Ögmundarsini og Þorgilsi skarða bróður hans í Kormáks sögu, sem

1) Fóstbrs. K. G., bls. $6^2$ = Flat. II, bls. $93^9$.

líka bjuggu á Mel, enn þó geta þessir bræður tímans vegna ekki verið sömu menn, sem Kormáks saga segir frá. Guðbrandur Vigfússon hjelt, að þessir bræður, sem eiga í höggi við Gretti, væru sinir Þorgils skarða, bróðursinir Kormáks skálds, og er líklegt, að Grettluhöfundur hafi hugsað sjer hið sama, þó að sagan taki það hvergi fram, eða að minsta kosti hafi skoðað þá sem niðja Þorgils skarða, heldur enn að hann, sem annars er skír í tímareikningi, hafi gert Kormák skáld og bróður hans að samtíðamönnum Grettis, sem er fjarstæða (sbr. áður við Kormáks sögu). Enn hvort sem er, þá virðist það að minsta kosti ljóst, að höfundur hefur tekið þessi nöfn eftir Kormáks sögu og spunnið utan um þau frásögnina frá viðureign þeirra bræðra við Gretti. Þetta er í góðu samræmi við önnur lík dæmi, sem vjer munum síðar koma að. Í sambandi við þá bræður kemur fram maður, sem heitir Narfi, og er nafn hans víst líka tekið eftir Kormáks sögu, þó að afstaða þessa Narfa við Melsbræður sje önnur enn í Kormáks sögu. Um „Odd ómagaskáld“ er Grettis saga ein til frásagnar.

Í 30. k. er first ættartala Þorbjarnar öxnamegins, og er hún beint skrifuð út úr Landnámu.[1]) Þar sem Grettis saga segir, að Þóroddr, afi Þorbjarnar á Þóroddsstöðum, hafi numið Hrútafjörð þeim (ɔ: Þóroddsstaða) megin (austan) til móts við Bálka,[2]) þ. e. til móts við Bálka Blæingsson, þá er sagan fillri enn Landnáma, og stendur þetta eflaust í sambandi við það, sem sagan hefur eftir Landnámu í 5. k., að Bálki, sem „nam land í Hrútafirði“, hafi búið á Bálkastöðum hvorumtveggjum. Fremri-Bálkastaðir liggja fremst í fjarðarbigðinni austan megin við ána, enn Itri-Bálkastaðir út með firðinum að austan firir utan Þóroddsstaði. Af þessu hefur höfundur áliktað, að landnám Þórodds hafi legið í miðju landnámi Bálka, fast upp að því bæði að norðan og sunnan, og sínir þetta kunnugleika hans í Hrútafirði. Eftir

1) Útg. 1843, III, 1. k., bls. 168. Stb., 173. k., Hb., 139. k. — 2) Svo á sjálfsagt að lesa, ekki Bakka, eins og stendur í hdrr.

Landnámu, sem segir, að Bálki hafi numið „allan Hrútafjörð“, er eiginlega ekki rúm firir Þórodd á Þóroddsstöðum sem sjerstakan landnámsmann. Landnáma getur þess, að Grettir hafi vegið Þorbjörn öxnamegin, enn hefur annars ekkert um viðureign Þorbjarnar við Bjargsmenn, sem Grettis saga veit svo mikið um, og stiðst þar eflaust að miklu leiti við munnmæli.[1]) Sölvi prúði, sem Þorbjörn tekur firir gerðarmann í eftirmálinu eftir Þórarinssonu, er þó beint tekinn eftir Landnámu.[2]) Það sem Grettis saga segir um ætt Sölva og landnám Haralds hrings, langafa hans, er svo að segja orðrjett samhljóða Landnámu.

Næst getur sagan Þóris, föður þeirra Þórissona, Gunnars og Þorgeirs, sem koma mjög við deilur Bjargsmanna og Þorbjarnar öxnamegins. Landnáma getur ekki um þessa Þórissonu, enn annars er það, sem Grettis saga segir um ætt föður þeirra, tekið beint eftir Landnámu, þó með þeirri missögn, að eftir Grettlu bír Þorkell faðir Þóris á Borðeiri, enn eftir Landnámu á Kjörseiri.[3]) Líklega hefur höfundur breitt þessu af ásettu ráði. Eftir Landnámu nam Þröstr, faðir Þorkels (og Grenjuðr bróðir hans), land í Hrútafirði „inn frá Borðeyri“, enn Kjörseiri liggur ekki í því landnámi, heldur nokkru utar við fjörðinn að vestanverðu. Af því virðist Grettluhöfundur hafa áliktað, að það væri rangt í Landnámu, að Þorkell sonur Þrastar hafi búið á Kjörseiri, og sett hann niður á Borðeiri. Grettis saga veit, að Sleitu-Helgi átti Helgu, dóttur Þóris, og er það líka tekið eftir Landnámu á sama stað (eða Hrómundarþætti), enn um hitt er hún ein til frásagnar, að Þórir Þorkelsson hafi flutt frá Melum að Skarði í Haukadal, og að hann hafi átt nafngreinda sonu, sem hafi verið riðnir við deilur Þorbjarnar öxnamegins og Bjargsmanna. Þessum sonum bætir höfundur bersínilega við frásögn Landnámu frá

1) Sbr. Spjótsmýrr, þar sem Þorbjörn fjell, af spjóti Grettis, sem hann tindi þar og fanst á ofanverðum dögum Sturlu lögmans Þórðarsonar. Grett. k. 49, 3. — 2) Stb., 175. k., Hb., 141. k., útg. 1843 bls. 170—171. — 3) Útg. 1843, II, 33. k., 160.—161. bls.

sjálfum sjer (eftir munnmælum?). Það sjest meðal annars á því, að þeir eru nafngreindir nokkru síðar enn Helga sistir þeirra, sem er tekin eftir Landnámu, og er þar sett inn á milli sistkinanna stutt athugasemd um það, að Þórir hafi selt Mela Þórhalli Gamlasini Vínlendingi, föður Gamla, sem átti Rannveigu sistur Grettis. Þetta, að sistkinin eru slitin sundur, er eðlileg afleiðing af því, að höfundur hleipur frá Landnámu, sem hann notar, í að undirbúa efni, sem síðar kemur í sögunni. Annars er ætt Gamla, mágs Grettis, upp á við öðruvísi rakin í Grettis sögu enn í Landnámu, bæði hjer í 30. k. og áður í 14. k. Landnáma segir, að Gamli hafi verið Þórðarson Eyjólfssonar Eyjars- (eða Einars-) sonar Þórólfssonar fasthalda, enn Grettla, að hann hafi verið sonur Þórhalls Vínlendings (Vindlendings) Gamlasonar. Í Eiríks sögu rauða, 7.—8. k., er getið um Þórhall Gamlason sem einn af fjelögum Þorfinns karlefnis í Vínlandsferð hans, og má vera, að Grettluhöfundur hafi þekt hann þaðan og gert hann að föður Gamla, af því að hann átti Gamla firir föður, enn hafnað ættartölu Landnámu. Niður á við er ættin rakin eins og í Landnámu:1) Gamli — Skeggi skammhöndungr — Gamli — Álfdís — Oddr munkr, enn Grettis saga er það fillri, að hún telur Skeggja á Skarfsstöðum sem bróður Álfdísar móður Odds munks, og kemur það heim við Sturlungu,2) sem telur fleiri af sistkinum þeirra Álfdísar og Skeggja á Skarfsstöðum, þar á meðal Þórodd, sem líklega er sami maður og Þóroddr Gamlason rúnameistari, og eru þá tveir merkir rithöfundar, Oddr munkr og Þóroddr, af þessari ætt.

Þá kemur, í 32.—35. k., saga um viðureign Grettis og Gláms, og er það bersínilega þjóðsaga, sem höfundur hefur fært í snildarlegan búning. Grunsamleg er sagan um það, að Skafti lögsögumaður hafi vísað Þórhalli á Glám sem líklegan til að bæta úr reimleikunum í Forsælu-

1) Sjá Grettis sögu, k. 83, 2 og 84, 11, sbr. Landnámu, útg. 1843, III, 1. k., bls. 169. — 2) Sturl.3 I, 55. og 77. bls. Í Sturlungu er sistir Grettis, móðir Skeggja skammhöndungs, nefnd Herdís, enn ekki Rannveig eins og í Grettlu.

dal, því að það kemur oftar firir, að Grettluhöfundur lætur lögsögumenn vera riðna við sagnir þær, sem hann segir frá, og er líklegt, að hann hafi bætt þessu við frá sjálfum sjer, líkt og hann t. d. tekur upp úr Fóstbræðra sögu dóm Þorgils á Reikhólum um þá veturtaksmenn hans, fóstbræður og Gretti, og bætir því við, að þessi dómur hafi komið fram í viðtali við Skafta lögmann. Það sínir sig líka í frásögninni, að þetta um Skafta stendur í mjög lausu sambandi við Glámssöguna, því að eftir sögunni hittast þeir Þórhallr og Glámr af hendingu á heiðum uppi, og þar ræður Þórhallr hann sem sauðamann. Merkilegt er viðtal þeirra Grettis og Jökuls Bárðarsonar móðurbróður hans í 34. kap. Þegar Jökull sjer, að ekki tjáir að letja Gretti að fást við Glám, bregður hann honum því, að sitt sje hvað gæfa eða gervigleikur, enn Grettir biður hann hyggja at, „hversu þér mun fara sjálfum, áðr lýkr“. Grettis saga segir ekki, hvernig fór firir Jökli, enn það er ljóst, að hjer hefur vakað firir höfundi sögn Heimskringlu eða Ólafs sögu helga um afdrif Jökuls, er Ólafur helgi ljet taka hann og drepa.[1])

Þá kemur sagan um aðra utanför Grettis, þegar hann olli dauða sona Þóris úr Garði, og í 38. k. er Þórir first nefndur til sögunnar og ætt hans rakin, og er það alt beint skrifað út úr Landnámu, líka sögnin um knör Þóris, sem Sigurðr biskup vígði, og veðurspáu brandana frá honum, sem vóru ifir dirum í Garði. Auðsjeð er, að Grettluhöfundur hefur hjer haft firir sjer það handrit af Landnámu, sem nefnist Sturlubók, eða annað því samhljóða, og er það first til marks, að Grettis saga segir, að Sigurðr biskup hafi vígt knörinn á firsta ríkisári Ólafs helga; þetta er ekki í mótsögn við Sturlubók, sem segir engin deili á þessum Sigurði biskupi, enn hin Landnámuhandritin, Hauksbók og Melabók ingri, segja, að biskupinn, sem vígði knörinn, hafi verið Sigurðr ríki, sem var með Ólafi Tryggvasini. Annað er það, að Grettis saga segir, að Þórir

1) Sbr. Hkr. F. J. Óh., 182. k.; Óh. 1853, 191. bls., Flat. II, 317. bls., Fms. V, 29. bls.

hafi átt 2 sonu, Þorgeir og Skeggja, sem Grettir síðar verður að bana. Þetta er ekki í mótsögn við Sturlubók, sem getur ekki um, að Þórir hafi átt neinn son, enn það kemur í bága við Hauksbók og Melabók ingri, sem segir, að Þórir hafi átt einn son, Orm að nafni, og bæta við: „hann myrði Grettir Ásmundarson.“ Þriðja og merkasta sönnunin er það, að síðar í sögunni, þar sem segir frá eltingaleik þeirra Þóris og Grettis (í 63. k.), tilfæra filstu handrit Grettlu af þeim 2 vísum, sem Grettir orti um þessa viðureign, að eins eina heila vísu (Ríðkat ek rækimeiðum o. s. frv.) og upphaf næstu, 2 vísuorð (Hnekki ek frá þar er flokkar / fara Þóris mjök stórir), og kemur þetta alveg heim við Sturlubók, enn Hauksbók og Melabók ingri tilfæra báðar vísurnar heilar, eða 6 vísuorðum meira enn stendur í nokkru handriti Grettlu. Eflaust hefði Grettluhöfundur, sem ann svo mjög vísum, tekið þessi 6 vísuorð með, ef hann hefði haft þau firir sjer í Landnámu sinni, og má af því ráða, að hann hafi filgt Sturlubók eða öðru handriti henni samhljóða.

Enn hvaðan hefur höfundur nöfnin Þorgeirr og Skeggi á sonum Þóris úr Garði? Ekki úr Landnámuhandriti sínu, ef það hefur verið Sturlubók eða samhljóða henni, því að hún greinir engan son Þóris. Ekki úr Hauksbók eða Melabók, því að ef höfundur hefði haft þau handrit eða önnur samhljóða til hliðsjónar, þá mundi hann eflaust eins og þau hafa nefnt annan sonanna að minsta kosti Orm. Jeg er sannfærður um, að hann hefur ekki vitað meira enn stóð í Sturlubók um nöfn Þórissonanna, þ. e. a. s. ekki neitt. Enn hvaðan hefur hann þau? Af hugviti sínu. Af því að faðir Þóris hjet Skeggi og móðurfaðir hans Þorgeirr, áliktar hann, að sinir hans hafi heitið Skeggi og Þorgeirr. Þetta er ekki í eina skiftið, sem höfundur fillir í skörðin með þessari aðferð. Vjer höfum sjeð dæmi þess áður og munum sjá fleiri síðar.

Það er auðsætt, að firir höfundi hafa legið sagnir um það, að Grettir hafi orðið sekur firir það, að hann varð að bana sini eða sonum Þóris úr Garði, og að það var Þórir, sem gerði hann sekan og ofsótti hann mest í

sektinni. Hitt er vafasamara, hvort öll þau atvik að dauða þeirra Þórissona, sem sagan segir svo greinilega frá, hafa filgt hinni munnlegu sögu eða höfundur hefur skreitt þessa sögu frá eigin brjósti, og það eru jafnvel mikil líkindi til, að höfundur hafi í frásögn sinni fegrað mjög málstað sögukappans. Eftir sögunni er það fullkomið óviljaverk af Grettis hálfu, að hann verður þess valdandi, að Þórissinir brenna inni. Þar eru það þeir Þórissinir og menn þeirra, sem ráðast á Gretti, þar sem hann er að sækja eldinn í sæluhúsinu, sem hann á eins mikinn rjett á að nota og þeir. Sagan segir, að þeir hafi setið að drikkju, og gefur þar með í skin, að þeir hafi verið drukknir. Þeir halda, að hann sje tröll, og berja hann með eldibröndum, og af því kviknar í hálminum á gólfinu, og alt fuðrar upp; Grettir kemst með naumindum út með eldinn úr höndum þeirra, enn þeir brenna þar inni, og mega þeir í rauninni sjálfum sjer um kenna, enn Grettir er saklaus. Eftir á gerir Grettir enga tilraun til að dilja þetta óhapp, heldur þvert á móti sannar það opinberlega með járnburði, að sjer hafi verið þetta ósjálfrátt, þó að sú tilraun hans verði að engu sakir bráðlindis hans og gæfuleisis. Enginn getur kallað þetta morð, eins og því er líst í sögunni. Aftur á móti segja Landnámuhandritin Hauksbók og Melabók berum orðum, að Grettir hafi *mirt* Orm son Þóris, og má ætla, að þar komi fram hin sanna gamla Landnámusögn, tekin eftir eldri munnmælum, og er engin ástæða til að halda, að sú sögn hafi af hlutdrægni hallað á Gretti, enn hitt skiljanlegt, að Grettis saga hafi fegrað málstað sögukappans. Og víst er það, að eftir Grettis sögu sjálfri, 46. k., dæmir alþingisdómur Gretti sekan skógarmann firir þetta verk. Og þó að sagan á þessum stað láti Skafta lögsögumann bera í bætifláka firir Gretti og segja, að hann muni ekki „leggja órskurð á, at Grettir sé sekr görr um þetta at svá göru“, þá er auðsjeð, að þessu bætir höfundur við frá eigin brjósti, því að það ber vott um ókunnugleika á lögum þjóðveldisins — lögsögumaður gat þá ekki með úrskurði sínum gripið fram firir hendurnar á dómstólunum, og hlítur þetta að vera ritað nokkru eftir

að norsk lög (Jónsbók) náðu gildi, því þá verður lögmaður æðsti dómari innan lands, enn á þjóðveldistímanum hafði hann ekkert dómsvald, og ifir höfuð að tala tíðkast lögmans eða lögsögumans úrskurðir ekki fir enn eftir að landið kemst undir konung. Auðsjeð er, að þetta, sem höfundur tekur frá eigin brjósti um orð Skafta, miðar að því að afsaka Gretti og fegra málstað hans, og er það því til stuðnings, að frásögn sögunnar um dauða Þórissona sje löguð af höfundi Gretti í vil.

Jeg fer nú fljótt ifir þann kafla sögunnar, sem gerist næst eftir útkomu Grettis og sektardóminn. Um víg Þorbjarnar öxnamegins hef jeg áður talað. Örnefnið Spjótsmýrr bendir til, að höfundur filgi hjer að nokkru munnmælasögum. Sömuleiðis hef jeg drepið á veru Þorgils á Reikjahólum með þeim fóstbræðrum Þorgeiri og Þormóði. Sagan um viðureign Grettis og Hallmundar líkist mjög útilegumannasögum og stiðst að líkindum við munnmæli. Að Hallmundr sje ekki alveg gripinn úr lausu lofti, á það bendir örnefnið Hallmundarhraun milli Eiríksjökuls og Balljökuls. Í Grettlu kemur Hallmundr fram sem nokkurs konar hálftröll. Hann er sá eini, sem Grettir hefur ekki afl við. Annars hafa útilegumenn mjög hafst við um þessar slóðir, t. d. Hellismenn í Surtshelli, sem er kendur við eldjötuninn Surt, og er hjer skamt milli tröllasagna og útilegumannasagna, eins og eðlilegt er á fjöllum uppi. Líks eðlis er sagan í 61. k. um vist Grettis í Þórisdal hjá Þóri þurs, sem sagan kallar „blending“ (= hálftröll). Sagan um viðureign Grettis og Ísfirðinga, þegar þeir tóku hann höndum og Þorbjörg digra bjargaði honum, stendur líka í Fóstbræðra sögu Möðruvallarbókar, og hef jeg sínt fram á það við Fóstbræðra sögu, að þessi kafli í Möðruvallabók er innskotsgrein, tekin eftir Grettis sögu, í Möðruvallabók og á ekki heima í Fóstbræðra sögu. Ekki er ólíklegt, að höfundur hafi hjer farið eftir munnmælasögum.

Í 58.—60. k. segir sagan frá veru Grettis í Fagraskógafjalli í skjóli Bjarnar Hitdælakappa. Hjer hefur höfundur haft firir sjer bæði Bjarnar sögu Hitdælakappa,

sem hann beint vitnar í, og Landnámu, og að líkindum einhverjar munnmælasögur. Ættartala Bjarnar Hitdælakappa í upphafi 58. k. er tekin eftir Landnámu,[1]) enn vera má, að sama ættartalan hafi líka staðið í Bjarnar sögu Hitdælakappa, meðan hún var heil. Grettis saga segir, að Björn hafi búið í Hólmi, þegar Grettir var á hans vegum. Það er í mótsögn við Bjarnar sögu Hitdælakappa, sem segir, að Björn hafi þá búið á Völlum. Það sem Grettis saga segir, að Björn hafi jafnan haldið seka menn, kemur aftur á móti heim við Bjarnar sögu Hitdælakappa[2]) og er líklega þaðan tekið. Báðum sögunum kemur saman um, að Grettir hafi verið í skjóli Bjarnar, þegar hann hjelt til í Grettisbæli í Fagraskógafjalli. Bjarnar saga Hitdælakappa segir stuttlega, að þeir hafi lagst niður eftir Hitará og þótt jafnsterkir menn. Grettis saga segir, að þeir hafi reint með sjer margan fræknleik, og getur þess, að Bjarnar saga Hitdælakappa kalli þá „jafna at iþróttum", enn það vill Grettis saga ekki játa, segir, að Grettir hafi verið sterkastur maður hjer á landi, síðan Ormr Stórólfsson og Þórólfr Skólmsson lögðu af aflraunir,[3]) og um sund þeirra Bjarnar í Hitará segir hún, að þeir hafi lagst í einu eftir allri Hitará frá vatni og út til sævar; eru allar líkur til, að Grettluhöfundur hafi þar ikt hina einföldu frásögn Bjarnar sögu Hitdælakappa. Vegalengdin er 4—5 danskar mílur og í ánni margir fossar. Það sem Grettis saga segir um, að þeir Björn hafi fært stjettir í Hitará, „sem aldri síðan hafi ór rekit hvárki með vatnavöxtum né ísalögum eða jökulgangi", stendur ekki í Bjarnar sögu Hitdælakappa, enn er líklega tekið eftir munnmælum. Að minsta kosti eru enn í dag svokallaðar Grettisstillur, stór björg, síndar í ánni skamt firir neðan Grettisodda. Eftir Bjarnar sögu Hitdælakappa er Grettir að eins einn vetur í skjóli Bjarnar, enn eftir Grettis sögu þrjá, og virðist Grettluhöfundur hafa ikt þetta af ásettu

1) Landn. Stb. 57. k., Hb., 45. k., útg. 1843, bls. 71—72. — 2) 22. k., Boer 48. bls. — 3) Þessi athugasemd virðist benda til, að Grettluhöfundur hafi hér haft firir sjer frásögnina um aflraunir þeirra Orms og Þórólfs í Orms þætti Stórólfssonar (Flat. I 524. bls.).

ráði, sjerstaklega af því að hann var í vandræðum að filla með viðburðum alla þá mörgu vetur, sem Grettir var í sekt. Það, sem sagan segir um fjandskap þeirra Bjarnar Hitdælakappa og Þórðar Kolbeinssonar, er auðvitað tekið eftir Bjarnar sögu Hitdælakappa, enn af þeim fjandskap leiðir, að sagan lætur Gretti, sem er skjólstæðingur Bjarnar, leita helst á vini Þórðar, og að Þórðr verður forsprakki þeirra manna, sem reina að ráða Gretti af dögum eða koma honum burt úr sveitinni. Grettis saga lætur Gretti rata í íms æfintíri, meðan hann er undir væng Bjarnar, sem Bjarnar saga Hitdælakappa veit ekkert um. Er þar first hin ágæta saga um ráðninguna, sem hann gaf Gísla, sögð af hinni mestu snild. Eftir Grettis sögu er Gísli þessi, sem Grettir híddi, sonur Þorsteins þess, „er Snorri goði lét drepa“. Þennan Þorstein þekti höfundur auðvitað úr Heiðarvíga sögu — vjer höfum áður sjeð, að sú saga var höfundi kunn — sá Þorsteinn var Gíslason, og verið getur, að Heiðarvíga saga hafi getið þess, að hann hafi átt son að nafni Gísla, — sagan er á þeim kafla ekki til í frumriti, heldur að eins í ágripi, sem Jón Ólafsson Grunnvíkingur hefur ritað eftir minni, — enn ekki er þessi Gísli sá maður, sem bektist við Barða á þingi og var veginn á Gullteig, eins og Jón Ólafsson hjelt. Sá Gísli var Þorgautsson, það hef jeg sínt í firirlestrunum um Heiðarvíga sögu. Jeg læt því ósagt, hvort höfundur hefur beint tekið þennan Gísla, son Þorsteins, eftir Heiðarvíga sögu, eða hitt — sem mjer þikir fult eins líklegt — að hann hafi búið til nafnið Gísli eftir afa hans, föður Þorsteins Gíslasonar. Enn annars er sagan svo einkennileg og sögð með svo greinilegum atvikum, að því er staðháttu snertir, að varla er líklegt, að hún sje einber skáldskapur, heldur mælir alt með, að munnmæli hafi gengið um, að Grettir hafi veitt einhverjum Gísla ráðningu, og höfundur hafi að eins búið það til, að hann hafi verið sonur Þorsteins, af því að hann átti samnefnt við föður hans.

Þá er sagan um bardagann í Grettisodda milli Grettis og Míramanna. Hún er eflaust að nokkru eftir munn-

mælum; á það bendir örnefnið Grettisoddi. Enn atvikin að bardaganum virðist höfundur hafa skáldað frá eigin brjósti með Landnámu og Bjarnar sögu Hitdælakappa firir framan sig. Það sjest á því, að flestir þeir menn, sem við bardagann eru riðnir af hálfu Míramanna, eru annaðhvort beint teknir eftir Landnámu og ætt þeirra rakin eftir henni eða leiddir út úr Landnámu með áliktun og samanburði við Bjarnar sögu Hitdælakappa. Eftir Landnámu eru teknir feðgarnir Þórarinn frá Ökrum og Þrándr, sonur hans,[1]) sömuleiðis „Finnbogi Þorgeirsson Þóroddssonar ór Hitardal“.[2]) Aftur á móti er „Þorgils Ingjaldsson, bróðursonr Þórarins“ (á Ökrum) dreginn með áliktun út úr Landnámu. Landnáma getur þess eins um Ingjald, að hann hafi verið son Þorgils knappa, bróður Þórarins, nefnir ekki nein börn hans.[3]) Enn af því að Ingjaldr var Þorgilsson, áliktar Grettis saga, eins og hún er vön, að hann hafi átt Þorgils firir son, og lætur þennan Þorgils taka þátt í bardaganum í Grettisodda. „Steinólfr Þorleifsson ór Hraundal“[4]) er tekinn eftir Bjarnar sögu Hitdælakappa, sem getur um Steinólf í Hraundal,[5]) enn ættfærir hann ekki, enn að hann hafi verið Þorleifsson, er áliktun höfundar dregin út úr Landnámu, sem segir frá Steinólfi, „er nam Hraundal, föður Þorleifs, er Hraundælir eru frá komnir“. Af þessum Landnámu-stað áliktar Grettluhöfundur, að Steinólfr sá, sem Bjarnar saga Hitdælakappa getur um, hafi verið Þorleifsson (sbr. Grettis sögu, k. 61, 3: Þorleifr í Hraundal, faðir Steinólfs, var mikill maðr firir sér, frá honum eru komnir Hraundælir). Að þessi Steinólfr hafi barist við Gretti í Grettisodda og fallið þar firir honum, virðist vera einber skáldskapur söguhöfundar. Merkilegt er það, að þeir einu menn, sem

1) Sbr. Landnámu, Stb., 67. k., Hb., 55. k., útg. 1843, 75. bls. Hjer sjest, að höf. filgir Stb. eða samhljóða hdr., því að Stb. ein lætur Þórarin búa að Ökrum, enn Hb. og Mb. láta Þóri bróður hans búa þar. Líka er Þrándr nefndur sonur Þórarins í Stb. einni — hin handritin segja hann son Þóris á Ökrum, bróður Þórarins. — 2) Sbr. Landnámu, Stb., 66. k., Hb., 54. k., útg. 1843, bls. 74—5. — 3) Landn., Stb. 67. k., Hb., 55. k., útg. 1843, 75. bls. — 4) Grettis saga, k. 60, 6. — 5) B. Hitd., 22. k., Boer 48. bls.

sagan tilgreinir með nafni, að Grettir hafi drepið í Grettisodda, eru einmitt þeir tveir, Þorgils og Steinólfr, sem jeg hef sint, að höfundur hefur tekið, annaðhvort að öllu eða þó að mestu, frá eigin brjósti. Er það ekki eins og hann hafi þótst sjerstaklega eiga með að taka lífið af þeim, sem hann hafði sjálfur skapað?

Vjer getum nú gert oss nokkurn veginn ljósa hugmind um, hvernig frásögnin um þennan bardaga hefur orðið til. Höfundur virðist hafa vitað lítið annað um hann enn það, sem munnmælin sögðu, að hann hefði staðið í Grettisodda. Höfundur spir nú sjálfan sig: hvaða menn vóru það, sem tóku þátt í bardaganum af Míramanna hálfu? Og hann svarar sjer sjálfur: Það hafa auðvitað verið afkomendur þeirra landnámsmanna, sem settust að í grend við Fagraskógafjall, í Hraundal, Hitardal og Hnappadal. Hann flettir upp í Landnámu sinni og finnur þar 3 kapítula hvern á eftir öðrum, sem segja, að Steinólfr hafi numið Hraundal, Þórhallr Hitardal og Þorgils knappi Hnappadal. Nú gerist þetta eftir tímatali sögunnar um 1023. Þá vóru þessir landnámsmenn löngu dauðir, og varla líklegt, að nokkur af sonum þeirra hafi verið á lífi, nema þá að einhver þeirra hafi orðið fjörgamall. Höfundur lætur Þórarin á Ökrum, son landnámsmansins Þorgils knappa, vera við bardagann sem áhorfanda, enn segir um hann, að hann hafi verið „mjök gamall maðr, svá at hann var ekki í atsókninni“. Annars velur hann til aðsóknarinnar sonarsini áðurnefndra landnámsmanna, auðvitað af tímatals ástæðum, Þránd sonarson Þorgils knappa, Finnboga sonarson Þórhadds, Steinólf sonarson Steinólfs í Hraundal, sem hann tekur úr Bjarnar sögu Hitdælakappa, enn ættfærir eftir Landnámu, og loks Þorgils, sem hann sjálfur skapar, sonarson Þorgils knappa. Aðferðin er mjög lík þeirri, sem höfundur beitir í Önundarþættinum. Auk þess lætur hann Arnór, son Þórðar Kolbeinssonar (sem síðar var nefndur jarlaskáld), koma í bardagalokin og lísir illa framgöngu hans. Hann er tekinn úr Bjarnar sögu Hitdælakappa og var þar að auki að sjálfsögðu höfundi kunnur sem skáld. Hann er fulltrúi og

sendisveinn föður síns, sem höfundur telur sjálfsagt að hafi látið þessa aðför að Gretti til sín taka.

Eftir veru sína á Mírum leitar Grettir til Hallmundar vinar síns og fer að tilvísan hans í Þórisdal og er þar í skjóli Þóris þurs 1 vetur. Þaðan fer hann til Austfjarða, og er auðsjeð, að höfundur hefur ekki þekt neinar sögur af Gretti, sem þar gerðust, því að hann segir að eins, að hann hafi fundið höfðingja, enn hvergi fengið vist nje veru. Þá fer hann norður til Þingeijarþings. Hjer skítur sagan inn stuttum þætti um Grím „son ekkjunnar á Kroppi", og hangir sá þáttur á mjóum þræði við söguna, snertir hana að eins að því leiti sem hann segir frá æfilokum Hallmundar, sem Grímr varð að bana. Grímr þessi er tekinn eftir Laxdælu. Þaðan hefur Grettis saga móðerni Gríms og söguna um viðureign hans og Þorkels Eyjólfssonar. Enn ekki veit Laxdæla neitt um viðureign Gríms við Hallmund, og er því líklegt, að það sje skáldskapur Grettluhöfundar, eða, rjettara sagt, að höfundur hafi heimfært upp á Grím þennan frá Kroppi, sem hafðist við á Arnarvatnsheiði, þjóðsögu, sem hann kunni um dráp Hallmundar. Líks efnis er að sumu leiti sagan um Vestfjarða-Grím, sem er uppskrifuð á Síðu af Árna Magnússini 1708.[1]) Sá Grímr liggur í sekt við Veiðivötn (Grímsvötn), enn það, sem hann veiðir, tekur risi frá honum á næturnar. Hann særir risann banasári, eltir hann til hellis hans og huggar síðan dóttur risans, alveg eins og Kropps-Grímr í Grettis sögu. Boer heldur, að þessi saga eða henni lík saga hafi haft áhrif á Grettis sögu, og má það vel vera. Enn þó er hitt fullt svo líklegt, að þessir drættir í þjóðsögunni um Vestfjarða-Grím stafi frá Grettis sögu. Söguna um æfilok Hallmundar skreitir höfundur með kvæði, sem hann lætur Hallmund kveða, áður hann deir, og dóttur hans rista eftir á kefli. Þessi æfikviða Hallmundar með kviðuhætti rifjar upp undanfarna æfi Hallmundar og minnir sterklega á æfikviðu Örvar-Odds í Örvar-Odds sögu, sem rifjar upp helstu viðburði í æfi

1) Ísl. þjóðs. I, 167. bls.

Odds. Í báðum sögunum er mjög líkt ástatt. Oddr kveður sína æfikviðu rjett firir andlát sitt alveg eins og Hallmundr og lætr rista hana eftir sjer á kefli eða speldi. Engin efi er á því, að Grettluhöfundur hefur sniðið þessa æfikviðu eftir æfikviðu Örvar-Odds, enda er sumt í Hallmundarkviðu svo að segja orðrjett eins og tilsvarandi vísur í Oddskviðu.[1]) Að nokkru leiti minnir þessi æfikviða líka á æfikviðu Ásbjarnar prúða í Orms þætti Stórólfssonar, sem hann kveður firir andlát sitt, og fleira er svipað í Grettis sögu og Orms þætti, sem Boer hefur bent á. Boer heldur, að þátturinn sje ingri enn Grettis saga og hafi tekið eftir henni. Enn það finst mjer mjög vafasamt. Áður hef jeg bent á, að athugasemd Grettlu um aflraunir Þórólfs Skólmssonar og Orms, sem lítið kemur við efni Grettis sögu, muni stafa frá Orms þætti, sem segir greinilega frá þessum aflraunum. Þetta bendir til, að Grettluhöfundur hafi þekt og notað þáttinn.

Þá kemur næst (í 63. k.) sagan um eltingaleik Þóris úr Garði við Gretti á Reikjaheiði. Áður hef jeg sínt, að þessi sögn ásamt einni vísu og einum vísufjórðungi, sem henni filgja, er tekin eftir Landnámuhandritinu Sturlubók eða samhljóða handriti. Það er auðsjeð, að höfundur hefur verið ókunnugur um þessar slóðir, því að hann lætur Þóri búa búi í Garði í Aðaldal, enn ekki í Garði í Kelduhverfi (Mikla-Garði) eins og Landnáma, ruglar með öðrum orðum saman þessum bæjum, og í lísingu sögunnar á Reikjaheiði er ímislegt, sem ber vott um ókunnugleika. Þetta hefur Kr. Kålund sínt ágætlega í Íslandslísingu sinni.[2]) Samt sem áður raskar þetta ekki því, að höfundur hefur hjer haft firir sjer hina gömlu sögn, sem kemur fram í Landnámu. Þessa sögn skreitir hann með atvikum, eins og hann er vanur, og bætir við einni vísu frá sjálfum sjer, sem ekki stendur í Landnámu. Þá vísu irkir Grettir rjett hjá Garði, heimili Þóris, til dóttur hans. Höfundur hefur ekki getað stilt sig um að láta Gretti heimsækja mótstöðumann sinn til að storka honum því meira. Það

1) Sbr. Boer, Z. f. d. Ph. XXX, 5. bls. — 2) Island, II 179—181.

er vel til fundið, enn Landnáma veit ekkert um það nje vísuna, og er hvorttveggja bersínilega skáldskapur söguhöfundar.

Þá kemur í 64.—67. k. sagan um veru Grettis í Bárðardal og viðureign hans við tröllin nálægt Sandhaugum. Hjer virðist þjóðsaga um Gretti liggja til grundvallar, og hef jeg áður drepið á það og sínt, að engin ástæða sje til að halda, að tröllasagan hafi orðið firir áhrifum frá Beowulfs-kvæði hinu enska. Hjer skal jeg að eins taka það fram, að lísing sögunnar á landsháttum við Eijadalsá ber vott um ókunnugleika höfundar.[1])

68. k. segir frá því, er Þóroddr Snorrason fór að Gretti og ætlaði að drepa hann, enn Grettir átti als kosti við hann og gaf honum líf af hræðslu við „hærukarlinn, föður hans", Snorra goða. Þessi saga minnir sterklega á sögnina, sem Laxdæla segir, um aðför Þorkels Eyjólfssonar að Grími frá Kroppi. Vjer vitum, að Grettluhöfundur þekti vel þessa sögu (Grettis saga, k. 62, 1), og er líklegt, að hann hafi sniðið sína sögu um Þórodd og Gretti eftir henni, og það því fremur, sem Snorri goði er líka riðinn við Laxdælusögnina.[2]) Eftir tímatali sögunnar gerist þetta árið 1028 (Boer), skömmu „eftir víg Þorsteins Kuggasonar", og kemur það vel heim við Íslenska annála, sem setja víg Þorsteins á árið 1027. Hitt hefur Boer bent á, að Þóroddr Snorrason hefur um þær mundir firir löngu verið kominn af uppvaxtarárum, eftir því sem vjer vitum úr öðrum heimildum um aldur hans, og að Grettis saga er í mótsögn við þessar heimildir, þar sem hún skoðar hann sem hálfvaxinn ungling (sbr. orð Grettis „enn ekki er þat barnafæri at berjast við mik").

Nú hverfur sagan að för Grettis til Drangeijar og veru hans þar til dauðadags, og er þar first hin fagra saga um skilnað þeirra bræðra Grettis og Illuga við móður þeirra. Hún spáir firir þeim, hvernig fara muni, og gengur það alt eftir, eins og vant er í sögum. Höfundur beitir hjer af mikilli snild þeirri list íslenskra sagnamanna, að

1) Sbr. Kålund, Island, II, 151.—152. bls. — 2) Laxd., k. 58,8.

undirbúa frásögnina um það, sem eftir fer, með spádómum framsinna manna. Á leiðinni norður hitta þeir Þorbjörn glaum og ráða hann til filgdar við sig, og eru þeir allir fluttir út í Drangei frá Reikjum.

Það tel jeg vafalaust, að frásögnin um veru Grettis í Drangei sje í aðalatriðunum samin eftir munnmælasögum. Kjarninn í sögunni, að Grettir og bróðir hans Illugi höfðust við í Drangei og ljetu þar líf sitt, er án als efa sannur og hefur geimst í munnmælum, þangað til sagan var skrifuð. Enn hin ítarlegu atvik, sem filgja sögunni, eru að minni higgju að miklu leiti skáldskapur höfundar og sumar persónurnar að minsta kosti tilbúnar af honum. Þetta sjest á því, að hann mannar þennan þátt (eða aflar sjer manna til hans) með mjög líkri aðferð eins og hann mannar Önundarþáttinn og þáttinn um vist Grettis í Fagraskógafjalli. Spurningin er, hverjir skagfirskir höfðingjar vóru uppi um það leiti sem Grettir var í Drangei? Auðvitað afkomendur skagfirskra landnámsmanna. Og honum telst svo til, að ifirleitt hafi sonarsinir eða sonarsonarsinir landnámsmannanna verið samtíða þessum viðburðum. Hann fer nú í Landnámu sína, alveg eins og hann gerði við samsetning Önundarþáttarins og Fagraskógafjallsþáttarins, og finnur þar skagfirsku landnámsmennina og ættir þeirra, og eftir því setur hann saman í 70. k. höfðingjatal í Skagafirði um þessar mundir. Ættirnar eru beint skrifaðar út úr Landnámu. Þar sem Landnáma rekur ættirnar til sonarsona eða sonarsonasona, gerir höfundur þann nið, sem Landnáma telur síðastan (sonarson eða sonarsonarson), að höfðingja á dögum Grettis. T. d. er Halldórr Þorgeirsson í þessu höfðingjatali, sonarsonur Þórðar frá Höfða landnámsmans, bæði eftir Landnámu og Grettis sögu. Sömuleiðis Tungu-Steinn, sem er þriðji maður frá Kráku-Hreiðari landnámsmanni eftir báðum sögunum. Þar sem Landnáma aftur á móti ekki rekur ættirnar lengra niður enn til sona landnámsmanna, bætir hann við sonarsini, sem hann lætur heita eftir afa sínum. T. d. er Hjalti Þórðarson ingri als ekki nefndur í Landnámu. Honum bætir Grettlu-

höfundur við og lætur hann heita eftir afa sínum Hjalta landnámsmanni Þórðarsini skálps. Landnáma rekur ekki ættina lengra niður enn til sona Hjalta eldra. Og alveg eins stendur á Eiríki sini Hólmgöngu-Starra Eiríkssonar landnámsmans í Goðlöndum. Landnáma rekur ekki ætt Eiríks í Goðdölum lengra niður í karllegg enn til sona hans, þar á meðal Hólmgöngu-Starra, veit ekkert um, að Hólmgöngu-Starri hafi átt son, Eirík að nafni. Honum bætir Grettluhöfundur við og lætur hann heita eftir afa sínum.

Merkilegt er, að í þessu skagfirska höfðingjatali er ekki talinn Hafr sá, er síðar kemur fram af hálfu allra Skagfirðinga á Hegranesþingi og mælir firir griðum, þegar Grettir kemur á þingið í dularbúningi og gengur að leikum með Skagfirðingum. Hafr þessi er þó bersínilega í höfðingjaröð, og í 72. k., þar sem sagt er frá þessu, er hann ættfærður svo, að hann hafi verið „Þórarinsson Hafrssonar Þórðarsonar knapps, er land hafði numit upp frá Stíflu í Fljótum til Tunguár“. Þessi ættartala er beint skrifuð út úr Landnámu, að undanteknum Hafri sjálfum (ingra), sem Landnáma veit ekkert um. Honum bætir Grettis saga við og lætur hann heita eftir afa sínum. Alt virðist vera á sömu bókina lært.

Líklegt er, að það hafi filgt munnmælasögninni, sem höfundur fór eftir, að það hafi verið maður að nafni Þorbjörn öngull, sem að lokum varð Gretti að bana í Drangei. Sagan lætur hann vera son Þórðar Hjaltasonar albróður Hjalta, og læt jeg ósagt, hvort það hefur líka filgt munnmælunum eða er skáldskapur höfundar. Enn ekki líkist skaplindi Þorbjarnar önguls, eins og það kemur fram í sögunni, göfuglindi og höfðingsskap Hjaltasona, sem Landnáma lísir svo átakanlega.

Jeg hef þá sínt, hvaðan sagan tekur hinar helstu persónur, sem koma fram í þessum þætti. Hvað mikið af þeim ævintírum, sem sagan segir frá veru Grettis í Drangei, er tekið eftir munnmælum, og hvað er tilbúningur höfundar, er erfitt að segja. Enn ein af þessum sögum, sagan um Gretti og griðamálin á Hegranesþingi,

er að öllum líkindum ekki annað enn skáldskapur. Hún minnir sterklega á griðamálasöguna í Heiðarvíga sögu, sem Grettluhöfundur hefir þekt og notað, þegar Snorri goði ginti Þorgils Arason til að mæla firir griðum, og svo kemst það upp, að þar er Barði Guðmundarson í flokknum með þeim, óvinur Þorgils, sem nítur góðs af griðunum, og unir Þorgils því illa, enn heldur þó griðin. Sennilegt er, að hugmindin til Hafrsgriða í Grettis sögu sje tekin eftir Heiðarvíga sögu. Í sjálfu sjer er sagan í Grettlu frábærlega ósennileg. Það virðist fjarstæða, að Grettir, eins og á stóð, sekur skógarmaður, vargur í vjeum, sem sat ifir dírmætri eign margra Skagfirðinga, hafi hætt sjer á sjálft þing hjeraðsins og þorað að treista drengskap hjeraðsbúa, þó að hann gæti gint þá til að heita sjer griðum, enn því gat hann ekki treist firirfram að takast mundi. Að minni higgju getur ekki verið neinn flugufótur firir þessari sögu, og er því mjög ólíklegt, að hún hafi gengið í munnmælum, sem hafi legið firir Grettluhöfundi. Það er og varla tilviljun ein, að Hafr, sem mælir firir griðunum, er ekki tekinn með í höfðingjatalinu í upphafi Drangeijarþáttarins, heldur kemur first til sögunnar þar sem sagt er frá griðasetningunni. Það virðist benda til, að höfundi hafi ekki hugkvæmst skáldsagan um griðasetninguna á Hegranesþingi, fir enn *eftir að hann hafði samið höfðingjatalið*. Annars er sagan snildarlega sögð og ákaflega „spennandi“.

Í frásögninni um dauða Grettis er eitt atvik, sem virðist vera tekið eftir Karla-Magnús sögu. Sagan segir í 82. k., að Grettir dauður hafi spent svo fast um meðalkaflann á sverði sínu, að átta menn hafi ekki getað togað það úr greip hans. Um Rollant segir Karla-Magnús saga, að hann hafi spent svo fast meðalkafla á sverði sínu, að 5 riddarar máttu ekki taka það af honum dauðum.[1]) Hjer bregður því firir áhrifum frá riddarasögu. Vísan, sem sagan eignar Þorsteini drómundi, um þetta atvik, er bersínilega eftir höfund sjálfan.

1) Karla-Magnús saga, k. 39, 528. bls.

Vjer komum þá að síðasta þætti Grettis sögu, Spesarþættinum, sem segir frá því, hvernig Þorsteinn drómundr, hálfbróðir Grettis, hefndi hans út í Miklagarði með því að drepa Þorbjörn öngul, og frá ástum þeirra Þorsteins og Spesar garðshúsfreiju. Líklegt þikir mjer, að höfundur hafi haft firir sjer munnmæli um það, að Þorsteinn hafi drepið Þorbjörn út í Miklagarði í hefnd eftir Gretti. Enn annars er þátturinn ekki annað enn skáldsaga. Um það eru víst allir sammála. Engar líkur til, að nein munnmæli hafi gengið á Íslandi um æfintíri Þorsteins í Miklagarði önnur enn hefndin. Höfundur hafði því alveg frjálsar hendur að haga efninu og frásögninni eftir geðþótta sínum, og vjer getum að nokkru leiti sjeð, hverri aðferð hann hefur beitt við samsetninguna. Lísingin á lífi Væringja í Miklagarði — sem höfundur auðvitað hefur verið ókunnugt um — er að mestu löguð eftir lísingunni á lífi þeirra í Haralds sögu harðráða, þar sem segir frá dvöl Haralds með Væringjum. Það sem segir um „gjaldkera“ (= bæjarfógeta) og „ráðsmenn“ í Miklagarði er þó beint sniðið eftir firirkomulaginu eins og það var í bæjum í Noregi. Boer hefur sínt, að sum atvik í Spesarþættinum eru beint tekin eftir þessum kafla í sögu Haralds harðráða, t. d. þar sem höfundur lætur þau Þorstein og Spes hittast á laun í „sævarlofti“ (lofti, þar sem sjór flæddi undir) og Þorstein sleppa burt gegnum hlemm í gólfinu ofan í sjóinn, þegar að er komið, og bjargast burt á sundi. Þetta er beint tekið eftir Haraldssögunni, þar sem Haraldr er á laun með Maríu jungfrú í „sjávarloftum“ og kemst undan á sama hátt.[1]) Sömuleiðis er það líkt í Spesarþættinum og Haralds sögu, að kona bjargar þeim báðum Þorsteini og Haraldi úr dífllissu, þó að annað í þeim sögum sje ólíkt. Að Haralds saga hafi hjer legið firir höfundi, sjest auk þess á því, að höfundur getur Haralds við söguna, lætur Þorstein ganga í lið hans í Miklagarði og segir, að Haraldr hafi lagt ráðin á með Þorsteini og Spes um undanbrögð

1) Morkinsk., 12. bls.

þeirra. Ímislegt bendir til, að það sje rjett, sem Boer heldur fram, að höfundur hafi notað Haralds sögu Morkinskinnu eða líka gerð Haraldssögunnar. Annars er aðalefnið í Spesarþættinum ástir þeirra Þorsteins og Spesar, og er þátturinn að því leiti líkur sumum riddarasögum eða strengleikum. Höfundur hefur hjer meðal annars haft Tristrams sögu til hliðsjónar. Sagan um það, er Þorsteinn í stafkarlsgervi bar Spes ifir díkið, datt með hana og þuklaði á henni, og undanfærslueiðinn, sem Spes sór síðan, að enginn hefði komið nærri sjer nema bóndi sinn og stafkarlinn, er sniðin eftir alveg samskonar atviki í Tristrams sögu. Tristram í pílagrímsgervi ber Ísönd ifir á og verður líkt á og Þorsteini. Síðan sver Ísönd undanfærslueið með sama formála og Spes. Brellur þær, sem Spes beitir til að leika á mann sinn hvað eftir annað, líkjast mjög sams konar brellum í Disciplina clericalis, og eru þær sögur þíddar á íslensku í Íslendzkum æventýrum.[1])

Því verður ekki neitað, að blærinn á Spesarþætti er allur annar enn á sögunni á undan. Þegar lesandinn hverfur frá sögunni um Gretti og fer að lesa um æfintíri Spesar og Þorsteins, þá er eins og hann komi úr íslensku fjallalofti inn í heita ofnstofu. Ifir sögunni um Gretti hvílir heiðloft norræns hetjuskaparanda, enn ifir Spesarþættinum lognmolla suðrænna ástaræfintíra. Því er engin furða, þó að sumir hafi átt bágt með að trúa því, að þátturinn og meginsagan væri eftir sama manninn. Guðbrandur Vigfússon hjelt því fram,[2]) að meginsagan væri rituð seint á 12. öld, enn Spesarþætti aukið við söguna af öðrum manni í birjun 14. aldar. Gegn þessu tók Boer rjettilega fram, að sagan um það, að Þorsteinn drómundr hefði hefnt Grettis suður í Miklagarði, hliti að hafa staðið í sögunni frá upphafi, bæði af því að Íslendingasögur eru vanar að enda á hefndunum eftir sögukappann, og sjerstaklega af því, að sagan um þetta er boðuð firir í sögunni, þar sem hún segir frá því í 41. k., að þeir bræður Þorsteinn og Grettir lágu saman í svefn-

1) Útg. Gerings I, 176.—179. bls. — 2) Ný Fjelagsr. XVIII, 162. bls.

lofti og bera saman handleggi sína, og Þorsteinn spáir, að sínir mjóu handleggir muni hefna Grettis. Samt fer Boer sjálfur meðalveg. Hann vinsar úr þættinum ímsar klausur, sem hann heldur að sjeu upphaflegar í sögunni, og heldur, að öllu öðru sje síðar iaukið. Þessi sundurgreining Boers er að minni higgju svo flókin og óeðlileg og ber vott um svo mikið gjörræði, að hún getur ekki verið rjett. Spesarþátturinn er ein samföst heild og virðist vera eins mans verk frá upphafi til enda. Það dugir ekki að slíta úr honum einstakar setningar út úr sambandinu. Annaðhvort er hann allur síðari viðauki eða allur upphaflegur í sögunni. Og að hið síðara sje rjett, sjest á spádómi Þorsteins fir í sögunni, að hann muni hefna Grettis. Riddarasögublærinn, sem óneitanlega er á þættinum, er eðlileg afleiðing af því, að hann gerist suður í löndum. Höfundur vildi auðvitað skreita frásögnina um veru Þorsteins í Miklagarði með atvikum teknum úr daglegu lífi þar siðra. Það líf þekti hann ekki af eigin sjón og var því neiddur til að taka sjer til firirmindar þau rit, sem hann þekti og honum þóttu líkleg til að lísa rjett þessu lífi. Þess vegna grípur hann til þess þáttar Haraldssögunnar, sem gerist í Miklagarði, og tekur úr honum þau atvik, sem hann gat notað. Enn Haraldsþátturinn náði skamt, og því grípur hann til atvika úr riddarasögum, sem lísa lífinu á meginlandi Evrópu, og príðir sögu sína með þeim. Og á þessum grundvelli tekst honum með ímindunarafli sínu að skreita hina einföldu munnmælasögu um það, er Þorsteinn hefndi bróður síns, svo að úr henni verður skemtilegt ástaræfintíri með riddarasögublæ. Að vísu notfærir höfundur sjer hjer alt aðrar heimildir enn hann notar í meginsögunni, eins og eðlilegt er, enn áður hef jeg sínt, að hann einnig í meginsögunni hefur notað að minsta kosti eitt atvik úr riddarasögu, þar sem hann segir, að 8 menn hafi ekki getað náð saxinu af Gretti dauðum. Og aðferðin við samsetning þáttarins er í rauninni alveg sú sama eins og hann beitir framar í sögunni, þegar hann skapar Önundarþáttinn og Fagraskógaþáttinn úr hinum mögru frásögnum Landnámu og

Bjarnar sögu Hitdælakappa og tekur atvik eftir Heiðarvíga sögu inn í Drangeijarþáttinn, nema að því leiti sem hann gefur sínu skapandi ímindunarafli ennþá lausari tauminn í Spesarþættinum. Þetta er sterk sönnun firir því, að Spesarþáttur sje eftir sama höfund og meginsagan. Til hins sama bendir það, að orðfærið á Spesarþætti er mjög svipað og á meginsögunni, nema í niðurlagi þáttarins, þar sem efnið sjálft gefur tilefni til þess, að orðfærið fær klerklegan blæ, sem jeg áður hef talað um. Eitt af því, sem einkennir Grettis sögu, er að hún beitir mjög firir sig orðskviðum. Þeir tíðkast og í Spesarþætti. Finnur Jónsson er og á þeirri skoðun, að Spesarþáttur sje upphaflegur í sögunni.

Ifir höfuð að tala finst mjer öll sagan frá upphafi til enda, eins og hún er til vor komin í handritum, vera steipt í eitt mót og laus við síðari íauka, þegar frá er skilin hin bersínilega innskotsgrein um æfital Grettis í 82. kap., sem jeg áður hef minst á og vantar alveg í annan handritaflokkinn. Bæði Guðbrandur Vigfússon og Boer hafa skoðað það sem sjálfsagt og tekið það sem firirfram gefið, að sagan hafi verið til í eldri mind. Þeir hafa sjeð, að sagan, eins og hún er til vor komin, getur með engu móti verið eldri enn frá birjun 14. aldar, þar sem hún talar um Sturlu Þórðarson sem löngu dauðan,[1]) enn hann dó 1284. Enn hins vegar hafa þeir ekki getað skilið, að annað eins snildarverk og Grettis saga er gæti verið rituð eftir 1300, því það var og er almenn skoðun, að þá sje gullöld íslenskra bókmenta á enda. Enn það gefur að skilja, hve hæpið það er að binda enda gullaldarinnar við ákveðið ár. Vjer vitum, að sú saga, sem ber af öllum öðrum að ritsnild, Njáls saga, er ekki eldri enn frá lokum 13. aldar, og að Íslendingar á 14. öldinni hjeldu áfram að fást við sögur. Að vísu beindist starf 14. aldarinnar mest að því að afskrifa eldri Íslendingasögur og safna þeim saman í stórar skinnbækur. Enn þó er ekkert því til firirstöðu,

1) Spjót Grettis fanst í þeirra manna minnum, er nú lifa „á ofanverðum dögum Sturlu lögmanns Þórðarsonar“, k. 49, 3.

að frumleg sagnaritun hafi haldist við framan af öldinni og einstakir snillingar risið upp í þeirri grein, sem námu sagnasnildina af 13. aldar höfundunum og hjeldu áfram starfi þeirra. Þeir sem halda því fram, að til hafi verið eldri saga, samin á 13. öldinni, verða að útiloka úr sögunni áðurnefnda grein um Sturlu, sem hlítur að vera skrifuð löngu eftir dauða hans, og skoða hana og þar með aðrar tilvitnanir til Sturlu sem síðari innskotsgreinar. Enn þeir gæta þess ekki, að öll sagan ber íms ótvíræð 14. aldar einkenni. Hin mörgu heimildarrit, sem höfundur hefur notað, benda eindregið til 14. aldarinnar. Flest af þessum ritum hef jeg talið áður. Í þessu sambandi skal jeg benda á, að sagan um það, að bein Grettis hafi verið grafin upp um daga Sturlunga og þótt geisistór, minnir sterklega á sams konar sögn um bein Egils í Egils sögu, 86. k. Ef Egils saga hefur hjer verið firirmind Grettis sögu, sem líklegt þikir, bætist Egils saga við þau heimildarrit, sem höfundur hefur þekt og notað. Til 14. aldarinnar benda þau áhrif, sem höfundur hefur orðið firir af riddarasögum, einkum í Spesarþættinum, enn þó einnig í meginsögunni, og þær mætur sem höfundur hefur á þjóðsögum um tröll og forinjur, sem minna sterklega á ímislegt í hinum ingri Fornaldarsögum. Til sama tíma bendir það, að höfundur talar oftar enn einu sinni um lögmansúrskurði eða lögsögumansúrskurði og kallar lögsögumanninn á þjóðveldistímanum oft lögmann. Lögmansúrskurðir tíðkuðust ekki fir enn landið komst undir konung. Í k. 83,8 talar sagan um að „hefja féránsdóm eftir Illuga“, sem hvorki hafði verið sóttur til sektar nje dæmdur sekur skógarmaður, og í k. 72, 4, getur sagan um „lögrjettu“ á Hegranesþingi. Hvortveggja ber vott um, að hann hefur verið ókunnugur lögum og þjóðfjelagsskipun þjóðveldisins. Ef vjer ættum að útiloka alt slíkt, sem ber vott um seinni tíma, úr hinni upphaflegu Grettis sögu, þá irði lítið eftir af sögunni. Þó að sagan sje samsett af ímsum þáttum, þá eru þó þessir þættir svo snildarlega tvinnaðir saman, að sagan verður ein óslitin heild frá upphafi til enda, og allir þættirnir virðast bera mark sama

höfundar, þar með líka talinn Spesarþáttur, þó að hann sje með nokkuð öðrum blæ, af því að höfundur hefur þar tekið sjer ekki hinar eldri Íslendingasögur, heldur riddarasögur til fírirmindar. Þeir kaflar, sem Boer heldur að sje síðar íaukið, eru steiptir í sama mót og sagan í heild sinni, og ef þeir eru feldir úr, slitnar söguheildin. Finnur Jónsson virðist líta líkt og jeg á þetta mál.

Af rannsókninni hjer að framan um heimildir sögunnar og meðferðina á þeim er ljóst, að Grettis saga hefur ekki mikið sannsögulegt gildi. Vjer höfum sjeð, hvernig höfundur irkir í skörð hinna mögru heimilda sinna og skreitir frásögnina með ímindunarafli sínu, bætir við persónum, sem hann skapar sjálfur með áliktunum út af ættartölum Landnámu, og bír jafnvel til heilar sögur um Önund tréfót, Gretti og Þorstein drómund, sem hann virðist ekki hafa haft neinn flugufót firir, hvorki í skriflegum nje munnlegum heimildum. Sagnfræðingar verða því að nota þessa sögu með sjerstakri varúð. Af því að hún lætur sonarsini skagfirskra landnámsmanna vera samtíða Gretti, þegar hann er í Drangei, hefur til dæmis Guðbrandur Vigfússon dregið þá áliktun, að Skagafjörður hafi bigst mjög seint. Ef ekki er annað á að biggja, er þessi áliktun mjög hæpin, því að jeg hef sínt, að sumir af afkomendum þessara landnámsmanna, sem sagan telur samtíða Gretti, muni vera tilbúnir af söguhöfundi.

Enn þó að vjer getum ekki gert mikið úr Grettis sögu sem sannsögulegri heimild, þá verður það ekki úr skafið, að hún er ein af þeim Íslendingasögum, sem samdar eru með mestri snild. Höfundur hennar hefur kunnað þá íþrótt að segja frá viðburðum svo átakanlega, að það er eins og vjer sjáum þá gerast firir augum vorum. Meðal þeirra kafla, sem best eru sagðir, skal jeg sjerstaklega taka fram söguna um brek Grettis í uppvextinum í 14.—16. k., um berserkjadrápið í Haramarsei í 19. k., um viðureign Grettis og Auðunar í 28. k., um fund þeirra Grettis og Lofts í 54. k., um ráðninguna, sem Grettir gefur Gísla Þorsteinssini (59. k.), um Gretti og stúlkurnar á Reikjum (75. k.) o. s. frv. Það sem einkennir þessar sögur, er

bæði það, að þær eru eins og teknar út úr lífinu, fullar af smáatvikum, sem höfundur skapar sjer með nokkurs konar ófreskisgáfu, enn þó einkum hin óviðjafnanlega gletni (humor), sem kemur fram í þeim. Þessi gletni lísir sjer í frásögninni um strákapör Grettis og með enn þá meiri snild í berserkjadrápssögunni, í smjaðri Grettis við berserkina, meðan hann er að triggja þá, í sambandi við hraustlega framgöngu hans gegn þeim síðar, í ólíkindalátum hans við húsfreiju Þorfinns og kvennfólkið, meðan hann lætst halda með berserkjunum, í orðstefinu „Gangið til sængr, konur, svá vill Þórir bóndi skipat hafa“ í sambandi við það, er hann síðan krefst vopna af húsfreiju til að vinna á berserkjunum, í ákúrum húsfreiju til hans, meðan hún heldur, að hann filgi berserkjunum, í sambandi við lof það og sæmdir, er hún eis ifir hann, þegar hann hefur ráðið niðurlögum berserkjanna, og í svari Grettis: „Ek þykkjumk nú mjök hinn sami ok í kveld, er þér töluðuð hrakliga til mín“. Gletni finst í sögunni um viðureign Grettis og Auðuns, þegar Auðunn kemur inn með skirkillinn og Grettir segist vilja berjast við hann og Auðunn svarar: „Sjá mun ek fyrst ráð firir mat mínum“, og dembir skirkillinum í fang Grettis. Full af gletni er og frásögnin um viðtal þeirra Lofts og Grettis og það atvik, að „Grettir leit eftir í lófana“, þegar Loftr hafði strokið taumana úr höndum hans. Í sögunni um Gísla lísir gletnin sjer í raupi Gísla og stórmælum, áður enn á hólminn er komið, og ragmennsku, þegar á reinir. Gletni kemur og fram í sögunni um griðkonuna og bóndadótturina á Reikjum, þegar þær koma að Gretti sofandi í stofunni og virða hann firir sjer nakinn, þó að sú saga sje nokkuð grófgerð. Enn höfundur hefur fleiri strengi á hörpu sinni enn gletnina. Hann kann að lísa hinum helgustu tilfinningum mannshjartans, t. d. móðurástinni í sögunni um hinsta skilnað Ásdísar við þá sonu hennar, Gretti og Illuga (69. k.), eða bróðurást og trigð Illuga, þegar hann „situr ifir Gretti nótt og dag, svo að hann gaf engu öðru gaum“ og vill ekki þiggja líf að Þorbirni öngli, þegar Grettir er drepinn. Enn einkum

tekst höfundi upp, þegar hann segir draugasögur. Í sögunni um viðureign Grettis og Gláms kemst sagnasnildin á sitt hæsta stig. Þegar vjer lesum hana, þá er eins og kalt vatn renni milli skins og hörunds, ekki síst þegar Glámr fellur öfugur út úr dirunum og hvessir augun á móti tunglinu, sem veður í skíjum („hratt stundum fyrir, enn stundum dró frá"). Draugalegri saga er ekki til í Íslendingasögum, og kemur það af því, að höfundur notar hjer af mestu snild náttúrulísing, tunglskinslísinguna, sem baktjald við Glámssöguna, enn slíkt kemur örsjaldan firir í Íslendingasögunum. Í Íslenskum þjóðsögum eru margar vel sagðar draugasögur, enn þó higg jeg, að enginn þeirra jafnist að snild við Glámssöguna í Grettlu. Enn eitt er það, sem jeg vil sjerstaklega benda á, og það er það, að snild höfundar lísir sjer ekki eingöngu í frágangi hans frá sögunni sjálfri, heldur einnig í því, hvernig hann notfærir sjer þessa sögu firir söguheildina. Hann gerir Glámssöguna að þungamiðju allrar sögunnar. Hann lætur Glám í forbænum sínum segja firir óorðna æfi Grettis í öllum verulegum atriðum og undirbír með því móti söguna, sem á eftir fer. Viðureignin við Glám er upphafið að ógæfu Grettis. Hjer eru straumhvörf í sögunni. Það sjest á orðum Gláms: „Þú hefir frægr orðit hér til af verkum þínum, enn heðan af mun falla til þín sektir ok vígaferli, enn flest öll verk þín snúast þér til ógæfu ok hamingjuleysis". Sigur Grettis á Glámi er hans besta og drengilegasta verk. Enn hann er díru verði keiptur, því að af honum stafar öll ógæfa Grettis. Og þetta er einmitt það, sem sjerstaklega gerir söguna „tragiska", gefur henni þann sorglega blæ, sem ifir henni hvílir. Glámsaugun standa Gretti æ síðan firir hugskotssjónum, enn þó einkum í einverunni, einveru skógarmansins á fjöllum uppi. Þau valda því, að Grettir þorir ekki einn út í Drangei, verður að fá Illuga, bróður sinn, til filgdar við sig, sviftir þannig móður sína, sem hann elskar, þeim eina sini, sem hún á eftir heima, og dregur Illuga í ógæfuna með sjer, og það er einmitt frásögnin um örlög Illuga, þessa veglinda unga mans, sem ekkert hefur til saka unnið, — það er frásögnin um

hann, sem gerir söguna um síðustu daga Grettis í Drangei svo hjartnæma og áhrifamikla. Það er hún, sem einkum vakir firir Jónasi Hallgrímssini, þegar hann kveður um Drangei:

> Illugi Bjargi frá
> dapur situr daga langa
> dauðvona bróður hjá.

Það eru tvær sögur, sem sjerstaklega lísa lífi seks skógarmans, Grettis saga og Gísla saga Súrssonar, báðar snildarlega samdar, hvor á sinn hátt. Hræðilegt var líf skógarmansins. Honum var að lögum útskúfað úr mannlegu fjelagi; hann var óalandi, óferjandi, óráðandi öll bjargráð. Hann var að lögum „vargur í vjeum“, úlfur, „svá víða rækr ok rekinn, sem menn víðast varga reka ... eldr upp brennr, jörð grær, mögr móður kallar, ok móðir mög fæðir, aldir elda kinda, skip skríðr, skildir blíkja, sól skínn, snæ leggr, Fiðr skríðr, fura vex, valr flýgr várlangan dag, himinn hverfr, heimr er bygðr, vindr þýtr, vötn til sævar falla, karlar korni sá“.[1]) Þessi hlið á lífi skógarmansins kemur sterklega fram í báðum sögunum. Enn þar kemur líka fram önnur bjartari hlið. Sannleikurinn var sá, að þótt ströng lög í orði kveðnu slitu sundur þau bönd, sem bundu skógarmanninn við mannfélagið, þá gátu þau ekki slitið þau bönd, sem náttúran sjálf hafði bundið, trigða og ástar böndin, sem tengdu skógarmanninn við ætt hans eða eiginkonu. Þessi bönd eru öllum lögum ríkari. Því stendur Auðr kona Gísla við hlið hans, trú til dauðans, í Gísla sögu. Og í Grettis sögu sleppir móðir Grettis Ásdís aldrei hendi af honum, og Illugi, bróðir hans, filgir honum í dauðann. Það er afstaða þessara nánustu ástvina við skógarmanninn, sem gerir báðar sögurnar svo áhrifamiklar, svo sann-„tragiskar“. Jeg man eftir því, þegar jeg las first Grettis sögu, þá barn að aldri, fráleitt eldri enn 7 ára, þá grjet jeg fögrum tárum ifir sögunni um dauða Grettis, enn hitt man jeg nú ekki, hvort það var dauði Grettis sjálfs eða dauði Illuga, sem kom út á mjer tárunum, getur verið, að það hafi verið dauði beggja,

1) Trygðamál, Grág. Kb. I 206.

enda líklegt, að jeg hafi þá ekki getað gert mjer glöggva grein firir tilfinningum mínum. Enn nú, þegar jeg les söguna, sem roskinn maður, blandast mjer ekki hugur um, að það eru einmitt forlög Illuga, sem gera söguna svo hugnæma og áhrifamikla.

Samtöl sögunnar eru gerð af mikilli snild, vel sniðin eftir atvikum og eftir lunderni þeirra, sem tala, eðlileg og smellin, og sjerstaklega kridduð með kjarnirtum spakmælum, sem höfundur hefur altaf á hraðbergi og beitir með mikilli findni. Þessi fjöldi af spakmælum er sjerstaklega einkennilegur firir Grettis sögu. Lík stefna kemur fram um líkt leiti í Sólarljóðum og Hugsvinnsmálum.

Mannlísingar sögunnar eru einkennilegar og sjálfum sjer samkvæmar. Hjer ber auðvitað einkum á Gretti. Hann er í instu rót sinni göfugmenni og fullur af góðmannlegri gletni, og það eru þessir eiginleikar, sem afla honum samúðar hjá lesendum sögunnar, og einna ljósast koma þeir fram í sögunni um berserkjadrápið. Undir híðinu, sem hörð karlmanslund hefur slegið um hjarta hans, ber einstöku sinnum á næmum tilfinningum, sem brjótast ósjálfrátt gegnum híðið, t. d. í skilnaðarorðum hans við móður sína í 69. k. „Grát þú eigi, móðir; þat skal sagt, at þú hafir sonu átt, enn eigi dætr, ef vér erum með vápnum sóttir, ok lif heil ok vel.“ Hann er seinn til reiði eins og flestir sterkir menn (sagan um áleitni Bjarnar við hann hjá Þorkatli í Sálfti, þegar Grettir drap björninn), enn reiðist illa, ef hann reiðist, og ef honum finst gengið á hlut sinn eða sæmd sína, fillist hann óslökkvandi heiftar og hefnigirni og svífist þá einskis. Hann er hjálpfús við bágstadda (berserkjadrápið, Glámssagan, sagan um tröllin í Bárðardal). Hins vegar neiðir skóggangurinn hann oft til að sína vegfarendum ifirgang og ójafnað. Kjarkurinn og hugurinn er óbilandi, nema þegar dimma tekur, þá sækja Glámsaugun á hann. Líkamlegt atgervi hefur hann á hæsta stigi, enn þrátt firir það eltir ógæfan hann. Hann er lifandi dæmi þess, að „sitt er hvárt, gæfa eða görvigleikr“, eins og Jökull, móðurbróðir hans, segir við hann (k. 34, 6). Í gegnum alla lísinguna á Gretti og ifir höfuð í

gegnum alla söguna gengur forlagatrúin eins og rauður þráður.

Á öðrum persónum ber minna, eins og eðlilegt er, því að flestar þeirra koma að eins við lítinn kafla sögunnar. Ásdís, móðir Grettis, stendur jafnfætis Bergþóru og öðrum kvennskörungum, sem best er líst í Íslendingasögum. Ást hennar til Grettis kólnar aldrei, hvað sem á dinur firir honum, og filgir honum jafnvel út ifir dauðann. Hugljúf er lísingin á göfuglindi og trigð Illuga. Þrællinn Glaumr er og minnisstæður hverjum, sem les söguna um vist þeirra bræðra í Drangei, ekki síst af því, að vesalmenska hans stingur í stúf við göfuglindi Illuga. Ógleimanlegur er Gísli Þorsteinsson, rauparinn og ragmennið, sem minnir á Miles gloriosus hjá Plautusi eða Jakob v. Thyboe hjá Holberg. Einkennileg er lísingin á galdranorninni Þuríði, fóstru Þorbjarnar önguls. Ljettúð þeirra Spesar og Þorsteins drómundar er og ágætlega líst, og þar sem höfundur lætur ljettúð þeirra snúast upp í guðhræðslu á gamals aldri og lætur þau iðrast æskusindanna í helgum steini, þá ber þetta vott um djúpa þekking á mannlegu hjarta. Griðkan á Reikjum og bóndadóttirin eru að eins dregnar lausum dráttum, enn hvílík snild kemur þar ekki fram á þeim tveim mótsettu lundareinkennum! Griðkan munnvíg og óskammfeilin, bóndadóttirin feimin og stilt, enn þó forvitin.

Á orðfærið hef jeg áður minst. Það lagar sig alstaðar ágætlega eftir efninu. Alt, sem gerist á Íslandi, er sagt í ljómandi sögustíl. Aftur ber Spesarþátturinn nokkurn blæ af riddarasögunum, og klerkakeimur er að frásögninni um guðræknisiðkanir þeirra Spesar og Þorsteins, svo mikill klerkakeimur, að af því virðist mega ráða, að höfundur hafi verið klerklega mentaður maður, eins og jeg hef áður tekið fram.

Annars gefur sagan, eins og vant er, svo að segja engar bendingar um höfundinn. Áður hef jeg sínt, að höfundur hefur ekki þekt neinar austfirskar sagnir um Gretti og verið ókunnugur í Þingeijarþingi. Þetta er sönnun firir því, að hann hefur hvorki verið Þingeiingur nje

Austfirðingur. Aftur á móti þekkir hann hverja þúfu í vestanverðu Húnaþingi, í Miðfirði og Hrútafirði, og langlíkast virðist, að hann hafi verið borinn og barnfæddur um þær slóðir, sem eru meginstöðvar sögunnar. Þó ber þess að geta, að hann talar líka af talsverðum kunnugleik um Mírar og Skagafjörð. Með þessum ófullkomnu skilríkjum er auðvitað ekki til neins að giska á, hver höfundurinn hafi verið. Að eins skal jeg taka það fram, að í það mund, sem sagan er skrifuð, á öndverðri 14. öld, bír Gizurr galli Bjarnarson í vestanverðu Húnavatnsþingi, mikill höfðingi, hirðmaður Hákonar háleggs Noregskonungs. Sú ætt virðist hafa haft miklar mætur á sögum, því að frá sonarsini hans Jóni Hákonarsini stafar Flateijarbók og söguhandritið Vatnshirna.[1]) Merkilegt er, að Gizurr var tekinn höndum í Svíþjóð og settur í díflissu þar og síðan leistur út líkt og segir um Þorstein drómund í Spesarþætti. Með þessu vil jeg ekki segja, að líkur sjeu til, að Gizurr galli sje höfundur Grettis sögu, enn hitt er ekki ólíklegt, að sagan sje skrifuð undir handarjaðri hans. Enn hver sem hefur skrifað Grettis sögu, þá er það víst, að hana má telja með þeim Íslendingasögum, sem samdar eru af mestri snild.

---

1) Í Þórðar sögu hreðu í Vatnshirnu er rakin ætt þeirra langfeðga, og segir þar, að Gizurr væri Bjarnarson, enn móðir Bjarnar Herdís, sistir „herra Hrafns" Oddssonar Álasonar. Herdís þessi var gift Svarthöfða Dufgussini (Sturl.), og má því ætla, að Björn, faðir Gizurar galla, hafi verið son Svarthöfða, heitinn eftir öðrum hvorum bræðra hans Birni kægil eða Birni drumb. Í ritgerð minni um Sturlungu hef jeg sint, að Svarthöfði muni vera riðinn við samning Þórðar sögu kakala. Frá honum virðist sagnafróðleikur kominn inn í Víðidalstunguættina, enn hann hafði sagnafróðleik sinn úr Sturlungaætt, því að amma hans Þuríðr var hálfsistir Snorra Sturlusonar.

## Finnboga saga ramma.

Hún hefur geimst aðallega í 2 handritum: í Möðruvallabók, hinu fræga skinnhandriti nr. 132 fol. í Árnasafni, sem jeg hef oft minst á, skrifuðu um eða firir miðja 14. öld, og í AM nr. 510, 4to, skinnbók frá 15. öld. Guðmundur Þorláksson taldi þessa bók ritaða með sömu hendi og AM 431, 12mo, enn í því handriti nafngreinir ritarinn sig og segist heita „Jón strákur Arason“, sem að öllum líkindum er biskupinn frægi, sem síðar varð. Um það eru nú allir á einu máli, að Jón biskup hafi skrifað þetta síðarnefnda handrit (431, 12mo) í uppvexti sínum, líklega um 1500, þegar hann var að námi á Munkaþverá hjá Einari ábóta Benediktssini,[1]) og handritið sker úr þeirri þrætu, sem verið hefur um það, hvort Jón biskup hafi kunnað latínu, því að á því eru, auk Margrétar sögu, bænir til lausnar jóðsjúkri konu bæði á latínu og íslensku. Enn hitt virðist ekki vera rjett, sem Guðbrandur Vigfússon hjelt, að söguhandritið 510, 4to, sem meðal annars inniheldur Finnboga sögu, sje með sömu hendi. Kr. Kålund kemst að alt annari niðurstöðu í skrá sinni ifir Árnasafn. Þar segir, að 510 4to, sje mestalt með sömu hendi og rímnaskinnbókin fræga í Árnasafni nr. 604, 4to, enn það handrit er skrifað af manni, sem hjet *Tómas*, eftir því sem ritarinn sjálfur segir. Má því kalla 510, 4to, „Tómasarbók“.

Auk þessara tveggja höfuðhandrita af Finnboga sögu, Möðruvallabókar og Tómasarbókar, er til eitt blað á skinni í AM 162 B fol. Textinn þar er ifirleitt stittri enn í Möðruvallabók og Tómasarbók, enn af því að ekki er

1) Sbr. Jón Þorkelsson: Om Digtningen på Island, 323.—326. bls.

til nema þetta eina blað, er ervitt að segja, hvort þessi stittri texti er upphaflegri enn texti hinna skinnbókanna eða útdráttur úr lengri textanum.

Þá eru til mörg handrit frá 17. öld, sem öll eiga kin sitt að rekja til annarshvors eða beggja meginhandrita og virðast því vera þíðingarlaus. Þar á meðal er eitt skinnhandrit frá 17. öld, skrifað á dögum Þorláks biskups Skúlasonar, hitt alt pappírshandrit.

Munurinn á Möðruvallabók og Tómasarbók er tiltölulega lítill.

— — —

Finnboga saga er ein af þeim sögum, sem allir eru sammála um að sje skáldsaga, jafnvel þeir, sem halda fastast fram sannsögulegu gildi Íslendinga sagna. Samt er enginn efi á því, að Finnbogi rammi hefur verið til. Landnáma rekur ætt hans, og Vatnsdæla hefur langt skeið um viðureign hans og Ingimundarsona. Ljósvetninga saga nefnir Þóri son Finnboga ramma, og Haukr Valdísarson telur hann meðal íslenskra kappa og irkir um hann eina vísu í Íslendingadrápu sinni (14. erindi). Enn sagan er fjarskalega íkt. Það mætti kalla hana nokkurs konar reifararóman. Hún lætur t. d. Finnboga snúa höfuð af þrevetrum graðungi, líkt og Þórr gerir við uxa Hymis í Hymiskviðu. Hún lætur hann ráðast að grimmum viðbirni og mana hann á móti sjer, enn björninn þorir ekki að fást við hann, fir en hann kastar frá sjer sverði sínu, til þess að báðir standi jafnt að vígi, þá rís björninn á afturfæturna og ræðst á Finnboga, enn Finnbogi hleipur undir hann, nær á honum hriggspennutökum, brítur sundur í honum hrigginn og gengur af honum dauðum! Og síðan lætur sagan Finnboga þreita sund við hvítabjörn Hákonar jarls og drepa björninn á sundinu! Það er auðsjeð, að þessar sögur eru ekki annað enn skáldskapur höfundar. Í samanburði við þetta eru glímurnar, sem hann þreitir, first við heljarmennið Álf aftrkembu og síðan við blámenn Hákonar jarls, ekki annað en barnaleikur, enn þær sögur miða þó að hinu sama, sem sje að því að víðfrægja afl og hreisti Finnboga fram úr öllu

hófi, og auk þess eru þessar tvær glímusögur hvor annari svo nauðalíkar, báðar steiptar svo algerlega í sama mót, að þær bera það með sjer, að þær eru ekki annað enn tilbúningur höfundar. Jeg nenni ekki að taka fleiri dæmi um íkjur höfundar. Enn auk þess er tímatal sögunnar hræmuglega vitlaust. Hún lætur t. d. sini Ingimundar Vatnsdælagoða, sem barðist í Hafursfirði, lifa fram ifir kristnitökuna árið 1000 og eiga í illdeilum eftir þann tíma við Finnboga ramma, og fleira slíkt mætti til tína. Það er auðsjeð, að höfundur hefur ekki verið sagnfróður maður, að minsta kosti hefur hann ekki haft neina minstu hugmind um íslenskt tímatal, eins og það var skapað og árbundið af Ara fróða.

Í nánu sambandi við þetta stendur spurningin um afstöðu Finnboga sögu við aðrar sögur, og hverf jeg nú að henni. First skulum við bera söguna saman við Landnámu. Þar er það athugavert, að í Landnámuhandritum vorum eru ímsir útdrættir úr Vatnsdælu, og snerta sumir þeirra að nokkru leiti efnið í Finnboga sögu. Þessa útdrætti verður að útiloka úr Landnámu, áður enn vjer berum Finnboga sögu saman við hana. Þegar það er gert, sjáum vjer, að Finnboga saga kemur í örfáum atriðum heim við Landnámu. Þó nefnir Landnáma Finnboga ramma og segir, að hann hafi verið sonur Ásbjarnar dettiáss alveg eins og Finnboga saga. Líka nefnir Landnáma Finna hinn draumspaka og segir, að hann hafi verið launsonur Þorgeirs Ljósvetningagoða og Leknýjar, útlendrar konu. Þetta kemur heim við Finnboga sögu að öðru leiti enn því, að Finnboga saga nefnir manninn Drauma-Finna og segir það nánara, að móðir hans *Leik*ný hafi verið finskrar ættar, sem gæti verið áliktun, dregin af nafni Finna. Hitt er þó fleira, sem sögunum ber á milli. Finnboga saga segir, að Ásbjörn dettiáss, faðir Finnboga, hafi verið Gunnbjarnarson Ingjaldssonar (svo Möðruvallabók; Gunnbjarnarson önguls Ögmundarsonar[1]) Tómasarbók), enn eftir Landnámu er hann Ey-

1) Sbr. útg. Gerings, form. XX. og XXXIV. bls. Í sjálfri útg. er Ögmundarsonar slept í orðamuninum á bls. 3, aths. við 2. línu.

vindarson Loðins sonar önguls. Eftir Finnboga sögu er Ásbjörn dettiáss landnámsmaður í Flateijardal, enn Landnáma segir, að það hafi verið Eyvindr faðir Ásbjarnar, sem „nam Flateyjardal upp til Gunnsteina ok blótaði þá“. Eftir Finnboga sögu er Þorgerðr, kona Ásbjarnar, sistir Þorgeirs Ljósvetningagoða. Þeirrar Þorgerðar er hvergi getið í Landnámu nje í neinum öðrum ritum enn Finnboga sögu, og virðist höfundur hafa búið þetta til í því skini, að sína ættgöfgi sögukappans. Landnáma telur ekki nema einn son Finnboga, Narfa að nafni, enn Finnboga saga telur 9, 2 með Ragnhildi og 7 með Hallfríði, og enginn þeirra heitir Narfi. Missagnirnar við Landnámu sína, að höfundur Finnboga sögu muni ekki hafa þekt Landnámu. Þau fáu atriði í Finnboga sögu, sem koma heim við Landnámu, virðist höfundur hafa tekið eftir munnmælasögum, óháðum Landnámu. Að ímsar munnmælasögur hafi gengið um Drauma-Finna norður í Þingeijarþingi, sjest á Ljósvetninga sögu, sem nefnir hann Drauma-Finna eins og Finnboga saga. Líka nefnir Ljósvetninga saga Þóri Finnbogason. Þó virðist Finnboga saga ekki hafa þekt Ljósvetninga sögu. Hún getur að vísu lauslega um bardagann milli Eyjólfs og andstæðinga hans í Þingeijarþingi, sem Ljósvetninga saga segir greinilega frá, enn hún kallar orustustaðinn Melrakkahól, enn Ljósvetninga saga Kakalahól, og sínir sú missögn, að sögurnar muni vera óháðar hvor annari. Þetta kemur heim við það, að Finnboga saga segist hafa „heyrt“, að Þórir Finnbogason hafi verið með Eyjólfi halta í þessum bardaga. Þetta ber saman við Ljósvetninga sögu að því leiti, að Ljósvetninga saga telur Þóri heimamann Eyjólfs um þetta leiti og lætur hann filgja honum norður, enn ekki getur Ljósvetninga saga Þóris við Kakalahólsbardaga að öðru leiti enn því, að hann ásamt Þorsteini bjargar Eyjólfi halta, þegar hestur hans fer á kaf í Fnjóská[1]).

Aftur á móti virðist enginn efi vera á, að höfundur hefur þekt og notað Vatnsdælu. Jeg hef drepið á það laus-

1) Ljósv., k. 24[29].

lega í þættinum um Vatnsdælu og komst að þeirri niðurstöðu, að höfundur Finnboga sögu hafi haft firir sjer Vatnsdæla sögu, og missagnir þær, sem eru, sjeu að minsta kosti sumar hverjar sprottnar af því, að höfundur Finnboga sögu hafi af ásettu ráði vikið frá sögu Vatnsdælu, þar sem honum þótti hún bera Ingimundarsonum of vel eða Finnboga og fjelaga hans Bergi rakka of illa söguna, og breitt frásögninni sínum söguköppum í vil.

Önnur saga, sem nokkrar líkur eru til, að höfundur Finnboga sögu hafi þekt, er Gunnlaugs saga ormstungu. Báðar sögurnar segja frá því, að maður hafi lagt það firir konu sína að láta bera út barn, sem hún gekk með, og atvikin að þessu eru mjög lík. Í báðum sögunum er maðurinn að fara á stað heiman til þings, þegar hann gerir þessa skipun, og samtalið milli hjónanna, sem hjer að lítur, er grunsamlega líkt:

Gunnlaugs s., 3. k. (Mogk):
Um sumarit bjóst Þorsteinn til þings ok mælti til Jófríðar húsfreyju, áðr hann fór heiman: „Svá er háttat," segir hann, „at þú ert með barni, ok skal þat barn út bera, ef þú fæðir meybarn, enn upp fæða, ef sveinn er." ... þá svarar Jófríðr: „Þetta er óþinsliga mælt," segir hon, „slíkr maðr sem þú ert, ok mun þér eigi sýnast þetta at láta gera, svá auðigr maðr sem þú ert." Þorsteinn svarar: „Veizt þú skaplyndi mitt," segir hann, „at eigi man hlýðisamt verða, ef af er brugðit." ... Enn Jófríðr fæddi meybarn ákafa fagrt.

Finnboga saga, 2. k.:
Ok eitthvert sinn reið Ásbjörn til þings með menn sína. Þá mælti hann til Þorgerðar: „Nú ætla ek til þings at ríða eftir vanda, enn ek veit, at þú ert með barni ok mjök framat. Nú hvárt sem þat er (sveinn eðr mær b. v. B), þá skal eigi upp ala, heldr skal bera út þetta barn." Hon sagði, at hann mundi þat eigi gera, „svá vitr ok ríkr sem þú ert, því at þetta væri hit óheyriligasta bragð, þó at fátækr maðr gerði, — enn nú allra helzt, er yðr skortir ekki góz." Ásbjörn segir: „... ef þú gerir eigi eftir því sem ek segi, muntu missmíði á sjá." ... Litlu síðar fæðir Þorgerðr sveinbarn. Þat var mikit ok þrifligt og fagrt mjök. ...

Öll frásögnin er hjer svo keimlík, sum orð svo að segja alveg eins, að líklegt er, að önnur sagan hafi haft hina firir sjer. Nú getur enginn efi verið á, að Gunnlaugs saga er eldri enn Finnboga saga. Auk þess er frásögnin miklu betur rökstudd í Gunnlaugs sögu með draumi Þor-

steins um þá ógæfu, sem ifir barninu vofi, heldur enn í Finnboga sögu, þar sem Ásbjörn skipar konu sinni þetta í reiði ifir því, að hún hefur áður ráðstafað dóttur þeirra að honum fornspurðum. Það virðist því ljóst, að höfundur Finnboga sögu hefur tekið þetta atvik (motiv) eftir Gunnlaugs sögu og vikið aðeins orðalaginu dálitið við samkvæmt því, sem á stóð hjá honum, og lagað frásögnina eftir kröfum Finnboga sögu. — Annað atriði er það, sem virðist benda til þess, að höfundur hafi þekt Gunnlaugs sögu. Það er þar sem Finnbogi hittir first Álf aftrkembu í 12. kap. Þar spir Álfr Finnboga að aldri, og segist hann vera 17 vetra. Álfr svarar: „Vertu eigi annarra 17 vetra jafnmikill ok sterkr sem þú ert.“ Finnbogi segir: „Þat er sem verðr, enda muntu dauðr áðr.“ Þetta virðist vera sniðið eftir sögn Gunnlaugs sögu um firstu fundi Gunnlaugs og Eiríks jarls í 8. k. (Mogk). Jarlinn spir Gunnlaug, hve gamall hann sje. Gunnlaugr segist vera 18 vetra. „Þat læt ek um mælt,“ segir jarl, „at þú verðir eigi annarra átján“. Gunnlaugr segir, að jarlinn ætti heldur að biðja fyrir sjálfum sjer, að hann fái ekki slíkan dauðdaga sem Hákon jarl, faðir hans. — Finnboga saga segir líka mjög líkt og Gunnlaugs saga frá kristnitökunni. Sbr. Finnboga saga, 36. k.: „Svá er sagt, þá er kristni var boðuð á Íslandi — sá fagnaðr, er öllum hefir mestr orðit —, at“ o. s. frv. við Gunnlaugs sögu, 7. k. (Mogk): „Ok þessu næst urðu þau tíðindi, er bezt hafa orðit hér á Íslandi, at landit alt varð kristit.“

Sumt í sögunni minnir nokkuð á Grettis sögu, t. d. minna aflraunir Finnboga við að hefja steina í 36. k. á Grettistökin, og sagan um viðureign hans við björninn í 11. k. er nokkuð svipuð sögunni um það, er Grettir vann björninn, að því undanteknu, að Finnboga saga íkir sína sögu fram úr öllu hófi. Þó er þetta ekki nógu svipað til þess, að af því megi ráða með fullri vissu, að ein sagan sje annari háð.

Nokkrar líkur eru og til, að höfundur hafi þekt Hallfreðar sögu. Í 13. kap. segir sagan frá því, að þeir Álfr aftrkemba og Finnbogi tóku sjer náttból í helli

nokkrum og skiftu verkum með sjer, þannig að Álfr skal sækja vatn, enn Finnbogi kveikja eld. Meðan Finnbogi er að blása að eldinum, veitir Álfr honum tilræði, enn það mistekst; lendir þeim þá saman, og likur með því, að Finnbogi drepur Álf. Mjög lík er sagan um Hallfreð og Önund stigamann í Hallfreðar sögu.[1])

Í Kjalnesinga sögu og Gunnars sögu Keldugnúpsfífls koma firir sögur um viðureign sögukappanna við blámenn, sem eru mjög svipaðar sögunni um glímu Finnboga við blámanninn í Finnboga sögu, 16. k. Báðar þessar sögur eru að öllum líkindum ingri enn Finnboga saga, og ef hjer er nokkuð samband á milli sagnanna, þá er Finnboga saga hjer víst fremur veitandi en þiggjandi.

Af því að Finnboga saga hefir haft firir sjer Gunnlaugs sögu, enn sú saga er naumast eldri enn frá ofanverðri 13. öld, leiðir, að Finnboga saga getur varla verið eldri enn frá firstu árum 14. aldar. Til hins sama bendir það, að sagan hefur bersínilega orðið firir áhrifum af riddarasögum. Þetta kemur ekki oft, enn þó stundum fram í orðfæri sögunnar, t. d. þar sem segir, að Finnbogi hafi farið sæmdarför til Hákonar jarls *„ok fengit hina ágæztu hans frændkonu“* (29. k., Gering bls. 53[15]), eða þegar sagt er um Þorkel Sigurðsson: *„ok þótti hann þá brátt alþýðligri fyrir sakir siðferðis“* (k. 30, bls. 54[10]). *Silkitjaldið,* sem Finnbogi stírimaður liggur undir úti á skipi sínu, þegar Urðarköttr bjargar honum, stafar og frá riddarasögum. Norðmenn höfðu aldrei silkitjöld á skipum sínum. Sbr. lísing tjaldanna í Clari sögu,[2]) og Konráðs sögu keisarasonar (2. k.), þar segir, að Konráðr hafi haft „silki at seglum“, er hann sigldi til Miklagarðs.[3]) Þó er þess getið í Noregskonungasögum um konunga, t. d. Sigurð Jórsalafara, að segl þeirra hafi verið pelli sett.[4]) Eflaust er það líka skáldskapur höfundarins og tekið eftir riddarasögum, er hann lætur

1) Hallfrs., 7. k., Forns., 100.—101. bls. — 2) Útg. Cederschiölds í Saga-Bibliothek, 9.—11. kap. — 3) Konr., 2. k., Fs. Suðurl. 48 a[11]. — 4) Fms. VII., 94. k.

Hákon jarl senda Finnboga út til Miklagarðs, því að þangað láta riddarasögur hetjur sínar sækja frægð, t. d. Konráðs saga og Bærings saga. Lísingin á Finnboga í 36. k. (70.—71. bls.) ber og keim af riddarasögum.

Íkjur þær, sem í sögunni eru, bera og vott um 14. aldar smekk, og sömuleiðis níleg orð, t. d. *lukka* (Gering bls. $28^{19}$ — vantar þó í Tómasarbók); *formentr* (bls. $51^{12}$); *byxingar* = „barsmiðar“ bls. $82^{23}$, (sbr. miðlágþ. *bokan*, slá, ísl. *bukka* — „hver bukkar mín hús“1) — enska *box).* Annars er orðfærið víða einkennilegt og einhver bóndalegur alþíðukeimur að því, sbr. t. d. orðin *fiskifýlur* = slordónar $89^{2}$ og *fjörudýr*, sama. Sjaldgæf orð: *krækill* (= krókstafur) $7^{12}$ og $10^{13}$,2) *kofarn í skapi* = vargur (*kofarn* eiginlega lítill hundur, kemur fírir *kofan*, *kofanrakki* í norskum lögum); *ferelningur*, 4 álna langur fiskur (lúða?) $8^{15}$; *hornabrækla*, brák úr horni, $52^{6}$; *dragloka*, seinlátur maður (eiginlega loka, sem er dregin fírir hurð?) $56^{16}$; ekki var *„áreitingr* (engin tiltök vóru) *at fleira mætti fara*“ $62^{11}$.

Ímislegt kemur það og fírir í sögunni, sem bendir til, að hún sje skrifuð nokkru eftir lok þjóðveldistímans. Grunsamlegt í því efni er það, sem segir í 1. k. um Ásbjörn dettiás, föður Finnboga, að hann hafi stokkið út hingað úr Noregi „fyrir valdsmönnum“ — svo vóru umboðsmenn konungs, sem síðar nefndust síslumenn, kallaðir hjer lengi eftir að land komst undir konung. Líka segir sagan í 1. k., að Ásbjörn „landnámsmaðr“ hafi haft goðorð „um Flateyjardal ok upp til móts við Þorgeir mág sinn“. Þetta sínir, að höfundur hefur ekki vitað, að goðorð voru til forna ekki bundin við fast ákveðin takmörk. Á 2 stöðum getur sagan þess, að stírimaður (= skipstjóri, kapteinn) hafi tekið arf eftir há-

---

1) Svo segir Kiðhús í sögunni um snúð kerlingar, Ísl. þjóðs. II, 508. — 2) Með þessum krækli krækir Urðarköttr fætur uudan griðkonum ($7^{20}$). Til var leikur, sem hjet krækilblinda eða blindkrækla (Máriu s., 1056. hls., Ísl. gátur, skemtanir & e. II. 101.—3.), líkur skollaleik. Vera má, að skollinn hafi í þeim leik haft staf til að krækja fætur undan þeim, sem hann átti að ná, eða til að krækja í þá.

seta sína (í 8. k. um Finnboga eldri, í 10. k. um Finnboga ramma), og á síðari staðnum bætir sagan við: „sem þá váru lög til þann tíma.“ Með þessum orðum virðist vera gefið í skin, að hin mikla lagabreiting, sem komst á hjer, þegar norsk lög komu í stað Grágásar, hafi firir nokkru verið um garð gengin. Enn annars ber þessi staðhæfing vott um, að höfundurinn hefur verið mjög ófróður bæði um lög hjer á landi á þjóðveldistímanum og um forn norsk lög. Eftir Grágás varð þetta svo, að ef maður andaðist á skipi og *átti engan frænda hjer á landi,* þá átti fjelagi hans að taka arf eftir hann, ef fjelagi var ekki til, þá mötunautur hans, og ef enginn var mötunautur, þá skildi stírimaður taka arfinn.[1]) Og eftir norskum lögum giltu líkar reglur, þó svo, að þar er ekki talað um, að mötunautar erfi, og þar átti konungur hálfan arf, ef hann var meiri enn 6 aurar eftir Frostaþingslögum, enn 3 merkur eftir Gulaþingslögum.[2]) Eftir Jónsbók (Erfðatal 17. (23.) k.) skildi fjelagi, eða ef hann var ekki til, þá stírimaður, taka arf slíkra manna til varðveislu og burtflutnings, enn eignaðist hann ekki, því að ef enginn erfingi kallaði til innan 10 ára, þá fjell arfurinn í konungs garð. Af meðferð höfundar á þessu atriði má ráða, að hann hafi lifað nokkrum tíma eftir að landið komst undir konung.

Hins vegar getur Finnboga saga ekki verið ingri enn elsta handrit sögunnar, Möðruvallabók, sem er ritað um miðbik 14. aldar. Og af því að Möðruvallabók getur með engu móti verið frumrit sögunnar, þar sem hún ekki óvíða hefur lakari texta enn Tómasarbók, má ráða, að frumsagan sje þó nokkru eldri enn frá miðri 14. öld. Að öllum líkindum er því sagan til orðin á árunum 1300—1325.

Sagan er fremur liðlega samin og ekki óskemmtileg aflestrar. Að vísu sjest þó, að höfundur er ekki sjerlega leikinn í sagnaíþróttinni. Honum hættir t. d. alt-

---

1) Grágás, Kb. I. 228. bls., Sthb. 73. bls. — 2) NgL. I 50 o. áfr. og 209 o. áfr.

of mikið til að endurtaka sömu atvik upp aftur og aftur. Glíma Finnboga við Álf aftrkembu í 13. k. er t. d. svo að segja alveg eins og glíma hans við blámanninn í 16. k., eins og jeg áður hef drepið á. Þegar Finnbogi drepur björninn á sundi, veitir hann honum áverka með *tigilkníf*, sem hann hafði á hálsi sjer og móðir hans hafði gefið honum (17. k.). Með sama tigilkníf banar Finnbogi síðar Þorbirni sleggju flugumanni (40. k.). Þegar Gunnbjörn son Finnboga hefur felt Rauð víking í glímu, sker hann af honum höfuðið með *tigilkníf*, sem hann hafði á hálsi sjer og fóstra hans hafði gefið honum (35. k.). Sögurnar af flugumönnunum, sem Jökull sendir til höfuðs Finnboga, eru líka svo að segja alveg eins (39. og 40. k.). Þegar Finnbogi hefur drepið björninn í hriggspennu, spir Bárðr bóndi hann, hvernig hann hafi farið að því. Finnbogi svarar: „Þat skiftir þik engu; eigi muntu svá vinna né þinn sonr.“ Síðar spir Álfr aftrkemba hann sömu spurningar og fær sama svar. Og loks spir Hákon jarl hann að hinu sama, og er enn svarið hið sama.[1]) Mannlísingar eru ekki sjerlega einkennilegar og bera ekki vott um mikla mannþekking, t. d. þar sem höfundur lætur Hákon jarl lísa sjálfum sjer á þessa leið: „Þykki ek vera harðráðr ok hölzti svikall“ (38. bls.). Uppistaða sögunnar er ein óslitin heild frá upphafi til enda. Í upphafi er nokkurs konar persónuskrá líkt og í flestum Íslendingasögum, og eru þar taldir hinir helstu menn, sem koma við hinn firsta þátt sögunnar, er segir frá uppvexti Finnboga (Urðarkattar), þangað til hann fer utan. Meðal annara eru þar taldir þeir Brettingr og sinir hans, enn ekki dóttir Brettings og maður hennar Uxi, sem koma bæði við söguna síðar, og koma þá eins og „skollinn úr sauðarleggnum“. Af því að Finnbogi drepur Uxa og Uxi er mágur Brettingssona, leiðir það, að þeir verða riðnir við eftirmálið eftir Uxa og gera Finnboga firirsát. Þessa frásögn mundi snjall sögumaður hafa undirbúið með því að

1) Finnbs. 11., 12. og 15. k. Gering 26. 27. og 33. bls.

geta dóttur Brettings og Uxa þegar í upphafi í persónuskránni. Ekki er það heldur skírt í sögunni, hvernig á því stendur, að Ingasinir taka þátt í firirsátinni firir Finnboga með Brettingssonum. Áður eru þeir að eins lauslega kintir í persónuskránni, og hvergi er gefið í skin, að þeir væri neitt riðnir við eftirmálið eftir Uxa, fir enn í firirsátinni. Þessi atriði og ímisleg fleiri, sem jeg hirði ekki að telja, eru smágallar á samsetningu sögunnar.

Höfundur er auðsjáanlega gagnkunnugur á þeim stöðvum hjerlendis, þar sem sagan gerist, enn þær eru þrennar: í vestanverðu Þingeijarþingi, sjerstaklega í Flateijardal og þar í grend — þar gerist firsti kafli sögunnar — í Húnavatnsþingi, sjerstaklega í Víðidal og þar í grend — þar gerist miðkaflinn — og á Ströndum, sjerstaklega í Trjekillisvíkinni, þar gerist síðasti kaflinn. Þess ber að geta, að á milli Stranda og Víðidals er ekki langt. Er því ekki furða, að höfundur væri kunnugur á báðum þessum stöðum, einkum þar sem ímislegt bendir til, að milli Stranda og vesturhluta Húnavatnsþings hafi til forna verið mjög tíðar samgöngur (sbr. Bandamanna sögu, Þorgils sögu og Hafliða o. fl.). Aftur er Flateijardalur mjög afskekt hjerað, og hlítur að standa alveg sjerstaklega á því, að höfundur er svo kunnugur þar. Að hann hafi ekki búið þar að staðaldri, virðist mega ráða af því, að hann hefur ekki þekt Ljósvetninga sögu. Kunnugleikinn virðist líka vera enn þá meiri í vesturhjeröðunum, einkum kringum Borg, og allar líkur virðast benda til, að höfundur hafi átt heima þar í grendinni í Víðidalnum. Af þeim 4 sögum, sem líkur eru til, að höfundur hafi þekt, eru þrjár eflaust samdar í Húnavatnsþingi: Vatnsdæla, Grettis saga og Hallfreðar saga. Áður hef jeg bent á, að höfundur virðist hafa vikið við frásögn Vatnsdælu, sínum sögukappa í vil, þar sem honum þótti hallað á Finnboga í frásögn Vatnsdælu um deilur hans við Vatnsdæli. Bæði mjer og vini mínum Pálma adjunkt Pálssini hefur dottið í hug, að hjer komi fram nokkurs konar sveitarígur gagnvart Vatnsdælum af hálfu

Víðdæla. Finnboga mátti með sanni kalla Víðdælakappa, og var eðlilegt, að Víðdælir vildu halda honum fram til jafns við keppinauta hans í Vatnsdalnum, Jökul og aðra sini Ingimundar gamla. Í sömu átt bendir það, að sagan kallar Finnboga á einum stað Víðdælagoða[1]) og segir, að Ingimundarsinir hafi eigi þolað það, að „Finnbogi var framar látinn eða formentr þeim öllum öðrum, er þar váru vestr," og gefur þar með í skin, að kepnin hafi verið milli hans og Vatnsdæla um mannaforráð. Auðvitað nær það engri átt, að Finnbogi, sem var aðskotadýr í þessum hjeröðum, hafi orðið goði þar eða náð undir sig nokkru af mannaforráði Vatnsdæla. Enn af því að Vatnsdæla saga talar víða um mannaforráð Ingimundar og sona hans,[2]) þá var sjálfsagt, að Finnbogi hefði Víðdælagorðorð, til þess að hann irði ekki minni enn keppinautar hans í Vatnsdalnum. Í sagnauðugum hjeröðum, eins og Húnavatnsþingi, var það eðlilegt, að nokkur metnaður væri milli sveita um að eignast sögur af þeim fornaldarköppum, sem hver sveit hafði átt, og hver sá, sem skrifaði um kappa eða höfðingja sveitar sinnar, vildi auðvitað draga fram þeirra hlut gagnvart köppum annara sveita. Í ritgerð minni um Hænsa-Þóris sögu hef jeg sínt líkur til, að sú saga sje samin í Flókadal, enda sínir sagan, hvernig Hersteinn Blundketilsson, afkomandi landnámsættarinnar í Flókadal, ber að lokum hærri hlut í deilu sinni við Tungu-Odd, höfðingja Reikholtsdalsins, sem Egils saga gerir svo mikið úr. Að Finnboga saga sje ekki samin norður í Flateijardal, heldur að öllum líkindum í Víðidal, er einnig líklegt af því, að sagnir um Finnboga norður í Flateijardal, sem geimst hafa til vorra tíma, eru mjög óljósar og ruglingslegar,[3]) enn aftur á móti hafa geimst mjög skírar og greinilegar sagnir um hann í Víðidal og sjerstaklega að Stóruborg, þar sem hann bjó. Þar eru enn í túninu nefndar Moð-

---

1) K. 37, s. $72^{24}$. Sbr. Vatnsdælagoði í Vatnsdælasögu 20. k., bls. 36. — 2) K. 15, 20, 27, 32, bls. 26, 36, 44, 52. — 3) Kålund, Island II., 136. bls.

skeggstóttir eftir Þorvaldi moðskegg (= Garðshorn í sögunni) og rjett þar hjá Sveinaklettar, sem Moðskegg á að hafa rotað sveina Finnboga á. Enn fremur er þar sínt Ragnhildarleiði, konu Finnboga í túninu. Ekki er ólíklegt, að þessar örnefnasagnir hafi mindast eftir sögunni, þó að sagan þekki ekkert af þessum örnefnum og láti Moðskegg rota sveinana, ekki á neinum tilteknum klettum, heldur á „steininum" (svo Möðruvallabók, = hestasteininum?) eða á *„brústeinunum"* (= stjettinni firir framan bæinn, svo Tómasarbók). Enn sje svo, þá ber þetta vott um, að sagan hefur verið mikið lesin í Víðidal og sjerstaklega á Borg, og bendir til þess eitt með öðru, að hjer sje hið upphaflega heimkinni sögunnar.

Í sögunni er ekkert, sem sínir, að hún sje rituð af klerki. Þvert á móti er einhver bóndakeimur bæði að orðfæri og frásögn. Um þær mundir, sem sagan er rituð, er Gizurr galli fremstur höfðingi í Víðidal (f. 1269, d. 1370, 102 ára gamall). Þar sem allar líkur eru til, að sagan sje samin í Víðidal, má telja víst, að hún sje rituð undir handarjaðri hans eða að hans hvötum. Þess má geta, að um þetta leiti bír að Stóru-Borg Árni Bárðarson, merkisbóndi og vel efnaður.[1]) Hann, eða Bárðr faðir hans, gæti verið höfundar sögunnar, enn það getur líka verið einhver annar oss alveg ókunnur maður, og tjáir ekki að giska á það.

1) Í. Fornbrs. II, 732.—733. bls. — brjef 3/8 1340 — og III, 179.—180. bls. — próventubrjef Árna 25/7 1361.

## Víga-Glúms saga (Glúma).

Þessi saga hefur geimst í heilu lagi í Möðruvallabók (AM 132 fol.), hinu fræga söguhandriti, sem jeg hef oft áður minst á, og er hún rituð um miðja 14. öld. Auk þess eru tvö brot af sögunni til á skinni, bæði áður geimd í AM 564 A, 4to, leifar af 2 skinnbókum. Annað brotið er að eins eitt blað framan til úr sögunni (úr 7. og 8. kap.) og er nú flutt úr 564, 4to til 445 C, 4to. Hitt er 2 blöð með eiðu á milli blaðanna og eitt dálkbrot; birjar firra blaðið í 14. k. miðjum og nær ifir næsta (15.) kap. og part af þætti Ögmundar dytts, sem þetta handrit hefur haft fram ifir Möðruvallabók. Enn síðara blaðið svarar til síðari hluta 16. k., 17. k. og upphafs 18. k. Dálkbrotið nær ifir niðurlag sögunnar. Þessi 2 blöð og dálkbrot eru merkileg að því leiti, að þau eru leifar af hinu fræga söguhandriti Vatnshirnu eða Vatnshornsbók, sem Jón Hákonarson í Víðidalstungu ljet skrifa. Auk þess eru til mörg pappírshandrit, og var það skoðun Guðmundar Þorlákssonar, sem best hefur gefið söguna út, að þau væri öll runnin frá Möðruvallabók. Samt skiftir hann þeim í 2 flokka, A-flokkinn og B-flokkinn, og stendur A-flokkurinn ennþá nær Möðruvallabók, enn B-flokkurinn hefur að vísu víðast hvar sama texta, enn munar þó á nokkrum stöðum, einkum í upphafinu. Á því getur ekki verið neinn efi, að öll A-flokks handritin eru kinjuð frá Möðruvallabók, enn hitt er ekki óhugsandi, að B-flokkshandritin sjeu kinjuð frá öðru handriti, sem þó hefur verið mjög svipað Möðruvallabók.

Ef vjer berum Möðruvallabók saman við brotin í 445 C 4to og 564 A 4to, bæði staka blaðið og Vatnshirnuleifarnar, þá sjáum vjer, að brotin hafa talsvert fillri og

að öllu samtöldu eflaust upphaflegri og betri texta af sögunni enn Möðruvallabók, og er mikið mein, að ekkert af pappírshandritunum skuli vera frá þeim texta runnið í heild sinni, svo að nú er ómögulegt að filla hann, þar sem brotin ekki ná til. Möðruvallabók hefur bersínilega stitt söguna og felt úr það, sem ritaranum þótti ekki máli skifta. Þáttur Ögmundar dytts, sem hefur staðið í Vatnshirnu, er þó eflaust síðari íauki, og er Möðruvallabók að því leiti nær hinni upphaflegu sögu.

— — —

Vjer höfum sjeð, að sagan hefur verið talsvert fillri í Vatnshirnu og skinnbrotinu í 445 C 4to enn í Möðruvallabók, sem hefur stitt söguna. Einn atburður er í sögunni, sem hún er ekki ein til frásagnar um, það er sagan um bardagann á Vaðlaþingi, þegar Einarr þveræingr og Guðmundr ríki hröktu Glúm niður firir melinn. Frá þessu segir líka Landnámuhandritið Melabók (hin ingri), og stiðja báðar heimildirnar sögu sína með sömu vísunum, sem ortar voru við þetta tækifæri af Brúsa Hallasini, Einari þveræing og Glúmi, svo að auðsjeð er, að hjer er um sama viðburðinn að ræða. Enn heimildunum ber ekki saman um tilefnið til þessa viðburðar og greinir líka á um sum atriði, sem gerðust á þinginu, Í Glúmu segir svo frá tilefninu, að Klængr í Hrísei, sonur Hríseyjar-Narfa, frændi Víga-Glúms, hafi vegið mann út af hvaltöku, sem nefndist Þorvaldr menni og bjó í Haga. Til eftirmáls vóru þeir Þórarinn á Espihóli Þórisson og Þórðr Hrafnsson á Stokkahlöðum, og fengu þeir Einar þveræing í lið með sjer, enn Glúmr hlutdeildi málið af hálfu vegandans, frænda síns. Ekki hjelt Glúmr þó svörum uppi á vorþingi, og varð Klængr þar sekur, enn þegar sækjendur koma í Hrísei að heija fjeránsdóm, var Glúmr þar firir með fjölmenni, og varð fjeránsdómur ekki háður. Glúmr átti að helga haustþing að áliðnu sumri og fór þangað í því skini, og þá var það, að honum lenti saman við Einar og hans flokk og var hrakinn niður firir melbrekkuna. Eftir Melabók heitir vegandinn (ekki hinn vegni) Þorvaldr ór Haga Eyjólfsson, enn hinn

vegni er Grímr á Kálfskinni. Einar Eyjólfsson sækir vígsökina, enn Glúmr og Már son hans verja, af því að Már var stjúpfaðir Þorvalds. Eftir því sem Melabók segir, virðist Glúmr hafa farið til vorþings (Vaðlaþings) og haldið þar vörn uppi, og út af því verður bardaginn á því þingi og hrakningar Glúms, ekki á haustþinginu eins og í Glúmu. Og ímislegt fleira ber sögunum á milli, sem jeg hirði ekki að telja. Það er auðsjeð, að hjer er eitthvað blandað málum í annari hvorri sögunni, og hirði jeg ekki um að rannsaka, hvor rjettara hefur firir sjer. Eggert heitinn Brím prestur hefur ritað um það dágóða grein í Tímarit Bókmf. 3. bd., 1882. Í rauninni má standa nokkurn veginn á sama, hvor sögnin er réttari. Enn hinn mikli munur, sem á þeim er, sínir, að önnurhvor sögnin eða báðar hafa afbakast mjög í munnmælum, og er þetta merkilegt, af því að það er eitt af mörgu, sem sannar, að íslensk munnmæli eru als ekki óskeikul. Það er auðsjeð, að hjer er um tvær sjálfstæðar og hvor annari óháðar munnlegar sagnir að ræða. Spurning sú, sem hjer varðar mestu, er: hvaðan hefur Melabók sína mismunandi frásögn? Hefur þessi frásögn staðið í Landnámu frá upphafi og þaðan komist inn í Melabók? Í sjálfu sjer er það mjög ólíklegt, að hin upphaflega Landnáma hafi sagt svo greinilega frá þessum atburði, sem gerist löngu eftir landnámstið og ekki kemur neitt við sögu landnáma. Að þessi kafli sje síðari innskotsgrein í Melabók, sjest og á því, að hann stendur í Melabók einni (af Landnámu-handritunum), enn hvorki í Sturlubók nje Hauksbók. Enn hvaðan hefur Melabók þessa sögu, sem að vísu greinir mjög á við Glúmu um einstök atriði og nöfn sumra persónanna, enn kemur þó svo vel heim við hana í aðalefninu? Jeg tel engan vafa á, að Melabók hafi haft þetta úr sögu, sem var líks efnis og Glúma, hvort sem það nú hefur verið sjerstök gerð af Glúmu, frábrugðin að ímsu þeirri, sem geimst hefur í Möðruvallabók, eða önnur saga, sem að vísu hefur sagt frá Glúmi, enn ekki gert hann að höfuðpersónu sögunnar, heldur dregið meir fram aðra menn, sem í höggi

áttu við hann, t. d. Esphælinga. Að Melabók hafi hjer við hliðina á Landnámu-handriti sínu notað sögu líks efnis og Glúmu, sjest og á því, að hún kemur víðar heim við Glúmu í ímsum smáatriðum, þar sem hana greinir á við hin Landnámu-handritin. T. d. er Melabók hið eina Landnámu-handrit, sem segir frá því, að Valgerðr, móðir Eyjólfs Valgerðarsonar, föður þeirra bræðra Guðmundar ríka og Einars þveræings, hafi verið Runólfsdóttir.[1]) Glúma segir greinilega frá þessu k. $10^{30}$ („Bróðir Gizurar [Kaðalsonar] hét Runólfr, hann var faðir Valgerðar, móður Eyjólfs á Möðruvöllum"). Sömuleiðis ber Melabók saman við Glúmu um það, að Arnórr son Steinólfs Ingjaldssonar, bræðrungur Glúms, hafi heitið að auknefni *rauðkinnr*, enn hin Landnámu-handritin (Sturlubók og Hauksbók) nefna hann *Arnór hinn góða Rauðæing*, sem eflaust er arfsögn hinnar upphaflegu Landnámu.[2]) Líka nefna öll Landnámu-handrit Eyjólf Ingjaldsson, föður Víga-Glúms, enn Melabók ein kallar hann að auknefni *hrúgu*.[3]) Þetta auknefni segir Glúma, að Ívarr, bróðir Hreiðars stírimanns, hafi gefið Eyjólfi í Noregi (Gl., 3. k.), enn gefur í skin, að auknefnið hafi eigi orðið fast við hann (Gl., k. $3^{50}$ „ok nú skal hann eigi hrúga heita lengr"), og er að því leiti í mótsögn við Melabók, sem virðist skoða þetta sem fast auknefni mansins, og hefur líklega sú saga, sem Melabók hafði firir sjer, gefið tilefni til þess og verið að því leiti frábrugðin Glúmu. Í sambandi við þetta skal jeg geta þess, að í Ljósvetninga sögu, 32. k., er vitnað í „Esphælinga sögu". Er þar sagt, að Þórðar á Stokkahlöðum sje „mjök getit við Esphælinga sögu". Allir, sem um þennan stað hafa ritað, eru á því, að Esphælinga saga sje annað nafn á Glúmu. Enn það er ekki rjettnefni, því að þó Esphælingar komi mjög við Glúmu sem mótstöðumenn Víga-Glúms, þá er þó ljóst, að höfuðpersónan í þeirri sögu er enginn ann-

1) Landn. 1843, III, 16. k., bls. $220^9$. — 2) Landn. 1843, III, 16. k., bls. 222. — 3) Landn. 1843, III, 16. k., bls. 222 nmgr. 5.

ar enn Glúmr, og eftir honum er sagan rjettilega nefnd Víga-Glúms saga í firirsögn sögunnar í Möðruvallabók. Það er nú að vísu rjett, að Þórðr þessi á Stokkahlöðum (Hrafnsson) kemur firir í Víga-Glúms sögu, enn ef „Esphælinga saga", sem Ljósvetninga saga vitnar í, er sama sem Víga-Glúms saga, þá er það ekki rjett í Ljósvetninga sögu, að Þórðar sje „mjök getit" við hana, því að hans er að eins getið við 2 atburði, bardagann á Hrísateig í 22. k. og eftirmálið eftir Þorvald í Haga í 27. k. Mjer liggur því við að halda, að Ljósvetninga saga eigi hjer ekki við Glúmu, heldur við aðra sögu, sem dró fram hlut Esphælinga gagnvart Glúmi og var rjettnefnd Esphælinga saga, og mjer þikir ekki ólíklegt, að það sje þessi saga, sem Melabók hefur úr frásögn sína um víg Gríms á Kálfskinni og bardagann á Vaðlaþingi, auknefni Eyjólfs Ingjaldssonar o. s. frv. Ef vjer berum saman frásagnirnar um þingadeild þeirra Glúms og Einars í Glúmu og Melabók, þá er sá munur á, að Melabók getur þess als ekki, að Glúmr hafi borið hærra hlut við fjeránsdóminn, sem tekið er fram í Glúmu. Melabók hallar því heldur á Glúm í þessum viðskiftum, og er það eðlilegt, ef hún er útdráttur úr tíndri Esphælinga sögu. Mins vegar dregur Glúma fram hlut síns sögukappa, sem er jafneðlilegt.

Næst skulum vjer athuga afstöðu Glúmu við aðrar sögur, og kemur þar first til greina Landnáma, sem getur um marga hina sömu menn og Glúma og rekur ættir þeirra. Vjer höfum sínt, að ímislegt í Landnámuhandritinu Melabók er tekið ekki eftir hinni upphaflegu Landnámu, heldur líklega eftir Esphælinga sögu, og má ekki taka tillit til þess við samanburð Glúmu við Landnámu. Jeg hef borið heimildirnar nákvæmlega saman, enn skal fara sem minst út í einstök atriði. Ifirleitt má segja, að ættartölur Glúmu komi mjög vel heim við ættartölur Landnámu, svo vel, að varla er annað hugsandi enn að Glúma hafi haft Landnámu firir sjer.[1]) Allvíða

1) T. d. ber báðum saman um, að Þórir á Espihóli hafi átt

rekur Glúma ættirnar ekki eins langt upp eða niður eins og Landnáma, enn það er ekki nema eðlilegt, Glúma tekur ekki annað með enn það, sem máli skiftir firir hana. Hins vegar bætir Glúma við ímsum ættliðum, sem ekki eru taldir í Landnámu. Svo telur t. d. Glúma meðal barna Þóris á Espihóli Ingunni dóttur hans, „er átti Þórðr freysgoði“, sem Landnáma getur ekki — eftir Landnámu átti Þórðr freygoði Þraslaugu Þorsteinsdóttur.[1]) Sömuleiðis veit Glúma um ætt Þorgerðar, konu Þórarins á Espihóli (Gl., k. $10^{20}$), enn Landnáma getur hvorki um Þorgerði nje ætt hennar. Þetta og því um líkt sínir að eins, að Glúma hefur ekki stuðst eingöngu við Landnámu, heldur líka við aðrar heimildir, líklega munnlegar eifirskar sagnir. Stöku sinnum greinir Glúmu á við Landnámu. T. d. um auknefni Arnórs Steinólfssonar, sem jeg áður hef minst á. Þar stiður Melabók sögn Glúmu, og er auðsjeð, að Glúma hefur hjer haft firir sjer sjálfstæða munnlega sögn. Glúma segir, að Hlenni í Saurbæ hafi verið son Örnólfs töskubaks, enn Landnáma, að hann hafi verið son Orms töskubaks. Sömuleiðis segir Glúma, að kona Vigfúss bróður Víga-Glúms hafi heitið Hallfríðr og verið dóttir Þorkels háva. Landnáma veit líka, að Vigfúss átti dóttur Þorkels háva, enn kallar hana Arndísi.[2]) Þessar missagnir benda til, að Glúmu-höfundur hafi þekt munnmælasögur óháðar Landnámu, sem hann tók fram ifir Landnámu-sagnirnar. Niðurstaðan af þessari rannsókn verður þá sú, að höfundur Glúmu hefur þekt og notað Landnámu, enn sumstaðar aukið eða breitt frásögn hennar eftir munnmælasögum, sem hann trúði betur.

---

Þórdisi Kaðalsdóttur, og það sem meira er, í báðum stendur, að Þorgrímr í Möðrufelli hafi verið son Þóris, enn ekki með Þórdisi. Hjer tel jeg vafalaust, að Glúma hafi notað Landnámu (sbr. Landn. III 16, bls. 219, við Gl. k. $5^{25-29}$ og $10^{32}$). Merkilegt er þó, að í k. $5^{27}$ telur Glúma Þorgrím með börnum Þóris og Þórdísar. — 1) Eftir Njálu var Þórð tvíkvæntr, og vóru konur hans Ingunn Þórisdóttir á Espihóli, móðir Flosa, og Þraslaug Þorsteinsdóttir, móðir Starkaðar. Ingunni hefur Njála víst úr Glúmu, enn Þraslaugu úr Landnámu. (Nj. k. 95, 2—5, sbr. k. 57, 2—3.) — 2) Sbr. Gl. k. $5^{14}$ við Landn. III 20, bls. 233.

Eftir Glúmu er móðurfaðir Víga-Glúms Vigfúss hersir son Sigurðar Víkinga-Kárasonar, enn eftir Hauksbók[1]) var Vigfúss *sonur* Víkinga-Kára, ekki sonarsonur hans.[2]) Ef þetta er upphaflegt í Landnámu, sem er ekki alveg víst, því að Sturlubók rekur ekki þennan ættbálk, þá er þetta eitt af þeim dæmum, sem sína, að Glúma hefur haft sjálfstæðar munnlegar sagnir við hliðina á Landnámu. Uppætt Víkinga-Kára er og öðruvísi rakin í Glúmu enn í viðauka Skarðsárbókar Landnámu,[3]) sem er runnin frá Hauksbók og Melabók ingri.[4]) Telur Glúma k. 5[4] Víkinga-Kára son Eymundar akraspillis Þórissonar, enn hinar heimildirnar telja hann son Sigurðar bjóðaskalla,[5]) Eiríkssonar Hunda-Steinarssonar.

Einn er sá kafli í Glúmu, sem er svo að segja orðrjett eins og tilsvarandi kafli í Reykdælu, eða rjettara sagt í síðari hluta Reykdælu, Víga-Skútu sögu. Báðar sögurnar segja svo að segja eins og oft með sömu orðum frá viðureign Skútu og Glúms, þegar þeir eltu hvor annan.[6]) Að það sje Víga-Skútu saga, sem hjer hefur notað Glúmu jafnframt öðrum munnlegum sögnum, sjest á því, að hún talar á 2 stöðum um missagnir, þar sem hún víkur frá Glúmu. Víga-Skútu saga 25. k. heldur því fram, að Glúmr hafi með vjelum lokkað til sín Þórlaugu dóttur sína, konu Skútu, og gift hana Eldjárni milda Áskelssini, enn bætir svo við: „Enn sumir menn vilja þat segja, at Skúta sendi hana heim til Glúms, þá er

1) Landn. III 16, bls. 222 nmgr., F. J. Hb., 184. k. aftast og viðauka Skarsárb. Landnámu 1843 bls. 325, sem er runninn frá Hb. — 2) Sbr. einnig Ólafs sögu Tryggvasonar löngu, F. J. Landn., bls. 271. — 3) Landn. 1843, 325. bls. — 4) Landn. 1843, III, 1. k., bls. 171. — 5) Áns saga bogsveigis telur Sigurð bjóðaskalla son Ögmundar (ekki Eymundar) akraspillis Þórissonar Ánssonar bogsveigis og kemur þannig að nokkru leiti heim við Glúmu (Fornaldars. II, 261.—362. bls.), enn stiður um leið hina sögnina, að Sigurðr bjóðaskalli hafi verið faðir Víkinga-Kára. Að öllum líkindum hefur Glúma skift um ættliðina og gert Sigurð að sini Víkinga-Kára í stað þess að hann var faðir hans. Eftir Glúmu er Víga-Glúmr 4. maður frá Víkinga-Kára, og er það ólíklegt, því að Ólafr Tryggvason og Gizurr hvíti, sem lifðu síðar enn Glúmr, eru taldir í 3. lið frá Kára. — 6) Gl., 16. k., Reykd., 25.—26. k.

versnaði með þeim". Þessi missögn er beint tekin eftir Glúmu k. $16^{2}$: „ok fyrir sakar þeira sundrlyndis þá lét hann (ɔ:Skúta) hana (Þórlaugu) fara heim til Þverár ok lét hana eina". Víga-Skútu saga getur og um *öxi* Skútu „Flugu" athugasemdalaust framar í sögunni (k. $20^{39}$ og $22^{35}$), enn síðar, í kaflanum um viðureign þeirra Skútu og Glúms (k. $26^{63\ 65}$), standa þessi orð: „Þar segja menn ekki einn veg frá. Sumir segja, svá sem hér er sagt, at þat væri *öx* ok héti Fluga, enn sumir segja, at þat væri *sverð* ok héti Fluga." Í Gl. k. $16^{40}$ stendur: „Skúta hafði *sverð* í hendi, þat er Fluga hét."[1] Á báðum þessum stöðum á Víga-Skútu saga bersínilega við sögn Glúmu, þar sem hún talar um missögnina. Af þessu er ljóst, að það er Skútu saga, sem hefur notað Glúmu í þessum kafla, enn Glúma ekki Skútu sögu.

Glúma segir, að Þórlaug, dóttir Víga-Glúms, hafi átt Arnór kerlingarnef, eftir að Skúta ljet hana eina (Gl., k. $16^{4}$), enn eftir þeim sögnum, sem lágu firir höfundi Víga-Skútu sögu, gifti Glúmr hana Eldjárni milda Áskelssini, þegar hann hafði tekið hana frá Skútu. Skútu saga bætir því við, að Arnórr kerlingarnef hafi verið *þriðji maður* Þórlaugar, næstur Eldjárni, og kemur það bersínilega af því, að hann reinir að samlaga sínar munnlegu sagnir við Glúmu.[2]

Hinn sænski vísindamaður Gustaf Cederschiöld hefur reint að sanna, að höfundur Víga-Glúms sögu hafi haft firir sjer eina smásögu úr hinu alkunna miðaldariti Disciplina clericalis, þegar hann bjó til söguna um víg Kálfs bónda á Stokka-Hlöðu í 14. kap. sögunnar. Eftir sögunni er það Glúmr sjálfur, sem vegur þennan Hlöðu-Kálf, sem hafði bekst til bæði við Glúm sjálfan og Ingólf verkstjóra Glúms. Enn með kænskubragði kemur hann því svo firir, að allir kenna Ingólfi vígið og að vígs-

---

1) = Vatnsh. Gl., útg. G. Þ., bls. $100^{5}$: Skúta hafði í hendi sverðit Flugu. — 2) Sjá Skútu s., k. $24^{93}$ og $25^{67}$. Eftir Ljósvetninga sögu, k. $28^{50}$, hjet Eldjárn sonur Arnórs kerlingarnefs og Þórlaugar Víga-Glúmsdóttur, enn eftir Landn. 1843, bls. 201 og 109, er Þuríðr dóttir Halls mjódælings móðir þessa Eldjárns Arnórssonar.

málið er höfðað móti honum, enn ekki Glúmi. Á þingi gerir Glúmr vígsmálið ónítt með því að hann gengst sjálfur við víginu, og sjá sakaraðiljar sjer þá ekki annars kost enn taka sáttum, sem Glúmr bíður þeim. Kænskubragðið, sem Glúmr beitir til að villa um veganda, er ekki alveg ósvipað einni smásögu í Disciplina clericalis. Eftir því sem Glúma segir, vandi Ingólfr verkstjóri komur sínar að Hamri til Þorkels bónda þar, af því að honum leist vel á dóttur bónda. Eitt kvöld heima að Þverá stingur Glúmr upp á því, að menn skuli skemta sjer við að „taka sjer fulltrúa". Velur Glúmr sjer sjálfur 3 fulltrúa, fjesjóð sinn, öxi sína og stokkabúr sitt. Þegar röðin kemur að Ingólfi, segist hann velja Þorkel á Hamri sem sinn fulltrúa. Glúmr bregðst reiður við og kveður Ingólf út með sjer og gengur með honum til hlöðu sinnar. Þar er alikálfur, sem Glúmr skipar Ingólfi að höggva.[1]) Að því búnu segir Glúmr Ingólfi, að hann skuli fara til fulltrúa síns Þorkels á Hamri og biðja hann ásjár, því að hann hafi drepið Hlöðu-Kálf. Ingólfr gerir það, enn Þorkell bregðst illa við og rekur hann burtu. Þá leitar Ingólfr aftur til Glúms og felur hann hann í stokkabúri sínu og kemur honum síðan utan. Jafnframt spirst, að Kálfr á Stokkahlöðu hafi verið veginn, og segir Þorkell á Hamri þá, að Ingólfr hafi komið til sín og líst víginu á hönd sjer; af þessu fellur grunur á Ingólf, og er vígsökin höfðuð á hendur honum, enn ekki hinum rjetta veganda Glúmi. Sagan í Disciplina clericalis, sem þetta á að vera sniðið eftir, er í stuttu máli þannig: Arabi nokkur kallar á banasæng sinni til sín son sinn og spir hann, hve marga vini hann hafi eignast á lífsleiðinni. Hann segist eiga hundrað vini. Faðirinn segist ekki hafa eignast nema einn hálfan vin á sinni lífsleið, og sje hann þó eldri enn sonurinn, og ræður honum til að fara nú og reina vini sína. Sonurinn spir, hvernig hann

1) Svo mun hafa staðið í sögunni frá upphafi, enda segir Glúmr síðar á þinginu (k. 14[59]) „enn þó at Ingólfr dræpi hlöðukálf, gaf ek honum enga sök á því". Eins og sagan er nú í Möðruvallab., segir hún, að Glúmr hafi sjálfur höggvið kálfinn.

eigi að reina þá. Faðirinn segir honum, að hann skuli drepa kálf, troða honum í poka, fara síðan með pokann á bakinu til vina sinna hvers á fætur öðrum og segja þeim, að hann sje hjer með lík af manni, sem hann hafi drepið, og biðja vininn að grafa líkið hjá sjer og dilja þannig drápið. Sonurinn gerir þetta, enn hver einasti af hans hundrað vinum reka hann öfugan aftur. Þá fer hann aftur til föður síns og segir sínar farir ekki sljettar. Faðirinn biður hann þá reina sinn eina hálfa vin á sama hátt. Sonurinn gerir það. Sá maður bregðst vel við og bíðst til að grafa líkið á laun. Segir þá sonurinn honum upp alla sögu. — Eins og sjá má, eru sögurnar nokkuð svipaðar. Í báðum er talað um að reina vin sinn eða vini sína. Í báðum bregðst vinurinn (eða vinirnir) illa við, af því að hann heldur (þeir halda), að sá, sem til hans (þeirra) leitar, hafi drepið mann. Í báðum er það ekki maður, heldur kálfur, sem nauðleitamaðurinn hefur drepið. Enn hins vegar er það bæði margt og mikilvægt, sem sögunum ber á milli. Í Glúmu miðar öll sagan að því að sína kænsku Glúms. Bragðið, sem hann beitir, miðar alt að því að villa um vegandann, koma gruninum af sjer á Ingólf. Ekkert líkt er í hinni sögunni. Í henni stefnir alt að þeim siðalærdómi, sem í sögunni felst: „Sá er vinur, sem í raun reinist. Einn hálfur slíkur vinur er betri enn hundrað, sem þikjast vera vinir, enn bregðast, þegar á reinir. Sannir vinir eru fágætir". Enginn slíkur siðalærdómur felst í Glúmu-sögunni. Það sjest meðal annars á því, að í Glúmu reinir Ingólfr að eins einn vin, í hinni sögunni reinir sonurinn 100 vini. Í Glúmu stefnir alt að hinum kænlega orðaleik „hlöðukálfr — Hlöðu-Kálfr", í latínsku sögunni er enginn slíkur orðaleikur. Þessi orðaleikur hefur í Glúmu mjög mikilvægar afleiðingar — grunurinn um vígið fellur á saklausan mann, og verður það til þess, að Glúmr ber hærra hlut í málaferlunum — í latínsku sögunni hefur kálfsdrápið engar slíkar afleiðingar. Alt þetta, sem sögunum ber á milli, snertir einmitt kjarnann í hvorri þeirra firir sig, markmið það, sem þær stefna að. Jeg verð því að

telja það mjög vafasamt og als ekki nægilega sannað, að Glúmuhöfundurinn hafi notað latínsku söguna sem firirmind, þegar hann samdi söguna um víg Hlöðu-Kálfs. Í hæsta lagi má segja, að það sje ekki óhugsandi, að einstök atriði úr latínsku sögunni hafi vakað firir honum sem óljós endurminning, þegar hann samdi sína sögu. Miklu nær liggur þó að leita að firirmindum söguhöfundar í viðburðum, sem gerðust um það leiti, sem hann var uppi.

Aðalatriðið í Glúmu-sögunni er það, að vilt er um veganda með orðaleiknum hlöðukálfr = Hlöðu-Kálfr. Það kemur oftar firir í Glúmu, að vilt er um veganda með orðaleik. Eftir bardagann á Hrísateig kemur Glúmr vígi Þorvalds króks af sjer á Guðbrand Þorvarðsson, sem verður sekur um vígið og kemst utan. Enn síðar, þegar grunur fellur á Glúm, bjargar hann sjer með tvíræðum undirskotseiði („ek vark at þar ok vák at þar ok rauðk at þar odd ok egg, er Þorvaldr krókr fekk bana"). Þetta að villa um veganda með kænskubrögðum er einkennilegt firir Glúm og heirir með til lísingarinnar á kænsku hans.

Vjer munum nú sína, að um það leiti, sem þessi eifirska saga virðist vera skrifuð, kom það firir einmitt í Eijafirði, að víg var vegið, og að almannarómur lagðist á, að vilt hefði verið um veganda. Árið 1222 var Hafr ráðsmaður á Hrafnagili, mikill fjandmaður Sighvats Sturlusonar, veginn voveiflega um nótt. Daginn eftir kemur Gunnar kumbi lausamaður, sem hafði átt í erjum við Hafr, að Grund til Sighvats og lísir á hönd sjer víginu, líkt og Ingólfr kemur til Þorkels á Hamri og lísir á sig vígi Hlöðu-Kálfs í Glúmu. Sighvatr hefur þetta víg heldur í fleimingi og kallaði sumrunga (lausamenn, kaupamenn) ódæla. Síðar legst grunur á það, að Gunnarr kumbi hafi ekki vegið Hafr, heldur Jón nokkur Birnuson, sem var nætursakir á Hrafnagili nóttina, sem Hafr var veginn, og Sturlunga gefur ótvírætt í skin, að Sighvatr Sturluson og kona hans muni hafa lagt ráðin á, enda skjóta þau skjólshúsi ifir Gunnar kumba, líkt og

Glúmr ifir Ingólf.[1]) Það er nú ef til vill nokkuð djarft að álikta, að höfundur Glúmu hafi haft viðburð þennan í huga, þegar hann samdi söguna um víg Kálfs á Stokkahlöðum. Enn merkileg tilviljun er það, að Jón Birnuson, sem flestir kendu vígið, átti einmitt heima á *Stokkahlöðum*, þegar Hafr var veginn, enda er það fleira, sem bendir til, að Glúmuhöfundur hafi haft samtíða viðburði í huga, þegar hann sagði frá vígi Hlöðu-Kálfs.

Svo sem 10 árum áður enn Hafr ráðsmaður var veginn, bjó Kálfr Guttormsson á Grund í Eijafirði, enn Hallr Kleppjárnsson á Hrafnagili. Þar var mikill fjandskapur á milli þeirra, og ortu Hrafngilingar níð um Kálf. Í níðinu er orðaleikur dreginn af nafni Kálfs, og er hann kallaður þar *vetrungs efni* (nautkálfur) og *kusli*, sem er gælunafn Kálfs.[2]) Mjer þikir ekki ólíklegt, að þetta níð hafi gefið Glúmuhöfundinum, sem eflaust var Eifirðingur, hugmindina til orðaleiksins *hlöðukálfr* = *Hlöðu-Kálfr*. Þessi Kálfr á Stokkahlöðu er eflaust ekki historisk persóna, heldur tilbúinn af höfundinum í því skini, að gera orðaleik úr nafninu. Hann kemur alt í einu fram í Glúmu eins og skollinn úr sauðarleggnum, í 13. kap., og segir sagan engin deili á honum, og síðar í sögunni er nefndur annar bóndi, Þórðr Hrafnsson, á Stokkahlöðu, sem ekkert virðist eiga skilt við þennan Kálf.

Mjer þikir því líklegt, að höfundur Glúmu hafi aðallega sniðið söguna um víg Hlöðu-Kálfs eftir samtíða viðburðum eifirskum, vígi Hafrs ráðsmanns á Hrafnagili og níðinu um Kálf Guttormsson. Jeg held ekki, að hann hafi þekt frásögn Íslendinga sögu Sturlu um þessa viðburði, heldur hafa þeir verið honum kunnir sem Eifirðingi af eigin afspurn og reind. Hvort hann hafi auk þess haft söguna í Disciplina clericalis til hliðsjónar, læt jeg ósagt. Ef þetta er rjett, þá er Glúma ekki samin fir enn nokkru eftir 1222, að líkindum um 1250. Á það bendir líka orðfæri sögunnar.

1) Sturlunga[3] I, bls. 354—355, úr Ísl. s. Sturlu Þórðarsonar. — 2) Sturlunga[3] I, 293—4. Ísl. s. Sturlu.

Af persónum sögunnar ber langmest á Víga-Glúmi, og er honum snildarlega líst. Merkilegt er, hve lísing sögunnar á Glúmi er keimlík lísingu Sturlu Þórðarsonar á hinum eifirska höfðingja Sighvati Sturlusini. Báðir eru slægir menn og djúpvitrir, enn jafnframt fullir af gletni og kímni. Þikir mjer ekki ólíklegt, að Glúmuhöfundur hafi tekið sjer Sighvat til firirmindar í lísingu sinni á Glúmi. Merkilegt er það, að í frásögninni um bardagann á Hrísateig segir Glúma, að þrælar Glúms hafi forðað honum frá bana, þar sem hann lá fallinn, með því að leggjast ofan á hann til að hlífa honum og láta stanga sig spjótum til bana (Gl., k. $23^{13}$). Líkt segir Sturlunga (Ísl. s. Sturlu) um fall Sighvats á Örligsstöðum. Þar legst nafni Sighvats og heimamaður Sighvatr djákn ofan á hann fallinn til að hlífa honum og var þar veginn. Þessi lísing getur varla verið sprottin af tilviljun. Merkilegt er og að bera draum Sighvats um hest sinn Fölska[1]) saman við drauma Glúms,[2]) þó að efni draumanna sje ólíkt. Tveimur af draumum Glúms filgja vísur líkt og draumi Sighvats. Ef saga Glúmu um þræla Glúms á sjer firirmind í því, sem gerðist á Örligsstöðum við fall Sighvats, þá er Glúma ingri enn 1238, og ber það að sama brunni og áður var sagt um aldur sögunnar. Undirskotseiður, líkur þeim, sem Glúma segir frá, kemur og firir á Sturlungaöldinni. Árið 1242 sendi Kolbeinn ungi Arnórsson menn til Vestfjarða til að taka sjer til handa trúnaðareiða af bændum, enn hjet þeim afarkostum, sem ekki vildu sverja. Gísli Markússon á Rauðasandi, mikill vinur Sighvats Sturlusonar, neitaði first að sverja Kolbeini eiða, þá rjeð vinur hans, Eyvindr prestur Þórarinsson, honum til að sverja eið „*Kolbeini unga*"; sagðist hann eiga son með því nafni, heitinn eftir Kolbeini Sighvatssini, „ok má þá verða réttr eiðr þinn, er þú veizt þat í hug þér, at þú þykist honum sverja". Þá ljet Gísli tilleiðast og sór eið *Kolbeini unga*, og sá enginn maður í það. Enn síðar varð það hljóðbært, að þetta var undirskotseiður,

1) Sturl.[3] I 510—511. — 2) Gl., k. $9^{1-14}$, $21^{50\ 87}$ og $26^{2-10}$.

þegar Gísli snerist í lið með Þórði kakala, sini Sighvats, gegn Kolbeini unga Arnórssini. Orðaleikurinn „Kolbeinn ungi“ = „Kolbeinn ungi“ er svipaður orðaleiknum „hlöðukálfr“ = „Hlöðu-Kálfr“ í Glúmu, og má vera, að höfundur Glúmu hafi sniðið sinn orðaleik eftir undirskotseið Gísla. Sje svo, þá er sagan ingri enn 1242.

Það er engin efi á því, að lísing Íslendingasagna á lífi manna á söguöldinni, klæðnaði, vopnum, húsakinnum o. s. frv. hefur allvíða dregið dám af því, sem tíðkaðist í þessu efni á dögum höfundanna. Glúma er merkileg að því leiti, að þar má sína fram á, að *viðburðir* samtíða höfundinum muni hafa haft áhrif á frásögn sögunnar frá þeim *viðburðum*, sem hún lísir og heimfærir til sögualdarinnar. Alt bendir til þess, að höfundur hafi verið Eifirðingur, bæði kunnugleiki hans um Eijafjörð og það, að eifirskir viðburðir eða viðburðir, sem snerta það hjerað, hafa haft áhrif á söguna.

Orðfærið í Glúmu er hreinn söguстill. Það er undantekning, að klerkakeimur sje að málinu (t. d. *at reyndum hans drengskap* k. $1^{69}$). Sjaldgæf orð koma firir, t. d. *gumsa ehn.* k. $2^{32}$ = hæða, sbr. *gems, gemsa*, no. *gamsa, gumsa; gleipa* k. $26^{48}$ = kjafta (ritvilla f. geipa?) *hrunki* k. $4^{48}$ = hrúgald, dóli, firirferðarmikill maður í óvirðulegri merkingu.

Uppistaðan er nokkurn veginn óslitin. First er sagt frá föður Víga-Glúms í 1.—5. k. Síðan filgir sagan Glúmi til dauðadags. Þó er hjer annmarki á. Kaflarnir um víg Hlöðu-Kálfs og um viðureign Glúms og Skútu, sem standa saman inni í miðri sögunni (13.—16. k.), standa í engu sambandi hvor við annan nje heldur við málið í kring, og eru líkur til, að þessum einkennilegu smásögum um Glúm hafi verið stungið hjer inn í söguna, eftir að hún var fullgerð að öðru leiti. Enn alt bendir til, að þær sjeu eftir sama mann og meginsagan. Höfundur notar þessar smásögur til að filla með þeim þau ár, sem liðu frá því, er þeir frændur Arngrímr og Steinólfr vóru í uppvexti (12. kap.), þangað til misklíðin kom upp á milli þeirra, þegar þeir voru fullorðnir (20. k.). Þar kem-

ur líka inn á milli sagan um þá viðburði, sem leiddu til vígs Bárðar hvíta og sektar Vigfúss Víga-Glúmssonar (17.—19. k.). Enn sá þáttur stendur í nánu sambandi við söguna, sem á eftir fer. Annars er 20. kap. beint áframhald af 12. kap. Nokkrar endurtekningar eru í sögunni, t. d. segir hún tvisvar frá útkomu Glúms og heimkomu til móður sinnar (k. $7^{2}$ og $7^{70}$). Í k. $7^{76-7}$ eru orðin *þat sumar áttu þau Glúmr akrinn at hafa, ef at réttu færi* endurtekning á því, sem sagt er áður í sama kap. ($7^{56-7}$). Það sem segir um Víkinga-Kára-ættina í upphafi 5. k., er að nokkru leiti endurtekning á því, sem segir í k. $3^{24}$, þar sem Vigfúss hersir kemur first til sögunnar. Í upphafi 17. k. segir: „Glúmr gat börn við konu sinni“, og nefnir sagan sonuna Má og Vigfús, enn af þeim er Más áður getið í 13. k. og þar á eftir. Þessi upptalning barna Glúms og Halldóru hefði átt að standa þar, sem Már kemur first til sögunnar. Merkilegt er, að Þórlaug, dóttir Glúms, sem er nefnd í næsta kapítula á undan, er hjer ekki talin meðal barna hans. Stöku sinnum eru menn nefndir til sögunnar, sem ekki eru kintir áður, t. d. Kálfr á Stokkahlöðum k. $13^{37}$ og þeir Jöðurr og Eyjólfr Þorleifsson hins háva k. $21^{90\ 91}$. Þetta, sem nú hef jeg talið, eru smágallar á uppistöðunni. Höfundur kann þá list, að boða firirfram það, sem á eftir kemur í sögunni, með draumum og spásögnum (draumar Glúms, spá Oddbjargar farandkonu k. $12^{11-32}$), og ifir höfuð má segja, að sagan sje samin af talsverðri íþrótt, þó að hún standi á baki þeim sögum, sem hæst standa að því leiti. Samtöl persónanna eru víðast hvar eðlileg og blátt áfram, enn ekki sjerlega smellin nema einstöku orðstef, sem Glúmi eru eignuð („Svá lýkr hér hverju hestaþingi“ k. $13^{64}$, þegar Hlöðu-Kálfr slær Ingólf með stafnum — „Lítil fremd at spilla klæðum manna“ k. $16^{52}$, þegar Skúta leggur spjóti sínu til kápu Glúms, sem hann hafði kastað í ána — „Kom heill þú, Þundarbenda, gott kaup var þat, er ek keypta þik, þú munt nú vel gjalda verð þitt í dag“ k. $23^{6}$, mælt við Vigfúss, þegar hann kemur til liðs við

Glúm föður sinn í bardaganum á Hrísateig. — „Harðslægr var Hrísateigr nú í dag, sveinar“ k. $23^{66}$ — sagt eftir bardagann, o. fl.). Ifirleitt má segja, að sagan sje skemtileg aflestrar og sumir kaflar ágætlega sagðir, t. d. sagan um eltingaleik þeirra Glúms og Víga-Skúta (16. k.), eða sagan um það, er Glúmr varð að víkja burt frá Þverá (26. k.).

Í sögunni er ekkert, sem komi beint í bága við hin fornu lög eða stjórnarskipun þjóðveldisins eða bendi til, að höfundur hafi lifað eftir það, að landið komst undir konung. Einn staður er þó nokkuð grunsamlegur. Í 24. k. segir, að Þórarinn hafi stefnt Glúmi um víg Þorvalds króks til Hegranesþings, af því að allir þeir goðar, sem því þingi áttu að halda, vóru venslaðir Þórarini. Þetta var bersínilega lagabrot, því að bæði vetvangur og báðir málsaðilar vóru í Vaðlaþingi, og þangað átti málið að sækja að lögum. Enn þetta kemur bersínilega fram sem undantekning frá lögunum í sögunni, enda má finna dæmi til slíks á Sturlungaöldinni. Vorið 1216 stefnir Snorri Magnúsi goða á Seltjarnarnesi skóggangsstefnu til Þverárþings. Magnús kallaðist þar utanþingsmaður, enn Snorri bað hann þar vörn fram færa, og gerir hann síðan sekan skógamann á Þverárþingi.[1]) Glúmr gengdi þó stefnunni og fór til Hegranesþings, og segir sagan, að hann mátti eigi nær tjalda enn í *„fjörbaugsgarði“*. Þetta er nokkuð grunsamlegt orðatiltæki, enn virðist þó mega til sanns vegar færa, þíðir víst hjer s. s. í *örskotshelgi* við þingstaðinn, því að fjörbaugsmaður var heilagur í *örskotshelgi* við þau 3 heimili, sem hann valdi sjer, og við götuna milli þeirra og frá þeim til skips, þegar hann fór utan. Þessi staður í Glúmu ber því als ekki vott um það, að höfundur hafi verið ókunnugur varnarþingslögum þjóðveldisins, heldur að eins um það, að hann hafi heimfært upp á eldri tíma það lagaleisisástand, sem keirði svo úr hófi á hans sjálfs dögum eða á Sturlungaöldinni. Af þessu öllu virðist mega ráða, að sagan

1) Sturlunga[3] I 327.

sje tæplega ingri enn 1271. Niðurstaðan verður því, að hún muni vera rituð um eða laust eftir miðja 13. öld. Þess má geta, að um þessar mundir (1245—1250) ræður Þórðr kakali Sighvatsson firir í Eijafirði, og áttu þeir feðgar kin sitt að rekja til Víga-Glúms. Landnáma[1]) rekur þessa ætt frá Víga-Glúmi gegnum Má, son hans, niður til Hvamms-Sturlu, enn fellir úr liði, eins og Jón próf. Jónsson hefur sínt.[2]) Má vera, að Glúma sje samin undir handarjaðri Þórðar kakala, enn þó mælir það heldur á móti því, að Glúma rekur ekki þessa ætt frá Glúmi til Hvamms-Sturlu. Það hef jeg áður tekið fram, að höfundur muni eflaust hafa verið Eifirðingur, eða að minsta kosti búið langvistum í Eijafirði. Í sögunni er ekkert, sem bendir til, að höfundur hafi verið klerkur. Þvert á móti segir hún hleipidómalaust frá hinni fornu dírkun heiðinna goða, og merkilegt er það, að þó að Þverá sje lengst af miðdepill sögunnar, þá minnist sagan hvergi á klaustrið, sem síðar var sett þar. Þetta bendir eindregið í þá átt, að höfundur hafi verið leikmaður, og gerir það ólíklegt, sem Cederschiöld hefur haldið fram, að hann hafi þekt og notað Disciplina clericalis í þættinum um víg Hlöðu-Kálfs.

---

1) Útg. 1843, III, 67. k., 222. bls. — 2) Tímar. XVIII, 196. bls.

## Ljósvetninga saga.

Jeg tel þessa sögu með eifirsku sögunum, af því að svo mikið af henni gerist í Eijafirði og af því að þar ber einna mest á tveimur eifirskum höfðingjum, þeim feðgum Guðmundi ríka og Eyjólfi halta, sem báðir bjuggu á Möðruvöllum í Eijafirði (ekki Möðruvöllum í Hörgárdal), og mætti sagan því eins vel heita Möðruvellinga saga eins og Ljósvetninga saga, enda hefur A. U. Bååth stungið upp á að kalla hana svo, í ritgjörð sinni um uppistöðu hennar o. fl. Íslendingasagna.[1])

*Handrit.* Tönn tímans hefur búið illa við Ljósvetninga sögu, því að nú eru að eins til af henni *brot af 2 skinnhandritum.* Það sem eftir er af öðru þessara handrita, er geimt í 162 C fol. í Árnasafni, kallað C í útgáfu Guðmundar Þorlákssonar, og eru það að eins 3 blöð illa útleikin og lítt læsileg. Firsta blaðið birjar aftarlega í 5. k. og endar í miðjum 7. k. sögunnar, annað nær ifir niðurlag 11. k., allan 12. k. og firri hluta 13. k., þriðja og síðasta blaðið birjar aftast í 24. k. og endar framan til í 27. k. Þetta eru þá hinar sorglegu leifar Ljósvetninga sögu þeirrar, sem staðið hefur í þessu handriti. Enn handritið hefur náð ifir fleiri sögur, því að auk þessara 3 blaða eru til 3 heil blöð úr sama handriti, þar af 1 úr Vápnfirðinga sögu, 1 úr Droplaugasona sögu, 1 úr Finnboga sögu ramma og partur af blaði úr Þorsteins þætti stangarhöggs. Loks hefur í sama handriti verið riddarasagan Saulus saga og Nikanors, og eru til af henni 4 blöð. Þetta hefur því ekki verið lítill sagnabálkur. Hand-

---

1) A. U. Bååth: Studier öfver kompositionen i några isl. ättsagor, 2. bls.

ritið virðist ekki eldra enn frá 15. öld. Á 17. öldinni hefur sá partur handritsins, sem Ljósvetninga saga var á, enn verið til í nokkurn veginn heilu lagi, því að öll pappírshandrit sögunnar, sem nú eru til, eru kinjuð frá þessu handriti og filla eiðurnar, sem í því eru, nema niðurlagið, sem er glatað með öllu.

Hitt handritið, sem hefur geimt leifar af Ljósvetninga sögu, er 561, 4to í Árnasafni. Þetta brot af Ljósvetninga sögu er talsvert stærra enn brotin af 162 C fol., als er það 9½ blað. Í þessu handriti hafa verið fleiri sögur, óvíst hve margar; geimst hafa auk nefndra 10 blaða úr Ljósvetninga sögu 15½ blað úr Vémundar sögu og Víga-Skútu og 16 blöð úr Gull-Þóris sögu. Als eru til 41 blað. Handrit þetta er eldra enn hitt skinnbrotið af Ljósvetninga sögu, ritað um 1400. Það er kallað A í útgáfu Guðmundar Þorlákssonar, enn 162 C fol. C, og held jeg þeim nöfnum.

Hvergi verða þessi tvö skinnbrot samferða í sögunni, því að það, sem er til í öðru þeirra, vantar alstaðar í hitt. Því miður eru ekki til neinar pappírsafskriftir af A, meðan það var heilt, og er það leitt, því að ef vjer berum A saman við pappírshandritin, sem eru öll runnin frá C, þá sjáum vjer, að A og C hafa verið mjög ósamkinja og ólík hvort öðru víðast hvar, að því er snertir meðferð efnisins, þó að stöku kaflar sjeu nokkurn veginn samhljóða. Í A hafa geimst þessir kaflar: 1) Upphaf aftur í 4. k.; 2) niðurlag 13. k., 14. k. og firri hluti 15. k.; 3) upphaf 16. k.; 4) 18. k. allur nema upph., 19. og 20. k. og 21. k. nema niðurlagið.

— — —

Ljósvetninga saga, eins og hún er til vor komin í C-handritunum, er ekki ein söguheild frá upphafi til enda, heldur samsett af fleiri þáttum. Þættirnir eru:

1. Ljósvetninga þáttur, segir frá deilum þeirra feðga, Þorgeirs Ljósvetningagoða og sona hans, og endar á því, að sinirnir bera hærra hlut. Guðmundr ríki kemur við þessar deilur að því leiti, að hann veitir Þorgeiri móti sonum hans, og er hans getið alt í einu við söguna og nefndur

Guðmundr eintómur, þar sem hann kemur first fram, enn ekki kintur áður. Guðmundr er hjer aukapersóna.

2. Þáttur af Sörla Broddhelgasini og Guðmundi ríka, segir frá, hvernig Sörli fjekk Þórdísar, dóttur Guðmundar. Guðmundr er hjer kintur í upphafi þáttarins, eins og hans hefði ekki verið getið áður, og sömuleiðis Sörli (þó er ekki sagt frá bústað Guðmundar, sem auðsjáanlega hefur fallið úr, því að þátturinn greinir bústað Einars, bróður Guðmundar). Þessi þáttur stendur bersínilega ekki í neinu sambandi hvorki við það, sem á undan fer, nje við það, sem á eftir kemur. Annars er þessi stutti þáttur indislega fallegur og vel saminn.

3. Þáttur af Reykhverfingum. Hann skiftist aftur í 2 undirþætti, sem minda eina samanhangandi heild, segir hinn firri frá viðureign Reykhverfinga, þar á meðal first og fremst Ófeigs í Skörðum, við Guðmund ríka,[1]) enn síðari undirþátturinn er kallaður í sögunni sjálfri Vöðu-Brands þáttur, af því hann segir mest frá Vöðu-Brandi, enn aðalefnið er þó deila sú, sem hlítst af honum milli Guðmundar ríka öðru megin og hinu megin Þorkels Geitissonar í Krossavík, Ófeigs í Skörðum og Einars bróður Guðmundar, sem loks kemur á sáttum með hjálp Ófeigs. Að þessir þættir eigi saman sem ein heild, sjest á því, að í firri þættinum spáir Guðmundr því, að Ófeigr mundi leggjast á móti sjer, þegar sjer liggi mest á, og þessi spádómur rætist einmitt í Vöðu-Brands þættinum, þar sem Ófeigr sníst í lið með Þorkatli Geitissini móti Guðmundi, og er þar beint vitnað í spádóm Guðmundar í firri þættinum. A. U. Bååth hefur í áðurnefndri ritgerð sinni leitt full rök að því, að báðir þessir þættir eru frá upphafi ein heild og standa ekki í neinu sambandi við þættina á undan nje á eftir. Guðmundr ríki og Einarr bróðir hans eru hjer kintir í upphafi þáttarins, eins og þeir hefði ekki verið nefndir áður, sem sínir, að frásögnin er óháð því, sem á undan fer, enda er efnið alt annað.

---

1) G. Þ. kallar þennan þátt ranglega Reykdæla þátt, blandar saman Reikjadal og Reikjahverfi.

4. Þáttur af Guðmundi ríka, segir first frá deilum Guðmundar við Þóri og vígi Þorkels háks út af illmæli um Guðmund, síðan frá draumum og dauða Guðmundar. Guðmundur Þorláksson gerir úr þessu 2 þætti, enn A. U. Bååth hefur sínt fram á það með ljósum rökum, að þetta er alt ein samanhangandi heild frá upphafi. Guðmundr ríki og kona hans eru hjer kint í upphafi þáttarins, eins og Guðmundar væri ekki getið áður, og sama er að segja um Einar bróður hans. Þar í upphafinu er og kintur Þórir Helgason, sem ekki er nefndur áður, og Þorkell hákr, sem er áður kintur lauslega í 1. þætti. Alt þetta bendir til, að þessi þáttur sje frá upphafi ekki í neinu sambandi við þættina á undan, heldur óháður þeim. Að vísu er efni þáttarins að því leiti framhald af 1. þætti, sem hann segir frá Þorkatli hák og hefnd þeirri, sem Guðmundr kom fram á hendur honum firir illmælið, og náði sjer þannig niðri á honum firir þann ósigur, sem hann hafði beðið firir honum og bræðrum hans og 1. þáttur segir frá. Enn þó setur þessi 4. þáttur þessa hefnd Guðmundar ekki í neitt samband við deilurnar í 1. þætti, heldur að eins við illmælið, og alt annað efni þáttarins er alveg óháð 1. þætti. Í 1. þætti eru þeir Þorgeirr Ljósvetningagoði og sinir hans höfuðpersónurnar, enn í þessum 4. þætti er Guðmundr ríki aðalmaðurinn, sem alt snist um. Þessi þáttur er sú eiginlega Guðmundar saga. Sumum persónum er hjer líst nokkuð öðruvísi enn í þáttunum á undan, eins og Bååth hefur bent á. T. d. kemur Guðmundr hjer fram sem huglaus, enn á því ber ekki í firri þáttunum. Ófeigr í Skörðum kemur hrottalega fram,[1]) enn stillilega og með gætni í firri þáttunum. Þetta bendir til, að höfundur að Guðmundar þætti sje ekki sami maður og höf. þáttanna á undan.

5. Eyjólfs þáttur halta Guðmundarsonar er beint áframhald af Guðmundarþættinum næst á undan, og eru þessir þættir víst ein samanhangandi saga frá upphafi. Það sjest á því, að í Guðmundarþættinum er sagt frá

1) Ljósv., k. 21[21-38].

draumi Guðmundar og ráðningu Drauma-Finna á honum, að hefndir firir víg Þorkels háks mundi koma fram á einhverjum frænda Guðmundar[1]). Líka segir sagan frá því, að Guðmundr ríki gekk til frjettar við Þórhildi Vaðla-ekkju um það, hvort mannhefnd mundi koma firir víg Þorkels háks, og fjekk það svar, að hann sjálfur þirfti ekki að óttast, enn nær mundi verða stírt einhverjum sini Guðmundar. Þessir tveir spádómar koma fram í Eyjólfs sögu, þar sem Koðrán, sonur Guðmundar, bróðir Eyjólfs, deir af sárum þeim, sem Hallr Ótryggsson veitti honum í orustunni við Kakalahól,[2]) og stefnir allur firri hluti sögunnar að þessum viðburði, og síðari hlutinn aftur að 32. k. snist allur um hefndina eftir Koðrán og er beint áframhald af firri hlutanum. Í þessum Eyjólfsþætti er Eyjólfr, sonur Guðmundar ríka, höfuðpersónan, eins og faðir hans í Guðmundarþættinum, og báðir þættirnir segja aðallega frá deilum þeirra feðga Möðruvellinga við Ljósvetninga, afkomendur Þorgeirs Ljósvetningagoða. Þessir tveir þættir virðast því vera ein samanhangandi söguheild, og blærinn á þeim bendir til, að þeir muni vera eftir sama manninn. Mætti kalla þessa sögu Möðruvellinga sögu. Að einhver maður af Möðruvellinga ætt hafi samið eða fjallað um þessa sögu, virðist bæði líklegt í sjálfu sjer, og sjerstaklega bendir í þá átt útúrdúr, sem sagan gerir um veglindi Ketils, síðar biskups, Þorsteinssonar, sonarsonar Eyjólfs halta, við Guðmund þann, sem orðaður var við Gróu konu Ketils, og mun jeg síðar minnast á þann útúrdúr. Aftan við Eyjólfsþáttinn er kafli, sem ekki á skilt við deilur Eyjólfs við Ljósvetninga og er lauslega skeittur við söguna á undan. Sá kafli segir frá því, að Þórarinn ofsi drap Þorgeir Hávarsson, hirðmann Ólafs konungs helga, og að Ólafr konungur hafi gert Eyjólfi orð og beðið hann ráða Þórarin af dögum til hefnda firir víg Þorgeirs, segir síðan frá leiðarþingi, sem þeir voru báðir á Eyjólfr og Þórarinn ofsi, og frá missætti Þórarins við þræl sinn Greip. Þar endar sagan í

1) Ljósv., k. 21[19]. — 2) Ljósv., 24. k.

miðju kafi, og er niðurlagið glatað, enn auðsjeð er, að það hefur sagt frá því, að Greipr þræll hafi drepið Þórarin að undirlagi Eyjólfs. Sagan hleipur hjer alt í einu aftur í tímann, því að þetta gerist á dögum Ólafs helga, enn deilur Eyjólfs við Ljósvetninga, sem sagan segir frá næst á undan, gerast á dögum Haralds harðráða. Þetta og það, að efnið stendur ekki í neinu sambandi við það, sem á undan fer, sínir, að þessum kafla muni vera síðar aukið aftan við söguna. Annars segir Fóstbræðra saga líka frá þessu sama efni, enn svo eru miklar missagnir í þeirri frásögn, að það er auðsjeð, að sögurnar eru hvor annari óháðar, eins og jeg drap á við Fóstbræðra sögu. Meðal annars eignar Fóstbræðra saga það Guðmundi ríka, enn ekki Eyjólfi sini hans, að hann hafi ráðið af dögum Þórarin ofsa „á mannamóti í Eyjafirði",[1]) og er sú sögn miklu líklegri sakir tímatals.

Niðurstaðan verður þá sú, að Ljósvetninga saga, eins og hún er til vor komin í C-handritunum, sje í rauninni safn af 4 ósamkinja sögum eða þáttum: 1. Ljósvetninga sögu, 2. Sörla þætti, 3. Ófeigs sögu og Reykhverfinga, og 4. Möðruvellinga sögu.

Þessa niðurstöðu staðfesta nú líka að nokkru leiti leifar þær af sögunni, sem geimst hafa í A. Upphaf sögunnar aftur í 4. k. (21. línu) — með öðrum orðum Ljósvetningaþátturinn að niðurlaginu undanskildu — hefur þar geimst á 3 blöðum (á 1. bls. 1. blaðs er þó niðurlag Gull-Þóris sögu). Þessi 3 blöð eru áföst á kjölnum við önnur 3 blöð, og birjar hið firsta þeirra í k. $13^{130}$, eða framarlega í Guðmundar þætti ríka. Þar á milli er eiða, sem kemur af því, að blöð hafa tínst innan úr kverinu. Nú eru skinnbókarkver sjaldan stærri enn átta blöð, og er því líklegt, að blöðin, sem tínst hafa innan úr, hafi ekki verið fleiri enn 2, sem auðvitað hafa verið áföst hvort öðru á kjölnum eins og hin 6, sem til eru. Nú má telja sjálfsagt, að á þessum tíndu blöðum hafi staðið niður-

1) Fóstbrs. K. G., 59 og 78. bls., Hauksbók 386. bls., Flat. II, 166. bls.

lagið af Ljósvetningaþættinum og upphafið á Guðmundarþættinum, og með samanburði við C-handritin, sem hafa geimt þessa kafla, sjáum vjer, að það svarar því, að þessir kaflar og ekki meira komist á tvö blöð í A. Af þessu virðist mega ráða, að í A hafi ekki frá upphafi staðið þeir 2 þættir, sem C-flokkurinn hefur milli niðurlags Ljósvetninga þáttar og Guðmundar þáttar, með öðrum orðum hvorki Sörla þáttur nje þátturinn af Ófeigi og Reykhverfingum, og stiður þetta þá niðurstöðu, sem vjer komumst að, að þessir þættir hafi ekki staðið í sögunni upphaflega. A hefur þá frá upphafi að eins innihaldið Ljósvetningaþáttinn og firir vist Guðmundarþáttinn allan, síðasta blaðið, sem til er, endar í miðju kafi í draumi Einars þveræings, rjett áður enn sagt er frá dauða Guðmundar, — enn fremur að öllum líkindum Eyjólfsþáttinn, þó að ekkert minsta brot hafi geimst af honum í þessu handriti, enn að hann hafi staðið í handritinu frá upphafi, leiðir af því, að þessir 2 þættir — Guðmundar og Eyjólfs — virðast frá upphafi hafa verið ein samfeld saga, sem áður var sínt, og af því, að A hefur spádóma þeirra Drauma-Finna í ráðningunni á draumi Guðmundar og Þórhildar Vaðlaekkju um það, að mannhefndir firir Þorkel hák muni koma fram á einhverjum sini Guðmundar, enn þessir spádómar vísa til vígs Koðráns Guðmundarsonar, sem Eyjólfsþátturinn segir frá.

Vjer getum þá sjeð, hvernig Ljósvetninga saga, eins og vjer höfum hana, muni vera til orðin. Upphaflega urðu til 4 sjálfstæðar og ósamkinja sögur, Ljósvetninga saga, Sörla þáttur, Ófeigs saga og Reykhverfinga og Möðruvellinga saga. Þá tók maður sig til, líklega á hinni miklu safnöld, 14. öldinni, og steipti saman 2 af þessum sögum, Ljósvetninga sögu og Möðruvellinga sögu. Frá þeirri samsteipu stafar sú gerð sögunnar, sem leifar eru af í A. Nokkru síðar bætti svo annar safnandi inn í þessa eldri samsteipu Sörlaþættinum og þætti Ófeigs og Reykhverfinga milli Ljósvetningaþáttar og Möðruvellingaþáttar. Þetta er hin ingsta gerð sögunnar, sú sem geimst hefur í C-handritunum.

Það er annars að ímsu leiti fróðlegt, að bera hina eldri gerð sögunnar, sem geimst hefur í A, saman við tilsvarandi kafla í C-gerðinni. Því miður getur samanburðurinn ekki orðið fullkominn, af því að svo mikið af A-gerðinni er glatað. Firsti þáttur sögunnar, Ljósvetningaþátturinn í A, er, það sem hann nær, svo að segja eins í A og C, að eins með lítilfjörlegum orðamun, svo að það er auðsjeð, að báðar gerðir sögunnar eiga á þessum kafla kin sitt að rekja til sameiginlegs frumrits. Þá vantar í A niðurlagið á Ljósvetningaþætti og upphafið á Möðruvellinga sögu (Guðmundar þátt), enn þegar handritið tekur til aftur framarlega í Möðruvellinga sögu, þar sem segir frá ráðaleitun Guðmundar ríka til Einars Konálssonar (= k. $13^{1\ 30}$ í C) út af viðureign hans við Þóri Helgason, þá birjar kafli í A, sem er að vísu líks efnis og tilsvarandi kafli í C, enn þó svo frábrugðinn honum bæði að orðfæri og niðurskipun efnisins og missögnum, að það er auðsjeð, að á þessum kafla er um tvær gerðir sögunnar að ræða, sem ekki geta stafað frá sameiginlegu frumriti. Að því er niðurskipun efnisins snertir, skal jeg benda á, að sagan um það, er Einar ginti sveininn Guðmund bróður sinn til að höggva í skalla fóstra síns, stendur fir í A enn í C, sömuleiðis að sagan um skikkjuna, sem Guðmundr gaf Einari bróður sínum til liðs við sig, stendur síðar í A enn í C. Enn þá athugaverðara er þó það, að nöfnin á ímsum þeim persónum, sem við söguna koma, eru öðruvísi í A enn í C, t. d. heitir hinn norski stírimaður, sem gefur Guðmundi höggstað á einum af þingmönnum Þóris Helgasonar, Ingjaldr í A, enn Helgi Arnsteinsson í C, og sá maður, sem firir sökum er hafður og svikið hafði stírimanninn í kaupum, er nefndur Þorgils Akrakarl í A, enn Þórir Akrakarl í C (bjó á Ökrum í Hörgárdal). Njósnarmaðurinn, sem Guðmundr sendir til Þorkels háks, áður enn hann fer að honum og drepur hann, heitir og Þorsteinn rindill í A, enn Þorbjörn rindill í C. Líka eru missagnir um atvik að ímsum viðburðum, t. d. um atvikin að því, hvernig Akrakarl fór að því, að svíkja stírimanninn, og um það, hvernig það komst upp, að

Þórir Helgason hafði dregið undan fjeránsdómi nokkuð af kvikfje Akrakarls, sem verður til þess, að Guðmundr fær skóggangssök á hendur Þóri. Ef vjer berum saman gerðirnar, þá leinir það sjer ekki, að textinn í A er ifirleitt eldri og upphaflegri enn textinn í C. T. d. eru ráðagerðir þeirra Guðmundar og Einars Konálssonar, sem þessi kafli birjar á, miklu greinilegar og betur sagðar í A enn í C. Í frásögninni um þann undandrátt á fje Akrakarls, sem Þórir Helgason gerði sig sekan í, gerir C miklu meira úr tilgerðum Þóris og ber honum verr söguna enn A, segir t. d., að Þórir hafi afmarkað hafrana, sem hann duldi, rjett firir fjeránsdóminn, enn þess getur A ekki, og eru þetta bersínilega íkjur í C. Að vísu er frásögnin hjer nokkuð ruglingsleg í A, enn sljettari og mikri í C, enn einmitt þetta virðist mjer benda til, að frásögnin í A sje upphaflegri.

Þessi kafli sögunnar, sem til er í 2 mismunandi gerðum, nær ifir deilur Guðmundar við Þóri Helgason, nema upphafið og niðurlagið — þar er eiða í A —, og ifir tildrögin að vígi Þorkels háks, endar á því, að Rindill, njósnarmaður Guðmundar, sem gistir hjá Þorkatli, kemur út klæðlaus um nóttina til að taka á móti Guðmundi og flokki hans, sem ríður að bænum (= niðurlag 18. k. Ljósvetninga sögu eftir C), og er allur þessi kafli prentaður stafrjett eftir A aftan við útgáfu Guðmundar Þorlákssonar. A þrítur þó ekki, þar sem Rindill kemur út á móti Guðmundi, heldur segir söguna óslitna áfram, enn nú bregður svo við, að hjeðan í frá ber A og C í öllu verulegu saman, alt þangað til að A þrítur firir fult og alt síðast í Guðmundarþætti Möðruvellingasögunnar, og er auðsjeð, að á þessum kafla liggur eitt sameiginlegt frumrit til grundvallar báðum gerðunum A og C, eða rjettara sagt, að hjer er að eins um eina gerð sögunnar að ræða.

Hvernig á nú að skíra þetta, að handritaflokkunum ber svo vel saman í first og síðasta kaflanum, sem þeir hafa sameiginlega, enn eru fullir af missögnum í miðkaflanum? Það getur enginn efi verið á, að sá maður,

sem hefur samið ingri gerðina, C, hefur haft firir sjer handrit af eldri gerðinni, A, því að hann eikur inn í hana Sörlaþætti og Reykhverfingaþætti og af því að C-gerðin er A samhljóða bæði í upphafinu (Ljósvetningaþættinum) og aftan til í Guðmundarþætti. Enn í það handrit af A-gerðinni, sem hann hafði firir sjer, hlítur að hafa verið eiða á þeim kafla, þar sem missagnirnar eru milli gerðanna. Þann kafla hefur svo C-höfundurinn filt *eftir minni sínu.* Öðruvísi verður þetta varla skírt, og sjerstaklega benda missagnirnar um mannanöfn og atvik til þess, að C-höfundurinn hafi á þessum kafla ritað eftir minni. Að líkri niðurstöðu kemst Guðbrandur Vigfússon í Origines Islandicae.

Þá skulum vjer rannsaka afstöðu Ljósvetninga sögu við aðrar sögur. Af því að vjer höfum sínt, að þættir sögunnar hafa frá upphafi verið 4 sjálfstæðar sögur, verðum vjer hjer að taka hvern þátt firir sig.

1. Ljósvetninga þáttur segir frá ímsum hinum sömu mönnum, sem getið er í Landnámu, enn alt bendir til, að þátturinn sje óháður Landnámu að öllu leiti og Landnáma þættinum. Einna ljósast kemur þetta fram þar sem þátturinn telur sini Þorgeirs Ljósvetningagoða, þá 4: Tjörva, Höskuld, Finn og Þorkel. Landnáma telur þessa alla, enn bætir því við um Finna, að hann hafi verið óskilgetinn sonur Leknýjar, útlendrar konu. Og auk þessara fjögra telur Landnáma 6 sonu Þorgeirs skilgetna og einn óskilgetinn (Þorgrím). Það er auðsjeð, að þátturinn hefur hjer ekki haft firir sjer Landnámu og að Landnáma hefur hjer farið eftir miklu fillri munnmælasögum enn þeim, sem lágu firir höfundi þáttarins. Í sömu átt bendir það, að Ljósvetninga þáttur rekur hvorki föður nje móður ætt Þorgeirs, enn hvortveggja er rakin í Landnámu.[1]) Sömuleiðis rekur Landnáma ætt þeirra Arnórs í Reikjahlíð og Snorra Hlíðarmannagoða, enn Landnáma ekki. Hins vegar segir Ljósvetningaþátturinn sumt fillra enn Landnáma. T. d. getur þátturinn

1) Sbr. Ljósv., k. 1[1] og 2[27], við Landnámu 1843, III, 18, bls. 227.

um Þórð, bróður Þorgeirs Ljósvetningagoða, enn Landnáma ekki. Landnáma getur ekki um, að Arnórr í Reikjahlíð hafi átt fleiri sonu enn einn, Böðvar að nafni. Þennan Böðvar þekkir Ljósvetningaþátturinn ekki, enn aftur á móti telur hann Þorfinn og Hallvarð sonu Arnórs, sem Landnáma getur ekki. Alt bendir því til, að þátturinn hafi haft firir sjer sjálfstæðar munnmælasögur og sje með öllu óháður Landnámu. Og ifir höfuð að tala hef jeg ekki fundið neitt það í þessum þætti, er bendi til, að höfundur hans hafi þekt eða notað skriflegar heimildir, sem nú eru til, eða að ingri skriflegar heimildir hafi þekt eða notað þáttinn.

2. Þáttur Sörla Broddhelgasonar virðist og vera alveg óháður öðrum ritum, sem nú eru kunn.

3. Reykhverfingaþáttur skiftist í Ófeigs þátt og Vöðubrands þátt, enn er frá upphafi ein saga. Þar er framan til rakin föðurætt Ófeigs í Skörðum, sem vanalega er kendur við móður sína og nefndur Járngerðarson. Þar stendur svo í skinnhandritinu C: „Þá bjó Ófeigr Járngerðarson í Skörðum. Önundr hjet faðir hans Hrólfssonar Helgasonar hins magra“. Guðmundur Þorláksson heldur, að hjer hafi fallið einn liður úr firir framan *Hrólfssonar*. Enn fult eins líklegt er, að *Hrólfssonar* sje ritvilla firir *Hrólfsson*, sprottin af því, að *Helgasonar* kemur á eftir, og að enginn liður hafi fallið úr. Á þeirri skoðun var Eggert Brím.[1]) Ef vjer berum þessa ættartölu saman við Landnámu, þá sjáum vjer, að Landnáma getur um Hrólf, son Helga magra, og telur sini hans, enn meðal þeirra er enginn, sem heitir Önundr, og Ófeigs í Skörðum er als ekki getið í Landnámu. Eggert Brím og Jón prófastur Jónsson hafa bent á það, að Landnáma nefnir einn af sonum Hrólfs Helgasonar Eyvind, og að þessum 2 nöfnum Eyvindr og Önundr er stundum ruglað saman í sögum. Vilja þeir koma sögunum heim þangað, að önnurhvor þeirra hafi ruglað saman þessum 2 nöfnum og að Ófeigr hafi verið sonur

---

1) Tímar. III, 102.—104. bls.

Önundar eða Eyvindar Helgasonar magra. Jeg skal láta ósagt, hvort þetta er rjett, enn þó svo væri, verður það ekki út skafið, að hjer er mótsögn milli heimildanna um þetta nafn og að Landnáma getur ekki Ófeigs, og þetta bendir ljóslega til, að heimildirnar sjeu hvor annari óháðar.

Síðast í þættinum[1]) er þess getið, að Jórunn dóttir Einars þveræings, sem Þorkell Geitisson átti, hafi verið hinn mesti kvennskörungur og komið því til leiðar, að þeir sættust frændurnir, Þorkell maður hennar og Bjarni Broddhelgason, og hafi þeir haldið þá sætt vel og drengilega síðan. Þetta kemur alveg heim við niðurlag Vápnfirðinga sögu,[2]) og er því líkast, sem þetta sje beint útdráttur úr þeirri sögu. Jeg hneigist því helst að því, að höfundur Reykhverfinga þáttar hafi hjer notað Vápnfirðinga sögu, enn játa þó, að það er ekki óhugsandi, að hann hafi farið eftir munnlegri arfsögn samhljóða Vápnfirðinga sögu. Á öðrum stað í þættinum er það gefið í skin, að fjárhagur Þorkels hafi verið í þrengra lagi,[3]) og kemur það líka heim við sama stað í Vápnfirðinga sögu, og bendir heldur til þess, að höfundur þáttarins hafi þekt og notað Vápnfirðinga sögu. Annars virðist þátturinn vera óháður öðrum heimildarritum, sem nú eru kunn.

4. Möðruvellinga þáttur, eða Guðmundar þáttur ríka og Eyjólfs þáttur halta. Hjer eru í upphafi raktar ímsar ættir, sem má bera saman við tilsvarandi ættartölur í Landnámu. First (k. 13[1]) segir, að Þórlaug, kona Guðmundar ríka, hafi verið dóttir Atla hins ramma og Herdísar, dóttur Þórðar frá Höfða. Þetta kemur alveg heim við Landnámu.[4]) Atli hinn rammi var af Skíðungaætt, bróðir Koðráns að Giljá, föður Þorvalds víðförla. Að höfundur Möðruvellingaþáttarins hafi þekt Koðrán og vitað, að hann var bróðir Atla hins ramma, sjest síðar í þættinum (k. 20[6]); þar segir, að Álfdís Koðránsdóttir,

---

1) Ljósv., k. 12[63]. — 2) Austfirðinga sögur, útg. Jakobsens, bls. 70—71. — 3) Ljósv., k. 11[56]. — 4) Útg. 1843, III, 6, bls. 188.

kona Brúna í Gnúpufelli, hafi verið bræðrungur Þórlaugar Atladóttur, konu Guðmundar ríka. Enn Landnáma þekkir als ekki þessa Álfdísi, sistur Þorvalds víðförla, og bendir þetta til, að höfundur Möðruvellingaþáttarins hafi um þessa ætt farið eftir sjálfstæðum munnmælasögum og geti að minsta kosti verið óháður Landnámu.

Þá rekur þátturinn[1]) ætt Þóris Helgasonar, andstæðings Guðmundar ríka. Ef vjer berum þessa ættartölu saman við tilsvarandi ættartölu í Landnámu,[2]) þá sjáum vjer, að þátturinn fellir úr einn lið. Valþjófr, afi Þóris, er eftir Landnámu ekki sonur Helga magra, eins og þátturinn segir, heldur sonur Hrólfs Helgasonar magra, og er Landnámu trúandi til að hafa þetta rjett. Villan í þættinum gæti auðvitað komið af því, að höfundur hafi haft Landnámu firir sjer og ritað eftir henni, enn felt burtu einn lið í ógáti. Enn hitt er engu ólíklegra, að þátturinn hafi hjer ekki haft firir sjer Landnámu, heldur farið eftir afbakaðri munnmælasögu.

Enn nefnir þátturinn í upphafi þá bræður Brúna og Eilíf í Gnúpufelli, sem koma mikið við söguna á eftir, og segir, að þeir hafi verið komnir frá Helga hinum magra, enn rekur ekki liðina.[3]) Nokkru síðar[4]) segir þátturinn, að frændsemi hafi verið með þessum Gnúpufellsbræðrum og Þorkatli hák, enn sú frændsemi er ekki rakin. Það er auðsjeð, að höfundur hefur haft að eins óljósar sagnir um ættir þessara manna. Landnáma getur ekki þessara Gnúpufellsbræðra, Brúna og Eilífs, enn hún gefur svo góðar upplísingar bæði um afkomendur Helga magra og um framætt Þorkels háks, að hjer má spá í eiðurnar með nokkurn veginn fullri vissu. Eftir Landnámu[5]) var Guðríðr, móðir Þorkels háks (kona Þorgeirs goða), dóttir Þorkels svarta í Hleiðargarði og Guðlaugar, dóttur Hrólfs í Gnúpufelli Helgasonar hins magra. Eftir Möðruvellingaþætti[6]) var Guðríðr þessi

1) Ljósv., k. $13^{5}$. — 2) Útg. 1843, III, 16, bls. 221. — 3) Ljósv., k. $13^{16\text{-}20}$. — 4) Ljósv., k. $20^{10}$. — 5) Útg. 1843, III, k. 17, bls. 223—4, sbr. III, k. 18, bls. 227 og III k. 16, bls. 221. — 5) Ljósv., k. $20^{8}$.

dótturdóttir Hrólfs Ingjaldssonar í Gnúpufelli, sem var sonarsonur Hrólfs eldra í Gnúpufelli Helgasonar hins magra, og er þetta eflaust rangt í þættinum og sínir eitt með öðru, að hann hefur ekki haft Landnámu firir sjer, sem rekur rjett ættliðina frá Þórkatli hák upp til Hrólfs eldra. Þar sem nú þeir bræður Eilífr og Brúni, eftir því sem Möðruvellingaþátturinn segir, bjuggu í Gnúpufelli, vóru komnir af Helga magra og í ætt við Þórkel hák, sem var 3. maður frá Hrólfi eldra Helgasini í móðurætt, þá ber alt þetta að sama brunni: Gnúpufellsbræður hafa verið af þeirri ættkvísl Helga magra, sem var komin frá Hrólfi eldra sini hans í Gnúpufelli. Eggert Brím getur þess til,[1]) að þeir Brúni og Eilífr hafi verið sinir Ingjalds í Gnúpufelli Hrólfssonar eldra, og er það nær sanni. Enn þó þikir mjer fult svo líklegt, að þeir hafi verið einum lið fjær Hrólfi eldra, sinir Hrólfs ingra Ingjaldssonar í Gnúpufelli. Frændsemi þeirra bræðra og Þorkels háks er þá þannig háttað:




Verða þeir eftir þessu óskakkir þremenningar Gnúpufellsbræður og Þorkell hákr.

Rjett á eftir þeim stað, þar sem Möðruvellingaþáttur getur um, að frændsemi hafi verið með Gnúpufellsbræðrum og Þorkatli hák, nefnir þátturinn til sögunnar Hlenna hinn spaka í Saurbæ. Ekki rekur þátturinn ætt Hlenna, enn segir að eins, að þeir hafi verið bræðrasinir hann og Þorgeirr (Ljósvetninga) goði.[2]) Þetta sínir betur enn nokkuð annað, hve óljósar og afbakaðar þær

1) Tímar. III, 102. bls. nm. — 2) Ljósv., k. $20^{11}$.

sagnir hafa verið, sem höfundur þáttarins hefur haft af þessum ættum. Ef vjer berum þessa staðhæfing þáttarins saman við Landnámu, sem rekur ætt beggja Hlenna og Þorkels lið firir lið, eflaust keiprjett, þá sjáum vjer, að þátturinn gerir sig hjer sekan í stórkostlegri villu, og um leið, hvernig á villunni stendur. Til skilningsauka set jeg hjer þessar ættartölur Landnámu í töfluformi:




Vjer höfum enga ástæðu til að efast um, að þessar ættartölur Landnámu sjeu rjettar. Á þeim sjest, að það er ekki Þorgeirr Ljósvetningagoði, sem er bræðrungur Hlenna, heldur kona Þorgeirs, Guðríðr. Ruglingurinn í Möðruvellingaþættinum kemur af því, að hann blandar saman ætt Þorgeirs og konu hans, líklega af því, að hann hefur ruglað saman alnöfnunum Þorkatli háva Þórissini og Þorkatli svarta Þórissini, og haldið, að Þorgeirr Ljósvetningagoði hafi verið sonur Þorkels svarta. Þessi staður í Möðruvellingaþættinum er því fullkomin sönnun firir því, að höfundur þáttarins hefur ekki haft firir sjer Landnámu, og hins vegar getur ekki komið til nokkurra mála, að Landnáma hafi þekt eða notað þáttinn.

Möðruvellingaþáttur kemur heim við Finnboga sögu ramma um það, að Þórir, son Finnboga ramma, hafi verið með Eyjólfi halta í bardaga þeim við Fnjóská, þar sem hann barðist við Ljósvetninga, enn ekki ber sögunum saman um, hvar bardaginn hafi staðið (við *Kakalahól* Möðruvellingaþ., við *Melrakkahól* Finnbs.).

Missögn þessi sínir, að sögurnar muni vera hvor annari óháðar. Annars hef jeg drepið á þetta áður, þegar jeg fór í Finnboga sögu.

Einn er sá viðburður, sem Möðruvellingaþátturinn er ekki einn til frásagnar um, og það er víg Halls Ótryggssonar. Haralds saga harðráða segir líka frá þessu, bæði Haralds saga í Morkinskinnu[1]) og í Flat.,[2]) í Huldu og Hrokkinskinnu,[3]) og Haralds saga Snorra í Heimskringlu.[4]) Ifir höfuð að tala er frásögnin í Haraldssögunum talsvert greinilegri enn í Möðruvellingaþættinum, og er svo að sjá, sem frásögn þáttarins sje útdráttur gerður eftir Haraldssögunni. Missagnir eru þó nokkrar. Möðruvellingaþátturinn segir, að vegandi Halls, Þórmóðr, „frændi Möðruvellinga“, væri Ásgeirsson, enn allar Haraldssögurnar telja hann Eindriðason, og tvær af þeim, Heimskringlu- og Fms.-gerðin, rekja ættina nákvæmlega, hinar, Morkinskinna og Flateijarbók, segja að eins, að Þormóðr hafi verið manni firnari enn sistrungur Guðmundar ríka, sem ekki kemur heim við ættartöluna í Heimskringlu og Fornmanna sögum, eftir henni er hann manni firnari enn sistrungur Koðráns Guðmundssonar.[5]) Möðruvellingaþáttur eignar Haraldi konungi þau orð, að enginn höggvi nú sterklegar ísinn enn Hallr Koðránsbani — sem verða til þess, að Þormóðr þekkir Hall og vegur hann, enn allar Haraldssögurnar eigna þessi orð „manni“ ónefndum. Annað, sem þáttinn greinir á við Haraldssögurnar, er óverulegra. Heimskringla getur þess ekki, að Þormóðr hafi farið til Miklagarðs eftir vígið

1) Útg. 1867, 92.—93. bls. — 2) III, 376.—377. bls. — 3) Fms. VI, 337—338. — 4) F. J. Har. harðr., 72. k., bls. 182. — 5) Ættartalan er svo í Heimskr. og Fms.:



og gengið þar á mála, enn svo segir bæði í Möðruvellingaþætti og í hinum Haraldssögunum. Ifir höfuð að tala svipar þættinum mest til Morkinskinnu og Flateijarbókar, enn þær segja báðar svo að segja eins frá þessum viðburði. Eflaust er hjer eitthvert samband á milli þáttarins og þeirrar gerðar Haraldssögunnar, sem er í Morkinskinnu og Flateijarbók, og líklegt þikir mjer, að höfundur hafi þekt þessa gerð, enn ekki haft hana við höndina, þegar hann skrifaði, heldur ritað söguna eftir minni sínu. Þá verða missagnirnar skiljanlegar.

Miklar líkur eru til, að höfundur Möðruvellingaþáttarins hafi þekt Þorgils sögu Oddasonar og Hafliða Mássonar, sem geimst hefur í Sturlungu. Báðar sögurnar segja svo að kalla eins frá misklíðinni milli Ketils Þorsteinssonar Eyjólfssonar halta, sem síðar varð biskup, og Guðmundar þess, sem Ketill grunaði að ætti vingott við konu sína Gróu, dóttur Gizurar biskups. Munurinn er helst sá, að þátturinn segir frá þessu með sínum orðum, enn Þorgils saga og Hafliða leggur frásögnina í munn Katli sjálfum og lætur hann segja Hafliða þessa sögu sem „dæmisögu“ úr lífi sínu um sáttgirni, til þess að fá hann til að sættast við Þorgils, eins og Ketill hafði sætst við Guðmund, þrátt firir það, að hann stakk úr honum augað, og haft gott af sáttgirninni. Orðalagið er sumstaðar næstum því eins í báðum sögunum.[1]) Ifirleitt er frásögnin fillri og greinilegri í Þorgils sögu enn í þættinum, og er svo að sjá sem þátturinn geri hjer útdrátt úr Þorgils sögu, enn þó segir hann það fillra enn Þorgils saga, að Ketill hafi búið á Möðruvöllum um þetta leiti, og að Guðmundr hafi verið fjelaus, þegar Ketill sættist við hann og bauð honum til sín, og sinir þetta, að þáttur-

1) Sbr. t. d. Möðruvellingaþátt (Ljósv., k. 31[37]) „ok fundust þeir á förnum vegi, ok veitir Ketill honum tilræði“ við Þorgils s. ok Hafliða (Sturl.[3] I, 42[18]): „ok eitt sinn, er vit hittumst á förnum vegi, þá veitta ek honum tilræði“, og Möðruv. þ. (ibid. 31[44]) „ok snerist Katli síðan hverr hlutr til sóma“ við ÞH. (Sturl.[3] I, 43[13]) „ok lagðist mér síðan hverr hlutr meir til gæfu ok virðingar enn áðr“.

inn hefur að nokkru leiti stuðst við sjálfstæðar munnmælasögur. Ein missögn er hjer um faðerni Guðmundar þessa; Möðruvellingaþáttur segir, að hann hafi verið sonur Odda Grímssonar í Höfða, sem barðist með Eyjólfi halta við Kakalahól, enn Þorgils saga telur hann Grímsson. Að öllum líkindum hefur hjer fallið einn liður úr í þættinum,1) og á þar eflaust að standa: *Hann var faðir Gríms f. Guðmundar.* Enginn efi virðist vera á því, að Oddi Grímsson í Höfða hafi verið af Höfðamannaætt; því miður rekur þátturinn ekki ættina lengra fram enn til Gríms föður Odda, enn allar líkur eru til, að sá Grímr hafi verið sonur Ásólfs flosa í Höfða (Vémundarsonar Þengilssonar mjöksiglanda landnámsmans) og Arnbjargar Kampa-Grímsdóttur, heitinn eftir móðurföður sínum.2) Hefur þessi Grímr þá verið bróðir Odda föður Gríms, er átti Valgerði Einarsdóttur þveræings.3) Ættin verður þá svona:




Á ættartölunni sjest, að Guðmundr, sökudólgr Ketils, er jafnhliða við Markús lögsögumann Skeggjason, og kemur það vel heim tímans vegna, og hefur þó Guðmundr líklega verið nokkru ingri enn Markús. Gróa,

1) Ljósv., k. 31[33]. — 2) Sbr. Landn. 1843, III 18, bls. 226 (Melabók), og II 18, bls. 116. — 3) Sjá Melabók Landn. (1843) orðamun við III 17, bls. 224, og IV 1, bls. 239, sbr. Þórðar s. hreðu, Kh. 1848, 65.—66. bls. — 4) Eggert Brim heldur (Safn III, 541), að Grímr þessi hafi verið faðir Odda Grímssonar og sonur Ásólfs í Höfða, enn firir því er enginn flugufótur.

dóttir Gizurar biskps, mun vera fædd um 1075. Hungrvaka segir, að Gizurr, faðir hennar, hafi kvongast, þegar hann kom úr hinni firstu utanferð sinni, líklega um 1070, og munu börn hans fædd á árunum 1070—1080. Líklega hefur hún gifst Katli um 1095 og verið þá um tvítugt, og litlu síðar, um eða laust firir aldamótin 1100, virðast skærurnar milli Ketils og Guðmundar hafa gerst. Þegar Ketill segir Hafliða dæmisöguna 1121, hafa allmörg ár verið liðin frá því að þeir Guðmundr sættust, því að Ketill segir: „ok bauð ek honum til mín, ok var hann með mér lengi síðan". Svarar þetta því, að sættirnar hafi orðið skömmu eftir aldmótin 1100. Þetta kemur ágætlega heim við Möðruvellingaþáttinn, ef Oddr Grímsson, sem er talinn gamall maður í Kakalahólsbardaga (um 1050), er föðurfaðir Guðmundar, enn hitt getur varla staðist, að hann hafi verið faðir hans. Jeg tel því vafalaust, að þátturinn, eða C-handritið, hafi hjer felt úr í ógáti einn lið, Grím föður Guðmundar, sem Sturlunga nefnir, og er þessi ógátsvilla, þó að hún stafaði frá höfundi þáttarins, sem er óvíst, als ekki því til firirstöðu, að höfundur þáttarins hafi þekt og notað Þorgils sögu og Hafliða.

Áður hef jeg minst á þann kafla í Möðruvellingaþættinum, sem segir frá vígi Þorgeirs Hávarssonar og hefndum þeim firir vígið, sem Eyjófr halti kom fram á hendur Þórarni ofsa. Þar verður þátturinn samferða Fóstbræðra sögu, og hef jeg sínt, að sögurnar eru hvor annari óháðar og að þessi kafli muni vera síðari íauki í Möðruvellingaþáttinn og honum í rauninni óviðkomandi. Annars segir þessi kafli mjög líkt frá meðferð Þórarins ofsa á höfði Þorgeirs Hávarssonar eins og Grettis saga frá meðferð Þorbjarnar önguls á höfði Grettis,[1]) og er þar líklega eitthvert samband á milli. Enn af því að þetta er í rauninni Möðruvellingaþættinum óviðkomandi, fjölirði jeg ekki um það.

Heinzel hefur í hinu merka riti sínu „Beschreibung

1) Sbr. Ljósv., k. 32[25] við Grett., Boer k. 82,27.

der isländischen saga"[1]) bent á það, að smásaga Möðruvellingaþáttarins um það, þegar Guðmundr ríki á barns aldri ljet Einar bróður sinn ginna sig til að höggva í skalla fóstra síns til að drepa flugu, sem þar hafði setst, minnir talsvert á þjóðsögu, sem er allra sveita kvikindi, kemur firir í fornindverskum ritum og í dæmisögum Lafontaines og víðar. Af þeim sögum, sem Heinzel vitnar í, hef jeg ekki lesið aðrar enn dæmisöguna hjá Lafontaine (8. bók, 10. dæmis.), og hún er ekki íkja lík sögunni um Guðmund og fóstrann. Þar segir frá því, að skógarbjörn og einsetumaður slá sjer saman og verða aldavinir. Björninn ver manninn firir aðsóknum annara díra. Eina nótt, þegar maður sefur, sjer björninn flugu, sem hefur setst á höfuð mannsnis, slær til flugunnar með hrammi sínum til að drepa hana, enn í því höggi rotar hann vin sinn. Í 2 af sögunum, sem Heinzel vitnar í, er það maður, sem kemur í stað bjarnarins hjá Lafontaine. Það getur verið, að einhver þess konar saga hafi snemma flutst hingað til lands og gefið tilefni til sögunnar um tilræði Guðmundar við fóstra sinn, enn hæpið er að fullirða neitt um þetta. Annars er svo að sjá á sögunni um Guðmund, sem hann hafi ekki drepið fóstra sinn með öxarhögginu, heldur að eins veitt honum áverka, og endar hún því ekki eins og útlenda sagan hjá Lafontaine að minsta kosti.

Frá hvaða tíma er Ljósvetninga saga? Vjer höfum áður sínt, að þeim sögum, sem hún er samsett af, muni hafa verið safnað í eitt á 14. öldinni. Enn þá er að rannsaka aldur hinna einstöku sagna eða þátta.

Firsti þátturinn, Ljósvetningaþátturinn, virðist ekki vera saminn fir enn nokkru eftir að landið komst undir konung. Það ræð jeg einkum af því, hve ruglingsleg og óljós frásögnin er frá málaferlunum milli Þorgeirs Ljósvetningagoða og sona hans, og sumt í henni, sem sínir, að höfundur hefur ekki þekt hin fornu lög eða stjórnar-

1) Bls. 50 (154).

skipun þjóðveldisins. Svo er t. d. sagt, að Þorgeirssinir hafi beðið Ófeig í Skörðum að ríða *„til leiðar“* til liðveislu við sig (k. 3[18]), enn bæði á undan og eftir sjest, að málaferlin fara fram um *vorið*, á *vorþingi*, og er Ófeigr þar, enn síðan stofna þeir bræður til óreglulegs þings í Fjósatungu, af því að þeir komu ekki málum sínum fram *„á vorþinginu“*.[1]) Enn *leiðir* voru haldnar eftir alþingi, þegar á leið sumarið, og fóru þar ekki saksóknir fram. Hjer er því bersínilega ruglað saman *leið* og *vorþingi*. Það sem Höskuldr er látinn segja um kvið og kviðburð virðist og koma í bága við forn lög. Höskuldr segir: „kalla þeir (ɔ: Þorgeirr og Guðmundr) oss (þ. e. mig og bræður mína) ómæta í kviðinum“, og síðar stendur: Höskuldr kvaðst mundu bera kviðinn í móti þeim, „ok mun þá fram ganga“ (k. 4[11] og [49]). Með þessu gefur sagan í skin, að þeir bræður hafi verið kvaddir kviðar um málið. Enn nú voru þeir sjálfir sakaðaðiljar (k. 3[16]) og gátu ekki borið kvið í sínu eigin máli. Höfundur virðist hafa haft mjög óljósar hugmindir um kvið. Ljósvetninga þáttur er því naumast samin fir enn svo sem einum mansaldri eftir að þjóðveldið og hin fornu lög þess liðu undir lok, eða ekki fir enn um aldamótin 1300. Og orðfæri sögunnar virðist koma vel heim við þetta.

Í Sörla þætti er ekkert, sem komi í bága við forn lög, og higg jeg, að hann sje talsvert eldri enn Ljósvetninga þáttur, enn mjög er ervitt að ákveða aldur hans. Þátturinn er perla, þó stuttur sje, að eins lítil smásaga. Eftir orðfæri að dæma virðist hann geta verið saminn um miðbik 13. aldar.

Í Reykhverfingaþætti bregður firir vanþekkingu á hinum fornu lögum þjóðveldisins í frásögninni um saksókn Guðmundar ríka á hendur Vöðu-Brandi í 10.—12. k. Í k. 10[7] segir, að Guðmundr hafi tekið mál af Þorbirni á Reikjum, sem Vöðu-Brandr hafði veitt áverka, og „búit til várþings“. Rjett á eftir (k. 10[14]) sjest,að þetta vorþing er *„Vöðlaþing“* Þá er sagt frá þinginu, og standa þar þessi

1) Ljósv., k. 3[14] áttu fund um várit, og 4[64] þeir kómu eigi fram á várþingi.

orð: „Guðmundr ríki sækir nú málit í *Norðlendingadóm*"; höfundur hugsar sjer með öðrum orðum, að á *vorþinginu*, á *Vöðlaþingi*, sje skipaður sjerstakur Norðlendingadómur og þá auðvitað líka sjerstakur dómur firir hina fjórðungana, eða að á vorþinginu hafi verið fjórðungsdómur líkt og á alþingi, og ber þetta vott um mikla vanþekkingu á hinni fornu dómaskipun og þingsköpum. Þessa kórvillu endurtekur svo höfundur síðar í þættinum, þar sem hann segir (k. $12^{58}$), að Þorkell Geitisson hafi gefið Guðmundi upp „mál þat, er hann hafði rangt til búit, er hann sótti í *Norðlendingafjórðung*, þá er hann átti í *Austfirðingadóm* at sækja". Á hitt legg jeg minni áherslu, að á einum stað stendur *Þorkell setti þeim lýritti* (k. $11^{8}$), sem er mjög óvanalegt og víst eins dæmi, í stað þess sem lögbækurnar kalla að *verja ehm eht lýriti* eða *láta koma lýrit fyrir eht* eða *færa fram lýrit fyrir eht*. Reykhverfingaþátturinn er því varla saminn fir enn um 1300.

Sumt er það og í Möðruvellingaþættinum, sem sínir, að höfundur hans hefur ekki þekt hin fornu lög þjóðveldisins af eigin reind. T. d. er það alveg óskiljanlegt eftir fornum lögum, hvernig á því stendur, að Eyjólfr halti, sem er goði í Vöðlaþingi, bír ekki vígsmál Koðráns sonar síns annaðhvort til Þingeijarþings, — þar var vetvangur, og þar átti vegandi heima — eða til Vöðlaþings, þar sem Eyjólfr sjálfur átti heima, heldur til Hegranesþings, þar sem hvorki var vetvangur nje vegandi nje sóknaraðili (k. $25^{27}$ og síðar). Eftir hinum fornu lögum átti Eyjólfr um tvent að velja, annaðhvort að búa málið til Þingeijarþings, þar sem vetvangur var og vegandi átti þingfesti, eða að stefna því til alþingis. Að stefna því til Hegranesþings virðist vera fjarstæða, nema því að eins að hjer sje átt við fjórðungsþing firir Norðlendingafjórðung, enn það er als ekki gefið í skin í sögunni, enda virðast fjórðungsþing hafa verið mjög sjaldtíðkuð á þjóðveldistímanum. Að höfundur hafi ekki haft minstu hugmind um, hvað fjeránsdómur var, sjest og á því, sem sagan segir um viðureign Eyjólfs og Ljósvetninga í k.

24[38]: „Þá var enn mönnum hleypt til féránsdóma á hvern bæ“ — sem er hrein og bein vitleisa. Af þessu virðist mega ráða, að Möðruvellingaþátturinn geti ekki verið saminn fir enn svo sem mansaldri eftir að landið komst undir konung. Því til frekari sönnunar má og telja það, að höfundur lætur Harald Noregskonung hinn harðráða kalla Íslendinga „mína þegna“ (í k. 29[43]).

Af þáttum þeim, sem kallaðir eru einu nafni Ljósvetninga saga, er Sörla þáttur langbest sagður. Hann er gimsteinn, þó stuttur sje. Ágæt er líka sagan um heimsókn þeirra Ófeigs og sveitunga hans til Guðmundar ríka í Reykhverfingaþættinum, enn seinni hluti þess þáttar — Vöðu-Brandsþátturinn — er alt daufari á bragðið. Sumir kaflar í Möðruvellingaþættinum eru og allvel sagðir, ekki síst skikkjusagan í 14. og 15. k. og þingsagan í 16. k., enn sumstaðar er frásögnin nokkuð ruglingsleg og óljós, einkum í Eyjólfsþættinum, enn þess ber að geta, að meginið af Eyjólfsþætti er ekki til nema í pappírshandritum, og getur verið, að sumt, sem er illa orðað eða óljóst, sje afskrifurum að kenna, enn ekki höfundi. Enn þá ruglingslegri er þó frásögnin í Ljósvetningaþættinum, einkum kaflinn um málaferlin milli feðganna Þorgeirs og sona hans, og hlítur það að hafa verið svo frá upphafi, því að meginið af þeim þætti hefur geimst í báðum handritaflokkum, og þeim ber saman í öllu verulegu.

Höfundar þáttanna eru bersínilega nákunnugir þeim hjeröðum, þar sem þættirnir gerast, og ekkert á móti því, að Ljósvetningaþátturinn og Reykhverfingaþátturinn sjeu skrifaðir í Þingeijarþingi, enn Sörla þáttur og Möðruvellingaþáttur í Eijafirði. Á einum stað í Möðruvellingaþætti segir, að hestaþing hafi verið haldið á Oddeyri í *Hörgárdal*, sem er rangt, enn *Oddeyri* er hjer víst ritvilla firir *Toppeyri*, svo er nú kallað nesið, sem skagar fram rjett firir norðan hinn forna kaupstað á Gásum í Hörgárdal (= Gáseyrr).[1]) Afskrifari ókunnug-

1) Kålund, Island II, 107. bls.

ur þarna hefur í hugsunarleisi sett nafn, sem hann þekti, firir sjaldgæft nafn, sem hann kannaðist ekki við.

Orðfæri og efni þessara sagna er laust við allan klerkakeim og ekkert í þeim, sem sanni, að höfundur hafi verið klerkur. Það sem Finnur Jónsson tilfærir því til sönnunar (Guðmundr tekur guð til vitnis, kvöldsöngurinn, hlutkestið, sem sjómenn varpa til um, hver skuli skiprækur, og faðernisskírslan), er þíðingarlaust í því efni. Hlátur Guðmundar í miðjum kvöldsöngnum ber öllu fremur vott um hið gagnstæða.

## Valla-Ljóts saga.

— — —[1])

Um afstöðu Valla-Ljóts sögu við aðrar sögur er það skemst að segja, að jeg hef ekki fundið neitt það í henni, er síni, að hún eða höfundur hennar hafi notað eða þekt aðrar sögur. Hún virðist vera alveg óháð Landnámu. Eftir Melabók Landámu (og Svarfdælu) var Valla-Ljótr sonur Ljótólfs goða Alrekssonar, enn eftir hdrr. Valla-Ljóts sögu er hann á einum stað nefndur í sumum handritum Álfsson, í sumum Bersason og í sumum Ljótólfsson (k. $2^{62}$), sem líklega er leiðrjetting afskrifara eftir Landnámu, og bróðir hans Þorgrímr er nefndur Ljótsson og sistir hans Þórgerðr Ljótsdóttir (k. $5^{49,64}$). Eflaust er hjer eitthvað afbakað um ætt Ljóts í sögunni, enn hvernig sem það er, verður sögunni ekki komið heim við sögn Melabókar (eða Svarfdælu). Í upphafi segir sagan, að Sigmundr, eða Sigurðr (handrr. greinir

1) [Hér er sleppt úr kafla um útgáfur af sögunni, en þess má geta, að um útg. Finns Jónssonar í Ísl. forns. II farast B. M. Ó. m. a. þannig orð: „Þetta er því hin besta krítiska útgáfa sögunnar eða sú, sem gefur bestar upplýsingar um, hvað í hdrr. stendur. Þó ber bún það með sér, að þetta er frumsmíð útgefandans. Á stöku stað breitir hann textanum, þar sem engu þarf að breita og allt er rétt (t. d. k. $1^{59}$ „Ekki jafna ek snilli *okkarri gyltu* saman“ hdrr. — þetta er fornt mál og engin ástæða til að breita í *okkar gyltunnar*, sbr. „handsal okkat jarls“ Hkr. o. fl. dæmi, Nygård: Norr. syntax § 126, bls. 134; k. $1^{74}$ óþarfi að breita „grís“ í „grísinn“; k. $5^{88}$ „eigi skiptir þat högum til“ = eigi fer það eftir verðleikum, befur útg. ekki skilið og bætir við *litlu*, enn talshátturinn kemur oftar firir (Fornaldars. II 469, Hallfrs., Forns. Leipzig, $99^{6}$). Á tveimur stöðum hafa sum handrit slept úr klausu, sem bersinilega er upphafleg í sögunni og hefði átt að taka inn í textann, enn það gerir útg. ekki (k. $1^{51}$ [skrifarinn hlaupið ifir það, sem stendur milli *hans* og *hans*] og $3^{47}$ [skrifarinn hlaupið frá *mik* til *mik*]. Útgáfuna verður því að nota með nokkurri varkárni og hafa alt af augun á, hvað stendur í hdrr.“]

á um nafnið), son Karls rauða, hafi átt dóttur Ingjalds í Gnúpufelli. Um þær mægðir getur Landnáma ekki, nefnir als ekki Sigmund (Sigurð). Ifir höfuð að tala eru ættir litt raktar i sögunni, höfundur virðist ekki hafa verið hneigður firir ættfræði, og er því eðlilegt, að hann hefur ekki kint sjer Landnámu.

Í k. 3[44] lætur sagan Valla-Ljót segja við Halla, sonarson Karls hins rauða: „Lengi hafa várir frændr við hnipzt, vera má at í kyn kippi“. Þetta sínir, að höfundi hafa verið kunnar einhverjar sögur um illdeilur þeirra Karls rauða og Ljótólfs goða, áþekkar þeim, sem Svarfdæla segir frá, og síðar í sögunni segir Ljótr við Halla, þegar hann ætlar að flíja: „Bíða mundi Karl, afi þinn, ok aldrei lét hann eltast sem geit“, og sjest á því, að höfundur hefur þekt sagnir um Karl. Enn sjálfsagt hafa þetta verið munnlegar sagnir, og engin ástæða til að halda, að höfundur hafi þekt frásögn Svarfdælu um þessar deilur, enda er Svarfdæla eflaust miklu ingri enn Valla-Ljóts saga.

Aftur á móti eru líkur til, að eitt rit hafi þekt og notað Valla-Ljóts sögu, og það er Bollaþáttur. Jeg gat um þetta, þegar jeg fór í þann þátt, sem hefur geimst í sambandi við Laxdælu í einum handritaflokki þeirrar sögu, og sindi fram á, að Bollaþáttur hefur tekið upp úr Valla-Ljóts sögu lísing hennar á Valla-Ljóti svo að segja óbreitta, þar sem stendur, að hann hafi verið öðru vísi búinn, þegar vígahugur var á honum, enn hann var hversdaglega, þegar hann var í góðu skapi. Minni áherslu legg jeg á það, að á einum stað í Bollaþætti svipar orðfærinu mjög til eins staðar í Valla-Ljóts sögu.[1]) Jeg komst að þeirri niðurstöðu um Bolla þátt, að hann mundi hafa verið samin um 1280 af breiðfirskum manni, sem dvalið hefði langvistum í Skagafirði eða Svarfaðardal.

1) Bollaþáttur, Laxd. k. 79, 12 „þetta er illt verk ok ómannligt, mun þér þat illu reifa“, sbr. Valla-Ljóts s., k. 4[31] „kvað hann illa gert hafa... sagði þat illu reifa mundu“. Þetta er ekki mikið að marka, því að talsháttурinn „reifa illu“ (ekki góðu) kemur viðar firir.

Af því að hann hefur notað Valla-Ljóts sögu, hlítur sú saga að vera nokkru eldri enn 1280.

Orðfæri sögunnar er því ekki til firirstöðu, að hún geti verið samin um miðja 13. öld, varla fir, því að málið er ifirleitt ekki sjerlega fornlegt. Hins vegar koma firir níleg orð, sem gæti bent til 14. aldar, t. d. *lögklókr* o. fl., enn það er ekki að marka, því að handritin eru svo ung, gæti slík níirði jafnvel verið inn komin á 17. öld, eða stafað frá því eina skinnhandriti, sem pappírshandritin eru kinjuð frá, og hafi það verið frá 14. öld, sem líklegt er, verða níirðin skiljanleg. Í lísingu sögunnar á landsháttum og rjettarfari er ekkert, sem síni, að hún sje samin eftir að landið komst undir konung. Að vísu er það eflaust ekki sannsögulegt, sem sagan segir, að Halli hafi, rjett eftir að kristni var lögtekin, kúgað út úr Valla-Ljóti ½ hdr. silfurs firir helgidagsbrot með því að hóta honum lögsókn. Þetta hefur fráleitt verið tekið svo strangt framan af, meðan klerkar vóru fáir og enginn biskup ifir landinu til að ganga eftir slíku, og mjög ólíklegt, að lög hafi verið sett um það svo snemma. Enn þetta getur eins vel verið skrifað áður enn landið komst undir konung eins og síðar, því að lög um helgidagahald breittust ekki til neinna muna, þó að konungsvaldið kæmist á, og sannar þetta því ekkert um aldur sögunnar.

Næst skal jeg leifa mjer að segja fáein orð um uppistöðu sögunnar. Vanalega er sagan kölluð Valla-Ljóts saga, og sú er ifirskrift hennar í hjer um bil helmingi pappírshandritanna — hin hafa flest „Saga af viðskiftum þeirra Svarfdæla og Guðmundar hins ríka“, og er sú ifirskrift sniðin eftir niðurlagi sögunnar. Valla-Ljótr er að vísu mikið riðinn við þessa sögu upp frá því er hann kemur first til sögunnar, enn þó segir hún að eins frá litlum þætti úr æfi hans, og það sem hún segir frá honum, er engan veginn sá meginþráður, sem heldur sögunni saman og gerir hana að einni heild, heldur er það frásögnin frá þeim bræðrum Sigmundar- (eða Sigurðar-) sonum, Hrólfi gípr, Hreðu-Halla og Böðvari. Alt, sem

segir frá Valla-Ljóti og viðureign hans við Guðmund ríka, á beinlínis eða óbeinlínis rót sína að rekja til þessara bræðra, og eiginlega er sagan öllu framar af þeim enn af Valla-Ljóti. Þegar þetta er haft hugfast, verður uppistaða sögunnar skiljanleg. Fremst er nokkurs konar inngangur, sem segir frá uppvexti þeirra bræðra á ónefndum bæ framarlega í Eijafirði (nálægt Torfufelli), sem eflaust hefur verið nefndur í hinni upphaflegu sögu, enn nafnið fallið úr í handriti. Er þar first rakin ætt þeirra til Karls hins rauða og Ingjalds í Gnúpufelli. Þá segir first frá dauða föður þeirra bræðra og síðan frá bónorði Torfa á Torfustöðum, lágættaðs manns enn auðugs, við ekkjuna, móður þeirra bræðra. Halli setur sig á móti því, og líkur svo, að hann vegur Torfa, og ber það mál undir Eyjólf Valgerðarson, föður Guðmundar ríka, því að Torfi var þingmaður hans, og sættist hann á málið firir tilstirk Ingjalds í Gnúpufelli, frænda Halla og Víga-Glúms. Nú er margra ára hlje á frásögninni, og segir ekki af þeim bræðrum, fir enn þeir eru orðnir fulltíða menn. Böðvarr er spektarmaður og fardrengur góður, enn hinir bræðurnir ójafnaðarmenn, og Halli mikill málagarpur. Halli mægist við Möðruvellinga, og þegar Eyjólfr er dáinn og Guðmundr ríki hefur tekið við mannaforráði, tekst vinátta mikil með þeim Halla og Guðmundi, og stiðja þeir hvor annan að málum. Þá kaupir Halli sjer land norður í Svarfaðardal þvert á móti ráðum Guðmundar, sem segir, að hann muni þar eiga ervitt uppdráttar firir ríki Valla-Ljóts. Hjer kemur Ljótr first til sögunnar, og lætur höfundur Guðmund ríka kinna hann lesandanum í viðtali því, sem hann á við Halla. Skömmu eftir að Halli er fluttur til Svarfaðardals, bekkist hann til við Ljót og kúgar af honum fje með hótun um lögsókn firir helgidagsbrot. Firir þessa sök vegur Ljótr Halla, enn af því leiðir aftur, að Hrólfr gípr vegur sisturson Ljóts Þorvarð til hefnda, enn af vígi Þorvarðs hlítst aftur, að frændur Ljóts vega þá Böðvar farmann saklausan og Bersa Hallason. Þeir Guðmundr ríki og

Valla-Ljótr koma þó sættum á og ónita tilraun, sem Hrólfr gípr gerir til að rjúfa þær. Alt er þetta ein samanhangandi saga, og má heita, að þráðurinn slitni hvergi. Samt eru íms smávægileg smíðalíti á frásögninni, sem Finnur Jónsson hefur bent á í hinni stóru bókmentasögu sinni.[1]) Á stöku stað koma menn til sögunnar eins og skollinn úr sauðarleggnum, sem ekki eru áður kintir á vanalegan hátt. Þorgrímssinirnir, frændur Ljóts, eru nefndir að eins „kinstórir menn“ first þar sem þeir koma firir, og ekki getið um frændsemi þeirra við Ljót, síðar eru þeir nefndir sistursinir hans, og loks sjest á sögunni, að þeir eru sinir Þorgerðar, sistur Ljóts, og fleira kemur firir smávegis þessu líkt. Sennilegt er, að sumir af þessum annmörkum sjeu ekki höfundi sögunnar að kenna, heldur úrfellingum og villum í handritunum, sem eru bæði ung og ófullkomin. T. d. tel jeg sjálfsagt, að frændsemi Þorgrímssona við Ljót hafi verið greinilega rakin á hinum firsta stað, þar sem þeir koma first til sögunnar, og að þessu hafi verið slept í handritunum. Þar sem Guðmundr ríki reinir að telja Halla af því, að flitja til Svarfaðardals, segir hann: „Ætli ek svá um Þóri frænda þinn, þótt þú færist nær honum, þykki mér þér ofrefli við þá at eiga“. Þessi Þórir kemur hjer alveg á óvart lesandanum, því að hann er hvergi nefndur á undan. Enn rjett á eftir sjest, að þetta er Þórir nokkur Vémundarson (eða Vermundarson), sem Halli fær til að kaupa firir sig jörð í Svarfaðardal og síðan er Halla vinveittur. Jeg er í engum efa um, að hjer hefur í málinu á undan, þar sem Halli skírir Guðmundi frá, að hann ætli til Svarfaðardals, staðið klausa, lögð í munn Halla, sem hefur skírt nánar frá þessum Þóri og frændsemi þeirra Halla, og í henni hefur Halli tekið fram, að hann mundi njóta aðstoðar þessa Þóris við búferlin og þegar hann væri kominn í dalinn. Enn þessari klausu hefur verið slept úr í því (skinn-?) handriti, sem öll handrit sögunnar eru frá komin. Ef það er rjett, að flest af þessum smálítum

1) Litt. hist. II, 497. bls.

frásagnarinnar stafi ekki frá hinni upphaflegu sögu, þá er uppistaða hennar í rauninni óaðfinnanleg, enda var höfundi engin vorkunn að gera hana sæmilega úr garði, þar sem sagan er svo stutt, ein hin stitsta af Íslendingasögum.

— — —

## Svarfdæla saga.

*Handrit.* Af Svarfdæla sögu er að eins til eitt blað á skinni í viðaukasafninu (additamenta) við Árnasafn nr. 20 fol.,[1]) skrifað að dómi Kr. Kålunds á 15. öld. Annars er sagan ekki til nema í pappírshandritum frá 17. öld og ingri, og ekkert af þeim hefur söguna heila, heldur er ein stór eiða í hana framarlega og nokkrar minni, hefur þar skinnhandrit það, sem öll pappírshandritin stafa frá, haft gloppu, þar sem stóra eiðan er, og verið skaddað eða ólæsilegt, þar sem minni eiðurnar eru. Ef vjer berum skinnblaðið, það sem það nær, saman við tilsvarandi kafla í pappírshandritunum (síðari hluta 23. k. og upphaf 24. k. sögunnar), þá sjáum vjer, að efni og orðfæri er hið sama í öllu verulegu, og er ljóst, að alt er sama sagan eða sama gerð sömu sögu, enn þó er nokkur orðamunur, sem sínir, að pappírshandritin geta ekki verið kinjuð frá því skinnhandriti, sem blaðið er úr, meðan það var heilt, heldur hljóta að stafa frá annari skinnbók. Pappírshandritin eru ifirleitt mjög ófullkomin. Eitt af þeim bestu er í handritasafni Bókmentafjelagsins nr. 226, 4⁰ hjer í Lbs., og það leggur Finnur Jónsson til grundvallar í útgáfu sinni. Það er með hendi sjera Jóns Halldórssonar í Hítardal, ritað um 1700, og er því als ekki meðal elstu pappírshandrita sögunnar. Eftir rannsóknum Finns Jónssonar mindar þetta handrit og annað hdr. (976 í Thottssafni) flokk sjer (A-flokk) gagnvart AM 161 fol., rituðu með hendi sr. Jóns Erlendssonar í Villingaholti, og öðrum því skildum handritum (C-fl.), enn eitt hdr., AM 60 fol., haltrar milli flokkanna (A og C).

1) [Nú í AM 445 C, 4to. Útg.]

Eitt handrit, nr. 37 í Rasks safni, hefur sjerstöðu að því leiti, að það fillir allar eiður í sögunni, ekki þó eftir fornu handriti, heldur eftir ágiskun, og er uppfillingin bersínilega mjög ung.

— — —

Firsti þáttur Svarfdælu gerist ekki hjer á landi, heldur í Noregi og Svíþjóð, og segir aðallega frá Þorsteini Þorgnýssini. Þorgnýr ræður firir Naumudölum í Noregi og á 2 sonu, Þórólf og Þorstein. Þórólfr er „mjök við alþýðuskap", fer landa á milli sem kaupmaður, enn Þorsteinn var ekki við alþíðu og lagðist í eldaskála í æsku. Kemur hjer fram lík mótsetning í lísingu bræðranna eins og í Egils sögu í lísingu þeirra bræðra Þórólfs og Skallagríms Kveldúlfssonar, eða Þórólfs og Egils Skallagrímssonar, og svipar þessum Þórólfi í Svarfdælu mjög til Þórólfanna í Egils sögu, og líklegt, að höfundur Svarfdælu hafi hjer haft Egils sögu til firirmindar, enda er fleira, sem sínir, að hann muni hafa þekt og notað Egils sögu. Firir fortölur bróður síns Þórólfs rís Þorsteinn úr eldstónni og fer með honum first í kaupferðir og síðan í víking og reinist hinn mesti hreistimaður, og loks berjast þeir bræður við hinn fræga víking Ljót hinn bleika, sem heldur til í Svíaskerjum, og líkur svo, að Þorsteinn fellir Ljót, enn Þórólfr fær banasár, og áður enn hann deir, biður hann Þorstein, ef hann eignist son, að láta hann heita eftir sjer, og því lofar Þorsteinn. Nafnið Ljótr hinn bleiki á víkingnum er beint tekið eftir Egils sögu. Eftir þessa orustu við Ljót og fall Þórólfs fer Þorsteinn til Svíþjóðar til jarls þess, er Herröðr heitir, biður hann ljá sjer höll sína til að drekka í erfi eftir Þórólf og lofa sjer að heigja hann þar, og fer það fram. Síðan gengur Þorsteinn á hólm firir jarl við berserk þann, sem Moldi nefnist og hafði skorað á jarl til hólmgöngu, ef hann vildi ekki gefa Molda dóttur sína Ingibjörgu, enn jarl hafði lofað að gefa þeim manni dóttur sína, sem gengi á hólm firir hann og irði banamaður Molda. Þorsteinn fellir Molda í einvíginu, og síðan gengur hann að eiga Ingibjörgu, dóttur Herröðar

jarls, og á við henni son, sem þau láta heita Þórólf. Þegar Þorsteinn hefur dvalið þrjá vetur hjá jarli, biður hann leifis að fara til átthaga sinna í Naumudal, og bíst brott með konu sína. Enn þá birjar alt í einu hin mikla eiða í sögunni.

Allur þessi inngangur, sem gerist í Noregi, er bersínilega ekki annað enn skáldsaga. Þórólfarnir og Ljótr bleiki eru bersínilega teknir eftir Egils sögu. Herröðr er algengt jarlsnafn í ímsum fornaldarsögum og er bersínilega þaðan tekið, t. d. haft um Herröð jarl hinn ríka á *Gautlandi*, föður Þóru borgarhjörts í Ragnars sögu, og er líklega tekið þaðan eða úr einhverri annari fornaldarsögu („*Svíþjóð*“ í sögunni getur verið haft í hinni víðtækari merkingu og gripið ifir Gautland). Nafnið *Moldi* virðist höfundur hafa búið til sjálfur, því að það kemur hvergi firir í fornritum nema í Svarfdælu, enn *Moldrekr* kemur firir sem jötunsheiti í fornum kveðskap og *Molda* sem tröllkonuheiti í Fornaldarsögum. Tvent er það í þessum þætti, sem minnir sterklega á Vatnsdælu. First það, að Þórólfr eldri tekur það loforð á deijanda degi af Þorsteini bróður sínum, að hann skuli láta son sinn heita eftir sjer, líkt og Jökull eldri Ingimundarson jarl tekur það loforð af Þorsteini Ketilssini á deijanda degi, eftir sögn Vatnsdælu, að hann skuli láta son sinn heita eftir sjer. Hitt það, að Þorsteinn Þorgnýsson mægist við jarl í Svíþjóð líkt og Þorsteinn Ketilsson mægist við jarl á Gautlandi.

Þegar sagan birjar aftur eftir eiðuna, þá er hún komin heim til Íslands, og segir þar first frá bardaga milli þeirra Þorsteins og Karls öðru megin og Ljótólfs hinu megin, og á því, sem á eftir fer, sjest, að þeir menn, sem nefndir eru Þorsteinn og Karl, eru þeir feðgar Þorsteinn svörfuðr, sem bír á Grund í Svarfaðardal norðan megin í dalnum, og Karl rauði son hans, og að Ljótólfr er Ljótólfr goði, sem bír á Hofi sunnan megin í sama dal, enn fremur, að þeir Þorsteinn svörfuðr og Ljótólfr deila um eignarjett að dalnum, og líkur svo, að Þorsteinn helgar sjer allan dalinn norðan megin árinnar frá fjalli til

fjöru. Af þessu er ljóst, að í eiðunni hefur staðið meðal annars, að Ljótólfr hafi verið firir í dalnum, þegar Þorsteinn svörfuðr kom þangað. Segir sagan, að Þorsteinn og þeir, sem til liðs snerust með honum, hafi bægt þeim Ljótólfi og lagt undir sig allan dalinn öðrumegin (ɔ: norðan ár), „því at þá var dauðr *Bárðr digri, afi Ljótólfs*". Þessi Bárðr hefur eflaust komið við biggingarsögu dalsins og búið *norðan ár,* og hefur verið frá því sagt í eiðunni. Sennilegt þikir mjer, að þar hafi staðið, að Ljótólfr hafi erft tilkall sitt til dalsins eftir þennan afa sinn, sem líklega hefur eftir sögunni verið móðurafi Ljótólfs, því að eftir Landnámu heitir föðurfaðir hans *Hrappr.* Ljótólfr er þar talinn Alreksson Hrappssonar, og kom Alrekr faðir hans út með Hroðgeiri bróður sínum, sem nam Sandvík á Austfjörðum og bjó á Skeggjastöðum, svo að föðurættin er öll úr Austfjörðum. Hjer kemur þegar fram missögn við Landnámu, því að eftir Landnámu er það Þorsteinn svörfuðr, sem nemur Svarfaðardal að ráði Helga magra.

Bardagi sá, sem stendur ifir milli Þorsteins og Ljótólfs, þegar sagan birjar eftir eiðuna, gerist ekki í Svarfaðardal, heldur vestur í Skagafirði í Deildardal á Svarfhóli, langt frá heimilum þeirra Þorsteins og Ljótólfs, og segir sagan, að þeir sem börðust þar hafi ekki haft nein vopn nema lurka og hafi þó 17 menn fallið. Vjer vitum nú ekki hver tildrög vóru að þeim bardaga, því að það er fjarstæða, sem höfundur eiðufillingarinnar þeirrar, er prentuð er í útgáfu Finns Jónssonar, segir, að Karl son Þorsteins og nokkrir menn með honum hafi verið þarna að skógarhöggi — það var of langt firir Svarfdæli að sækja skógarhögg í Deildardal ifir fjöll og firnindi — jeg tek þetta fram einkum til að sína, hve litið mark er takandi á eiðufillingunni. Helst litur út firir, að báðir flokkar hafi verið á einhverri friðsamlegri ferð, þar sem þeir höfðu ekki vopn sín, enn tilefnið hefur eflaust eitthvað staðið í sambandi við deiluna, sem getur um síðar í sögunni, milli Una í Unadal, frænda Ljótólfs, og Kolbeins, sem nam Kol-

beinsdal og Hjaltadal, frænda Þorsteins svarfaðar, því að sagan segir, að Uni hafi komið til liðs við Ljótólf í bardaganum, enn *„þeir bræðr“* — þ. e. auðvitað Kolbeinn og einhver bróðir hans (eða bræður?), sem sagan hefur getið um í eiðunni, enn getur ekki síðar — hafi veitt Karli og Þorsteini.

Rjett eftir bardagann telur sagan þá menn, sem filgdu Þorsteini svarfaði í deilu hans við Ljótólf. Í þeirri upptalningu fær höfundur tilefni til að skíra, hvernig örnefnin Siglufjörður og Siglunes eru til komin, og kemst þar í mótsögn við Landnámu, sem skírir alt öðruvísi frá því. Ifir höfuð að tala er höfundur mjög gjarn á að skíra örnefni.

Þá segir sagan frá því, hvernig Þorsteinn helgaði sjer allan dalinn að norðanverðu við ána og gaf honum nafn sitt, Svarfaðardalur. Þar kemur hann að einni örnefnissögu. Þegar menn fara úr Kolbeinsdal í Skagafirði ifir Heljardalsheiði til Svarfaðardals, liggur vegurinn ofan af heiðinni niður í dalinn norðan ár eftir mjóum fjallshrigg, sem heitir *Kambur* enn í dag, auðvitað eftir lögun sinni. Enn sagan segir, að Þorsteinn hafi hjer „gert kennimark, þar sem hann komst framast“ í dalnum, og brotið þar sundur kamb sinn og kastað niður brotunum, og af þessu dragi kamburinn nafn. Jeg hef grun um, að þessi fjarstæða örnefnissaga eigi sjer firirmind í Laxdælu, sem segir, að Kambsnes við Hvammsfjörð dragi nafn af því, að Auðr djúpúðga tíndi þar kambi sínum.

Þegar Þorstein hefur helgað sjer dalinn, kemst um stund friður milli hans og Ljótólfs, enn hann stendur ekki lengi. „Í þann tíma“, segir sagan, „kom sá maðr í dalinn, er Grís hét *ok fyrr var getit.* Hann var nýkominn út ok fór til vistar með Ljótólfi, frænda sínum“. Á þessu sjest, að sagan hefur getið um þennan Grís í hinni miklu eiðu. „Um várit fór hann til Steindura ok setti þar bú saman, og hafði mjök skipazt um bygðir síðan, meðan hann hafði á brottu verit, urðu flestir at leita til vináttu þar sem þeir váru aðrir hvárir, Þorsteinn eða Ljót-

ólfr" (k. 14[4]). Af því að bærinn Steindyrr liggur norðan megin árinnar, leitar Grís bigðarleifis hjá Þorsteini, og veitir hann það með tregðu, því að honum er „litit um bygð frænda Ljótólfs þessum megin ár". Þetta er því til stirkingar, sem áður var fundið, að sagan hafi í eiðunni látið Ljótólf vera firir í dalnum, þegar Þorsteinn þrengdi sjer þar inn, og hafa umráð ifir dalnum öllum beggja megin ár. Annars stafar af þessum Grís mikil ógæfa í sögunni. Hann haltrar milli beggja flokka, og það er hann, sem flitur út frá Noregi þau Klaufa og Sigríði, sem eru eftir sögunni *sisturbörn* Þorsteins svarfaðar, svo eru þau kölluð í öllum handritum í k. 14[60] og Þorsteinn *móðurbróðir* þeirra í k. 14[33] líka í öllum handritum. — Það er Þórarna móðir barnanna, sem segir Grísi, að Þorsteinn sje móðurbróðir þeirra, þegar hún biður hann um að flitja þau út til Íslands og færa Þorsteini og rúnakefli með til jarteikna, segir hún, að faðir barnanna sje Snækollr Ljótsson, sem hafi hertekið sig og síðan rekið sig frá sjer nauðuga. Er ljóst, að eitthvað hefur verið sagt frá þessari sistur Þorsteins, Þórörnu, í eiðunni, og frá Snækolli. Þegar Klaufi vex upp, harðna deilurnar í dalnum, einkum eftir að Karl rauði er kominn aftur heim úr utanferð sinni. Klaufi gengur að eiga Yngveldi fögrkinn nauðuga, dóttur Ásgeirs rauðfelds, sistur þeirra bræðra Þorleifs jarlsskálds og Ólafs, og að lokum ræður hún honum bana, og eru það bræður hennar, sem vega hann. Enn þá tekur ekki betra við, því að Klaufi gengur aftur og vitrast Karli rauða, eggjar hann hefnda og gengur í bardaga með honum afturgenginn, og í þeirri för drepur Karl Grís og marga menn af Ljótólfi, enn Ljótólfr sjálfur og Ásgeirssinir komast þó undan með hjálp Skíða, sem um þessar mundir var ráðsmaður hjá Ljótólfi, hraustur maður og trúr Ljótólfi. Var nú sætst á málin, og skildi Ljótólfr gjalda Karli fje mikið og Ásgeirssinir fara utan. Um þetta leiti andast Þorsteinn svörfuðr, og hafði hann engan þátt tekið í öllum þeim atförum og bardögum, sem orðið höfðu, heldur höfðu

þeir Karl rauði, sonur hans, og Klaufi gengið þar mest fram. Þó segir sagan, að Þorsteinn hafi tekið þátt í síðasta bardaganum við Ljótólf sem hamhleipa og háð þar einvígi í bjarnarlíki við gölt, sem líklega á að vera Ásgeirr rauðfeldr (?). Sættirnar, sem á komust, standa þó ekki lengi. Skip það, sem átti að flitja þá Ásgeirssonu, vegendur Klaufa, utan, strandar í Fljótum, og komast þeir bræður af og hverfa í átthaga sína til Ljótólfs að Hofi og hitta svo á, að Ljótólfr er ekki heima, enn Skíði var firir búi. Karl rauði hefir fengið veður af ferð þeirra bræðra og fer með flokk sinn að Hofi til að taka þá bræður. Enn Skíði felur þá og vill ekki með neinu móti segja til þeirra. Karl reinir að kúga hann með því að hnita fótum hans í tagl hesti sínum og hleipa síðan hestinum með manninn aftan í um vegleisur. Var hann illa leikinn eftir, hakan rifin og úr tennur tvær og skarð í vör hans, enn ekki sagði Skíði til bræðranna að heldur. Eftir þetta launar Ljótólfr Skíða trúmenskuna með því að gifta honum Yngvildi fögrkinn, og gefur hún sjálf samþikki sitt til þess, enn þó með því skilirði, að hann skuli hafa filt skarðið í vör sinni — þ. e. hefnt sín á Karli rauða — á 5 vetra fresti. Þetta tekst Skíða. Nokkrum vetrum síðar gera þeir Skíði og Ljótólfr firirsát firir Karli, og vegur Skíði hann.

Eftir víg Karls rauða birjar nír þáttur í sögunni, sem segir frá hefndunum eftir þá Karl rauða og Klaufa, og mætti kalla hann þátt Karls ómála eða unga, því að höfuðpersónan í þessum þætti er Karl ómáli eða ungi, sonur Karls rauða, fæddur eftir dauða föður síns. Það er hann, sem kemur fram hefndunum. Sagan er mjög einkennileg og alt öðruvísi enn allar aðrar hefndarsögur í sögunum okkar. Frá blautu barnsbeini bír Karl ifir hefndum. Hann hugsar ekki um annað enn að hefna vígs Klaufa frænda síns og Karls föður síns. Og til þess gerir hann sjer upp fábjánaskap og málleisi, líkt og Amlóði hjá Saxa gerir sjer upp vitfirring til að geta í náðum komið fram hefndinni firir dráp föður

sins. Enn í rauninni er Karl ómáli djúpvitur maður. Hefnd sú, sem hann bír ifir, er gagnólík því, sem annars gerist í Íslendingasögum. Karl vill láta hefndina koma niður ekki á vegandanum og því síður á saklausum frændum hans, eins og tíðkast í sögum, heldur um fram alt á þeim, sem hefur stjórnað hendi vegandans, á Yngvildi fögrkinn, sem hafði ráðið þeim báðum banaráð frænda hans og föður, á henni, sem hafði gifst Skíða með því skilirði, að hann filti skarðið í vör sinni með því að drepa Karl rauða. Nú er skarðið fult, Skíði hefur vegið Karl rauða. Um þetta hugsar Karl ómáli dag og nótt, og öll viðleitni hans snist að því, að fá Yngvildi til að játa, að skarðið sje ekki framar fult, og lægja þar með rosta hennar. Að vísu drepur hann þrjá sonu þeirra Skíða og Yngvildar, svo að þau horfa sjálf á, enn hann gerir það ekki til að hefna sín á sonunum, heldur til að hitta Yngvildi á þeim höggstað, sem henni er sárastur, og fá hana til að játa, að skarðið í vör Skíða sje nú ekki framar fult. Við hana sjálfa vill hann ekki beita neinum misþirmingum, því síður drepa hana, því að hún er kona og Karl of góður drengur til að beita slíku við hana. Enn Yngvildr er þrá og harðlind. Í hvert skifti, sem Karl drepur einn af sonum hennar og spir, hvort nú sé fult skarðið í vör Skíða, svarar hún, að þar sje ekkert skarð. Upp frá þessu hugsar Karl ekki um annað enn að temja þráa Yngvildar og fá hana til að játa, að skarðið sje ófult. Skíða gefur hann líf og kemur honum utan, og ekki gerir hann neina tilraun til að hefna sín á Ljótólfi, sem þó hafði átt þátt í vígi Karls rauða. Yngvildi tekur hann með sér heim til sín og fer vel með hana. Enn ekki linast hún við það, segir altaf, þegar Karl spir hana, að aldrei hafi skarðið í vör Skíða verið jafnfult sem nú. Þá ræður hann af að fara með hana utan og selja hana þar mansali, og felur Ljótólfi fjandmanni föður síns að fara með bú sitt á meðan, sem allir heimskuðu hann firir. Í utanferðinni selur hann Yngvildi mönnum, sem fóru illa með hana, og kaupir hana aftur áður enn

hann fer heim. Enn ekki linast hún við það. Í annari utanferð selur hann hana aftur mönnum, sem fara enn ver með hana, og þegar Karl nú kaupir hana aftur, þá er loksins mótþrói hennar brotinn, og nú segir hún, að skarðið í vör Skiða verði aldrei fult. Sagan endar á því, að Karl sættist heilum sáttum við alla sína óvini og kemur firir afturgöngu Klaufa frænda síns, svo að hennar verður ekki vart framar. Saga þessi ber öll merki þess, að hún sje „ekta“ þjóðsaga, sem höfundur hefur skrifað upp eftir munnmælum í Svarfaðardal. Jeg hef áður bent á, að sagan um aulaskap Karls í æsku minnir á aulaskap Amlóða. Sagan um tamning harðlindrar konu er og algengt þjóðsagnaefni (motiv), minnir t. d. á það, hvernig meistari Perus temur Serenu í Clarus sögu, á norska æfintírið um Haakon Borkenskjæg,[1]) á þíska æfintírið um König Drosselbart[2]) og á íslenska æfintírið um drotninguna drambsömu.[3]) Að leita eftir sannsögulegum fróðleik í slíku æfintíri er að fara í geitarhús ullar að leita. Engin önnur saga veit til, að Karl rauði hafi átt son, sem hjet Karl ómáli. Svarfdæla er ein til frásagnar um hann. Yngvildr er nefnd í Landnámu, enn hefur þar annað auknefni *(rauðkinn)*, enn Þorleifs þáttur jarlsskálds þekkir hana með sama auknefni og Svarfdæla.[4])

Vjer höfum nú rakið lauslega aðalefni sögunnar í heild sinni. Hverfum nú aftur að upphafi hennar. Þar verður firir oss sú spurning: Er höfuðpersónan í firsta þætti sögunnar, sem gerist firir landnámstíð í Noregi og Svíþjóð, Þorsteinn Þorgnýsson, sami maður og Þor-

1) Asbjörnsen nr. 45. — 2) Grimm nr. 52. — 3) Adeline Rittershaus: „Die neuisl. Volksmärchen“, nr. 47. — 4) [Næst á eftir Svarfdælu hefur B. M. Ó. talað um Þorleifs þátt, og þótti ekki taka að prenta þann kafla, en þess má geta, að um afstöðu sögunnar og þáttarins segir þar, að þátturinn hafi á kafla „gert útdrátt úr Svarfdælu líkri þeirri, sem vjer nú höfum, enda vitnar hann um þessa viðburði beint til „Svarfdæla sögu“.“ Um aldur þáttarins segir, að hann sé „ingri enn 1300, því að hann hefur notað Svarfdælu, enn hins vegar eldri enn 1370, því að um það leiti innfærir Jón pr. Þórðarson hann í Flat. Mjer þikir líklegt, að hann sje frá árunum 1330—40.“]

steinn svörfuðr, sem sagan segir frá eftir eiðuna að hafi helgað sjer Svarfaðardal norðan ár og deilt við Ljótólf goða? Sá maður, sem hefur reint að filla hina miklu eiðu í sögunni, tekur það sem sjálfgefið og fillir eiðuna eftir því. Enn það er ekki að marka. Eiðufillandinn hefur ekki vitað meira enn við nú vitum um hvað í eiðunni stóð, öll hans eiðufilling er ekki annað enn getgátur. Finnur Jónsson er á sama máli og eiðufillandinn. Aftur á móti var hinn danski vísindamaður P. E. Müller á öðru máli, og Jón próf. Jónsson á Stafafelli hefur í ritgerð sinni Rannsóknir í fornsögu Norðurlanda[1]) leitt sterk rök að því, að Þorsteinn svörfuðr sje *ekki* sami maður og Þorsteinn Þorgnýsson, heldur afkomandi hans. Röksemdir hans eru þessar: 1) Þorsteinn Þorgnýsson er aldrei kallaður Þorsteinn svörfuðr í þeim hluta sögunnar, sem er á undan hinni miklu eiðu. 2) Eftir eiðuna er Þórarna móðir Klaufa stöðugt talin *sistir* Þorsteins svarfaðar, enn í firri hluta sögunnar er þess eigi getið, að Þorsteinn Þorgnýsson hafi átt neina sistur. 3) Á undan eiðunni er þess getið, að Þorsteinn Þorgnýsson hafi látið son sinn og Ingibjargar jarlsdóttur heita Þórólf eftir Þórólfi bróður sínum, eins og hann hafði heitið honum á deijanda degi, og að Þórólfr eldri hafi þá spáð því, áður enn hann dó, að hamingja mundi filgja nafni og drengurinn, ef hann hjeti eftir sjer, muni halda uppi nafni sínu „meðan heimrinn er bygðr". Enn eftir eiðuna er þessa Þórólfs als ekki getið, og þar sjest ekki, að Þorsteinn svörfuðr hafi nokkurn tíma átt annan son enn Karl hinn rauða. 4) Eftir eiðuna er Þorsteinn svörfuðr aldrei kallaðr Þorgnýsson og þess ekki heldur getið, að hann hafi átt Ingibjörgu firir konu. 5) Eftir eiðuna er mart sagt frá Karli rauða sini Þorsteins svarfaðar, enn á undan henni er þess eigi getið, að Þorsteinn Þorgnýsson hafi átt neinn son með því nafni. — Við þessar röksemdir sr. Jóns má enn bæta fleirum: 6) Þorsteinn Þorgnýs-

1) Tímar. Bmf. XI, 64.—65. bls. nm.

son kemur fram sem mesti bardaga- og vígamaður í þættinum firir eiðuna, enn Þorsteinn svörfuðr er lítt við bardaga riðinn eftir eiðuna; samt játa jeg, að þetta er ekki vel að marka, því að það getur komið af því, að Þorsteinn er hniginn á efra aldur. 7) Firir eiðuna sjest það hvergi, að Þorsteinn Þorgnýsson hafi verið maður ekki einhamur. Enn eftir eiðuna kemur Þorsteinn svörfuðr fram sem hamhleipa á einum stað, þar sem hann veitir Karli sini sínum í bjarnarlíki í bardaga þeirra Karls og Ljótólfs að Hofi (k. 23[147]).

Af öllu þessu virðist vera ljóst, að Þorsteinn svörfuðr er *ekki* sami maður og Þorsteinn Þorgnýsson, heldur líklega afkomandi hans, annaðhvort sonur hans eða þó líklega heldur sonarsonur. Jón Jónsson getur til, að hann hafi verið sonur Þórólfs ingra Þorsteinssonar, enn mjer þikir það ekki með öllu líklegt. Hin glæsilega framtíð, sem Þórólfr eldri spáir Þórólfi ingra í sambandi við það, að Þorsteinn Þorgnýsson lætur Herröð jarl lofa sjer því, áður enn hann fer frá honum heim í Naumudal, að erfingar hans af Ingibjörgu jarlsdóttur til komnir skuli taka land og aura eftir Herröð — hvorttveggja þetta bendir til þess, að Þórólfr ingri hafi orðið jarl í Svíþjóð (Gautlandi) eftir Herröð, og að sú kvísl ættarinnar hafi ekki flæmst út til Íslands. Líklega hefur sagan líst þessum Þórólfi líkt og Þórólfi eldra, sem gæfum spektarmanni (sbr. Þórólfana í Eglu). Þikir mjer þá ekki vel líklegt, að hann hafi í sögunni verið faðir hamhleipunnar Þorsteins svarfaðar.

Enn Svarfdæla er ekki ein til frásagnar um Þorstein svörfuð og ætt hans. Landnáma segir líka frá honum. Eftir Landnámu er hann sonur Rauðs ruggu í Naumudal og á firir konu Hildi, dóttur Þráins svartaþurs, og nemur Svarfaðardal að ráði Helga magra. Sonur hans er Karl rauði eins og í Svarfdælu. Þetta er sjálfsagt upphaflegt í Landnámu. Enn þar sem Landnáma bætir við, að Þorsteinn svörfuðr hafi átt dóttur, sem hjet Guðrún og var móðir þeirra Klaufa og Gróu (= Sigríðar í Svarfdælu), og að Klaufi hafi átt Ingvildi

*rauðkinn* (fögrkinn Svarfd.) og höggvið jafnabelg firir þeim bræðrum Yngvildar Ólafi völubrjót og Þorleifi og tilfærir vísu Þorleifs um það, þá er þetta bersínilega síðari innskotsgrein í Landnámu, sem ekkert kemur við landnámssögunni, tekin eftir Svarfdæla sögu, sem Landnáma beinlínis vitnar i. Enn sú Svarfdæla hefur bersínilega verið mjög frábrugðin þeirri Svarfdælu, sem vjer nú höfum. Þessi Svarfdæla, sem Landnáma hefur haft firir sjer, virðist hafa verið talsvert eldri enn sú Svarfdæla, sem vjer nú höfum, líklega ekki ingri enn frá firsta fjórðungi 13. aldar, því að Landnámugerðin Sturlub.-Hauksb., sem hefur þessa Svarfdælugrein, er líklega til orðin um 1230, og missagnirnar milli þessarar eldri Svarfdælu og Svarfdælu okkar eru svo miklar, að það er ómögulegt, að ingri gerðin hafi haft hina eldri firir sjer, þó að íms meginatriði komi allvel heim.

Vjer skulum nú skrifa upp ættartölu Þorsteins svarfaðar bæði eftir Svarfdælu og Landnámu. Jeg geng út frá því, að Þorsteinn svörfuðr hafi eftir Svarfdælu vorri, meðan hún var heil, verið sonarsonur Þorsteins Þorgnýssonar, enn þó ekki sonur Þórólfs ingra.




Það er nú auðsjeð, að hjer eru ímsar missagnir bæði í mannanöfnum og ættfærslu, og eru þessar hinar

helstu. Móðir Klaufa heitir í Svarfdælu Þórarna og er *sistir* Þorsteins svarfaðar, í Landnámu aftur á móti Guðrún og er *dóttir* Þorsteins svarfaðar. Faðir Klaufa, maður þessarar Þórörnu (eða Guðrúnar), er Snækollr víkingur í Svarfdælu, enn Hafþórr víkingur í Landnámu. Sistir Klaufa heitir Sigríðr í Svarfdælu, Gróa í Landnámu. Þessar missagnir snerta allar sögu Klaufa, sem Landnáma hefur tekið eftir Svarfdælu eldri. Aftur á móti er ekki víst, að nein missögn hafi verið milli Svarfdælu vorrar og hinnar upphaflegu Landnámu um faðerni Þorsteins svarfaðar. Að minsta kosti höfum við ekki ástæðu til að skapa slíka missögn að óþörfu, ef unt er að samríma heimildirnar með góðu móti. Og það er ofur hægt. Vjer þurfum ekki annað enn setja Rauð ruggu inn í staðinn firir X sem föður Þorsteins svarfaðar í ættartölu Svarfdælu hjer að framan. Hann verður þá um leið sonur Þorsteins eldra Þorgnýssonar, ingri bróðir Þórólfs ingra. Svona held jeg, að Svarfdæla hafi rakið ættina í eiðunni. Enn hvernig hefur hamremmin, sem var ættarfilgja og kemur fram hjá Þorsteini svarfaði, komist inn í ættina? Vjer höfum sjeð, að ekkert slíkt kemur fram hjá Þorsteini eldra Þorgnýssini, svo að frá honum hefur Þorsteinn svörfuður ekki haft hamremmina. Og ekki kemur heldur hamremmi fram hjá Ingibjörgu jarlsdóttur eða í hennar ætt. Af þessu virðist liggja nærri að álikta, að eftir sögunni, meðan hún var heil, hafi Ingibjörg jarlsdóttir ekki verið móðir Rauðs ruggu, heldur hafi Þorsteinn Þorgnýsson átt Rauð við konu af hamrammri ætt. Sbr. skilnaðarorð Þorsteins Þorgnýssonar við Herröð jarl, föður Ingibjargar, þegar hann fer frá honum til Naumudals. „Þess beiði ek yðr, .... at mínir erfingjar af *dóttur yðvarri til komnir* taki land og lausa aura eftir yðr“. Með þeim gefur sagan óbeinlínis í skin, að Þorsteinn hafi síðar átt son við annari konu enn Ingibjörgu. Enn hver var þessi hamramma kona, móðir Rauðs ruggu, eftir sögunni, meðan hún var heil? Mjer virðist ekki ósennilegt, að það hafi verið Hildr, dóttir

Þráins svartaþurs, sem Landnáma segir, að hafi verið kona Þorsteins svarfaðar. Svarfdæla, eins og hún er nú, getur hvergi um konu Þorsteins svarfaðar, og er það grunur minn, að sagan hafi í eiðunni gert Hildi dóttur Þráins svartaþurs að síðari konu Þorsteins *eldra* Þorgnýssonar, og stafar missögnin eðlilega af því, að Þorsteinarnir eru í sögunni tveir, eldri og ingri. Samskonar mótsögn við Landnámu er það, þar sem sagan gerir móður Klaufa að sistur, enn Landnáma að dóttur, Þorsteins svarfaðar. Vjer verðum þá að hugsa oss, að í eiðunni hafi verið sagt frá því, að Þorsteinn eldri hafi mist konu sína Ingibjörgu nokkru eftir að hann kom heim til Naumudals og síðan átt Rauð ruggu við Hildi. Þorsteinn svörfuðr erfir þá hamremmi sína frá þessari ömmu sinni eða réttara sagt frá Þráni svartaþurs langafa sínum, likt og Egils saga gefur í skin, að Kveldúlfr hafi erft hamremmi sína frá afa sínum Úlfi óarga, föður Hallbjarnar hálftrölls.

Eftir þessu er svo að sjá sem mikið vanti í söguna, þar sem hin stóra eiða er, því að eflaust hefur sagan first rakið æfi Þorsteins eldra til dauða hans, sagt frá dauða Ingibjargar konu hans og frá Þórólfi sini hans, sem virðist hafa orðið jarl í Sviþjóð (Gautlandi), frá því er Þorsteinn kvongaðist í annað sinn, frá sini hans og síðari konunnar (Hildar), Rauði ruggu, enn fremur frá uppvexti barna Rauðs ruggu, þeirra Þorsteins svarfaðar og Þórörnu, frá atvikunum til þess, að Þorsteinn fór út til Íslands og settist að í Svarfaðardal, frá því er Þorsteinn skildi við Þórörnu sistur sína og gaf henni kefli til jarteina, sem getur um síðar í sögunni, frá Grísi, o. fl., sem áður er sínt, að getið hefur verið í eiðunni. Alt þetta hefir tekið mikið rúm í sögunni og hefur glatast í hinni stóru eiðu. Bókmentafjelagshandritið, sem Finnur Jónsson leggur til grundvallar, hefur þessa athugasemd, þar sem hin mikla eiða birjar: „meinast vanti til sögunnar ei minna enn 6 blöð“, og er það eflaust ekki of lágt í lagt.

Jeg hef þegar tekið það fram, að firsti þáttur sög-

unnar, frá Þorsteini Þorgnýssini, muni ekki vera annað en skáldsaga, tilbúin af höfundi sögunnar. Það er með öllu ólíklegt, að nokkur munnmæli um þessa viðburði, sem gerast firir landnámstíð í Noregi, hafi geimst í Svarfaðardal til daga höfundarins og hann fært þau í letur. Aftur á móti er það ljóst, að sá partur af sögunni, sem gerist hjer á landi í Svarfaðardal og segir first frá þeim feðgum, Þorsteini svarfaði og Karli rauða, og síðan frá Klaufa og Karli ómála, stiðst við þjóðsögur úr Svarfaðardal um þessar persónur, og að höfundur hefur þar lagt miklu minna til frá sjálfum sjer. Það er mikið mein, að hin eldri Svarfdæla, sem Landnáma virðist hafa notað, er glötuð. Ef vjer hefðum hana, mundum vjer geta dæmt betur um, að hve miklu leiti höfundur hefur íkt söguna. Enn sá æfintírablær, sem hvílir ifir sögunni frá upphafi til enda, sínir ljóslega, að hún hlítur að vera tiltölulega mjög seint samin, líklega ekki fir enn á 14. öld. Það sjest líka á því, að hún talar um *lögmann* í Svarfaðardalnum, Höskuld að nafni, sem fellir úrskurði, alveg eins og lögmennirnir gerðu hjer, eftir að landið komst undir konung, enn firir þann tíma, á þjóðveldistímanum, vóru hjer engir slíkir lögmenn. Þetta getur því ekki verið skrifað fir enn nokkuð löngu eftir að landið komst undir konung, eflaust ekki fir enn um 1300. Orðfæri sögunnar er í góðu samræmi við þessa niðurstöðu. Önnur saga, sem getur um lögmenn á þjóðveldistímanum, er Hávarðar saga Ísfirðings, og sannar það, að sú saga í þeirri mind, sem vjer höfum hana, getur ekki verið eldri enn frá 1300, eins og jeg tók fram við Hávarðar sögu. Höfundur skreitir sögu sína með vísum. Flestar af þeim virðist hann hafa ort sjálfur, eða að minsta kosti bera þær þess merki, að þær eru ortar löngu síðar enn sagan gerist. Ein vísa er þó vafalaust eldri enn sagan, því að hún stendur í útdrætti Landnámu úr hinni eldri Svarfdæla sögu. Það er vísa Þorleifs um að Böggvir (Klaufi) hafi höggvið firir honum belginn og að það muni kosta Böggvi lifið.

Frásögnin í Svarfdælu er víða mjög óljós og ruglingsleg. T. d. er sagan um „hversu Ljótólfr lét laust skipit fyrir Karli (rauða), þat sem þeir áttu báðir saman“ í upphafi 15. k. alveg óskiljanleg, eins og hún nú stendur í sögunni, enn vera má, að hjer hafi eitthvað fallið úr. Í 25. k. segir frá því, að Karl drap Geira son Geirdísar, enn lesandinn fær ekki að vita, hvernig á þessum persónum stendur, eða hvað þau hafa til saka unnið við Karl — þau Geiri eru ekki kint áður og koma hjer eins og skollinn úr sauðarleggnum. Og fleiri dæmi mætti tilfæra. Best er sögð sagan af þeim Karli ómála og Yngvildi. Þar tekst höfundi víða upp. Lísing hans á lundarfari þeirra er mjög einkennileg og sjálfri sjer samkvæm frá upphafi til enda, þó að viðburðirnir sjeu mjög þjóðsagnakendir og íkjum bornir, og þessar mannlísingar (þeirra Karls og Yngvildar) takast best í sögunni að mínum dómi. Ekkert er það í sögunni, sem síni, að höfundur hafi orðið firir áhrifum af útlendum riddarasögum, enn því fleira, sem bendir til, að fornaldarsögur Norðurlanda hafi haft áhrif á hann.

Höfundur hefur verið nákunnugur hverri þúfu í Svarfaðardal, og eru allar líkur til, að hann hafi verið þar borinn og barnfæddur. Klerkakeimur er enginn að frásögninni, og það er fult eins líklegt, að höfundur hafi verið leikmaður, eins og að hann hafi verið klerkur.

## Þátturinn af Ögmundi dytt og Gunnari helming

hefur geimst í heild sinni í sambandi við Ólafs sögu Tryggvasonar hina löngu, sem prentuð er í Fornmanna sögum og í Flateijarbók.[1]) Enn jafnframt hefur hann staðið í Víga-Glúms sögu Vatnshirnu-handritsins (nú 445 C, 4to, áður 564, 4to), og er brot af þættinum — upphaf hans — á hinu firsta af þeim 3 skinnblöðum Vatnshirnu, sem geimst hafa af Glúmu. Þetta skinnblað hefur Guðmundur Þorláksson gefið út sem viðauka aftan við Glúmu-útgáfu sína.[2]) — — —

Það er ljóst, að þessi þáttur hlítur frá upphafi að hafa verið sjálfstæð saga, þar sem hann hefur geimst sem partur af tveimur ólíkum sögum. Þetta verður varla skírt öðruvísi enn svo, að bæði Ólafssöguhöfundur og Glúmu- (eða rjettara sagt Vatnshirnu-) höfundur hafi hvor um sig haft firir sjer þáttinn sem sjálfstætt rit og tekið upp efni hans. Ef vjer berum saman Ólafssögugerðina við það brot, sem geimst hefur í Vatnshirnu, þá sjest fljótt, að báðar þessar gerðir eru svo líkar, að hjer hlítur að liggja til grundvallar sameiginlegt frumrit. Hins vegar eru nokkrar missagnir. Eftir Ólafssögugerðinni bír Glúmr að Þverbrekku, þegar sagan gerist, og er hniginn á efra aldur. Enn Vatnshirna lætur þáttinn koma inn næst á eftir 15. k., sem er niðurlag frásagnarinnar um Ingólf og víg Hlöðu-Kálfs. Þá bír Glúmr enn að Þverá og er á besta skeiði, og á einum stað í þættinum er beint nefnd Þverá sem bústaður Glúms. Í sambandi við þetta er það athugavert, að Vatnshirnugerðin segir, að Hrafn,

1) Hann er prentaður í Fms. II, 62.—78. bls. og Flat. I, 332.—339. bls. — 2) Ísl. forns. I. 96.—99. bls.

faðir Ögmundar, hafi verið „foringi þræla þeira, er Þorkell hinn hávi kærði“, þ. e. a. s. þeirra þræla Ástríðar, móður Glúms, sem þeir Þorkell og Sigmundr höfðu firir sökum, að þeir hefðu stolið kvígunum, sem síðar fundust í jarðfalli, og reindust þeir þá saklausir.[1]) Þetta er auðsjáanlega getgáta í Vatnshirnugerðinni, búin til út úr því, sem segir í Ólafssögugerðinni, að Hrafn hafi verið þræll Glúms og Ástríðar móður hans og Glúmr gefið honum frelsi — um aðra þræla þeirra Ástríðar enn þá, sem urðu firir illmælinu, er ekki getið í Glúmu. Enn þessi getgáta hefur aftur haft þær afleiðingar, að Vatnshirnugerðarhöfundurinn rjeð af að fljetta inn Ögmundarþáttinn framarlega í Glúms sögu, meðan Glúmr bjó enn að Þverá. Annars, ef hann hefði látið þáttinn gerast eftir að Glúmr var fluttur að Þverbrekku, hefði hann orðið að setja hann inn aftast í söguna, á eftir 26. k., þar sem sagt er frá flutningi Glúms að Þverbrekku. Sagan um þrælana hefur með öðrum orðum dregið þáttinn að sjer og komið þeim, sem fljettaði þáttinn inn í Glúmu, til að breita því, sem stóð í hinni upphaflegu sögu, að Ögmundarsaga hafi ekki gerst fir enn Glúmr var kominn að Þverbrekku. Ólafssögugerðin hefur hjer geimt hið upphaflega. Þessi missögn í Glúmu er bein sönnun þess, sem jeg tók fram við Glúmu, að Ögmundarþátturinn getur ekki verið upphaflegur í Glúmu, heldur er það síðari innskotsgrein. Til hins sama bendir og það, að Vigfúss Víga-Glúmsson kemur við sögu Ögmundar í báðum gerðum. Enn í Glúmu stendur þátturinn með því, sem hann segir um Vigfús, *á undan* upphafi 17. kap., þar sem börn Glúms, og þar á meðal Vigfúss, eru nefnd til sögunnar með þeim orðum, sem vant er að hafa þar sem persónur first koma til sögunnar.

— — —

Sagan um Gunnar helming er skeitt við sögu Ögmundar með mjóum þræði, sögunni um ifirhafnaskiftin, og þær grípa annars ekkert hvor inn í aðra, heldur tekur

1) Glúma, 7. kap.

ein sagan við, þar sem hin endar. Finnur Jónsson heldur því, að sagan um Gunnar helming sje seinni tíma viðbót. Það finst mjer nokkuð vafasamt. Þátturinn af Ögmundi væri snubbóttur, ef ekkert væri sagt frá því, hvernig fór firir Gunnari, sem skifti ifirhöfn við Ögmund og leiddi með því frá honum ifir á sig gruninn um víg Hallvarðs. Eflaust liggja hjer gömul munnmæli til grundvallar, og virðist ekki vera neitt á móti því, að þau hafi frá upphafi skeitt þessar tvær sögur saman. Í sögunni um Gunnar get jeg ekki fundið neitt það, sem síni, að hún sje ingri enn sagan um Ögmund. Af því að Vatnshirnubrotið endar í miðjum þætti Ögmundar, verður nú ekkert um það sagt, hvort Gunnarsþátturinn hefur staðið þar líka, enn þó svo hefði ekki verið, þá væri djarft að ráða af því, að þættirnir heirðu ekki saman frá upphafi. Efnið í Gunnarsþættinum snertir als ekki Glúmu, og var full ástæða firir þann, sem fljettaði Ögmundarþáttinn inn í Glúmu, að sleppa Gunnarsþættinum, þó að frumrit hans, hin sérstaka saga, hefði haft hann líkt og Ólafssagan.

Annars er erfitt að segja nokkuð ákveðið um aldur hinnar sjerstöku sögu af þeim Ögmundi og Gunnari. Líklegast þikir mjer, að hún sje til orðin á síðari helmingi 13. aldar.

## Reykdæla saga eða Vémundar saga og Víga-Skútu.

*Handrit.* Merkast af handritum þeim, sem geimt hafa þessa sögu, er skinnbókarbrotið í AM 561, 4to, sem er ritað um 1400. Alt er þetta handrit nú 41 blöð, og hafa verið á því 3 sögur að minsta kosti: Reykdæla saga, Gull-Þóris saga og Ljósvetninga saga. Það, sem til er af Reykdæla sögu, er nú 16 blöð, sem birja í miðju kafi í 13. k. sögunnar; vantar því í handritið 12 firstu k. af Vémundar sögu og hjer um bil ⅔ af 13. k. Auk þess vantar 1 blað aftan til í söguna (Skútu sögu), og 2 blaðsíður eru svo máðar, að þær verða ekki lesnar. Auk þess eru til allmörg pappírshandrit, sem virðast öll vera runnin frá þessari skinnbók, meðan hún var heillegri enn nú, því að með þeim má filla allar þær eiður, sem í söguna eru, nema þá, sem stafar frá máðri og ólæsilegri blaðsíðu aftast í Skútu sögu, rjett á undan niðurlaginu (í 30. k.). Þessi eiða, sem ekki verður filt, er svo stutt, að nokkurn veginn má ráða í efni þess, sem þar hefur staðið, af því sem fer á undan og eftir, auk þess hefur Guðbrandi Vigfússini tekist að lesa orð og orð á stangli, og er það til stuðnings, þegar spáð er í eiðuna,[1]) svo að það má heita, að vjer höfum söguna heila. Af pappírshandritunum er einna merkast AM 158 fol. — Útskálabók — runnin frá sr. Þorsteini Bjarnarsini á Útskálum, rituð um 1650, og hef jeg minst á þetta handrit við Valla-Ljóts sögu. Ennfremur AM 496, 4to, sem Þorlákur biskup hefur átt, og AM 161 fol., rituð af sr. Jóni Erlendssini í Villingaholti. Tvö pappírshandrit af sögunni, fremur ung, enn ekki ómerkileg, eru í handritasafni Bókmenta-

1) N. Fjel. XXI, 121.—2. bls.

fjelagsins hjer á Landsbókasafninu (Bmf. 384, 4to og 206, 4to).

— — —

Sagan í heild sinni er nú vanalega kölluð Reykdæla saga, enn það er mjög vafasamt, hvort það er rjettnefni. Eftir efni sínu skiftist hún í tvær sögur, sem mega heita algerlega sundurlausar, og er firri sagan nefnd Vémundar saga eftir Vémundi kögur, sem er einhver helsta persóna sögunnar, enn mætti í rauninni eins vel heita Áskels saga goða, því að allir þeir viðburðir, sem sagan segir frá, standa í einhverju sambandi við Áskel, enn best ætti þó við að kalla þessa sögu Reykdæla sögu, því að Reikdælir eru allir höfuðmenn sögunnar, bæði Áskell og þeir Fjörleifarsinir, Vémundr kögurr og bræður hans, og meginið af sögunni gerist í Reikjadal. Síðari sagan nefnist (Víga-) Skútu saga, og er það rjettnefni, því að hún segir aðallega frá Víga-Skútu, enn hún gerist aðallega við Mívatn, þar sem Víga-Skúta á heima (á Skútustöðum), og er því ekki rjett nefnd Reykdæla saga. Að sagan í heild sinni (ɔ: Vémundar saga + Víga-Skútu saga) heiti Reykdæla saga, hafa menn viljað ráða af einum stað í Víga-Skútu sögu, þar sem talað er um bardagann milli Steingríms og Áskels og bætt við: „sem sagt er fyrr í Reykdæla sögunni frá viðskiftum þeira". Enn að minni higgju táknar hjer „Reykdæla saga" als ekki báðar sögurnar Vémundar og Skútu, teknar saman í eina heild — ef höfundur hefði hjer haft söguheildina í higgju, þá hefði hann eflaust sagt *„fyrr í þessarri sögu (eða sögunni)"* — heldur táknar Reykdæla saga hjer firri hluta söguheildarinnar, eða það, sem líka er nefnt Vémundar saga; hjer á að lesa: „sem sagt er fyrr, í Reykdæla sögunni, frá viðskiftum þeira" — með kommu á undan og eftir „í Reykdæla sögunni". Jeg verð því, einmitt samkvæmt þessum stað, að halda því fram, að Reykdæla saga sje annað nafn á þeim parti sögunnar, sem líka er nefndur í upphafi sögunnar eftir pappírshandritunum „saga Vémundar kögurs", enn nái ekki til Skútu sögu. Hins vegar er síðari hluti sögunnar nefndur

„Saga Víga-Skútu sonar Áskels", þar sem hún birjar í skinnbókinni. Hið rjetta nafn á söguheildinni verður því „Reykdæla saga ok Víga-Skútu" eða Vémundar saga ok Víga-Skútu.

Annars er það vafasamt, hvort menn geta sagt með rjettu, að Vémundar saga og Víga-Skútu mindi eina söguheild. Sambandið milli þeirra er laust, svo laust, að það virðist liggja í augum uppi, að þær hafa frá upphafi verið tvær sjálfstæðar sögur, sem svo hafa síðar verið skeittar saman í eina sögu, af því að Víga-Skútu saga er að nokkru leiti framhald Reykdæla sögu, tekur við þar sem hún endar. Sá rauði þráður, sem sameinar sögurnar, er víg Áskels goða síðast í Vémundar sögu og hefndirnar eftir hann, sem Skútu saga segir frá. Alla aðra þræði, sem raktir eru í Vémundar sögu, lætur Víga-Skútu saga falla niður. Fjörleifarsinir, Vémundr og bræður hans, sem Reykdæla saga snist alt af í kringum, koma als ekki við Víga-Skútu sögu, eru ekki einu sinni nefndir þar á nafn. Hins vegar segir Vémundar saga það eitt frá Víga-Skútu, að hann hafi verið sonur Áskels goða (1. k.) og verið erlendis, þegar Áskell faðir hans var veginn, og því ekki riðinn við sættir þær, sem gerðar vóru eftir vígið (16. k.). Enn frá uppvexti Skútu, þangað til hann fór utan, er ekkert sagt í Vémundar sögunni, og sjálf saga Víga-Skútu, eins og hún er nú, bætir ekki úr þessu, því að hún tekur til frásagnar, þar sem Reykdæla endar, og segir first frá útkomu Skútu eftir sættirnar. Að svo hafi ekki verið frá upphafi, að hin upphaflega Víga-Skútu saga hafi sagt eitthvað frá uppvexti kappans, á það bendir einn staður í Skútu sögu. Þar sem sagan segir frá því, að Skúta hafi gengið að eiga Þorlaugu, dóttur Víga-Glúms, stendur þessi grein (k. 24[91]): „Þá var Álfhildr önduð, er Skútu hafði fylgt áðr ok Kolli hafði átt frá Sauðanesi". Þessi grein kemur hjer eins og skollinn úr sauðarleggnum, því að hvorugt þeirra Álfhildar nje Kolla er nefnt fir eða síðar í sögunni, og bendir þetta sterklega til, að saga Víga-Skútu hafi upphaflega sagt meira frá Skútu, áður hann fór utan, og

þar á meðal sjerstaklega getið um kunnleika hans og Álfhildar. Enn alt þetta hefur sá maður felt framan af Skútu sögunni, sem setti hana saman við Reykdæla söguna. Að þessar 2 sögur eigi ekki saman frá birjun, sjest og á því, að í Skútu sögu er Þormóðr í Laxárdal greindur svo sem hann væri ekki áður nefndur til sögunnar (23. k. upphafið) og sagt, að kona hans hjeti Þorbjörg, föðursistir Víga-Skútu. Enn um þennan Þormóð og Þorbjörgu konu hans er áður getið greinilega í upphafi Vémundar sögu (k. 1[23]) og ættin rakin. Að vísu er sú ættartala að mestu tekin eftir Landnámu, sem síðar mun sínt, enn þau Þormóðr og Þorbjörg eiga þó heima í Vémundar sögu, því að Landnáma getur als ekki um þau; Vémundar saga getur þeirra hjóna auðsjáanlega af því, að höfundur sögunnar hefur hugsað sjer, að þau væri foreldrar Þorsteins bolstangar, sem getur síðar í sama kap. og er nefndur sistursonur Áskels. Áskell átti ekki eftir sögunni (Vémundar sögu) nema 2 sistur, Þorbjörgu þessa og Fjörleifu, og hlítur Þorsteinn að vera sonur Þorbjargar, því að hann er ekki talinn meðal Fjörleifarsona í k. 1[25]. Nú er athugavert, að Víga-Skútu saga getur að eins um einn son þeirra Þormóðs og Þorbjargar og nefnir hann ekki Þorstein, heldur Eyjólf. Hjer er því bein mótsögn milli Vémundar sögu og Skútu sögu, og er þetta alt sterk sönnun firir því, að hjer sje um tvær sjálfstæðar sögur að ræða frá upphafi. Enn sterkasta sönnunin firir því er þó, að Skútu saga er með alt öðrum blæ enn Vémundar saga. Gegnum Vémundar sögu gengur mildur kristilegur andi. Það er auðsjeð, að Áskell goði er uppáhald höfundar, af því að hann vill gera gott úr öllu, jafnóðum og Vémundr hefur gert einhverja skömm af sjer, þá er Áskell þar kominn til að sætta og bæta. Alstaðar í sögunni verður hinu heiðni andi hefnigirninnar, sem Vémundr er fulltrúi firir, að lúta í lægra haldi firir hinum kristilega anda sáttfísinnar, sem kemur fram hjá Áskatli. Jafnvel í andlátinu hefur Áskell allan hugann á því, að búa í haginn firir sættirnar og „firra vandræðum“, og „það

þá frændr sína vera sáttgjarna“. Þetta lætur og Þorsteinn sonur hans sjer að kenningu verða, þegar sátta er leitað hjá honum, og sagan lætur hann á sáttafundinum halda ræðu, sem er alveg í anda Áskels, full af sáttfísi og sonarlegri lotningu firir þeim meginreglum, sem firir föðurnum höfðu vakað í lífinu. Og í lok sögunnar, þegar búið er að skíra frá sættinni, er það beint tekið fram, að menn skildust „vel sáttir ok undu nú vel þessum málalyktum“ (k. $16^{161}$). Enn svo kemur Skútu saga. Þar kemur það undir eins nokkuð flatt upp á menn, þegar sagt er frá skiftunum milli þeirra bræðra, Þorsteins og Skútu, að það er beint tekið fram, að Skúta hafi verið „til þess ætlaðr at hefna föður þeira, ef hann mætti“ (k. $17^{9-10}$), og síðar, þegar sagt er frá því, að Skúta hafi vegið tvo menn í hefnd eftir föður sinn, þá dettur alveg ofan ifir menn, þegar sagan bætir því við, að Þorsteinn hafi „bætt þessa menn báða með sínu fé, sem rætt var í máldögum með þeim bræðrum“. Þorsteinn kemur hjer alt öðruvísi fram enn á sáttafundinum í Vémundar sögu, og frásögn Skútu sögu frá þessu er í beinni mótsögn við það, sem segir í niðurlagi Vémundar sögu, að „menn“ — þar á meðal auðvitað Þorsteinn — „hafi unat vel málalyktunum“. Og þetta er ekki eins dæmi í Skútu sögu, því að ifir henni allri hvílir rammheiðin lífsskoðun, lífsskoðun blóðhefndarinnar. Skúta gerir ekki annað enn vega menn í hefnd firir veittar mótgerðir, og sjálfur hnígur hann að lokum firir blóðhefnd annara. Að minni higgju er það hin mesta fjarstæða, að hugsa sjer, að þessar þvær sögur, Vémundar saga og Víga-Skútu saga, svo gagnólíkar sem þær eru hvor annari að lífsskoðun og hugsunarhætti, sjeu frá upphafi ein saga til orðin í heila eins og hins sama höfundar. Það er ekki eitt, heldur alt, sem mælir með því, að hvor þeirra um sig hafi upphaflega verið sjálfstæð saga, enn síðan hefur einhver steipt saman sögunum, því að í Víga-Skútu sögu hefur hann fundið efni, sem að nokkru leiti var framhald efnisins í Vémundar sögu, og hef jeg áður leitt rök að því, að hin upphaflega Skútu saga hafi sagt nokkuð frá

uppvexti Skútu, enn þessu hefur sá, sem steipti sögurnar saman, slept framan af. Þegar vjer því nú hverfum að því, að rannsaka afstöðu sögunnar í heild sinni við aðrar sögur og önnur atriði henni viðkomandi, verðum vjer að taka hvorn part hennar firir sig og birjum þá á Vémundar sögu.

Í upphafi **Vémundar sögu** er rakin ætt þeirra Áskels goða og Fjörleifsona, helstu manna sögunnar, upp til landnámsmansins Eyvindar, er nam Reikjadal upp frá Vestmansvatni, og ætt þeirra feðga Konáls og Einars, sonar hans, sem líka koma nokkuð við söguna, upp til Ketils hins hörðska, bróður Eyvindar. Í þessu skini tekur sagan upp þann kapítula Landnámu, sem segir frá þessum tveim bræðrum, Eyvindi og Katli, hjer um bil orðrjettan.[1]) Finnur Jónsson heldur, að það sje Landnáma, sem hjer hafi skrifað eftir Vémundar sögu, enn það finst mjer fjarstæða. Ættartalan er bæði í sögunni og í Landnámu rakin niður á við. First birjar sagan á Þorsteini höfða, föður þeirra Eyvindar og Ketils, þá er sagt frá landnámum bræðranna, þá frá afkomendum Ketils, Konáli sini hans og Einari sini Konáls, þá frá sonum Eyvindar, Helga á Helgastöðum og Áskatli og loks frá dætrum Eyvindar. Þessi röð á vel við í Landnámu, enn frá sjónarmiði Vémundar sögu hefði átt betur við að nefna first höfuðpersónur sögunnar, Áskel og Fjörleifarsini, og rekja síðan ættina upp á við til landnámsmansins. Kapítulinn um þá Eyvind og Ketil í Landnámu er og steiptur alveg í sama mót og þeir kapítular, sem segja frá öðrum landnámsmönnum, og er auðsjeð, að hann er upphaflegur í Landnámu, enda stendur hann í öllum Landnámuhandritum. Að Landnáma hafi ekki tekið þetta eftir Vémundar sögu, sjest og á því, að hún telur ekki Fjörleifarsini í sambandi við þetta efni um afkomendur Eyvindar, eins og Vémundar saga gerir, og nefnir þó Landnáma móður þeirra, heldur telur Land-

1) Sbr. Vémundar sögu, k. $1^{1-27}$, við Landn. 1843, 228.—9. og 226. bls. (Stb. k. 247 og 242, Hb. k. 211 og 207).

náma þá í kapítulanum um Gnúpa-Bárð, sem og er eðlilegt frá sjónarmiði Landnámu, því að frá Gnúpa-Bárði eru þeir bræður komnir í beinan karllegg, og úr þeim kapítula hefur Vémundar saga tekið nöfn þeirra bræðra, enn breitir þó röð nafnanna í samræmi við sínar þarfir, telur Vémund firstan, af því að á honum ber mest í því, sem á eftir fer, enn í Landnámu er hann hinn fjórði í röðinni. Þessi breiting er auðskilin, ef það er Vémundar saga, sem tekur eftir Landnámu, enn alveg óskiljanleg, ef það er Landnáma, sem hefur tekið eftir Vémundar sögu. Gagnvart þessu er það alveg þíðingarlaust, þó að Vémundar saga sleppi tignarnafni Þorsteins höfða, *„hersir"*, sem stendur í Landnámu — þetta er ekki annað enn ein af þessum vanalegu stittingum, sem afskrifarar gera sig seka í. Jeg tek þetta fram af því, að Finnur Jónsson vill álikta af þessu, að Landnáma hafi notað Vémundar sögu. Auðsjeð er, að Vémundar saga hefur vitað sumt fillra um Áskel goða og þá frændur enn í Landnámu stendur. T. d. nefnir hún tvö sistkini Áskels, sem ekki er getið í Landnámu: Helga á Helgastöðum, „sem druknaði á Grímseyjarsundi", og Þorbjörg, er Þormóðr í Laxárdal átti og jeg gat um áðan.[1])

Auk þess virðist Vémundar saga hafa notað Landnámu í upphafi 5. k., þar sem hún rekur ætt Steingríms á Kroppi til landnámsmansins Þórðar slítanda.[2]) Sagan tekur hjer ekki með alt efni Landnámu, — getur t. d. ekki um landnám Þórðar slítanda og ekki um Þórð, bróður Steingríms, sem ekkert kemur við söguna — enn hins vegar segir hún sumt fillra enn Landnáma, t. d. að

1) Í þessum samanburði hef jeg ekki tekið neitt tillit til dálítillar greinar, sem stendur nokkurn veginn samhljóða í Landnámu-handrr. Hb. og Mb. ingri og segir frá því, að Áskell goði hafi fengið „banasár við Eyjafjarðará gegnt Kroppi, er Steingrímr vildi hefna sauðarhöfuðshöggs". Efni þessarar greinar er auðsjáanlega tekið eftir Vémundar sögu, enn hún stendur ekki í Stb. og er eflaust síðari innskotsgrein í Landn. — 2) Sbr. Landn. 1843, 211. bls. (Stb., 224. k., Hb., 190. k.). Hjer er innskotsgrein í Mb. ingri, sem auðsjáanlega stiðst við Vémundar s., segir frá því, er Vémundr ljet Þorgeir smjörkeng ljósta Steingrím Örnólfsson sauðarhöfuðshöggi.

Steingrímr hafi átt Ástríði dóttur Þorbjarnar í Árskógi. Enn þetta er ekki því til firirstöðu, að sagan hafi hjer haft firir sjer Landnámu.

Auk þess virðist höfundur Vémundar sögu hafa þekt og notað Glúmu. Því til sönnunar skal jeg taka það fram, að lísingin á Þorvarði Örnólfssini í k. $15^{65-68}$ kemur svo að segja orðrjett heim við lísing sama mans í Glúmu k. $22^{3-10}$, og er ljóst, að önnurhvor sagan hafi notað hina. Jeg set hjer þær greinar, sem líkar eru, til samanburðar:

| Glúma. | Vémundar saga. |
|---|---|
| Þorvarðr hét maðr Örnólfsson ok son Yngvildar, er kölluð var allrasystir. Hann bjó í Kristnesi ... Þorvarðr var vitr maðr ok var þá gamall, meðallagi góðgjarn ... | Steingrímr átti þann bróður, er Þorvarðr hét. Hann var Örnólfs son ok Yngvildar, er kölluð var allrasystir. Hann bjó á þeim bæ, er í Kristnesi heitir. Hann var vitr maðr, enn miðlungi þótti hann góðgjarn ... |

Hjer virðist í fljótu bragði ervitt að segja, hvor sagan hefur haft hina firir sjer, enn líklegra þikir mjer, að það sje Vémundar saga, sem hefur sótt þetta í Glúmu, einkum af því að þessi grein snertir mjög lítið efnið í Vémundar sögu, því að Þorvarðr kemur svo að segja ekkert við efni sögunnar, sem á eftir fer, er að eins nefndur lauslega á einum stað við bardagann gagnvart Kroppi (k. $16^{61}$) og sínir þar ekki af sjer neina illgirni. Enn við Glúmu er Þorvarðr töluvert riðinn, og þar kemur það ljóslega fram í frásögninni, að hann er „meðallagi góðgjarn", því að hann gengur á milli manna og rægir þá saman. Af þessu virðist mega ráða með fullri vissu, að lísingin á Þorvarði á upphaflega heima í Glúmu og er þaðan komin inn í Vémundar sögu.

Annars hef jeg ekki fundið nein merki þess, að Vémundar saga hafi notað aðrar sögur eða verið notuð af öðrum.

Um *aldur* hennar er það að segja, að hún hlítur að vera ingri enn Glúma, ef það er rjett, sem jeg hef sínt, að hún hafi tekið lísing Þorvarðs Örnólfssonar eftir Glúmu. Nú hef jeg leitt rök að því, þegar jeg talaði um

Glúmu, að sú saga sje samin um eða laust eftir miðja 13. öld. Vémundar saga hlítur því að vera samansett nokkru síðar, enn mikill getur aldursmunurinn varla verið, því að orðfærið í Vémundar sögu er laust við allan riddarasögu eða fornaldarsögublæ, sem fer að riðja sjer til rúms skömmu eftir miðja 13. öld. Ef vjer setjum, að sagan sje samin einhvern tíma nálægt 1275, þá kemur það vel heim við orðfæri sögunnar og skakkar varla miklu. Ekkert er það í sögunni, sem komi í bága við hin fornu lög þjóðveldisins eða síni, að hún sje samin löngu eftir, að það leið undir lok. Um 1275 hljóta hin fornu lög enn að hafa verið í fersku minni. Vjer höfum sjeð, að Hauksbók hefur eina grein, sem virðist vera tekin eftir Vémundar sögu. Nú er Hauksbók til orðin á árunum 1314—1329, enn ekki ólíklegt, að hún hafi tekið greinina eftir eldra Landnámuhandriti, sem hefur haft firir sjer Vémundar sögu. Þetta kemur því vel heim við það, að sagan geti verið samin um 1275.

Vémundar saga er ekki samin af mikilli *íþrótt*. Orðfærið er stundum nokkuð óljóst og viðvaningslegt, frásögnin fremur sundurlaus og eins og í molum. Sumt í frásögninni kemur alveg flatt upp á lesandann, af því að það er ekki nægilega undirbúið að góðum sögu sið. Um Vémund er t. d. first lengi vel ekki sagt, hvar hann eigi heima. Það er first í k. $5^{55}$, að sagan getur þess eins og af hendingu, að hann hafi farið heim til bús síns á *Öndórsstöðum*[1]) í Reikjadal. Nokkru síðar er sagt, að hann hafi búið undir Felli, líka upp úr þuru (k. $11^{35}$ sbr. k. $11^{56}$), án þess að getið sje um, að hann hafi flutst búferlum. Í k. $11^{103}$ sjest, að Konáll bír þá á Einarsstöðum, enn í k. $13^{30}$ er sagt upp úr þuru, að hann búi þá á Öndóttsstöðum, hvergi sagt, hvernig á því stendur, að hann hefur flutt sig á þann bæ, þar sem Vémundr bjó áður. Í k. $5^{82}$ er nefndur Ljótr að Þverá í Laxárdal,

---

1) Svo er nafnið ritað í bestu handritum (ekki Öndólfsstaðir, sem stendur hjá F. J. í útg.). Hið rjetta nafn er Öndóttsstaðir — svo er bærinn nefndur í brjefi frá 1380 (D. I. III, 353. bls.).

í k. $7^{2}$ er sami maðurinn nefndur Ljótr *hofgoði* að Þverá. Í k. $11^{15}$ er nefndur upp úr þuru Hrafn á Hóli í Kræklingahlíð. Hann er eflaust sami maður og Hrafn bóndi á Lundarbrekku í Bárðardal, frændi Steingríms á Kroppi, sem getið er um fir í sögunni, að átti geldingana, sem Hánefr stal, og flutti síðan til Eijafjarðar í nánd við Steingrím frænda sinn, enn þess er hvergi getið fir í sögunni, að hann hafi setst að á Hóli eða að Hrafn á Hóli sje sami og Lundabrekku-Hrafn. Í k. $5^{106}$ er getið um þræl í Akurhöfða, „er fyrr var nefndr“ (svo hdr.), og sagt, að hann hafi flutt Hróa í Klifshaga njósn til að „launa honum brókavaðmálit“. Enn um þennan þræl er hvergi getið fir í sögunni og ekki um brókavaðmálið, sem Hrói gaf honum; hjer hefur líklega fallið úr sögunni grein um þetta efni, líklega í sambandi við frásögnina um heimför Hróa af alþingi rjett áður (k. $5^{54}$). Ímislegt er fleira ógreinilegt eða óliðlegt í frásögninni. Enn sumar persónulísingar sögunnar eru góðar og sjálfum sjer samkvæmar, einkum Áskels og Vémundar.

Jeg sní mjer þá að **Víga-Skútu sögu.** Um afstöðu hennar við aðrar sögur er það að segja, að hún hefur áreiðanlega þekt og notað Glúmu í kaflanum um viðureign þeirra Skútu og Glúms, eins og jeg hef sínt og sannað í firirlestrum mínum um Glúmu. Höfundur hefur haft firir sjer munnlegar sagnir, sem hann hefur borið saman við Glúmu, og þar sem þær hefur greint á við Glúmu, tekur hann fram, að „sumir“ segja þetta öðruvísi, og kemur þá sú missögn heim við Glúmu. Stundum reinir höfundur líka að samlaga sínar munnlegu sagnir við Glúmu, t. d. í frásögninni um giftingar Þórlaugar Víga-Glúmsdóttur, eftir að hún skildi við Skútu (sjá við Glúmu). Sá texti af Glúmu, sem höfundur hefur haft firir sjer, hefur verið líkari Vatnshirnutextanum af þeirri sögu enn Möðruvallarbókartextanum.

Nokkrar líkur, enn ekki full vissa, er firir því, að höfundur Skútu sögu hafi haft firir sjer Landnámu. Sagan um viðureign þeirra Geira á Geirastöðum og sona hans við Þórberg höggvinkinna[1]) kemur í aðalatriðunum heim við Landnámu,[2]) og orðin „Glúmr fekk Ingunnar Þórólfsdóttur Véleifssonar, þeira son var Þórðr" koma svo að segja orðrjett heim við þennan kap. í Landnámu. Þórir sonur Ketils flatnefs, vegandi Áskels goða, kemur við báðar sögurnar, bæði Vémundar og Víga-Skútu. Segir Skútu saga greinilega frá því, er hann vó Hróar Tungugoða ásamt Móðólfssonum, að sumu leiti greinilegar enn Landnáma, og því næst segir Víga-Skútu saga frá því, er Skúta vó hann til hefnda firir Áskel. Firir þetta víg vega þeir sinir Þóris, Þórðr illugi og Björn, seinna Víga-Skútu. Eftir Landnámu er þessi Þórðr illugi sonur Þórdísar, dótturdóttur Þórdísar, dóttur Þórðar illuga Eyvindarsonar eikikróks, og getur það komið heim við Víga-Skútu sögu.

Því miður er upphaf Skútu sögu glatað, þar sem sagt hefur verið frá uppvexti Skútu (sbr. áður). Þar hafa að öllum líkindum staðið ættartölur, og mundi sá kafli, ef til væri, líklega skera úr um það, hvort sagan hefur notað Landnámu eða ekki.

Hjer að framan hef jeg sínt, að Vémundar saga nefnir son þeirra Þorbjargar, sistur Áskels goða, og Þormóðs í Laxárdal Þorstein bolstöng, enn Víga-Skútu saga nefnir hann Eyjólf. Þessi mótsögn virðist helst benda til, að Vémundar saga og Víga-Skútu saga sjeu frá upphafi hvor annari óháðar. Hins vegar eru atvik að sumum viðburðum svipuð í báðum sögunum, sem gæti bent til, að önnurhvor hefði þekt hina. Vémundar saga lætur Eystein Mánason fá mann til að fela geldinga í fjárhúsi Háls, og gerir Eysteinn síðan húsrannsókn hjá Hálsi og sakar hann um, að hann hafi stolið sauðun-

1) Víga-Skútu saga k. 17[17 23] og k. 18. — 2) Útg. 1843, bls. 233 (Stb., 256. k., Hb., 220. k.).

um (2. k.). Samskonar bragði beitir Þorbergr höggvinkinni við þá feðga Geira og sonu hans í Víga-Skútu sögu. Samt er hæpið að ráða nokkuð af þessu.

Eitt er það í Víga-Skútu sögu, sem svipar til Ljósvetninga sögu. Það er sagan um það, þegar Skúta vegur Þóri Flatnefsson. Sagan segir, að höfðingjarnir Eyjólfr Valgerðarson og Þorgeirr Ljósvetningagoði hafi ætlað að leita honum síknuleifis á 3 leiðum, og tekst það á tveimur, enn á 3. leiðinni vegur Skúta hann. Sbr. söguna um líkar tilraunir Guðmundar ríka og Þorgeirs til að friðhelga Sölmund á 3 leiðum.[1]) Ekki ólíklegt, að hjer sje eitthvert samband á milli. Einn er sá staður í sögunni, sem sínir, að hún er ingri enn ca. 1207. Í k. $19^{65}$ segir, að Þorvarðr Þórgeirsson „átti síðan" spjótit Vagnsnaut. Þessi Þorvarðr er eflaust sami maður og Þorvarðr, sonur Þórgeirs frá Hvassafelli Hallasonar, alkunnur maður úr Sturlungu og Guðmundar sögu góða, föðurbróðir Guðmundar biskups. Þorgeirr dó 1207 (Ísl. annálar). Af orðunum „átti síðan" má ráða, að þetta sje ritað eftir dauða Þorvarðs.

Skútu saga hlítur að vera ingri enn Glúma, og er líklega nokkuð nærri um aldur hennar og Vémundar sögu. Ekkert er það í Skútu sögu, sem bendir til, að hún sje rituð eftir að hinar norsku lögbækur Járnsíða og Jónsbók gengu í gildi. Orðfærið er og laust við riddarasögu og fornaldarsögublæ, og kemur vel heim við þá skoðun, að sagan sje samin um 1275.

Sagan er ekki rituð af mikilli snild, frásögnin nokkuð í molum. Þó eru sumir kaflar allvel sagðir, ekki síst kaflinn um viðureign þeirra Skútu og Glúms, þar sem höfundur hefur haft Glúmu til hliðsjónar. Lísingin á Víga-Skútu er alleinkennileg og sjálfri sjer samkvæm. Sögurnar um flugumennina, sem eru sendir til höfuðs Skútu, eru nauðalíkar hver annari.

Höfundur Skútu sögu er nákunnugur í Þingeijarþingi, ekki síst kringum Mívatn, og eru líkur til, að

1) Ljós., 2.—3. k.

hann hafi verið Þingeiingur. Ekkert er það, sem bendir til, að hann hafi verið klerkur, enn þó vil jeg als ekki *fortaka* það.

Til að ákveða hvenær sögunum, Vémundar sögu og Skútu sögu, hafi verið steipt saman í eina heild, höfum vjer lítið annað að stiðjast við enn aldur þess eina skinnhandrits, sem hefur geimt samsteipuna, AM. 561,4o. Það virðist ritað um aldamótin 1400, og getur samsteipan því ekki verið ingri enn 1400, enn er að öllum líkindum nokkru eldri. Alt bendir á, að sögurnar hafi verið tengdar saman á hinni miklu samsteipuöld, 14. öldinni, líklega kringum miðja öldina.

---

# Efnisskrá.




# SAFN

TIL

## SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

AÐ FORNU OG NYJU

GEFIÐ ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI

VI. 1.

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG




# SAFN

TIL

SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENNTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFÉLAGI

VI. 2.

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í RÍKISPRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG

# SAFN

TIL

SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENNTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT AF

**HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFÉLAGI**

**VI. 3.**

REYKJAVÍK

PRENTAÐ Í RÍKISPRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG






# SAFN

TIL

## SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENNTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT AF

**HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFÉLAGI**

**VI. 4.**

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í RÍKISPRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG




# SAFN

TIL

SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENNTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFÉLAGI

VI. 5.

REYKJAVÍK

PRENTAÐ Í RÍKISPRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG

Með þessu hefti byrjar úrval úr fyrirlestrum Björns Magnússonar Ólsens um íslenzkar bókmenntir á miðöldunum, er hann hélt við Háskóla Íslands á árunum 1911—1917. Réttritun höfundarins hefur þótt sjálfsagt að halda. Nánari greinargerð mun koma með síðasta hefti ritsins.

# SAFN

TIL

SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENNTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFÉLAGI

VI. 6.

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í RÍKISPRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG




# SAFN

TIL

SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENNTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT AF

**HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFÉLAGI**

**VI. 7.**

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í RÍKISPRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG




